# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espólín,

Sýslumanni í Skagafjardar Sýslu.

## VII. Deild.

Kaupmannahöfn, 1828.

Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafèlags*

hjá Bókþrykkjara *S. L. Møller*.

## Frammhald 5ta Þáttar.

### XXIII Cap. Tión.

Vetrinn eptir andlát Biarnar bónda Benedictssonar var gódr frá jólum, enn hardnadi sídann; komu hafísar um vorit; urdu þá manntapar bædi í sió oc vötnum, svo at VIII menn druknudu fyrir Eyafiöllum, enn VII af skipi á Hiallasandi, III í Hafnarfyrdi, VIII í Þiórsá, oc fleiri menn einstakir. Svo segir oc Þorlákr Markússon at VI menn hafi druknat í Skagafyrdi, oc VI á Sandhólaferiu, enn Biörn gètr þess ei er þá bjó at Skardsá. Gudmundr lögrèttumadr í Borgarfyrdi, er eg hygg verit hafa son Gudmundar Hallssonar Olafssonar prests Kolbeinssonar, druknadi fyrir Seltjarnarnesi med VI mönnum. Gudmundr sá, son Gudmundar Hallssonar, átti Sigrídi dóttr Jóns prests Egilssonar í Stafhollti, þeirra börn voru Gudmundr prestr í Fljótshlíd, Þórdr prestr at Kálfafelli, Sigurdr á Brecku, Halldór í Olafsvík fadir Einars, födr Pèturs prests í Miklahollti, Gudmundr snickari, er allra manna var hagastr, Gudmundr annar, Helga er Eyríkr átti son Odds biskups, Ingibjörg er Þórdr átti son Orms í Eyum, oc Astrídr. Nordr á Grímseyarsundi druknadi Gunnlaugr bóndi Grímsson med VIII mönnum, hann var launsonr Gríms á Ökrum; enn fadir Þorvalds í Hrísey, födr Þorvalds á Söcku. Ein kona hrapadi fyrir biörg á Skagaströnd nordr, oc stód madr hennar á hillu fyrir ofann, enn hún átti at vera vid festarhæl, hún lá þar þriú dægr, oc dó þegar menn komu til, enn hönum vard biargad. Fleiri urdu þá slis, 1618

oc er sumstadar sagt at kona hafi í Þíngeyarþíngi fargad barni med bruna, oc verit brend, enn eg ætla málum blandad vid þat er fyrri skèdi. Gudbrandr biskup lèt prenta XXIta Davids sálm, med útleggíngargreinum Arngríms prests lærda, vinaspegil Sigmundar af Svafa er út hafdi lagt Sveinn prestr Símonarson, oc tilenkad Ara Magnússyni, Bernhardi krossqvedjur á liódum, eptir Arngrím prest, krossgaungr Hammers, er hann hafdi einnin útlagt, oc sálmabók í VIII blada broti. Gudbrandr biskup átti þá málssókn um kyrkiureikníng á Vídimyri, oc hald á Brennistödum, vid Steindór Gíslason, oc má ætla hann hafi þá enn ei vestr kominn verit; enn Jón lögmadr Sigurdarson kærdi á hann ímsar sakir; var Steindór ofláti, oc eigi var, oc leit á fè sitt.

## XXIV Cap. Frá Commissariis oc málum.

Um sumarit snemma kom út Fridrik Friis af Hesselager, sonarsonr Jóhans Friis Cancellera, mikilsvyrdr madr, oc Jörgen Wind; þeir voru skipadir Commissarii af konúngi, at álíta mál höfudsmannsins oc Odds biskups, oc svo annara manna; ecki kom Arni Oddsson út med þeim, oc ei spurdist til hans, því Herluff Daae hafdi lagt bann fyrir alla skipara at flytia hann. Þessir höfdíngiar voru á skipi því er Kristián konúngr fiórdi hafdi sendt at taka sjóvíkínga ef lægi hèr vid land, oc svo at hreinsa höfinn af þeim; þeir höfdu konúngsvald oc brèf at dæma yfir öllum málum á hveria sem borit var, andlega eda veraldlega, edr kaupmenn. Þeir dæmdu tveir í lögrèttu allra manna mál um sumarit, oc þóttust þá flestir ecki ná íslendskum lögum, sem stundum hefir þó nockut hætt vid at orsakadist af deilum höfdíngia hèr; enn þó var þat raunar sannara um þá, at þeir fylgdu lögunum freklega, oc veiktu nockut svo hinn innlenda sid. Þeir fylgdu at því at syslumenn tæki upp mál Ara Þorvardssonar, oc dæmdi hönum sitt, oc Gísli lögmadr Hákonarson med þeim, þoldu þeir mönnum engar flækjur eda lögvillr. Jón lögmadr Sigurdarson stefndi fyrir þá Steindóri Gíslasyni, enn þeir dæmdu þá stefnu ólöglega, oc at hann skyldi sækiast á varnarþíngi sínu fyrir rèttlátum dómara, slíkar sakir sem á hann voru bornar. Þá kom fyrir þá þrætumál Olafs prests Erlendssonar á Breidabólstad, oc Teits Biarnar-

sonar Jónssonar biskups, um hálfann Torfalæk, því at Páll Gudbrandsson fèck ei sætt þá, oc stefndi Teitr Olafi presti, oc vann landit af hönum. Þeir dæmdu líf af Þórdysi Halldórsdóttr, oc var henni dreckt á alþíngi. Annari konu var þar dreckt er sagdi barn uppá systrson sinn, hann neytadi þverlega, enn fèck ecki eydamenn; þeir höfdu dæmt líf af þeim bádum, oc var hann höggvinn á því þíngi; madr var oc höggvinn á Akranesi, sá hafdi fallit med systrum tveimr. Þeir dæmdu lögmannsdæmi af Jóni Sigurdarsyni á Reinistad fyrir barngetnad í hórdómi, barnid hèt Gudfinna, hún fèll sídar med qvæntum manni, Páli Arasyni skrubba; enn stad oc prestskap af Gudmundi-presti Einarssyni á Stadarstad mági hans, því þeim þótti sem hann mundi hafa hylmad med hönum; enn þó syniudu þeir Jón lögmadr þess bádir, oc var þat sannast, at Jón lögmadr hafdi bannad konunni at segia *til* fadernis, oc svo leysti prestr hana at hans rádum, oc medkèndi þat hreinlega fyrir Commissariis; fór þá Gudmundr prestr utann. Margir menn báru fyrir herramenn þessa mál sín um jardaklaganir fornar, oc adra hluti, enn þeir vildu fá þau upp ritud; var þat giört, oc komst ei allt fyrir á því þíngi. Eitt varákæra Biarna sonar Odds prests Þorkèlssonar, til Snæbjarnar Þórdarsonar um Bustarfell; *Snæbjörn var son Fjalla-Þórdar, oc seinni madr Ragnhildar eckju Biarnar Gunnarssonar, taldi Biarni Oddsson Bustarfell gèfit Þórunni konu sinni Biarnardóttr Gunnarssonar, hafdi hann fengit hennar fyrir VII árum oc var þat dæmt, oc svo fengu þeir frændr Bustarfell. Þar var oc dæmt í milli Einars Hákonarsonar syslumanns, oc Arnórs holgóma er ákærdi hann, enn hafdi reinst at ósannsögli, oc samit vid hann ádr. Þeir budu syslumönnum at refsa saka-mönnum í hèradi er þángat til var órefst; oc einn enskann mann er fèll í hórdóm hèr, oc qvæntr var í Englandi, enn neytadi því med frekju oc munneydum, knúdu þeir til medkènníngar, oc lètu hyda at Islendskum lögum; engann giördu þeir sèr mannamun, oc þóttust biskupar oc adrir embættamenn lítt vidkomnir. Gísli lögmadr Hákonarson var hellst frí fyrir ákærum manna, oc fyrir því höfdu þeir hann í allmikilli virdíngu. Enn er þeir skyldu ransaka mál Herluffs Daae oc Odds biskups, spurdist ei til Arna biskups-sonar; hafdi þá Herluff Daae mörg spèlnis ord um hvad Arni Oddsson mundi nú sysla? enn

Oddr biskup var med döpru gèdi oc þúngri hugsan; var gengit at því sinni frá rèttinum til middags-máltídar eptir venju, enn biskup hafdi eigi lystíng til matarnautnar, oc gèck med nockrum vínum sínum upp á Almannagiáar backa hinn nedra, sem hann vildi umskygnast til hugfróa sèr; þóttist hann siá taflslok á málum sínum, því allr stofn þeirra var hiá Arna. Arni hafdi komit út undir alþíng siálft í Vopnafyrdi, hann fèck sèr hest gódann í einhverjum stad, svo at þeim var vidbrugdit, oc reid nótt oc dag á fiórum dögum austann til alþíngs, vard biskupi litit vid er hann reid um Þíngvallatún austann, oc þóttist kènna ferd hans, reid han þá heim at Þíngvöllum, oc vard fagnafundr med þeim þeim fedgum, sagdi Arni födr sínum eyrinda-giördir sínar, oc gengu þeir sídann til dóma. Nádi Arni gögnum sínum oc vitnum at málum þeirra, gengu þau at lyktum á Herluff Daae, svo hann misti höfudsmanns embætti, oc hlaut ónád konúngs oc mikil fiár-útlát, oc vard snaudr; enn Arni hlaut af þessu mikinn ordstyr oc frægd; enn þó var eigi Oddr biskup laus vid öll mál sín. Arni qvæntist aptr oc fèck Þórdysar dóttr Jóns Jónssonar á Sjáfarborg, oc Sigrídar Þorgrímsdóttr, þeirra börn voru Helga er átti Þórdr prestr í Hytardal, Jónsson prófasts Gudmundarsonar. Jón er átti Þórunni Hallgrímsdóttr. Sigurdr er átti Elínu Magnúsdóttr frá Haga, oc var fadir Biarna oc Arna á Grund, enn synir Biarna voru Gísli prestr á Melum oc Jón prestr á Holltastödum. Arni bjó at Holltastödum nockra stund, enn fèck sídann Reinistadar klaustr, hann var sidlátr oc alvörugefinn, oc gyldr höfdíngi, oc karlmannlegir voru margir nidjar hans, enn ecki stórvitrir.

## XXV Cap. Rógr.

Þat báru öfundarmenn Gudbrands biskups fyrir herramennina, at hann hefdi selt nockrar jardir Hólakyrkju, enn hèldi sumum undir sig, oc tóku þeir vid því til utann-flutníngs; einnin þat hann hèldi skólameistara ónítann. Jón Olafsson bar oc fyrir þat mordbrèfa bæklínginn sídarsta, oc ákærdi Gudbrand biskup miög. Fóru þeir vid þat utann.

## XXVI Cap. Imislegir vidburdir.

Um sumarit brann vestri Bægisá í Yxnadal giörsamlega er menn voru í seli, enn Gísli Bödvarsson, er þar bjó, var í sudrferd fyrir slättinn. Hinn Xda Julii voru svo miklar þrumr, at madr dó af á Briámsnesi vid Myvötn, hann var örkumslalaus, enn fleiri fèllu nidr oc dóu ecki. Voru landskiálftar miklir um haustit, oc allt fram at jólum, hrundu í einum IIII bæir í Þíngeyarþíngi, oc sprack jörd svo traudla edr ecki mátti yfirfara; stúlka þrítug hvarf frá Eydstödum í Blöndudal, oc fannst ári sídar daud á fialli; skrida hljóp at Brúarlandi í Deildardal, oc tók II börn er voru at smáralestri, eitt meiddist, enn hid yngsta komst heim; oc sveinar tveir í Flókadal nordr urdu undir snjóflodi med riúpnatog sitt, lifdi annar er til var grafit. Þat haust fór Jón í skóla vestann at, son Ara Magnússonar í Ögri, XII vetra gamall. Vard þá vetr 1619 gódr, oc hlutir í betra lagi, enn manntapar urdu sumstadar; druknadi Olafr Pètrsson, oc VII hásetar hans í Höfnum sudr, fiórda dag páska, er var sídarsti dagr Martii mánadar, enn þrír komust af. IIII menn tyndust af skipi vestr í Beruvík oc komust af þrír; nockrir voru oc þeir er tyndu sèr siálfum, oc fleiri voru mistarir. Þá er mælt at andast hafi Gísli lögmadr Þórdarson oc Teitr Biarnarson; frá Gísla lögmanni er ætt mikil. Arni son hans bjó at Ytrahólmi, oc átti Steinunni dóttr Hannesar í Snóksdal, hann var merkilegr madr, læknir oc mikit valmènni, þeirra börn voru Hannes fadir Hákonar syslumanns, Sæmundr á Holmi oc mörg önnr, öll velmennt. Henrik Gíslason bjó at Innrahólmi, oc hafdi syslu í Borgarfyrdi, hann átti Gudrúnu dóttr Magnúsar Jónssonar systr Ara í Ögri, þeirra son var Þórdr syslumadr. Gudrún var dóttir Henriks, oc Jórunn er Benedict átti son Halldórs Olafssonar. Pálmi var launsonr Henriks, fadir Sigurdar á Breidabólstad í Söckólfsdal, födr Þorgils oc Pálma. Jón prestr var son Þorgils, enn Þorleifr son Pálma. Steindór Gíslason átti Gudrúnu Einarsdóttr, oc bjó lengst á Knerri undir Jökli, hann hafdi þar syslu oc umbod, oc var vel mannadr siálfr sem systkin hans, enn giördist hinn mesti óhófsmadr, oc eyddi öllu fè Jóns lögmanns, med ofdryckiu, ofrausn oc sveinahaldi, hans son var Jón fadir Sigurdar á Knerri, oc Halldóru er átti Jón prestr Gudmundarson í Þæfusteini, Gudnyar er átti Hallkell prestr Stephánsson, oc Gud-

rúnar er átti Gudni Sigurdarson. Gudrídr Gísladóttr var gipt Jóni prófasti í Hytardal Gudmundarsyni frá Hvoli Þórdarsonar, hún var merkileg kona; þeirra börn voru Gudmundr er dó utanlands, Helga er Jón átti Sigurdarson í Einarsnesi, Þórunn er átti Gunnar prestr at Hofi, Biarnarson Magnússonar; Gudrún er átti Sigurdr prestr son Odds biskups, prófastr í Þverárþíngi, þeirra börn voru: Oddr, hinn giörfuglegasti madr, hafdi farit utann enn dó heima nær hálf-þrítugr, Gísli, Sigurdr prestr at Stad fadir Odds lögmanns, Gudrídr er átti Olaf son Hallgríms Halldórssonar, oc Hólmfrídr. Kristín var enn dóttir Jóns prófasts oc Gudrídar Gísladóttr, hennar fèck Sigurdr lögmadr í Einarsnesi. Gísli Jónsson oc Gudrídar átti Þóru dóttr Jóns prests gamla at Stadarhrauni, med óvilja födr síns. Þórdr Jónsson oc Gudrídar var prestr í Hytardal oc ágætr madr, hann var fadir Jóns, Þorsteins á Skardi oc Gudrídar er Jón biskup Vígfússon átti. Gísli hèt enn Jónsson enn eigi Gudrídar. Gudrídr Gísladóttir tók vanheilsu mikla, líkþrártegund þá er elephantiasis heitir. Astrídr Gísladóttir átti Jón Magnússon á Reykhólum, oc mikit afqvæmi oc göfugt. Gudrún Gísladóttir var gipt Magnúsi á Múnkaþverá syni Biarnar Benedictssonar, hún er mælt at væri heldr til hisprsöm oc líttgreind, enn þat var þá ecki miög talit um ríkiskonr, enda höfdu þau aud fiár, þau voru börn þeirra: Gísli, ágætr madr oc vitr, Biörn oc enn fleiri sem fyrri er gètit. Páll Gíslason bjó á Hvanneyri, oc var landþíngskrifari, hann var einardr madr oc skynsamr, oc vel á sig kominn. Halldóra Gísladóttir átti Olaf Hannesson. Jórun Gísladóttir er sagt væri kona Jóns prests á Kvennabrecku Ormssonar Jónssonar prests, Þorleifssonar frá Þyckvaskógi, oc þeirra sonr væri Magnús prestr oc sídann syslumadr, fadir Arna assessors, oc Magnúsar prófasts oc Jóns. Sigurdr er enn talinn son Gísla lögmanns, oc er sá ættþríngr allr mikill. Þessi missiri var eldr uppi í Heklufialli, oc sást nordr um land marga daga; sídann kom vindr af landsudri, oc lagdi nordr mistr svo mikit at furda þótti í vera, enn þó var þat ei fyrr enn eptir midt sumar, oc voru þá landskiálftar, oc kom sandfall svo mikit í Bárdardal oc vídar, at ecki vard slegit fyrir í viku. Gísli lögmadr Hákonarson lèt dóm gánga um fátæka menn á Hvítárböckum VIta dag Martii mánadar; enn Magnús Biarnarson at Múnkaþverá, oc Sigurdr prófastr Einarsson helmíngadóm á Spialdhaga yfir Þorsteini presti í Glæsibæ, er hafdi rofit ómagadóm

syslumanns, oc dæmdu þeir hönum fèsektir. Sá Sigurdr prófastr var í Saurbæ, oc var fadir Gunnlaugs prests; fór þetta framm daginn eptir Jónsmessu; enn fiórum dögum sídar var dæmt á alþíngi, at jardir sèu tyundadar af ábúendum eptir fornum vana, enn ei eigendum. Jón Magnússon á Reykhólum syslumadr í Dölum lèt dæma mál Ara Þorvardssonar at Leidarhólmi, var þó í móti mælt, enda giördist Ari blindr sídann, oc fèll þá sú ákæra nidr med öllu. Þann tíma lèt Gudbrandr biskup prenta Cathechismum Lúthers hinn meira, oc sálmabók. Kom þá ís fyrir nordann land, hafþök, oc var ecki qvikt á. Þat sumar kom út Þorlákr Skúlason, oc fór til Gudbrands biskups módrfödr síns, oc vard sídann heyrari vid skólann.

## XXVII Cap. Frá Fridriki Friis oc konúngsbrèfum.

Þetta sumar var Fridrik Friis skipadr höfudsmadr út híngad yfir land, oc lagdi hann í haf, var med hönum á skipi Gudmundr prestr Einarsson frá Stad, oc hafdi fengit uppreisn á máli sínu, oc vissi þó ei af. Fridrik Friis hafdi val af konúngi til at skipa öllum hlutum eptir vild sinni; hann hafdi XII lestir af miöli oc mátti skipta sem hann vildi, oc svo var um alla hlúti adra, at hönum voru fengin þau völd er engum höfudsmanni voru ádr; hann hafdi mörg konúngsbrèf med at fara, oc var bædi syslunarsamr oc alvörumikill, strángr oc óhlutdrægr, oc óeigingiarn, oc því var hann svo miög vid skap Kristiáns konúngs IVda; hann tók sótt í hafi, oc bióst vid frammför sinni, lèt hann þá kalla Gudmund prest Einarsson oc sagdi hönum at hann hèldi stad oc embætti, oc lèt hann veitta sèr þiónustu. Sveinn hans einn dó í hafinu herramanns son, enn Fridrik Friis komst at Bessastödum, oc var þar III nætr, oc andadist sídann, oc var grafinn at Bessastödum, enn bartskèri hans druknadi á grandanum vid hólminn. Andres Hansson hafdi hann sett fyrir umbodsmann ádr hann dó, til þess er konúngr giördi þar á adra skipan. XVI voru konúngsbrèf þau er lýst voru á alþíngi, er hann hafdi ætlat sèr framm at fylgia. Eitt var um bækling þann er Gudbrandr biskup hafdi giöra látit sídast um mordbrèfinn, oc kènnt þeim Stóradalsbrædrum, Markúsi er fyrir laungu var daudr, oc Jóni. Annad um þat

at Gudbrandi biskupi skyldi tiltala fyrir þá sök at hann hèldi skólameistara ódugan legann; þridja um jardir er seldar voru undann stólnum; fiórda var um tiltal móti Oddi biskupi fyrir þat hann hefdi dregit undir sig Kristfiárjardir; fimta var uppreisnar brèf Gudmundar prests Einarssonar; sjötta um Jón lögmann Sigurdarson at hann var tekinn af lögsögn. VIIda var um þat at konúngr vildi senda skip at ödru sumri, til at leita Grænlands, oc at íslendskir menn skyldu á því fara, enn hèt at siá fyrir þeirra kosti þadann af. Hid VIIIda var um tyundir, at þær gyldist sem bæri, enn væri þó ei herdt á kotúngum. IXda um giaftolla, at syslumenn stædi reikníng af þeim á Bessastödum. Xda at syslumenn skyldi vinna þann eyd, at halda lög oc landsrètt vid hvern mann. XIta at lausamenn skyldi engir vera, nema stodudu bændr, ella skyldu þeir flytiast utann oc vinna þar. Tólfta var um kúgildi, at eigi væri þeim aukit kotúngi til þíngsla. Þrettánda um þat, at IIII hinir skynsömustu menn af Islandi færi utann, oc töludu máli sínu vid reidara landsins um kaupskap þeirra. Hid XIVda var brèf Fridriks Friis, at konúngr baud hönum at halda mönnum vid íslendsk lög. Fimtánda at hverr byggi á jördu þeirri er á bjó, alla æfi, oc börn þeirra eptir þá. XVIda at landskuldir skyldu ei hæckast á konúngs jördum edr krúnunnar þadann af. Þat fylgdi at biskupar skyldu hvert ár giöra höfudsmanninum reikníng fyrir hvad kostad var til dómkyrknanna, oc svo alla inntekt af stóla-jördunum. Enn med því at sá var fallinn frá, sem mest rèdi því at brèf þessi voru útgèfinn, oc hafdi í hug at framm fylgia þeim oc mörgum hlutum ödrum, þá var þat eina frammgengt sem audit var; af slíku öllu voru sumir valdamenn sem ei tregudu miög hans fráfall.

## XXVIII Cap. Mál Gudbrands biskups.

Ecki vard af ákærum vid Gudbrand biskup um jardasöluna undann Hólakyrkju sídann Fridrik Friis dó; enn biskup játadi þat fyrir umbodsmanninum, at hann hefdi brygdad eina jörd undir Hólastól er Olafr biskup hafdi selda, oc selt aptr, oc hèt at ná henni af nyu. Var þá biskupum giört vandara í slíkum efnum enn fyrr hafdi verit. Enn er kom til umrædu um Olaf lærdakarl skóla-

meistara oc kaup hans, er mælt var at biskup hefdi dregit undir sig; þá medkènndi Olafr fyrir öllum at hann hefdi fullt skólameistarakaup sitt, svo hann mundi aldrei ákæra; enn því var svo háttad, at Gudbrandr biskup hafdi kostad til frömunar hönum, enn kaupgialdit var ei áqvedit; enn um lærdóm sinn syndi hann yitnisburdi frá Rectore vid Kaupmannahafnar háskóla Thomasi Finke, oc baud sig til at svara svo allir heyrdu, þeim er vildu tala sèr til fyrir lærdóm sinn; vitu menn ei hvert hann hefdi vid þat stadit ef Fridrik Friis hefdi lifat, sá er siálfr var lærdr um flest; er þat mælt ei sídr, at Olafr hafi látit skólasveina comparera: *parvus, parvior, parvissimus,* oc þótti eigi góð latina, oc þarum qvad Þorlákr Skúlason, er þá var heyrari, vers þessi:

*Parvior est parvo. parvissimus, ipse Magister,*
*corpore perparvo, parvior ingenio.*

Því tók hann svo til ords, at Olafr var manna minnstr; hann vard sídann prestr, enn Þorlákr Skúlason skólameistari; ecki kòm þá í dóm um bæklínginn, því biskup sættist vid Jón Olafsson oc nidia Markúsar, enn þó var því máli ecki lokit; átti Gudbrandr biskup þá miög erfidt uppdráttar, er hann hafdi óvild konúngs, oc marga adra í móti sèr, enn siálfr gamall, oc mæddr oc heisulítill.

## XXIX Cap. Lögmanna skipti, oc frá höfdíngium.

Nú voru kosnir fiórir menn til þess, at einn fengi lögsögn í stad Jóns Sigurdarsonar, oc kastat um hlutum, Ari Magnússon í Ögri, Jón Magnússon á Reykhólum bródir hans, Magnús Biarnarson at Múnkaþverá, oc Halldór Olafssonar rebba, oc hlaut Halldór; hann tók oc Skagafiardar syslu þá í brád, at því er menn hyggia, því hann lèt dóm gánga um landamerki, milli Seilu oc Gröfargils hinn IXda dag Augusti, er Þorberg bónda Hrólfsson á Seilu greindi á vid Magnús bónda Biarnarson, oc vann Þorbergr; enn dómsmenn voru Isleifr Þorbergsson á Hofi, Jacob Hannesson, Biörn Jónsson at Skardsá, oc Ari Gudmundarson Einarssonar lögrèttumenn, oc tveir bændr; var þó Jón Sigurdarson sídann vid syslunna; enn lögmanns-eydr Halldórs skyldi bída til annars

sumars. IIII menn voru þá oc fengnir til utanfarar landsins vegna um kauphöndlunina. Jón Magnússon á Reykiahólum at vestann, Henrik Gíslason lögmanns at sunnann; Þorsteinn at austann, Magnússon frá Stóradal, Arnasonar, Pètrssonar, Loptssonar bródir Biarnar at Laxamyri, hann hafdi þá fyrir VII árum fengit Þyckvabæar klaustr, oc var einn hinn lögvitrasti madr í landi hèr; enn at nordann Dadi Arnason; fóru þeir utann. Þau missiri brann Hialltabacka kyrkia svo at menn vissu ei orsakir, oc um þær mundir deidi Páll prestr í Klaustrhólum, son Jóns prests Egilssonar er annálinn reit, oc þó XX vetrum eptir födr sinn; enn Olafr prestr lifdi í Vestmannaeyum födrbródir hans; son Páls prests var Arni á Skúmstödum, fadir Páls prests á Kolfreyustad, oc Odds prests á Kálfatjörn. Sá vetr hinn næsti var gódr, oc giördi hid
1620 besta ár. Þá druknudu VII menn á Alptanesi, oc Erlendr Erlendsson med X mönnum á Stadarsundi, oc fleiri menn einstakir. Seint í Januarío brann Sumarlidabær í Holltum oc VII menn inni. Þá voru prentadar á Hólum passíu-prèdikanir, er út hafdi lagt Oddr biskup Einarsson, Margarita Theologica fyrir skólamenn, oc bænadaga predikanir. Magnus bóndi Biarnarson, syslumadr í Eyafyrdi lèt dóm gánga á Spialdhaga um jördina Jökul er Þorbergr prestr kalladi til Asmundarson Þorsteinssonar á Grund, oc Gudbrandr biskup setti Brynjólf prest Arnason á Bergstödum frá prestlegri þiónustu, fyrir VIII sakir. Þá deidi Þórdr prestr í Hiardarhollti Moldar-Brandsson, hann hafdi átta Þóru Gudmundardóttr Þorleifssonar frá Þyckvaskógi, voru þeirra börn Pètr í Tialdanesi, skynsamr madr, oc átti margt afqvæmi; Gudmundr fadir Biarna, födr Magnúsar sterka á Kolstödum, hans afqvæmi var oc fiölmennt; Brandr; Biörn, er margt manna var frákomit; Sigrídr kona Brynjólfs prests Biarnasonar; Ingibjörg módir Þórdar prests, oc Olafs prests í Bæum. Kom til Hiardarhollts eptir Þórd prest, Brynjúlfr, oc var prófastr, son Biarna, Jónssonar í Hiardardal Olafssonar; hann átti fyrri Bergliótu dóttr Odds biskups, enn sídar Sigrídi dóttr Þórdar prests Brandssonar, oc er þadann fólk í Dölum; Þorleifr prestr á Söndum var bródir Brynjúlfs prests, fadir Olafs prests hins sídara á Söndum. Þá andadist einnin Gudrídr Gísladóttir í Hytardal kona Jóns prófasts Gudmundarsonar. Enn frá þeim mönnum sem utan fóru vegna Islands, at sysla vid kaupmenn, er þat at segia, at Dadi Arnason andadist í Kaupmannahöfn um

vetrinn, enn Jón Magnússon frá Reykhólum fèck stadfesting konúngs um edalmanns-stètt Biarnar hins ríka, enn þó hann væri siálfr frá hönum í qvennlidi, oc ei alla skilgetna, er þess ei gètit at hann hafi brèf fengit fyrir sig edr sitt afqvæmi, oc þó líkindi at hann hafi þetta afrekad sín vegna.

## XXX Cap. Frá landshöfdíngium, oc mótgángi Gudbrands biskups.

Um sumarit kom út Holgeir Rosenkrantz af Frölíngi, er Kristián konúngr IIIIdi hafdi skipat höfudsmann, enn Jacob Pètursson var umbodsmadr er hann kom til. Þá gröfu Danir upp lík Fridriks Friis oc fluttu utann, oc urdu at gialda fyrir þúsund dala, því at þat var ecki giört at konúngs vitund. Lèt höfudsmadrinn fornenn landsins vinna eyda á alþíngi. Halldór Olafsson vann lögmannseyd, enn syslumenn sóru þessir: Ari Magnússon, Jón eldri, því hann var þá útkominn oc þeir Henrik oc Þorsteinn, Biörn oc Þorleifr brædr hans, Biörn hafdi Bardastrandar-syslu, enn Þorleifr eystra, Henrik Gíslason í Borgarfyrdi, oc Steindór bródir hans undir jökli, Páll Gudbrandsson á Þíngeyrum, Magnús Biarnarson at Múnkaþverá, Sigurdr Hrólfsson oc Þorbergr bródir hans, Arni Magnússon austr á Eydum, oc Einar Hákonarson Arnasonar Gíslasonar, bródir Gísla lögmanns. Gudmundr prófastr Einarsson á Stad segir svo í riti sínu móti fiandafælu Jóns lærda, at þeir hafi sumir verit ódrucknir med öllu, enn sumir veldrucknir, meinti hann þat hellst til Einars, oc Steindórs Gíslasonar. Þeir Jón Magnússon, Henrik Gíslason oc Þorsteinn Magnússon höfdu engu áleidis komit vid kaupmenn, enn verdlag er menn kalla taxta kom þá á vörur Dana oc Islendínga, oc hèldu þó kaupmenn margir þat ecki, fóru heldr at sinni vild. Ecki máttu skiparar eda menn þeirra hafa nockrn varníng, oc höfdu Kaupmannahafnarborgarar einir kaupskapinn, enn Helsíngiaeyríngar oc Málmeyíngar voru fráskildir. Miög var varud á höfd at Islendíngar keyptu ei vid enska menn, oc sendt skip af Danmörku til at ransaka hvert ei fyndist íslendsk vara á fiskiduggum enskum; þat skip flutti utann sídann nockra menn er litla einu höfdu skipt vid þá, oc var all-mikit

ófrelsi. Þetta sumar fèck Magnús, son Gissurar Þorlákssonar Þorlákssonar, Þorkötlu Snæbjarnardóttr prests Torfasonar. A því alþíngi er nú var gètit, lèt höfudsmadrinn taka bæklíngsmálit undir XXIVra manna dóm, kom ei Gudbrandr biskup, því hann var ei fær til ferdar, enn Ari Magnússon dóttrmadr hans fór hans vegna, oc fylgdi lítt málinu, bar at eins vid at afsaka hann, oc var einn í dóminum, sem þá var sidr, at menn urdu at samþyckia dóminn, ef þeir skutu hönum ei þá þegar undir konúnginn, oc þó var ïært úr at gánga, ef dómr var ei at skapi; voru þessir nefndir í dóminum: Jón Magnússon, Einar Hákonarson, Henrik Gíslason, Magnús Biarnarson at Múnkaþverá, Ari Magnússon, Þorleifr oc Biörn brædr hans, Þorbergr oc Sigurdr Hrólfssynir, Þorsteinn Magnússon á Þyckvabæ, Jón Sigurdarson á Reinistad, Marteinn Halldórsson Marteinssonar biskups, Erlendr á Hvoli Asmundarson Þorleifssonar lögmanns, Thomas Einarsson, Ingialdr Illhugason frá Reykjum, Olafr Jónsson, Jón Sigurdarson, eg hygg frá Einarsnesi, Steindór Finnsson frá Ökrum, hann bjó at Ormsbæ vid Hellna, enn sídann at Ingialdshóli, Jacob Hannesson, Biörgólfr Asgeirsson prests frá Lundi, oc Thómas. Þeir gáfu Gudbrandi biskupi þat at sök, at hann hefdi dróttad at Markúsi Olafssyni í Hèradsdal, er fyrir laungu var daudr, um falsbrèfagiördina, oc talad um ránglæti oc róg Jóns lögmanns, er þeir ætludu engann verit hafa edr ei meiga sannast, qvádu því biskup ætti at vera samr madr, oc Jón lögmadr hefdi verit, ef hann hefdi ordit sannr at sök, dæmdu þeir fyrir því þetta róg vera, oc biskup til konúngsnádar edr ónádar eptir því sem hönum syndist, oc er þat frægt ordit, enn lètust þó mælast til at konúngr vægdi hönum sakir elli hans oc veikleika, oc góds mannords í ödrum efnum. Fengu þeir þennan dóm höfudsmanninum til at bera fyrir konúng, fór hann vid þat utann, oc setti Jacob Pètursson fyrir umbodsmann sinn. Lagdist allþúngr ordrómr á rèttdæmi þeirra, enn þeir voru allir sem á undann gengu, frændr eda vinir Jóns lögmanns, oc áttu eigi gott vid biskup, oc bar þat til; var Jón Magnússon berastr í slíku. Margir menn tregudu þat, er ílla skyldi fara fyrir Gudbrandi biskupi, enn hann rèdi þat af siálfr, at senda Þorlák Skúlason dóttrson sinn, er þá var skólameistari, utann oc á konúngsfund, oc bad líknar, oc margir adrir ágætir menn bádu fyrir hann. Biörn Sturluson sudr á Nesjum qvad þá lof um Gudbrand

biskup, oc taldi þar í bækr þær er hann hafdi látit prenta, oc hann vissi af. Einar prófastr í Heydölum fadir Odds biskups qvad um Gudbrand biskup vísr þessar:

Módrjardar gud giördi
Gudbrand födr viljandi,
á Islandi ljós reyndar,
lifa verk yfirmanns klerka;
mættu þiódir þrátt ræda,
um þann drottins mann votta;
Gudbrand heidr at hendi!
herrans verk bera gód merki.

Kross lángr þess þíngri
þelhreinann vel reinir,
gudi kærann, hvad heyrist;
hentar ydia prentsmidiu;
ord drottins vardveitti,
vel lærdr til færdi,
Gudbrand heidr at hendi! h. v. b. g. m.

Vorir landar örendir
ofblandnir, sofandi!
guds verk ydr ei orka
at hræra, þat lærid,
at lofa herrans giöf hærri,
sem hugr klár dugir, med tárum;
Gudbrand h. a. h. h. v. b. g. m.

Svo lætr nú nióta
nádar fenginnar gud lengi
þad land, ef þióðinn fynndist
þacklát vel í máta —
heill lifi alla æfi
æruvyrdr kær hyrdir!
Gudbrand h. a. h. h. v. b. g. m.

Magnús Olafsson var skólameistari medann Þorlákr var utann; enn er Þorlákr kom til Kaupmannahafnar, fann hann at margir voru fráhverfir ordnir módrfödr hans, af rógi vondra manna, enn

nockrir voru þó er vyrdu biskupi til vorkunar, oc þóttu ómaklega giört vid svo ágætann mann oc merkilegann í elli hans; lögdu þá margir allann hug á at túlka mál hans, enn konúngr var lengi þver, þó kom svo um sídir fyrir flutníng þeirra, at hann myktist heldr nockud, oc gaf biskupi kost á hvert hann vildi heldr láta mál sitt koma fyrir hærsta rètt, eda þá menn er konúngr tilnefndi, eda bjóda fèbætr fyrir sig; baud konúngr höfudsmanninum at semia vid hann um fègiöld, ef hann vildi þau heldr kiósa, oc at láta jafnframt kyrknajardir þær, sem biskup hafdi giört nockut rugl á, gánga í rèttann stad; enn þó skyldi hönum jafnheimill sá kostr, at eiga málit undir dómi konúngs oc hinna ædstu dómenda.

## XXXI Cap. Tilburdir.

1621 Á medann þessu fór framm var vetr gódr á Islandi oc hlutasamt; druknudu VIII menn samann á Vestfiördum, oc Jón Olafsson hvalfángari med tveimr mönnum; fleiri urdu mannskadar. Sá madr var vid Hellna vestr, er Arni hèt oc var Eysteinsson, búdarmadr, hann vandadi um vid danskann mann vegna dóttr sinnar eda frændkonu, oc er sagt þeir hafi veitst at hönum, enn Arni varist mörgum, því hann var manna mestr oc sterkastr, skipti hann þá vid þennan mann um mál sitt á Laugarbrecku þíngi, oc horfdi þar nær at málit gengi á Arna; hann qvadst þá heldr vilja falla í hendr drottins enn rángt mál gengi á sig, oc vard sá atburdr at hann fèll þegar nidr, oc var örendr. Þá hengdi sig Tyrfíngr á Bláfeldi í Stadarsveit; dóu prestar margir í Skálhollts biskupsdæmi. Stormr ógrlegr var sudr um nes annan sunnudag eptir þrettánda, svo brotnudu XXX skipa, í því vedri dó Biörn Sturluson. Þau missiri hvarf kona í Bryniudal med þremr börnum, oc fannst hönd af einu barninu, enn ei annad. Þá var prentud á Hólum Avenarii bænabók. Dómar gengu þá. Lèt Halldór lögmadr XII manna dóm gánga á Spialdhaga, um siglíngartóll, er Magnús bóndi Biarnarson beiddist dóms á vegna Jóns Magnússonar; þótti Jóni siglíng sín hafa kostad sig CCCC Speciu dali; var þá hverr skattbóndi dæmdr til at svara V álnum fyrir vestann oc nordann land, enn hverr fyrir innan skiptityund hálfa, skyldi þar takast af útfararkostnadr Dada Arnasonar er utannlands deidi,

enn Jón skyldi hafa afgáng; er þat oc þá líkast at Henriki hafi verit goldinn utanfarartollr fyrir sunnann, enn Þorsteini fyrir austann land. Þorbergr Hrólfsson lèt dóm gánga um hórdóms líkindi at Helgastödum, oc annan um klædi sem borinn væri móti konúngs þegnskyldu, at þau sèu upptæk af konúngs umbodsmanni, oc svo stígvèl, oc framandi strympr, því þeim sè þarfara sem fè hafi til, at eiga skyldar-vopn.

## XXXII Cap. Málalok Gudbrands biskups.

Nú kom út um sumarit Holgeir Rósenkrantz höfudsmadr, oc med hönum konúngsbrèf um aflausn sakamanna, oc hve gamlir vera skyldu þeir sem til presta vígdust; í annann stad kom út Þorlákr Skúlasón skólameistari, oc kynnti Gudbrandi biskupi hverr kostr hönum var gèfinn; vildi biskup þá fyrir hvern mun hitta höfudsmanninn, oc lèt búá ferd sína til alþingis, hann var þá á hinu áttatugasta ári oc reid í qvenn-södli; enn er hann var þar kominn rèdu sumir vinir hans hönum at hætta til at málit gengi í dóm, lètu þess enn von at margir mundu verda hönum fylgiandi, oc qvádu þat betra enn láta stórfè, enn hann vildi þat þá ecki, oc hugdi heldr at eyda öllum ákærum í einu med fègiöldum, enda þóttist hann oc leidr ordinn á deilum; oc er hann hitti höfudsmanninn, oc þeir mæltust vid, baud hann biskupi kost at skióta máli sínu undir þá menn er konúngr tilnefndi, enn gat ei hærsta rèttar dómenda, er biskupi voru meira sinnandi, edr oc at gialda þúsund dali ella; biskup kaus at gialda, oc var þat samþyckt af konúngi sídar, oc voru þat hin sídustu lok allra hans mála; hann sendi oc konúngi náhvalstönnn mikla, oc var hún enn konúngsgèrsemi þegar Jón prófastr Halldórsson skrádi þetta; vitum vèr eigi hvert vid þat hefir mínkat sektafè hans edr ecki. Þat skèdi þá fyrir ord höfudsmannsins at Gudmundr Hákonarson frá Nesi fengi Halldóru Aradóttr frá Ögri, dóttrdóttr Gudbrands biskups er hann hafdi fóstrad. Af því alþíngi reid Jón prestr Gíslason, oc ætladi til Bessastada, hann fannst aldrei aptr, enn hestrinn fannst. Þá urdu IX skipbrotsmenn norrænir í landi hèr, oc voru fiórir kaldir. Pètr Pálsson á Stadarhóli andadist í þann tíma, oc átti eptir tvö börn, Biarni var son hans er á Stadarhóli bjó, oc Helga

dóttir, hún giptist nordr. Jón var launsonr Pètrs, er bjó at Vatnshorni í Haukadal. Magnús Biarnarson at Múnkaþverá tók umbod skilgètinna barna Pètrs eptir dómi, því hann var systrson hans; hann samþyckti vegna sín oc systkina sinna utannfarar-kaupit, þat er dæmt hafdi verit Jóni eldra Magnússyni. Þá deidu þeir enn, Biarni Oddsson á Skardi á Skardströnd, oc Jón prestr á Helgafelli, son Þormódar Asmundarsonar í Brædratúngu oc Ingibjargar Þorsteinsdóttr.

## XXXIII Cap. Andlát Páls Gudbrandssonar oc Skapta prófasts.

Páll bóndi Gudbrandsson á Þíngèyrum reid til Vídimyrar til Sigurdar Hrólfssonar, oc lagdist þar, hann andadist þann Xda dag Novembris, viku eptir heimannreid hans, hann var vyrduglegr madr oc veitíngasamr, at því er Biörn at Skardsá hefir sagt, mannúdlegr oc ljúfr, án öls; ecki er þess gètit at hann hafi fylgt at málum födr síns, oc ætla eg hönum hafi verit vyrdt þat af sumum til vanskörúngsskapar; hann hèldt XV ár Þíngeyraklaustr, oc skorti IIII vetr á sextugann. Þau Sigrídr Biarnardóttir kona hans áttu V börn, hún var sídann á Márstödum, var þá skipt umbodum oc fè, oc erfdi Þorlákr Pálsson Vídidalstúngu, hann átti sídar Kristínu dóttr Jóns lögmanns Sigurdarsonar, þeirra börn voru Páll oc Jón í Vídidalstúngu fadir Páls Vídalíns Benedict Pálsson átti Hólmfrídi Einarsdóttr, enn sídann Sigrídi Magnúsdóttr, oc verdr gètit seinna. Hólmfrídr var dóttir Benedicts, er gipt var Jóni presti Þórdarsyni, á Myrká, oc meira verdr sagt af hans börnum. Páll Pálsson bjó á Márstödum seinna. Biörn Pálsson átti sídar Espihól hinn meira oc Æsustadi, oc fèck Ragnheidar dóttr Magnúsar Arasonar, oc verdr enn gètit, enn fá eda enginn voru börn Páls frumvaxta þennan tíma. Gudmundr son Hákonar í Nesi vid Seltjörn, Biarnarsonar prófasts Gíslasonar, hèldt Húnavatns syslu nærst eptir Pál Gudbrandsson oc Þíngeyra klaustr, oc gèck at eiga dóttr Ara í Ögri. Þann tíma andadist einnin Skapti Loptsson prófastr á Setbergi, oc hafdi verit mikilhæfr, enn Loptr prestr frá Miklahollti son hans tók vid þeim stad, hann var fadir Jósephs prests, er enn mun getit.

## XXXIV Cap. Forspá Odds biskups.

Torfi Finnsson skólameistari í Skálhollti fèck í þann tíma Hvamm, því Gísli prestr Gudbrandsson var þá andadr, enn Gísli son Odds biskups tók skólann hinn nærsta vetr, hann var jafnframt prestr í Stafhollti. Þess er getit, at Brynjúlfr Sveinsson frá Hollti hafdi farit í skóla fyrir nockrum vetrum; hann hefir svo frásagt, at Oddr biskup hafi verit sèr miög vel, oc látit meira eptir sèr enn ödrum skólasveinum, oc ei hefdi hann þess bedit er biskup veitti hönum ecki. Einhveriusinni er biskup reid heimann á vetri til prestastefnu á Olafsvöllum, var skólasveinum leift at fara út oc fylgia biskupi á hest; sveinar biskups voru ecki nærri, oc hlióp Brynjúlfr at fyrstr, til at halda í ístad hans medann hann stígi á hestinn, enn biskup bannadi hönum, oc qvad annat fyrir hönum liggia, enn halda ístadi sínu, oc nefndi til þess annan er nær var staddr, oc giördi sá þat. Þat er oc mælt, at Oddr biskup hafi forspár verit um marga hluti. Hann var manna hærstr, svartr á hár, er hann kalladr Oddr hinn hái í Krucks-spá, enn hún er giör eptir hans daga, at því er menn ætla; Ari Magnússon var annar hærstr madr, nær höfdi hærri enn allr þíngheimr. Oddr biskup var haldinn hinn lærdasti madr, bædi í túngumálum, oc ödrum vísindum, enn hellst stjörnufrædi. Hann var gudrækinn oc sidprúdr, hófsamr oc spaklátr, lítilátr oc hamíngiumikill; optast las hann þá er hann mátti, edr lagdi út-bækr, urdu þó fáar prentadar nema passíu-prèdikanir, Avenarii bænir, oc kyrkjuordinantía Kristiáns konúngs fiórda; flest ritadi hann upp er hönum þótti merkilegt, oc hèldt skrifara til at rita margar bækr, enn þær brunnu sídar, þó nockud hafi dulist af hiá nidjum hans; eitt sinn er hann reid í Austfiarda visitatiu sinni frá Skógum undir Eyafiöllum, þared vinir hans bjuggu, Þormódr bóndi oc Halla Grímsdóttir systir Biarnar málara, oc var nockud ölgladr, enn sveinar hans nær ófærir, því at þeim hafdi vel verit veitt, allir nema Haldór son Dada silfrsmids Jónssonar Olafssonar, er sídann vard prestr í Runa; þá ridu þeir bádir samann til Hollts um qveldit, oc sagdi Halldór laungu sídar, at biskup hefdi marga hluti sagt sèr, þá er sídar komu framm. Þat var eitt, at Halldór hefdi sèd konu efni sitt, væri þat Halldóra dóttir Einars á Hörgslandi Stephánssonar, oc Kristínar systr Hölln

í Skógum; qvad hann biskup hafa bannad sèr at fara utann til læríngarframa, þó hann hefdi þat í huga, oc getit til þat mundi eigi heppnast hönum, enn Gunnlaugr prestr Jónsson í Runa mundi skammlífr, oc þat kall mundi hann fá, oc kom þat framm sem biskup sagdi. Sigfús hèt einn smásveinn hans, er sídann vard prestr í Hoftegi austr, son Thómasar prests at Hálsi í Fnióskadal, hann var eitthvert sumar nærri fráfærum hiá biskupi í biskupsbadstofunni í Skálhollti; biskup sat vid bordit, studdi hönd undir kinn sèr þegiandi um hríd, oc brosti, enn mælti sídann: Fúsi! villtu at eg segi þèr hvad konu-efni þitt er nú at giöra? hann qvad óvíst hvert sèr yrdi kvonfangs audit. Víst liggr þat fyrir þèr, sagdi biskup, má eg segia þèr hver hún er, oc hvad hún er nú at giöra; þat er dóttir hans Eyríks í Bót austr í Fliótsdalshèradi, hún er nú at reka únglömb á fiall, elltir þau oc hleypr hæverskulaust. Sigfús ritadi upp árit, daginn oc stundina, oc bar því öllu samann vid þat er biskup sagdi, oc vard þat frammgengt; oc svo var um margt fleira, þó ei sè hèr gètit; enn ef nockrum þykir þetta ótrúanlegt, þá hefir þat þó ritat Jón prófastr Halldórsson, svo vitr madr, eptir þeim sem hann hefir merka menn haldit. Eyríkr í Bót var hinn mesti afarmadr í skapi, hans dóttr fèck Sigfús prestr, oc voru þeirra synir Olafr prestr á Refstad, oc Guttormr prestr í Hólmum. Þat er oc mælt, at Eyríkr son Odds biskups hefdi þat af hönum, þó hann þætti vitgrannr, at vera forspár. Hann misti konu sinnar af barnsför er hún ól þríbura, oc vard ei meira um enn svo at hann qvad födr sinn mundu gèfa sèr adra konu aptr; hann qvæntist oc í ödru sinni at hans tilhlutan, oc fèck Þorbjargar dóttr Biarna Oddssonar austann frá Bustarfèlli, oc Þórunnar Biarnardóttr Gunnarssonar, þeirra synir voru Oddr á Fitjum oc Gísli.

## XXXV Cap. Frá ímsu.

1622 Vetr sá er Gísli prestr Oddsson var skólameistari í Skálhollti, var gódr frá jólum; vor var hardt, oc komu ísar, á þeim var selatekja mikil. Þá var prentud á Hólum litla biblía, oc Musculi bænabók, oc bók Otta Casmanns um sanna gudrækni, hafdi lagt hana út Jón prestr at Presthólum son Biarna Hróbjartssonar. Um

vorit lèt Gudmundr Hákonarson dóm gánga at Bólstadahlíd, um ómaga frammfæri eptir Ejólf Þórdarson, oc svo annann um ólöglegann saudfiárrekstr til afrètta, er Steinun Gudbrandsdóttir oc Gísli prestr Brynjúlfsson ákærdu; er því Steinunn tilnefnd, at Skúli bóndi hennar Einarsson, fadir Þorláks skólameistara, var þá nydáinn; enn Gísli prestr var á Bergstödum, oc son Brynjúlfs prests Arnasonar, er lengst var hafdr fyrir sökum. Hinn þridja lèt Gudmundr gánga, VI manna dóm, at Svínavatni, um ólofada hrossagaungu, oc hinn fiórda at Vindhæli annann dag Maii um frammfæri Þóru Gudmundardóttr á Eyrík prest oc Gudmund Stephánssonu; — hygg eg hana verit hafa systr Stéphans prests at Undirfelli, er skadadi sig, enn födrsystr þeirra; hinn Vta tveim dögum sídar um dómróf. Þá var Gudbrandr biskup dæmdr svaramadr barna Páls Gudbrandssonar. Enn lèt Gudmundr dóm gánga um misklíd Arngríms Styrkárssonar oc Olafs Olafssonar. Enn litlu sídar tók höfudsmadrinn syslu af Gudmundi, oc veitti Jóni Sigurdarsyni á Reinistad, er þó eigi gètit saka. Gísli prestr Arnason Gíslasonar biskups druknadi í Markarflióti á Þíng-Maríumessu; hann hafdi fengit af Dönum Hollt undir Eyafiöllum, eptir födr sinn daudann, fyrir tvær lestir skreidar, at því er mælt er, oc *ætladi sèr þá* at afhenda skreidina er hann druknadi. Þá dó oc *Jón prestr* Finnsson á Melum, bródir Sigurdar prests á Ökrum oc *Steindórs*, hans synir voru Finnar tveir, annar fadir Þorkötlu er átti Þorbjörn Eyríksson í Byrtíngsholti, oc módir var Gudrúnar konu Biarnar Þorsteinssonar frá Höfn; enn annar var fadir Nicolásar, Jóns oc Egils afa Egils prófasts Þorhallasonar. Annar deidi Jón prestr Salomonsson á Hesti, þar kom Audun Jónsson. Kom *út* konúngsbrèf um stadfestíngu lögdæmis Halldórs Olafssonar, oc hèldt hann Hegranessþíng, enn Gudmundr Hákonarson hèldt Þíngeyra-klaustr eittsamann, hafdi hann um haustit fengit Halldóru Aradóttr med mikilli rausn heima at Hólum, at módrfödr hennar. Fleiri komu út brèf Kristiáns konúngs; eitt um vidi til húsabyggínga er leigulidar skyldu leggia til siálfir, oc útbyggíngar; annat um skuldamál; þridja um brúargiörd oc vegabætr; fiórda um köllun presta oc lífnad. Jón Gissurarson at nordann er verit hafdi heyrari á Hólum, oc framast ádr utanlands, fèck þá brèf fyrir skólameistaradæmi í Skálholti, oc vard þá Gísli prestr son Odds

biskups af at láta. A alþíngi var samþyckt giör, um tyundir af konúngs oc kyrknajördum, oc dæmt af lögmönnum bádum Gísla oc Halldóri, um skattgiald oc giaftolla; einnin um fimm puncta, sem umbodsmadr höfudsmànnsins beiddist dóms á. Þar var oc dæmt um Magnús Erlíngsson, sem hafdi barit konu med skammorfi á leindarstad, oc dæmdist hönum XIII marka sekt, oc samit vid konuna um IIII hundrud. Um haustit var helmíngadómr Þorbergs Hrólfssonar syslumanns í Þíngeyarþíngi, oc Þorsteins prófasts Illhugasonar um róg Odds Jónssonar uppá Biarna prest Gíslason. Þá fèck Gísli prestr Oddsson Gudrúnar Biarnardóttr Benedictssonar, var Magnús at Múnkaþverá giptíngarmadr systr sinnar, oc gaf Oddr biskup hönum kost á at kiósa fyrir hann hvern stadinn er hann vildi heldr, Hollt undir Eyafiöllum, eda Stafhollt er hann hèldt þá, nærst eptir Gísla Biarnason oc Jón Egilsson, er fyrr voru prestar, hann hafdi þá oc Heyness umbod um II ár. Magnús kaus Hollt, oc rèdist þat af, at Gísli prestr biskupsson tók þann stad, enn Mela eptir Jón prest Finnsson tók
1623 Jón son Jóns prests Þorsteinssonar í Vestmannaeyum, hann var sídann prófastr, oc var velþockadr madr, skáld oc veltalandi sem fadir hans. Þann tíma leitudu enskir menn híngad fálkafángs, oc tóku þar til leifi konúngs.

## XXXVI Cap. Imislegt, oc frá hestavígi.

Vetr sá var gódr er þá fór í hönd, enn vor íllt, oc spilltist þadann af árferdi; druknudu XL menn á skipum sydra; þá deidi Arni skyndilega, er bió at Arnarstapa, oc þar hafdi konúngs umbod son Sæmundar Arnasonar Gíslasonar, hann átti Gudrúnu dóttr Nicolásar Oddssonar bródr Jóns í Fagrey, þeirra son var Hákon í Gördum, er fèck Gudrídar dóttr Gudmundar prests Einarssonar at Stadarstad; eptir hann hèldt umbodit oc sysluna Steindór Gíslason, oc bió þá at Knerri, oc eiddi öllu fè sínu nema þeim jördum er Gudmundr prestr Einarsson hèldt vid. Steindór Finnsson frá Ökrum, er sídar hafdi sysluna, bjó þá at Midgördum, enn fyrri í Ormsbæ. Biarni son Hákonar Arnasonar deidi einnin þessi missi skyndilega sydra. Þá kom út konúngsbrèfit um prestana, oc anne um jardasölu, at hverr náfrændi selji ödrum ef selia þarf, enn

vandalausum, oc var sá capituli settr inní lögbók er hlídir um lögbodníng á jördum, med fleiru er þar at víkr; var oc eitt gèfit út um helgidagabrot ímislig, oc eyda. Steindór Gíslason lèt dóm gánga at Hrókshollti um fúlgufè; hefir þá Hnappadalr fylgt Þórness þíngi. Gunnar prestr Pálsson tók Gilsbacka, enn Sigurdr prestr Jónsson Helgafell. Um haustit lèt Sigurdr Hrólfsson á Vídimyri syslumadr í Þíngeyar-þíngi dóm gánga, um deilu Sveins Jónssonar á Illhugastödum, er kalladr var hinn ríki, oc Einars Eyríkssonar, hinn XVIda dag Septembris; þótti Þíngeyíngum hann fiærri sitja, þar sem þeir voru í Skagafyrdi brædr. Þar sátu þeir til vissu þrír Hrólfs synir, Sigurdr oc Þorbergr syslumenn, oc Biarni lögrèttumadr, sá er harkit giördi fyrrum sydra, hann var fadir Þorsteins födr Hrólfs á Alfgeirsvöllum; enn Bessi Hrólfsson veit eg ei hvert þar var edr sá er bjó at Urdum, hann var lögrèttumadr oc fadir Ingimundar á Irafelli, oc Rafns vestra; margir voru þeir gyldlegir. Enn Sveinn hinn ríki sá er gètit var, á Illhugastödum í Fnióskadal, er sagt hafi átt V hundrud sauda, oc lèti eitt gánga á dalnum á vetrum, annad í Túngu í Fnióskadal, þridja í Reykjafialli, enn hina yngstu í sellandi; eitt sumar er sagt hann hafi tekit III hundrud sauda, oc rekit eitt í Húsavík, annad á Akreyri, þridja í Hofsós, oc selt fyrir peninga, oc látit alla fallit mundi hafa á komanda vetri, nema svo væri lógat, oc hafi þá ordit fellivetr; er enn svo sagt hann hafi fólgit fè sitt í jördu. Hestavíg hèldust vid í landi hèr, lángt framm á daga Odds biskups Einarssonar, sem fyrr var sagt, oc nú er hèr var komit, bjó Sigmundr at Gardsá í Kaupángssveit, oc var vel fiáreigandi; var íllt med þeim Sveini, enn þeir kappsmenn bádir. Sigmundr átti hest vindóttann, vaninn til vígs, hann gèck á dalnum fyrir vestann Fnióská, oc var kalladr Fnióskadals afrètt allr frammdalrinn til ódeilu. Hestrinn var opstast í hólunum, sem sídann eru kalladir Vindhólar, enn þó tel eg eigi vissu fyrir örnefnum af þessu, þó menn viti giörla at mennirnir voru uppi. Sveinn bóndi átti bleikann hest vígtaminn, hann gèck framar á dalnum fyrir austann ána, þar sem heitir Bleiksmyri, enn annad tveggia er missagt um gaungu hans eda ait, nema svo sè at Sveinn hafi valit beitina eptir hestinum, því at miklu var fyrri kalladr Bleiksmyrardalr. Þeir Sveinn oc Sigmundr mæltu mót med sèr at reina hestá sína oc etja þeim á dalnum; voru þeir seinastir hestar vandir til vígs í Nordrlandi eda á Islandi

öllu. Þeir hlódu tvo garda á Viadhólanesi, sem enn sèr merki til, oc öttu hestunum milli gardanna, enn menn hjuggu sèr riódr fyrir ofann í hólunum, þeir sem vildu á horfa, því at til vorra daga hefir verit skógland mikit í Fnióskadal. Vindr var stærri oc styrdleiknari, en Bleikr minni oc mjúkari, sviptust þeir lengi, oc hlupust á, enn svo fèll er ei var vant, nema kunnáttu-leysi hafi valdit þeirra er fylgiá áttu, at Bleikr tók á nára Vinds oc reif á hol, svo at út hèngu innifli; Vindr stöck á gardinn, oc braut í skard mikit oc fèll sídann daudr, enn Bleikr hljóp yfir ána, framm í stódit á dalnum. Sigmundr þycktist miög vid missir hestins, oc óvyrdíng sína, er hönum þótti, oc qvad þetta verda mundi seinast hestavíg þar nyrdra; vard fátt um qvedjur med bændum. Sveinn var audugastr madr at gángandi fè í Fnióskadal, enn þat bar til vorit eptir hestavígit á hvítasunnu-morgun, at saudamadr Sveins fann gemlíng daudann í kyl fyrir nedann túnit. Sveini brá ílla vid, oc tók byrkilurk mikinn, oc braut snjóbrúr af kylnum, oc segir illt ef hann drepi fyrir sèr fleiri kindr; enn er Jón prestr Thómasson frá Hálsi bródir Sigfúsar, sveins Odds biskups, reid þángat til embættisgiördar, sá hann Svein liggia daudann í kylnum á grúfu med birkifork í hendi, enn þar heitir Sveinspollr er hann lá; enn nockru sídar var vitjad um stód á Bleiksmyrardal, oc var Bleikr daudr í Bleiksmyrargröf, ætludu menn um sama leiti ordit hafa sem lát Sveins, oc var eignat fiölkyngi Sigmundar á Gardsá. Má þetta hafa fyrir satt, þó örnefni skacki eda sèu missögd, þar sem heima stendr um menn alla, allt þar til er rök verda leidd ámóti med sannindum; var Sveinn bóndi sá er gètit er, fadir Olufar, módr Magnúsar, födr Sveins, födr Thómasar, födr Sölva, födr Sveins lögmanns; enn frá Sigmundi er kominn Gardsár-ætt í Eyafyrdi; enn söguna um hestavígit heyrda eg af Þíngeyíngi einum í æsku er svo var gamall, at muna mátti þá menn gamla er mundu Sigmund, oc var hún þá skrásett.

## XXXVII Cap. Tilburdir.

Um haustit þat er sídarst var gètit, þóttust menn siá mikinn orm, hjá Arhrauni á Skeydum, í Hvítá, tvö qvöld í samt, þrem víkum fyrir jól, brotnadi ísinn er hann kom upp í fyrra sinni,

oc voru tvær lyckjur, enn sídar var ein, oc svo hâ at þeim syndist taka upp í midt Hestfiall. Sá vetr var afbragdsgódr frá jólum, oc giördi gnóglegann grasvöxt eptir; var sóley sprottinn í sídustu viku vetrar í Skagafyrdi, oc höfdu þá fuglar orpit, oc fundust egg 1624.
nóg; var þá votsamt sumarit, oc heyadist lítit, oc var kránkfeldt, svo margir dóu. Henrik prestr Evertsson þíski í Villíngaholltí dó þá, oc Jón prestr í Hraungerdi Stephánsson Gíslasonar biskups, einninn Gunnlaugr prestr í Runa Jónsson, prests úr Vatnsfyrdi Loptssonar, er þar hafdi lengi verit, oc fèck Halldór Dadason stadinn, sem Oddr biskup hafdi ætlad, hann var sídann prófastr. Sigurdr prestr Jónsson at Helgafelli fór í hólma á vatninu þar hiá vellinum med stúlkum tveimr at taka egg hinn IXda dag Júlii mánadar; þau fóru á slæmum báti, oc gęck vatn í, urdu þá konurnar hræddar, oc hlupu á prestinn, oc hèldu hönum, oc druknudu þau öll; hann hafdi fengit Olufar dóttr Jóns lögmanns Sigurdarsonar frá Reinistad, oc höfdu þau ecki samann verit X víkr fullar; fór Oluf nordr eptir þat. Madr gèck í Stadarsveit sjáandi framm í torfgröf, oc fleiri druknudu. Kom ís um vorit fyrir nordann land. Þat vor vígdi Gudbrandr biskup Þorlák skólameistara dóttrson sinn til prests, oc skorti hánn III vetr á þrítugann, oc hafdi fengit vonar-brèf um Hytardal, því at Jón prófastr Gudmundarson var þá gamall, oc sjónlítill; reid Þorlákr prestr til Hytardals, oc baud sig hönum til capellans, enn hann vildi ei at svo stöddu. Þá var prentud á Hólum ræda um útvalnínguna; enn fleiri bækr voru þar prentadar, oc vita menn ei hvenær; voru liód Jóns prests Biarnasonar í Presthólum um samtal guds vid Evu oc börn hennar, oc synist sem lítt hafi þá verit rádit, oc ydrunar sálmar Davids í VIII blada broti, oc sidalærdómr Catons hins gamla. Þat hygg eg sè hinnar sömu meiníngar oc Hugsvinnsmál. Þeir voru synir þess Jóns prests: Illhugi prestr er sídar getr, oc Sigurdr prestr í Presthólum, skáldit. Dómar gèngu; oc einn af Jóni Sigurdarsyni um fódra-saudi at Ási í Vatnsdal; enn á alþíngi um áverka oc jördu, oc um reidíngestúngu óleifda. Þar hóf Ari Magnússon ákæru um Hól oc Bessastadi, enn hann var dæmdr frá því máli, oc allir erfíngiar Gudbrands biskups. Kona sú kom til alþíngis úr Rángarvalla-syslu er barn hafdi alit, oc kènnt huldumanni, stód hún fast á hinu sama, oc var sú trú þá miög almenn ordinn med alþídu, at menn mætti hafa svo mikil

mök vid álfa sem adra mennska menn; verdr þat ecki med fám ordum talit, hve mikill ótti fyrir hègilium, oc traust á því sem enkis var verdt, jókst af því, oc mörgu ödru, sem menn festu þá trúnad á. Enn at hugsa lengra framm í ödrum hlutum, er vaninn hafdi hefdad, enn þángat til hafdi giört verit, þótti fordæda, oc jafnvel höfdíngium er minni trúnad lögdu á álfasagnir oc undra enn alþída, því at enginn brúkadi þá þat sem köllud er crisis eda sannleiks ransókn, oc var þat eptir sídann í páfadómi. Þeim einum nyúngum var fliótlega trúad, ef sagt var frá teiknum, draumum, kynstrum eda kyniamönnum, oc ödrum ótrúanlegum tilburdum. Á alþíngi var madr tekinn af úr Isafiardarsyslu, sá er Hildibrandr hèt, hann hafdi gètit barn vid systr konu sinnar. Skridr fèllu vída þat sumar, því at votsamt var.

## XXXVIII Cap. Gudbrandr biskup leggst.

Þat bar vid á þridja dag Hvitasunnu at Hólum, at Gudbrandr biskup gèck út af húsi sínu um morgun, oc var hann þá vid sæmilega heilsu, oc hafdi II vetr hins IXda tugar, fèll þá yfir hann snögglega sjúkleiki med því madrin hafdi lengi verid yktsjúkr, á þann hátt er kallast paralysis edr hálfvisnan, oc máttleysi í hálfum líkamanum; hneig hann þar nidr, oc var sídann borinn inn í sæng sína. Kom fyrst máttleysid í hægri höndina oc sídunna, oc því nærst í túnguna, svo hann misti at mestu málit, mælti laungum fátt, þriú eda fiögr ord mest í senn, oc lá í kör sídann, enn hafdi jafnann alla rænu; lèt hann ætíd ritnínguna liggia hiá sæng sinni, oc fletti upp med hinni vinstri hendi; bendi til hvad oc á hverju bladi hann vildi láta lesa fyrir sèr; enn þat giördi Þorbjörn Einarsson sveinn hans, er sídann var prestr á Bardaströnd, oc seinni madr Helgu Arngrímsdóttr, eptir Biörn Magnússon; hann medtók opt sacramentum med tárum oc andvörpunum, af Þorbergi Asmundarsyni kyrkiupresti sínum. Fyrir þessa sök útgaf Holgeir Rosenkrans höfudsmadr á Bessastödum brèf sitt, hinn annann dag Júli mánadar, á þá leid: at med því drottinn hafi nú med ellinni, oc ödrum sjúkleika heimsókt hinn heidrliga herra Gudbrand biskup, oc hann hefir ádr fengit af konúnglegri hátign at Arngrímr prestr, er þá var á Melstad, skyldi

þióna hönum sem medhiálparmadr, þá band hann nú Arngrími, af konúngshendi, at vera rèttr inspector, oc umbodsmadr biskupsins, at visitera, umsjón hafa med prestum oc andlegum embættismönnum, skólameistaranum oc skólanum, eptir fúndatsiunni, oc med rádi oc vidrvist rádsmanns, skólameistara oc kyrkjuprests, at safna samann öllum brèfum dómkyrkjunnar oc stólsins, oc leggia þau í góda geymslu, þar til er gud giördi endíngu á sjúkleika biskupsins eptir vilja sínum nádugum; þó á þann hátt, at vald biskups oc embætti væri ókrenkt í öllu, svo lengi sem hann siálfr vildi veita því forstödu. Tók Arngrímr prófastr sídann vid forrádum biskupsdæmisins, eptir því sem á var skilit.

## XXXIX Cap. Kyrkiufall at Hólum; hardindi.

Þetta sumar fór Brynjúlfr Sveinsson utann til Danmarkar til lærdóms frama, hann var þá XX vetra, oc Jón son Ara Magnússonar frá Ögri, oc Björn son Snæbjarnar prests Torfasonar af Kyrkjubóli í Lángadal, oc verdr þessara manna allra sídar vidgètit. Þá giördi landskjalfta stóra frá Allraheilagramessu til Andresmessu, féllu í þeim tveir bæir sudr í Flóa, enn fleiri lestust. Enn hinn XVIda dag Novembris á þridjudags morgun, hrapadi Hólakyrkia giörvöll ofann at grundvelli, í nordan-vedri sterku oc fjúki, hafdi hún þá stadit í CC oc XXX vetr, sídann Pètr Hólabiskup lèt byggia hana, oc var ordinn fornfáguleg miög; hún hafdi gengit úr stad fyrir V vetrum sídann af nordann-vedri, oc verit þá undinn vid aptr; var eptir hrun hennar framit messu-embætti um vetrinn í stórustofunni, fèck biskup ei af at vita er hún var fallinn, fyrir því at menn ætludu hönum mundi falla þat hellst til þúngt, enn hann undradi þat er hann heyrdi aldrei klucknahljódit, oc var þá ímsu vidskotit, er hann spurdi at því; er mælt at á þeirri kyrkju hafi verit XXXVIII glergluggar, XVIII sperrur í kórnum, enn XVI í kyrkjunni, XII í stöplinum; spilltust þau oc miög ornamenta. Þá er vetr kom á, giördi þegar hardt vída, gengu frá XL búendr fyrir austann, at því er Biörn at Skardsá segir, enn sumir telia LX. A Vestfiördum fèll vetrinn þúngt á, med snæföllum, oc jardbönnum, var fè oc færleikar á hey tekit á Marteinsmessu,

enn flestir lógudu saudfè oc lömbum, oc kúm mörgum, enn kostudu út köplum; hefir Sveinn prestr Simonarson ritat þetta um árferdi vestra, enn Biörn at Skardsá nyrdra; hann segir svo, at
1625 þá var kalladr svella-vetr, því jardbönn voru mikil med spillíngarblotum, oc dó allt qvikfè manna vídarst um Island, þat er eigi hafdi hey, enn færleikar átu veggi oc velli, hræ oc hauga, stodir oc stocka; kom ís á Gói oc lá allt til alþíngis, voru oc hvalrekar nockrir; hinn IIIIda Martii kom hláka í fióra daga vestra, enn degi sídar fyrir nordann. Þó giördi fiúk aptr oc hrídir þar til er hálfr mánadr var af sumri, oc fiúkhríd mikil var á Matthiasmessudag, vard þá útí kyrkjuprestr á Mödruvöllum Jón Gíslason, oc kól til bana, oc fleiri menn kól til dauds, enn sumir fengu örkumsl. Vikufiúk giördi þá med frostum oc snjóum er tvær vikr voru af sumri, oc var mikil neyd á mönnum oc fènadi; tveir skiptapar urdu undir Jökli, oc fleiri menn fórust oc druknudu. Þá druknadi Jón Gudmundarson í Vídirness-á hjá Hólastad, enn Sigurdr Arnason at Hrauni í Ölvesi er þá jörd átti, nockru fyrir alþíng. Var þá sótt svo mikil oc manndaudi í Múlaþíngi, at C menn dóu, oc urdu LXX hjónaskilnadir. Þá giördist prestr at Helgafelli Þorlákr Biarnason frá Stockseyri, Sigurdarsonar, Biarnasonar, Torfasonar í Klofa.

## XL Cap. Dómar.

Þessir fóru þá dómar framm, er eg hefi sèd oc mark var at: Halldór lögmadr Olafsson lèt dóm gánga at Hofi, hinn VIIda dag Maii um skatt, at sá skyldi med eydi synja, sem ei vill gialda, ella sekr þrem mörkum eptir Kristinrètti fyrir fiáreydsfall, oc fyrir skatthald at lögum, fyrir alþíng. Voru dómsmenn Sigurdr Markusson frá Hèradsdal, Isleifr Þorbergsson frá Hofi, Jón Olafsson, Eyríkr Magnússon oc Einar Jónsson lögrèttumenn, oc Biörn Magnússon. Enn bádir lögmenn lètu dæma í lögrèttu fyrsta dag Júlii um búsaflcifar er ei skyldi tyunda, oc um tilgiöf; degi sídar geck ómaga-frammfærsludómr at Saurbæ í Eyafyrdi, at forlagi Magnúsar Biarnarsonar, á hendr þeim Benedictsdætrum, födrsystrum hans, Elínu, Arnfrídi oc Þórúnni, átti Elínu Þorleifr son Biarna Oddssonar á Skardi, enn Arnfrídi Dadi bródir hans, oc Þórúnni Þórdr Þorláksson. Dæmt var oc þá um fódra kyr.

## XLI Cap. Herför Kristiáns konúngs.

Kristián fiórdi Dana konúngr hafdi þá farit útí Þískaland í þann tíma, med her, á móti pápiskum mönnum, oc yfirgángi þeirra; þvíad Ferdinand keisari Karlsson undirokadi med herstjórum sínum allann landslíd á Þískalandi er Lútherstrú fylgdi, oc var þar hinn mesti ófridr. Höfdu þeir höfdíngiar er fylgdu lærdómi Lúthers, oc enkum Saxar, tekit Kristián konúng IVda sèr at oddvita, oc setti hann Kristián son sinn yfir ríkinn á medann hann var utannlands; kom þá konúngsbrèf í landit, at lagt væri til strídsins, enn allir formenn þessa lands beiddust þar vægdar á, fyrir fátæktar sakir landsins oc mannfædar; svo kom oc brèf til biskupa, at þeir oc prestarnir legdi nockud Lútherskum prestum, er út voru reknir úr Þískalandi, oc hvergi höfdu hæli. Þar beiddist Oddr biskup einnin vægdar á, qvad presta á Íslandi, ei meiga veslari verda fyrir fátæktarsakir, enn þeir voru. Var þá tekit til at byggia Hólakyrkiu, med rádum oc forsiá Halldóru Gudbrandsdóttr, því hún hafdi þá forrád stadarins, oc var hinn mesti skörúngr, enn hún sendi utann Þorlák prest Skúlason skólameistara eptir vidi, oc var Magnús Olafsson fyrir skólanum á medann, er sídar vard prestr merkilegr í Laufási. Gaf Kristián konúngsson XVIII tylftir Gotlendskra borda, VI tylftir stórbjálka, oc VI tunnr biks. Var kyrkiann oc kórinn mynkat hveritveggia, oc reistr kórinn, oc smídadr, enn settir undir vidir framm-kyrkjunnar.

## XLII Cap. Hèr hefir brennu-öld.

Þorvaldr hèt madr oc var Rögnwaldsson, hann var nylega frumvaxta er hèr var komit, enn bjó seinna á Saudanesi í Svarfadardal, hann var skáld oc haldinn margvís af sumum, vissi hann oc med ólíkindum suma hluti, oc var haldinn áqvædinn, sem þá var trúat um skáld sum, at afl fylgdi liódum þeirra, ef þeir bædi ílls. Jón hèt bródir hans, oc nockru eldri, hönum var þat borit, at hann hefdi vakit upp mann daudann, eda draug, er sækti at pillti á Urdum, oc dræpi þar hesta, oc giördi glettíngar fleiri. Hafdi fiölkyngistrú miög aukist í þeim sveitum, sídann Jón lærdi var

þar nyrdra. Jón bar í móti, Rögnvaldsson, enn blöd fundust hiá hönum med rúnamind nockurri, oc er sagt enginn líkindi önnr hafi fengist í móti hönum, oc at sá tók gud í vitni er fyrir ásókninni þóttist verda, at Jón væri sannr at sök. Jón Gudmundarson bjó at Hellu, oc þá eigi gamall, hann var haldinn fiölkunnugr miög, oc med hindrvitni fór hann, oc var all-illgiarn, var þat hönum eignad at hafa gynnt Jón Rögnvaldsson til slíkra hluta, oc þó ei væri annad til um sök hans enn átrúnad bladanna, oc jafnan voru þeir Þorvaldr oc Jón Gudmundarson óvinir sídann. Magnús Biarnarson á Múnkaþverá, er þá hafdi þar syslu, oc var hinn audugasti madr, lèt taka Jón Rögnvaldsson, oc dæma, oc brenna sídann, var hann fyrstr brendr fyrir galdr á landi hèr, því lög voru þat í Danmörku at brenna galdramenn, oc er sagt at verit hafi bodit fyrir nockrum vetrum at hèr skyldi gylda, enn sannad fæ eg ei at þat konúngsbod hafi híngad komit, ef nockr mælir í móti. Þó var þat tydkat á Finnmörk á dögum Kristiáns fiórda, oc kom skialdann lengra enn í hèrad, oc ei var þat hèr uppspunnit heldr enn margt annad. Enn ótti mikill fyrir fiölkíngi hafdi í þann tíma tekit huga manna, oc var því laungum skiótt at undit. Enn þessa tilburdar gètr Þorvaldr Rögnvaldsson í qvædi því er hann kallar æfiraun, á þann hátt:

Enn sem leid minn aldr, ángrit fèck ei stillt,
bródr báru galdr, berlega þó villt;
hann var ei at því valdr; vissa eg um þann pillt,
allt of miög einfaldr, á þat vid oss skyldt.

Sorgartreginn setsti, sveid um hyggiurann,
bolta á barma festi burdugr syslumann,
dæmdi dóm, ei fresti, daudaverdann hann,
kyndti eld med kèsti, kola svo til brann.

## XLIII Cap. Eldgángr eystra.

Þessi missiri brunnu *XX* hundrud í verdi, at Signyarstödum í Reykholts Reykiadal, þar í skèmmu, er átti Biörgólfr Asgeirsson frá Lundi, er þar bjó. Þá kom vatnahlaup úr Myrdalsjökli annann

dag Septembris, oc isreki austr úr jöklinum, svo umkríngdi Þyckvabæar klaustr oc hjáleigurnar; oc eina fyllti; enn menn komust undann á hól einn háann; oc heimagardrinn vard varinn med guds myskun, oc manndómi þeirra er fyrir voru; enn þar bjó þá Þorsteinn Magnússon syslumadr, bródir Biarnar á Laxamyri, sá er utann hafdi farit einn af fiórum, vitr madr oc göfugr; oc hefir hann giörst fráskyrt hvad hvern dag skèdi. Sídann komu dunr yfir allt, med eldgángi, brakan oc brestum, sem lopt allt mundi springa, oc húsinn hrapa; vard aldrei svo lángt hlè at drecka mætti þorstadryck; enn eldflug svo mikil umhverfis mennina, at svo var at siá sem allir væri í loga einum; sandr oc aska kom svo mikit at huldi gras, enn peníngar þar nálægt fengu enga björg, oc hliópu hamstola med ímsum látum, oc vard hey at gèfa; sumstadar kom sandr oc aska í leggband, sumstadar í ökla, oc þó hellst um tvo hreppa; sló svo yfir myrkvanum, sem vindrinn stód á eptir hönum, oc sá enginn annan, þó í hendr hèldist; var svo á at siá sem eydast mundi bygdinn þar eystra, oc fèll askann austr um allar sveitir, kom oc öskufallit í Biörgvin í Noregi, oc svo miög á skip þau er sigldu fyrir austann landit, at segl þeirra urdu svört sem bik, stódu þessi undr í XII daga, allt til hins XIVda Septembris mánadar. Hafa þar í Skaptafellsþíngi verit at öndverdu bestar sveitir á Islandi, enn slík áföll fengit af jardeldum í hverjum manns aldri, oc eru því meira spilltar oc eyddar, enn hverr hluti lands annar.

## XLIV Cap. Frá ímsu.

Fiórtánda dag Dècembris mánadar andadist Þorkèll Gamlason, Hólastadar rádsmadr; enn á IVda í jólum Ragnhildr Sigurdardóttir í Glaumbæ, af briòstmeini, systir Jóns lögmanns at Reinistad, enn kona Sæmundar prófasts Kárssonar; hún var merkileg kona, at því er Biörn at Skardsá segir, oc er margt manna frá henni komit. vetr var gódr eptir jól, enn hardt vor; oc ísar, oc selafengr á. 1626
Þá urdu skiptapar tveir í Bolúngarvík, oc tyndust XI menn; enn VII menn druknudu í Kópavogi, VI í Lóni. Arni Geirmundarson druknadi í Eyafiardará, oc tveir adrir, oc fleiri menn druknudu. A því vori var reyst yfirgrind framm-kyrkju á Hólum, oc undir

vidir stöpuls; enn biskup lá; oc vígdi Oddr biskup þriá presta þar úr biskupsdæmi, ádr Arngrímr prestr tók vid því starfi. Rádakona druknadi á Bessastödum er Arnbjörg hèt, er hún vildi sækja saudi er flædt höfdu á útskèri. Högni Sigurdarson madr hennar, er sídar bjó í Gufunesi, var ei heima. Þá kom út Þorlákr Skúlason skólameistari, med vid þann er hann hafdi sóktann, oc brèf Kristiáns konúngssonar, um þat, at hann gaf eptir skattinn er beidst hafdi verit; oc annad um konr þær er eigi vildu segia til fadernis barna sinna, at þær skyldu flytiast til Kaupmannahafnar.

## XLV Cap. Fleiri hlutir.

Ari Magnússon í Ögri hafdi ridit nordr, oc vildi hafa umsiá yfir Hólastól oc hans eignum, enn þá gengu rád Halldóru framm, med þess rádsmanns forsiá er hún hafdi kosit, Gudmundar Hákonarsonar á Þíngeyrum, því at hún vildi eigi tilhlutan Ara. Þá bar Ari sig upp um þat fyrir Gudbrandi biskupi, at sèr væri eigi hlídt, eda sínum rádum, oc qvad þat upp at lyktum, at hann mundi heim aptr hverfa vestr; biskup svaradi: hvad annad? þat var ordtak hans optar, oc fór Ari vid þat á braut; enda kom oc sídann samþycki konúngssonar, oc skipan Holgeirs Rosenkrans höfudsmanns, at Haldóra skyldi ráda, sem hún hafdi tilmælst, enn Ari skyldi verda á brottu. Þorlákr prestr kom oc med medöl til handa módrfödr sínum, at forlagi Halldóru, enn hann vildi ecki af hafa. Þá var lítil stjórn í Þíngeyarþíngi; oc gengu þar miög óknyttir yfir oc gripdeildir. Þat vor veyktist Sigurdr prestr í Arnarbæli Oddsson Stephánssonar Gíslasonar biskups, af aflleysi oc málleysi, oc lá þau missiri. Vída voru stuldir miklir, oc var einn madr hengdr undir Jökli, enn drengr hengdi sig at Hlídarenda, er hiddr var oc markadr ádr. Madr hvarf austr í Medallandi er fór á rótafiall, hann hèt Sverrir, hann átti konu þess manns er hvorfit hafdi á rótafialli tveim vetrum ádr, oc ætludu menn at óvætti hefdi grandat þeim. Tvö komu varnarskip frá Englandi, oc lögdu inná Djúpavogshöfn, oc ætludu at taka kaupfar er þar lá, enn er þeir sáu konúngspassann, fórst þat fyrir. Þeir höfdu tokit Vrænîngiaskip í hafi, oc sendt til Englands; enn því voru þeir híngad sendir, at sjóvíkingar giördu þá Englismönnum mikinn skada,

## XLVI Cap. Fráfall merkismanna.

Einar prófastr Sigurdarson í Heydölum, fadir Odds biskups, var þá gamall miög, svo hann skorti III vetr á nyrædann, sem hann segir í æfi-qvædi sínu:

vetr siö, vil eg þat játa,
vel glöggliga telia,
nú í dag nyunda tugar,
af nád guds var eg á ládi.

Var hann þá þremr vetrum eldri enn Gudbrandr biskup, enn hafdi verit prestr í IX vetr hins VIIda tugar, oc átt Olufu Þórarinsdóttr seinni konu sína í IV vetr oc L. Hafdi hann séd mikinn fiölda afkomenda sinna, oc taldi þá alla í æfi-qvædinu; jafnann var hann á fótum, oc svo hinn sídarsta dag er hann lifdi; baud hann þá öllum góda nótt, er í badstofunni voru, oc gèck sídann med studníngi uppí lopt þat er hann var vanur at sofa í, fèll framm sem hann var vanr á sæng sína til bænar, oc lagdist upp litlu sídar, oc sofnadi úr þessum heimi. Hafdi hann veitt Höskuldi presti syni sínum sacramentum nærsta sunnudag eptir Jónsmessu, oc nockrum fleirum, oc var þá siöndapr, enn hann andadist hinn XVda dag Júlii mánadar, oc var Höskuldr prestr sonr hans at Heydölum eptir hann, oc vard gamall. Sigurdr prófastr, annar son hans, oc albródir Odds biskups, at Breidabólstad í Fliótshlíd, lèt þá af stadnum, því Jón prestr son Sigurdar tók vid. Þá andadist einnin Bödvar prófastr í Reykiahollti, Jónsson, Einarssonar, merkilegr madr, oc var grafinn XIIIda sunnudag eptir Trinitatis, hann skorti III vetr á áttrædann, oc hefir hann þá verit vetrgamall, þá Jón biskup Arason fèll frá; hann hafdi fyrst átta Ástu dóttr Pantaleons prests Olafssonar Eyríkssonar, þau gátu X börn samann, eru V nefnd, Jón, Vígfús, Þórdr, Steinvör, Sigrídr. Jón var fyrst prestr at Húsafelli, oc sídann at Ingialdshóli, hann átti Þórunni dóttr Sveins prests Símonarsonar, oc Þórunnar Biarnardóttr Hannessonar; Einar oc Pantaleon, Astrídr, Biarni oc Ingibjörg voru börn þeirra, oc kom ætt frá þeim sumum. Vígfús Bödvarsson hafdi ordit til í Fossá, sem fyrr segir, í þiónustu Jóns Magnússonar á Reykhólum. Þórdr Bödvarsson átti Gudrúnu dóttr

Teits í Asgardi; þeirra börn voru Vigfús, Halldór, er druknadi vid England, oc Katrín, er fólk er frákomit nyrdra. Vígfús átti Steinrídi Vígfúsdóttr frá Asi Eyríkssonar, af Akraætt, oc Gudlaugar dóttr Biörgólfs í Asi, Asgeirssonar prests at Landi. Þórdr oc Þorsteinn, Vígfús oc Sigurdr, voru synir þeirra, oc þriár dætr. Jón var Eyríksson bródir Vígfúsar í Asi, fadir Halldórs prests á Myrum oc Eyríks á Lángárfossi, oc er margt frá hönum. Steinþór var annar Eyríksson er átti Hallbjörgu frá Bæarnesi, oc sonu Eyrík oc Jón; enn er Steinþór var dáinn oc Eyríkr, giptist Hallbjörg ödrusinni Jóni af Nesi Olafssyni Þórdarsonar úr Kèblavík Þórdarsonar prests Asmundarsonar betra bródr Stepháns biskups, voru þeirra synir Olafr, Jón, oc Steindór, er eg hygg födr Eyríks vid Búdir, því nöfn, oc tími oc stadr bera hvergi öll samann annarstadar. Eyríkr prestr í Húsafelli var son Vígfúsar í Asi, er var í Hiardarhollti sídar, oc Olafr sveinn Gísla lögmanns Hákonarsonar, hann var oc gyldr, oc vel at sèr um margt, sem frændr hans fleiri Akramenn; hann seldi Þórdi presti syni Jóns prófasts Gudmundarsonar í Hytardal, sinn hlut í Asi VIII hundrud, oc var hans dóttir Kristín, er Jón prófastr at Stadarstad átti Jónsson, Loptssonar, Arnasonar. Vígfús Eyríksson í Asi hafdi fyrri verit sveinn Ara Magnússonar í Ögri, oc Pèturs Pálssonar á Stadarhóli. Enn Eyríkr fadir þeirra brædra allra var Steindórsson, bródir Finns á Ökrum, oc átti Helgu systr Jóns prófasts Gudmundarsonar. Steinvör dóttir Bödvars prófasts átti Torfa son Ögmundar Hallssonar, þeirra börn voru Vígfús á Hlídarfæti, Ögmundr prestr á Bardaströnd, Oddny er átti Pètr Pètursson frá Gröf í Miklahollts-hrepp, oc Arndys, er átti Einar Illhugason. Sigrídr Bödvarsdóttir var fyrst gipt Gudmundi syni Einars södlasmids Asmundarsonar, vard þeim eigi barna audit, sídann Pètri frá Fellsenda syni Þórdar prests Moldar-Brandssonar, oc bjuggu í Tjaldanesi, voru þeirra börn Gudmundr oc Evphemia. I annad sinn hafdi Bödvar prófastr qvænst, oc fengit Gudrúnar Þorleifsdóttr systr Biarna á Myrum í Dyrafyrdi, var dóttir þeirra Asta, oc giptist Vilhiálmi Vígfússyni frá Kalastödum bródur Orms í Eyum, þeim er seldi Geldíngaá Gísla presti syni Odds biskups; mörg voru börn þeirra Vilhiálms oc Astu. Seinast hafdi Bödvar prófastr fengit Steinunnar frá Búdardal, dóttr Jóns rebba oc Margretar. Hún hafdi fyrri verit gipt Finni Steindórssyni frá Ökrum, bródr Eyríks, oc var módir þeirra

Jóns prests í Melum, Sigurdar prests á Ökrum, oc Steindórs á Ingialdshóli; enn börn þeirra Bödvars prófasts, voru Jón, Finnr oc Solveig. Finnr dó utanlands, sem ádr segir, enn Solveig var gipt Jóni Vigfússyni, er átti Oskhollt oc lèt fyrir Indridastadi; þeirra börn voru Finnr prestr í Vallanesi oc Jón. Jón Bödvarsson var prestr í Reykiahollti eptir födr sinn, oc verdr sagt frá hans ættmönnum sídar.

## XLVII Cap. Annat er vidbar.

Þessi missiri var eigi Holgeir Rosenkrans höfudsmadr í landi hèr, enn umbodsmadr hans Niels Hansson veitti Breidabólstad í Fljótshlíd Jóni presti Sigurdarsyni, eptir födr sinn, sem ádr segir, oc fór þat framm at Hlídarenda. Þá vígdi Arngrímr lærdi tvo presta, enn alls vígdi hann VI. Hinn fyrsta Gunnlaug son Sigurdar prófasts Einarssonar, til Saurbæar í Eyafyrdi eptir födr sinn, hann var fadir Sigurdar prests at Þaunglabacka oc Þorsteins prests; annann Biarna Magnússon at Eyadalsá; Gottskálk hinn þridja Jónsson, at Bardi í Fljótum; Þórarinn hinn fiórda, Olafsson at Bægisá, hann var fadir Þorláks, födr Þórarins, födr Þorláks prófasts at Osi, oc Jóns á Látrum; Þorvard hinn sietta at Breidabólstad í Vestrhópi, son Olafs prests, Erlendssonar prests Pálssonar, Grímssonar at Mödruvöllum; sá Þorvardr prestr átti Valgerdi dóttr Isleifs Ejólfssonar at àustann, oc var all-hardgiör, þeirra son var Olafr prestr, er átti Önnu digru, dóttr Jóns prests í Vatnsfyrdi Arasonar í Ögri Magnússonar, annar Páll, þridji Isleifr, enn dætr Sigrídr oc Secilia, er átti Biarni prestr son Arngríms lærda, þeirra börn voru Arngrímr rádsmadr í Skálhollti, oc Helga, er Þorlákr átti Gudbrandsson. Hinn Vta dag Octobris giördi regn ógrlegt, oc mest fyrir vestann land, hliópu skridr miög miklar, oc urdu vatnaflód svo mikil, at jardir margar oc heil heröd fengu skada af. Skip mikit Þískt kom á adfángadag jóla inná Skagafiörd, oc hafdi rekit fyrir vedrum; þar var á útbúnadr til herskapar, oc grenibord fyrir áhöfn; þat hafdi átt at fara til Spánar eptir sallti; lá þat vid Hofs-ós, oc XXVI menn á því, til XVIda 1627
dags Janúarii mánadar; hèt sá Hans Schulert, er fyrirmadr var,

oc reid til Hóla vid annann mann, oc gisti þar nótt, oc med hönum Biörn Magnússon Biarnarsonar Jónssonar biskups, er þá bjó at Hofi; þeir lètu út, oc brutu skipid vid land utannlands, enn menn hèldust. Þann tíma deidi Brynjúlfr prestr Arnason á Bergstödum, fadir Gísla prests, oc Solveig Gunnarsdóttir Gíslasonar.

## XLVIII Cap. Skadar oc annat.

Þá var kalladr frosta-hardindis-vetr, því áfredar voru oc bjargleysi á landi; enn hlutir voru gódir vestra oc sydra. Þann vetr var stórvidrasamt, giördi sunnannvedr mikit einn midvikudag XXIVda Janúarii, oc aptr VIIda dag Februarii hálfa adra eykt dags; þat var kallad öskudagrbilr; í hinu fyrra vard úti búandi kona á Skagaströnd oc sonr hënnar, enn stúlka á Vatnskardi í hinu sídara, hrakti vída fè, oc brotnudu skip. A sumardaginn fyrsta þóttust menn heyra hliód mikit, oc siá knött einn sem eld fara í sjóinn, oc heyra hliódit til, oc drógu þad samann, at þá var höggvinn madr at Heynesi á Akranesi. VII menn druknudu í Keblavík undir Jökli, enn X í Kyrkiuvogi, X á Kotferiu í Ölvesá; tveir urdu skiptapar á Flángastödum. Skúli prestr Erlendsson í Felli druknadi í Grafará, oc fleiri menn druknudu, eda förust med ödrum hætti ónafnkèndir; konu var dreckt í Dala syslu, er tynt hafdi barni sínu. Þá dó Olafr prestr skáld Jónsson á Söndum, vard hann eigi miög gamall madr, enn hafdi verit heilsulítill lengi; synir þat qvædabók hans, er hann lyktar sextugr oc segir svo: því at eg ætla á enda senn æfina mína kljáda; oc var hann giörhugull í gódum hugsunum. Var þar eptir hann Þorleifr prestr Biarnason Jónssonar í Hiardardal. Gudmundr á Laugum son Jóns Illhugasonar, umbodsmadr þeirra Þorbergs oc Sigurdar Hrólfssona í Þíngeyarþíngi, lèt gánga dóm at Grítubacka hinn XXXIta dag Maii mánadar, oc fríkenndi Magnús prest Olafsson í Laufási fyrir ómaga framfæri, er á hann hafdi dæmt verit, því fè hans var ei meira, fridt oc daudt, enn XXV hundrud, enn XXXVI kúgildi fylgdu Laufásstad. Var Magnús prestr þessi allmerkilegr madr, enn lítillar ættar, oc hafdi fundist í Svarfadardal, er hann var barn á módr sinni daudri milli bæa. Þá var oc Hallr prestr í Höfda, son Olafs prests Arnasonar Pèturssonar, frítekinn frá hinu

sama ómaga-framfæri; hann var kalladr Hallr digri. Magnús Biarnarson lèt dóm gánga at Saurbæ um þiófnadar-rygti; enn á alþíngi var dæmt 1sta dag Júlii um konr þær er tvísaga verda um faderni.

## XLIX Cap. Rán oc hernadr Algiers tyrkia.

Þetta sumar hinn XIIta dag Júnii mánadar, komu víkíngar tyrkneskir frá Algier á Africu til Grindavíkur med skip, oc tóku kaupfar Dana, er þar lá, med mönnum nockrum oc fè, enn kaupmadrinn komst undann á flótta; þeir tóku einnin konu Jóns Gudlaugssonar á Járngerdarstödum, sonu hennar þriá, oc tvo brædr, enn hiuggu hinn þridia til skemda; þann ætla menn verit hafa Halldór födr Jóns lögrèttumanns í innri Nordvík, sá Halldór átti Gudrúnu dóttr Odds prests Oddssonar á Reinivöllum; þeir tóku oc dóttr hennar, segia sumir; VI menn hertóku þeir þar adra; sá madr er sagt at varist hafi þeim vel er Helgi hèt, oc veit eg hvert verit hefir Helgi sonarson Helga Úlfhedinssonar, eda einn sonr Jóns Gudlaugssonar, er tekinn var oc svo hèt. Skip annad danskt fundu þeir úti fyrir Grindavík, er Kaupmannahafnarbúar höfdu sendt á Isafiörd, þat gynntu þeir at sèr med flaggi þess skips, er þeir tóku fyrri, oc hertóku sídann, oc sendu annad med ránsfeng sinn í Barbariam, enn med hitt lögdu þeir ofann fyrir Nès oc innad Seilu. Holgeir Rosenkrans höfudsmadr hafdi þá skip sitt í Seilunni vid Bessastadi, er hann spurdi ránit í Grindavík, stefndi hann þá til sín skipi úr Keblavík, oc ödru úr Hafnarfyrdi, enn hid þridia úr Hólminum duldist inn vid Leiruvoga; lèt hann sídann búa vyrki eda skans í Seilunni, segia sumir væri af fiskaböggum, oc setja á byssr þær er til voru, oc þó heldr til fiar. Þar voru í vyrkinu Islendíngar margir, Þorlákr prestr Skúlason, Jón Sigurdarson, er lögmadr hafdi verit, Þorbergr oc Sigurdr Hrólfssynir, voru þessir at nordann med sínum mönnum. Gudmundr Stephánsson hèt nordlendskr madr er lènsjardir hafdi á Skagaströnd, hann læddist úr vyrkinu, oc misti fyrir þat lènit, oc fèck aldrei neitt aptr. Enn er skipinn sigldu framm at Seilunni, skutu hverir um sig nockrum byssum, Tyrkiar oc landsmenn, oc

stönsudu þá víkíngarnir, er þeir sáu vörnina, sneru vid, oc hittu grunn; stód skipit á kletti, fluttu þeir þá hertekna menn af því á hitt skipit, oc komu svo bádum á brott, oc hèldu undann. Fengu Danir af því ámæli mikit at þeir lögdu ei at þeim er þeir svömludu milli skipanna, oc voru at þeim flutníngum um tvö dægr, þvíat Islendíngum þótti þat audveldt; ætludu menn at höfudsmadrinn mundi enginn garpr vera; var þetta fyrir alþíng siálft, oc reid hann ecki uppá þíngit; enn medann hann dvaldi í vyrkinu var södladr hestr skamt á brottu, ef hann þyrfti undann ad leita; var þá mikill uggr oc ótti um öll sudrnes, konr oc börn, fè oc búsmali, flutt á efri bygd. Þá komu oc Tyrkiar á Austfiördu; er svo sagt, at víkíngaskipinn hafi verit alls XII oc skipt sèr; þeir tóku kaupmannafar í Djúpavogi á Berufyrdi, oc fè allt, oc hertóku menn oc fè um Berufiörd oc Berufiardarströnd; þar var med einn prestr, er bjó at Hálsi, Jón Þórarinsson; enn þeir rændu kyrkjur at Hálsi oc Berufyrdi; þar brenndu þeir stadinn, er Oddr biskup Einarsson átti, oc spilltu qvikum peníngum oc daudum hvar sem þeir máttu, hiuggu oc söxudu fè oc færleika; þeir ráku oc fè oc menn til skips, enn drápu suma oc söxudu; hefir svo sagt Claus Ejólfsson Egilssonar, í riti sínu þarum, at þeir hafi drepit IX menn, enn hertekit XI tygi. Þríu komu víkíngaskipinn sídar í Júlio í Vestmannaeyar, oc fyrst sunnann at eyunum, oc tóku þar enska duggu; þeir fridkeyptu sig er á voru, med því at vísa þeim uppá eyarnar, oc giördi þat hellst Þorsteinn íslendskr madr, er verit hafdi í eyum. Þeir fóru út á þremr bátum hinn XVIIda dag Júlii um qveldit oc runnu upp óvanalegann veg, CCC samann eda fleiri vopnadir, þóttu þeir hellst til brattgengir; þvínærst skiptu þeir sèr í III flocka med raudum merkjum, oc hliópu um alla bygdina med herópi, oc hliódum æsilegum, fóru þeir inní hverja krá oc kima, bördu á mönnum, konum oc körlum, börnum oc gamalmennum, enn drápu sumt, oc hiuggu í smátt, med hverskonar hádungum, oc ráku menn hópum samann sem fè í qvíar, í hin dönsku húsinn; völdu þó úr þat sem þeim leitst vænlegast, oc fluttu á skip sín. Þeir runnu biörg oc hamra sem hinir lèttfærustu biargmenn, oc gripu menn þá alla er þar höfdu falist, enn skutu þá er þeir nádu ecki; urdu menn hellst til forvida, er þeir komu svo óvörum. Þeir fundu Jón prest Þorsteinsson í fylsni nockru, konu hans oc börn oc

heimamönn. Þorsteinn kènndi hann oc mælti: hví ertú nú ecki í kyrkiu þinni, síra Jón? hann svaradi: eg hefi verit þar í morgun; hjó þá Þorsteinn þrem sinnum í höfud hönnum, enn prestr fòl önd sína gudi oc dó sídann; enn konu hans oc börn, oc Olaf prest Egilsson fyrir ofann Leiti med konu hans oc börnum, oc heimamönnum, bördu þeir oc ráku í skip. CC manns oc II hins fimta tugar hertóku þeir, konr oc karla, enn XXXIV fundust daudir; þeir brenndu oc dönsku húsinn, oc þá er þar voru inní, oc veikir voru oc vanfærir, enn Danir komust undann á bátum til meginlands; þeir brenndu oc Landakyrkju til ösku, oc ræntu því er fèmætt var, enn spilltu sumu, fóru þeir þadann med fólkit oc ránsfèd allt hinn XIXda dag í mánadinum, útí Barbariam; rættist þat er Jón prestr hafdi sagt þá er enskir rændu þar ádr, at hann oc adrir mundu láta lífit fyrir annarí árás, ef Eyamenn bætti ei rád sitt. Eptir þat komu varnarskip undir landit, var eitt enskt, enn annat danskt, oc sendu Danir kaupskip á Vestfiördu síd um sumarit, í stad þess er tekit hafdi verit.

## L Cap. Andlát Gudbrands biskups.

I þann tíma gèck landfarsótt þúng fyrir nordann land, oc dóu margir menn. Þá þíngdi Gudbrandi biskupi, oc andadist hann á föstudag um nónbil, hinn XXta dag Júlii mánadar, enn var jardadr V dögum seinna; hafdi hann látit giöra legstein sinn laungu ádr. Hann var biskup í VI vetr hins VIta tugar, oc hefir enginn verit jafnlengi á landi hèr; enn þat var jafnlengi oc Augustus var keisari í Rom; hálf-nírædr var hann at aldri. Arngrímr prestr giördi samstædr eptir hann, oc líkrædu, oc lèt prenta í Hamborg; einnin giördi Þorlákr prestr Skúlason grafletr. Einar prestr Sigurdarson oc Biörn Sturluson höfdu qvedit lof um hann ádr sem fyrri segir, oc Latínuvers Arngrímr prestr, oc Magnús prestr Olafsson, oc enn fleiri. Siálfr hafdi hann giört grafletr sitt á þann hátt: *exspecto resurrectionem carnis, et vitam æternam, Gudbrandus Thorlaci filius, Jesu Christi peccator.* Þat var mynnismál hans: *gaudeo triumphantis ecclesiæ hæreditatis societate infinita.* Er þat einmælt, at hann hafi verit hinn ágætasti biskup, oc hid merkilegasta göfugmenni. Eptir andlát hans fór Halldóra dóttir

hans at Oslandi, oc bjó þar lánga æfi, var hún nafnfræg at bænrækni oc ölmusugiördum. Deilr urdu um arf eptir Gudbrand biskup, vildi Ari Magnússon í Ögri giöra börn Páls Gudbrandssonar arflaus, enn fèck ecki framm komit.

## LI Cap. Frá Arngrími presti, oc biskupskosníngu.

Í Júnio um sumarit hinn XXta oc annann, hafdi andast Solveig Gunnarsdóttir Gíslasonar, kona Arngríms prests lærda; þau áttu samann III börn, Jón, Gunnar oc Helgu. Helgu átti Biörn Magnússon at Bæ á Raudasandi, bródir Ara í Ögri, enn fyrr hafdi hann átta Sigrídi Dadadóttr, Biarnasonar á Skardi Oddssonar, Páll var sonr þeirra Helgu, hann var þá VII vetra er hèr var komit. Jón Arngrímsson átti Olufu dóttr Jóns Sigurdarsonar er lögmadr hafdi verit, þá er fyrri hafdi átta Sigurdr prestr Jónsson at Helgafelli sem druknadi, þau Jón höfdu komit samann at Miklabæ fyrir tveimr árum, oc bjuggu at Ökrum, voru þau miög vansátt; henni þótti hann ecki verda sèr at manni, oc kalladi sèr ei óhætt hiá hönum; skildu þau samvistir oc fór Oluf til bús síns í Vík, enn Jón var á Ökrum; hann reid eittsinn á fund hennar, oc baud henni samvist, enn hún vildi ecki. Þennan tíma var at mestu lokit bygg íngu Hólakyrkju, oc þótti mönnum Halldóra miklu hafa orkat í hördum árum; enn Arngrímr prófastr hafdi til launa fyrir starfa sinn medan hann stód fyrir biskupsdæminu, afgiald af VII jördum Hólakyrkiu. Um sumarit hinn *XXta* dag Augusti, var haldinn prestastefna fiölmenn, at Flugumyri í Skagafyrdi, um biskupskosníngu; var þat flestra manna ætlan, at Arngrímr prófastr, enn enginn annar, mundi kosinn verda til biskups, bædi sakir lærdóms hans, embættis oc aldrs, oc var hann þar fyrstr tilnefndr, enn hann tók siálfr í fyrstu miög at afsaka sig, oc teliast undann svo vandasömu embætti; ætludu sumir at hann mundi þess vænta, at því fastara væri at fylgt; enn Nordlendingar lètust taka þat fyrir fulla alvöru, oc brugdust margir undir hid besta, samþycktust hönum, oc qvádu hann rètt álíta, þar sem hann væri vitr madr oc reindr; lètu því embætti fylgia mikinn þúnga oc erfidi, þó þat væri vyrdulegt, oc kusu því allir med einu rádi Þorlák prest Skúlason; enn þat var raunar, at þeim þótti Arngrímr

prestr rádríkr oc þóttamikill, oc ætludu hann mundi vilia ráda einn öllu, er hann væri setstr í vald mikit; enn Þorlákr prestr var liúfr oc lítilátr, gódlyndr oc gladsinnadr, oc vinsæll af gódum mönnum, oc eigi sídst fyrir sakir módrfödr síns, þar med var hann vel at sèr um lærdóm, álit oc giörfugleika; fór hann þá utann í fiórda sinni í Hofsós, eptir biskups vígslu, oc var þá þrítugr at aldri.

## LII Cap. Siónir.

Þá var í þann tíma ecki tídræddara um adra hluti, enn rán þau hin miklu oc hernad, er verit höfdu um sumarit; af því giördi mönnum stóra hugarburdi, sem þá voru allt haldnar vitranir; svo sem þat er Olafi Oddssyni, fátækum manni sjónlausum, med teikni í andliti, at Hjalla í Höfdahverfi, oc Grímubacka þínghá, vitradi syn mikla þremsinnum, oc var hún uppritud oc undirskrifud af prestum í Laufási oc Höfda; einnin vitradist konu á Akranesi tvisvar hin sama sjón oc vísa; þar þóttust menn oc siá fugl skínanda í loptinu um qveld; var þá frostavetr mikill bædi fyrir jól oc svo eptir. Á þeim vetri hafdi Magnús prestr Pètrsson 1628
Gunnarssonar Gíslasonar, tvær vitranir, eystra, oc Hávardr Loptsson á Sídu, undir Fialli í Kyrkiubæar þínghá, eina mikla er Hávardar vitran heitir; hann var at Asgardi í Landbroti; urdu teikn í Kyrkiubæ eptir vitranina, klucknahríngingar um nótt, oc blódslettr á kyrkiuhurdinni oc fyrir dyrunum, strik oc blódlifrar undir, oc allt var þat heldr ófridlegt; sagdi Gísli lögmadr Hákonarson svo, er hönum var frá greint, at Hávardr hefdi giört strikinn med kálfsblódi. Gudrúnu Sveinsdóttr á Innstavogi á Akranesi dreymdi oc draum, oc fátækann mann undir Eyafiöllum Gísla Þórdarson annann. Þóru Helgadóttr í Kyrkiubæar þínghá vitradist oc sami draumr tveimsinnum, oc þótti öllum sínt at boda mundi hinn mesta ófrid oc refsíngar; enn þat var helst at lesti at þær vitranir skèdu allar eptir hernadinn, enn engar ádr, oc var sídann ecki rænt þat er telja megi hèr vid land svo at menn viti med sönnu, allt á vora daga.

## LIII Cap. Misfarir, oc svo frá dómum.

Þá urdu menn úti med C fiár, vestr í Alvidru, oc fórst allt samann, oc fleiri urdu þá mannskadar; kom ís á gói, hafþök, oc var enginn afli, oc lá lángt á sumar framm, var þá allmikill sulltr oc lítit gras. Vída urdu fátækir menn úti, þeir fóru yfir land, hópum samann, sem lengi hafdi sidr verit, menn urdu oc úti í Borgarfyrdi; Sveinn Jónsson druknadi í Fljótum vid fiórda mann; XI menn á Akranesi, oc ein skipshöfn í Eyrarsveit; þrír menn sudr í Hraunum, oc skipshöfn á Vestfiördum. Ejólfr Fótr drukn-adi vid Geirfuglaskèr vid XIIta mann, oc þrír menn í Eyafyrdi. Oddr Jónsson á Nautabúi druknadi þar í læk er flód kom í med syni sínum, daginn fyrir skírdag, enn á skírdag var mikit fjúk, oc vard úti Þorsteinn Magnússon í Medallandi. Þá var dæmdr merkilegr dómr at Fáskrúdarbacka, oc samþycktr af lögmönnum Gísla Hákonarsyni oc Halldóri Olafssyni um tyundir af konúngs oc kyrkna jördum; enn af Jóni Sigurdarsyni at Sveinstödum í Vatnsdal, um þá menn er afrækja konur sínar; oc svo af Halldóri lögmanni Olafssyni at Vidvík IIIda dag Maii, um afhendíngu, skuldir oc umbod Hólastadar, er Gudmundr Hákonarson hafdi til tals í umbodi Halldóru Gudbrandsdóttr, þar sem Ari bóndi Magnús-son væri ei kominn í fardögum; var Gudmundi tildæmt at taka út landskuldir, oc adrar vitaskuldir med fleiru, oc svo daudt fè á Silfrastödum CXV hundrud. A alþíngi var dæmt um fiárskipti foreldra vid börn sín; oc þat at prestar skyldu hafa af hverju kyrkiukúgildi XII álnir, þat þótti kyrkiubændum ofmikit. Þar var kært fyrir Niels Hanssyni umbodsmanni höfudsmansins, at menn fengi eigi naudsyniar sínar keyptar af kaupmönnum.

## LIV Cap. Frá ímsu.

Um sumarit kom út Þorlákr Skúlason í Seilu sudr á varnarskipi dönsku med höfudsmanninum, vígdr til biskups at Hólum, oc var þat eptir alþíng; hann hafdi tvö konúngsbrèf, annat fyrir því at dómkyrkiann skyldi gialda biskupi vígslufarar kostnad; enn annad at Þorlákr biskup hèldi prentverkit; hann kom til Hóla á Maríu-messu Magdalenæ, oc voru þá hèr vid land varnarskip bædi dönsk

oc ensk. Ecki kom skip á Eyafiörd, enn Hosfós skip skildi við þat í ísi fyrir austann land, oc komst þat til Kaupmannahafnar; var þá Matthias Hansson kaupmadr á Eyafyrdi, enn Just í Hofsós; enginn komu kaupför fyrir ísum fyrrenn eptir alþíng. Kom þá út Olafr prestr Egilsson er tekinn var i Vestmannæeyum, oc hefir ritat bók um ferdir sínar, enn flest annat fólk var hertekit eptir í Algier. Gísli lögmadr Hákonarson var þá umbodsmadr höfudsmannsins yfir Islandi, oc tók at hans bodi Skagafiardar-syslu af Halldóri lögmanni, oc veitti hana aptr Jóni Sigurdarsyni á Reinistad, var þat fyrir skuldasakir, enn þó veitti hann Mödruvallaklaustr Halldóru eldri Jónsdóttr Biarnarsonar konu Halldórs. Arness sysla var oc tekinn af Einari Hákonarsyni, oc hèldu Danir hana sjálfir. Um haustit gèck dómr at Ökrum í Skagafyrdi um hiónaband Jóns Arngrímssonar oc Olufar Jónsdóttr, voru fyrir dóminum Þorlákr biskup oc Halldór lögmadr; þar sór hún fyrir alla menn nema Sigurd prest Jónsson, er hún hafdi ádr áttann, oc tvær konr sönnudu þann eyd med henni, voru þau þá adskilinn med dómi, oc giptust eptir þat bædi; fèck Jón Gunnhildar dóttr Olafs prests Jónssonar þrem vetrum seinna, oc átti margt barna; enn Oluf giptist IIII vetrum sídar Hallgrími á Vídimyri syni Halldórs lögmanns, þeirra börn voru Olafr oc Jón í Vík, Þórunn oc Illhugi. Þau missiri hin sömu qvæntist Arngrímr prófastr ödrusinni, sem þau Jón oc Oluf skildu, oc fèck Sigrídar dóttr Biarna prests at Grenjadarstad Gamlasonar Hallgrímssonar, þeirra börn voru Þorkèll prestr í Gördum fadir Jóns biskups Vídalíns, Þorlákr prestr á Stadarbacka, Biarni prestr á Höskuldstödum er átti Secilíu dóttr Þorvards prests Olafssonar á Breidabólstad; Gudbrandr er átti Ragnheidi dóttr Jóns Egilssonar á Geitaskardi, þeirra son var Þorlákr; Solveig er átti Jón son Jóns frá Narfeyri Arnasonar; þeirra son var Jón prestr á Breidabólstad fadir Asmundar prests, födr Jóns prests oc Þurídar í Gördum. Ingibjörg átti Gísla hinn eldra son Jóns á Fródá Halldórssonar, Jónssonar gamla á Fródá Halldórssonar, oc börn. Hildr var enn Arngrímsdóttir, er átti Jón í Vídidalstúngu Þorláksson Pálssonar Gudbrandssonar biskups, þeirra son var Páll Vídalín. Arngrímr lærdi hafdi verit uppalinn í Vídidal, oc hèt Vídalín fyrstr, oc svo hans ættmenn eptir hann, var hann einna fyrstr þeirra manna, er ætternis nafn tóku

sèr hèr á landi. Þat haust tyndust V menn af skipi sydra, oc voru allir náfrændr. Þá var gèfit út konúngsbrèf annann dag Septembris, um vanbrúkan bænadaga, oc dryckiuskap er menn gengi til altaris, oc skyldi setja út þá menn er eigi skipudust vid ámynníngar; hafdi þá fyrir skömmu madr verit hyddr á Helgastadaþíngi fyrir gudshús vanvyrdi eptir dómi Þorbergs syslumánns. II prestar voru settir af í Austfiördum, Þorleifr Magnússon fyrir ímislegar sakir, enn Illhugi Jónsson frá Presthólum Biarnasonar, bródir Sigurdar prests skáldsins, fyrir galdrarygti. Þorleifr var um þennan tíma prestr til Þyckvabæar, enn sídar at Sandfelli, oc segia sumir hann þá afsettann, laungu seinna, oc veit eg ei hvert sannara er. Þorlákr biskup vígdi fyrst presta sunnudaginn í jólaföstu inngáng, Hallgrím Jónsson, er lengi var sídann í Glaumbæ, oc Gunnlaug Þorsteinsson, hann var prestr senn til Vídimyrar, Flugumyrar oc Hofstada, oc bjó at Vallhollti í Hólmi, var hann hiátrúarmadr mikill, enn annál einn lítinn hefir hann samit.

## LV Cap. Fleira er tilbar.

1629 Vetr sá var gódr frá jólum, enn þá giördi bil XXIIIIda dag Janúarii mánadar, urdu þá úti IX menn fátækir, oc kól til dauda, en örkumsludust fleiri; var mikil umferdinn, oc dó margt í bjargleysi. Hlutir voru miklir í útverum sydra oc vestra, enn hálfr þridji tugr manna tyndist í Vestmannaeyum af tveim skipum, oc X menn af tveimr annarstadar, ödru í Gardi, enn ödru á Seltjarnarnesi. Fiskleysi var þó fyrir nordann land, oc hardt til matar, enn hákallafengr gódr; fleiri urdu mannskadar, enn selum nádu menn á ísi, oc vel heyadist um sumarit. Um vetrinn hvarf Jón Gunnlaugsson í Lögmannshlíd, hann hafdi farit til fiár síns á Glerárdal, oc var vid sel, enn fannst úti daudr er snjó leysti upp. Halldór lögmadr oc kona hans ridu um vorit snemma sudr í Skálhollt, oc bidu þar höfudsmannsins til þess er hann kæmi út oc önnr skip; oc er þat spurdist at hann var kominn, ridu þau til Bessastada, oc Oddr biskup med þeim, oc hittu Holgeir Rósenkrans höfudsmann, hafdi hann komit út á herskipi í Seilunni, oc fleiri voru þá varnarskip umhverfis landit. Þau báru framm eyrindi sín oc afsakanir, oc fèck Halldór lögmadr allar vyrdíngar

sínar oc lèni, med tillögum Odds biskups, oc fyri þat er hann fèck lokit skuldirnar. Enn í þann tíma var rígr med biskupi oc Gísla lögmanni Hákonarsyni, oc þó meiri med sonum þeirra, því biskup oc lögmadr stilltu til á medann þeir lifdu bádir. Þat brautst eitt í milli er kallat var Baugstadamál. Arni Oddsson var uppgángsmadr mikill í þann tíma er hann hafdi rádsmensku í Skálhollti; hann bygdi út stadar-landseta nockrum hluta leigumála síns á Baugstödum á Eyrarbacka, oc fèck hönum aptr hlut af Hólum annari stadar-jördu, enn bygdi þeim manni inn á hlut Baugstada, er Gissr Þorkelsson hèt; kærdi Þorlákr þat fyrir Gísla lögmanni, enn hann tilsagdi hönum leigujörd sína, oc kom þar til samþycki Holgeirs Rosenkrans höfudsmanns, stód nú svo í því um hríd at Þorlákr fèck eigi jördina at heldr. Þá voru prestum dæmdar hálfar leigr edr einn fiórdúngr af hverju kyrkju kúgildi; þat var fyrst giört fyrir prestinn í Miófafyrdi, enn þat gèckst vid í öllu Skálhollts biskupsdæmi; var þat helmíngadómr, oc voru dómsmenn Oddr biskup, Gísli prestr son hans, Páll prestr Erasmusson Villadtssonar, Sigurdr prestr son Odds biskups, Jón prestr Jónsson, Vígfús prestr Illhugason frá Kalastödum Vígfússonar, oc Eyríkr prestr Ketilsson Olafssonar prests frá Saudanesi Gudmundarsonar; lögmenn bádir Gísli oc Halldór, enn lögrettumenn, Þorleifr Arnason, er eg hygg bródr Dada, Eyríkr Sigvaldason frá Búlandi, Olafr Helgason, Rafn Bessason Hrólfssonar, Jón Gissurarson oc Magnús Jónsson; eydvætti fèck þá Illhugi prestr fyrir galdrarygti sitt, oc vann eyd, oc þó í ödru hèradi enn hann var rygtadr, enn fèck þó ei prestskap. Þá lèt Þorlákr biskup Magnús prest Olafsson í Laufási, er verit hafdi fyrri vid skólakenslu oc optar er gètit, setja Snorra eddu á latínu; var sá einhverr hinn fyrsti vidburdr til fornfræda vidreisnar, enn Magnús prestr var lærdr oc skáld gott; hid sama giördi laungu sídar Stephán prestr Olafsson Einarssonar, er hann var í Kaupmannahöfn. Brèf kom þá frá Islendíngum í Algier er hèdann voru teknir; þat sagdi at Tyrkiar hefdi ætlad híngad í III sumr, enn fengit jafnan hindran; þeir höfdu rænt í Færeyum, oc tekit menn, enn brennt bygdina.

## LVI Cap. Frá Bryniúlfi Sveinssyni.

Bryniúlfr Sveinsson hefir nú verit utann í V vetr, oc heyrt lestra doctors Caspars Bartholini síns privati præceptoris, doctors Caspars Brochmanns, oc doctors Olafs Worms, oc fleiri hinna lærdustu manna, oc stundad vel lærdóm sinn; tekit sídann vitnisburdi um þann lærdóm sinn oc lifnat af Rectore magnifico Wolfgang Rhumann, oc Bartholín lærimeistara sínum, er hældi hönum miög; kom hann svo út þetta sumar, oc reid til alþíngs, oc vildi fá vidtöku til embættis nockrs, enn Oddr biskup veitti hönum þá enga áheyrslu; dvaldi hann þá med foreldrum sínum, oc stundadi griska túngu miög.

## LVII Cap. Meidíng Stockseyrar brædra, oc misfarir.

Votvidrasamt var þá eystra um sumarit, oc giördi kaldt er vetradi; medallagi var þó vetrinn til jóla, nema giördi blota oc austannvedr nockra hríd framm til Magnúsdags, enn þadann af útsynnínga med blotum, oc tók fyrir jardir; ei tók heldr upp snió þann er kom á ymbrudögum um haustit. Enn sunnudaginn nærstann fyrir jól kól til bana Sigurd prest Olafsson fyrir austann, þann hygg eg á Refstad verit hafa, oc son hans XVIII vetra gamlann, oc tvær konr frá Stad á Ölduhrygg. Þá fóru þeir brædr Gísli oc Markús synir Biarna Sigurdarsonar frá Stockseyri, frá Fitjum í Skorradal yfir fiall austr, oc ridu, þeir hleyptu hesti sínum ofann í Eyríksvatn, var þá hid mesta frost, svo menn mundu ei slíkt, oc vöknudu þeir á höndum oc fótum er þeir drógu upp hestinn; sídann drucku þeir brennivín, fengu færd illa, oc dösnudust, þartil er þeir sofnudu, oc var þat á Gagnheidi, enn þeir vöknudu vid þat at fætr þeirra voru frosnir, oc fengu þeir þó vellt sèr, oc skridit med harmqvælum, at Svartagili, Þíngvallakoti einu, oc sídann at Þíngvöllum, þar bjó þá Engilbert prestr Nicolásson, oc var hann læknir; voru sagadir af þeim fætr, oc lágu þeir þar lengi um vetrinn, oc gengu á trèfotum alla æfi sídann. Voru flestallir fíngur af Markúsi, oc þó skrifadi hann; var hann fadir Gísla, oc Gudrídar, er hinir tignustu menn eru frá komnir, greifarnir af Rósenkróne, oc Þórdysar á Stockseyri, hún var óvin-

sæl miög. Þau hin sömu missiri deidi Loptr prestr Skaptason at Setbergi, oc Jón prestr í Vestmannaeyum son Jóns prests Egilssonar.

## LVIII Cap. Skálhollts stadr brann.

Eptir jólinn vestnadi vetrinn, oc voru áfredar miklir, kölludu 1630
margir jökul-vetr, oc fèllu þá peníngar manna; fiskleysi var fyrir nordann; mikil var þá snjófergia oc óvedrasamt, oc landskiálftar þrír um vetrinn, svo at VI menn urdu undir húsum fyrir austann Þiórsá. Þann vetr var útgefit konúngsbrèf um hús-bænir, oc annad um þat, at prófastar skyldi, med rádi Odds biskups, kiósa hönum styrktarmann, því hann tók miög at eldast, var þó hraustr. Þá bar öskudaginn uppá Matthiasmessu, oc prèdikadi Oddr biskup, var hann því vanr at prèdika hvern bænadag í föstunni, var allt fólk í kyrkiu, nema kerlíng ein er Gudrún hèt, er sídann var kölluð brenna, hún var inni í stad, oc átti at kynda kakalofnana í biskups badstofunni; hún lèt vidinn í, oc qveikti, ætladi sídann at hlída nockru af predikaninni, fór upp í kyrkju, settist nidr vid undirgángströppurnar, oc fèll í svefn fastann; vissu menn ei fyrri til, enn kyrkiann tók at fyllast med rejk; þustu menn þá út, oc sáu hvad um var, vildu bjarga stadarhúsum, enn fengu ei atgiört, því eldrinn hafdi læst sig miög svo um öll herberginn; brunnu þar upp XIII hús smá oc stór, þylind med lopti er samföst voru, á hálfri annari eykt, oc þar í mikil audæfi, kistr oc klædi, smídad silfr oc húsbúnadr, bækr oc brèf, oc svo visitatiubók Odds biskups, oc enn fleira er ei vard bjargad. Biskup var aleinn eptir í kyrkiunni, oc gèck um gólf alla stund fyrir framann kórdyrnar, þar sem hann var jardadr sídar. Brunnu svo hús í Skálhollti á hinum seinustu missirum, sem hey á hinum fyrstu, er hann var þar biskup. Þar var þá Vígfús Illhugason kyrkiuprestr, bródrson Orms í Eyum. A þeim missirum andadist Brandr prestr í Guttormshaga í Holltum, son Jóns prests Egilssonar.

## LIX Cap. Dómar oc annat.

Þá dæmdi Jón Sigurdarson at Torfastödum um nafnagiftir Vta dag Maii; enn á alþíngi var samþyckt um eydvætti. Þar var oc

dæmt um galdra medferd Gísla Snæbjarnarsonar; oc upplesit kóngsbrèf gefit Gísla lögmanni Hákonarsyni, um þat at synir hans tveir, oc tvær dætr skyldu giptast meiga þrímenníngum sínum; oc um lausn hinna herteknu úr Barbaría, oc enn fleiri. Þá var mannfundr at Ökrum í Skagafyrdi; samdi Halldór lögmadr oc adrir gódir menn med Jóni bónda Sigurdarsyni, oc Arngrími prófasti Jónssyni, vegna Jóns oc Olufar barna þeirra, um tilgiafar ákæru hennar; skyldi Oluf fá XXIIII hundrud í jördu, oc því játadi Jón Arngrímsson. Þorlákr biskup lèt þá prenta Gerhardi hugvekjur, oc hafdi lagt út siálfr. Þá tók Jón Gissurarson skólameistaradæmi á Hólum, enn Vígfús son Gísla lögmanns, er þar hafdi verit, aptr í Skálhollti, med samþycki biskupa beggia.

## LX Cap. Qvonfáng Þorláks biskups.

Þorlákr biskup bad Kristínar dóttr Gísla lögmanns, hún var örlát sem fadir hennar, enn Eggert son Biarnar Magnússonar frá Bæ á Raudasandi hafdi bedit hennar ádr; voru þeir fedgar komnir á leid at Brædratúngu, enn Gísli lögmadr vildi ei vísa biskupi frá, oc reid í veg fyrir þá, oc stillti því svo, at Eggert hugdi af Kristínu, enn fèck heit fyrir Valgerdi systur hennar, er hún væri giafvaxta; var þat endt þrem vetrum sídar; enn biskup skyldi nú fá Kristínar, oc var brúdkaup þeirra haldit at Brædratúngu. Tiöld Þorláks biskups stódu lángt frá bænum nordr í holltum; þángad reid Oddr biskup Einarsson med fylgd sinni, sídann var skipad nidr brúdgumareidinni, er þá var tíd í stór-hófum, á laugardags qveld, heim at Brædratúngu, svo at jafnann ridu þrír oc þrír samsída, med jöfnu millibili, þartil er helmíngr mannfiöldans var af stad kominn, enn sídann tveir oc tveir; seinast ridu biskuparnir bádir heimann af tjöldunum, oc voru þá hinir fremstu komnir heim á stadinn; enn er kom at túninu var öllum mannfiöldanum skipt í tvær radir lángar, oc sátu á hestum allir, var þá sín röd eda fylkíng á hverja hlid heim med trödunum öllum, oc þeir ytstir sem undann höfdu ridit, oc svo hverir at ödrum; voru þeir því meiri háttar sem þeir voru sídar í brúdguma reidinni; enn í gègnum qví þessa rídu fyrirmennirnir heim at stadarhlídinu, oc stigu af hestum; sá þá ecki í völlinn fyrir hestum oc mönnum

er þeir voru stignir af baki; var Gísli lögmadr, hinn mesti höfdíngi oc rausnarmadr, heima fyrir med vina flock sinn, oc bad alla gèsti sína vera velkomna, enn kvadst afskilia alla nordlendska hæversku, því hún var þá hellst nafntogud, oc veitti hid stórmannlegasta, svo ei hefir annat brúdkaup á þeim dögum verit ríkmannlegra hèr, er þó hverki gètit hve lengi veitslann stód, edr tölu bodsmanna, enda er oc hèr ei hermt þó nockr hafi eptirlegit. Var þá í þann tíma mikill uppgángr oc vyrdíng Gísla lögmanns Hákonarsonar. Oddr biskup hafdi verit talsmadr Þorláks biskups, oc vildi hann fyrir elli sakir hvílast heldr í tjaldi sínu, enn í háreysti fiölmennis heima, þegar veitslann var. Einn morgun sem optar, gèck Gísli lögmadr til tialds biskups, at hressa hann, oc spurdi hvert hann vekti? sveinarnir qvádu hann sofa mundi; lögmadr gèck innar í tjaldit oc sá at biskup svaf, lagdi hönd sína á kinn hönum, oc baud hönum gódann dag; biskup vaknadi vid, oc mælti: herra Gísli! nú vaktir þú mig óhentuglega; mig var at dreyma um burtför mína, því lífdagar mínir eru skjótt á enda kljádir; lögmadr giördi gaman af, oc mælti: þid andlegu mennirnir erud jafnann med yckar gudhrædslu; biskup mælti: þá eg em sofnadr, máttú gæta at þínum högum, því ecki mun lángt verda ámilli ockar; enn þess bid eg at þú sèrt vid jardarför mína, oc ausir mig einni moldarreku. Þat hafdi verit litlu ádr at Þorlákr á Baugstödum hafdi kært fyrir Gísla lögmanni, at hann fengi eigi rètt af Arna Oddssyni, oc hafdi hann dæmt hönum svo mikit af Baugstödum sem hann hafdi ádr haft, til þess er löglegar útbyggíngar sakir kæmi; var sá dómr stadfestr á alþíngi, oc dæmdar IIII merkr í dómrof oc VIII merkr í brèfabrot af þeim er hindradi; ei sídr bar Gissr út penínga Þorláks, sló engiar hans, oc heldt fyrir hönum tveimr leigu kúgildum, oc enn fleiru, oc þó med vitund eda rádi Arna Oddssonar; var þá vidbúit at deila sú mundi lengra fara, nema þeir Þorlákr oc Gissr hefdi sættst, at forlagi Arna Oddssonar, oc syslumannsins Bjarnar Grímssonar málara, er sakafallit gaf qvitt; ætta eg þeir Oddr biskup oc Gísli lögmadr hafi alsáttir verit er þeir hittust í veitslunni, enn eldi af þrætum þeim er þeir voru fráfallnir. Var brúdkaup þetta um haustit, oc reid Þorlákr biskup þadann nordr med konu sína; voru þeirra börn Gísli, Þórdr, Skúli, Gudbrandr, Jón oc Elín.

## LXI Cap. Frá ímsu.

Þat sumar hafdi höfudsmadr ecki komit út, oc var Olafr Pètrsson umbodsmadr hans; enn til þíngs reid Brynjúlfr Sveinsson, oc var hann ecki álitinn. Þá brann Hvanneyri í Borgarfyrdi giörsamlega, enn ecki sakadi menn, þar bjó Páll son Gísla lögmanns Þórdarsonar, hann var skynsamr madr oc fríhuga; hann fór um vetrinn med Ingibjörgu Biarnadóttr konu sinni oc barni úngu upp í Skorradal, oc var þar at Vatnsenda med Byrni Gíslasyni; áttu þau Ingibjörg margt barna. Vídar urdu brunar nockrir. Þessi missiri segir Biörn at Skardsá sólar-myrkvi hafi ordit med ímsum litum, grænum, svörtum oc raudum; var mönnum hætt vid í þann tíma at halda alla myrkva á himintúnglum boda nockud, oc þennan því framar sem hann var óvenjulegri, enn med því hann skèdi vid nidrgánginn, meigu litir hellst af dömpum orsakast hafa er jafnann verda utarlega oc nedarlega í dampahvolfi, mest fyrir sjón. Var átrúnadr um himintúngl, at þau bodudu marga hluti, þá svo ríkr um alla nordrálfu, at stjörnumeistarar voru hvervetna haldnir fyrir spámenn vid konúngahyrdir sem annarstadar, oc var tekinn lítit eitt at dofna. Oluf dóttir Jóns Sigurdarsonar, er þá hafdi verit gipt Jón Arngrímssyni, oc nú skilinn vid hann, hafdi haft nordr híngad med sèr frá Helgafelli, eptir þat er hún misti þar Sigurdar prests hins fyrstà manns sins, konu þá er Þorbjörg hèt, oc hafdi vistat hana í Hèradsdal; þar tók hún kránkleika, oc sá á henni þyckt; enn sem konr nefndu vid hana, at barns þyckt mundi vera, duldi hún þess oc þrætti; svo kom at hún vard ei vinnufær, oc var flutt at Reinistad til Olufar, duldi hún jafnann þess at barns þyckt væri med henni, oc kalladi blód, oc svo sagdi hún presti sínum í skriptamálum; sídann tók hún sótt harda, enn kona sú er til hennar skyldi koma, mátti þat ei, hún bad þess svo miög, oc bar sig aumlega; þar eptir dó hún, oc var grafinn, enn tvö meybörn fundust daud hulinn í sænginni. Þá þóttust menn siá draug, edr vondann anda um Eyafiörd, oc höfdu af skèlfingar stórar; Biörn at Skardsá segir svo, at sumir hafi haldit hann upp vakinn med fiölkingi, enn þeir er mest voru audtrúadir, töldu hann haft hafa margskonar herfilega líkíngu.

## LXII Cap. Frá Jóni lærda.

Jón Gudmundarson, er kalladr var hinn lærdi, hafdi um undanfarna tíd búit á Hiallasandi, þar sem hann kalladi í Uppsöndum; hann hèldt þar nockrsháttar skóla, oc komu til hans margir úngir menn er þángad fóru til ródka, oc sagdi hann þeim til í hjátrú oc töfrum; hann ritadi oc rit nockr um þau efni, oc margt um grös oc steina, oc gengu þau alþídu allmiög í augu. Jón eldri Bödvarsson frá Reykiahollti, var þá prestr til Ingialdshóls, hann mótmælti hönum, oc bar á hann sakir um villudóm oc fiölkyngi, sló med þeim í illdeilr, oc tóku menn þat fyrir kunnáttu Jóns, at prestr misti nockrum tíma sídar prestskapinn. Jón hafdi orkt qvædi er hann kalladi fiandafælu, þat skyldi vera vörn í móti Satan, þar er oc gètit um álfa, oc sagdi hann svo um þá í einum stad:

*Hafa þeir bædi heyrn oc mál, hold oc blód med skinni,*
*vantar ei nema siálfa sál, sá er ei hlutrinn minni.*

Qvædi því tók almúgi miög svo í móti, enn Gudmundr prestr Einarson, er þá var at Stadarstad, oc hafdi prófastsdæmi, ritadi í móti því, oc hratt röksemdum Jóns. Var þá litlu sídar vidbúit at Jón mundi verda tekinn, oc vid þat flæktist hann á braut þadann, oc í ímsa stadi, þar til er Gudmundr sonr hans var prestr ordinn, á Hvalsnesi í Kjalarnesþíngi; hann var ecki ólærdr, oc nockuru betri madr födr sínum, enn þó líkr hönum; þángat fór Jón, oc dvaldist þar er hèr var komit, oc hèldt framm ydiu sinni at telja menn á fiölkíngi, oc adra villu oc hindrvitni.

## LXIII Cap. Höfdíngiadaudi.

Oddr biskup vígdi Þórd son Jóns prófasts Gudmundarsonar í Hytardal til prests, XXta oc annan sunnudag eptir Trinitatis; hyggia menn hann ordit hafa Capellan födr síns í fyrstu, því hann giördist blindr, oc ætla Odd biskup hann seinastann vígt hafa, edr med hinum seinustu. A þeim vetri öndverdlega ritadi Oddr biskup Þorláki biskupi, oc kærdi miög í því brèfi, at óskipulega gengi um brauda veitíngar, er sumum veitti höfudsmadr, oc med ímsu

drógu margir framm sinn taum; enn litlu sídar nóttina hins XXVIIIda Decembris, er var affaranótt þridja dags í jólum, andadist Oddr biskup, er hann var vetri betr enn sjötugr, enn biskup hafdi hann verit um einn vetr hins fimta tugar, þremr mánudum fátt í, oc var enginn jafnlengi í Skálhollti; enn er hann var jard-
1631 adr, var Gísli lögmadr Hákonarson staddr vid jardarförina, oc kendi þá sóttar; hann lagdist litlu sídar, oc lá XII daga, oc andadist hinn XIIta dag Febrúarii, er hann skorti II vetr á fimtugann, enn lögmadr var hann í XVII ár, oc kom þat framm er Oddr biskup hafdi þarum ætlat. Helga kona Odds biskups naut nádarárs eptir hann, oc var hún hin fyrsta biskups eckja í landi hèr, er til þess er talinn; hún fór sídar í Hraungerdi, oc var sá prestr hennar oc forrádamadr er Ejólfr hèt, oc seinna var at Lundi í sydra Reykiadal, enn Helga kom aptr í Skálhollt, oc var þar til þess er hún fór at Leirá til Arna; hún var svo nafnfræg at röksemd, örleik oc ödrum kostum, at þat var ordtak margra manna, at koma mundi aptr Oddr biskup edr hans maki í Skálhollt, enn Helgu seint edr aldrei at öllum hlutum. Þó var Oddr biskup harmdaudr vinum sínum, oc þótti mörgum hinn merkilegasti madr verit hafa. Var þá Oddr prestr Stephánsson officialis; enn Helga lifdi sídann lángann aldr. Enn mynd Gísla lögmanns Hákonarsonar er málud í Hólakyrkiu, oc mun vera giör eptir hönum, því hún er í fullum vexti; þar er madr mikill þó skapfellega, krínglóttr í andliti oc þyckr, oc nockud döckleitr, feitr allmiög, í brúnkápu sídri oc knepptri nidr alla leid, spennu á brióstí, hann er þreklegr vid hæd sem líklegt er af holdum, enn hún mundi svara III álnum dönskum ef sæist öll, oc eru fíngr frammmiófir.

## LXIV Cap. Tilburdir oc málaferli.

Vetr sá var í medallagi, var kránkfeldt, oc dóu margir. Þá tyndust VII menn af skipi á Gufuskálum, oc VII á Seltjarnarnesi, þruma laust stafn úr badstofu á Brimnessvöllum, oc vard undir ein kona. Þar rak CCC fiár á sjó, enn LX fiár oc VI færleika á Myrum í nórdannstormi. I Eskíhollti hvarf vinnukona, enn önnr hafdi hvorfit hid fyrra árit. Þá bjó í Búdardal Benedict Þorleifsson Biarnarsonar á Skardi Oddssonar Thómassonar, hann átti Halldóru

Sæmundardóttr Árnasonar á Hlídarenda Gíslasonar, þeirra son var Bergr at Amóti, er rádsmadr var í Skálhollti laungu seinna, fadir Markúsar. Benedict fèck ásvif, oc hljóp hold hans í garda, oc var sem svart eda brunnit, lá hann ímist mállaus eda vitlaus um hríd; hèldt hann draug uppvaktann sèr til meins, oc hafdi hellst einn mann fyrir; þeim manni dæmdi Jón Magnússon syslumadr í Dölum siettar eid, oc vann hann eydinn; fleira vard af slíkum tilburdum. Kona misti bónda sinn í Svarfadardal, oc harmadi hann freklega, enn hafdi heitst vid sonarkonu sína, oc skar hún sig á háls, enn þótti sídann spilla öllum eigum hinnar. Málaferli voru þá oc mörg; vog madr víg í Gardi sudr, Brandr Lafransson bóndi á Gufuskálum, hann laust húsmann sinn er Þórarinn hèt, med lurki eda hlunni oc steinum til bana, var hann dæmdr útlægr til konúngs náda. Presti þeim var fenginn prestskapr aptr, oc veittr Þaunglabacki, er Árni Jónsson hèt, oc fyrir V árum hafdi fallit í hordóm. Var oc ályktat at Flugumyri, um prest einn, er fèll med barngètnadi fyrir vestann, at ei væri utann kyrkiuþiónustu nema III sunnudaga, oc gæfi XXX álnir fátækum. Þá skèdu oc mál Orms á Hafgrímsstödum, oc höfdu stadit lengi, hann var Thómasson, var hann dæmdr útlægr af fiórdúnginum. Jón Sigurdarson lèt dóm gánga um ólögleg kaup at Hvammi, enn Egill Jónsson umbodsmadr hans sídar, at Vindhæli á Skagaströnd, um reka. Egill var son Jóns á Skardi í Lángadal Egilssonar Jónssonar Einarssonar, hann átti Rannveigu dóttr Markúsar Olafssonar í Hèradsdal, oc margt barna, eitt var Jón á Skardi, eitt Gunnlaugr at Gullbrecku fadir Þorvalds, födr Gottskálks, födr Þorvalds prests at Miklabæ, eitt Gudrún kona Þorgríms prests Olafssonar; enn bródir Egils einn var Þorvaldr á Reykjum módrfadir Eggerts á Ökrum. Þá var gott sumar oc grasgèfit; ecki kom Holgeir Rósenkrans höfudsmadr út, því hann lèsti skipit vid Noreg, enn Taxti nyr var bodinn, hardari enn sá er fyrri var; bádu Islendíngar þar vægdar á, oc sögdu hardindi á hafa legit um VII ár, oc fyrir því væri qvikfènadr er landsmenn skyldu fædast á, allvída fallinn hrönnum af órum, þarmed leggist fiskr frá landinu, oc önnr aflabrögd fari svo mínkandi, at menn hafi af hungri dáit, á þeim árum, hellst fyrir nordann oc austann, oc qvádu enn áhorfast til meira áfellis; enn þat fèckst ecki af höfudsmanni edr umbodsmanni hans, at þetta væri borit fyrir konúnginn.

## LXV Cap. Biskups oc lögmanns kosníng.

Þat vildu vinir oc vandamenn Odds biskups oc Skálhylltínga, at Gísli prestr son Odds biskups tæki þat embætti eptir födr sinn, var hann þeim at gódu kunnr, oc þar med skörugleg madr, stilltr oc mælskr oc vel at sèr; bædi var hann miög mikill oc sterkr, svo at þat er til merkja at járnstédja þann hinn mikla í Skálhollti hafdi hann borit í fángi sèr þar umhverfis smidjuna, hvíldarlaust, oc inn í hana; enn prestar tveir er sídar urdu, Jóseph son Lopts prests Skaptasonar oc Kristínar laundóttr Odds biskups, oc Jón son Olafs á Svarfhóli, er kalladr var illi Láfi, Jónssonar Olafssonar, sá er sídann var í Hvammi, er tveggia manna megn hafdi hverr oc þó gyldra, reindu sig vid þann stedja, oc fengu borit hann hverr þeirra um smidjuna med hvíldum, oc eigi inn, enn hann vog VI vættir, eda IX fiórdúnga hins fimta tugar. Þat fundu sumir Gísla presti til at hann væri dryckjumadr. Brynjúlfr Sveinsson kom at vestann í Skálhollt fyrir þíng, var þar lítt at hönum bugat. Vígfús skólameistari, son Gísla lögmanns Hákonarsonar, var hönum kunnugr í Kaupmannahöfn, oc spurdi þat, giördi hann hönum ord at koma til sín at Brædratúngu, oc dvelja med sèr nockrar nætr, heldr enn ráfa um stèttir í Skálhollti svo at enginn sinnti hönum; þádi hann þat þackssamlega. Vígfús var þá enn all-úngr madr, enn þó skarpvitr, vellærdr oc framadr, vildu sumir hann tilkiósa; enn Vestfyrdíngar nefndu til Brynjúlf á alþíngi, því hann hafdi nafn mikit fyrir lærdóm sinn. Brædratúngumenn Vígfús oc Hákon synir Gísla lögmanns mæltu í móti kosníngu Gísla Oddssonar, oc svo Þorlákr biskup, oc þeir adrir er ördugt höfdu átt uppdráttar vid Odd biskup, oc þótti ærinn uppgángr sona hans; voru þeir þá í lögmanns kjörum Arni Oddsson, Þorsteinn Magnússon í Þyckvabæ, oc Þorleifr at Hlídarenda Magnússon, bródir Arna í Ögri; giördi allr Þíngheimr bænir til guds, oc Þorlákr biskup audmjúkann sermon oc lítilátlega bæn, at sá yrdi til lögmanns kosinn, sem best gegndi, var svo hlutat um, oc hlaut Arni Oddsson, vann hann lögmanns eyd sinn á kniám, oc var bedit fyrir hönum; hann hafdi fyrst haft af embættum Arness syslu eitt ár, oc sídann Reinastadar klaustr, enn þá rádsmennsku í Skálhollti; enn vid þennann uppgáng Arna, mæltu margir í móti at hafa Gísla at biskupi framar enn ádr, enn vandamenn Skálhylltínga oc

adrir fleiri fylgdu fast kosníngu hans, oc hlífdust hverki vid Þorlák biskup nè adra er í móti mæltu, var hellst tilnefndr Eyríkr prestr, son Kètils prests Olafssonar prests at Saudanesi, hann fèck sídar Vallanes, oc var diarfordr madr oc einardr, enn biskup yfdi hann til svars, oc fèck af litla vyrdingu; vard frammgeng kosníng Gísla Oddasonar, enn óvild vox mikil med Arna Oddssyni oc Vígfúsi Gíslasyni; samdi þá Oddr prestr í Gaulverjabæ Stephánsson Gíslasonar biskups kosníngarbrèfit í Latinu; hann var hinn lærdasti madr, oc vel til biskups fallinn, enn ordinn þá gamladr miög. Þá var oc Páll Gíslason á Hvanneyri kosinn einnsamann til þíngskrifara, med samþycki beggia lögmanna oc allra lögþíngismanna, enn ádr höfdu sinn haft hverr lögmadr; hann skyldi fá dal af hverjum syslumanni í kaup, oc skrifarapeninga af þeim er fá vildu dómana, fylgdi mest at því Olafr Pètursson umbodsmadr, því höfudsmadrinn hafdi lest skip sitt, oc kom ei út fyrr enn eptir þíng. Fór nú Gísli biskupsefni utann, oc med hönum Kètill son Jörundar Hálfdánarsonar Skálhollts brita, er sídar var prestr oc prófastr at Hvammi í Hvamms-sveit, hann hafdi at mestu alist upp í Skálhollti, oc verit þar heyrari nær X ár, vellærdr madr oc rádsettr, oc reindr frændum Odds biskups at trú oc hollustu; trúdi frú Helga Jónsdóttir hönum best til at fylgia syni sínum. Tók Gísli med sèr bænarbrèf Islendínga til konúngs, á móti hinum nya Taxta, oc lèt aldrei gánga sèr frá hendi, þó þess væri margvíslega leitad af ödrum, þartil er hann fèck færi á at bera þat fyrir konúnginn Kristiân fiórda. Hann predikadi á látinu máli á slotinu fyrir konúngi, sem þá var sidr, enn þess vard hann vís, at hann vard miög affluttr, oc hellst um dryckiuskap; svaradi hann því friálslega, oc bad med undirgèfni konúnginn leggia eigi trúnad á allt þat er af öfund edá óvild kynni til sín mælt vera, fyrr enn satt reindist; qvad þó þat hæfi fyrir sem satt væri, at hann lètst hneigdr til at gledja sig af víni í samqvæmi med gódum mönnum, enn skjaldfenginn matr væri sætr, oc svo framandi dryckr, því hann fengist eigi nema þá kaupmenn kæmi til Islands um hásumar, oc um stuttann tíma, lètst þá oc vilia taka vel vinum sínum; enn öfundarmenn kölludu þat dryckiuskap ef hann yrdi ölglacr um stund. Konúngr svaradi: ef þat er eigi meira enn svo, má þat eigi heita ofdryckia; oc fèck hann brèf fyrir biskups embættinu. Brynjúlfr Sveinsson sá þat hann mundi hèr eigi fá fram-

gáng, oc fór utann hid sama sumar, med rádi oc styrk Þorláks biskups, oc Vígfúsar Gíslasonar, sem enn mun sagt verda.

## LXVI Cap. Hiátrú.

Þat er eitt til merkia um vitranatrú þá er menn höfdu í þann tíma, at Jón Eysteinsson er kalladr var bródir, húsmann Olafs Jónssonar í Hvammi í Eyafyrdi, dreymdi þremsinnum hid sama, enn þordi ei at segia; var hönum alvarlega bodit þat í hinni þridju vitran oc misti hann þá mál um hríd; enn húsbónda hans dreymdi at hann skyldi láta Jón segia synina; vita menn þó ecki til, at hún hafi nockud bodat. Þat dreymdi oc tvo menn austr í Alptafyrdi, er sèd höfdu mánamyrqva mikinn er vard hinn XXIXda Octobris, at sá myrkvi bodadi sótt oc blôds úthellíngu, oc mest hèr í landi. Var slíku af flestum mönnum á lopt haldit, oc ecki rengt at heldr þó þat ósannadist; enn þat var þó ei mjög undarlegt; því at margr slíkr hègomi kom þá upp í Þiskalandi oc Danmörku, oc fluttist þadann híngad í land. Þá brann Húsey í Hólmi med öllu því er þar var, nema mönnum oc qvikfènadi, nóttina fyrir hinn átta dag jóla.

## LXVII Cap. Höfdíngiar oc embættamenn er uppi voru.

Nú viljum vèr ádr enn lengra kèmr, telja nockra þá menn til fródleiks þeim er vita vilja, er oss er kunnugt at uppi hafi þá verit á landi hèr, fyrst yfirmenn oc svo presta, oc í ödru lagi hina helstu af bændum edr ödrum nafnkèndum mönnum; má med þeim einum hætti vita margt um ímsa menn, er eigi kæmi ella fyrir, oc fèlli nidr med öllu, oc þá sèst einnin yfirgrip svo margra manna er samtídis voru. Þorlákr Skúlason at Hólum var þennann vetr einn samann biskup á Islandi; hann fylgdi gódu dæmi módrfödr síns, oc lèt prentá þarflegar bækr, frá því er hann vard biskup; hann tók oc at leggia stund á at koma upp fornum frædum, er at mestu voru undir lok lidinn, oc med hans forsiá oc adstod tók Biörn at Skardsá at rita annál sinn. Halldór Olafsson var lögmadr oc Arni Oddsson; Arni bjó sídar at Leirá. Halldór

átti Halldóru eldri dóttr Jóns bónda Biarnarsonar, módrsystr Arna, þeirra börn voru Benedict, Hallgrímr, Margret, Helga, Sigrídr, Valgerdr. Benedict framadist utanlands, oc ætladi at fá Helgu Arnadóttr, fyrir því útvegadi Halldór lögmadr konúngsleifi fyrir börn sín öll at giptast fiórmenníngum fyrir CCC dali, enn Benedict var syniat; hafdi Vígfús Gíslason tekit at bidja Helgu, oc dó hún þá, enn Benedict fèck Jórunnar dóttr Henriks á Hólmi Gíslasonar lögmanns Þórdarsonar oc Gudrúnar Magnúsdóttr, voru dætr þeirra Þórun, Gudrún oc Ingibjörg. Halldór lögmadr hafdi Skagafiardar syslu, oc var enginn audmadr. Hallgrímr Halldórsson fèck Olufar Jónsdóttr Sigurdarsonar, eptir Jón Arngrímsson, þau bjuggu í Vík í Sæmundarhlíd oc á Vídimyri; Margretar Halldórsdóttr fèck seinna meistari Brynjúlfr; Helgu Páll prófastr Biarnarson, enn Sigrídar Torfi prestr Jónsson frá Núpi Gissurarsonar Þorlákssonar. Jón Sigurdarson á Reinistad, er lögmadr hafdi verit, hèldt Húnavatns syslu, enn Gudmundr Hákonarson frá Nesi Biarnarsonar klaustrit á Þíngeyrum, oc var ágætr madr sem fadir hans er þá var gamall. Magnús Biarnarson at Múnkaþverá hafdi Vadla syslu; Þorbergr oc Sigurdr Hrólfssynir Þíngeyar syslu, oc bjuggu í Skagafyrdi; Hrólfr son Sigurdar var þá frumvaxta. Biarni Oddsson prests Þorkèlssonar hafdi Nordr-Múlasyslu, hann hafdi búit fyrst at Asi í Fellum, oc verit lítt audugr, svo þess er getit at hann hafi eittsinn ei tyundad meira enn V hundrud qvikt oc daudt, oc er þó þá at heyra sem hann hafi verit kominn at Bustarfelli, því annar bóndi er nefndr til í Hofssókn, sem einn hafi verit í skiptitynd med hönum; oc er mælt at eitt vor hafi búslódar mál fallit í Sunnudal, enn þar voru byrgdir, oc hafi Biarni þackat gudi þat er hann legdi sèr til bágstöddum, hann hafdi þó fengit ósnaudt qvonfáng, dóttr Biarnar Gunnarssonar, enn fèsæld hans oc hóf hygg ek væri all-litit; hann lagdi lag vid ókunna menn, oc var annarlegr í háttum, oc stórbrotinn, oc haldinn af sumum einn forn í brögdum; börn þeirra Þórunnar voru Pètr, Þorbjörg, Gróa, Pètr annar, Sigrídr, Ingibjörg, Sigurdr, þat heitir Bustarfells ætt. Þorbjörg átti Eyrík heimska á Fitjum son Odds biskups, þeirra son var Oddr, er fyrstr reit Fitja-annál, enn Jón prófastr Halldórsson umbætti, hann kölludu sumir Odd háa. Pètr annar bjó í Öxarfyrdi oc átti Elizabethu Jóchumsdóttr Mumms fra Keldunesi, Jóhanssonar Mumms Hollendska; var þat miklu seinna er hèr var

komit; Pètr oc hans ættmenn voru miklir vexti, oc stórfengir, oc svo var fleyra kyn Biarna Oddssonar. Þorsteinn Magnússon Arnasonar Pètrssonar Loptssonar, hèldt Þykvabæar klaustr oc hafdi syslu, oc var merkilegr madr, er frá hönum ætt mikill. Þorleifr son Magnúsar Jónssonar, bródir Ara í Ögri, bió at Hlídarenda, oc hafdi Skaptafells syslu, hann var med Þorsteini oc Arna í lögmanns-kjörum, þótti svo vitr madr; hann átti fyrri Gróu Gísladóttr Arnasonar, er sagt er forvitnast hafi um hyrdslr hans forn ar, enn sídann Seciliu dóttr Biarnar á Laxamyri, þeirra son var Þorsteinn. Einar Hákonarson hafdi mist syslu. Erlendr á Hvol |Asmundarson Þorleifssonar lögmanns hafdi oc Rángárvalla syslu, enn ógiörla veit eg hversu lengi um sinn. Biörn Grímsson málari hafdi Arness syslu; Henrik Gíslason á Hólmi Borgarfiardar syslu sunnan á; Jón Sigurdarson Gudmundarsonar Myra syslu, frá hönum er Einarsness ætt. Steindór Gíslason hafdi Snæfells syslu til þess er hann misti, oc fór sídann milli frænda sinna, oc eyrdi hvergi; son þeirra Gudrúnar Einarsdóttr var Jón á Knerri. Jón hèt madr Olafsson er þar hafdi syslu eptir hann, edr var settr fyrir, oc fyrri enn Steindór Finnsson frá Ökrum; hygg eg allt sè einn madr oc Jón son Olafs frá Nesi Þórdarsonar frá Kyrkjufelli, Þórdarsonar prests, Asmundarsonar betra bródr Stephâns biskups, enn sá Jón átti Hallbjörgu dóttr Jóns Þorleifssonar á Bæarnesi, eptir Steindór Eyríksson, oc voru þeirra synir Olafr, Jón oc Steindór, hygg eg sá Steindór væri fadir Eyríks vid Búdir, födr Jacobs. Jón Magnússon á Reykhólum hafdi Dala syslu, oc var ríkmenni mikit, Biörn Magnússon bródir þeirra Þorleifs Bardastrandar syslu; Ari Magnússon í Ögri bródir þeirra Isafiardar syslu, hann var mikill fyrir sèr oc miög hèradsríkr, rausnarmadr mikill, hlutsamr oc fègiarn. Prestar voru þá nafnkèndastir; Arngrímr lærdi fyrir nordann, Olafr prestr Erlendsson á Breidabólstad í Vestrhópi, Illhugi prestr Ingialdsson frá Reykjum Illhugasonar at Tjörn á Vatnsnesi, hann hèldu þeir margkunnugann, Sæmundr prestr Kársson í Glaumbæ prófastr, Magnús prestr Jónsson at Mælifelli, Gissr prestr Gamlason Hallgrímssonar, hann var fadir Jóns skólameistara er sídann vard prestr oc brædra hans, Biarni prestr at Helgastödum, Jónssonar frá Einarstödum Ormssonar; Biarni prestr Gamlason at Grenjadarstad, bródir Gissurar prests oc Þorkèls rádsmanns, Magnús prestr Olafsson í Laufási, Hallr prestr Olafsson digri í Höfda; Biarni prestr

í Fjördum Jónsson prests Þórdarsonar trèfóts. Jón prestr Þorvaldsson á Skinnastödum, hann var fadir eda módrfadir Jóns höfudsmanns er kalladr var, á Oddstödum; Jón prestr Biarnason í Presthólum oc Sigurdr prestr sonr hans. Olafr prófastr Einarsson í Kyrkjubæ bródir Odds biskups, Gissr Gíslason at Þíngmúla, Arni Þorvardsson í Vallanesi, Biarni Ormsson at Kolfreyustàd son Orms prófasts at Kálfatjörn, Höskuldr Einarsson at Heydölum bródir Odds biskups. Högni Jónsson at Stafafelli í Lóni son Jóns prests Egilssonar í Stafhollti, Halldór Kètilsson Olafssonar frá Saudanesi Gudmundarsonar, at Kálfafelli, hann var fadir Arna födrs Halldórs prests at Húsafelli, födr Biarna syslumanns. Magnús Pètrsson Gunnarssonar Gíslasonar at Kálfafelli á Sídu, hann var vída, oc bjó lengi á Hörgslandi, oc hafdi ord á sèr í þann tíma, var hann gáfadr vel, oc haldinn áqvædinn, oc fyrir því var hann beiddr til at sigra Jórunni, er köllud var Höfdabrecku-Jóka; hún hafdi heitast vid dóttrmann sinn, oc dáit sídann, oc ætludu menn hún gengi miög aptr, enn madrinn flúdi úti Vestmannaeyar, oc var þar *XIX* vetr, enn er hann kom í land, dó hann skyndiléga, oc var eignad drauginum. Jón Sigurdarson Einarssonar prests í Heydölum hèldt Breidabólstad í Fljótshlíd, Snæbjörn prófastr Stephánsson Gíslasonar biskups Odda, Oddr prófastr bródir hans Gaulveriabæ, hinn merkilegasti madr; Páll Erasmusson var í Hólum; Halldór Dadason silfrsmids Jónssonar Olafssonar at Hruna, Engilbert Nicólásson at Þíngvelli, Sigurdr Oddsson at Arnarbæli, Bergsveinn Einarsson Hallgrímssonar Sveinbjarnarsonar at Utskálum bródir Gudmundar prófasts. Ormr prófastr Egilsson at Kálfatjörn, hann var þá gamall. Olafr Jónsson prests Krákssonar at Gördum á *Alptanesi*, hann átti hverki konu nè börn. Stephán Hallkellsson Stephánssonar Hallkellssonar á Seltjarnarnesi, þeir frændr voru mikilhæfir, Stephán prestr átti Ulfhildi dóttr Jóns Oddssonar í Reykjavík. Oddr Oddsson at Reinivöllum, hann var læknir gódr oc vel at sèr; Olafr Bödvarsson í Saurbæ, Ejólfr Arnþórsson í Gördum, frá hönum er ætt kominn. Jón Jónsson at Melum, son Jóns prests Þorsteinssonar er Tyrkjar drápu, hann var prófastr oc vel at sèr um vit oc vinsældir, Audun Jónsson at Hesti, Jón Bödvarsson at Reykiahollti, merkilegr madr. Grímr at Húsafelli Jónsson frá Kalmanstúngu Grímssonar; Gunnar Pálsson at Gilsbacka;

H

Sigurdr prófastr í Stafhollti son Odds biskups; Jón Jónsson gamli at Stadarhrauni, Jón prófastr Gudmundarson at Hytardal, Sigurdr Finnsson í Miklahollti, Gudmundr prófastr Einarsson at Stadarstad, Vígfús vid Hellna Helgason Vígfússonar; Vígfús Illhugason Vígfússonar frá Kalastödum at Setbergi, Þorlákr Biarnason frá Stockseyri at Helgafelli, Jón Ormsson at Kvennabrecku, Jónssonar Þorleifssonar, hann var födrfadir þeirra Arna Assessors. Brynjúlfr prófastr í Hiardarhollti Biarnason, Gunnlaugr Biarnason í Saurbæ vestr, Torfi at Hvammi í Hvammsveit, Finnsson úr Flatey Jónssonar Biarnarsonar á Reykhólum Þorleifssonar. Halldór í Gufudal Teitsson Halldórssonar, er bródir var Gissurar biskups; Halldór Biarnason Halldórssonar frændi hans í Selárdal. Gissr son Sveins prófasts Simonarsonar á Alptamyri, hann var vel at sèr í andlegum efnum, enn lítt til búsyslu felldr. Sveinn prófastr Simonarson í Hollti, hann var mikilsháttar madr oc tók nú miög at eldast; Gísli Einarsson bródir Odds biskups í Vatnsfyrdi, Einar Sigurdarson frá Breidabólstad Einarssonar, bródrson Odds biskups at Stad í Steingrímsfyrdi. Torfi Snæbjarnarson prófasts Torfasonar at Kyrkiubóli.

## LXVIII Cap. Fleiri nafnkunnugir menn.

Þessir voru adrir uppi lærdir oc leikir nafnkèndir; Vígfús oc Hákon synir Gísla lögmanns, þeir giördust höfdíngiar bádir. Synir Erlendar Magnússonar er verit hafdi á Skridu klaustri, Henrik, hinn briálsamasti madr, oc Torfi fadir Þormódar, oc Gudrúnar er átti Markús Biarnason fótalausa á Stockseyri; þeir Stockseyrar brædr þar eystra, oc Markús son Snæbjarnar prests Stephánssonar í Odda, hann fèck syslu í Vestmannaeyum, oc átti margt afqvæmi, enn bjó lengi at Asi í Holltum. Þormódr Kortsson danskr at kyni af ætt Simonar Zurbechs, hafdi haldit Kyrkiubæar klaustr. Kort sonr hans átti Þórunni dóttr Hákonar Biarnarsonar at Nesi vid Seltjörn, þeirra son var Þorleifr er enn mun verda gètit. Claus son Ejólfs Egilssonar veit eg ei hvar bjó, fadir Arna oc Þorleifs presta at Gufuskálum. Jón sonr Hannesar Olafssonar bjó at Hvammi í Kjós, hann var fadir Gudrúnar er Sigurdr Núpsson átti seinna. Jón Oddsson bjó í Reykiavík oc átti Þórdysi Hoddbroddadóttr,

þeirra dóttir Ulfhildr er Stephán prestr átti, oc Gudrún er Magnús átti son Eyríks Magnússonar Biarnarsonar Jónssonar biskups, þeirra son var Jón fadir Odds, födr Jóns Hialtalins. Grímr bjó austr í Teigi Einarsson Grímssonar Þorleifssonar á Mödruvöllum. Ormr Vígfússon í Eyum í Kjós, hann átti margt afqvæmi. Isleifr í Saurbæ á Kialarnesi son Ejólfs bónda Halldórssonar, hann átti margt barna, var ein hans dóttir Sigrídr er Jóseph prestr átti Loptsson. Biörn Gíslason bjó at Vatnsenda í Skorradal, enn sídar í Túngu í Hördudal, oc var merkilegr madr. Illhugi Vígfússon bjó at Kalastödum. Brynjólfr son Jóns Eyríkssonar Torfasonar í Klofa bjó at Skardi á Landi, hans son einn var Asmundr á Litluvöllum, fadir Jóns á Reykium födr Hálfdánar; fleiri voru þeir frændr eystra. Páll son Gísla lögmanns Þórdarsonar bjó at Hvanneyri, enn Arni at Ytrahólmi; Arni son Gudmundar Þórdarsonar lögmanns at Hiardarholti, enn sídann at Hredavatni, oc var vel um sig, sem sumir frændr hans, hann átti Þorgèrdi dóttr Tyrfings í Hiörtsey, þeirra son einn var Hákon. Synir Marteins Halldórssonar Marteinssonar biskups bjuggu á Myrum, oc synir Eyríks Steindórssonar, Jón, Steindór oc Vígfús fadir Olafs, födr Kristínar at Stadarstad. Eyríkr bródir Sigurdar prests Finnssonar á Ökrum, bjó at Kálfalæk stóra, oc átti sídann Herdysi dóttr Biörgólfs í Asi Asgeirssonar prests at Lundi. Tyrfíngr son Asgeirs prests bjó í Hiörtsey, hans son einn var Þorsteinn prestr. Steindór Finnsson bjó at Ingialdshóli bródir Sigurdar prests á Ökrum, hann var bartskèri oc vel at sèr, hann átti Gudlaugu laundóttr Þórdar Einarssonar prests at Stad Marteinssonar biskups, hafdi Páll Einarsson bródir Þórdar haft syslunna nockru ádr eina stund, hann var silfrsmidr oc vel þockadr, hann drack hiá Þískum vid Budir, oc druknadi sídann í ósunum, oc hafdi þó sagt þat fyrir ádr. Gudrúnu systr hans átti Steindór Gíslason sem opt hefir sagt verit. Þau börn Steindórs Finnssonar urdu sum líkþrá, enn Þórdr sonr hans bjó at Ingialdshóli eptir hann. Jón Kolbeinsson bjó í Lóni; Jón Þórgilsson bjó á Brimilsvöllum lögrèttumadr audugr, hann átti Helgu dóttr Skapta prófasts Loptssonar, þeirra synir voru Þórgils oc Gudmundr; Þórgils bjó á Brimilsvöllum eptir födr sinn, hann var mikill fyrir sèr, oc fadir Gudrúnar, módr Margretar Magnúsdóttr, módr Magnúsar amtsmanns. Halldór son Gudmundar Gudmundarsonar Hallssonar Olafs-

sonar prests Kolbeinssonar, bjó í Olafsvík, hann var bródir Gudmundar snickara. Ormr Jónsson Þorleifssonar Gudmundarsonar bjó í Dölum, fadir Jóns prests á Kvennabrecku, enn Þórólfr frændi hans, Einarsson Þorleifssonar bjó undir Múla í Skálmarnesi. Gudmundr oc Jón í Stóraskógi Biarnarsynir, Gudmundarsonar Þorleifssonar, þeir seldu födrleifd sína Magnúsi á Múnkaþverá. Pètr at Ballará Einarsson Teitssonar Eyríkssonar í Asgardi Gudmundarsonar, lögvitr madr, oc vel at sèr í andlegum frædum, oc skáld, hann qvad Pontus-rímr, oc qvædi andlegt, þessir voru af ættum Gudmundar Andressonar undir Felli. Biarni son Pètrs Pálssonar bjó at Stadarhóli, hans son var Pètr hinn seinni í Tjaldanesi fadir Biarna ríka; Pètr á Fellsenda oc í Tialdanesi son Þórdar prests í Hiardarhollti Moldar-Brandssonar, hans son var Biarni. Páll var enn uppi, son Erlendar prests Pálssonar, hann var syslumadr vestra nockra hríd, oc dó kynlega er hann reid í Vestfiördu, oc veit eg ógiörla hvert hann lifdi er hèr var komit. Synir Olafs prests hins fyrra á Kvennabrecku Olafssonar Eyríkssonar, hygg eg þá væri enn á lifi, eda nydánir. Eyríkr fadir Eyríks oc Þúrídar er átti Þorgrím byssukyttu, hann var danskr at faderni; þeirra son var Eyríkr, er kalladr var Grímsson, oc börn átti hèr, enn fór til Englands oc qvæntist þar þremsinnum, oc var afburdamadr at afli; launsonr hans var Gunnlaugr, fadir Sveins á Breidavadi. Geirmundr var annar sonr Olafs prests Olafssonar, fadir Jóns oc Olafs, oc Ingvildar er Arnbjörn átti, þeirra synir voru Ejólfr hinn sterki, oc Gudmundr fadir Olafs, födr Jóns á Jörva í Flysiuhverfi. Jón launsonr Pètrs Pálssonar bjó at Vatnshorni í Haukadal, hans dóttir var Ingibjörg er Arnór átti Asgeirsson frá Liáskógum Arnórssonar. Arnór var enn úngr er hèr var komit. Arni frá Vídidalstúngu Loptsson prests Pèturssonar Loptssonar, bjó í Sælíngsdalstúngu oc átti Helgu dóttr Gudmundar Þórdarsonar á Hvoli systr Jóns prófasts í Hytardal, hygg eg hann hafi nú dáinn verit, þeirra synir Loptr í Sælíngsdalstúngu oc Gudmundr. Jón Arngrímsson hins lærda keypti sídann Túngu enn seldi Akra, er hann rèdst at norddann. Þorlákr son Ara í Ögri bjó at Stadarfelli, oc átti Málmfrídi Gísladóttr; Benedict Þorleifsson í Búdardal, enn Oddr bródir hans at Borg sydra, oc átti Gudrúnu dóttr Sæmundar Arnasonar Gíslasonar, Sæmundr var son þeirra er laungu seinna var prestr í Hytardal. Jón Gissursson Þorlákssonar Einarssonar bjó at Núpi

í Dyrafyrdi hinn fródasti madr, enn Eggert Sæmundarson Arnasonar Gíslasonar, at Sæbóli á Ingialdssandi. Eggert Hannesson Biarnarsonar Hannessonar bjó í Snóksdal, oc margt var hans frændfólk í Dölum, oc af systkinum Dada. Magnús son Ara í Ögri er sídar bjó í Reykhólum var mikilsháttar sem frændr hans; Gudmundr Hákonarson bjó at Þíngeyrum, Jon Egilsson at Geitaskardi; Arni son Teits Biarnarsonar Jónssonar biskups at Hofi í Vatnsdal oc at Holltastödum, ènn Biörn Magnússon Biarnarsonar at Bólstadarhlíd, oc Benedict son hans eptir hann; Þorlákr son Páls Gudbrandssonar í Vídidalstúngu, hann fèck lènsjardir á Vatnsnesi, oc átti Kristínu dóttr Jóns Sigurdarsonar, þeirra synir voru Páll oc Jón í Vídidalstúngu. Þorvaldr son Jóns Egilssonar frá Geitaskardi bjó at Reykium í Skagafyrdi, oc átti Þórdysi dóttr Magnúsar Biarnarsonar, þeirra dóttr átti Eggert Jónsson er sídar bjó at Reykjum oc Ökrum. Gudmundr bródir Eggerts oc son Jóns Magnússonar bjó vestr í Hvammi, Gísli bródir þeirra í Reykiadal, oc Sigurdr var einn; hann átti Herdysi Asgeirsdóttr Arnórssonar, þeirra synir voru Asgeir oc Gudmundr. Hrólfssynir bjuggu flèstir í Skagafyrdi. Biörn Jónsson at Skardsá; Markús Olafsson á Breid, hann var flysiúngr mikill; Magnús á Sjáfarborg son Jóns Jónssonar á Ökrum Grímssonar lögmanns. Þorvaldr bjó í Audbrecku, bródir Halldórs lögmanns, hann átti Halldóru yngri dóttr Jóns Biarnarsonar, þeirra börn voru Jón í Audbrecku, Benedict á Vindheimum, Biörn, Dadi; hann átti Steinunni dóttr Pètrs Einarssonar á Ballará, þeirra dóttir var Hilldr módir Þurídar er átti Halldór prestr Hallsson, Olafr, Gudrún, honnar fèck Stephán prestr son Olafs prófasts Einarssonar, Þórun átti Erlend prest á Melstad Olafsson Erlendssonar prest Pálssonar. Sigfús bródir Þorvalds oc Halldórs lögmanns bjó at Yxnahóli; annar Sigfús Olafsson var í Hvassafelli; Hallr Biarnason Pálssonar Grímssonar frá Mödruvöllum bjó í Mödrufelli. Pètr Magnússon Arnasonar Pètrssonar Loptssonar bjó í Vík á Flateyardal, enn Biörn bródir hans á Laxamyri, oc var mikill fyrir sèr, voru synir þeirra roskuir, Arni son Biarnar bjó í Haga. Jón bjó í Hafrafellstúngu Einarsson Nicolássonar Þorsteinssonar, Olafr frændi hans á Hèdinshöfda, margt var þar nyrdra þeirra kynsmanna. Jón Gudmundarson bjó á Siglunesi, hann átti Steinvöru Olafsdóttr, þeirra synir voru Gudmundr á Siglunesi, oc Sveinn prestr á Bardi, oc eru hinar göfugustu ættir frá

þeim komnar. Synir Einars Asmundarsonar voru uppi eystra, oc afkomendr Hrafns í Skordum, þeir voru mikilhæfir, einn af þeim var Rafn Jónsson Rafnssonar, er bjó at Ketilstödum, hann átti deilr miklar vid Olaf prófast Einarsson á Kyrkjubæ, oc ritadi prófastr höfudsmanni um hans athæfi, oc nedan á brèfit qvidlíng þenna:

Ribbalda þessum rid þú burt
med rótum sínum öllum,
svo enginn fái upp hann spurt
á vídlendi nè fiöllum;
Audmjukann planta í hans stad
sem elskar fridinn mæta, oc sambúd sæta,
sèr þad fólkit oc þá mun þad
þinna bordorda gæta.

Var hönum þá leift at setja Rafn í vardhald; enn Stephán son Olafs prófasts var hin mesti vin Rafns, giördi hann varann vid oc kom hönum undann, oc qvad til hans þetta:

Nú vill ecki standa um stafn, stödugann vin at fánga,
þó allir beinist at þèr Rafn! undann skal eg gánga.

Hávardr Loptsson bjó austr í Sídu; enn þó nú megi fleiri telia, þá er jafnmerkilegir voru sem sumir þessara, eda þó einhvérr reinist oftalinn í þann tíma, er nú er komit, læt eg hèr vidnema, oc vænti þeir muni eigi misvyrda, sem kærari er fródleikr enn smásmuglig hótfyndni, oc vita hve torveldt veitir at telja slíkt allt med fullri vissu. I þennan tíma, er nú er komit frásögnum, var miög forbodinn kaupskapr vid útlenda úr ödrum ríkjum.

## LXIX Cap. Frá Bryniúlfi Sveinssyni.

1632 Þar er nú til at taka er Brynjúlfr Sveinsson var í Kaupmannahöfn um vetr; hann tamdi sig þá vid at dispútera eptir því sem Pètr Ramus kèndi, oc giördist í því vel fær; bar þá sva til, at hann átti einhveriusinni at finna nockurt mótmæli Dispútatiu Doctors Brochmanns, er þá var einn lærdastr madr, oc mestr disputator, enn þat var á rædusalnum opinberlega er þar var sem fiöl-

mennast, oc konúngr var vid siálfr oc konúngsættinn öll; þar fèck Brynjúlfr kreppt svo at Doctor Brochmann, oc flækt fyrir hönum, at hann fèck eigi úrgreidt, oc þóttist fá af kinnroda mikinn. Mátti hann varla sídann þola Brynjúlf vid háskólann, því at kapp var þá svo miög tídt í rædum oc meiníngum, enn Brynjúlfr var fáum mönnum eptirbátur í disputatium þá er hann var úngr. Þann tíma kom griskr madr til Kaupmannahafnar, sá er Nicephorus hèt, oc var miög ókèndr þar öllum, hann hitti fyrir Brynjúlf Sveinsson af hendíngu einn samann, oc ræddust þeir vid; kom þá svo at hverr tjádi ödrum á hverju landi var alinn, oc margt annat; hinn griski madr bad þá Brynjúlf vísa sèr til Doctors Johans Resenii, er biskup var í stadnum, oc giördi hann þat, oc kom samann máli þeirra; sagdi Nicephorus biskupi, at þat þætti sèr undr mikit, er á Islandi væri uppkominn slíkr lærdr madr, af svo fávísu fólki oc lítt sidudu, sem hann ætladi at þar mundi vera. Af því vard þat, at biskup baud Brynjúlfi at koma aptr at morgni, til tals vid hinn útlenda mann, svo at hann heyrdi á; Brynjúlfr giördi svo, oc fèck af því veg mikinn, svo at biskup kom hönum til conrectorsdæmis vid dómskólann í Roiskeldu, er þá var hellstr nærst Frúarskóla í Kaupmannaköfn at rètti oc inntektum, ádr enn þær gengu frá hönum seinna, at forlagi Jóhans Baggers biskups, oc var hann til þess skipadr á Dionysiidag, enn sídann vard hann magister artium philosophiæ.

## LXX Cap. Vígdr Gísli biskup.

Gísli Oddsson var vígdr til biskups í Skálhollti á skírdag um vorit, af Doctor Jóhan Pauli Resenio Siálands biskupi oc kom út um sumarit vestr á Þíngeyri í Dyrafyrdi, oc med hönum konúngsbrèf, at hinn fyrri Taxtinn mætti haldast, ef landsmenn keyptu ei vid ófriálsa kaupmenn; var enskum mönnum bannat at liggia hèr vid land, svo enginn yrdi kaupskapr med þeim oc Islendíngum.

## LXXI Cap. Tilburdir.

Þennann vetr druknudu XIV menn úr Landeyum, enn sumir segia, þat væri af skipi er hrakti undann Eyafiöllum, oc ætti Gísli

biskup skipit, er þá var utannlands oc óvígdr, oc Erlendr Asmundarson at Hvoli; vídar urdu mannskadar oc brunar. Þá dó Arni at Eydum Magnússon Vígfússonar, er verit hafdi syslumadr í Múlaþíngi; hann hafdi átta Gudrúnu dóttr Jóns Olafssonar á Svarthóli, oc voru hans börn Vígfús prestr at Hofi oc Sigurdr, Gudrún módir Marteins Rögnvaldssonar, oc önnr Gudrún, er átti Eyríkr prestr Kètilsson, þeirra son var Kètill prestr á Svalbardi fadir Þorsteins prófasts; Þurídr á Ejólfstödum var enn dóttir Arna, oc Helga kona Nicolásar Einarssonar, oc eru frá þeim öllum ættir eystra. Grasbrestr var um sumarit, med votvydri oc stormum, svo hey urdu lítil miög. Þat sumar voru þeir peníngar sendir utann, er almenníngr hèr í landi hafdi lagt út til höfudsmannsins at konúngsbodi til lausnar herteknum mönnum í Algier, enn hrucku þo lítt till, oc komu af því fleiri konúngsbrèf um hid sama sídar. Var þá at þessu sinni samþyckt á alþíngi, at gèfast skyldi fiskr fyrir höfud hvert á landi, enn syslumenn skyldu siá fyrir at þat flyttist í nærstu kaupstadi. Þá foru framm dómar þessir: Jón Sigurdarson lèt dóm gánga um Ær, er Gissr prestr Gamlason heimti af Einari Loptssyni á Fitjum í landskuld oc fyrir húsrof á jördinni, oc var lítit úrgiört; enn lögmenn Halldór Olafsson oc Arni Oddsson, um forlagseyri ómaga, med syslumönnum er þá voru eda höfdu verit; Þorbergi oc Sigurdi Hrólfssonum, Jóni Sigurdarsyni, Gudmundi Hákonarsyni, Rúnólfi frá Einarsnesi Sigurdarsyni Gudmundarsonar, oc Illhuga Vígfússyni á Kalastödum. Olafr Pètrsson umbodsmadr dæmdi at Kópavogi hinn XXta dag Júnii um nidrbrot oc burtfærslu húsa á konúngsjördum. Höfudsmadr kom út eptir þíng. Þegar eptir þíngit, hinn VIta dag Július, ritadi Gísli biskup Oddsson áminníngarbrèf ágætt til prófasta oc presta í öllu Skálhollts biskupsdæmi, at prófastr visiteri hèrad sitt einusinni á ári hverju, oc siái til at allt fari framm kristilega, einninn at prestar afræki ecki lengr at visitera sóknir sínar um Cathechismum, ella missi þeir embættis; skulu þeir lesa hann á öllum sunnudögum, oc útleggia einfaldlega af predikunastóli; felli oc ecki nidr passíu predikanir, nè þá fióra bænadaga er venja var til, á vori, hausti oc midjum missirum. I þridja lagi auglysti hann, at sú væri tilskipan oc bod yfirvaldsins, at prestatyund gyldist af öllum konúnga oc kyrknajördum at óskerdri landskuldinni. Þá fèck Vígfús Gíslason Arness syslu, oc fór frá skólanum í Skálhollti, enn Vigfús

Arnason tók í þann tíma skólameistaradæmi at Hólum. Nú bidr Eggert son Biarnar Magnússonar á Raudasandi Valgerdar, dóttr Gísla lögmanns Hákonarsonar, oc var giört trúlofunar-brèf þeirra oc giafabrèf Eggerts; hann bjó sídann at Skardi á Skardströnd, oc vard hinn audugasti madr. Landsvist feck Brandr sá er á manninum vann á Gnfuskálum. Komu þá enn konúngsbrèf um arfa, oc at lögmanna-eckjur fengii svo nádar-ár sem biskupa. Jens hèt prestr sá er dæmdr var frá embætti, fyrir þat hann vitjadi eigi sjúks manns er hann var qvaddr til. Þá andadist Ormr prófastr Egilsson at Kálfatjörn; lágu varnarskip um sumarit hèr vid land. Gunnar prestr frá Hofi, Biarnarson Magnússonar, gèck þá at eiga Þórunni dóttr Jóns prófasts Gudmundarsonar í Hytardal, þau voru göfug bædi oc gódlát. Bóla gèck um haustit; oc um krossmessu kom sjúk mikit svo lagdi vída undir jörd, oc mundu ei ellstu menn svo mikit snjófall jafnsnemma, urdu menn úti; þá urdu oc landskiálftar um haustit, oc voru þá þegar mikil hardindi á jólaföstu.

## LXXII Cap. Frá Olafi Pètrssyni oc Jóni lærda.

Jón sonr Ara Magnússonar var kominn út fyrir þremr vetrum oc var med födr sínum; enn þennann vetr giördist hann skólameistari í Skálhollti. Þá höfdu nockra stund stadit mál þeirra 1633
Olafs Pètrssonar höfudsmanns umbodsmanns, oc Gudmundar prests á Hvalsnesi sonar Jóns lærda. Prestr hafdi fengit þiónustumeyar Olafs, oc kærdi á hann, at hann hefdi viljad komast yfir hana eptir trúlofan hennar vid sig, oc er þat hefdi eigi dugat, hefdi hann veykt hana med fiölkyngi. Kom þá svo at Olafr lèt stefna Jóni födr hans um fiölkyngi, edr at hann kèndi mönnum hjátrú, því Jón játti því siálfr, at hann hefdi haft stafi nockra til læknínga, oc kènnt ödrum mönnum. Jón strauk á brott, oc nádist aptr, oc var látinn í fángelsi, enn sídann dæmdr útlægr; var hann fluttr til Danmarkar, oc kom sèr þar brádt í kunnleik oc vinfengi vid Olaf Worm, því hann lagdi sig í þann tíma eptir rúnaþeckíngu átrúnadarlaust, enn Jón kunni rúnir, oc kom sèr framm med því, svo at Olafr Worm feck snúit því til leidar, at Kristián Friis

Cancelleri útvegadi konúngsbrèf um, at prófa skyldi at nyu mál hans; enn ádr var þat at Olafr Pètrsson lèt taka prestskap af Gudmundi. Olafr var áseilinn, oc dró mikit fè undir sig, oc bar bædi sakir á landsmenn, oc höfudsmenn siálfa, oc bar þat fyrir konúnginn, lètst öllu mundi betr til vegar koma ef hann rèdi. Hann lèt smída haffæra duggu, oc lèt fiska um sumarit, enn seldi sídann ödrum manni dönskum, sá sendi hana hladna af fiski til Biörgvínar; engar fèck Olafr sannat sagnir sínar, oc reiddi hönum því illa af, sem sídar segir.

## LXXIII Cap. Hvíti vetr.

Sá vetr, er nefndr var fyrir nærstu, giördist hardr miög um allt land, oc dóu þegar hross á jólum, voru spillíngarblotar oc jardbönn, komust engir menn at siónum at sudaustann fyrir ófærdum snióva; hríd ógrleg var á þrettánda, oc vard úti Magnús Einarsson í Ytrahrepp; ís vard mikill á midjum vetri, oc allt framm á midt sumar; enn hafísar komu á þorra, oc lágu vetrinn allann framm at Jónsmessu; ecki vard vitiad kyrkna fyrir ófærdum, hverki af presti nè sóknarmönnum, oc eigi vatnad peníngi nema einu sinni í viku sumstadar; traudlega vard komist milli fiárhúsa oc bæa, fennti fiárhúsinn svo þau fundust eigi, oc svo peníng úti. C hesta fennti á Kialarnesi, enn CLIII færleikar fèllu undir Eyafiöllum, VII lifdu eptir í Skálhollti; vída hröktust hestar í sió, oc voru fiárskadar um allar sveitir, enn heyinn þrutu; í annari viku þorra kaffennti hesta á slèttum velli í einni snjókomu, enn slíkt mundi þá enginn. Bædi átu saudir oc hestar trè oc torfveggi, oc hvad annat som daudt var; fennti þá bæ á ströndum vestr, svo at aldrei fannst fyrri enn um vorit, oc þar í allt fólk andvana, oc mörg urdu önnr fátídindi af snjóvum. Var svo hardt vorit, at flest dó þat er af lifdi vetrinn, oc var vída nær saudlaust oc hesta eptir; kyr lifdu hellst, enn þó var skorit eda fellt af MCC kúa frá Borgarfyrdi austr at Rángá, hyggia vitrir menn at þat hafi verit allr fimti hlutr; var vetr þessi kalladr Hvíti-vetr. Landskiálftar voru sydra, oc hrundu bæir í Ölvesi, enn heyleysi vída um sumarit, oc mest þar sem vetrinn var vægastr, enn þat var nordaustr á landi. Enginn afli var á ísum; giördi þá örbyrgd

mikla, oc lögdust jardir í eydi, því hörd ár höfdu farit á undann. Höfudsmadr kom út oc til alþíngis, oc nefndi XXIIII menn í dóm um galdramál Illhuga prests Jónssonar frá Presthólum.

## LXXIV Cap. Tilburdir.

Þessi missiri var haldit brúdkaup Eggerts Biarnarsonar á Skardi oc Valgerdar Gísladóttr lögmanns Hákonarsonar, fèck þá Eggert mikit fè at erfdum, því Dadi Biarnason Oddssonar hafdi þá andast er búit hafdi at Skardi þángat til, oc átta Arnfrídi dóttr Benedicts ríka Halldórssonar, enn þau voru barnlaus, oc erfdi Eggert; brúdkaupit var haldit at Brædratúngu at Vígfúsar Gíslasonar. Þá tyndist tólfæríngr sá hinn mikli er skúta var kalladr, oc lengi fylgdi Strönd í Selvogi, oc verit smídadr upp hvad eptir annat, oc á XIV menn; hann hafdi alltíd fengit landtöku góda fyrri, enn þá lagdi Gudmundr Pètrsson, er formadr var, hönum í Herdysarvík, Hákon Biarnarson í Nesi átti þat skip, enn III skip lágu úti framm yfir brimit til morguns, voru formenn Þorkèll Jónsson, Gunnar Eyvindarson oc Ormr Eyríksson, oc Jón prestr Pálsson einn háseti, oc gèck þeim vel. Þá öndudust þær systr, dætr Biarnar bónda Benedictssonar, Gudrún er átti Gísli biskup Oddsson, höfdu þau verit samann XI ár, oc vard ei barna audit svo lífdi; oc Sigrídr á Márstödum, er átt hafdi Páll bóndi Gudbrandsson, hún hafdi verit þiád um hríd af bólgu í holdi; þá dó oc Hákon son þeirra Páls XVI vetra, hann kom af þíngi frá Skálholltsskóla, oc ætladi á fund módr sinnar, hafdi tekit sótt á Þíngvelli, enn andadist þá nær var í bygd kominn; var hann þockasæll. Benedict Pálsson hafdi verit í Hamborg, oc lært þar bartskèra íþrótt, fór hann á skipi med Hamborgurum, oc komu at þeim víkíngar Tyrkneskir, oc tóku þá; var Benedict med þeim sídann í þrældómi um hríd. Þá andadist enn Ingibjörg dóttir Arna Gíslasonar, er átt hafdi Gísli lögmadr Þórdarson, hún var þá gömul miög. Þá var ónytíng á heyum, oc segia sumir kallat Baulu-haust, sem venja var er kúm var mjög lógat. Pros Mundt fèck þá lènsbrèf sitt híngat.

## LXXV Cap. Frá ímsu.

1634 Vetrinn eptir var allgódr sumstadar, enn vída hardr, oc íllt vorit, fèll fátækt fólk í húngri, oc vard úti vída, enn þat sókti hellst at siónum er snaudt var, oc dó svo hrönnum; í Grindavík dóu XL, enn í Utskála sókn oc Hvalness sókn CC, oc vanmegnudust miög þeir er fyrir urdu, at búa undir hinum er atkomu; V eda VI hundrada hlutir voru þó á Sudrnesjum. Lèt Þorbergr Hrólfsson dóm gánga at Helgastödum um ómaga, er dæmdist Ingialdi Illhugasyni á Reykjum, oc þeim brædrasonum hans, því Ingialdr lifdi þá einn eptir af Illhugasonum, skyldi Biarni prestr Jónsson á Helgastödum, er átti Hildi Illhugadóttr, flytia ómagann, hennar vegna, í Eyafiörd á sonu Gudmundar Illhugasonar, enn þeir til Ingialds. Þeir voru synir Ingialds Illhugi prestr á Vatnsnesi oc Helgi á Reykjum. Madr var myrdr á Lánganesi, oc flúdi mordínginn. Þá vard lítill grasvöxtr, enn skemdust hey svo peníngr dó at nyu, kom ógrleg rigníng um þíng-maríumessu, svo hverki nyttist hey nè eldividr. Systkin gátu þá barn samann á Skildínganesi sudr, hèt Jón Þórdarson karlmadrinn, hann flídi, enn konann nádist, oc var henni dreckt í torfgröf nærri Bessastödum. Þá hlióp þruma inní lopthúsit í Brædratúngu, er Gísli lögmadr Hákonarson hafdi smída látit, oc braut hyrdslr, oc giördi skada til L hundrada. Þat þótti mönnum þá undarlegt at hún kom hverki nærri krúsum nè gleri, enn spillti öllu því er málmkyniad var oc sterkast. Jón hèt madr oc var Ormsson, hann hafdi verit í Vestmannaeyum, þá er Tyrkiar herjudu þángat, hafdi hann tekit þat bragd, at hann lagdi sig nidr medal hinna daudu, oc þvodi sèr oc vellti í blódi þeirra; ræníngiar stúngu vid hönum spiótunum tvisvar, oc vissu ei annat enn hann væri daudr; enn er hann hafdi legit lengi, oc ætladi þeir mundu á brottu, reis hann upp; þeir sáu hann, enn hann tók á rás, oc þeir eptir, komst hann fyrir björg ofann, oc slapp. Jón þessi stal, oc fannst fólinn, vildu þá þeir er fundu taka hann, enn er þeir komu at hönum, þreif hann kníf, oc skar skinnid á barka sèr, fleigdi sèr svo nidr upp í lopt, oc lèt korra í sèr, enn blód rann um hann allann úr áverkanum, því hann var ei all-lítill; þeim vard bilt vid, oc ægdi, oc gengu frá allir, nema einn, hann sá at þat var prettr, oc herdti upp hina, var Jón tekinn oc dæmdr í Bólstadahlíd, sídann tók hann sacrament-

um, oc bióst vel vid dauda sínum, oc var hengdr undir Svart-hamri í Lángadal. Annar þiófr hèt Gísli; hann oc fadir hans Thómas Þorkèlsson stálu í Húnavatns-þíngi, oc var Gísli hyddr oc markadr, sídann dráp Gísli födr sinn oc myrdi hann, nádist sídann, oc var dæmdr oc drepinn á Laugarbrockn-þíngi, oc bióst ádr hid versta vid sínum dauda. Þá brann bær at Hlídskógum í Höfdahverfi, oc mikit fè, enn hiáleiga í Fnióskadal, oc inni Torrádakona, oc þat er til var, qvikt oc daudt. Hey brunnu at Glaumbæ svo litlu vard biargat, oc köfnudu XIII kyr, enn hiá Byrni at Skardsá V kyr oc qvíga í heybruna. Arni Gudmundarson Þórdarsonar lögmanns bjó þá at Hredavatni, hann ætladi at sækja egg, oc druknadi af hesti. Hákon son hans bjó sídar at Vatnshorni stóra í Haukadal, oc átti Herdysi laundóttr Biarna at Stadarhóli Pètrssonar Pálssonar. Þá kom út í Grindavík brèf frá hinum hertekнu brædrum, Jóni oc Helga, sonum Jóns Gudlaugssonar oc Gudrúnar Jónsdóttr á Járngèrdarstödum. Tók Olafr Egilsson þá at nyu prestskap í Vestmannaeyum, enn brædrasynir hans voru þar prestar eystra synir Jóns prests Egilssonar, er Annálinn reit, oc þó dánir; hefir verit miseldri mikit med þeim Jóni presti oc Olafi presti Egilssonum, enda hefir Olafr prestr gamall verit er hèr var komit. Ejólfr prestr var þá at Lundi í sydra Reykiadal, er fyrri hafdi verit med Helgu eckju Odds biskups; hann var hinn mesti lærari úngra manna. Andadist nú Jón prófastr Gudmundarsòn í Hytardal, oc tók Þórdr prestr son hans vid stadnum, oc var höfdíngi, hann fèck sídar Helgu dóttr Arna lögmanns Oddssonar at Leirá oc Þórdysar Jónsdóttr, fèck hann at erfdum Hól, enn keypti Saudafell, Hiörtsey oc margar jardir adrar; enn Helgu var gefinn Leirá at heimann, voru börn þeirra Jón, oc Þorsteinn at Skardi, oc Gudrídr, er átti meistari Jón Vígfússon.

## LXXVI Cap. Höfudsmanna skipti.

Holgeir Rósenkrans, er verit hafdi höfudsmadr, hafdi þá fengit Gotland til forráda, enn kom út nyr höfudsmadr Pros Mundt af Birkisvolli, Norrænn madr göfugr, oc med hönum konúngsbrèf, um fódranaut oc kúgilda þúnga á Skálhollts jördum, oc umqvörtun alþídu er þar fylgdi med, um útarman fólksins oc rírnun konúngs-

skatta; var med því sveigt at Gísla biskupi, oc svo fleiru ödru, því þá var óvild mikil med sonum Odds biskups, oc sonum Gísla Hákonarsonar. Annat brèf var um Baugstadamál, var talat til Arna lögmanni Oddsyni, at hann hefdi vid verit ridinn sátt þeirra Þorláks Gunnarssonar, oc Gissurar Þorkèlssonar, oc meira hlíft Gissuri, enn slegit nidr konúngssök. Hid þridja var um Botnsmál at Arni lögmadr hefdi eigi giört Jóni Hannessyni lög oc rètt um þá jörd. Hafdi svo brugdit vid utannför Vígfúsar Gíslasonar um sumarit fyrir; kom hann nú út aptr, oc var þá málatilbúnadr mikill, oc þó meira móti Arna lögmanni, því Gísli biskup var spaklyndr, oc gaf sig at minna, þó baud hann sig til andsvara á alþíngi, ef nockr vildi ákæra sig í því efni edr ödru, utanlands edr innann, enn sá kom enginn framm er þat giördi. Kom þá oc út verndarbrèf konúngs, at því er sumir segia, gèfit börnum Gísla lögmanns, oc enn brèf um þat at hórdóms sektir skyldi vægia vid þá er eginkonr edr eginnmenn áttu úti Algier hertekit. Dæmdi þá höfudsmadrinn í Baugstadamáli, milli Arna lögmanns oc Vígfúsar Gíslasonar; oc ödru er Svignaskardsmál var kallad, milli Halldórs lögmanns, oc Henriks Erlendssonar, Henrik hafdi selt þá jörd, oc haft margfaldt brial annad. Sídann fór höfudsmadr utann at því sinni, oc lèt eptir Jens Söfrensson umbodsmann sinn. Eitt konúngsbrèf var um fálka hvíta, er konúngr vildi fá. Þá kom einnin út brèf Benedicts Pálssonar, er hann hafdi sendt til Hamborgar, at hann bad leysa sig med *X* hundrudum dala, oc at hann fengi þarmed CCCC dala til tæripeníngs. Lèt þá Jón Sigurdarson VI manna dóm gánga, hinn *XX*ta oc annann Júlii, at Sveinstödum í Vatnsdal, at bón Þorláks Pálssonar bródr hans, oc dæmdist þeim brædrum Þorláki oc Páli á Márstödum, at verja eignum Benedicts hönum til lausnar, med rádi Þorláks biskups Skúlasonar oc Magnúsar bónda Biarnarsonar, oc þat giördu þeir, oc sendu hönum peníngana ári sídar. Klerkar voru þann tíd miög affluttir, oc misti Einar prestskap vestra, fyrir logna vitnisburdi um sóknarmenn sína oc fleiri sakir; hann var son Gudmundar prests Jónssonar prests í Gufudal Þorleifssonar í Þyckvaskógi; enn Jón prestr Bergsson í Landeyum misti fyrir hórdóm, fèck hann þó aptr fyrir beidni sóknarmanna freklīga.

## LXXVII Cap. Frá Arngrími presti lærda.

Arngrímr prestr Jónsson hinn lærdi hèldt Melstad alla stund medann hann lifdi, enn stundum hafdi hann Miklabæ, oc var prófastr lengi, oc officialis; hönum hafdi konúngr um þat bodit, at safna samann skinnbókum fornum, oc senda Nicolási Krag sagnameistara konúngs, þvíat flesta hluti setti Kristián konúngr fiórdi í stofn; þat giördi hann, oc sneri sumum á látinu, oc tók fyrir afgiöld af Hallbiarnareyri; hann ritadi oc samdi margar bækr; oc fyrst á dögum Gudbrands biskups: útmálan sannarlegs yfirvalds, ágrip um Island, Davids sálm XCIta, yfirskodan Blefkens, er lastadi úr hófi Island; forsvar fóstrlands síns, krossqvedjur Bernhárdi, krossgaungr Hammers, apotriben Calumniæ, litlu biblíu, Crymogæu edr ágrip um alla hina hellstu tilburdi á Islandi, hellst í fornri öld, enn á dögum Þorláks biskups skrádi hann: æfi Gudbrands biskups, sagna tilraun oc landskipun á Islandi, Sálma nockra íslendska, hversdags-spegil sálarinnar, brèf til lærdra manna, enkum Stephaniuss oc Worms; Agrip Noregs sögu; Hróa-sögu hins heimska á látínu; um hliódstafa skipti oc rúnir, oc Logogryphum; hann sneri Jómsvíkínga-sögu á látinu, tók úr Liliu Eysteins þat er páfatrú var í, enn aflagadi nockud vid þat skáldskapinn, því þat var eigi hönum ætlandi, eda nockrum ödrum er þá var uppi, at breyta þarum, oc láta koma annat jafnvel orkt í stadinn; hann qvad oc Arnar rímr, oc ritadi um arf Testamentislaust, oc Grænlands sögu á látínu; hann samdi hana siálfr, enn sídann var hún lögd út á adrar túngr af ödrum, enn ecki kann eg at segia med sannindum í hverri tíd þetta var ritit eda hitt. Þat er enn gáta sumra manna at hann hafi dyktat Refs-sögu. A þessum missirum er nú voru talinn gèck Jón Sigurdarson í Einarsnesi at eiga Helgu dóttr Jóns prófasts Gudmundarsonar í Hytardal, enn þá var Sigurdr son hans frumvaxta.

## LXXVIII Cap. Imíslegt.

Annar vetr þareptir var gódr, oc hlutasamt sydra oc vestra; þá 1635
druknudu XIV menn af tólfæríngi í Vestmannaeyum, enn þrír eda fleiri á Vatnsleysu-strönd; vedrátt var þann vetr best í uppsveit-

um; enn þó felldu menn peninga, því at miög voru lítil heyinn; var þá enn húngr oc hallæri, enn bættist þó af hlutatekjum gódum. Var daggasamt um vorit, oc framm yfir hvítasunnu, oc spilltist af því fiskr mestr allr, svo þá var kallad melltínga vor, enn grasár giördi þá, oc nytíngu góda. Oöld var mikil af þiófnadi, voru tveir menn hengdir í Gullbríngu-syslu fyrir stuld, oc var þá Jens Söfrensson umbodsmadr á Bessastödum, enn drengr XVIII vetra var hengdr í Eyafyrdi; þar átti Hallr Biarnason í Mödrufelli í málum vid Jón Teitsson; kona var hengd í Snæfells-syslu, önnur hýdd oc mörkud; enn í Ölvesi voru stórþiófar á Nesjum í Grafníngi, oc var einn hengdr; fleiri voru slík ótídindi; madr vard at bana födr sínum í Eyafyrdi í áflogum, annar myrdi barn sitt undir jökli, oc kona í Dala-syslu, henni var dreckt. Nautadaudi var brádr oc næmr miög á Fjalli á Skeydum, enn Biörn at Skardsá segir hann yrdi ári sídar; brunnu oc bæir; einn í Vopnafyrdi, oc VI börn inni, oc kona þúngud; menn druknudu, oc ei all-fáir, oc voru hrakfarir á skipum. Jón Sigurdarson lèt þá dóm gánga í Bólstadahlíd um arfsal hinn XXIVda dag Aprílis, enn Jón Magnússon um ótyundad fè þess er átti eptir sig VII hundrud; þá var oc dæmt at hreppstjórar setji nidr eptir vild sinni, oc um ómagaflutníng sídan á alþíngi, sem enn mun greint, ódals úppbod, tyund bús-afleifa, oc ótyundad fè fátæks manns, einnin um undanfæri undann áburdi óærlegs manns. Arni Oddsson lögmadr hafdi þá Borgarfiardar-syslu, oc lèt dæma at Bæ, um fódrpeníng þann er skilad er heim at midjum vetri, þó full fúlga væri fyrirkominn. Þá þóttust menn siá orm edr ófreskju optsinnis í milli Oddgeirshóla oc Arnarbælis í Hvítá.

## LXXIX Cap. Fráfall Jóns Sigurdarsonar, oc annara.

Hinn XXVIta dag Maii mánadar, andadist Jón Sigurdarson á Reinistad, er fyrri var lögmadr, var hann sjötugr at aldri, oc hafdi haldit Reinistad III vetr hins IVda tugar, enn XIII ár var hann lögmadr, oc hèldt syslr alla æfi; hann hèldt Stapa umbod oc syslu í III ár med Reinistadar klaustri oc Skagafiardar-syslu; var þá landfarsótt med taki, oc dóu margir menn aldradir. Jón Sigurdarson, er átti Kristnes, dó þá, oc gèck einnin hettusótt; andadist

margt stórmenni, oc mest í Vestfiördum; þar kom út bóla, oc var ei miög mannskæd, sem sú er þá hafdi verit fyrir XIX árum, andadist úr henni Magnús bóndi á Reykhólum son Ara í Ögri, hann átti Þórunni dóttr Jóns Vígfússonar á Galltalæk, er köllud var hinn ríka, oc fyrri hafdi átta Sigurdr son Odds biskups, er druknadi; Sigurdr var son þeirra, er sídann bjó at Skútustödum vid Myvatn, oc Ragnheidr dóttir, er átti Biörn son Páls Gudbrandssonar; af þeirri bólu deidi einnin Magnús á Hóli í Bolúngarvík Sæmundarson, Arnasonar, Gíslasonar, hann átti Sigrídi Þorleifsdóttr frá Búdardal, systr Benedicts oc Odds. Arni prestr í Vallanesi Þorvardsson Magnússonar andadist þá, oc fèck þann stad Eyríkr prestr Kètilsson, er fyrri er gètit. Gísli hèt prestr oc var Þorvardsson, hann misti prestskap fyrir þat hann las ei helgunar ord yfir braudi oc víni á páskadegi.

## LXXX Cap. Alþíngisgiördir oc fleira.

Þat sumar kom út Pros Mundt höfudsmadr, oc ályktadi á alþíngi um arf Gudbrands biskups, eda hvad barnabörn hans skyldu medtaka, medann dætr hans lifdu tvær; oc er margir vildu braut fara af þíngi, baud hann opinberlega, at þíng skyldi standa þartil er málum væri lokit, oc baudst til at lidsinna þeim mönnum öllum til rèttinda, er undir hans dómi vildu eiga; enn adrir qvádu eigi fært at bída svo lengi fyrir hallæri því er þá var; segir sumstadar þat hafi verit sumarit eptir Hvítavetr, oc fær þat ei stadist; annarstadar at verit hafi annar sumar, oc er nockru líkara, enn vèr látum þat vera hid þridja, þartil er annad fæst med sönnu; þar lèt Halldór lögmadr dóm gánga hinn XXXta Júnii, med Sigurdi Markússyni frá Hèradsdal, Bergþóri Sæmundarsyni Kárssonar, Steindóri Finnssyni á Ingialdshóli, Olafi Jónssyni, Eggorti Jónssyni Magnússonar, er sídar bjó at Ökrum, oc Pètri Einarssyni á Ballará, um fylgdarleysi á Biörgu Olafsdóttr, er fórst milli bæa XIII vetra; var manninum, sem hún fór frá, dæmd VI marka sekt eda refsíng; einnin at þarflausir aurar, líntjöld, óbrúkanlegt qvennsilfr, oc slíkt, falli til þridjunga í ómaga framfæri; engum meinist hiónaband fyrir fátæktar einnar sakir, oc at hreppar erfi flöckumenn,

oc taki fyrst af fé þeirra fyrir tillög sín, undann ödrum skuldum. Arni lögmadr var annarsvegar fyrir dóminum, oc med hönum Jón Vígfússon frá Kalastödum, Thómas Einarsson, Jón Þorkèllsson, Claus Ejólfsson Egilssonar, oc Torfi Erlendsson, bródir Henriks, sá er sídann var syslumadr. Þeir dæmdu oc um deilr Jóns Kolbeinssonar í Lóni, oc Jasonar West, hann var enskr, oc voru ímsar greinir med þeim; þar voru med Arna lögmanni dómsmenn, Claus Ejólfsson, Olafr Helgason, Bárdr son Gísla Didrikssonar Þorsteinssonar Sighvatssonar, hann giördist lagamadr gódr, oc var fadir Þórdar prests sem samdi bænirnar, Sveinn Rúnólfsson, Indridi Jónsson, oc Gísli Brynjúlfsson Jónssonar Eyríkssonar Torfasonar í Klofa. Enn med Halldóri, Sigurdr Markússon, Eggert Jónsson, Steindór Finnsson, Gudmundr Jónsson, Vígfús Olafsson, oc Biarni Hrólfsson úr Skagafyrdi; enn lètu lögmenn dóm gánga hinn IIIda Júlii, um margar sakargiptir oc íllar er Magnús Arason á Reykhólum hafdi borit á Einar prest Gudmundarson, logna vitnisburdi, flækíngu manna vid fiölkíngi oc annad fleira. Þar voru dómsmenn med Arna, Ormr Vígfússon í Eyum, Jón Vígfússon bródir hans, Erlendr Asmundarson á Hvoli, Þorsteinn Magnússon, Snorri Asgeirsson Hákonarsonar, hann bjó at Varmalæk, oc var fadir Gunnlaugs prests, er sídar var á Stad á Reykjanesi, Jón Þorkèllsson; oc med Halldóri, Sigurdr Hrólfsson syslumadr, Rúnólfr Sigurdarson frá Einarsnesi, Nicolás Einarsson Nicolássonar Þorsteinssonar, hann bjó at Hèdinshöfda nordr oc átti miög mikit afqvæmi í Þíngeyarþíngi, Bergþór Sæmundarson Kárssonar, Pètr Einarsson á Ballará; vard ei útkliád um þat mál, því Halldór lögmadr þíngadi um þat seinna á Berufyrdi, enn sídarst kom þat undir XXIIII manna dóm á alþíngi. Þar var álýktat at flytjandi eyri einn mætti í skatt gialda, því Jón Magnússon spurdi hvert rètt væri goldit at vísa í hey eda skóg, hygg eg hann byggi þá í Haga á Bardaströnd. Margt kom þar annad fyrir. Þar var lýst útlegd Jóns Gudmundarsonar lærda, oc Eyríks Sigurdarsonar, er fargat hafdi barni sínu vestra; upp var lesit konúngsbrèf til höfudsmannsins, er í var bodit at selja á burtu af jördunum öll þau kúgildi er fleiri voru, enn at fornu höfdu verit. Eptir því spurdi höfudsmadrinn í lögrèttu, enn fèck eigi svar af alþídunni; þá mælti Vígfús Gíslason, oc qvadst hafa sendt utann á því hausti er næst leid, skilríki fyrir því med nordann skipum, at á dómkyrki-

unnar jördum í Arness syslu væri fleiri kúgildi, enn jardabókinn hèldi. Þau voru þar lesinn upp, oc var biskup bedinn at gèfa þar svar til; lagdi þá Gísli biskup þegar framm nockra vitnisburdi stóls landseta, er þat sögdu, at þó þeir hefdi nú fleiri kúgildi med böndum enn innstædu jardanna, væri þat í þörf siálfra þeirra, oc ei lètust þeir fá svo mörg sem þeir vildu; fyrir þá sök at þeir hefdi mist málnytu sína í hardindum þeim er þá höfdu verit. Annad konúngsbrèf var um rekann á Þorlákshafnarskeydi, millum Gísla biskups Oddssonar vegna Skálholltskyrkju, oc Vígfúsar Gíslasonar vegna Hrauns í Ölvesi, er þá átti frú Gudrún Jónsdóttir módir hans, samdist þat mál svo fyrir medalgaungu höfudsmannsins, at á tilteknu rúmi á skeydinu skyldi dómkyrkiann eignast öll trè VI álna oc lengri, enn Hraun þau er styttri væri; ecki urdu þeir Arni lögmadr oc Vígfús Gíslason sættir. Hid þridja konúngsbrèf var um biblíu prentun þá, er Þorlákr biskup Skúlason hafdi fyrir hendi; hann lagdi hana út eptir hinni dönsku útleggíngu Resenii biskups í Siálandi, oc hafdi mikinn kostnad fyrir at prenta; baud konúngr at af hverri kyrkiu skyldi gèfast dalr, oc at lènsmenn, fógetar oc kyrkiuhaldarar, styrktu þar til at greiddist; þó gèck þat erfidlega. Þarí var oc prentaranum veitt Gnúpufell til uppheldis. Lèt Þorlákr biskup prenta ordinantiuna þessi missiri. Hid fiórda konúngsbrèf var um barnalærdóm, at klerkar fylgi hönum fast, oc lesi nockud upp af hönum, á sunnudögum eptir predikun, kalli einninn börninn fyrir sig, oc yfirheyri, enn sæti ákæru, ef eru hyrdulausir; einnin at prófastar ámynni presta, enn svari sök ella. Hid fimta var um at prestar haldi engum frá sacramenti þó brotlegir sèu, oc fèlitlir til at svara sektum fyrir hórdóma oc þvílík brot, ef þeir syndu þó ydrunarmerki; þar í var bannad hardlega, at lènsmenn eda fógetar keyptu ódöl, eda at bændr gæfi þeim jardir oc jardarparta, til málafylgis, oc leiddi þat á sumann hátt af frammferdum Olafs Pètrssonar á landi hèr. Hid VIta var um þat, er konúngr gaf CC dali til ritníngar prentverks, oc fleira er höfudsmanninum var umbodit. Hid VIIda um konr er drepa börn sín; áttunda um fódra naut; eptir þat fór höfudsmadrinn utann. Miög bar í milli Þorláki biskupi oc erfíngium Gudbrands biskups ödrum, um Hóla prentverk; hann vildi þat fylgdi dómkyrkiunni af því, at Gudbrandr biskup hafdi svo

atqvedit at vera skyldi vid Hóla, ef Páll fengi ei medfarit, oc hafdi Þorlákr biskup fengit konúngs stadfestíngu uppá sinn frammburd; enn þeim þótti Páli ánafnad, ef hann hefdi tilendst, oc þá einnin ödrum erfíngium Gudbrands biskups, oc eldi af þessu lengi. Fèck nú Gudmundr Hákonarson á Þíngeyrum Húnavatns-syslu aptr, eptir Jón Sigurdarson, oc lèt dóm gánga at Sveinstödum í Vatnsdal, at forlagi Þórarins prests Olafssonar at Bægisá, um ómaga framfæri, hinn XVda dag Júlii, oc svo vídar um hid sama, þadann af. Þat haust á Marteinsmessu, andadist Sigurdr Hrólfsson á Vídimyri, vel oc gudrækilega, er hann var þrem vetrum betr enn sextugr, oc hafdi haldit Þíngeyar þíng med Þorbergi bródr sínum í XXX ár, enn Hrólfr son Sigurdar hafdi sídann syslu med Þorbergi. Þá var Einar prestr Gudmundarson at Stad á Reykianesi, er mist hafdi prestskap, rekinn frá stadnum, því hann vildi ei afláta, oc giördi þat höfudsmadrinn ádr hann fór; má ætla mikit hæft í um sakir hans; hann hefir skrásett um álfa oc bergbúa, oc nockra hluti adra. Þá dó Ejólfr prestr Arnþórsson í Gördum, med hans dóttr Gróu hafdi Gísli biskup Oddsson átt launbarn fyrrum, oc dó þat.

## LXXXI Cap. Tilburdir oc mannalát.

1636 Vetrinn eptir var hardr austr frá med sniónum oc ísalögum, enn heyfaung biörgudu mönnum; vedrátta var þá miög óstödug, oc hardt vorit. Stelpa ein er vaka átti í fiósi á bæ nockrum í Borgarfyrdi, hliόp frá liósinu, oc brenndi fiósit med nautum öllum. Þá rak undann hinn XXta oc annan dag Janúarii, bát Gudrúnar á Járngerdarstödum, med VI mönnum, fyrir nordann-vedri, oc tyndust þeir, enn nockut rak upp á Reykjanes. Af þremr skipum tyndust menn undir jökli, enn XIII menn á tyæríngi í Vestmannaeyum; þar tyndust alls þriú skip, oc hálfr fimti tugr manna. Voru formenn Oddr son Pètrs Lists norræns manns, oc Biarni Valdason, þeir höfdu frelsast frá Tyrkjum þá er þeir rændu eyarnar. Oddr hafdi lengi verit formadr oc fengisæll, oc þeir bádir, hafdi Oddr, fyrir tveim vetrum, furdulega komist úr siáfarháska, oc fengit þar lendíngu í sandi, er holurd var eptir oc ádr; hafdi hann þá heitit fyrir sèr at láta af formennsku, enn þat vard ecki.

Menn druknudu af sexæríngi á Midnesi, enn V oc kona úr Dölum í Skagáfyrdi á ísi, er oflódu sig at seladrápi, hèt Rafn formadr. Gudmundr Eyríksson druknadi í Gaunguskardsárgili, enn vestra Eggert Sæmundarson Arnasonar Gíslasonar, med V mönnum, hann bjó at Sæbóli á Ingialdssandi. Fleiri menn tyndust í siò oc vötnum einstakir. Þá gèck bóla, oc dó margt manna, ocsvo úr landfarsótt, voru grafnir XC menn at Hvalnesi, enn LXXX annars hundrads at Utskálum. Vidarreki var mikill undir Eyafiöllum. A þessum missirum var borinn Þormódr son Torfa Erlendssonar, er sídar vard hinn nafnkunnugasti madr. Þá giördist Erasmus son Páls prests Erasmussonar Villadtsonar prestr í Hólum, enn Jóseph Loptsson Skaptasonar frá Setbergi at Mosfelli, oc dóttrson Odds biskups. Jón son Ara Magnússonar hafdi þegar farit frá skólanum í Skálhollti, er hann spurdi andlát Magnúsar bródr síns at Reykhólum, oc fengit Hólmfrídar dóttr Sigurdar Oddssonar biskups oc Þórunnar ríku, oc tekit stad á Reykianesi er Einar prestr var frásettr, oc haldit eitt ár, enn nú skipti hann um vid Gísla prest í Vatnsfyrdi, er þar hafdi lengi verit, hálfbródr Odds biskups, oc tók Vatnsfiörd, enn Gísli Stad, hafdi Jón prestr prófastsdæmi um Isafiörd oc á Ströndum; enn Sigurdr prestr son Odds biskups, fèck Gudrúnar frá Hytardal, oc hafdi keypt leifi fyrir CC dali, því þau voru þrímenníngar. Um vorit kom upp eldr í Heklu hinn VIIIda dag Maii mánadar, med miklum ædigángi, stodu XIII logar úr fiallinu svo taldir urdu, oc heyrdust dunr, enn myrkr oc dimma austr um allar sveitir, med öskufalli, tók af jörd, enn peníngr dó, oc sumr vard hamstola; giördi þá oc snjó mikinn nyrdra er hærstr var sólargángr, oc dó margt af saudfè, enn jardeldarnir vörudu allt sumarit oc þó lengr. A því vori fór framm sátt milli Þorláks biskups Skúlasonar oc Þórdar sonar Gísla prests Jónssonar; hafdi Þórdr fallit í barngètnad med Helgu systr Þorláks biskups, oc galdt biskupi full XXX hundrud í rètt sinn, fèck hann Helgu, oc var einn þeirra son Jón prestr at Upsum fadir Þorsteins prests í Saurbæ. Lèt Þorlákr biskup þá prenta Avenarii bænir. Þá gèck dómr á Berufiardar-þíngi, lángr oc margbrotinn, af Halldóri lögmanni Olafssyni, um þrætumál oc stefnr milli Ara Magnússonar í Ögri, er tekit hafdi vid eptir Magnús son sinn, oc Einars prests Gudmundarsonar, oc var þat mál dæmt til alþíngis. Systkin tvö gátu barn samann á Midnesi oc fannst þat grafit, voru

þau líflátinn; kona hafdi oc dreckt barni sínu í Haukadalsá í Dölum, þat fannst, oc sagdi hún qvæntann mann födr at, enn bar hann undann um ráð oc vitord á mordinu; var hún dæmd til dauda, oc dreckt, enn manninum siöttar-eydr, hann hèt Jón Pálsson, oc var hönum sídar dæmd á alþíngi hyding sú er hann mætti mesta bera, enn hann dó ádr hún fór framm. Kona var hengd fyrir þiófnad undir jökli, enn IIII þiófar á sudrlandi, oc mörgum refst. Þá brunnu II bæir í Biskupstúngum, annar hèt Yda hiá Skálhollts hamri, þar brann inni kona Jóns Jónssonar hin fyrri er Borghildr hèt, oc fadir hennar karlægr, oc XXX lömb, enn annat fólk var at messu í Skálhollti. Jón var lögrèttumadr; hann vard sídann yfirbriti í Skálhollti, oc hafdi seinast Hamra umbod; hann var sonarsonr Jóns refs, er var at vígi Didriks van Mynden, enn fadir Biarnar prests í Hrepphólum, Finns at Búrfelli, oc Gudmundar lögrèttumanns at Búrfelli. Bær brann í Alptanesi; annar Gerdi á Akranesi oc VI naut, þridji Glæsibær í Kraklíngahlíd oc L saudfiár; urdu oc adrir brunar smærri. Bödull á Bessastödum, er Jón hèt Steingrímsson, gat barn vid dóttr konu sinnar, þau voru sonarbörn Jacobs kocks, voru þau tekinn af á Kópavogi, enn þat var eptir þíng um sumarit. Fleiri urdu þá stórmæli þau er ecki vitnudust. Þá dæmdi Gudmundr Hákonarson XIII dóma, oc var einn um Þorkèl Pètrsson, er stal fiórum dölum, var hönum dæmt húdlát oc brennimerki, oc at skera af annat eyra. Jón prestr Nicolásson at Hytarnesi druknadi, oc bródir hans med IIIIm mönnum; hann var bródir Engilberts prests á Þíngvelli; oc deidi Biarni prestr á Grenjadarstad Gamlason Hallgrímssonar, var hann miög hnígin at aldri.

## LXXXII Cap. Frá herteknum mönnum.

Þat sumar kom út Benedict Pálsson, oc hafdi verit leystr úr höndum Tyrkia med XV hundrudum dala; giördist hann þar eptir rádamadr at Hólum, enn fèck sídar Mödruvalla klaustr, oc var bartskèri gódr, oc at mörgu atgervimadr, oc spaklátr, oc þurfti hann þess alls vid, ádr enn lauk. Brèf kom þá oc frá Jóni Vestmanni syni Jóns prests Þorsteinssonar, er veginn var, utann úr Algier, lángordt miög; þeir hinir herteknu menn höfdu oc ritat

til Kaupmannahafnar; var þat sárleg oc margföld harmaklögun yfir þrældómi þeirra, oc íllgiörnum millifarendum, er eigi bæri brèfinn í rètta stadi, oc yrdi med því tálman á því, at þeir væri leystir út.

## LXXXIII Cap. Alþíng; oc frá Pros Mundt.

Pros Mundt höfudsmadr kom út fyrir alþíng, oc er menn voru þar komnir samann, spurdi hann alla bædi andlega oc veraldlega at ímsum hlutum; biskupa spurdi hann eptir hverri ordinantíu þeir dæmdu andleg mál? þeir qvádu þat fara framm eptir ordinantíu Kristiáns konúngs fiórda; þá spurdi hann lögmenn eptir hverri lögbók þeir fóru; þeir sögdu Jónsbók, er Magnús konúngr Hákonarson hefdi útgèfit. Þá spurdi hann um Kristfiárjardir hversu med væri farit, oc bad biskupa svara þar til fyrir Michaels-messu nærstkomandi, enn þeir hètu því. Klaustrhaldara spurdi hann hversu farit hefdi med klaustr-inventaria forn? enn beiddist af biskupum at fá uppskrift eda registr yfir allar óbrúkanlegar kluckr hvar sem fynndist. Af syslumönnum æskti hann tölu á öllum jördum er konúngi væri dæmdar, oc hvad þær væri leigdar, oc hvad þeir tæki í sektir, oc enn fleira; hann baud oc öllum fastlega at gialda rètt laun landþíngskrifaranum; vildi hann mælast undann, oc fèck ecki. Slíkt allt er nú er talit, kom af þeim rógi er Olafr Pètrsson hafdi borit fyrir konúng, því hann rægdi allar stèttir á Islandi, enn hafdi þó skilit vinsamlega vid; komst hann af því í óvild konúngs, oc höfudsmannsins Pros Mundts, oc tók höfudsmadrinn allar jardir hans undir sig, enn hann flídi til Svíþiódar, oc dó þar í fátæki. Konúngsbrèf voru lesinn upp á þíngi þessu; eitt um rètt eda kvadir kyrkna at ei gongi undann; annad um líferni presta ótilbærilegt; þridja um þriá bænadaga; fiórda um fálka, at ei seljist ödrum þiódum; fimta um stefnr fyrir hærsta rètt, oc uppáskriftir lènsmanna. Þar kom til lögmanna úr Húnavatnsþíngi, dómr Gudmundar Hákonarsonar á Þíngeyrum, um hórdómsbrot í annat sinn; var oc dæmt um kaupbod ódalsjarda til nánustu frænda; enn um mál Einars prests Gudmundarsonar í Ögri, útnefndi höfudsmadrinn Pros Mundt XXIV menn í dóm, Jón Magnússon syslumann í Haga, Þorleif Magnússon á Hlídarenda, Jón Sigurdarson í Einarsnesi, Orm Vígfússon í Eyum, Þorberg Hrólfs-

son á Seilu, Biarna Oddsson á Bustarfelli, Vígfús Gíslsson í Brædratúngu, Hákon Gíslason bródr hans, Þorstein Magnússon á Þyckvábæ, Erlend Asmundarson á Hvoli, Claus Ejólfsson, Jón Vígfússon bródr Orms, Martein Haldórsson á Alptanesi Marteinssonar biskups, Sigurd Markússon í Hèradsdal, Indrida Jónsson, Torfa Eyríksson á Kèldum Biarnarsonar Þorleifssonar lögmanns, Einar Jónsson, Biörn Gíslason Biarnarsonar, Bárd Gíslason Didrikssonar, Jón Þorkèllsson, Hallgrím í Gröf Gudmundarson Hallgrímssonar, Runólf Sigurdarson frá Einarsnesi, oc Gísla Brynjúlfsson Jónssonar Eyríkssonar frá Klofa. Ein kona var send utann, sú er ecki vildi segia til barnsfadernis síns; eigi vard þat allt greint á því þíngi, oc stefndi höfudsmadrinn til annars þíngs á Kópavogi; þar var talat um Botnsmál, oc var þat sett fyrir konúnginn oc ríkisrád hans; fèck höfudsmadrinn þar komit sáttum á med Arna lögmanni oc Vígfúsi Gíslasyni, med gódra manna styrk, hellst Arna Gíslasonar á Ytrahólmi bródr Henriks, hins merkilegasta manns; sídann reid hann í Skálhollt, oc þadann nordr um land; þar var sett fiórdúngs-þíng at Hofi á Höfdaströnd, oc kom til tals um konu nockra, er alit hafdi barn vid manni sínum, enn hann hafdi fyrri gètit barn vid systr hennar, oc var hún tekinn af ádr þetta þíng var; hann hèt Gudmundr, son Jóns prests í Kaupángi Halldórssonar, enn bródir Halldórs prests á Ferjubacka, oc Snorra smids á Hæríngstödum í Flóa; var hann lágr madr, knálegr, atgervismadr um marga hluti; hann hafdi verit á laun í hèradinu, oc barnat konu sína; vildi Jens Söfrensson fógeti oc fleiri hinir dönsku, at kona Gudmundar yrdi dræp ásamt þeim, því at Danir voru eigi all-mjúkir í þann tíma á meina-málum, enn Þorlákr biskup syndi med röksemdum, oc lærdra manna ritum, at þat var eigi rètt, oc át hún ætti at vera sykn; skaut þá höfudsmadrinn málinu til hins næsta alþíngis; sídann reid hann sudr, oc til Bessastada, oc lèt þar byggia stofu mikla oc marghvolfada; var þar forsmídr Þorleifr á Asum í Köldukinn í Húnavatnsþíngi, son Olafs prests Halldórssonar at Stad í Steingrímsfyrdi; ætladi höfudsmadrinn at vera þar um vetrinn. Hann var haldinn af sumum giafþæginn oc egingiarn, enn var þó ei miög hæft í; enn hinn öruggasti madr var hann, oc rèttsynn, syslunarmadr mikill, oc greidr á at leysa vandrædi, vel viti borinn; minni var hann enn medalmadr á vöxt.

## LXXXIV Cap. Syslumanna skipti.

Þá var tekinn Skagafiardar sysla af Halldori lögmanni, oc veitt Benedict syni hans, oc varm hann syslumanns eyd, oc annar Hrólfr son Sigurdar Hrólfssonar, er syslu fèck í Þíngeyarþíngi med Þorbergi födrbródur sínum. Ormr Vígfússon í Eyum hafdi haft hálfa Borgarfiardar syslu, oc lagdi hana þá af, enn Henrik Gíslason Þórdarsonar lögmanns tók aptr; hann bjó at Innrahólmi, enn Arni bródir hans at Ytraholmi sem fyrr segir, oc var læknir gódr; enn Ormr giördist þá rádsmadr Skálhollts stadar. Bardastrandar syslu er Magnús Arnason hafdi haft, fengu þeir bádir Eggert Biarnason at Skardi, oc Magnús son Jóns Magnússonar í Haga; voru þeir brædrúngar bádir vid Magnús Arason, oc unnu bádir eyd sinn.

## LXXXV Cap. Andlát Ragnheidar; brèf Gísla biskups.

Eptir vetrnætr batnadi vedrátt, oc giördi hana hina blídusta framm undir jól; þá tók Ragnheidr Pálsdóttir í Hollti, kona Sveins prests Símonarsonar, sótt einn Sunnudag, þat var taksótt, enn hún hafdi haft heimakonu er menn kalla, um tvö ár, sumir nefna ámu eda rós, hún lá XIII daga, oc andadist hinn XIXda dag Novembris, á föstudag eptir dagsetr, kristiliga, oc hafdi ádr medtekit sacramentum, oc bedit sóknarmenn fyrirgèfníngar; hún var vitr kona oc örlát, höfdíngia-diörf oc skörúngr mikill, oc flest vel gèfit. Gísli biskup Oddson hafdi öndverdliga á því ári ritat *brèf*, oc endrnyadi þat nú aptr, skömmu fyrir jól, þat var ámynníng til allra syslumanna í Skálhollts biskups dæmi, til at giöra trúliga embættis skyldu sína, oc refsa syndum oc löstum, vanbrúkun helgra daga, Guds orda vanhyrdíngu, agaleysi foreldra oc húsbænda á börnum þeirra oc hjúum, siálfrædi letíngia, vanvyrdu ámynnínga prestanna, oc óhlídni almúgans, opinbera sambúd saurlífismanna, oc umferd umrenninga oc heilbrygdra húsgángamanna, einnin qvis oc róg bakmálugra oc lygara; oc fyri því at þeir sèu settir af Gudi til fóstrfedra safnadarins í veralldlegum efnum, bad hann þá stunda í embætti sínu dyrd Guds,

gagn safnadarins, oc siálfra þeirra sæmd oc sáluhjálp. Annad ámynníngarbrèf ritadi hann öllum hreppstiórnarmönnum í Skálhollts biskupsdæmi, oc hellst sunnanlands; at þeir skyldu fylgia framm Guds ordi í sveitunum ásamt prestum, oc siá vel til at kristiligr agi oc umvandan sè í hveriu húsi, enn ámynna umvöndunarlausa foreldra oc húsbændr, at halda strákum oc stelpum til vinnu, oc spara þeim ei hrís edr aga. Hann bad þá oc sjá vel um, at lasit oc gamalt fólk er gudhrædt var, hrektist ekki á vetrum í hardindum, oc svo um frómar eckiur oc födrlaus börn; þar taladi hann mest um agaleysi þat hit mikla er í landinu var, oc lengi hefir haldist, gat oc þess at nockrir færi med fiölkyngi, þó lèt hann þat ei miög almennt heita. Voru þau brèf þannin ordud, at lióslega má af þeim siá, at margt hefir gengit til miög óskipulega, oc ei sídst eptir hardindi þau hin miklu er hófust med Hvítavetri; oc í annan stad gódgyrni oc röggsemi Gísla biskups; oc eru þau saminn med alvörugèfni oc mælsku, því Gísli biskup var mælskumadr hinn mesti, oc vel at sèr um marga hluti, oc þar med náttúru-fródr. Um haustit oc vetrinn var nautadaudi á Fialli, jördu Skálhollts stadar, oc þar umhverfis. Þann vetr sat Pros Mundt höfudsmadr at Bessastödum. Þá var tekin til skólameistara, i Skálhollti Ketill Jörundarson, er fyrri hefir verit at gódu gètit, hann var ádr heyrari eda locator, enn er hann
1637 hafdi III mánudi at verit, vard hann at sleppa því vid Biörn Snæbiarnarson Torfasonar, því at hann hafdi þat eitt umframm at hann var baccalaureus, oc tók Kètill heyrara embættit aptr.

## LXXXVI Cap. Imislegt.

Svo hafa sumir sagt at vetr sá hafi verit fiúksamr oc áfredamikill vída; þá urdu tveir skipatapar í Höfnum sudr, tyndist áttæríngr oc tyæríngr oc á XIX menn, hètu formenn Bárdr Ejólfsson oc Otti Þorkèlsson; oc áttæríngr í Lambastadaröst med IX mönnum, hèt Ormr Jónsson formadr, hann átti hálft skipit, enn Danir hálft, oc ofhlód hann þat af vöru; XI menn tyndust frá Hvaleyri á Stafnesi, oc enn áttæríngr, oc voru á þeim skipum, oc þeim er talinn eru auk hinna fyrstu XIX, átta menn hins IVda tugar; tyndist eitt í Vestmannaeyum, oc þrjú undir jökli; fleiri manntapar

urdu á einstökum mönnum. Gudmundr Jónsson hinn seki madr hafdi nu dvalist hèr oc hvar um III vetr, oc seinast vid tjald mosalitad á Myvatns öræfum; þar lètu syslumenn í Þíngeyarþíngi taka hann, Þorbergr oc Hrólfr, oc sendu hann Magnúsi Biarnasyni á Múnkaþverá, enn Magnús sendi þegar eptir Bessastada bödli, hann kom, oc hjó hann; hafdi Gudmundr búit ádr í Eyafyrdi, oc eru þar menn frá hönum komnir. Magnús Biarnarson var í þann tíma ríkr oc audugr; hann átti mál vid bónda einn audgann at Uppsölum er Kolbeinn hèt, oc hafdi at lyktum fè hans allt; þat var útaf Kristnesi. Þess er gètit um Magnús, at hann hitti einhvern tíma í kaupstad Þorvald Rögnvaldsson á Saudanesi, oc bad hann qveda nockud; hugdu menn Þorvald eigi vilja hönum vèl, fyrir brennu Jóns bródr síns. Þorvaldr qvadst eigi þá qveda meiga, nema hann hefdi úngmenni nockrt skáldmælt fyrir sèr; syslumadr qvadst ei vita hvar þá væri at fá, enn Þorvaldr segir at þat var Biörn sonr hans, því hann var med hönum; oc er svo sagt, at hann hafi stadit fyrir Þorvaldi á medann hann qvad; enn svo mjög var trúat áqvædum Þorvaldar, at þat var dregit samann vid hitt, at Biörn vard eigi hamíngiusterkr, oc gèck margt erfidlega. Gísli son Magnúsar var þá í Hólaskóla til læríngar, enn fyrri hafdi hann verit med Gísla presti Jónssyni at Hrafnagili, oc sídann med Katli syni Jörundar Hálfdánarsonar, í Skálhollti, er þar var heyrari í þennan tíma.

## LXXXVII Cap. Frá höfdíngium oc þínghaldi.

Þessi missiri dæmdi Þorlákr biskup Skúlason um aflausn framda af Þórarni presti Olafssyni at Bægisá, oc um hjónaband. Þá sat Pros Mundt höfudsmadr á Bessastödum framm at þíngi, oc veitti mörgum fátækum mönnum ölmusugiafir; þar var med hönum Benedict Pálsson bartskèri. Á alþíngi var gètit hörkulags þess hins þúnga oc almennilega, er á Múlasyslu hefdi legit nockr ár samfleitt, svo hestar hafi ei fengist færir til þíngreidar fyrir fulla leigu, enn snió oc íslög hafi ei tekit af fyrri enn í IXdu víku sumars, oc þó ecki gródr komit fyrri enn um Jónsmessu. Þar var dæmt um áburd ærlegs manns á óærlegann, oc margir dómar adrir.

Einar Kolbeinsson er mist hafdi prestskap, var dæmdr at svara skatti oc skattshaldi um III ár, hann var í Þórness-þíngi, oc hinn mesti deilumadr; veit eg ei hvert hann var bródir Jóns í Lóni. Lètu lögmenn gánga dóm í milli Jóns Kolbeinssonar í Lóni oc Jasonar Wests hins enska, oc svo Jóns Olafssonar er þá var syslumadr konúngs í Stapasyslu, því þessir komu allir í mál samann; enn at siá sem Lauritz Hansson, danskr syslumadr, hafi verit þar ádr nockra hríd; voru þeir dómsmenn í þessum málum, Gísli Bryniúlfsson austann, Sveinn Rúnólfsson, Einar Magnússon, Rafn Jónssón, Einar Jónsson, Halldór Jónsson; enn at nordann oc vestann Arni oc Jón Teitssynir Biarnarsonar, Eggert Jónsson Magnússonar, Sigurdr Markússon, Rúnólfr Sigurdarson frá Einarsnesi, oc Arni son Dada Arnasonar Oddssonar, hann bjó at Asgeirsá. Kom nú framm konúngsbrèfit um Jón Gudmundarson lærda, at mál hans kæmi at nyu til Islendskra laga; enn annat um Gudmund son hans, at einnin skyldi ransakast hans mál, oc var Gudmundi dæmdr aptr prestskaprinn; enn mál Jóns átti höfudsmadrinn at skoda oc biskupar bádir, útnefndu þeir þá helmíngadóm, oc svo lögmennirnir med XII mönnum hverir; oc játadi Jón þar sem fyrri, at hann hefdi ritad bók þá er á voru lækníngar, rúnir oc gudfrædi; var bókinn þá lögd framm, oc voru í XXX capitular, oc stafr nockr ókènnilegr yfir hverium, ritníngargrein oc bæn stutt; enn þetta var hid hellsta innihaldit: vörn í móti bruna, blódláti, lauslæti, ædi, vopnum, illum öndum, raungum dómum, freystíngum Satans; vígi á móti óvinum, oc hatri annara; vörn í móti reidi; at skelfa óvini sína; lausn þúngadra qvenna, vers í móti falli, móti skipbroti, eldsbáli, þiófnadi, vatnagángi oc flódum, flogum á mönnum oc dyrum, ófsjónum oc þrumum. Til sigrsældar í orustu; at deyfa eggiar; nösn fíngra Christs; refastefna. Vörn í móti eldi, vatni oc vopnum ef trúinn dugir; sigrsældar-blessan at morgni dags, móti vedrum á sjó, móti sjódraugum; stafir í móti mædris syki, lífsyki, hósta oc fleiru; oc svo nockud ímisligt; enn þó þar stædi ei í um drauga vakníngar, er menn trúdu, edr annad er til áreitínga horfdi, má hann þó um slíkt rædt hafa vid lærisveina sína, oc er likast þat hafi hlíft hönum, er þesshátar vard ei á hann borit, enda ei þá enn gengit jafnríkt eptir slíku almennt, sem seinna vard. Enn svo miög hafdi Jón breidt út slíka lærdóma um allt land, at hverr madr var haldinn fara med nockrs háttar

galdr, at XX vetra fresti, oc vard af því svo mikill ótti oc ófögnudr, at þat voru haldnir giörníngar, ef hestr heltist, eda kú barst á, eda yrdi manni íllt snögglega, í hendi edr fœti, edr auga, edr med ödrum hætti. Enda vat oc líkr trúnadr í ödrum löndum í þann tima. Var nú enn Jón dæmdr útlægr, enn med því at Danir vildu ei flytia hann, hverki höfudsmadrinn nè adrir, enn enskir máttu ei at landi koma, oc Islendíngar áttu enginn skip siálfir, þá vard hann í landinu, oc rakst um kríng, oc austr í Papey. Konúngsbrèf var þá enn birt um jardir þær, er gengit hefdi fyrir umhyggiuleysi undann kyrkium, oc svo lausafè, at sæktist eptir Jónsbók. Annat til biskupa beggia, at þeir fylgdi framm ölmusu-giöfum til hinna herteknu manna í Barbaria. Þridja til alþídu, at legdi fè til lausnar þeim. Fjórda um kyrknafè er þeim skyldi leggia; oc svo eitt um þá menn er eigi vildu heyra stefnur, at þá skyldi hrópa upp á hèrads þíngi, þar sem stefnann var lesinn. Hafdi Kristján konúngr fiórdi sendt fè mikit, oc leyst XXXVI menn frá Tyrkium, Islendínga oc Færeyínga, komu þetta sumar út XIII íslendskir, oc var eitt kona Olafs prests Egilssonar. At þínglausnum baud höfudsmadrinn brèfliga, at giöra öllum rètt af málum sínum; þareptir bad hann um vitnisburdi, hversu hagad hefdi sinni stiórn, oc fèck hann þá sem kiósa mundi, oc beiddust allir af konúngi at meiga nióta hans forsiár. Vid þat fór hann utann. Enn Jens Söfrensen umbodsmadr hafdi verit vidstaddr í Eyafyrdi þá er Gudmundr Jonsson var tekinn af, oc fór hann um Nordrland, oc tók ámóti giöfum þar sem budust; sídann reid hann í Þíngeyarþíng nordr, oc fylgdi Þorbergr Hrólfsson hönum at Ærlæk í Exarfyrdi, enn hann reid í Vopnafiörd, oc fór þar utan um haustit. Þá tók Gudmundr son Biarna prests Gamlasonar Grenjadarstad eptir födr sinn. Halldór lögmadr tók brióstersfidi mikit oc blód-uppgáng skömmu eptir alþíng, oc lagdist miög svo í reckiu; var þá þurka sumar mikit eptir þíngit. Þat hafdi verit ályktad í lögrèttu, um giafir þær til hertekinna manna, er konúngr baud biskupum at gánga eptir, oc senda sídann til kaupmanna, at vera skyldi fiskr af hveriu tyundar hundradi uppí landi í sveitunum; enn tyund af lausafè var þá miög lítil, eptir svo mikil hardindi sem verit höfdu; enn eins dags hlutr skyldi vera af skipi hveriu, þá best fiskadist, oc afhendast kaupmönnum í hverium kaupstad á komanda ári. Um þat efni hèldt Þorlákr

biskup sídann presta stefnu á Flugumyri, til at taka samann þat sem leggiast mætti af kyrkna inventariis, oc penîngum oc inntektum kyrkna jarda. Voru peníngarnir sendir utann um sumarit eptir, med tillagi alþídunnar; en þat dugdi mest er konúngr hafdi gèfit til lausnar þeim er út komu, enda höfdu sumir dáit í Algier, enn sumir kastat trúnni, oc vildu ei aptr koma, enn flestir ordnir nockut blendnir eda gleimnir um kristindóm er þeir komu til Danmarkar; þurfti at fá íslendskann mann til at telia um fyrir því er íslendskt var, oc giördi þat Hallgrímr son Pètrs hríngiara Gudmundarsonar, hafdi hann komist í skóla á Hólum enn mist hans, enn fengit aptr skóla utanlands med fylgi meistara Brynjúlfs Sveinssonar, oc þar var hann fenginn til þessa, komst hann þá í kunnleik vid eina konu af því fólki, Gudrídi Símonardóitr úr Vestmannaeyum, oc fèck hennar seinna.

## LXXXVIII Cap. Mannalát; bísn í Audbrecku.

Illhugi Jónsson frá Einarsstödum Illhugasonar prests Gudmundarsonar, var þá rádsmadr at Hólum, hann átti Halldóru Skúladóttr systr Þorláks biskups; bió hann at Vidvík oc hafdi bú at Urdum; hann hafdi oc Vatnsdalsjardir, oc fyri því átti hann annad bú at Asi í Vatnsdal. Hann andadist snögglega hinn Xda dag Augusti mánadar, er hann var skamt kominn úr Hofsós, þar sem sídann heitir Illhugalág fyrir sunnan kaupstadinn; eru ættir frá þeim Haldóru, son þeirra var Þorsteinn skólameistari oc sídann prestr at Völlum í Svarfadardal, oc annar Jón á Urdum, fadir Illhuga oc þeirra brædra, födr Skúla prests, födr Thómásar prests. Skúli hèt hinn þridji, oc dætr margar, ein var Malmfrídr, módir Helgu, módr Jóns í Grenivík. Þat bar enn til um haustid, at Jón son Þorvalds Olafssonar í Audbrecku, reid til Bustarfells austr, oc bad dóttr Biarna Oddsonar; Biarni var heima oc tók hönum vel, oc veitti hönum vel oc mönnum hans; sídan bar Jón upp málinn, oc tók Biarni því vel, oc gaf hönum handskrift sína; var þá settr tími at Jón skyldi aptr koma at Mickaelsmessu, oc mætti þá framar giörast at, eptir ordinantiunni. Reid Jón þá heim til foreldra sinna, oc beid áqvedins tíma, enn sídann reid hann austr. Biörn brodir Jóns hafdi ordit eptir af hönum eystra, oc lá nær

daudvona í V. vikr; þótti mönnum þat heldr kynleg oc ill furda þess er á eptir kom. Oc er Jón kom til Bustarfells at áqvednum tíma, var Biarni heima, oc tók hönum vel oc mönnum hans, oc var veitt vel hina fyrstu nótt, því Biarni var ecki smátækr er nockut var fyri hendi, enn snemma morguns eptir reid Biarni á braut, svo þeir vissu ecki til, oc lètst ætla til næsta bæar, at fá mann til eyrindagiörda sinna út á Lánganes. Hann kom aldrei aptr til Bustarfells at því sinni, oc reid med mönnum sínum alla leid, enn Jón beid nockrar nætr, oc reid heimleidis sídann. Enn þadann af þóttust menn verda varir vid svo mikla ásókn anda nockurra edr drauga í Audbrecku, oc hellst Jón Þorvaldsson, at hann mátti hvergi frid hafa, oc allir þeir er í ferd voru med hönum þóttust fá illt af, enn mönnum syndust foryniur í allrahanda líkium er nefna má, þar í bænum, oc drepnir voru hestar, oc illa leikinn qvikfènadr, oc svo var allan þann vetr. Dreymdi þá suma at þat væru draugar uppvaktir at austann, Jóni til fordjörfunar. Þessi saga hefir nockru meira fyri sèr, enn adrar slíkar er þá áttu at skè öndverdann vetr, at draugr dræpi mann undir Eyafiöllum, oc annar madr á Helgafelli væri ásóktur, oc dreginn af draugi er hönum þótti í qvennmynd, upp undir fiall, oc rifinn af hönum klædi, á jólanóttina, oc at hann væri fundinn þar vitstola, oc nær bana. Enn þó at slíkar sögr sèu all-leidar, þá er þó þettat talit svo at menn sjái at því var þá almennt trúat, oc í Annál fært, enn miög margt var þat í munnmælum, sem engum af þeim hefir þótt skrásetjandi, sem rit hafa samit. Þennann tíma andadist Gudrún Illhugadóttir kona Þorsteins prests, Olafssonar er var í Vestrhópshólum, hinn XXIsta dag Decembris um dagsetr, at Reykium í Skagafyrdi, vetri minnr enn hálf áttræd; hún hafdi ordstyr gódann. Þann dag seigir Biörn at Skardsá, at myrkvast hafi máninn, þó almanak hinna dönsku hafi eigi gètit þess, oc má þat vel skè, því at vèr vitum þess dæmi á vorum dögum.

## LXXXIX Cap. Vetrarfar, eldr, oc fleira.

Eptir jólinn var sá vetr misjafn; voru þá hlutir miklir á Sudr- 1638
nesium, oc svo austreptir, svo at ei höfdu jafnmiklir verit í næstu

L vetr, oc fengu skip lestarhlut, enn hvergi var minna enn V hundrud tólfræd. Fyri Jökli voru eigi slíkir, enn þó gódir; drucknudu þá XIII menn á Hiallasandi oc vídar urdu mannskadar minni, edr einstakra manna. Þat bar vid hinn XXVIIda dag Februarii mánadar, at eldr kom upp med loga ógrlegum austr á fiöllum, svo loptit var hvervetna í glæríngum, enn vötn öll á Austrlandi fylltust flódi oc báru vikr miög mikit í sjó út; enn fyrir því at þá var vetr, oc eldrinn var fáa daga uppi, þá máttu menn ei vita hvar hann brann. Þá kom út um vorit meistari Brynjúlfr Sveinsson, oc hafdi þá verit VI vetr vid Róiskèldu skóla; hugdi hann þá med því módir hans var öndud; at selia arfa sína oc eignir í landi hèr, oc fara til útlanda sèr til frama, enn qvedia vini oc frændr hèr á landi; hafdi hann fengit LX dali til ferdar peninga af capitulanum í Roiskèldu, oc heit fyrir jafnmiklu hvert ár, enn nockut annat bar til, svo þat fórst fyri.

## XC Cap. Fráfall Gísla biskups oc Halldórs lögmanns.

Þat vor giördi sótt mikla í landi hèr, oc var qvefsótt med taki, dóu þá margir menn, enn ferdamenn tepptust af því vída. Henrik Gíslason á Hólmi var einn er andadist, syslumadr í Borgarfyrdi sunnan Hvítá, fèck Þórdr sonr hans sysluna; Jórunn var dóttir Henriks er átti Benedict son Halldórs lögmanns, syslumadr í Skagafyrdi. Pálmi á Varmalæk var launsonr Henriks, fadir Sigurdar í Breidabólstad í Söckólfsdal, födr Þorgils oc Pálma, Þorsteins oc Halldóru. Þorgils var fadir Jóns prests vid Hellna, enn Pálmi fadir Þorleifs á Breidabólstad. Sunnan-vedr mikit var á Sudrnesium hinn XXta oc annan dag Júnii, þá dó Thómás skálld Hallsson. Pros Mundt höfudsmadr kom út á konúngsskipi med konu sína, oc nefndi sig þá ecki af Birkevold heldr af Grevensvínge, hann kom á alþíng oc nefndi XXIV menn í dóm, um mál Einars prests Gudmundarsonar, var hann þá med öllu dæmdr frá eptir því sem fyrr dæmdi Gísli biskup Oddson. Þar gèck dómr í milli Johans Mumms hollendska, oc Jasonar West enska, kærdi Jóhan at Jason hefdi skorit sig í andlitit, enn Jason at Johan hefdi slegit bréf prinsins úr hendi sèr oc trodit, voru í dóminum lögmenn bádir Halldór oc Arni, oc svo Magnús Biarnason

á Múnkaþverá, Gudmundr Hákonarson, Jón Sigurdarson í Einarsnesi, Benedict Halldórsson lögmanns, Þórdr Henriksson á Hólmi, Þorsteinn Magnússon á Þyckvabæ, Erlendr Asmundarson á Hvoli, Þorbergr Hrólfsson í Seilu, syslumenn Biörn Gíslason, Runólfr Sigurdarson, Petr Einarsson á Ballará Teitssonar í Asgardi, Jón Gissurarson Þorlákssonar frá Núpi. Konúngs-brèf var gèfit út um bænadaga, oc ámynníngar til klerka at þeir haldi sèr frá dryckiuskap, oc ræki embætti sitt, oc svo til biskups; einnin skipanir um kluckr, oc jardir oc fè þat er lagt van til gudlegra stiptana; enn ecki segir Biörn at Skardsá nein hafi byrt verit á því þíngi. Dæmt var þar hvèrir lausir mættu vera at lögum. Gísli biskup Oddson hafdi teiknat upp til mynnis um vorit, hveria presta hann hefdi vígda; þat var Olafr prestr Magnússon á Refstad, Rögnvaldr Ormsson at Mödrudal, Eyríkr son Olafs prófasts Einarssonar at Kyrkiubæ; Ejólfr son Biarna prests at Kolfreyustad Ormssonar *prófasts* frá Kálfatjörn Egilssonar; Gudmundr Kètilsson Olafssonar prests at Saudanesi, bródir Eyríks prests. Halldór bródir hans er födrfadir var Halldórs prests at Húsafelli, Einar Jónsson er sídann var at Asi í Fellum; Gudmundr Laurentiusson at Stafafelli, Sigurdr Arnason at Skorrastad, Jón Höskuldarson Einarssonar er sídar var at Hálsi í Hamarsfyrdi, Sigurdr Biarnason í Berufyrdi, Sigurdr Jónsson, Arni son Clausar Ejólfssonar at Hvalsnesi, Biörn Höskuldarson Einarssonar at Kèldum, Magnús Pálsson Erasmussonar Villadtsonar, at Kálfhollti, Þórdr Gudmundarson; Þorsteinn son Biarnar málara syslumanns at Utskálum; þar hafdi andast Bergsveinn prestr Einarsson Hallgrímssonar bródir Gudmundar prófasts at Stadarstad, hann var fadir Gríms prests í *Gördum* á Akranesi, hann hafdi ridit á Stafnes; Olafr Gíslason; Halldór Marteinsson Halldórssonar frá Alptanesi, Halldór Jónsson er sídar var at Stadarhrauni oc Borg, Sigurdr Olafsson í Middölum, Gunnlaugr Snorrason Asgeirssonar Hákonarsonar, er sídar var at Stad á Reykianesi, frá hönum er mikill fiöldi manna þar vestra; Jón Magnússon í Ögrsþíngum; Jón Arason Magnússonar í Vatnsfyrdi, Asgeir Einarsson Sigurdarsonar Einarssonar frá Heydölum at Túngu í Steingrímsfyrdi, oc Jón Brandsson Jónssonar prentara, Jónssonar svenska. Gísli biskup hafdi þótt heldr hneigdr til dryckiu, oc ætludu menn hönum at meini ordit hafa, enn jafn-

ann var hann hógvær oc spakr; hann fór til þíngs veikr miög, oc andadist at Þíngvelli hinn Ita dag Julii mánadar, er hann hafdi verit um VI ár biskup, oc var half-fimtugr, þat var á Þíngmarinnessu qvöld, er þá bar á sunnudag eptir sólsetr, segia menn hann hafi vígt Kètil Jörundarson til prests at Hvammi í Hvamms sveit nockru ádr; var lík hans flutt í Skálhollt, med vyrduglegri fylgd; voru þar at flestir vyrdíngamenn er á þíngi voru; oc var jardat fyrir framann kórdyr hjá födr hans, enn sumir segia hiá Gísla biskupi Jónssyni innan til vid stúku dyrnar, eptir fyrirsögn Helgu módur hans. Páll prestr Erasmusson hèldt líkpredikun. Fyrirlidi var vid jardarförina Arni lögmadr brodir hans, hann sagdi upp alþíngi med harmi oc tárum, bædi fyri sig, oc Halldór lögmann dandsjúkann; hann hafdi lagst á þíngvelli, oc var ei fær nordr, oc fluttr á hinum sömu qviktrjám í Skálhollt, sem lík Gísla biskups ádr; var hann þar eina nótt, oc medtók Sacramentum, oc andadist sídann nærsta sunnudag eptir Gísla biskup; þat var hid XXta alþíng, er hann sat, enn hafdi lögmadr verit XIX vetr, oc fengit ord gott. Hann dó um sólar uppruna, oc vard jardat lík hans hinn IXda dag Julii í midri Skálhollts kyrkiu. Var þá sorglegt alþíng, oc höfdu flestir úngir menn oc sveinar gengit af þíngi í Skálhollt, fyrst med líki biskups, oc sídann med lögmanni daudvona. Giördist nú Sigurdr prestr Oddsson í Stafhollti Officialis, oc umsiónar madr stólsins. Þá var Byrni Pálssyni leift at giftast þrímenníngi sínum fyri CC dali.

## XCI Cap. Kosníng Brynjólfs.

Brynjúlfr Sveinsson hafdi farit á þíng, oc var bedinn med ödrum at fylgia líki Gísla biskups í Skálhollt, reid hann med fylgdinni austr undir Hrafnagiá, oc skildist þar vid flockinn med óvilia margra, oc sneri vestr í Borgarfiörd, því hann þóttist þess vís verda er mörgum bió í skapi. Hann dvaldist nockrar nætr í Stafhollti enn eptir greptran Gísla biskups, var hann til biskups kosinn, oc kosníngarbrèfit giört sameginlega, oc skrifat undir í Skálhollti, oc fylgdi Arni lögmadr mest at því. Medtók meistari Brynjúlfr brèfit í Stafhollti, oc miög at óvilia sínum, enn hèt þó at bera þat framm, oc láta fylgia afsökunar-brèf sitt. Hann reid þadann

í Hytardal til Þórdar prests Jónssonar vinar síns, höfdu þeir verit utann bádir samt, oc baud meistari Brynjúlfr hönum at taka vid kosníngunni, oc sækia um biskupsdæmit, qvad þat ei vera sèr at skapi, enn Þórdr prestr vildi ecki. Var þá at merkja á Bryniúlfi sem nockrskonar qvonbæna tilmæli til Kristínar systr Þórdar prests, ef hann kæmi upp med biskupsdæmi, þó sneri hann því á þá leid at hann lèt þat nær at þess mundi eigi audit verda, væri hún af krenktu blódi eptir módr sína Gudrídi Gísladóttr, því hún var af hinum yngstu börnum hennar, enn fyrir þat er slíkt kom í ord, rækti hann þat jafnann vid hana; fèck hennar seinna Sigurdr Jónsson í Einarsnesi. Þadann reid Brynjúlfr vestr í Hollt, var þar þá prestr oc prófastr Jón Sveinsson bródir hans, því at Sveinn prófastr Símonarson, fadir þeirra, var lagstr í kör. Hann qvaddi þar födr sinn, oc reid sídann nordr í Eyafiörd, oc *fór* þar utann á Akreyri, nær krossmessu, var hann þá þrem vetrum betr enn þrítugr.

## XCII Cap. Imislegt.

Þat sumar hinn *XIX*da dag Júlii, andadist Sæmundr prófastr Kársson í Glaumbæ nordr, tveim vetrum betr enn áttrædr, hann hèldt öllum burdum, heyrn, syn oc máli til daudadags, oc vard lètt um andlát. Hann átti margt afqvæmi eptir í Skagafyrdi, oc er hid hellsta talit ádr. Þann tíd andadist einnin Þórdr Þorláksson at Mardargnúpi, bródir Gudbrands biskups, hálfáttrædr at aldri, hafdi hann verit á VIIda ári, er skèdi aftaka Jóns biskups Ara*sonar*. Hann hafdi átt IIII börn, var ein hans dóttir Gudrún kona Olafs prests at Miklabæ, Jónssonar prests í Grímstúngum Biarnarsonar Gíslasonar, þeirra synir voru Hallgrímr prestr at Múnkaþverá, oc Þorlákr prestr at Miklabæ, fadir Olafs í Hèradsdal. Gunnhildr var dóttir Olafs prests, seinni kona Jóns, Arngrímssonar hins lærda, enn Vígdys önnr, oc átti Halldór son Þorbergs Hrólfssonar. Þorlákr var oc son Þórdar at Mardarnúpi, fadir Þórdar prests at Undirfelli, er í málunum vard. Þá giördist Vígfús son Arna Magnússonar á Eydum, prestr at Hofi í Vopnafyrdi, enn skólameistari eptir hann at Hólum Sigfús Egilsson. Andadist þá Elin Pálsdóttir

frá Stadarhóli, módir Magnúsar á Múnkaþverá, hún bjó at Mödruvöllum í Eyafyrdi, oc skorti III vetr á siötugann. Gísli fór utann, sonr Magnúsar, oc vard sídann hinn göfugasti madr. Þá tyndust IIII menn af skipi á Siglunesi, enn VIII í Flateyu nordr, oc enn menn á Sudrnesium í syruferd. Þrír prestar mistu þá prestskapar fyrir hordóm, Einar Egilsson á Olafsvöllum oc Eyríkr sydra, enn Olafr í Grímstúngum fyrir nordann, var brot hans í frændsemis meinum, hann var son Olafs Þorkèlssonar Hallgrímssonar, brædrúngr vid Biarna Oddsson á Bústarfelli, hann bjó sídarst í Vidvík, oc átti þrætr miklar vid Jón prest Pálsson á Ríp. Þorkèll skytta í Njardvík var bródir Olafs. Einn prestr er Vígfús hèt vestra, misti oc prestskap, fyrir þat hann útdeildi kèrlíngu, í ógáti, brennivín fyrir vín, enn kèrlínginn mælti þat er sídann er haft at ordsqvidi er hún kendi smecksins: beyskr ertú nú drottinn minn! Madr hvarf undir Eyafiöllum er Brandr hèt, oc fannst sídann örendr, blár oc blódrisa vid sjó nidr, var þat jafnskiótt eignad draugi er þar þótti ádr giört hafa skada; þat var í Novembri. Skip tyndist á Langaness-ströndum med selafarmi, oc fleiri urdu einstök manntjón. Þat var opt er eg tel aldrei, at mönnum þótti sjór oc vötn blódug, slíkt vitu menn nú at hefir edlilegar orsakir. Vetr giördi þegar í öndverdu hvervetna hardann, med snjóum, áfredum oc vedrum miklum, oc druknudu menn vída. Kom ís fyrir nordann þá er hálfr mánudr var af vetri, oc var gagnlaus, oc á rekníngi; enn hinn XIIIda oc XIVda dag Novembris, þau fiögr dægr í samt, voru fiúk stór med hörkum, oc urdu vída fiárskadar sydra, enn vedr sló fuglum til jardar oc vængbraut, hröfnum oc riúpum.

## XCIII Cap. Arferdi oc skadar.

1639 Eptir jólinn hèldust hin sömu hafdindi; rákust ísar kríngum land, oc komu austann at fyrir sunnann landit, oc allt fyrir Sudrnes, stódu af þeim hardindi mikil enn gagn ecki, oc var selatekja enginn fyri nordann; giördi þá vída peníngafellir, af vedrum stórum, oc jardbönnum, fèllu bædi hross oc saudir hvervetna. Þá gaf Hallgrímr Gudmundarson Hallgrímssonar oc Halldóra Pètursdóttir er bjuggu í Gröf, Þorláki biskupi proventu sína IXda dag Januarii,

þat voru LXXX hundrud í fasteign, Þverá í Austr-Fljótum XXX hundrud, oc Gil XV hundrud, oc ytra Vallhollt í Vallhólmi XL hundrud, enn þau tilskildu sèr X hundrud til árlegs uppheldis. Hallgrímr var födrbródir Hallgríms prests Pèturssonar, enn ödrum oc þridjum vid Biarna Oddsson í Bústarfelli, oc brædrúngr vid Gudbrand biskup, hann fostradi nockra stund Þórd son Þorláks biskups á únga aldri. Þennan vetr giördi ofannfalls-regn mikit á Gói-þræl, oc svo í fiögr dægr samt, spilltust hús oc hey, oc nyt kúiènadar, því hönum vard ei haldit í húsum; enn skridr fèllu vída med leyr oc vatni yfir tún oc engiar, svo skadar urdu af miklir, oc gèck þat nálega um allar sveitir. Hlutir voru þá miklir sydra, oc vestra IV hundrud eda V, oc þá bar þat vid í Hornafyrdi, at fisk rak mikinn á land eckju einnar, er sagt var at væri VII þúsundir af skreidar þorski er hún komst yfir siálf med heimamönnum, enn lèt þó hvern annan taka sem vildi oc mátti; þar *rak* oc síld ótölulega, oc hvalfisk á fiöru þeirrar eckju, oc tvo hvali adra í Hornafyrdi. Tvö skip af Sudrnesjum tyndust vid Geirfúgla skèr, oc eitt fyrir Gardi, þar var alls á tveim mönnum betr enn þrír tugir; var þá mikill harmr á Sudrnesjum, því þar voru eptir XVIII eckjur med börnum. Vídar tyndust einstakir menn, oc fiórir menn á Vestfiördum, þeir sóktu hey, oc sofnudu á heydysinni, oc duttu útbyrdis, enn hún leystist sundr, þat var á Arnarfyrdi. Madr gat barn vid stiúpdóttr sinni í Vadlaþíngi, hann var tekinn af, oc konunni dreckt. Þat vard oc tídinda, at bóndi nockr á Lánghollti í Flóa fór at sinu-brennu, oc fór ógætilega, svo hann brenndi lönd á XIII jördum hinum nærstum, um vorit í Majo, hönum fèck þat svo mikils, er menn töldu á hann um þat, at hann dreckti sèr þegar hann fèck vid komit, hann hèt Hallr Jónsson.

## XCIV Cap. Frá meistara Brynjúlfi.

Þat er at segia frá meistara Brynjúlfi Sveinssyni, at hann var í Kaupmannahöfn um vetrinn med Jacob Pèturssyni, er fyrri var umbodsmadr Holgeirs Rosenkrans höfudsmanns á Bessastödum, oc bar framm fyrir Kristián Friis Cancellera kosníngar-brèf landsmanna sinna, oc svo afsökunarbrèf sitt skrád á latinu hreinni, lángt

oc skörnglegt; var þat efni í, at hann hefdi sumarit fyrir komit til Islands, oc landsmenn sínir þá hlaupit til at kiósa sig at biskupi, í stad hins burtsofnada, oc lèt þá vilia þraungva sèr friálsum manni, at gángast undir vandasama byrdi oc þrældóm. Qvadst hafa ydkat, oc lagt fyrir sig skóla-þiónustu, oc allt annad enn þat þat er eginnlegast heyrdi til biskups embættis, enn á Islandi væri klerkar vel at sèr, oc hæfilegri enn hann til þess, oc mætti telia fyrstann, eda med hinum fremstu, Þórd prest Jónsson í Hytardal, er einnin hefdi starfat í slíku nockr ár. Bad hann cancellerann bera þetta fyrir konúnginn, oc svo giördi hann; enn konúngr lèt hina lærdu menn í consistorio skoda brèfinn, oc dæma um hve gyld væri afsökun hans; vard sú þeirra ályktun, at hver sá er þeita vildi hollr oc hlídinn þegn konúngs, mætti eigi neyta því, án hinna gyldustu röksemda, at taka uppá sig hvert þat ærlegt embætti er konúngr skipadi hönum, oc þætti hann til hæfr, eda naudsyn bæri til; fyrir því kölludu þeir meistara Bryniúlf skyldann undir at gángast, þar sem konúngr vildi skipa hönum þat embætti. Þeir myntu oc á þat cancellerann, at skóli á Islandi hefdi þörf á forsjármanni lærdum oc reyndum, enn Bryniúlfr væri reyndr vel at lærdómi oc framqvæmd; oc giördi meistari Brynjúlfr þat at engra manna dæmum á seinni öldum, at láta dæma sèr slíkt á hendr. Beid hann þess hann fèck svar frá cancelleranum, oc var þat snemma í Aprili, enn þat var á þann hátt, at hann yrdi at gegna kosníngu landsmanna sinna, oc hellst vegna naudsyniar skólans, oc fyrir því skyldi hann hid skjótasta fara á fund konúngs í Luckustad, enn Cancellerinn gaf hönum vegabrèf um flutníng friálsann á sjó oc landi. Fór þá meistari Brynjúlfr frá Kaupmannahöfn, hálfum mánudi fyrir páskir, á vagni til Róiskeldu, þadann til Hríngstadar, þá til Krosseyrar; þadann á skipi yfir Beltis-sund til Nyuborgar á Fjóni, þadann á vagni til Odinseyar, þadann yfir Medalfararsundsund til Koldíngar, þá til Haderslev á Holsetulandi, oc svo til Flensborgar, Rendsborgar, Itzehoe oc Luckustadar, oc fann þar Kristián konúng fiórda, oc vann fyrir hönum biskups eyd sinn, á föstudag hinn XVda Aprilis fyrir middegi, oc var sídann bodinn til borda, oc sat at med konúngi siálfum; þótti hönum vandi fylgia vyrdíngu þeirri, því at konúngi bar til oc Fridriki syni hans, oc vard svo mikit, at konúngsson gèck frá bordum. Þann dag hinn sama fór meistari Bryniúlfr aptr frá Luckustad, oc

yfir Holsetuland, þadan yfir Jotland oc Fjón, var hann at bodi í Odinsey med biskupinum Doctor Hans Michelssyni; þar eptir kom hann til Sóreyar, oc var til herbergis med lángvin sínum meistara Stepháni Hanssyni, hann var prófessor; þadann fór hann til Hríngstadar, oc var um páskirnar med Jörgen Seefield, hinum göfugasta herramanni, landsdómara á Sjálandi; þadann fór hann til Róiskeldu, oc þá til Kaupmannahafnar; kom hann þar hinn XXIXda dag Aprilis, oc var yfirheyrdr af biskupinum Doctor Caspar Brochmann, oc medtók af Cancelleranum embættisbréf sitt; sídann var hann vígdr af Doctor Caspar Brochmann Sjálands biskupi til Skálholls, fimta sunnudag eptir páskir, oc var hinn fyrsti er hann vígdi. Enn viku sídar fór hann til skips, oc kom út á Eyrarbacka, oc fór þadann til stóls síns í Skálhollti á fimtudag um sólar upprunn, hinn XXta oc VIIda dag Júnii mánadar. Reid hann jafnskiótt á alþíng, oc hèldt þar synodum generalem sem venja var til; þar ályktadi hann med kènnimönnum samankomnum, at þadann í frá skyldi synodus Skálhollts biskupsdæmis haldast árlega á Þíngvelli, um sama tíma oc lögþíngit; oc þar sem allir prófastar landsins mætti ei, fyrir nauðsynja-sakir oc forfalla, koma þar samann, at sid annara landa, þá skyldu hinir nærstu, úr Rángár oc Arnessþíngum, Kjalarness, Borgarfiardar oc Snæfells syslum, koma hvert ár til alþíngis á Pètrsmessu aptan, oc med hinum skynsömustu prestum, er þeir skulu þángad stefna med sèr, leggia til mála eptir sem kyrkju-ordinantiann heldr til; enn fyrir því at allir prófastar voru þá ei vidstaddir til at gángast undir slíkt, þá veik hann því til samþycktar þeirra, oc liúflegrar vidtektar. Þá tilsagdi hann oc einnin alvarlega, at kosníng oc köllun presta skyldi fara at öllu eptir ordinantiunni, svo at hvar sem ecki væri jus patronatus, edr köllunarrèttr kyrkju-eigenda, skyldu sóknarmenn gèfa prófasti sem fyrst til kynna afgáng sóknarprests síns, svo at hann kæmi þegar í sóknina, edr annar skickanlegr prestr í hans umbodi, oc at giördri bæn af hönum, opinberlega af prèdikunarstól á lögheilgum degi, skyldi sá, med vitund oc leiti prófasts, er kiósast vildi, láta heyra gáfu sína af tölustólnum, hvert er væri vígdr edr óvígdr, einn eda fleiri, oc skyldi þat allt hafa farit framm innan tveggia mánada frá láti prestsins. Því nærst skyldu VII sóknarmenn er hyggnastir væri oc skilríkastir, oc nefndir væri til med prófasts rádi, kiósa hann oc kalla til sóknarprests er þeir vildu, enn pró-

fastr samþyckti; enn sá er kosinn yrdi, rída sídann med kosníngarbrèf þeirra VII manna, oc skrifad undir af prófasti til biskupsfundar, enn biskup riti med hönum lènsmanni, at hann gèfi hönum veitíngarbrèf; því þá voru flest prestaköll veitt af lènsmanni hèr; taki hann svo vígslu af biskupi, oc setjist inní kallit af prófastinum; hèldst þessi medferd á köllun til stada þeirra allra, er konúngr veitti ecki siálfr, alla stund á medann Brynjúlfr biskup hafdi forrád Skálhollts biskupsdæmis.

## XCV Cap. Alþíng.

A því þíngi las Pros Mundt höfudsmadr upp alvarlegar skipanir sínar í XVI greinum, bædi til andlegra oc veraldlegra, eptir konúngsbodi; þarí baud hann biskupum, prófföstum oc prestum, at giöra rètta inventarii bók, yfir allt þat er hverr kyrkja ætti, oc skyldu biskupar láta vyrda þat er óþarft væri, oc skoda hvad missa mætti frá einni kyrkju er önnr þarfnadist mest; skyldi sú vyrdíng skrifast upp í tvennu lagi, oc med nöfnum erlegra manna undir, oc önnr afhendast höfudsmanni, enn önnr liggia á kyrkiunum. Rifnar kluckur oc brotnar, hvar sem fynndist, skyldu flytjast utann oc steypast um; enn jardir sem ólöglega væri seldar frá kyrkium, skyldu teliast fyri sèr svo kyrkjurnar mætti vinna þær aptr. Biskupum baud hann at afhenda sèr jardabækr yfir kristsfiár-jardir allar, oc kyrknajardir, oc rèttann reikníng hvert ár af dómkyrkna oc skóla oc fátækra fè, oc segia hversu med væri farit, einnin útskriftir af fundatium oc máldögum dómkyrkna, skóla oc annara kyrkna; enn prestum baud hann at halda vid prestagördum sínum oc lènsjördum sem hæfdi. Þá var talat um lögmannskosníngu nordann oc vestan, oc vildi höfudsmadrinn ecki annat heyra, enn at Magnús Biarnarson at Múnkaþverá yrdi lögmadr, enn margir vildu eigi sídr kiósa til Gudmund Hákonarson á Þíngeyrum; var þá fyrst lögmadr tekinn svo at landsmenn rèdu ei siálfir, oc vann hann lögmannseyd í lögrèttū med knèfalli. Þar var dæmt um málefni áttræds manns vanfærs, oc um fèlaus fátækisbörn, oc svo samþycktr dómr Vígfúsar Gíslasonar, at hreppstiórar rádi eptirlátnu fè fátækra manna; einninn konu dæmd refsíng til XII marka, er fèll med óbótamanni. Þar var enn, eptir samþyckt

biskupa oc lögþíngismanna, afhyddr Sanda-Oddr, strákr einn, fyrir illyrdi, oc hindrvitnisblöd, er hjá hönum fundust, oc blödinn brennd fyrir nösum hans; mælti hann þá er reykinn lagdi í nasir hönum: þat veit kreistr minn eg þoli þat ecki; engann hlut mælti hann annann, nema íllt eitt, oc bad láta rú-kragann kyrrann á hálsi sèr, medann hann væri hyddr, oc var þat giört sem hann bad. Þar voru dæmd skipti á Oddsstödum milli konúngs oc Eyríks Sigurdarsonar, er sekr hafdi ordit, voru dómsmenn Arna lögmanns: Torfi Eyríksson á Keldum, Magnús á Abæ son Þorsteins Magnússonar, Biörn Gíslason Biarnarsonar, Indridi Jónsson, Amundi Þormódsson í Skógum, Kortssonar Lydssonar danska, bródir Korts oc Nicolásar, oc Finnr Gudmundarson á Sniallsteinshöfda, bródir Biarnar á Flagvelltu, þeir voru dóttrsynir Sigmundar á Hofi Þórólfssonar, enn Finnr var fadir Gudlaugar, er átti Asmundr Gudnason. Med Magnúsi lögmanni voru Marteinn Halldórsson á Alptanesi, Jón Egileson á Skardi, Rúnólfr Sigurdarson frá Einarsnesi, Biörn Jónsson at Skardsá, Jón Gissurarson frá Núpi, Jón Teitsson Biarnarsonar. Dæmt var oc um Túngufialls-þrætuna, milli Akra oc Djúpadals, var Eggert Jónsson á Okrum, enn Magnús Eyríksson í Djúpadal, oc urdu eigi gyldir vitnisburdir Eggerts, hefir þat opt reynt verit sídann af Akramönnum, oc aldregi dugat. A því þingi var heimtr konúngs vegna hjálpartollr af öllu landi, því ófridar von var í ríkinu, enn landsmenn afbádu þat, sakir þraungvar þeirrar er verit hafdi; þó vann þat þá ecki, því at höfudsmadrinn safnadi þeim peníngum siálfr um öll Sudrnes, oc baud syslumönnum at gánga eptir annarstadar; þíngudu þeir oc þar um, oc var fè utann sendt í kaupstödunum, at bæn konúngs, þó *minna* yrdi af þeim er audugastir voru enn höfudsmedrinn hugdi til. Hann fór því oc þá framm, at upp væri færdr fiórdi hverr dalr hundrads hvers af lènum, þar hugdu Danir ei reikníng af stadinn verit hafa; enn Gudmundr Hákonarson á Þíngeyrum, er þá hafdi Húnavatns syslu, oc var hinn ágætasti madr, bar framm afsakanir innan lögrèttu oc utann, oc ritadi svör uppá hverja grein þá sem prentud var, oc þó ári fyrri útgenginn, þat sem hellst kom til leikmanna, oc tók samann supplicatiu til konúngsins til at afbidja þá framfærslu, oc lèt setja hana á dönsku, oc koma henni sídann á höfudsmannin til framburdar; gèck þat alltregt, því

hann þóttist illa vidlátinn; enn Gudmundr fèck af þessu ástsæld, oc mikinn ordstyr. Adrar greinir þær er höfudsmadrinn auglýsti, voru ámynníng til lögmanna, oc allra dómenda, at þeir kaupi sèr ei þrætr um jardir edr annat, edr dragi undir sig, enn fari í öllu at konúngsbodi. Klaustrhaldarar skyldu giöra rètt jarda-registr sem prestar, oc rita allt í tvennu lagi, skyldi önnr afskrift liggia vid kyrkjur, enn önnr afhendast Jens Söfrenssyni umbodsmanni höfudsmanns fyrir Michaelsmessu. Kristfiár-jardir allar, oc LX hundrud er lágu undir Reinistad, skyldu leggiast at konúngsbodi til hospítals, er setiast skyldi í Videy; syslumenn allir, klaustrhaldarar, oc reiknínga eda lènamenn gialdi landþíngskrifaranum, sem bodit var, afdráttar-laust; oc at sídurstu baud hann sig til, sem hann var vanr, at giöra rètt hverjum manni.

## XCVI Cap. Brynjúlfr biskup tekr stól.

Brynjúlfr biskup reid eptir alþíng í Skálaholt, oc var hönum afhendr stadrinn med öllu hans inventario, af brædrum oc erfíngium Gísla biskups, Sigurdi prófasti Officiali, oc Arna lögmanni Oddssonum; fór þat framm hinn Vta dag Július mánadar, í vidrvist Orms Vigfússonar rádsmanns Skálhollts-stadar, oc Jóns Gissurarsonar frá Núpi, hálfbródrs Brynjúlfs biskups; enn viku eptir Þorláksmessu hóf biskup hina fyrstu Visitatiu-reid sína yfir Vestfyrdínga fiórdúng, oc kom í Skálhollt aptr viku eptir Krossmessu, tók hann glöggvann reikníng kyrkna. Þá vistadist Torfi frændi hans hjá hönum, son Jóns Gissurarsonar; kom þá út um sumarit brèf Jóns, sonar Gudrúnar á Járngerdarstödum, er hertekinn var í Algier, oc önnr fleiri slíkra manna.

## XCVII Cap. Frá Halli oc fleiru.

Nú lagdi Benedict Pálsson frá sèr rádsmennsku at Hólum, oc tók Mödruvalla-klaustr; hann hafdi konúngsleifi at eiga Hólmfrídi Einarsdóttr þrímenníng sinn; þat sumar qvæntist Hákon son Gísla lögmanns Hákonarsonar, oc fèck Helgu dóttr Magnúsar lögmanns, at Múnkaþverá; var brúdkaup þeirra haldit at Mödruvöllum, þar

var Þorlákr biskup at bodi, oc Kristín Gísladóttir kona hans, oc margt hinna bestu manna; giördist Hákon nockra hríd rádsmadr at Hólum, enn sídann syslumadr í Rángárþíngi, hann var módrfadir Odds Sigurdarsonar; ecki var Magnús lögmadr þadann af vid Vadla-syslu, oc hèldt hana um vetrinn. Hallr í Mödrufelli var son Biarna í Skridu Pálssonar syslumanns Grímssonar á Mödruvöllum; þeir frændr voru hardgiörfir at mörgu; dæmdi Hallr at Spialdhaga um óhóflegann klædaburd, einnin um jördina Gullbrecku, er Kolbeinn Asmundarson beiddist dóms á. Hann var kalladr Hallr hardi, því sumum þótti hann blódgiarn; oc er mælt at hafi látit af lífi taka V eda VI þau missiri er hann hèldt sysluna, þó eptir dómum, eda fyrir mein eda hórdóma, oc eina konu taka í blódböndum, er sagt er at í frændsemi væri vid hann; enn lítt var þá vandat um fyrir sakamenn, oc eru tveir vegir frá hófi *hverju*. Þar víkr Asmundr at, er þá bjó í Samkomugerdi, oc lítt var í vináttu vid hann, í Hervarar-rímum, er hann segir svo:

Stendr innlendum vyrdum verr,
at vinna á kvinnu skyldri sèr,
enkum krenkíng ef hún bèr,
ádr oc þiád í súta-hver.

Hallr átti fyrst Herdysi dóttr Jóns Arnfinnssonar í Hlíd í Skagafiardardölum oc Gudrúnar Rafnsdóttur úr Skördum Oddssonar, systr Jóns, oc Pètrs hins sterka, þeirra börn voru Biarni prestr á Grund, klerkr mikill, Teitr, Páll prestr, Jón, Gudmundr, Halldóra, Gudrún. Sídann átti hann Gudrúnu dóttr Jóns prests Olafssonar í Höfda oc Rannveigar Eyríksdóttr, þeirra börn voru Magnús at Gilsbacka, Halldór í Núpufelli, Biörn, Halldóra er Gudmundr átti at Hvassafelli, Bergljót er Magnús prestr átti, Benedictsson, Magnússonar; Herdys, Ragnhildr er Hiallti átti son Biarnar Pálssonar sunnan frá Teigi; Gudrún er Oddr átti Biarnason, er seinast var klaustrprestr at Mödruvöllum. Biarni prestr son Halls bjó lengi á Grund, hann átti Sigrídi dóttr Olafs Jónssónar frá Núpufelli; VI voru börn þeirra; eitt var Herdys hin sídasta kona Þorvalds í Hrísey, Gunnlaugssonar Grímssonar frá Ökrum, voru þeirra synir Hallgrimr oc Gunnlaugr, knálegir menn; Gunnlaugr var

módrfadir Ragnheidar Þórarinsdóttr í Videy. Þurídr var önnr Biarnadóttir, er gipt var Sigurdi syni Hrólfs syslumanns í Þíngeyar-þíngi, Sigurdarsonar syslumanns á Vídimyri Hrólfssonar, þau voru módrforeldrar Sigrídar, er Jón prestr átti, er seinast var í Núpufelli, Jónsson Oddssonar frá Backa, Jónssonar frá Melum í Svarfadardal, Oddssonar hins sterka, Biarnasonar, Sturlusonar. Mikill fioldi manna er kominn frá Halli oc systkinum hans, oc lengi lifdi hann eptir þat er hèr var komit. Þat haust er hann hafdi sysluna í Eyafyrdi var eitt kallat bauluhaust; giördi hardt til jardar allt at jólum framm, svo menn lógudu þá enn fiám sínum. Þá rak sædyr ókennilegt á Þíngeyrasandi, er Biörn at Skardsá hefir lyst; oc vard madr svo ærr í Vestmannaeyum, at djöfulódr var haldinn, oc fèngu menn eigi bundit, fyrri enn þat var tekit til ráds at hann var bundinn á lopt vid bitana í Landakyrkju; þar brautst hann svo miög umm at hann sprack. Þá lèt Þorlákr biskup halda þriá bænadagi í Novembri, hinn VIta, XIIIda oc XXta dag í mánadinum; var þat almennt í þann tíma, at höfdíngiar voru trúræknir, oc vyrdu gud; var páfatrú oc helgidóma mest öll þrotinn, oc fór spaklega framm í landi; enn annarskostar var þó þá vandlæti ærit í sumum greinum, oc teiknatrú mikil; oc fór í vöxt ótti fyrir fiölkíngi, oc átrúnadr þess hjá mörgum manni; enda voru þeir hellst til fáir sem rètt þecktu christindóm, sem þó hefir laungum verit; enn óvenjur margar er leidst höfdu inn, stódu í vegi fyrir manndómlegum atburdum, oc þánkafrelsi öllu, at kalla.

## XCVIII Cap. Vetrarfar oc önnr tídindi.

Þann tíma voru einnin hardindi lángsöm, er slóu nidr hugum manna; oc giördi vetr þennan jardbannasaman fyrir nordann land,
1640 eptir jólinn, svo at peníngar fèllu, fè oc færleikar, oc svo naut, þó var betra fyrir austann, enn vorit hardt hvervetna, oc bjargleysi med alþýdu. Hlutir voru þá miklir fyrir sunnann land, allt at X hundrudrum, enn hvergi minna enn IV hundrud; var þó magr fiskrinn; tyndust IX menn af skipi í Loptstadasundi á Byrarbacka, oc hèt formadr Gudmundr Jónsson; enn annar skadi vard sídar á Stockseyrarsundi med XI mönnum, sá hèt Jón Biarnason

er fyrir var, enn skipit átti Katrín-Þormódsdóttir frá Brædratúugu Asmundarsonar, hún var ekkja eptir Magnús Gíslason í Midfelli. Þá giördist slím í lopti, svo at ógiörla sá himintúngl þó heidríkjur væri, oc hèldst í VII missiri þadann af, oc batnadi árferdit sídann. A nyársdag giördist Jón son Halldórs lögmanns Olafssonar rádsmadr í Skálhollti. Þann vetr tyndust IIII menn á Vatnsleysuströnd, var einn Gudmundr Jónsson lögrèttumadr á Brunnastödum; enn þeir druknudu af einstökum mönnum sem mannsmót var at eda nefndir eru: Hallgrímr son Jóns lögmanns Sigurdarsonar í Grafará um vorit, Símon Gíslason í Blöndu af snjóbrú, Jón Halldórsson í Hellisá í Nordrárdal, Jón son Jóns Olafssonar Ormssonar oc Erlendr son Þorfinns Sigurdarsonar frá Reinistad í Jökulsá í Axafyrdi; Jón reid útí ófæru, enn Erlendr vildi duga hönum, oc tyndust bádir. Tveir menn fórust med fè sínu á Nordrárdal. Erlendr á Hvoli Asmundarson Þorleifssonar lögmanns, er syslumadr var í Arness-þíngi, andadist þá gudrækilega, hafdi hann verit madr audugr, oc átta Salvöru dóttr Stephans prests í Gaulverjabæ Gíslasonar biskups, var þeirra dóttir Katrín er Vígfús Gíslason átti; hann hafdi þá sysluna, oc bjó at Hvoli, oc voru börn þeirra Katrínar, Gísli oc Jónar tveir, Salvör oc Þorbjörg; er oc margt komit frá systkinum Erlendar. Jón prestr son Brands prentara, Jónssonar Jónssonar svenska, fèck þá Akraþíng á Myrum; enn Jóseph prestr Loptsson, oc dóttrson Odds biskups, er fyrst hèldt Mosfell, oc misti, hafdi nú fengit Olafsvelli fyrir tveim vetrum, oc hefir hann nefndr verit ádr, hann var mikill madr oc sterkr, oc hinn mesti raddmadr; var hann stundum í Skálhollti; hann giördi þat eittsinn til þrekraunar at hann vód Hvítá á Þengilseyri um vetr í frosti, svó hann hakadi vatnit, oc studdist vid járnstaf, enn settist á bæar-þrepskiöld er hann kom heim í Skálhollt, oc drack mikla blöndu kalda, enn eptir þat sló at hönum hroll; þá leysti Brynjúlfr biskup hann fyrir ofdyrfd. Hann átti Sigrídi dóttr Isleifs Ejólfssonar oc Seciliu Magnúsdóttr, voru börn þeirra Loptr oc Biörn, Skapti, Isleifr, Secilia, Kristín, Þorleifr. A þessu vori er getit í Aprili dóms Torfa Erlendssonar, oc hafdi hann þá fengit syslu á Nesjum sudr, því hann hafdi vináttu mikla vid Jens Söfrensson. Þá var frost, hagl oc snjór at fráfærum, oc enginn gródr fyrir nordann.

## XCIX Cap. Frá höfudsmanni oc þíngi.

Pross Mundt var þá enn höfudsmadr, oc á alþíngi; kom hann med konúngsbrèf um stadfestíngu Magnúsar Biarnarsonar í lögmannsdæmi; annat var um at ei væri hæckud afgiöld af lènum, eptir því sem Gudmundr Hákonarson hafdi bedit. Hid þridja var stadfestíng Kópavogsdóms, hann hlíddi uppá kaupskap vid Dani, oc skuldareidr, oc sakir þará, oc þótti hardr oc óþarfr Islandi. Hid fiórda var um at blóddálkr væri tekinn úr fiski þegar flattr væri; útvegudu reidarar þau tvö brèf; þeir sendu skip á Bátsenda höfn, enn vildu afleggia höfn í Grindavík, sakir slisfara er þar höfdu ordit, oc líkadi Grindavíkíngum illa. Höfudsmadr baud jafnann á hverju þíngi öllum mönnum, innlendum oc útlendum, at giöra þeim rètt, oc sitja yfir málum til þess er þeim væri lokit, oc svo baud hann syslumönnum at giöra.

## C Cap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Brynjúlfr biskup kom á þíng oc setti synodum; komu þá tveir einir prófastar af þeim er ádr voru tilnefndir, Snæbjörn Stephánsson í Odda, oc Jón Jónsson á Melum; þat þótti biskupi óhlídni oc afrækt vid sig, oc þótti ei minna vera meiga enn afsökunarbrèf nockrt hefdi sendt verit, vildi hann þetta eigi vítalaust hafa, oc kalladi sannlegt at XII aura sekt væri vidlögd, sem lögrèttumönnum, er ei hefdi forföll, oc kæmi ei til þíngs á rèttum tíma, oc at þær fèsektir legdist til fátækra í þeirri sveit er sá prófastr byr í; enn er hann hreifdi þessu, beiddust prófastar af hönum oc svo prestar adrir, at þeim væri vísat til hvar taka skyldi ferdarkost oc ómakslaun, þar sem landslöginn lögdu lögrèttumönnum kost oc kaup hvert ár. Þat hèt biskup at bera framm fyrir höfmanninn; enn eigi nefndu þeir í þat sinn hverr þeim veitti kost medann þeir sátu med biskupi at dómunum, því biskup giördi þat siálfr at fornum vana; má því ei ætla, segir Jón prófastr Halldórsson, at hann edr þeir hafi leidt í hug sèr, at svo mundi biskupar glöggsærir verda at spara dómsprestum sínum fædi. Ecki er þess gètit at prestum hafi heldr nockut verit lagt til í þessu skyni, enn þó komu sídann árlega til stefnunnar svo margir prófastar oc

prestar sem á var qvedit, af ást oc hlídni vid Brynjúlf biskup, oc þó stundum fleiri, ef hann mæltist til; enn þar dróg til höfdíngskapr hans oc örleikr, því hann veitti meddómsmönnum sínum, ei at eins mat oc öl, oc dryck þann annann er þeir vildu hafa, medann þeir sátu at dómum med hönum, heldr einnin vyrdugligt ávarp oc veitíngar, oc at sídurstu vinsamlega þöck fyrir adstod þeirra oc ómaka. Engum gegndi hann ordum eda eyrindum er synodo voru til tálmunar medann á málum stód; enn sídann lèt hann færa tjöld sín frá Þíngvelli í þann stad vid Hrafnagiá er stutti stígr heitir, oc dvaldi þar medann hann ritadi brèf sín med þíngmönnum, eda sysladi í ödrum eyrindum, eda gegndi vinum sínum; var þar opt mikil mannqvæmd oc veitíngar stórar. Þat var þá sídr í þeim málum er snertu jafnt andlega oc veraldlega, at syslumenn nefndu í dóm jafnmarga presta oc leikmenn, enn stundum nefndi prófastr presta, enn syslumadr leikmenn í hinn sama dóm, oc voru þat kalladir helmíngadómar; stefndust þá oc dæmdust prestar opt fyrir veraldlegum; þat þótti Brynjúlfi biskupi fráleitt gódum sidvana í ödrum löndum konúngs, oc vandasamt fyrir biskup eda prófast at samþyckja slíka dóma, ef eigi skyldu þeir annadtveggia hlaupa inní annara syslan, eda dómarnir yrdu at eins hálfgiörfir ella; fyrir því ályktadi hann á þessum fundi, at andleg mál skyldu dæmast at eins af andlegum, oc klerkum stefnast fyrir hid næsta yfirvald sitt. A þessu þíngi las hann upp í lögrèttu umqvörtunar-brèf sitt, at hann þættist vanhaldinn af erfingium Gísla biskups Oddssonar um gyldleika á peníngum Skálholltsstadar, oc um bresti þeirra, oc fyrnd oc lasleika dómkyrkiunnar, er þá var mjög hrörleg; einnin þörfnun at utanfarar tillagi eptir biskups vígslu, ávexti á stadarfè oc peníngum, oc enn fleiru, oc beiddist á dóms oc leidrèttu af Pros Mundt höfudsmanni. Nefndi þá Jens Söfrensson, umbodsmadr höfudsmansins, menn at hans bodi, til at skoda mál þetta, oc semja á bádar sídr, Magnús lögmann Biarnarson, Vígfús oc Hákon Gíslasonu, Þórd Henriksson, oc Biörn Pálsson Gudbrandssonar, hafdi Biörn þá fengit Vadlasyslu, oc bjó sídann at Espihóli hinum nyrdra, oc Pál Gíslason lundþíngskrifara; þeir voru hindradir er nefnast skyldu fyrstir syslumanna, Þorsteinn Magnússon á Þyckvabæ, oc Þorleifr á Hlídarenda Magnússon Jónssonar. Magnús lögmadr reid af þíngi, oc þeir allir til Bessastada, oc þadann í Skálhollt med Jens umbodsmanni, oc samdist þar,

hinn XXta oc VIIIda dag Júlii, fyrir medalgaungu fógetans, oc þeirra annara, sátt ímillum Brynjúlfs biskups oc Oddssona, Arna lögmanns, Sigurdar prófasts, oc Eyríks, oc Margretar systr þeirra, med þeim hætti, at þau fengu Brynjúlfi biskupi tyutygi hundrud til eignar í jördum, oc þó atqvædalitlum, voru þat hálf Engihlíd nordr í Holltastada kyrkjusókn XXV hundrud, hálft Lángholt efra í Runamannahrepp XX hundrud, hálfr Reinir á Akranesi XX hundrud, Sleggiulækr í Sídumúla-sókn XXIV hundrud, hálfr Biarghóll í Stadarbacka-sókn í Midfyrdi VIII hundrud, oc III hundrud oc LX álnir í Vatnshorni í Skorradal; þarímóti gaf meistari Brynjúlfr biskup þá brædr med öllu qvitta, um dómkyrkiuna oc allt hennar inventarium, er hönum væri vitanlegt at hún ætti, oc sèrhvad annad er hann þóttist vanhaldinn af ádr, þöckudu svo hverir ödrum skiptinn.

## CI Cap. Qvonfáng Brynjúlfs biskups.

Þadann reid Brynjúlfr biskup nordr oc Magnús lögmadr oc adrir; oc var í Augusti mánadi hinn IXda dag, haldit at Skridu í Hörgárdal handsalsöl meistara Brynjúlfs oc Margretar dóttr Halldórs lögmanns Olafssonar; þar var Þorlákr biskup oc Magnús lögmadr at Múnkaþverá, Vígfús oc Hákon syslumenn Gíslasynir lögmanns, oc margt annat göfugmenni; enn hinn *XXX*ta dag sama mánadar var haldit brúdkaup þeirra med mikilli rausn, í vidrvist hinna sömu manna; fór sídann Halldóra Jónsdóttir, med þremr dætrum sínum ödrum, Valgerdi, Helgu oc Sigrídi sudr í Skálhollt, til vistar med Brynjúlfi biskupi, oc vard hann þeim kynsmönnum til upphefdar oc adstodar, oc giördist brátt hinn mesti skörúngr oc frammqvæmdarmadr, bædi í embættis athöfnum oc búsyslan, sem þá hafdi þegar nockut synt sig, enn syndist þó meira sídann.

## CII Cap. Frá ímsu, oc svo mannalát.

1641 Þá var vetr afbragdsgódr til jóla, enn þadann af þó hardr, oc jardbönn á Þorra, oc öndverdlega á Gói, enn frost því meira sem á leid, oc hardt öndverdt vorit; enn batnadi fiórda dag páska, oc

giördi vor gott; miklir voru þá hlutir med Sudrlandi öllu, oc lestarhlutr í Þorlákshöfn, svo mörgum þótti sem brugdit hefdi árferdi, oc hellst afla til batnadar, sídann Brynjúlfr biskup kom til stólsins. Þá tyndist skip frá Hrauni í Grindavík sexæríngr med VII mönnum þridja dagin í dimbilviku. Var prentud á Hólum útleggíng yfir Manassisbæn Forsters, þeir kölludu þat gyllini skriptargáng, oc lagdi Þorlákr biskup út; einnin bæklíngr Winthers um helvíti oc bænadaga prèdikanir. Biörn at Skardsá ritadi útleggíngu yfir gátur Gèsts blinda. Þá var mál í Eyafyrdi milli Biarna Jónssonar er kalladr var Eyfyrdíngr oc Ivars Olafssonar, um heytöku. Konúngsbrèf komu nockr um smáhluti; eitt er mælt at væri lèn fálkaveidar til Jóhans Mumms Hollendska, oc hans barna; oc enn er sagt, at kona sú er Margrèt Gunnarsdóttir hèt, gæfi konúnginum XIV hundrud í Arnarhollti á Kjalarnesi. Um þær mundir andadist Holgeir Rósenkrans er fyrri var höfudsmadr, oc hafdi lærdóms ord mikit. Þá lèt Ormr Jónsson lögrèttumadr í Arnessþíngi dóm gánga í umbodi Vígfúsar Gíslasonar syslumanns, um preststyundir af öllum kyrknajördum þar í syslu; var sá dómr lesinn upp á alþíngi, oc átti at samþyckia; enn meistari Brynjúlfr biskup kom í lögrèttu, oc spurdi lögrèttumenn hvert þeir vissu at slíkar tyundir hefdi nockuru sinni verit goldnar af Skálhollts jördum? þeir neyttu því; þá qvadst hann afsegia nyar álögr allar á landseta dómkyrkiunnar, oc jardir hennar, eignir eda inntektir á móti konúngsbrèfi, er bannar þvílíkt án hans leyfis; lèt hann þá lesa þar upp brèf sín, oc vard sú ályktan, at mál þat skyldi standa til konúngs urskurdar, enn því var eigi hreift sídann svo menn viti, oc fèck biskup af því ámæli nockurt af prestum. Madr var tekinn af á alþíngi, sá hèt Helgi Þorgeirsson, hann hafdi fallit í hordóm, oc stockit af landi med enskum á Vestfiördum, qvongast sídann á Englandi at lifandi konu sinni hèr, oc komit aptr þar eptir, oc legit hèr um vetr, enn tekinn þvínærst. A því þíngi kærdi höfudsmadrinn miög, at hann fengi eigi þau skjöl af biskupum er hann hafdi beidst eptir, oc ei heldr af veraldlegum, oc baud at þau skyldi þá enn afhendast umbodsmanni sínum fyrir Michaelsmessu. Þorlákr biskup kærdi þar, at vída væri enn dalr sá ógoldinn er kyrkjur skyldu leggia til biblíu prentunar, oc endrnyadi höfudsmadr þá bodit. Fiskar ókennilegir voru sènir í Borgar-

fyrdi oc Hvalfyrdi, oc ormr í Lagarflióti. Þá visiteradi Brynjúlfr biskup Austfyrdínga-fiórdúng, oc fèll med hestinum, er hann reid frá Heydölum í Breiddal, oc laskadist í hægri hendi, enn Biörn Þorvaldsson kippti í lid; Torfi Jónsson frændi hans taldi þat med krossburdi. Ragnheidr var þá borinn, dóttir hans, oc Gudrídr dóttir Þórdar prests í Hytardal, er sídar átti Jón Vígfússon. Magnús lögmadr gipti þá Jórunni dóttr sína Jóni Magnússyni í Midhúsum, hann var sonarson Ara í Ögri; þeirra son var Magnús lögmadr er átti Gudrúnu Þórgilsdóttr frá Brimilsvöllum, þeirra dóttir Margret er Gísli Jónsson átti í Máfahlíd. Gísli son Magnúsar lögmanns hafdi verit hèr um vetrinn, oc fór þetta sumar utann til Danmarkar, oc þadann til Hollands, oc dvaldist þar vid háskóla í Leiden er þar var frægr, oc komst þar í vinfengi vid mikilsháttar menn, oc hina lærdustu; hèldt hann sig ríkmannlegast allra úngra manna íslendskra í þann tíma. Sótt gèck mikil um haustit; fór þá Jens umbodsmadr utann, oc vard Lauritz umbodsmadr. Tyndist þá skip á Eyasandi, milli lands oc eya. Þat haust lèt Þorlákr biskup halda þriá bænadaga. Þá keypti Þórdr prestr í Hytardal hálft Saudafell, af Gísla Olafssyni Hannessonar í Snóksdal, hann keypti oc margar adrar af Olafi födr hans; son Gísla var Sigurdr Dalaskáld. Margir prestar dóu nordanlands í sóttinni, einnin Sigurdr prestr Oddsson í Arnarbæli XIta dag Novembris, hann var vel at sèr, oc lærdr madr; enn jafnsnemma eda litlu ádr Astrídr Gísladóttir lögmanns Þórdarsonar, kona Jóns Magnússonar at Haga á Bardaströnd syslumanns í Dölum, oc Jón Magnússon litlu sídar hinn XVda dag Novembris. Jón Oddsson í Reykiavík andadist á allraheilagramessu, enn Oddr prófastr Stephánsson í Gaulverjabæ, fadir Sigurdar prests í Arnarbæli, hinn IIIdia Decembris, sonarson Gísla Jónssonar, var hann þá miög aldradr, oc einn hinn lærdasti madr á landi hèr. Þau missiri beiddist konúngr eptir gódhestum hèdann, tveimr, þeim sem minnstir væri at vexti.

## CII Cap. Frá sama.

1642 Vetr var þvínærst gódr, þvíat árferdi var miög batnat, bar þat þá til um qvöld hins þridja Januarii, at Einar Narfason oc Jóseph prestr Loptsson frá Olafsvöllum ridu frá Skálholti á ís, oc var

ein vök í, reid Einar í vökina oc tyndist. XI dögum sídar andadist Páll prestr Erasmusson heima á Skúmstödum, oc þótti merkilegr madr verit hafa. Snjóflód hlióp á Reinivöllu í Kjós hinn XXta dag Februarii, oc tók hey mestöll, enn dráp XII naut, oc spillti túni, enn mönnum í fiósi vard borgit. Sama dag hliop á Þorlákstadi, svo bærinn mátti ei þar vera sídann. Oddr Oddsson var þá prestr at Reinivöllum, enn Einar Illhugason tók vid þat ár, er sídann vard prófastr. Vídar spilltu snjóflód miklu, heldst á Tindstödum á Kjalarnesi. Madr drnknadi á Hólmsgrandanum, Sigurdr Sighvatsson er lengi hafdi búit at Hvaleyri. Snjóflód fleigdi manni á sæ út austr á Kolmúla, enn annar nádist. Þá tyndust skip undir Eyafiöllum, enn tyæríngr í Grindavík med IX mönnum; sexæríngr tyndist í Borgarfyrdi, oc XII menn dóu skyndilega í Grímsey. Þá andadist at Þíngeyrum Halldór prestr Þorsteinsson, er prófastr var í Húnavatnsþíngi; fleiri urdu skada-tídindí á stöku mönnum. Um vetrinn lèt Gudmundr Hákonarson gánga dóm at Sveinstödum í Vatnsdal, XVIIIda dag Februarii um letíngia, enn Biörn Pálsson at Espihóli sídar um mála Olufar Thómasdóttr. Þá dó Jón prestr Sigurdarson Einarssonar at Breidabólstad í Fliótshlíd, oc tók Vígfús Oddsson Gaulverjabæ. A alþíngi var dæmdr arfr frá þeim börnum hinna herteknu í Algier, er tekit hefdi Tyrkiatrú; þar kom oc mál Ivars Olafssonar oc Biarna Eyfyrdíngs; nefndi Magnús lögmadr í dóm Sigurd Markússon, Eggert Jónsson á Ökrum, Rúnólf Sigurdarson frá Einarsnesi, Martein Halldórsson, Nicolás Einarsson, Jón Egilsson á Skardi; enn Arni lögmadr nefndi Biarna Gíslason, Indrida Jónsson, Pálma Henriksson Gíslasonar, Hannes Helgason; hans ættmanna verdr sídar gètit; Ara Magnússon oc Jón Þorkèlsson, oc fèll Biarni á málinu, sem í hèradi, oc dæmdist ófundarbót; hann var flækjumadr mikill. Þar kærdi höfudsmadrinn enn hid sama sem fyrri, at hann fengi ecki skjölinn; hann baud oc lögmönnum, oc Hákoni syni Orms Vígfússonar, er þá var landþíngsskrifari, at skoda öll jardaskjöl oc innfæra í bækr med undirskriftum oc innsiglum. Af því þíngi reid Torfi Jónsson vestr at Núpi med födr sínum, oc skildi ádr vid Brynjúlf biskup med blídu, oc fór utann um sumarit til frama sèr; enn Brynjúlfr biskup reid um Sudrnes, oc Visitatiu-reid fyrir jökul, oc kom heim aptr um krossmessu; aptr reid hann til Vest-

Farda, oc í Trèkyllisvík oc Adalvík, þar hafdi eigi biskup ridit um í meir enn C vetr, fór hann þadann yfir Isafiardardjúp, oc til Hollts í Önundarfyrdi, oc sat þar kaupöl Biarnar Snæbjarnarsonar skólameistara, er hann gèck at eigá Þórunni dóttr Jóns prófasts Sveinssonar í Hollti, bródur Brynjúlfs biskups; tók hann þar blessan födr síns, er þá lá í kör, oc reid sídann í Skálhollt austr; hefir hann svo frásagt siálfr; í þeirri ferd keypti hann járnhrínginn forna frá Helgafells kyrkju fyrir XL álnir, enn hann var vyrdr fyrir XV álnir, oc var kalladr stallahríngr hofgodans at Hofstöðum, er hann hafdi at eydum, oc at hann hefdi verit lagdr til Helgafells kyrkju er kristni kom, oc mátt ei takast þadann, nema færi í Skálhollt; enn þat er þó annarskostar undarlegt at stallahríngur hafi af járni verit. Þá andadist hinn VIta dag Augusti mánadar, vestr at Saudlauksdal í Patriksfyrdi, Ragnheidr Eggertsdóttir Hannessonar, er átt hafdi Magnús Jónsson gamli, oc módir var Ara í Ögri oc þeirra Magnússona, hún hafdi átt IX hundrud hunddrada í jördum, oc verit höfdíngskona merkileg; hafdi hún þriá vetr hins Xda tugar, oc var borinn vetri fyrir fráfall Jóns biskups Arasonar. Um þær mundir var óþyckt med Gudmundi Hákonarsyni, oc kaupmanni á Skagaströnd Kristiáni Hesselberg, baud Magnús lögmadr Jóni Egilssyni á Geitaskardi at dæma um þat, fór þat framm hinn IXda dag Augusti, oc dæmdust kaupmanni sektir fyrir ord oc atvik; enn deginum eptir var giör sátt á medal þeirra oc var mælt at kaupmadr hefdi drjúgum ordit at þægia í kyrrd. Þá var borinn Halldór son Brynjúlfs biskups í Skálhollti, hinn VIIIda dag Decembris.

## CIV Cap. Mannalát.

1643 Næsti vetr var gódr, enn skip tvö tyndust; tíæríngr í Grindavík, oc komust þó af menn nockrir, enn sexæríngr á Midnesi; var þá fiskafli mikill. A þeim vetri andadist Hákon bóndi Biarnarson Gíslasonar at Nesi vid Seltjörn, fadir Gudmundar á Þíngeyrum, oc þótti merkilegr madr verit hafa; þat var á föstudaginn lánga; hann hafdi átta Solveigu dóttr Jóns Marteinssonar, oc voru börn þeirra önnr enn Gudmundr, Sigurdr, Biörn, Þórunnar tvær oc Halldóra. Sigurdr átti Ingibjörgu dóttr Einars Hákonarsonar,

Arnasonar, *Gíslasonar*, þau áttu nockr börn, enn illa reiddi Sigurdi, því hann var lausrádr miög. Biörn átti Þorkötlu Jónsdóttr systr Sigurdar prests, er druknadi at Helgafelli, oc börn allmörg, var hann oc lausrádr, oc vissu menn ógiörla hve mörg voru launbörn hans. Þórun var gipt Kort Þormódssyni Kortssonar hins danska Lydssonar, þeirra son var Þorleifr, hann var fyrst skraddarasveinn í Kaupmannshöfn, oc þótti þó allvel framadr, oc fèck sídar Stranda-syslu; enn dætur voru Þórunn er átti Þorleifr prestr í Sölvatúngu, oc Katrín er átti Jón prestr Dadason í Arnarbæli. Magnús var enn Kortsson, lögrèttumadr í Abæ, hann átti Þurídi dóttr Magnúsar er þar var ádr, Þorsteinssonar í Þyckvabæ, þeirra börn voru Magnúsar tveir, Þorsteinn, Lydr prestr oc Kort; Lydr prestr var fadir Gudmundar födr Lyds syslumanns oc Magnúsar læknis. Lydr var enn Kortsson. Halldóra Hákonardóttir var gipt *Eggerti* frá Snókadal Hannessyni Biarnarsonar, þeirra börn voru *Hannes*, sem ætt er frá kominn, Jón eldri, oc Jón yngri á Hofstödum, hann átti Margretu dóttr Steindórs Finnssonar á Ingialdshóli, oc krenktist, oc margt fleira í þeim ættum. Steindór Finnsson hafdi í þennann tíma þridiúng af Stapa umbodi, oc var vel at sèr, enn þó sóadist vid þat fè hans. Þrír menn urdu brádqvaddir á Steinvadi í Utmannasveit, þat var haldit af silúngsáti, þess er kalladr er öfuguggi. Þau missiri andadist Ingialdr lögrèttumadr at Reykjum í Midfyrdi Illhugason Gudmundarsonar, oc var þá Illhugi son hans prestr at Tjörn á Vatnsnesi.

## CV Cap. Frá alþíngi oc höfudsmanni.

Ecki fæ eg giörnínga talit er þá voru giördir, svó at neinn frædist af; enn á alþíngi var þat ályktat at lausamenn væri eigi bændum til meins med skipa-útgiörd sinni, oc at þat yrdi naudverja at bíta þann sem fer med fíngr í munn manni; oc um Ingu Kolbeinsdóttr úr syslu Vígfúsar Gíslasonar, er fundinn var í dularmáli vid barn sitt, at henni vægist á lífi til frekari ransóknar, medann ei mátti sanna at hún hefdi fargat því; oc enn fleira. Þar kærdi Pros Mundt höfudsmadr miög, at hann hefdi eigi fengit skilríki þau er hann heimti af biskupum, enn þó af nockrum veraldlegum, oc fyrir þá sök fengi hann ecki samit jardabók yfir

landit allt; krafdist hann svars þeirra hví þeir hefdi svo giört, enn eigi vitu menn hverju þeir hafa svarat; hann baud þá öllum mönnum at giöra þeim lög, sem hann var vanr, oc at þeir kæmi supplicatium til sín er þat vildu, ádr hann færi utann; hann bad menn selja konúngi ædardún fyrir fullt verd, oc leggia í kaupstadi; sídann fór hann utann, oc var Lauritz Nicolásson umbodsmadr hans; kom hann eigi sídann híngat.

## CVI Cap. Manntión.

Skiptapi vard á krossmessu þat haust, oc mannskadar einstakir; þá gat madr barn vid stjúpdóttr sinni í Húnavatns-þíngi; enn á Mariumessu á jólaföstu bar þat til at Sigurdr prestr i Middölum, son Olafs prests at Kvennabrecku Moldar-Brandssonar, var sóktr til Hamraenda frá Snóksdal, at veita þiónustu vinnukonu; hann var lítt meira enn þrítugr madr, oc átti Ragnheidi Eggertsdóttr Hannessonar í Snóksdal; hann fór fylgdarlaust heim upp yfir hálsinn í útsýnnings-jelium, oc villtist, oc leiddi hest sinn, til þess er hann hrapadi ofann fyrir björginn, fyrir utann Hamraenda, XX fadma hátt, oc fanst at morgni er hans var leitat, örendr, enn hestrinn hafdi komit til Hamraenda um qveldit, oc var taumrinn nidri. Þótti svo Ragnheidi oc fleirum, sem væri at kénna ávyrdíngu Hannesar bródr hennar í Snóksdal, oc var med þeim heldr kaldt um stundir; fèck hennar seinna Pálmi Henriksson lögrèttumadr, oc er afqvæmi þeirra talit ádr.

## CVII Cap. Frá ímsu, oc um styriöld.

1644 Um vetrinn voru hlutir gódir; þá tyndist sexæríngr á Utskálum í Gardi XIVda dag Febrúarii mánadar med VII mönnum, oc skip tyndist hjá Narfakoti. Hollendsk skip komu í Hafnarfiörd um vorit, vildu skipveriar kaupa víd landsmenn, enn umbodsmadr sendi þegar eptir Arna lögmanni Oddssyni, oc rèdist þat af, at Islendíngum var bannat at kaupa vid þá; sigldu þeir þá vestr undir jökul, oc seldu þar. Rúnólfr son Jóns prests á Skeggiastödum Rúnólfssonar, var þann vetr skólameistari at Hólum, eptir

Sigfús Egilsson. Þá kom út ritníngar-útleggíng Þorláks biskups Skúlasonar, oc þóttu heldr sumstadar dönsk ord í, er hún var af dönsku lögd út, sem legr fyrir herbúdir, eda stígvèladir fyrir skófatadir, oc enn fleira, þar var skipt í versum, oc var hún í því handhægri hinni fyrri. Mikil ótídindi höfdu spurst híngad út um vorit úr ríki konúngs vors Kristiáns fiórda, höfdu Svíar veitt ágáng stórann, oc Hollendíngar lagt samann vid þá, oc giört innhlaup ógurlegt í Holsetuland, oc vídar í Danmörku, rænt oc brennt hvervetna sem þeir komu. Vard þá ei af danskri siglíngu út híngad, fyrr enn undir haust, oc ei kom höfudsmadr. Var dæmt á alþingi um konur þær er liúga á sig barneign, oc annar dómr um fullrètti. Þar kom fyrir dómr úr Húnavatns-þíngi um barngètnad Biargar Andresdóttr med Jóni Þorsteinssyni, er átti módr hennar, oc reinst hafdi óhæfr vid hana til barnlagnadar, eptir svörnum vitnum, var Gudmundr Hákonarson dæmdr vid þann vanda skilinn, oc málinu skotit til höfudsmanns atgiörda er hann kæmi. Ingun Kolbeinsdóttir var oc dæmd sek eptir dómi Vígfúsar Gíslasonar, því hún hafdi eigi fengit afbötunar gögn, oc ályktudu þeir þat lögmenn Arni Oddsson oc Magnús, Arni Gíslason á Hólmi, Eyríkr Sigvaldason á Búlandi, Magnús Þorsteinsson í Abæ, Bárdr Gíslason, Claus Ejólfsson, Jón Þorkèlsson, Biörn Gíslason, Pètr Henriksson, Einar son Þorsteins Magnússonar, Magnús Biarnason, Thómas Finnsson, Amundi Þormódsson Kortssonar, Finnr Gudmundarson á Sniallshöfda, Olafr Helgason; enn þeir voru sumir er frágengu, oc þótti ofhardt, oc ecki at íslendskum lögum, voru þat Eggert Jónsson at Ökrum, Biörn Þorvaldsson Biarnarsonar á Æsustödum, Pètr Þórdarson í Tialdanesi, Oddr Þorleifsson frá *Búdardal* bródir Benedicts, Einar Jónsson, Þorkèll Olafsson, Jón Egilsson á Skardi, Eyríkr Finnsson á Kálfalæk bródir Steindórs, Ari Magnússon, Vígfús Jónsson, Arni Teitsson Biarnarsonar, Pètr Einarson á Ballará, Jón Teitsson, Biörn Jónsson at Skardsá, Rúnólfr Sigurdarson frá Einarsnesi, Hannes Helgason, Indridi Jónsson, oc Gísli Brynjólfsson Jónssonar Eyríkssonar í Klofa Torfasonar, hann bjó í Ölvershollti, oc var bródir Asmundar smids í Lítluvöllum. Fleiri urdu þar dómar. Þar lètu biskupar bádir, meistari Brynjúlfr oc Þorlákr, bióda þat um allt land, at haldast skyldi bænadagr, oc var med samþycki lögmanna beggia Arna Oddssonar oc Magnúsar Biarnarsonar, oc hinna bestu manna er nærri voru,

skyldu menn bidia gud um linun á þeirri styriöld oc ófridi, sem þá væri fallinn yfir konúngsríkit, med miklum oc audmjúkum formála. Þvílíkt allt var prófföstum bodit at ámynna presta um, enn prestum at ámynna sóknarmenn, svo at hverr skyldi kominn til sóknarkyrkju sinnar á nefndum degi, at forfallalausu, enn þat var midvikudagrinn eptir Laurentius-messu; til at bidja audmjúklega guddómlega hátign, eptir þeirri nád sem gud vill gèfa, oc skyldu allir vel gæta sín fyrir hræsni. Þann dag skyldi eigi vinna framm yfir middegi. Syslumenn skyldu athuga med alþídu, oc sekta þá um VI aura til sannra ölmusumanna, sem á móti brióta; enn hreppstjórar skipti þeirri ölmusu med sóknarprests rádi; beri prestar framm naudsyniar þessar, alvarlega, af prèdikunarstóli, á hverjum helgum degi, þar til er sá dagr kèmr, oc svo sídann, oc hafi allir hversdagslega í bænum sínum, til þess er Gud bænheyrir oss; þat bænarform afhendi meistari Brynjúlfr biskup syslumönnum þar á þínginu. I þessum ófridi unnu Svíar med ofrefli lids XIV stórskip af Dönum, í Octobris mánudi, med mönnum oc herbúnadi oc allri áhöfn. Þar fèll Pros Mundt höfudsmadr med miklum drengskap oc hreysti, er oc mælt at fallit hafi Hans Ulrik son Kristjáns konúngs.

## CVIII Cap. Tilburdir.

Sumar þetta kom út mislíngasótt, hún hafdi eigi komit hèr fyrri oc var þúng oc mannskæd, oc gèck yfir allt land, dóu CVI í Skagafyrdi; urdu þá vída húsbrunar, oc einn í Vídirnesi fyrir Sigfúsi presti Egilssyni, er skólameistari hafdi verit, þar brunnu einnig XXX hundrud í bókum oc klædum. Þá fèck Jón Halldórsson lögmanns Ingibjargar dóttr Jóns Magnússonar í Haga, hafdi ádr átt hana Gunnar son Arngríms prests lærda, oc var hann dáinn; enn Valgerdar dóttr Halldórs lögmanns fèck þá Gudmundr frá Keldum Torfason Eyríkssonar Biarnarsonar Þorleifssonar lögmanns; hlutadist Brynjúlfr biskup til þeirra giptumála hverutveggia til eflíngar ætt Halldórs lögmanns; hann gat oc son siálfr er Sveinn hèt eptir födr hans, oc vildi hann ei lifa. A þeim missirum var Stephán, son Olafs prófasts Einarssonar í Kyrkjubæ, med Doctor Olafi Worm í Kaupmannahöfn oc lærisveinn hans, oc

setti völuspá á latínu; tók um þær mundir allra fyrst at vitnast oc eflast aptur fornfrædi íslendínga; er þat sagt at Stephán hafi fengit svo mikla vyrdíngu, at Franskr sendimadr hafi bodit hönum af hendi cardínalsins af Richelieu út til Fracklands, oc hafi hann eigi þegit. Þá giördi vedr oc flód á Sudrnesjum oc spillti skipum; oc þat finnst at eldr hafi komit upp í Hofstadafialli í Skagafyrdi, má sá eigi mikill verit hafa, er Biörn at Skardsá gètr þess eigi samsveitis. Þá vard þat hinn XVIIIda dag Decembris, at Sveinn prófastr Símonarson í Hollti andadist, oc var þá hálfnyrædr, oc hafdi prófastr verit í hálfann Vta tug vetra, enn prestr alls VII vetr hins VIIda tugar, oc þótt æ hinn merkilegasti madr. Þá dó oc Halldór prestr Ketilsson at Kálfafelli.

## CIX Cap. Æ ttir.

Þeir menn hafa nefndir verit stundum vid dóma, er lögrèttumenn voru, oc ættir eru frátaldar, oc nú voru vid aldr er hèr var komit, Eyríkr Sigvaldason oc Nicolás Einarsson. Eyríkr bjó á Búlandi, oc var son Sigvalda Halldórssonar frá Þyckvabæ. Skúlasonar Gudmundarsonar Sigvaldasonar lángalífs, enn módir hans var Elin dóttir Jóns Olafssonar á Svarfhóli, hann átti fyrri Þórunni Sigurdardóttr frá Breidabólstad, bródrdóttr Odds biskups, oc voru þeirra börn Þórarinn prestr í Heydölum, oc Halldór prestr, sem ætt er frákominn, oc dætr fiórar, hèt ein Elin kona Hiallta Pálssonar í Teigi. Sídann átti Eyríkr Valgerdi Olafsdóttr Helgasonar, hún var eckja eptir Sigurd prest Einarsson mág hans, Steinun var hellst af börnum þeirra, kona Högna prests í Einholltum, födrmódir Bergs prófasts í Biarnanesi, oc margir prestar eru þadan. Biarni var oc fyrri konu son Eyríks, er var Skálhollts rádsmadr fyrstr, enn sídann syslumadr í Skaptafells syslu, oc átti Sigrídi dóttr Biarna Oddssonar á Bustarfelli, oc verdr hans enn gètit. Nicolás Einarsson bjó at Hèdinshöfda nordr, hann var son Einars á Hèdinshöfda, Nicolássonar á Múnkaþverá, Þorsteinssonar í Hafrafellstúngu, Finnbogasonar lögmanns, hann átti fyrri Þórdysi Jónsdóttr oc XV börn, enn sídar Helgu Arnadóttr oc IX börn; son hans var Einar prestr at Skinnastödum er átti Þorbjörgu dóttr Jóns

prests Þorvardssonar, oc margt afqvæmi, hann var eigi haldinn aldæla, oc forn í skapi; einn son Einars prests var Eyríkr fadir Eyríks á Asmundarstödum; Jón var annar son Nicolásar, lögrèttumadr. Þorbjörg dóttir Nicolásar átti Gudmund prest Kètilsson á Refstad; Gudrún önnr dóttir hans átti Jón prest Thómasson at Hálsi bródr Sigfúsar er sveinn var Odds biskups, Gudleif átti Þorvald prest á Hrafnagili Thómasson bródr þeirra. Jón bródir Nicolásar Einarssonar bjó í Hafrafellstúngu, hann var fadir Þórarins prófasts at Hrafnagili, oc Þórarins prests í Gardi; slíkt var þá afqvæmi Þorsteins Finnbogasonar í Þíngeyar-þíngi, oc margt annat, enn sumt vídsvegar um land.

## CX Cap. Frá ímsu.

1645 Um vetrinn hinn Vta dag Febrúarii mánadar druknadi Jón Skálhollts rádsmadr Halldórsson lögmanns, í Brúará, oc skólasveinn med hönum, Bödvar son Steindórs Finnssonar af Ingialdshóli; þeir höfdu ridit í Þorlákshöfn oc þadann í þoku, oc hugdu menn þá villst hafa útá ís á Oseyri, fannst lík rádsmannsins viku sídar, var flutt í Skálhollt, enn barn þat andadist er Ingibjörg ól kona hans. Skip tyndist á Kialarnesi, var þá fiskifengr gódr, enn vor hardt. A Maríumessu á lángaföstu var Páll son Biarnar Magnússonar á Raudasandi, oc Helgu Arngrímsdóttr hins lærda, vígdr til Selárdals, var hann haldinn hinn lærdasti, oc vyrdr mikils af biskupi, verdr hans gètit sídar, er hann var prófastr; enn þó lifdi Halldór prestr Biarnason þá enn í Selárdal; deidi Helga módir Páls prests litlu sídar, oc Eyríkr prestr Kètilsson í Vallanesi, allnafnkèndr madr; enn Arni prestr Jónsson á Látrum vestr, Biarnarsonar á Reykhólum Þorleifssonar, lagdi þá af Flatey fyrir elli sakir. Hallgrímr Pètrsson hafdi fengit Hvalsnes, oc vildu eigi margir til verda, lèk þat ord á at prestar mundu þar ei vellátnir af stórbockum, svo sem var Torfi Erlendsson syslumadr, hann var fiárplógsmadr, oc lítt vinsæll. Þorsteinn prestr á Skardi Oddsson Þorsteinssonar andadist þá einn. Siáfargángr var hinn mesti fyrir nordann land. Var á þeim missirum prentat at Hólum Manuale Mölleri. Þá lèt Þorbergr Hrólfsson hída Svein skotta son Axlar-Biarnar á Helgastada-þíngi, fyrir vánhyrdíngu Gudsorda oc sacramentis,

oc hafdi hann þá verit hiddr eitt sinn í Húnavatns-þíngi ádr fyrir landhlaup oc glettíngar. Gudmundr at Laugum Jónsson Illhugasonar prests, umbodsmadr þeirra frænda Þorbergs oc Hrólfs, lèt oc dóm gánga at Helgastödum hinn XXVIIIda Maii mánadar um ólöglega adtekt á fè. Gudmundr átti Seciliu dóttr Arna á Grítubacka Magnússonar, þeirra synir voru Jónar tveir, oc Hallgrímr prestr vid Myvötn, oc Þórgrímr í Krossavík. Þórdr Henriksson í Borgarfyrdi lèt oc dóm gánga um jardar-ábúd oc kúgilda-dráp. Madr einn hèt Jón oc var Hálfdánarson, hann var í Vadnesi í Grímsnesi, þar kom drengr XV vetra um nótt, Símon Brandsson, oc bardi á dyr, gèck Jón út fáklæddr oc út fyrir bæinn, enn Símon eptir hönum, oc hjó hann í höfudit, hvert högg at ödru svo hann fèll vid oc lá í kör um sumarit. Símon var tekinn oc fluttr til alþíngis, oc höggnir af hönum þrír fingr, oc skorit af eyra. Madr barnadi oc stjúpdóttr sína í Höfnum sudr, oc strauk sídann, enn konann var tekinn af á Bessastödum. Þridja dag Júnii hèldt Brynjúlfr biskup prestastefnu at Vælugerdi í Flóa; voru þar margar greinir færdar framm til at afskipa helmínga-dóma þá er fyrri höfdu verit, oc voru þeir afteknir med öllu. Þessir voru dómsprestar: Halldór Dadason í Runa prófastr í Arness þíngi, Finnr dómkyrkjuprestr í Skálhollti Jónsson, Jón Dadason í Arnarbæli hálfbródir Halldórs prófasts, Hallr Arnason, Jóseph Loptsson á Olafsvöllum, Gottskálk Oddsson í Middal, Jón Jónsson, Jón Gunnlaugsson á Núpi, Salomon Jónsson at Mosfelli í Grímsnesi, Sigurdr Jónsson at Torfastödum, Jón Erlendsson at Villíngahollti, Alfr Jónsson í Kaldadarnesi, oc Gudmundr Biarnason á Hraungerdi; eptir þat lèt Lauritz Nicolásson umbodsmadr, stadfesta þá samþyckt med X dómsmönnum, oc stadfesti enn siálfr med XVIII klerkum, at Egilstödum í Austfyrdíngafiórdúngi um haustit, enn ári sídar at Stadarstad med XVIII prestum.

## CXI Cap. Fráfall Þorsteins prests.

Þá var Jens Söfrensson í höfudsmanns stad, oc átti at giöra kongúngi skil fyrir öllum tekjum af landi, oc hafdi hálft annad hundrad dali, voru þat þá mikil laun; hafdi hann oc vald svo mikit sem

höfudsmadr, oc þótti laungum hardr; er þá sagt af hafi verit tekinn Ingvildr Kolbeinsdóttir at vestann, enn eg hygg Ingunni Kolbeinsdóttr er ádr getr. Þá fèck Sigurdr son Jóns Sigurdarsonar í Einarsnesi oc Ragnheidar Hannesdóttr fyrri konu hans, Kristínar frá Hytardal systr Þórdar prests, oc er frá þeim ætt mikil; andadist oc Hólmfrídr kona Benedicts Pálssonar í mislíngum; enn Benedict fèck sídann Sigrídar dóttr Magnúsar at Siáfarborg Jónssonar Jónssonar at Ökrum Grímssonar, hún var fríd sinum oc fagrhærd, var hún köllud hinn stórráda; var henni misgèfit vid Jón bródr sinn, hann var kvennskr til skyrgiördar oc annara slíkra hluta, enn aldregi kèndr vid konu. Svo þótti Benedict eptir þat hann fèck Sigrídar, sem hann mundi betr kominn med Tyrkjum fyrri. Þann tíma hèldt Þorsteinn prestr Hvamm í Nordrárdal, son Tyrfíngs í Hjörtsey Asgeirssonar prests at Lundi, oc var vitr mádr oc all-mikilhæfr, hann átti Jórunni dóttr Einars prests á Melum Þórdarsonar lögmanns, enn módir Jórunnar var Gudrún dóttir Marteins biskups; þau voru börn þeirra, Einar, Jón, Arni oc Gudrún, hennar fèck Benedict í Bólstadahlíd, son Biarnar Magnússonar Biarnarsonar Jónssonar biskups; enn þá er Benedict skyldi fá Gudrúnar, reid Þorsteinn prestr med hönum vestr undir jökul, oc sóktu brúdkaups-kost, oc er þeir voru á heimleid, vestr á fiörum hiá Gnúpá, var Þorsteinn prestr nockud druckinn, fèll aptr af hesti sínum, oc var þegar örendr; var hann grafinn í Hiörtsey. Fór þá Jórun nordr med Gudrúnu dóttr sinni, oc börn hennar önnr, oc giptist Þorbergi Hrólfssyni á Seilu; áttu þau ecki börn, því hann var þá gamall, oc þau bædi. Einar Þorsteinsson var þá XII vetra, oc fór hann í Hóla skóla undir tilsión Runólfs Jónssonar skólameistara. Þat haust giördi hregg oc snjó svo mikinn í sæluviku, at penínga fennti á fiöllum, enn kaupför dönsk er at landi voru kominn rak í haf aptr, oc fengu villr oc hrakníngar. Jens Söfrenssyni voru þá afhendir Bessastadir.

Nú líkr þar frásögnum Biarnar at Skardsá, þó margt sè eptir ödrum ritat, oc margt uppgötvad med ímsum hætti; tók hann nú at eldast miög, oc giörast sliéskygn, oc því ætla eg hann hafi hætt at rita tilburdi; enn Oddr á Fitjum son Eyríks Oddssonar biskups reit annál þar næst yfir nockur ár; oc þar eptir Benedict prestr at Hesti, oc þykir þat allt merkilegt sem hann

hefir skrád; voru þessir annálameistarar nafnkendastir í hinni XVIIdu öld, enn sídann urdu þeir fleiri jafnframt.

## CXII Cap. Ímislegt er vidbar.

Vetr var gódr oc þá laungum fátt til tídínda; þá lèt Þorlákr biskup 1646
bæta nya húsit á Hólum er Gudbrandr biskup hafdi látit smída fyrir IX vetrum hins fimta tugar, fèck hann til timbrmann danskann er skrúfadi þat upp, oc setti undirstödu nya, oc endrbætti þat er hrörnat var, oc gaf hönum XL dali til launa; stód þat lengi sídann. Þá lágu skipbrotsmenn danskir um vetrinn í Patriksfyrdi; var hèr út Jens Söfrensson oc Matthias bródir hans. Afli var mikill. Þá urdu bæabrunar, oc brunnu tvær konr inni, oc margt fèmætt, at Kornsá í Vatnsdal, oc vídar urdu skèmdir. Þá var þat á einu vorþíngi í Borgarfyrdi at Secilia á Kalastödum Arnadóttir Gíslasonar biskups, er Illhugi Vígfússon hafdi átta, bar þat á Olaf prest Bödvarsson í Saurbæ, at hann hefdi haft hrossakjöt fyrir refa-agn, oc bad syslumann skrásetia, oc afsagdi prestsþiónustu hans vid sig, var hún stórlynd. Þat spurdi Brynjúlfr biskup, enn þó var eigi borit fyrir prófast nè hann, oc lèt hann stefna Olafi presti til prestastefnu at Melum haustit nærsta hinn XXVIIda Augusti; þar voru VI prestar oc hèradsprófastrinn; enn biskupi þótti þurfa XII menn í dóm þar sem mál tæki til embættis, oc þer med kom ei Olafr prestr, fyrir því var úrskurdat at hann hèldi sèr frá embætti til þess er höfudsmadr oc biskup mætti umdæma á almennilegri prestastefnu á Þíngvelli; ei er gètit málsloka. Steindór Finnsson lèt þá af Stapa umbodi, er hann hafdi hálft, enn Sigurdr prestr í Miklahollti bródir hans andadist. Finnr oc Sigurdr voru synir hans, enn Gudlaug, Sigrídr oc Gudrún dætr. Þeir brædr voru í fèlagi; var Sigurdr líkþrár, oc erfdi Finnur hann. Finnr Sigurdarson fèck Kristínar dóttr Jóns Olafssonar frá Svarfhóli Jónssonar Olafssonar, tók Jón þessi missiri prestskap í Hvammi í Nordrárdal, hann átti Sigrídi dóttr Lopts prests Skaptasonar oc Kristínar Oddsdottr biskups, systr Jósephs prests á Olafsvöllum, reindu þeir mágar orku med sèr, oc var nær um med þeim. Börn Finns oc Kristínar voru Þórdr oc Steindór í Krossnesi oc fleiri, enn Þórdr átti mikit afqvæmi, oc var fadir Þórdar prests í Hvammi,

födr þeirra Einars prests oc Þorsteins-prests; enn Jón prestr Olafsson átti adra konu sídar, oc voru þeirra börn Brynjúlfr prestr oc Sigrídr. Þórdr í Galltarhollti var annar son illa Láfa, bródir Jóns prests. Þessi misseri fèck Páll prestr í Selárdal Helgu dóttr Halldórs lögmanns í Skálhollti, oc hafdi sídann vingan mikla Brynjúlfs biskups; enn Jón Finnsson frá Flatey fèck Sigrídar Loptsdóttr, hann var bródir Torfa prests födr Jóns í Flatey, enn þeir voru synir Finns Jónssonar í Flatey Biarnarsonar at Reykhólum Þorleifssonar hyrdstjóra; Loptr var son Jóns Finnssonar oc Sigrídar, módrfadir Lyds syslumanns, oc þeirra systkina. Jón Halldórsson er bjó í Svefneyum, dó þá skyndilega. Þat sumar kom út konúngsbrèf um inventaria óþörf kyrkjum, skyldi verd þeirra leggiast til fátækra presta, oc þó fleira. Þá fór Sveinn skotti um land, oc hafdi laungum bædi stolit oc tekit til qvenna, edr synt af sèr adra hrecki, enn var þó ragr oc huglaus; alla vanrækti hann gudlega hluti, oc var illordasamr vid flesta menn; hann vildi eittsinni naudga Oddnyu konu Magnúsar prests Einarssonar at Undirfelll; sá Magnús prestr hafdi verit á Kvíabeck ádr, oc var svo einfaldr at hann lèt eptir allt bú sitt, oc ætladi hann mundi taka vid hinu sama at Undirfelli, enn sá nytti sèr þat er vidtók, oc giördi hann snaudann; Sveinn kom ei framm vilja sínum, því menn komu at, oc ráku hann med svipum þadann úr plátsi; hönum var dæmt á alþíngi hid mesta húdlát, oc fór hann þadann vestr. Þar var oc dæmt um þriótsku Biarnar Eyríkssonar vid ómagadóm Vígfúsar Gíslasonar syslumanns; oc um Ivar Sigurdarson óeyrdarmann úr Húnavatns-þíngi; oc um hálfkyrkju er óþörf syndist at Kalastödum, oc enn fleira. Hardt var þá fyrirbodinn kaupskapr vid alla þá er eigi voru úr ríkjum Dana konúngs. Þá lèt Brynjúlfr biskup afhenda Jens Söfrenssyni fógeta þat inventarium Skálhollts stadar er óþarflegt vyrdist, XXIII naut gèld gömul, IIII þrevetr, XXII tvævetr, tvö vetrgömul, saudi tvævetra oc eldri CXCV, vetrgamla CXX, oc smjör mikit. Var Jens vyrdr sem höfudsmadr, oc hafdi öll forrád af konúngi; hann hafdi þá C dali í laun, enn hálft annat hundrad í kostpenínga; var hann hèr laungum á þeim árum sumar oc vetr. Þá druknadi í skreidarför Arni Isleifsson Ejólfssonar Halldórssonar. Um haustit eptir var nytíng gód; oc svo gódr vetrinn
1647 eptir, at engir menn mundu þvílíkann; frost var nær aldrei, oc syndust mönnum gróa í kelduföllum á þorra. Var þá nógr fiskr

fyrir vestann land í midjann einmánud, oc hlutir miklir á sumarmálum; er svo sagt at XVI hundrud (tólfræd) hafi ordit á Alptanesi sudr, enn annarstadar nockru minni.

## CXIII Cap. Mannalát.

Midvikudaginn sídarstann í vetri andadist Vígfús á Hvoli syslumadr Gíslason lögmanns Hákonarsonar, var hann eigi gamall madr, enn þó nafnkunnr, hann hafdi átta Katrínu dóttr Erlendar á Hvoli, oc Salvarar Stephánsdóttr Gíslasonar biskups, börn þeirra voru meistari Gísli, oc Jónar tveir, vard annar sídann syslumadr í Borgarfyrdi, oc enn fleira; Salvör oc Þorbjörg. Lík Vígfúsar var jardad á friádaginn lánga, því þá voru sumar-páskir, enn Arnessysla oc Vestmanna-eyar tóku þeir eptir hann Torfi Erlendsson, oc Jacob Bang danskr madr, hann var bródir Gregers Bangs, sem þá hèldt allt Stapa umbod, oc Snæfelis-sysla, enn þeir voru stjúpsynir Jens Söfrenssonar umbodmanns á Bessastödum. Nærri hvítasunnu andadist Kristián son Kristiáns konúngs fiórda er ríki hafdi rádit, vetri minnr enn hálf fimtugr. Þá segia sumir prentadr væri at Hólum Davids psaltari, sèr í lagi, eptir því sem hann var í rítníngar útleggíngu, at beidni Þorleifs Magnússonar at Hlídarenda. Sigurdr prestr Jónsson tók þá Miklahollt er ádr hafdi haldit Torfastadi hjá Skálhollti. Þá hefir Biörn Snæbiarnarsonar frá Kyrkjubóli verit skólameistari í Skálhollti í XI vetr, oc haft alla stund bú í Isafyrdi, oc verit þar jafnann á sumrum, oc syslat um þat, oc flutt konu sína í milli haust oc vor, svo hún var med hönum í Skálhollti á vetrum, því hann var athafnamadr mikill, sem þeir fleiri Kyrkjubólsfrændr; hann var optast gæfr oc stundunarsamr, enn þótti vandfysinn, oc tortryggr miög, svo hann trúdi nær engum; hann vígdist í þennan tíma at Stadarstad, til Capellans Gudmundi presti Einarssyni. Snæbjörn prestr fadir hans hafdi gèfit Stad í Adalvík fyrir Beneficium í veikleika sínum, enn Torfi prestr bródir hans hèldt Kyrkjuból. Þorleifr son Jóns Sigurdarsonar í Einarsnesi, oc Ragnheidar Hannesdóttr frá Snóksdal hafdi framast utanlands, oc vard skólameistari eptir Biörn, var hann vel at sèr. Þá kom út konúngsbrèf um presta, er sannir verda at barngetnadi, at þeim mætti enginn veita uppreisn, nema konúngr siálfr.

Öndudust þá nockrir prestar þeir er merkilegir voru: Gissr prestr Gíslason á Þíngmúla var einn, oc vigdist þángad sídar Biarni son hans; annar Sigurdr á Rafnseyri Snorrason Asgeirssonar prests frá Lundi. Þá dó oc Bergþór lögrèttumadr nyrdra, Sæmundarson prófasts í Glaumbæ Kárssonar, hans son var Kár fadir Olafs, födr Jóns, födr Olafs á Frostastödum, födr Olafs Prófessors í Túnsbergi. Torfi son Jóns Gissurarsonar frændi Brynjúlfs biskups oc fóstri, giördist þá kyrkjuprestr í Skálhollti í stad Finns Jónssonar, hann fèck Vallanes eptir Eyrík prest Kètilsson, enn fór þó ei þángat. Þorlákr biskup lèt reisa um sumarit klucknaportit at Hólum, oc færa þángad IIII kluckr, med hinni miklu kluckunni, er Líkabaung var köllud, oc nidri hafdi legit sídann hin fyrri kyrkjann hrapadi; þar voru danskir menn til forsagnar, oc var hún undinn upp med rádi þeirra, oc atburdum miklum; höfdu kluckurnar verit fyrri í stöplinum, svo sem sidr er til í ödrum löndum, at þær hánga í turnum yfir kyrkjum. Þau missiri andadist Arnfrídr Benedictsdóttir hins ríka módir Eggerts á Skardi Biarnarsonar, var hún þar med syni sínum. Þá var bodit upp Stapa umbod fyrir DCC oc XL dala, oc tók þat enginn þannig.

## CXIV Cap. Aftaka Jóns Þorsteinssonar.

Jón hèt madr oc var Þorsteinsson, oc hefir hans ádr getit verit; hann hafdi qvænst í Húnavatnsþíngi, oc fengit þeirrar konu er Herdys hèt; þau voru samann III ár, oc hafdi fallit styrdt á med þeim, oc Herdys lyst því fyrir ærlegum konum at Jón bóndi sinn væri ei laginn til hjónabands samfara; eptir þat voru þau enn samann eitt ár oc XIII vikr, enn þá gat Jón barn vid dóttr konu sinnar er Biörg hèt, oc medgèck þat, enn vildi sveria fyrir eginkonu sína Herdysi módr hennar; var sá eydr dæmdr hönum at Sveinstödum, enn hann vann hann svofeldann, at hann hefdi eigi holdlegann verknad framit med Herdysi; hún vann í annan stad sjöttareyd fyrir Jón, oc var þá dæmt at hann skyldi eigi dræpr verá, enn þau sektudust um IX merkr hvert til konúngsdómsins, Jón oc Biörg, þarmed skyldu lögmenn úrskèra hvert vera skyldi refsíng edr fèlát. Hafdi þar stadit vid um tvö ár er hèr var omit, at drógst undann, oc kom fyrir Jens Söfrensson, enn hönum

þótti ofmikit atgiört, oc qvad slíkar sakir ecki dæmast meiga hèr í landi; kom hann því fyrir konúnginn, oc fèck brèf hans uppá, at þau skyldu líflátast bædi, Jón oc Biörg, enn dómrinn skyldi ónytr; voru þau svo tekinn af á alþíngi, oc medkèndi Jón aldrei annat enn fyrri; var konúngi dæmt fè hans uppá fyrirspurn Gudmundar Hákonarsonar. Enn af slíku vard í þann tíma mikil medaumkan manna med barngètnadar málum, oc óvild vid stóradóm oc annat er þar laut at, enn kom þó at litlu, því at Danir höfdu ríka stjórn yfir landinu, oc fylgdu fast lögunum eptirgiafalaust, um lánga hríd medan Kristián fiórdi var konúngr, oc mest medann Jens Söfrensson var út hèr; var oc lítt grenslast um edlilegar orsakir til slíkra vidburda er þessi var; þótti sumum Jens Söfrensson ofstrángr um þvílíkt, enn þó var hann skilgódr oc vitr, hafdi hann hèr álit oc vald meira enn flestir umbodsmenn, eda þeir er eigi báru höfudsmanns nafn. Er þat eitt til merkja, at á því sumri kærdi Biarni Sigurdarson á Stockseyri í lögrèttu um jardaskipti, enn Jens baud hönum oc erfíngium Vígfúsar Gíslasonar, at láta af kaupi þeirrar jardar undir fiögra marka sekt, oc hid sama baud hann um öll önnur jardakaup, er voru í móti konúngs brèfi, oc var því hlídt. A því þíngi var dæmdr arfr hreppum eptir ölmusumenn; oc um dóm Þorsteins Magnússonar á Þyckvabæ oc Þorleifs á Hlídarenda um vitnisburd fedga tveggia, oc enn fleira. Þorleifr Vestfyrdíngr, er þar var miög nafnkèndr, Þórdarson, Þorleifssonar á Mödruvöllum, deidi þá, oc var fullgamall.

## CXV Cap. Frá Gudmundi Hákonarsyni oc ætt hans.

Gudmundr Hákonarson bjó í þann tíma at Þíngeyrum, oc hafdi Húnavatns syslu, hann hagadi sèr jafnan til góds hlutar, var oc ör oc vel at fleiru; hann átti Halldóru dóttr Ara Magnússonar í Ogri, oc Kristínar Gudbrandsdóttr biskups; börn þeirra er á legg komust voru Þorkèll oc Helga. Þorkèll fèck á þessu sumri Solveigar, dóttr Magnúsar lögmanns at Múnkaþverá, þau settu bú at Stóruborg í Vídidal. Gudmundr son Ara Gudmundarsonar úr Skagafyrdi Einarssonar frá Bólstadahlíd Þórarinssonar, var sveinn Gudmundar Hákonarsonar eina stund, oc gaf hann hönum hundrad

er hann bar hann á brecku, því hann var miög þúngr oc feitr, bjó sá Gudmundr í Flatatúngu sídar, oc var fadir Ara prests at Mælifelli, Jóns prests í Stærra-Árskógi, födr Þórarins prests í Grímsey, oc þeirra systkina fleiri; átti hann Gudrúnu dóttr Biarnar á Laxamyri Magnússonar. Þorkèll son Gudmundar Hákonarsonar oc Solveig átti IIII börn, Hákon var einn, hann bjó sídar at Mardarnúpi, oc mægdist vid Þorvard prest á Breidabólstad, oc lèt ei börn eptir; Ari var annar, hann fèck Ástrídar Þorleifsdóttir frá Haga á Bardaströnd, oc bjó þar, oc hafdi syslu, hans börn voru Þorkèll, oc Þorleifr prófastr á Breidabólstad, Magnús Capteinn oc Teitr oc Halldórur tvær. Gudmundr var hinn þridji, hann átti laun-börn ein, oc vard bráddaudr hjá Hólum í Ejafyrdi. Ingibjörg var hid fiórda, hún giptist Magnúsi syni Benedicts Pálssonar oc Sigrídar stórrádu; vid Þorkèl Gudmundarson hygg eg sè kènnt Thorkelins nafn. Helga dóttir Gudmundar Hákonarsonar var kona Biarnar sonar Magnúsar lögmanns Biarnarsonar. Fátt vard svo göfugt afsprengi Gudmundar sem hann var siálfr. Svo er sagt, at konúngsbrèf nockr væri útgèfinn þessi missiri, um konr er setja börn útá audn, oc at Jens Söfrensson lèti presta í Hóla biskupsdæmi fá tillög sín, oc slíkt annat. Gètit er oc þess, at þá hafi Jón lærdi, er um þessar stundir var at Dalakoti í Utmannasveit, ritat eda útlagt heims-sögu ágrip nockut; ádr hafdi hann samit qvædi um ímsann hègóma, oc æfi-drápu sína engu betri, oc um álfa; því nærst um steinakrapt bók þá er hann var sektadr fyrir. Svo hefir oc sagt Biörn at Skardsá, at hann hafi ritad nockut móti lærdómi Lúthers; var hann nú þremr vetrum betr enn siötugr er hèr var komit, oc er nú lokit hans ydnum.

## CXVI Cap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Meistari Brynjúlfr biskup í Skálhollti visiteradi þetta sumar Vestfiördu í þridja sinni, oc messadi at Flateyar kyrkju XIIta sunnudag eptir Trinitatis; þar bjó þá Jón bóndi Torfason prests Finnssonar, hann átti bók eina á pergamenti med múnkariti eptir lángfedga sína, þar voru á Noregs konúngasögr oc margt annat, oc var hún köllut Flateyarbók; hafdi Brynjúlfr biskup falat hana ádr fyrir penínga, oc er þat fèckst ei, þá fyrir V hundrud í jördu,

oc var hún eigi föl at heldr; enn sídann er Jón fylgdi hönum til skips úr eyunum, gaf hann hönum bókina, oc ætla menn at biskup muni fullu hafa launat. Þá bók gaf hann sídann konúnginum, því at hönum baudst seinna at vera sagnameistari Fridriks konúngs, afsakadi hann sig frá því hæversklega, oc lètst ei meiga fara med konu sína oc börn í önnr lönd, enn sídann var hönum falit á hendr at útvega fornfrædi. Hann reid med fullgiörfa menn at viti oc burdum í visitatiur sínar, oc stundum fiölmennr á Austfiördu eda Vestfiördu, hafdi hann med sèr lærda menn sína, skólameistara oc heyrara, presta hyggna, edr adra velframada menn, til gódra úrræda ef taka þyrfti til, oc svo til at þurfa sídr lids annara, oc svo nockurn þann er orkumadr var mikill ef stórbockum þyrfti at mæta. Þat hafdi verit fyrrum, at mjög ójafnlega geck til med tillag fátækra presta af hinum audgari beneficiis, var jafn þúngi lagdr á hina fátækari stadi oc hina audgustu, svo at Reykjahollt oc Melar, hvert um sig, skyldi ala prest at öllu, jafnt vid Breidabólstad oc Odda, enn stundum var hinum gömlu prestum, er capellan þurftu til adstodar, kyppt frá kallinu, oc vísat á uppeldi stadanna, svo sem var um Orm prest Þorvaldsson á Reinivöllum, á dögum Odds biskups; hönum fèll til þögn eda málleysi snöggsinnis um þær mundir er Herluff Daae misti hyrdstjórnina, oc fèck ei at taka son sinn sèr til styrktarmanns, oc batnadi þó aptr; enn VI prestar dæmdu hann á Reykholltsstadar tillag, svo biskup fengi komit þar inn Oddi presti Oddssyni; XI vetrum sídar þá Ormr prestr deidi, skipadi Oddr biskup med brèfi sínu Ejólfi presti Arnþórssyni í Gördum at leita sèr uppheldis af tillagi hinna sömu stada, svo Jón prestr Bödvarsson í Reykjahollti sái um hann eitt ár eda missiri, oc svo Jón prestr Jónsson á Melum jafnlengi, enn sneydt var hjá Hollti oc Breidabólstad, er annan stadinn heldt sonr Odds biskups, enn annan bródir hans. Svo gèck oc á dögum Gísla biskups Oddssonar, enn þó med bón oc lempni; þann ójöfnud tók Brynjúlfr biskup af, oc tók til hve mikit hverr stadr skyldi leggia á ári, eptir inntektar hæd; einskoradi hann þat hverki í dölum eda kaupmannsvöru, er erfidt mætti verda at gialda út, lèt þat vera í venjulegu tektagialdi presta, hálft í frídu á vorum, enn hálft í smjöri eda daudu á haustum, oc var þat áqvedit á prestastefnu at Breidabólstad í Fljótshlíd á

þessu ári; voru á hans dögum teknir á tillagit fátækir prestsmenn uppgèfnir, er eigi áttu fè fyrir sig, enn höfdu góda kynníngu um lærdóm sinn oc lifnad, enn ecki svallarar eda hyrduleysíngiar. Hann qvad einnin á at hverr landsfiórdúngr skyldi annast sína presta, oc var þat ei svo ádr.

## CXVII Cap. Smídi Skálhollts kyrkju oc stadar.

Brynjúlfr biskup tók at byggia upp stórmannlega stad oc kyrkju í Skálhollti, oc med kostnadi miklum; fèck hann til oc flutti at sèr hina besta rekavidu er fá mátti, oc útlendska vidu fèck hann mikla; hafdi komit út haustinu ádr enn nú er frásagt, grenividr gotlendskr á Eyrarbacka skipi, svo mikill at þat var hladit, oc kostadi meir enn CCC dala, þat ætladi hann til kyrkjusmídis; stórvidir allir voru dregnir heim á ísum þegar akfæri var á vetrum, af stóls landsetum, oc ödrum er atfengnir voru, fyrir laun full; fór hann at dæmum Ögmundar biskups, oc lèt Flóamenn oc Ölvesínga draga stórtrèn af Eyrarbacka, uppad klettunum fyrir nedann Brúnastadatún, enn Grímsnesínga oc Túngnamenn, Hreppamenn oc Skeydamenn þadann heim í Skálhollti; enn er hverr dráttr var kominn heim undir jólavallar-gard, baud biskup at bera hey útundir gardinn, oc mat á bord; lèt svo sleppa hestunum í heyid, er þeir máttu ei lengra draga, enn dráttarmenn, þá er þeir höfdu komit triánum í kyrkjugardinn, med atstod heimamanna, skyldu setjast undir bord, oc gèck hann fyrir því siálfr; hann fèck oc til hina bestu smidi oc körskustu, at saga, tegla oc höggva viduna, oc voru stundum XXX eda fleiri, enn sumir smídudu járnsmídi, oc lagdi hann til kyrkjunnar í gadda, rek-saum oc hespr LX vættir járns; var forsmidr Gudmundr snickari Gudmundarson frá Bæ í Borgarfyrdi, oc var þá nykominn út, hann var þann tíd hagastr madr á landi hèr, oc hjó sídar skírnarfontinn í Hólakyrkju, oc marga legsteina, oc enn fleira, er hann bjó fyrir nordann. Brynjúlfr biskup ritadi þessi missiri rit um ástand Islands, oc sendi Ottá Krag secretera konúngs; hann hafdi oc ádr ritad, oc reit sídann, sendibrèf mörg til lærdra manna, oc greinir yfir Saxa Grammaticum; hann lagdi oc út nya Testamentit sem mest eptir griskunni, oc nockut fornyrdt, þat vildi Þorlákr biskup

eigi láta prenta, því hann hugdi ordamunurinn mundi hneigsla alþídu; oc med því hann hafdi hid mesta bóka-safn þá þegar, oc fornfrædi oc sögr, er flest ritadi Jón prestr Erlendsson í Villíngaholti, oc vildi at slíkt yrdi prentat, enn þóttist sjálfr verda um at siá ef rètt skyldi verda, oc grunadi þó fylgi eda lidsinni Þorláks biskups vid sig í slíku, bad hann konúng á þessu sumri at hann mætti hafa heimilis-prentverk lítit, oc mundi þat veitt hafa verit, ef Otti Krag secreteri vinr hans, hefdi ordit nógu skjótt vid at bera þat fyrir konúnginn, því at hann var í vingan konúngs, enn þat vard ecki.

## CXVIII Cap. Konúngaskipti oc frá ímsu.

Þau missiri spilltist vedrátt nockut eptir því sem áleid, oc um 1648
*jólinn* ofannverd andadist Gudmundr prestr Einarsson at Stad á Ölduhrygg, er þar var lengi, oc merkilegr madr. Þá var hardr vetr frá Magnúsmessu fyrir jól, oc allt til hvítasunnu, svo vída féllu stórum útigángs-peníngar, oc mest í Þíngeyarþíngum oc Austfiördum; var vorit hardast, oc mykti aldrei fyrr enn í einu, urdu margir menn bjargarlitlir, enn miklu fleiri peníngslausir, því at jardbönn voru mikil. XIV byrnir gengu á land á Ströndum, oc margir annarstadar, því at allt var fullt af hafísum; laungum voru fiúk oc ófærdir miklar, oc gengu sumir menn frá heimilum. Þann vetr andadist Kristián konúngr fiórdi, vetri betur enn sjötugr, enn ríki hafdi hann haft í LX vetr; giördist Fridríkr sonr hans konúngr eptir hann, oc vard ádr at gánga at þúngum kostum vid edalmenn, því þeir rèdu þá öllu í Danmörku at verr var. Jökulsá í Axarfyrdi var þá ridinn á ísi í fardögum, oc var fyrst saudjörd í útsveitum á Jónsmessu; sumstadar vard ecki slegit gras, þvíat eigi var leyst upp af völlum allstadar á midju sumri; var sumar vott oc kaldt, oc spilltust hey af hafís-suddum oc brunnu; fátt komst í ver ofannverdann vetr, þvíat margir sneru aptr, enn fiskr var þó fyrir. Var vetr þessi kalladr glerúngsvetr eda rolluvetr, oc vard ecki bót at sumrinu. Þá lèt Þorlákr biskup fyrst giöra at timbrstofunni á Hólum, er Audun raudi hafdi byggda. Sótt var í landi, oc mest á Vestfiördum, dóu menn margir; manntapar urdu oc nockrir. Madr hèt Grímr Pålsson, hann var skólagenginn, oc

druknadi í Grímsá. Magnús Jónsson Magnússonar var þá syslumadr í Bardastrandar syslu, hann lèt taka Svein skotta þiófr, var hann þá frægr af illvyrkjum um allt land, oc dæma, oc hengia um vorit í Raudáskördum, son hans var Gísli hrókr, er sídar var hengdr austr í Dyrhólum; enn annar er sagt hafi heitit Steingrímr, oc búit í Þíngeyar þíngi, oc verit saudaþiófr mikill, oc sèu menn frá hönum komnir, oc ordit betri í þridja lid enn fimta frá Axlar Byrni. Gètit er um vorit tveggia dóma Benedicts Halldórssonar syslumanns í Skagafyrdi. Mjólkurkúm var þá gèfit hey til alþíngis í útsveitum, enn sumstadar lengr; oc ridu þá ecki syslumenn til þíngs úr Dölum eda vestar fyrir hardinda sakir. Seint í Június andadist Arngrímr prestr hinn lærdi, at Mel í Midfyrdi, oc var hann þá áttrædr. Þá bætti Brynjúlfr biskup XX oc einni kú vid þat inventarium er fæckat var ádr í Skálhollti, fyrir þat allt vitu menn engann pèníng komit hafa. Þat hafdi borit til nyrdra, at prestar tveir komust í mál samann, Jón Pálsson at Ríp, oc Olafr Olafsson er fyrri var skólameistari, oc kalladr lærdi karl. Jón útdeildi Olafi sacramentum, oc sagdi Olafr blód verit hafa í kaleiknum, enn Jón qvad hann siálfann hafa spítt í blódi; þar vann Olafr tylftareyd fyrir, enn þó ætludu menn at bádir hefdi þeir allillt málefni, setti Þorlákr biskup þá af báda, enn Jón var dæmdr þetta sumar á alþíngi sekr IIII mörkum oc fiölmælismadr. Þar var oc konu dæmd refsíng er tvísaga vard um barnsfaderni; oc svo um heitíngar Odds Magnússonar, er hann hèt at giöra sig at lausamanni, oc brenna upp Fagranes, þar Gottskálk prestr var; oc enn um vísur er Rögnvaldr Jónsson qvad um Audun Sigurdarson í Dölum, var því vísat til Biarna Pètrssonar á Stadarhóli, er þá var syslumadr.

## CXIX Cap. Fráföll manna oc fleiri tídindi.

Hans Nansen borgmeistari í Kaupmannahöfn, oc Jóhan Mumm Hollendski, höfdu þá fengit af konúngi laxveidi í Hvítá í Borgarfyrdi; þat afbad Brynjúlfr biskup med brèfi til konúngs, qvad laxinn ei gánga meiga í árnar upp til nota mönnum, ef ósinn væri stemdr; hann æskti einnin skipaferda til Grindavíkr aptr, kalladi þar von mestra fiskikaupa vid Skálholltsstad; oc fèck hann þetta,

því at útlendir oc kaupmenn voru þá ei einrádir um allt; enn Jóhann Muum bygdi hús í Hvanneyrar landeign. Um þíng andadist Þórdr prestr Thómasson, er lengi var í Garpsdal, oc Snorri Asgeirsson, er miög lengi hafdi búit at Varmalæk í Borgarfyrdi; enn litlu sídar Jón Sigurdarson í Einarsnesi, er syslu hafdi vestann Hvítá, oc fèck hana Sigurdr sonr hans. Gísli son Magnúsar lögmanns var þá kominn út fyrir tveim vetrum, oc þótti kurteysastr úngra manna, hann hafdi verit á Englandi seinast, fèck hann þá Múlasyslu, þvíat Biarni Oddsson lagdi af, oc sídar Skriduklaustr, er Jón Biarnarson veik frá, sá er þar var lengi, oc hèldt sídann Múlasyslu ulla. Þá dó Gudmundr prestr Gudmundarson í Fljótshlíd, oc Finnr prestr Jónsson í Skálhollti, er Vallanes hafdi fengit; Biarni prestr á Kolfreyustad Ormsson Egilssonar, Högni Jónsson, er fyrri var at Stafafelli, oc Halldór í Selárdal Biarnason Halldórssonar Einarssonar Sigvaldasonar lángalífs; einnin Jón á Núpi Gissurarson Þorlákssonar, hálfbródir Brynjúlfs biskups, oc merkilegr madr, enn Torfi són hans fèck Rafnseyri eptir Sigurd prest Snorrason, oc hèldt at eins þessi missiri. Sigurdr son Gísla prests Einarssonar fèck Stad í Grunnavík. Um sumarit fór utann Halldór son Jóns prests Bödvarssonar í Reykiahollti, Teitr son Torfa prests Snæbjarnarsonar á Kyrkjubóli, oc Magnús son Magnúsar Jónssonar syslumanns. Þá visiteradi Brynjúlfr biskup Austfiördu. Þat var þá bodit af ríkisrádi at menn skyldu halda þriá bænadaga, í mynníngu Kristiáns konúngs hins fráfallna, oc bidja Gud þess at hann gæfi mönnum aptr gódann stjórnara, því at þraungt var fyrst um krníngu Fridríks konúngs. Brèf eitt var þá borit til Islands, er nockrir höfdu logit upp til at auka hjátrú, þat átti at vera gèfit út af Christo sjálfum af himni, med mörgum hègómlegum atvikum, oc hefir þat hjá sumum mönnum geymst framm á vora daga. Þá gèck Gudmundr prestr Biarnason í Laugardælum at eiga Astu dóttr Orms í Eyum, enn Teitr prestr at Prestsbacka Þóru dóttr Einars prests Arnfinnssonar at Stad í Hrútafyrdi; Einar sá var lögvitr madr, oc verdr enn gètit; bródir hans hèt Vilhiálmr, oc lítt vinsæll í uppvexti, sídann bjó hann í Avík á Ströndum, oc þótti þar ribbaldi, hann var þá kalladr Galdra-Vilki, oc var nockra stund syslumadr, oc mörg voru þau systkin. Jens Söfrensson var þá enn fógeti, oc fór utann. Þá bjó at Stórólfshvoli Katrín Erlendsdóttir, eckja Vígfúsar Gíslasonar, hún var haldinn nockut fè-

glögg. Þar brunnu hinn XXXta dag Octobris öll húsinn nema kyrkjann, oc hinir mestu fèmunir, barnafè Vígfúsar, er sagt at Katrínu hafi dreymt ádr at kyrkjann brynni, enn hún hafi haft þar inní kistur sínar med mörgu fèmætu, oc hafi látit bera þær í bæinn, enn kistur hjúa sinna í kyrkju aptr, enn öfugr hafi ordit draumrinn. Biarni Biarnason, er þá bjó at Ingunnarstödum í Múlasókn á Skálmarnesi, skar sig á hálsinn á því hausti, enn batnadi þó aptr. Þá er enn mælt at andast hafi Gudrún Olafsdóttir í Snóksdal, er Hannes Biarnarson hafdi átta, oc var hún hálf-tyræd. Hallæri var þá mikit, sakir vetrar þess hins mikla, oc sumars er verit hafdi, enn heynítíngar höfdu ordit gódar fyrir sunnann, oc fiski-ár mikit, oc barg þat mörgum; med því at vetr þar nærstann giördi gódann oc mjúkann, nema hálfann mánud um jólinn
1649 siálf; lá laungum allt saudfè úti, oc voru tekinn fiallagrös á Ströndum vestr á Pálsmessu á föstu; hèldust þau votvidri med hlyindum á sumar framm, oc giördi grasvöxt mikinn, enn fiskr nyttist illa sökum vætunnar, oc hafdi verit mikill fengrinn. Strákar útlendir brutu hús á Eyrarbacka um vorit oc nádu skreyd, tók Jens Söfrensson þá, því hann kom út í Seilunni um vorit fyrir krossmessu, oc átti utann at flytja, hèt Marteinn sá er fyrir þeim var, hann komst úr járnum frá Bessastada bödli, oc vestr fyrir jökul, oc þar á duggu enska, enn hvarf litlu sídar af skipi, oc med hönum slykiusteinninn, oc ætludu menn mundi hafa dreckt sèr. Þá var prentat Graduale á Islendsku oc latinu, oc Pangratius-postilla. Rúnólfr Jónsson lèt þá af skólameistaradæmi á Hólum, oc fór utann, oc vard þar meistari, oc ritadi ímsar bækr, enn tók vid hans syslan Þorsteinn Illhugason Hóla rádsmanns. Þat vor dæmdi Þorlákr biskup at Flugumyri um heytoll.

## CXX Cap. Hyllíngar eydar.

Jens Söfrenssyni hafdi verit umbodit at byrta hyllíngarbrèf Fridriks konúngs hins þridja, voru bodadir til alþíngis biskupar bádir, meistari Brynjúlfr oc Þorlákr, lögmenn bádir Arni Oddsson oc Magnús Biarnarson, prófastar allir, oc XVIII prestar úr Skálhollts biskupsdæmi, enn XX prestar oc allir prófastar at nordann, syslumenn allir, med tveimr nefndarmönnum, oc tveimr bændum úr

hverri syslu; skyldu þeir allir vinna Fridriki konúngi eyda á þíngi, fyrir sig oc eptirkomendr sína; sendi Matthias Söfrensson brèfinn um land allt, því hann hafdi umbod Jens brødr síns. Fyrir þessar sakir ráku allir syslumenn syslr sínar fyrir alþíng, oc tóku manntal, oc játun allrar alþídu med handsölum, oc nefndu þá til er rída skyldu; oc slíkt gjördu prófastar einnin, hverr í sínu umdæmi. Nockru sídar, fyrir alþíngstímann, komu út varnarskip tvö dönsk, oc á þeim höfudsmadr hinn nyi, herra Henrik Bielke af Austrátt, edalmadr norrænn, ríkis admirall, oc þá nylega sleginn til riddara, hann var mikill madr álitum, frægr af atgervi oc ágætis-verkum, oc ættgöfugr, sagdi hann svo siálfr, at eitt hefdi verit kyn Gottskálks biskups hins fyrra á Hólum oc forfedra sinna. Med hönum kom út annar edalmadr, Gabriel Knutsson Acheley af Julerod, secreteri konúngs, hann átti at taka eydana af öllum á Pètrsmessu, snemma á alþíngi; var búd mikil reyst í Öxarárhólma, þar er hyrdstjóra-búdinn var fyrrum, oc er menn voru komnir á þíng, gengu þángat allir formenn lands þessa, oc er þeir höfdu heilsat, oc mannfiöldinn var kominn samann, hèldt herra Gabriel Acheley merkilega rædu, fyrst á látinu, oc sídann á dönsku, til allra þeirra er þar voru komnir samann, oc taldi þeim eyrindi sitt, qvadst vera sendr af konúngi til at taka eyda af landsmönnum; þar uppá svörudu biskuparnir, Þorlákr oc meistari Brynjúlfr kènnidómsins vegna á látinu, oc lögmennirnir Arni oc Magnús vegna alþídu; því næst fóru allir yfir til lögrèttu, oc tóku at vinna eydana; giördu þat fyrst biskupar bádir med knèfalli, oc Brynjúlfr fyrri, sídann allir prófastar, oc svo prestar tveir úr hverju prófastsdæmi. Þareptir unnu lögmenn bádir eydinn, þá syslumenn, þá lögrèttumenn, þá skattbændr tveir úr hverju hèradi, er til voru kosnir í umbodi almúgans; eptir þat var skotit þrem sinnum af fallbyssum. At þínglausnum hèldt höfudsmadrinn þeim öllum veitslu, er eydana höfdu unnit, þar í búdinni, hún var XIV fadma laung, med bitum, sperrum oc lángböndum, oc tjölldud yfir med vadmálum, enn svo breid, at sitja mátti framann oc ofann lángbord á fióra becki, oe nær L menn á hverjum; þar voru leikinn ímisleg hliódfæri, oc blásit á pípr oc trómetr, svo menn mundu enga veitslu jafnstórmannlega ordit hafa á landi hèr, oc stód hún til morguns daginn eptir, var þá oc alþíng hid fiölmennasta. Þar

voru bornar framm innar naudsynjar af landsmönnum fyrir herramennina; leiddi Brynjúlfr biskup fyrir siónir, hve inventaria á prestaköllum væri um of, oc at þat er óþarft væri mætti fáckast, oc hafast til annars. Mest kærdu Islendíngar kaupskap sumarkaupmanna er hèr voru, oc hètu herramennirnir at bera slíka hluti framm, mun oc sídar gètit konúngsbrèfa er af leiddi. Þar var dæmt um nockrar barngètnadar sakir; oc einn dómr um Odd Þorleifsson úr Strandasyslu, at hönum syndist vægd fyrir hórdóm hans, er kona hans var sár oc grafinn í andliti, oc hafdi eigi viljat taka hann aptr, enn þau voru þó ei skilinn er hann fèll í þridja brot. Þá afbad lögrèttann syslumenn útlendska.

## CXXI Cap. Frá Gudmundi Andressyni.

Gudmundr hèt madr oc var Andresson, hann hafdi lært í Hólaskóla, oc var djákn at Reinistad eda Þíngeyrum, allskarpr, enn nockut ólempinn í gèdi, oc braut heldr þánka um suma hluti, enn þat var eigi allskostar álitit vel í þann tíma. Gudmundr hafdi viliad verda prestr, oc fá Sigrídar nockurrar, laundóttr Jóns Oddssonar oc Gudrúnar Jónsdóttr, er systir var Arngríms hins lærda, enn hönum þótti Þorlákr biskup hafa bægt sèr frá hverutveggia; fyrir því tókst hann á hendr at rita nockud sneydilegt rit til biskups, er hann kalladi: *nosce te ipsum*; oc í fleiru ysdist hann vid hann, enn ei var þat neitt er sakir mætti á gèfa; giördist þá biskup hönum óvinveittr, oc gafst hönum færi til. Bar svo undir at Gudmundr samdi rit eitt til at sína skarpleika sinn mjög í móti stóra dómi, oc var þat eigi allra, hyggia sumir hann ecki einann um fiallat hafa, nema Einar prestr Arnfinnsson hefdi þar til lagt, hann var þá at Stad í Hrútafyrdi, enn hafdi misst ádr Reinistadar kall fyrir barngètnad. Þat rit var á móti stóradómi; bjó Gudmundr þá at Biargi í Midfyrdi med módr sinni. Rit þetta barst vída, oc líkadi sumum vel, enn sumum illa; kom þat til Þorláks biskups, enn hann bar þat fyrir höfudsmannin Henrik Bielke, oc kalladi þat hneigslissamt, þar sem margir væri ærit óhlídnir vid löginn, þó ei væri upphvattir, enn dómrinn stadfestr af konúngi, oc mætti slíkt ei þolast órefst. Gudmundr var farinn sudr á Nes um þíngit til fiski-atdrátta; hann var einn haldinn margvís, oc ei

allra vid at fást, sem þá var tídt, at fródir menn voru haldnir af ödrum, oc vildu sumir siálfir hnísast í fleira enn þat er edlilegt var, oc hafa ord af at kunna. Svo hafdi fallit, at Hallgrímr bóndi á Vídimyri, son Halldórs lögmanns Olafssonar, hafdi komit fyrir þíngit sudr at Bessastödum, til at svara ákæru nockurri, er hönum var borinn af konúngs landsetum, um ójöfnud er hann hefdi síndann; var Hallgrímr sterkr madr oc ósvífinn. Þá var höfudsmanninum sagt, at hann væri hinna göfugastu manna í landi hèr, lögmanns sonr, oc mágr meistara Brynjúlfs biskups, tók hann hönum fyrir því vel, oc lèt vera vid bord sitt, því þá stód á máltíd, enn yfir bordum nefndi höfudsmadrinn ákæru þessa; Hallgrími þótti sem hann mundi vera heima í Skagafyrdi, oc hugdi at hrinda slíku med hardfengi, svaradi fyrst djarflega, enn er hönum þótti litt úrskèra fyrir sèr, gjördist hann stórordr, oc spretti fíngrum yfir bordi, oc þó meira af stórmennsku oc ógætni, enn at hann *vildi* ei vyrda höfudsmanninn. Þá spratt höfudsmadrinn upp, oc lètst ei slíkt þolat hafa hefnilaust herramönnum í Danmörku, enn miklu sídr skyldi hann þola þat bónda íslendskum; sindist þeim þá rád er nærri voru, oc Hallgrími vildu duga, at skióta hönum sem fyrst undann oc á brott, því höfudsmanninum lá þat fyrst í svo þúngu rúmi, at eigi neytti hann svefns nè matar. Frá þessu sagdi Hákon Ormsson Vígfússonar, oc fleiri menn er vid voru staddir, Halldóri prófasti Jónssyni í Reykiahollti, födr Jóns prófasts; bádu þá biskupar bádir, oc adrir hinir eldri menn, fyrir Hallgrím á alþíngi, oc veitti heldr tregt at ná sáttum til handa hönum. Enn er þat spurdist at Gudmundr Andresson var þar nærstaddr á nordrför, var Hallgrími rádit til at taka hann, fèck hann med sèr karska menn, oc ellti Gudmund nordr á Kaldadal, oc nádi hönum, oc flutti á þíng, oc afhendi, var hann vid þat tekinn í sátt, oc segir ecki af hönum meira. Þvínærst reid Gabriel Acheley í Skálhollt, oc þadann aptr til baka; enn höfudsmadrinn reid nordr til Hóla eptir þíngit, því at hin mesta vinátta var med þeim Þorláki biskupi, oc þegar sudr aptr í Borgarfiörd; þá kom hann at Hesti, þar bjó Audun prestr Jónsson Salomonssonar prests, Gudmundarsonar, gamall madr oc frómr, oc búþegn, enn fèskygn nockud svo, oc ókunnr stórhöfdíngiaháttum; bad höfudsmadrinn hann um hest sudr at Hvalfyrdi, til láns, oc var látinn til klár-

hestr bleikalóttr, oc þó heldr seint, enn eigi til láns, heldr til leigu, eda fyrir fullt verd; höfudsmadrinn kastadi þremr eda fiórum dölum at presti, oc qvad slíka ógreidasemi lagfærast meiga sídar. Þar kom af skyldusflutníngr lènsmanna ári seinna; sídann reid höfudsmadrinn til Bessastada, oc fór utann lítlu sídar, oc med hönum Gísli son Þorláks biskups, oc Rúnólfr skólameistari er fyrri gètr; þá fór oc utann Biörn son Magnúsar lögmanns. Gudmundr Andresson var oc fluttr utann, oc settr í bláturn; þat var fángelsi í þann tíma vid inngánginn á Kaupmannahafnar sloti til hægri handar; oc sat hann þar framm á vetr, til þess einhverjusinni, seint um nóttu, þá ljós voru slokinn vídarst, enn flestir menn í svefni á slotinu, þá kom hann þar inn á herbergi nockut, þar er hann sá at liós brunnu, þar var fyrir fóstra konúngsbarna med þernum hennar, oc vard þeim öllum bilt vid miög, oc hugdu þar komit hid mesta meinvætti, því hann var í bónda-búnadi íslendskum, oc þó slæmum, þar med ófrínn fángi oc óræstinn; hann var lítt vanr dönsku máli, enn mælti þó til þeirra, qvadst hafa hrapat ófyrirsynju út úr bláturni, oc bidr at hann sè látinn þángat aptr; komu nú upp hliód oc háreysti svo mikil at vída heyrdi um slotit, oc þarmed sá qvittr, at fángarnir hefdi brotist út úr turninum, hliópu þá margir til at forvitnast hvad um var. Enn er menn gættu til, var enginn út kominn, nema Gudmundr einn, oc bad jafnann láta sig inn aptr, qvadst hafa haft þat til skemtunar sèr um nætr, at horfa út um glugg á herbergi sínu eptir himintúngla-gángi, oc einhverjusinni, er hann hefdi klifrat sem lengst utí gluggann í þeim eyrindum, lètst hann hafa hrapat út af turninum; enn med hverju faraldri hann hefir komist ígègnum járnslár þær hinar sterku, er í glugganum voru, oc sídann ómeiddr nidr á griót, jafnmikla hæd, þykiast menn ei fá skilit. Enn er þetta kom fyrir konúnginn, spurdi hann Henrik Bielke höfudsmann, fyrir hverjar sakir Gudmundr var þar kominn; var þá ritit synt, oc lagdi Rúnólfr Jónsson þat út á dönsku; sídann var þat skodat í Consistorii rèttinum, oc bar Gudmundr þat fyrir sig, at hann hefdi eckert braud nè embætti fengit á Islandi til at lifa af, enn hefdi haft lystíngu til bókvísi, oc lètst þá hafa ritat þetta til at prófa vit sitt, oc í einfeldni, til ydkunar sèr, med þeim hætti sem menn disputerudu, þegar til væri fundit hvad sem mætti móti meiníngum annara, enn aldrei af því, at hann hefdi

viljad mótfalla stóraddómi, sem sèr væri gèfit at sök; vard þat þá af, at Gudmundr var látinn laus, oc tekinn í stúdenta tölu, oc gèfit fædi á klaustri, enn sídann vard hann decanus vid IXda eda Xda bord; var hann kostgæfinn, oc lagdi út norrænar bækr, oc fèck af því framgáng hjá sumum lærdum mönnum, oc ritadi ordabók íslendska er prentud var. Hann lifdi V ár alls í Kaupmannahöfn, til þess er hann andadist med ödrum fleirum í sóttini miklu.

## CXXII Cap. Tilburdir.

Konúngsbrèf þau er Henrik Bielke hafdi komit út med, voru III eda fleiri. Eitt um Hólakyrkju í Eyafyrdi, at fè hennar gialdist henni; annat um vidargiöf til dómkyrknana, er flytiast skyldi frá Noregi, C dala vyrdi; þridja um Gísla Einarsson, at hann skyldi kènna mælíngarfrædi á Íslandi, oc um laun hans; Einar fadir hans var son Pètrs í Vík Magnússonar, bródrs Þorsteins í Þyckvabæ, oc Biarnar á Laxamyri. Snemma um haustit runnu skridr á tún oc engiar manna sakir votvidra, oc spilltu miög jördum, svo fèll af verd oc landskuld, er til nefndr Hvammr á Bardaströnd. Margt fólk dó í Þíngeyar þíngi, söknm hardinda hid fyrra árit. Gudmundr Narfason hèt madr nyqvæntr, sá myrdi konu sína. Þat sumar andadist Einar Hákonarson á kaupstadaför, í svefni. Þá var haldit brúdkaup Gísla, sonar Magnúsar lögmanns, oc Þrúdar dóttr. Þorleifs Magnússonar at Hlídarenda, var med þeim þrímenníngs frændsemi, oc fyrir því tekit leifisbrèf, enn konúngr gaf leifisgialdit til Hólaskóla. Sagt er at þá hafi Pètr Gissurarson presits at Stadarbacka Gamlasonar Hallgrímssonar, er þá var heyrari í Skálhollti, vígst til capellans at Utskálum, oc veit eg eigi hvert satt er. Bödvar Sturluson vard heyrari aptr, hann var sonarsonr Jóns prests Kráks sonar í Gördum, var Sturla fadir hans kalladr ættleri, enn Bödvar var lærdr madr. Þeir voru brædr Krákr Hallvardsson fadir Jóns prests, oc Jón fadir Arngríms lærda. Hallr prestr Arnason kom þá til Rafnseyrar, enn til Skardsstrandar Erlendr son Einars prests á Stad á Reykjanesi, er mist hafdi stad oc prestskap, Gudmundarsonar prests, Jónssonar prests í Gúfudal, Þorleifssonar í Þyckvaskógi; sá Erlendr hèldt sídan Hiardarhollt í Laxárdal. Hinn XXVIIda dag Octobris vard skiptapi vid Skáleyar, oc tyndust V

menn; Sveinn bóndi Brandsson ór Eyunum var formadr; frá Brandi födr hans er Skáleyar ætt. Þau missiri tók Eyríkr son Olafs prófasts Einarssonar á Kyrkjubæ, vid Stadnum, því fadir hans giördist þá gamall oc blindr, enn Stephán prestr Olafsson tók Vallanes, oc hèldt lengi sídann, oc var prófastr, hann var skáld gott oc gladlyndr, medalmadr vexti oc þrekinn, raddmadr mikill. Ejólfr Biarnason Ormssonar prófasts frá Kálfatjörn Egilssonar, tók þá Kolfreyustad eptir födr sinn, hann var mikilmenni af siálfum sèr. Þá andadist Oddr prestr Oddsson á Reinivöllum, oc þótti merkilegr madr verit hafa.

## CXXIII Cap. Arferdi.

1650 Eptir þat giördi vetr gódann med spakri vedrátt, ei sídr enn hid fyrra árit, enn hverr fiördr var fullr af fiski, oc var hann nægr á Breidafyrdi þegar eptir jól, oc svo sumstadar þar sem menn vissu enginn dæmi; vorit var óstödugt, oc grèri ecki snemma. Þá lèt Benedict Halldórssons syslumadr í Skagafyrdi, dóm gánga at Lytíngstödum, um galdrarygti oc legord, er Jón Biarnarson á Bústödum kærdi, oc var því skotit til lögrèttunnar, þar voru í dómi Sigurdr Markússon í Hèradsdal, Eggert Jónsson á Ökrum, Hallgrímr Halldórsson á Vídimyri, Magnús Jónsson, Biörn Jónsson at Skardsá, Gudmundr son Kolbeins Hiálmssonar lögrèttumenn, Gudmundr Arason í Flatatúngu, Erlendr Nicolásson, Ingimundr Bessason Hrólfssonar, Þorsteinn Steingrímsson, oc Jón Arnason; eru frá þessum mönnum mörgum ættir taldar.

## CXXIV Cap. Frá höfudsmanni, málum oc misfellum.

Þetta vor, hinn XXVta dag Maii mánadar, var reistr med miklum mannfiölda, rádum oc atburdum, annar hlidveggr Skálhollts-kyrkju, enn annar mánadi seinna; var þat sumar reist öll kyrkiann, bædi at undirgrind oc riáfri, oc súdud upp frá bitum, enn sleginn fyrir bordvidr at nedann seinna, oc súdinn öll tvífódrud, med hinum bestu bordum gotlendskum. Þá kom út um sumarit Henrik Bielke höfudsmadr, oc reid á þíng, þar lèt hann byrta

konúngsbréf þau er hann hafdi; var eitt til höfudsmannsins oc biskupa, at þeir finni rád til at bæta kjör presta, oc gèfi þat konúngi til kynna; annat at prestaeckjur nióti nádarárs; þridja at reki allr á kyrkiujördum falli til þeirra, þvíat syslumenn höfdu þá um hríd eignad sèr hann; fiórda var um þá er forsmá kyrkju ega at syslumenn agi þá; fimta um óþörf inventaria, at þau seljist frá kyrkjum. Þar at auki um friálsann flutníng lènsmanna þat er ádr er gètit, oc at ei væri hæckadar landskuldir; eitt var um hospitöl fyrir líkþrása menn fátæka, því at sá sjúkleiki var þá miög tídr, oc hafdi verit um stundir, oc var sídann á allri XVIIda öld, enn sárasótt sú er fyrri var hafdi þá at mestu þrotit, sídann tóbaksbrúkun jókst. Þat hafdi fyrrum verit áqvedit í Bessastada samþyckt, at hospitöl skyldi setja, enn Kristián konúngr þridji kalladi vel fallit, þó hinir fátæku væri fluttir sem þángat til; laungu seinna, þá er Jón lögmadr fór utann, oc tókst á hendr nockr eyrindi Islands, var því aptr fylgt, hèt þá Kristián konúngr fiórdi at láta sysla þar um er gott tóm yrdi; sídann var því ecki hreift fyrri enn hèr var komit, oc vard þó ei fullgiört at því sinni. Eitt bréf var um brúargiörd; eitt at enginn íslendskr madr fylgi nockru útlanda skipi á hafnir, oc lögd vid lífssök; þá voru enn nockr um smislega hluti, enn eckert vard atgiört um kauphöndlanina, höfdu Islendíngar viljat fá at kaupa vid allar þiódir, oc var því tekit fiærri. Þar gengu nockrir dómar, oc var þar einn kominn frá Torfa Erlendssyni, oc einn frá Rúnólfi Sigurdarsyni frá Einarsnesi, er syslu hafdi í Hnappadal. Þórdr Henriksson var landþíngskrifari. Þá baud höfudsmadrinn syslumönnum at koma hvert ár til þíngs. Þángad var fluttr Gudmundr Narfason úr Arnessþíngi, er skorit hafdi á háls konu sína, oc vildi hann ei medkènnast, var hann þá pintadr, oc sídann svarinn líkindi, oc hann dæmdr til dauda, þá medgèck hann, oc tók ydran mikla at því er á mátti sjá, bad Gud oc menn fyrirgèfníngar, oc gèck gladr at dauda sínum; var hann brotinn á útlimum, oc afhöfdadr sídann, oc höfudit sett á stiaka á almannagiáarbarmi. Annar madr hèt Jón kalladr Syuson, hönum hafdi stjúpdóttir hans kènnt barn, enn hann medgèck aldrei; bárust á hann líkr, oc fèck hann ei eydamenn, var sídann dæmdr til dauda; hann vard illmannlega vid, oc fèck eigi bödullinn höggvid hann, því exinn þótti vefjast upp sem í steini, urdu því mjög mörg högginn ádr hann dó, fundu þeir á hönum

svartann rúnastaf í skónum, á eykarspialdi, oc hausskél af manni med hári á, oc hèldu hann fiölkunnugann miög, oc brendu kroppinn. Konu var þar dreckt er madr gat barn vid, sá er átti systr hennar, hann var tekinn af í Eyafyrdi; er svo sagt, at á því alþíngi væri alls líflátnir VIII; enn er þíngit var lokit, reid höfudsmadrinn til Hóla nordr, þadann í Skálhollt, oc þadann til Bessastada.

## CXXV Cap. Mannalát.

Þetta sumar öndverdt týndist skip undir Múla á Skálmarnesi med V mönnum, var formadr Þórólfr bóndi Einarsson, Þorleifssonar Jónssonar prests í Gúfudal, Þorleifssonar í Þyckvaskógi, hann hafdi átta Þorkötlu dóttr Finns í Flatey, þeirra börn voru Finnr, Ragnhildr, er átti Erlendr prestr Einarsson í Hiardarhollti, oc Ingibjörg er átti Nicolás prestr son Gudmundar Olafssonar Moldar-Brandssonar, þeirra börn voru Finnr, fadir Þórólfs undir Múla, oc Gudrún módir Ragnhildar, módr þeirra Olafssona, Eggerts oc Magnúsar lögmanna, oc Jóns. Sótt var mikil oc manndaudi, oc mest á útkjálkum kríngum land, urdu XXX hjónaskilnadir í Skagafyrdi; misfarir urdu oc nockrar. Þeir Þórbergr Hrólfsson oc Hrólfr Sigurdarson lètu dóm gánga at Ærlæk um sumarit, um þiófnad oc óknytti Kètils Jónssonar. Svo þótti mönnum sem kaupmenn væri verri vid at kaupa, sídann þeir voru ákærdir. Þá andadist Örnólfr Gudmundarson at Hellum, oc Snæbjörn prófastr í Odda Stephánsson Gíslasonar biskups, oc Biörn Þorleifsson, er lengi bjó undir Múla á Skálmarnesi, hann skorti III vetr á áttrædann; prestaskipti urdu enn sumstadar. Bödvar Sturluson heyrari vígdist til Vestmannaeyja, því prestr þar misti fyrir barngètnad; enn Torfi Jónsson frændi Brynjúlfs biskups fèck Gaulverjabæ, því Vigfús Oddsson dó, er þar var. Þá dó einninn Þorvaldr Olafsson at Audbrecku, hann ætladi á þíng, oc hneig af hestinum nær örendr á Lángalandshálsi, oc deidi sídann; börn hans voru Jón at Audbrecku, Benedict á Vindheimum, Biörn, Dadi fadir Hildar módr Þurídar er átti Halldór prestr Hallsson, Olafr, Gudrún kona Stephâns prests í Vallanesi, Þórun kona Erlendar prests Olafssonar; er miklu fleira fólk komit frá Þorvaldi, enn frá Halldóri lögmanni

bródr hans. Sigfús á Yxnahóli var enn bródir þeirra, sem ættir eru frákomnar. Þá druknadi Jón prestr nyvígdr at Múnkaþverá, son Gudmundar prests skáldsins at Felli, Erlendarsonar; andadist oc Olafr prestr at Breidabólstad Erlendarson, Pálssonar Grímssonar, oc fadir þeirra Þorvardar prests oc Erlendar prests, oc svo Olafr prestr Bödvarsson at Saurbæ vid Hvalfiörd; þá dó oc Jón lærdi. Þau missiri lèt Benedict Pálsson reisa Mödruvalla kyrkju, hún var sterk oc vöndud. Þá tók Breidabólstad á Skóga ströndd Asmundr prestr Ejólfsson, oc hèldt lengi sídann, oc var prófastr, hann var son Ejólfs Helgasonar Ejólfssonar prests á Melum Grímssonar, enn módir hans var Liótunn dóttir Asmundar prests í Miklahollti, Nicolássonar þess er bródir var Marteins biskups at móderni, Jónssonar smids Audunnarsonar, hann átti Gudrúnu laundóttr Jóns Teitssonar Biarnarsonar Jónssonar biskups, oc var hann fadir Brynjúlfs födr Halldórs biskups. Margir adrir prestar urdu þá nyir, þó eg nefni þessa hellst. Þá voru á þeim tímum dylgiur miklar í Danmörku, med Fridriki konúngi, oc edalmönnum mágum hans, oc var ríkit í hinum mestu vandrædum. A því sumri fór utann Einar son Þorsteins prests Tyrfíngssonar med Henrik Bielke höfudsmanni; oc þá settu þeir á latinu rit Gudmundar Andrèssonar um stóradóm at konúngsbodi, meistari Rúnólfr oc Páll son Halls Biarnasonar í Mödrufelli; voru þá tyutygi vetr frá aftöku Jóns biskups Arasonar, oc sona hans.

## CXXVI Cap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Þat bar vid um vetrinn í Skálhollti, at skólasveinar XIII urdu berir at galdrastafa medferd, af únggædi oc nynæmi því, er þá leiddi margann, med adstod vondra dæma, til hjátrúar oc afgudadyrkunar, oc hafdi þvílikt slædst af Vestfiördum þángat; lèt Brynjúlfr biskup þá þola skólarefsíngu alvarlega, oc vísadi þeim frá 1651 skólanum, enn þó ei undir dómara atgiördir, er ómjúkar voru í slíkum málum í þann tíma, med því hann vildi eigi koma gódra manna börnum til svo mikillar óhámíngiu, enn leitadi heldr ráda utanlands, oc var hönum leift at taka þá aptr til læríngar, er slíkt hefdi hendt af einni samann óvitsku, tók hann aptr flesta af þeim

sídann, oc reindust margir vel; hefdi svo at líkindum mátt verda um fleiri þá er galdri voru bornir, oc fengu ei eyda oc voru brenndir sídann, þá er svo var komit at menn lögdu nálega at jöfnu þann er fundust hjá myndadir rúnastafir, oc þann er reyndr var at illvilja, oc töldu jafn-saknæma afgudadyrkan at eiga rúnablöd, sem at tilbidja Satan, því þat var nálega látit vera allt eitt. Enn þó Brynjúlfr biskup væri þrautgódr í þessu, þá var hann sidavandr vid presta sína um lifnad þeirra oc kènníngu; eckert vildi hann sjá á þeim yfirlæti eda lausíngiahátt, oc ei at þeir hefdi sídt hár, lèt hann þá stytta þat undir vígsluna, oc afskèra, svo ei nádi lengra enn ofann fyrir eyrabladit eda jafnt því, oc svo hafdi hann siálfr; enn þat kalla nockrir verit hafa páfa edr múnka sidar snèrt, sem suma hluti adra er í fari hans voru, oc enn mun verda frásagt. Hann fylgdi því fast, at prestar skyldu vanda predikanir sínar, enn leggia af at lesa þær á bók, sem margir höfdu giört þángat til; hann skipadi þeim nytt eydsform í XV greinum, því hönum þótti þat ei nógu greinilegt er fyrri hafdi verit, unnu þeir svo eyd fyrir hönum med knèfalli, oc undirskrifudu med dato til hvers prestakalls þeir vígdust; var sá sidr hans einnin hafdr af þeim er eptir hann var, þartil er ritualit kom. Þat er almælt, at Brynjúlfr biskup hafi lærdr verit í flestum hlutum, svo at enginn biskup hafdi jafnlærdr verit á Islandi, oc at því skapi væri margr annar skörúngskapr hans, voru þá oc menn lærdastir í landi, á latinu oc margt annat. Olafr prófastr Einarsson hafdi setit nærstr hönum er hann visiteradi Austfiördu, vyrdi hann engann prest meira ámedann hann lifdi.

## CXXVII Cap. Frá ímsu.

Þá var vetr gódr oc blídt vor oc sumar; fiskafli var mikill, enn mönnum hætt á sjó; druknudu VII menn vid Eyasand, þrír í Hraunum, tveir á Alptanesi, IIII á Skagafyrdi. Þá er sagt at dæi Þórdr Henriksson. Benedict Halldórsson lèt gánga dóm at Vallalaug, oc Halldór Biarnason synja fyrir galdra-rykti; þeir voru í dómi fyrstir, Þorbergr Hrólfsson á Seilu, syslumadr, Sigurdr Markússon, Eggert Jónsson oc Hallgrímr Halldórsson, oc fleiri nafnkendir menn; enn Gudmundr Hákonarson lèt dæma at Engihlíd um vist-

arrád; Mágnús Biarnason, syslumadr í Vestmannaeyum, um fiski-hlut oc tóbaks-sölu, hann var son Biarna á Stockseyri, oc átti Vilborgu dóttr Þorsteins Magnússonar á Þyckvabæ, þau bjuggu á Leirubacka; lögmenn Arni Oddsson oc Magnús Biarnarson giördu oc reglu um hlutinn, oc hefir sá hlutr kalladr verit Tómr í Vestmannaeyum. Svo segir Þorlákr Markússon, at logn mikit hafi verit um vorit á fráfærutíma, oc hafi þá ólifian nockut setst á sjó fyrir Sudrnesjum, svo at dáit hafi sjófúglar. Þá hafdi dáit um vetrinn Jón Magnússon á Eyri í Seydisfyrdi, oc þau missiri dó Matthias umbodsmadr. í Bessastödum, hann hafdi látit smída skútu haffærandi. Þá tók Þórarinn prestr Heydali, son Eyríks Sigvaldasonar á Búlandi, enn Arni Loptsson frá Sælíngsdal, Arnasonar Loptssonar prests í Vídidalstúngu Þyckvabæar-þíng, oc Þorleifr skólameistari Jónsson frá Einarsnesi Oddastad, var hann merkilegr madr; brann í þann tíma skólinn af ógáti skólasveina, oc var eigi hönum kènnt, heldr Gísla Einarssyni, er tók vid af hönum; þat var sá er ádr hafdi fengit brèfit uppá at kènna mælíngarfrædi, son Einars Pètrssonar í Vík Magnússonar oc Kristínar Gísladóttr prests frá Hvammi Gudbrandssonar, hinn lærdasti madr oc stjörnufródr; enn Þorleifr prestr Jónsson fèck Sigrídar Biarnardóttr systr Páls prófasts í Selárdal, hún var ríkilát, þeirra son var Biörn, enn mælt er þau ætti nockr börn er eigi tímgudust. Hallgrímr prestr Pètrsson fèck þá Saurbæ á Hvalfiardarströnd. Þat var á þessu sumri öndverdlega, at Brynjúlfr biskup lèt útgánga meiníngu sína um eydatöku; hönum þótti eigi gánga jafnann til sem skyldi í legordsmálum, því dómendr leifdu karlmönnum at synja med eydi fyrir börn sem mædurnar kèndu þeim, þó þeir medkèndi samrædi, ef V eda VI vikum munadi um tímann, jókust prestum af því vandrædi um aflausnir þeirra barnsmædra, er þær stódu fast á hinu sama um fadernit, þó fyrir hefdi verit svarit. Ritadi meistari Brynjúlfr þá brèf til lögmanna, syslumanna, oc annara dómenda, útgèfit í Skálhollti XVIda dag Júnii mánadar, oc var þat lèsit upp í lögrèttu um sumarit; þar greindi hann hvad hann hafdi fundit í bókum spekínga, lækna oc lærdra manna, bædi á fyrri oc seinni öldum, um óvissann medgaungutíma kvenna, oc syndi med mörgdæmum at lifandi fóstur hefdi fædt verit frá hinum VIIda til hins XIta mánadar, oc á þeim mánudum öllum medgaungu tímans,

ámynnti hann þá fyrir þessa sök at setja sig ecki í þann vanda, oc hlutdeild annarligra synda, at taka þvílíka eyda svo hraparliga, enn rèdi þeim til at leifa slíkum at sverja sögn sína um samrædis-tímann, oc barna-mædrunum at sverja fyrir adra menn um tiltekinn tíma, ef til væri færar, dæma sídann barnsfadernit af þeim edr á, eptir gögnum oc líkindum, oc sefadist vid þat eydataka þessi.

## CXXVIII. Cap. Giörníngar ímsir.

Þá kom út brèf Fridríks kontíngs at þeir skyldu sektast at lögum sem hèldi tyundum; annat um þat, at hverki skyldu prestar nè kyrkjur missa neins dómlaust; hit þridja var til höfudmannsins um óþörf inventaria, at forlagi Brynjúlfs biskups, at þau skyldu verdleggiast, oc seljast til gagnsmuna fátækum prestum, oc byrti Henrik Bielke höfudsmadr þat á alþingi. Eitt var til Þórdar Henrikssonar um landþíngskrifaralaun, at þau lúkist til Bessastada med ödru afgialdi. Höfudsmadrinn kærdi á því þíngi heimilisaga-leysi þat er í landinu var, oc beiddist ályktunar lögmanna, med hverium hætti best yrdi rádinn bót á slíku, því at öll vyrdíng yfirmanna oc húsbænda væri fótum trodinn af hinum undirgèfnu, oc mætti ei vera annars, enn at slíkt yrdi til hins mesta ófagnadar landinu; enn þeir svörudu at gódir húsbændr ætti at hyrta undirmenn sína med hendi, vendi edr pálmastiku; þó var þat hverki giört, eda dugdi til at hepta svo mikinn ósid, oc ei hefir þat giörlegt ordit á Islandi. Þat var oc samit, at nybíli skyldu setjast ödrum at skadlausu, oc ei nær annars landi enn CC fadma; margt fór þar annat framm; eitt var dómr um adtekt Everts Rechels á fè þess manns er Þórarinn hèt; annar um kaupmannamál oc landsmanna, at komi til syslumanns; einn um Kètil Jónsson at þeir syslumenn Þorbergr oc Hrólfr taki hann undir refsíngu; einn at hreppstjórar sæki rètt sveitarbarna fyrir misþyrmíngar; einn um mál Jóns Audunarsonar, fyrir falsbrèf nockurt um landamerki milli Vatnshorns oc Leikskála í Haukadal, oc vard þat ei afgiört; í þeim dómi voru med Magnúsi lögmanni at nordann oc vestann, Gudmundr Jónsson í Hvammi bródir Eggerts á Ökrum, Gudmundr Arason í Flatatúngu, Marteinn Halldórsson á Alptanesi, Hallr

Biarnason í Mödrufelli, Hrafn Bessason Hrólfssonar bródir Ingimundar á Irafelli, Gudmundr son Kolbeins Hiálmssonar; enn med Arna lögmanni: Amundi Þormódsson í Skógum, Bárdr Gíslason, Claus Ejólfsson í Hólmum, Gísli Brynjúlfsson frá Ölvershollti, Biörn Gíslason Biarnarsonar, oc Jón Þorkèlsson. Halls Biarnasonar er þá gètit einna seinast, oc hygg eg at hann hafi skammt lifat þadann af; enn er hann var dáinn, qvad Magnús lögmadr þetta til konu hans:

Kropprinn liggr í kistu af trè,
kann ei lengr bramla;
enn hvar hyggr þú sálinn sè?
seima skordann gamla!

## CXXIX Cap. Bygging Skálhollts kyrkju, oc fleira.

Þat var áqvedit í konúngsbrèfi um þá penínga, er fengist framast fyrir kyrkna-inventarium þat er selt yrdi, þá skyldi höfudsmadrinn setja þá á rentu hjá skilríkum mönnum í Danmörku, oc legdist sú ávextan til höfudstólsins á sídann. Leysti þá meistari Brynjúlfr biskup fyrstr eptir konúngsbrèfinu þeim, af nyu, fyrir VII hundrud speciu-dali þúngt oc óþarflegt inventarium Skálhollts kyrkju, oc svo giördu adrir at hans dæmum oc leystu fyrir penínga, sèr til lèttis, oc ödrum er eptir þá komu, inventarium þat, er óþarflegt var, þat var í Austfyrdínga-fiórdúngi frá þessum kyrkium, Hofi í Vopnafyrdi fyrir XX dali, Kyrkinbæ fyrir XXVI, Eydum fyrir XVI, Hólmum fyrir XXII, at Skorrastad fyrir XXIV, enn alls CCII dalir; enn í Sunnlendínga-fiórdúngi frá kyrkiu at Kálfhollti XXXV dali, Hollti fyrir LX, Breidabólstad fyrir XXX, Steinsholhti fyrir XL, Repphólum XVI, Runa fyrir CXX, Indridastada bænhúsi XVI; þat vóru CCCXVIII dalir. I Vestfyrdínga-fiórdúngi var innleist frá þessum kyrkjum: at Vatnsfyrdi XLVIII dalir, Selárdal LX, Otrardal XVI, Stad í Grunnavík L, Stafhollti CXX, Hvammi í Hvamms-sveit LX, Hetardal XL, Helgafelli XL, Breidabólstad á Skógarströnd XVIII, Kolbeinstödum XXIV, Alptaness bænhúsi VI; þat er tilsamans CCCCLXXXII dalir; brautst Brynjúlfr biskup fyrir at láta taka þá penínga samann alla, oc afhenda höfudsmanni, edr umbodsmanni hans, edr kaupmönnum hins íslendska

kaupfèlags, oc at ná fyrir þeim rèttum handskriftum á ímsum stödum, þínglysa þeim, oc láta innfæra í alþíngis-bækr, svo kyrkjur fengi engann skada af hversu sem fèlli. Þetta sumar var bætt þat er á skorti vid Skálhollts kyrkju, nema kórinn, hann var byggdr sídar; lagdi oc Brynjúlfr biskup stólpana miklu, oc nockut af undirvidum til forkyrkjusmidis; hann lagdi framm reikníng allann yfir byggíngar-kostnad Skálhollts kyrkju, kaup oc kost smidanna, heimflutníng vidar á XII hundrud hestum, oc X álnum hvert hestlán, oc svo sídar byggíngar kostnad kórsins, fyrir IV hundrud hundrada oc XX álnir á landsvísu; þar hafdi kaupfèlag Islands gèfit til C dali af gódvilja, voru þat prèdikunar-stóllinn med himni yfir, oc skyrnarfontr á sama hátt, tvær messíngarpípr á altari, oc þriár eykarhurdir miklar fyrir útidyrum forkyrkju, oc stúkudyrum bádum. Hefir ei á hinum seinni öldum rambyggilegra hús giört verit, oc af betri kostum, enn sú Skálholltskyrkja var; þar var at forsmidr Gudmundr snickari Gudmundarson; ætla menn hún hefdi standa mátt um CC ár, ef þess umsjónar hefdi vidnotit, edr hans líka, er byggia lèt. Hann lèt oc byggia stadinn giörvallann af nyum vidum oc sterkum; vildi hann þar hverki láta strika nè hefla þil, bord eda súd; þótti varanlegra ef ógreypt væri oc óheflat, oc lèt reka samann bædi af vidi oc járngöddum, svo at sem seinast skyldi úr skordum gánga. A þeim missirum tók Rúnólfr meistara nafnbótina í Kaupmannahöfn, oc ætludu menn hann mundi byggia á biskupsdóm á Hólum, ef Þorlákr biskup fèlli frá, enn þess vard eigi audit. Þá fór Þorkèll Arngrímsson hins lærda í Holland, hann hafdi verit utann IIII vetr, oc frædst med Olafi Worm vin födr síns, enn fyrir tveim vetrum komit til Islands, oc farit jafnskiótt utann aptr.

## CXXX Cap. Imislegt.

Þá komu enskir menn á varnarskipi fyrir nordann land, oc gengu upp í Skagafyrdi, giördu þeir glèttingar þó þeir væri kalladir fridmenn, hèt Robert Wiward foríngi þeirra; þeir komu oc í Eyafiörd. Urdu þá nockrar misfarir einstakra manna, oc var sótt í landi, oc dó Matthias Söfrensson hinn Xda dag Decembris er fyrr er ávikit. Sumstadar segir þá væri prentat eintalit á Hólum. Þá

voru vedr mikil fyrir nordann oc fiárskadar, oc svo vestra, einnin á húsum oc skipum oc heyum. Vetr eptir var gódr, enn fiskr mikill vestra oc nyrdra, lítill sydra í fyrstu, enn urdu þó hlútir 1652
gódir, þó þeir nyttust lítt vegna vætu. Snjóflód mikit giördi í hægu vedri hinn XXIXda dag Februarii, oc tók mörg skip undir Eyafiöllum. Þá druknadi seint í Martio Halldór Gíslason í Medalfellsvatni. Var miög sótthætt þegar um vorit, oc fór vestr eptir landinu, enda voru rigníngar ógrlegar nætr oc daga, oc var svo í því ári öllu, svo þar vard af mikit tjón á heyum, oc ödrum naudsynjum; sóleyar-gras var sprottit í sídustu viku vetrar, enn tún slæg í fardögum; var þá mikit grasár, enn eigi nyttist eldividr sökum vætunnar, oc urdu menn at brenna heyum fornum. Þat vor var dæmt at Saurbæ á Hvalfiardarströnd, at bodi Arna lögmanns Oddssonar, af Byrni Gíslasyni Biarnarsonar, um ólöglega beit á túni þess er af jördu fer; enn Benedict Halldórsson lèt dóm gánga at Ökrum, hinn XXXta dag Maii mánadar, um færleikabeit, skyldu allir menn skyldir at reka hross er ei þyrfti at brúka, til afrètta, edr kaupa þær, ef ei ætti siálfir, oc hafa þat giört hálfum mánudi eptir fardaga, oc enginn taka hagagaungu hesta nema eptir jardar-megni, undir sektir, dómrof, landnám, tvígylldi fyrir grasverd þeim er skada hlítr, oc fullrètti fyrir hálfmerkr skada; gengu margir menn at þessu, oc þótti öllum sköruglegt oc nytsamt; voru þeir dómsmenn, Eggert Jónsson, Gudmundr Arason, lögrèttumenn, oc Erlendr Nicolásson, Jón Sigurdarson, Þorsteinn Steingrímsson, bændr; var þat tveim vetrum seinna samþyckt í lögrèttu, enn hefir sókt í hina sömu óskipan um hrossafiölda óþarfann oc hrossatekt í Skagafyrdi. Þá fèck Magnús prestr bródir Einars á Vídivöllum, enn son Pètrs Gunnarssonar Gíslasonar, Kyrkiubæar klausturs þíng, bjó hann þá at Hörgslandi, oc var prófastr í Skaptafells þíngi. Konúngsbrèf voru þá gèfinn út, eitt um fèsekt Eyríks Jónssonar til Bessastada-kyrkju; annat um þat at biskupar skyldu selja í hönd Henriki Möller þat sem þeir mætti, oc ritat fynndist um Grænland, þvíat Danir höfu þá at sigla þángat; tvö voru um hospitölinn. Þá var prentud bænabók Gerhards, oc huggunar-dæmi úr ritníngunni móti freystíngum, oc sköpunarbókar sálmar Jóns prests Þorsteinssonar, er verit hafdi í Vestmannaeyum.

## CXXXI Cap. Sett hospitöl, oc frá þingi.

Konúngsbrèf þau er hlíddu til um hospitölinn komu til Henriks Bielke höfudsmanns, var áqvedit at þau væri fiögr, eitt í hverjum fiórdúngi lands, oc gaf konúngr jardir til: Hörgsland í Kyrkjubæar klaustrs sókn eystra, Klaustrhóla í Grímsnesi sydra, Hallbjarnareyri, er fyrri hèt öndverd Eyri í Eyrarsveit vestra, enn Mödrufell í Eyafyrdi nyrdra; baud hann at biskupar oc lögmenn, hverr í stipti sínu oc lögdæmi, skipudu valinkunnann mann fyrir hvert hóspital, er þeim standi reikrínga hvert ár af inntektinni. Annat brèfit var um klaustra inventaria óþörf, hvert ei mætti seljast oc leggiast til hospitalanna, oc Kristfiárjardir, oc svo ölmusugiafir innlendra oc útlendra, oc þat er gæfist fyrir hiónabands leifi frændmanna, þar med um tillög náfrænda hinna líkþráu, enn konúngr hèt at leggia þat til er goldit væri vid sáttargiörd, svo at hans rèttr minkadist ecki. Beiddist nú höfudsmadrinn brèflegá, á alþingi, gódrar skyrslu um þessa hluti, af Brynjúlfi biskupi oc Arna lögmanni Oddssyni, svo vilji konúngs fengi frammgáng, oc at landsmenn andlegir oc veraldlegir legdi nockut til. Samþyckti þá Arni lögmadr med lögrèttumönnum sínum, af hendi alþídunnar í sínu lögdæmi, at af hverju fiskiskipi, því er til siáfar gengi um vertíd, skyldi árlega skiptast aukahlutr einn, þann dag nockurn sem hellst er aflavon í hverjum stad, oc leggiast hospitali; skyldi vera sunnanlands, í Vestmannaeyum, oc austr at Horni, hinn nærsti dagr eptir Mariumessu á lángaföstu, þá er róa gèfr oc nockut aflast; enn austr þadann, oc til fiórdúngamóta nordr, nærsti dagr eptir Jacobsmessu á sumri; leggia skyldi af sveit þeirra til hospitals, er ei ætti annat frammfæri, forlagseyri eins árs, hálft fiórda hundrud med karlmanni, enn hálft þridja hundrad med konu, oc svo þat er þeir ætti siálfir; var þá sett hospitalit at Mödrufelli, oc gáfu þar margir til; Magnús lögmadr Biarnarson gaf III hundrud, Þorlákr biskup V hundrud, Gudmundr Hákonarson á Þíngeyrum IV hundrud, Benedict Halldórsson syslumadr í Skagafyrdi II hundrud, Biörn Pálsson at Espihóli syslumadr II hundrud, Hrólfr Sigurdarson syslumadr í Þíngeyar-þíngi eitt hundrad; Eggert á Ökrum Jónsson Magnússonar LX álnir, hann hafdi þá fengit Steinunnar Þorvaldsdóttr frá Reykjum, Jónssonar Egilssonar at Skardi; Gudmundr son Kolbeins Hiálmssonar XX álnir, Gudmundr í Flatatúngu

Arason XX álnir, Vigfús Jónsson lögmanns Sigurdarsonar LX álnir, Nicolás Jónsson Skagfyrdíngr LX álnir, Einar Sturluson XX álnir, Sigfús Eyfyrdíngr son Olafs prófasts Arnasonar *XXX* álnir, hann var fadir Þorláks prests í Glæsibæ, oc Þórdar prests at Myrká födr Jóns prests oc Þorfinns prests; Rafn son Jóns Arnfinnssonar í Hlíd í Skagafiardardölum færleik, hann var bródir konu Halls Biarnasonar í Mödrufelli, oc er margt fólk í Skagafyrdi komit frá Jóni födr hans oc hönum; Grímr í Miklagardi son Sigurdar Hrólfssonar LX álnir, Benedict Biarnarson í Bólstadahlíd XXX álnir; III kúgildi voru lögd af Mödruvalla klaustri. Ecki vildi Torfi Erlendsson eda Gísli Brynjúlfsson at öllu samþyckia med Arna lögmanni, oc lögrèttumönnum ödrum giördina. Henrik Bielke höfudsmadr skipadi þá Hákon son Orms Vígfússonar í Eyum, til at vera landþíngskrífara, eptir Þórd Henríksson er dáinn var. A því þíngi var dæmt um útlegd Olafs Olafssonar, fyri meinsæri, oc voru í dómi med Arna lögmanni Bárdr Gíslason, Arni á Ytrahólmi Gíslason lögmanns Þórdarssonar, Claus Ejólfsson í Hólmum, Olafr Ejólfsson, Þórarinn Illhugason frá Kalastödum, hann bjó at Hvítárvöllum, Biörn Gíslason; enn med Magnúsi, Rúnólfr Sigurdarson frá Einarsnesi, Hannes Eggertsson frá Snóksdal, Oddr Þorleifsson á Borg bródir Benedicts í Búdardal, Þorlákr Arason frá Ögri, Jón Illhugason oc Einar Sturluson at nordann. Þar kom oc dómr Einars Þorsteinssonar syslumanns í Skaptafèlls-þíngi, um illyrdi vid Magnús prest Pètrsson á Hörgslandi; oc annar um eyd Margrètar Þórarinsdóttr órádvandrar, er þeir fedgar Þorsteinn Magnússon í Þyckvabæ, oc Einar son hans höfdu látit gánga. Einnin var skorit úr, at beidni Gudmundar Hákonarsonar, um skipa útgiördir í Húnavatns-þíngi, enn lögrèttumenn í Skagafyrdi oc þeir at nordann mæltu í móti: Eggert Jónsson, Vígfús Jónsson, Grímr Sigurdarson, Gudmundr Kolbeinsson, Rafn Jónsson, Gudmundr Arason, Sigurdr Jónsson oc Einar Sturluson. Magnús Biarnason syslumadr í Vestmannaeyum bar einn dóm í lögrèttu. Þar var dæmdr eydr Jóni yngra syni Eggerts Hannessonar, fyrir Haukadals brèf, því hann qvad Jón Audunarson hafa afhendt sèr. Þá beiddist oc Páll Gíslason á Hvanneyri, hvert hann mætti eigi taka hús þau, er Jóhann Mumm hafdi skilit eptir í Hvanneyrarlandi, oc ei eptirgoldit, oc áleitst þat rètt, ef varadi vid ádr þá er hlut

áttu at. Þá voru enn köllud vébönd í lögrèttu, oc sumir lögrèttumenn nefndir utann vebanda, enn sumir innann.

## CXXXII Cap. Mannalát.

Þetta sumar fór mikil sótt um landit, oc öndudust margir göfugir menn oc merkilegir; mörg urdu þá prestaskipti, oc var einna merkilegastr þeirra er öndudust Olafr prófastr Einarson í Kyrkiubæ í Túngu, hann hafdi þá lengi verit blindr, oc freystadr miög nockra tíd, oc tvær voru blindar dætr hans. Þá dóu þeir Magnússynir Þorleifr á Hlídarenda, oc Ari í Ögri, oc voru gamlir miög; einnin Gudrún oc Kristín at Innrahólmi Magnúsdætr systur þeirra, oc Kristín Gudbrandsdóttir biskups kona Ara Magnússonar. Þorleifr son Korts Þormódssonar hafdi Strandasyslu eptir Ara, enn Gísli son Magnúsar lögmanns dóttrmadr Þorleifs á Hlídarenda syslu eptir hann, oc bjó hann at Hlídarenda. Hákon son Gísla lögmanns Hákonarsonar andadist oc brádlega í Þorlákshöfn, hann var vitr madr oc merkr, var hans dóttir Sigrídur, módir Odds lögmanns. Gísli prestr at Hrafnagili son Jóns at Draflastödum deidi þá enn, þremr vetrum betr enn áttrædr, oc hafdi hann þar lengi verit prestr, var hann fadir Þórdar prests mágs Þorláks biskups; Þórarinn son Jóns í Hafrafellstúngu Einarssonar Nicolássonar, var þar prestr eptir hann, enn ei veit eg giörla hvert hann var nærstr. Þorleifr Kortsson qvæntist þá at Þingeyrum, oc fèck Ingibiargar dóttr Jóns Magnússonar eldra, er fyrri höfdu átta Gunnar Arngrímsson, oc Jón son Halldórs lögmanns; hann hafdi verit skraddarasveinn, oc þótti þó vel framadr; var sagt at fiölkíngis ástrída væri á konum nockrum vestr á ströndum í Trèkyllisvík. Þá drack prestr einn sèr bana.

## CXXXIII Cap. Skadar oc annat.

Þau missiri urdu brunar á fiórum bæum í Arnessþingi, Ossabæ á Skeydum, Oddgeirshólum, Skiphollti í Ytrahrepp, oc Kaldadarnesi í Flóa; þá lèt Brynjúlfr biskup smída farmaskip mikit á Eyrarbacka, var XX álna lángr kiölrinn, þat var kallat skútann,

fèck hann formann til úr Vestmanna-eyum, oc hrausta menn til hásceta, reynda í sjóförum oc siglíngum Vestmanna-eyínga. Þorsteinn Benedictsson frá Bólstadahlíd tók þá Húnavatnsþíng, enn Gudbrandr son Arngríms lærda hálft, at því er sumir segia, ætla eg þó sannara at þat hafi eigi þá skèd, oc at Gudmundr á Þíngeyrum hafi haldit því enn um hríd. Haust var miög vindasamt, med ofann-falli ógrlegu regna oc snjóa, oc brotnudu XX skip fyrir austann. Þá sást Cometa öndverdann vetr, oc hèldu þá enn allir menn vera fyrirburd. Attadagr var á laugardag, enn morg- 1653
uninn þar eptir var mikit vedr á sunnann oc útsunnan, med siáfargángi ógrlegum á land upp allstadar fyrir austann Reykianes, svo tún spilltust enn skip brotnudu vída, mest á Eyrarbacka, í Grindavík oc í Selvogi sudr; á Eyrarbacka spillti bædi húsum oc fè, þar drucknudu inni kyr oc færleikar, enn sumt úti, oc allt spilltist í húsunum. Menn hjálpudu sèr á hólum oc hœdum medann siáfargángrinn var sem mestr, enn sjúkr madr, er eigi mátti á brottu komast, druknadi í Einarshöfn gömlu. Timbrhús tók þar upp danskt, oc flaut upp á Breidumyri; vard skadi mikill á Hrauni, oc á Háeyri; þar tók upp skemmu med öllu er í var, oc bar uppí tiarnir, fannst þat sumt aptr; kistr oc annat flaut lángt upp í Flóa; enn mörg hús hin dönsku skèmdust oc brotnudu, oc flutu trèn allt upp at Flóagafli; í fiósi á Hrauni drápust kyr nockrar, einnig hestr þar, oc enn kyr hjá húsmönnum; sjór fèll þar inn í bæ allann, oc hèldu sèr þar sumir menn uppá húsabitum, enn sumir voru á þekjum uppi; misti Katrín eckja sú er þar bjó til LXXX hundrada í því flódi. IX menn tyndust þar af skipi á Eyrarbacka; þat átti Rannveig miófa á Háeyri dóttir Jóns bónda á Grund, Biarnarsonar, Jónssonar biskups, hún hafdi búit þar alla æfi ógipt, oc alit á heimili sínu XX börn födrlaus.

## CXXXIV Cap. Atburdir oc mál.

Vetr var allgódr, oc hlutir þá hærstir IX hundrud sydra; VII menn druknudu í Selvogi, enn fiórir á Seltjarnarnesi; börn hvurfu sumstadar, oc fannst ecki af; var jafnann sagt í þann tíma at þau sæi álfa edr huldukonr, oc rynni eptir þeim; var þat oc til-

hafit, at sum börn er ellt voru oc nádust, þóttust hlaupa eptir mönnum, módr sinni edr ödrum er þau kènndu; bar oc til fyrrum at ernir tóku sum börn, oc allt til enda XVIIdu aldar. Þat bar vid um vorit hinn XXXta dag Aprilis mánadar, at giördi fiúk, oc gèck í VII dægr; þá vard fyrir snióflódi á fiöllum nockrum milli Skagafiardar oc Eyafiardar, prestr sá er Hallgrímr hèt, Olafsson Jónssonar prests, enn módir hans var Gudrún, dóttir Þórdar á Mardarnúpi bródur Gudbrands biskups, hann var prestr til Múnkaþverár, enn fadir hans, oc Þorlákr bródir hans voru prestar at Miklabæ; var son Þorláks prests Olafr í Hèradsdal, enn Vígdys systir þeirrâ var gipt Hálldóri á Seilu, launsyni Þorbergs Hrólfssonar. Þrír menn örkumsludust at því sinni í þeirri leid, var einn heyrari á Hólum vellærdr, Páll son Halls Biarnasonar í Mödrufelli, hann misti tær á ödrum fæti, hann fór eptir þat utann aptr, oc vard prestr á Siálandi. Prentut var þá at Hólum bænabók Musculi, oc ágrip Davids saltara Arngríms prests. Konúngsbod kom um bænadaga, oc laun vinnufólks, oc enn fleira. Þá kom ecki höfudsmadrinn út, enn Thómas Nicolásson var umbodsmadr hans, oc þótti íllr oc ágiarn. Hákon Ormsson fèck þá Rángárvallasyslu. Þat vor í Majo deidi Biarni bóndi á Stockseyri Sigurdarson, hinn audugasti madr. Þann tíma dó einnin Sigurdr Markússon í Hèradsdal áttrædr at aldri, oc voru nú flestir frá hinir eldri menn er lengi höfdu uppi verit. Um sumarit á þíngi samþyckti Magnús lögmadr Biarnarson fyrir Vestfyrdínga fiórdúng um aukahlut til hospitala, þat er giört var hid fyrra sumarit, skyldi kríngum jökul vestr vera sami dagr tekinn til sem sunnanlands; enn um Vestfiördu, Breidafiörd oc Myrar var nefndr til sídar nærsti dagr eptir Jónsmessu Hóla biskups á vori. Mörg mál komu fyrir á því alþíngi; þat voru dómar Bardar Gíslasonar sydra, oc Sigurdar Jónssonar í Einarsnesi frá Myrasyslu, oc Þorkèls sonar Gudmundar Hákonarsonar, hann hafdi þá oc Þverárþíng, oc hafdi dæmt um forlag Gudrúnar Þórdardóttr, er Pètr son Þórdar Henrikssonar skyldi midla; oc svo um arf eptir Kristínu Magnúsdóttr. Jón Eggertsson yngri lagdi þá af eydinn fyrir Haukadals-brèfinn, oc menn med hönum, oc at Jón Audunnarson hefdi sèr fengit, hafdi sâ eydr farit framm á Hellisvöllum fyrir alþíng, fyrir Rúnólfi Sigurdarsyni frá Einarsnesi, oc verit vottar vid, Brynjúlfr. Jónsson, Jón Jónsson, Vígfús Helgason, Gudmundr Nicolásson oc Andres

Arnason, enn var byrtr á þessu þíngi. Jón Eggertsson átti Margrètu dóttur Steindórs Finnssonar á Ingialdshóli, oc bjó at Hofstödum, oc verdr ei gètit sídann, krenktist hann af líkþrá. Þetta sumar lèt Brynjúlfr biskup smída upp hospitalshúsinn á jördum þeim er til voru teknar, hann keypti þá oc Biörk í Flóa, er Gísli biskup Jónsson hafdi á burt selt aptr undir stólinn, af Magnúsi Arnórssyni fyrir XXV hundrud lausafiár, er hann leysti med óþarflegt inventarium.

## CXXXV Cap. Tilburdir.

Gísli son Þorláks biskups hafdi komit út um sumarit fyrir, oc ætladi nú utann aptr, enn svo rèdist at þat vard ecki; gèck þá oc brádasótt eda plága mannskæd í Danmörku, enn Þorlákr biskup var í vinfengi vid Doctor Olaf Worm, oc Gísli biskupsson lærisveinn hans, oc margir adrir Islendíngar oc rèdu þeir hönum frá utannförinni; sídann giördist Gísli skólameistari eptir Þorstein prest Illhugason. Fiórir menn tyndust á jólaföstu af báti á Stafnesi, er Torfi Erlendsson átti. Þá var madkr mikill í jördu undann sumri, oc hvítnadi hún öll af, oc spilltist vid; giördi jardskarpt öndverdann vetr. A Andresmessu var mikil hríd; þá kól til bana Hallgrím prest vid Myvatn hjá Vallagardi á bæ sínum, hann var son Gudmundar frá Laugum Jónssonar Illhugasonar prests í Múla, enn bródir Þorgríms í Krossavík; dætr hans voru Þórunn, er átti Pètr Gudmundarson frá Flatatúngu Arasonar, oc Ingibiörg er Biarni prestr átti Ormsson, Biarnasonar prests at Helgastödum Jónssonar Ormssonar, oc var þat allt stórmannlegt, þeirra synir voru Hallgrímr, oc Ormr prestr at Melstad, oc Sigurdr prestr at Kvíabeck, oc Pètr fadir Biarna prests at Melstad. Jón í Vík var bródir Hallgríms prests, þat er á Flateyardal. Þau missiri rak XIX hundrud fiska á Oddeyri med einu sióarfalli. Þá drack Jón Gissurarson at Miklavatni í Skagafyrdi sèr bana, oc þótti ókyrr sídann. Eigi er þar nú bær er svo heitir.

## CXXXVI Cap. Frá ímsu.

Sá vetr eptir var misjafn, oc sumstadar fargat af heyum oc fèllu 1654
peníngar nockrir; enn þó var laungum árgott oc hlutasamt; urdu

X hundrada hlutir sydra; enn sjóargángr var ógrlegr hinn XIta dag Martii, svo túnum spillti fyrir austann Reykianes. VI tyndust skip sydra, enn þó fáir menn á hverju. Þá var í Eyafyrdi um vorit stadfestr hrossadómr Benedicts Halldórssonar oc Skagfyrdínga, af Magnúsi lögmanni, oc Byrni Pálssyni syslumanni, oc ödrum mönnum med lófataki. Enn í Þíngeyarþíngi lèt Hrólfr Sigurdarson gánga dóm at Helgastödum um qvörtun Kristiáns Olafssonar kaupmanns oc Hans Pètrssonar skipara yfir skipbrotsvöru missir, vóru menn hafdir grunsamir, en málinu skotit til alþíngs, oc þá vísat til þiófabálks, oc at refsa þeim mönnum. Gísli son Magnúsar lögmanns hèldt þá Múlaþíng, enn eigi veit eg giörla hvert hann fór þángat nockru sinni at búnadi. Þá seldi Brynjúlfr biskup Sigurdi syni Arna lögmanns nedra Skard í skiptum. Daginn fyrir hvítasunnu tyndist skip á Skagafyrdi, hèt Sturla sá er fyrir var, enn þat var mælt at skip hefdi siglt hjá þeim er þeir voru komnir at druknun, oc eigi ansat þeim þá þeir bádu lids; hefdi Sturla þá sagt: at máttugr væri Gud þess at veita sèr kyrkjuleg, þó þeir syniudu bargar; hann var dreginn upp á lód IX vikum sídar. Gott var þá vor, oc hagstædt sumar. Þá gèck sóttinn mikla í Kaupmannahöfn; andadist þar Gabriel Acheley er híngad kom út ádr, oc margir íslendskir menn, meistari Rúnólfr Jónsson var einn, annar Gudmundr Andresson. Þá deydi Arni Gíslason at Ytrahólmi, oc var miög saknad, hann hafdi átta Steinunni dóttr Hannesar í Snóksdal Biarnarsonar, oc börn miög mörg, oc mannvæn, var eitt Hannes fadir Hákonar syslumanns oc hans systkina, ö[?]nr áttu fá afqvæmi, qvad Hallgrímr prestr Pètrsson í Saurbæ eptir hann, því hann var hönum vel. Annar deidi Biarni yngri, lögrèttumadr, son Hrólfs Biarnasonar, sá er fordum giördi harkit sydra, var hann gamall miög; son hans var Þorsteinn fadir Hrólfs á Alfgeirsvöllum, oc er þadan fólk í Skagafyrdi; skiptapar tveir eda þrír smáir urdu enn sydra. Þá giördist Halldór son Jóns prests Bödvarssonar í Reykiahollti kyrkjuprestr at Skálhollti, enn Helgi at Húsafelli son Gríms prests, er þar var ádr, Jónssonar í Kálmanstúngu er Jón Murti vo, Grímssonar. Þorsteinn Illhugason var kyrkjuprestr at Hólum, enn Gísli son Þorláks biskups skólameistari. Ecki er gètit stórtídinda á alþíngi, enn framm fóru þar dómar nockrir, oc einn um tvöfaldann forlagseyri hinna þíngstu ómaga líkþrárra; þar kom framm einn dómr er Pètr Einarsson hafdi út-

nefndann í Bardastrandar syslu. Höfudsmadr kom ei út fyrrenn eptir þíng; tafdist hann af sjóvíkíngum enskum; enn Thómas Nicolásson kom út med konu sína Margrètu Clausdóttr Brún, hún var hinn mesti skapvargr, oc bædi voru þau styrdlind; nockr komu konúngsbod, enn þó lítt brúkud er stund leid; rit fródlegt kom frá Birni at Skardsá, um eydijardir Reinistadar klaustrs í Vídidal, oc enn fleiri hluti. Þá var margræddast á Vestfiördum um þau ærsli er á konum voru í Trèkyllisvík á Ströndum, þóttist prestr eigi gèta framit messu fyrir hliódum þeirra, mási oc frodufalli, oc voru bornar opt úr kyrkiu margar í senn. Jón Magnússon oc Þorleifr Kortsson höfdu þar þá syslu, þeir lètu taka Þórd Gudbrandsson, er haldinn var hinn fiölkunnugasti madr, oc valdr af þessu, oc tvo adra, Egil Biarnason oc Grím Jónsson, því menn þóttust þar miög ásóktir af aptrgaungu, oc voru þessir þrír brenndir hinn XXta oc XXVta dag Septembris mánadar, enn þat þótti flestum skörúngskapr. Þá syndist mönnum einnin aptrgánga í Skagafyrdi; var á slíkum hlutum hinn mesti ótti í þann tíma um allt land, svo sem oc hafdi verit í Danmörku á dögum Kristiáns konúngs fiórda, oc vídar í löndum.

## CXXXVII Cap. Enn frá ímsu.

Eptir þetta giördi vetr gódann, enn þó nockut misjafnann, urdu 1655
hlutir misjafnir, oc þó gódir vídar; var vor votsamt, oc brotnudu vid Drángey VIII skip, enn menn komust af í bergit, oc hiálpudust svo, lidu þó miög hardt af sjáfargángi oc grjóthruni, oc svo sullti, ádr þeir fengu kyndt vita, oc nádust sídann, þeir voru tveir hins sjötta tugar. Prentadir voru þá at Hólum hugvekjusálmar, er orkt hafdi Sigurdr prestr í Presthólum Jónsson, oc svo missira skipta sálmar hans, sköpunarbókar sálmar Jóns prests Þorsteinssonar, oc forfedra bænabók, hún var seinust þeirra er Þorlákr biskup lèt prenta. Reka-þræta vard þá um hval á Reykium á Reykiaströnd, med Benedict Halldórssyni syslumanni er hèldt Reinistadar klaustr, enn þat átti jördina, oc presti at Hvammi í Laxárdal; lèt Benedict lysa stroku Gunnars Jónssonar, er grunadr var um stuld úr Hofsósbúdum. Þau missiri var Þorkèll Arngrímsson sendr med ödrum manni til at ransaka hvert málmar væri á Islandi.

Ecki er gètit tídinda á alþíngi nè stórmæla. Þá var lítill heyskapr þat sumar, enn nyttist þó vel; var votsamt haustit, gèck þá sótt oc öndudust gamlir menn. Illhugi son Hallgríms Halldórssonar á Vídimyri tyndist í Gaunguskardsá, hann var XVIII vetra. Þá dó Arni á Holltastödum Teitsson Biarnarsonar Jónssonar biskups, hafdi hann verit lögrèttumadr í Húnavatns-þíngi, oc átti afqvæmi; einnin Biörn Jónsson á Skardsá, vetri meir enn áttrædr oc var þá blindr, hafdi hann lifat X vetr sídann hann lauk annál sínum; hann hafdi ritat um fornyrdi lögbókar, æfi nockurra biskupa, rit um Grænland, Tyrkjasögu um Vestmannaeyarán, oc um orda úppruna íslendskra; þat var velgiör bók, enn hún tyndist í sjóferd, oc er ei til sídann; annálabókina, oc enn um nockrar lagagreinir; þarmed forsvar fyrir stóradómi, vidbætir sögu Arna biskups, oc nockra qvidlínga; einnin útskýríngu yfir Brynhildarliód, oc Vafþrúdnismál, oc höfudlausn Egils Skallagrímssonar, oc fleiri qvidr fornar, oc þó nockrs meigi vant vera í slíku, þá var eigi framar von um ólærdann mann, þá í öld, er enginn hafdi nálega gengit á undann um slíkt; eru frá hönum nockrir menn komnir, þótt vèr kunnum ecki grannt af at segia; son hans var Bessi, er átti Halldóru dóttr Rafns Bessasonar Hrólfssonar, oc áttu þau börn mörg. Rafn Bessason var lögrèttumadr í Húnavatns-þíngi, hann dó einnin þennan tíma; son hans oc bródir Halldóru var Eyvindr á Breckulæk. Gunnar, sá er strauk úr Skagafyrdi, hafdi stolit miög miklu úr húsunum dönsku í Hofsós, hann komst á brott med Hollendskum, oc nádist ei, hafdi hann búit at Hofi; fleiri voru þá stuldir, oc mannalát skyndileg, drucku nockrir sèr bana. Þá kom skip í Seiluna frá höfudsmanninum, eptir afgiöldum landsins, þat rak á blindskèr fyrir Seltjarnarnesi, oc tyndist fiárhlutr af, enn menn hèldust. Bóla gèck um Vestfiördu, oc öndudust gamlir menn, oc þessir er merki voru at: Arni prestr at Látrum á Breydafyrdi, oc Þorkatla Finnsdóttir á Skálmarnesi bródrdóttir hans, enn födrsystir Jóns Torfasonar í Flatey. Arni prestr var son Jóns í Flatey Biarnarsonar at Reykhólum, Þorleifssonar hyrdstjóra, oc var hálftyrædr; var hann á þridja vetri er Dadi í Snóksdal dó; hann hafdi átta Þórunni dóttr Þorleifs Jónssonar undir Múla, oc börn mörg. Sveinbjörn prestr var einn son þeirra, hann átti Gudrúnu dóttr Sigmundar í Fagradal Gíslasonar at Stadarfelli, Jónssonar á Svarfhóli Olafssonar, þeirra dóttir var Gudrún módir Arnórs Jóns-

sonar syslumanns. Þá voru sett skip Dana út eptir skipum Hollendskra. Vatnshlaup var þá ógrlegt í Jökulsá í Axarfyrdi, oc misti Jón prestr á Skinnastödum III hundrud fiár tólfræd. Þann tíma fèck Biörn Pálsson í Espihóli leifi til at gánga at eiga Ragnheidi, dóttr Magnúsar Arasonar at Reykhólum, því þau voru at ödrum oc þridja, oc linadist svo smám frændsemis meinbugr, hafdi hún alist upp at Skútustödum med Þórunni módr sinni, oc Sigurdi bródur sínum. Þat haust var þat hinn IXda dag Septembris, at haldit var brúdkaup Biarnar sonar Magnúsar lögmanns, oc Helgu dóttr Gudmundar Hákonarsonar á Þingeyrum, gaf Magnús lögmadr Byrni syni sínum VIII hundrud hundrada, enn Gudmundr bóndi Helgu dóttr sinni IIII hundrud hundrada, oc leiddi bodsmenn alla út med giöfum, svo at nam LXXX dölum í silfri, oc var ei all-lítill fiárstófn Biarnar Magnússonar.

## CXXXVIII Cap. Fráfall Þorláks biskups.

Þorlákr biskup Skúlason á Hólum, vígdi tvo presta á jólaföstu, Þorlák Arngrímsson hins lærda, oc Þorleif Olafsson Gudmundarsonar frá Sölvatúngu Gíslasonar; hann hèldt lengi Blöndudalshóla oc fèck Þórunnar Kortsdóttr systr Þorleifs, oc átti margt afqvæmi. Alls vígdi Þorlákr biskup VI presta oc XL; hann hafdi fyrir þremr árum leyst út, af Hóla inventario óþarflegu, XXV geldneyti fyrir C dali, enn LXXXIV voru þá eptir; var hann hamíngiumadr mikill, lærdr oc vel at sèr, oc vinsæll vid flesta menn; eigi sídst var hann í vináttu vid Henrik Bielke höfudsmann; var oc vellátinn af prestum oc öllum ödrum, því hann var alla æfi lítilátr oc lióflyndr, gudrækinn, ör oc sidprúdr. Var þá lítilæti höfdíngia miklu skialdsèdara enn á vorum dögum á öndverdri XIXdu öld. Hann gaf Hólakyrkju í mynníngu legstadar síns predikunarstól fyrir XXX dali, oc krossmark yfir kórdyrum XX dali. As í Hörgárdal XX hundrud, med hundrads landskuld oc fiórum kúgildum, gaf hann Hólaskóla, med þeim skilmála at afgiald skyldi liggia til hinum fátækasta stúdent frá Hólaskóla, er mentadist utanlands. Hann oc þeir Brynjúlfr biskup hófu upp af nyu fornfrædi er miög var undir lok lidinn í landi hèr. Hann gèckst undir at gialda

skuldir meistara Rúnólfs, fyrir kunnugleiks sakir, oc gaf hönum C dali. Hann lagdi út Gerhardí hugvekjur, oc ritadi bæklínga fleiri; er svo sagt at hönum hafi þótt Sigurdr prestr Jónsson í Presthólum hyrdulaus, er hann visiteradi, oc þá bodit hönum at qveda sálma yfir hugvekjurnar, sem hann giördi. Þorlákr biskup átti Kristínu dóttr Gísla lögmanns Hákonarsonar, er mestr höfdíngi þótti, bædi at ásynd oc örleik, sem fyrri er gètit, oc var hún hamíngiukona mikil; börn þeirra voru, sem fulltída urdu, Gísli, Þórdr, Skúli, Gudbrandr, Jón, Elin. Þorlákr biskup hafdi fengit til enska konu velkunnandi, at kènna dóttr sinni handvyrdir, oc bygt henni skemmu; hann tók sótt deginum fyrir áttadag jóla
1656 um vetrinn, er nú var nærst frá sagt; enn á áttadag sjálfann, medtók hann sacramentum med kristilegum undirbúníngi undir andlát sitt, oc andadist hinn IIIIda dag Januarii, á föstudag sem Gudbrandr biskup módrfadir hans, í fullum veg sínum oc blóma, þá er hann hafdi biskup verit í VIII vetr oc XX, enn skorti vetr á sextugann. Var hann grafinn vyrdugliga IXda dag hins sama mánadar, í Hóladómkyrkju, þvert yfir frá legstad Gudbrands biskups; báru VI prestar oc VI leikmenn kistu hans, enn Þorbergr kyrkjuprestr hèldt líkpredikun af ordum Páls postula: Christr er mitt líf, enn daudinn minn ávinníngr; sá Þorbergr hafdi verit þar lengi kyrkiuprestr, oc hafdi örkumsl á hendi, hann var son Ásmundar Þorsteinssonar á Grund, Gudmundarsonar frá Fèlli. Kristín biskupsecki'a fór sídann til Vídivalla, oc hafdi nockrar jardir Hóla dómkyrkiu til uppheldis sèr. Margt manna er komit frá Þorláki biskupi. Gísli oc Þórdr synir hans urdu biskupar bádir, oc verdr af þeim sagt sídar. Skúli Þórláksson var prestr, oc prófastr seinna, at Grenjadarstad, hann átti Gudrúnu dóttr Benedicts Halldórssonar syslumanns á Reinistad, þeim var ei barna audit; sídann fèck hann Elínar Sigurdardóttr frá Skútustödum Magnússonar Arasonar í Ögri, þau áttu margt barna, enn þau öndudust öll í bólu, laungu seinna enn hèr var komit, nema Jórunn; hennar fèck Brynjúlfr Þórdarson á Hlídarenda, oc er frá þeim ætt kominn, sem enn mun sagt verda; Þorlákr Skúlason vard oc prestr. Gudbrandr Þorláksson var Hólarádsmadr um hríd, enn hafdi seinna Húnavatns syslu hálfa, nockra stund, sídann bjó hann at Vallhöllti í Skagafyrdi, oc átti Þórunni dóttr Benedicts Halldórssonar syslu-

manns, voru þeirra börn Ragnhildr oc Þorlákr, oc kom ecki af; ecki var Gudbrandr vinsæll madr, nè vel at sèr, oc eigi þótti hann vel í ætt segiast. Jón Þorláksson fèck Mödruvalla-klaustr, oc skipti sídann vid Þorstein son Þorleifs Magnússonar at Hlídarenda, oc tók Skriduklaustr oc Múlasyslu; hann var frídr madr synum, oc allvel á sig kominn; hann fèck Seciliu dóttr Hallgríms prófasts Jónssonar í Glaumbæ, Vígfús var son þeirra, oc annar Þorlákr, þridji Jón, hann var syslumadr, oc dó þó fyrri enn fadir hans; fiórdi Hallgrímr syslumadr í Múlaþíngi, hann var fadir Jóns í Berunesi, oc Elínar, er átti Einar prestr Jónsson frá Brimnesi Kètilssonar frá Eydum Biarnarsonar, hann var bródir Kètils prests í Húsavík, þeirra son var Biarni fadir Einars prests at Grenjadarstad; fimti son Jóns Þorlákssonar var Biörn prestr at Gördum á Alptanesi, hann var fadir Þóru, er Halldór biskup átti Brynjúlfsson, oc Steinunnar, er Skúli Magnússon átti, landfógeti, oc er ætt frá þeim bádum. Elín Þorláksdóttir giptist Þorsteini Þorleifssyni frá Hlídarenda Magnússonar, þeirra dóttir var Þrúdr, er átti meistari Biörn biskup. Fátt var þó forráds fridt sínum af afspríng Þorláks biskups, oc fátt at ödru afbrugdit, enn mannadist sumt vel. Þorlákr biskup vard harmdaudr, oc olli því ástsæld hans, oc ei sídr álit Nordlendínga hid mikla á Gudbrandi biskupi módrfödr hans, at þeir vildu heldr hafa hans son úngann oc afbrygdislausann at biskupi, enn annann mann, er þeim var gèfit um at kiósa.

---

## Prentfeil í Árbókanna V:tu Deild.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bls. 2 | Form. | l. 2 | kauphöndluninni l. kauphöndlun |
| 8 | lín. | 25 | *in Marg.* 1570. |
| 9 | — | 33 | Jóhanbi l. Jóhanni |
| 12 | — | 13 | kyrkum l. kyrkium. l. 16 hönum l. hinum |
| 15 | — | 10 | Gísli l. Gísla |
| 16 | — | 5 | l. Seltjörn |
| 21 | — | 9 | áleitnir l. álitnir |
| 27 | — | 32 | Jóns biskups l. Jóns syni biskups |
| 28 | — | 3 | Gudlaugr l. Gudlaug. l. 31 höfud l. hötud |
| 33 | — | 16 | Midanes l. Midjanes, |
| 38 | — | 34 | Aldvin l. Aldavin |
| 39 | — | 7 | í Alptanesi l. á Alptanesi. l. 37 l. prests |
| 40 | — | 8 | Pálls l. Páls. l. 22 þúrídr l. þúrídar |
| 42 | — | 7 | Finnbogadóttir l. Finnbogadóttr. l. 17 prestr l. prests |
| 46 | — | 9 | sett l. selt |
| 47 | — | 29 | voru þar l. voru þar dómsmenn |
| 53 | — | 33 | Erlendr l. Erlend. p. 50 l. 4 l. biskups |
| 56 | — | 5 | einum l. einnin |
| 62 | — | 20 | *in Marg.* 1591. |
| 63 | — | 31 | hinn l. hin |
| 78 | — | 14 | konúng l konúngi |
| 81 | — | 1 | tækist l. tætist. l. 14 l. XIIta |
| 84 | — | 35 | aflkostr l. aflskortr |
| 86 | — | 22 | margt fólk inni l. margt inni |
| 89 | — | 30 | fengit l. fengist |
| 93 | — | 26 | sumra; þeirra h. l. sumra þeirra; hestar |
| 94 | — | 13 | hundrud l. hundrad |
| 103 | — | 20 | l. barnabörn hans |
| 121 | — | 5 | Hrólfs Biarnarsonar l. Hr. Biarnasonar |
| 135 | — | 13 | lögmadr l. lögrèttumadr. l. 18 l. Gísli |
| 137 | — | 1 | prest einn þar vestra; Jón Grímsson hafa l. prest einn þar vestra, Jón Grímsson, hafa |
| 138 | — | 14 | mæta Gil l. mæta vid Gil. p. 141 l. 3 l. betri |
| 133 | — | 25 | höfdu hey l. ei höfdu hey. l. 27 rótt l. róit. |

# Formáli.

Víst voru margir merkilegir menn uppi á landi hèr á því tímabili, sem árbók þessi tekr yfir, lærdómr miklu meiri enn fyrri, og nafnkunnugir á vorum dögum margir þeir, sem þá er getid; en varla ætla eg leidara tímabil fáist hèr til ad skrásetja yfir, sakir handrvitna þeirra, og medferdar á þeim, sem þá tídkadist, en þó hefi eg ei viljad undanfella neitt af því, sem eg vissi þar um skrád, því þó sumt af því, sem kom vid kynja tilburdum, megi varla med sannindum telja, og enn sídr med óbrigdulum rètt ransökudum skedum hlutum, en sumt sè harla ómerkiligt, sèst þó betr aldarandinn af svo greiniligri frásögn, sem fæst, enn þó einasta væri drepid á þad; er þó mjög margt undanfellt, af því allra ómerkilegasta. Varla ætla eg ad annad tímabil hafi og verid ófrjálsara landsmönnum í kauphöndlun, og sumum hlutum ödrum enn þetta var. En svo víst sem þat er, at því meir sem tíminn nálægist oss, meigu fleiri vita til um fleiri atburdi enn eg tel, og ritgjörd þessi verda því ófullkomnari ad sínu leiti, svo veit eg þó hvert ómak og samanburd kostad hefir, at fá þat allt upp og í rètta röd, sem hèr er tínt saman. Hlutdrægni alla og partisku hefi eg svo mjög varazt, at vera kann at nokkrum þyki þat vid of, sem annadhvert eru gjarnir á at fegra í öllu þá menn edr þær athafnir er þeim sýnist, edr sverta þat mjög, sem þeim þykir ábótavant,

# Fortale.

Vist nok levede mange mærkelige Mænd her i Landet i det Tidsrum, som denne Dèl indbefatter, her var meget mere Lærdom end tilforn, og mange af de her forekommende Personer ere endnu navnkundige; men næppe findes noget fælere Tidsrum at skrive over, formedelst den Overtro og dertil hørende Uvæsen, som da herskede. Ikke desmindre har jeg intet synderligt villet udelade, af hvad jeg derom har fundet optegnet; ti skönt noget af det, der hører til disse Vidundere, næppe kan ansees for Sandhed eller for paalidelige, rigtig undersøgte Tildragelser, og noget er höjst ubetydeligt, saa ses dog Tidens Aand bedre af saa udførlig en Beretning derom som mulig, end om man blot antydede det i Korthed; dog er meget af det aller ubetydeligste her udeladt. Næppe har noget Tidsrum været mere trælbundet i Handel og adskillige andre Henseender end dette; men saa vist som det er, at jo mere man nærmer sig vore Tider, des snarere kunne der være mange, som vide flere Hændelser end jeg fortæller, og des ufuldkomnere altsaa kan denne Afhandling synes; saa har det dog kostet mig stor Umage og megen Jævnførelse, at faa alt det sammensamlet og bragt i Orden, som her er indført. Al Ensidighed og Partiskhed har jeg søgt at undgaa med en Omhyggelighed, som maaskje vil synes nogle overdreven, af dem der enten pleje i et og alt at lovprise de Personer og Handlinger, som de bifalde, eller at nedrive aldèles hvad der synes dem fejlagtigt; men jeg

og mun eg eigi reidast því, ef nokkur hnekkir nokkru med rökum, því er hèr stendr. At telja upp svo marga merkilega menn á hverjum mannsaldri, edr 30 árum, og ættir þeirra, hefi eg lagt stund á, og eins þó verid hafi í bænda-röd, til þess at sýna ei ad eins hvenær hverir menn voru uppi, sem eitt og annad er afsagt, heldr einnig til hins, at vorrar aldar menn vissi sem gjörst um forfedr sína, og hvar þeir voru vidrídnir á þeirri eda hinni tíd, þvíat margir af þeim, sem töldust í betri almúgaröd, voru hèr málsmetandi menn, og forfedr þeirra manna, sem nú eru í höfdíngja tölu; svo þar af má ásamt sjá, hversu hinar fornu stórmannaættir margar gengu nidr, og á hve laungum tíma hverr, og adrar hófust til mannvirdíngar, sem þó skjaldan edr aldrei voru af vesælmönnum komnar, heldr af gódu frjálsu bændafólki, sem var í betri röd sakir manndóms ok sæmiligs sidferdis, og sem jafnan hefir kynsælast ordid til lángframa. Vid enda þess tímabils, sem árbók þessi heldr, kemr breytíng nokkur á öldina, hvarvid einfeldni og hjátrú fylgjandi brestir og kostir þverra, enn þeir sömu, er meiri þekkíngu fylgja, fara vaxandi; læt eg þetta nóg sagt ad sinni.

Frostastödum þann 29da janúari 1827.

*Jón Espólín.*

*vil ikke vredes, om nogen med Grunde gjendriver mine Paastande. Jeg har søgt at omtale mange mærkelige Mænd i hver Menneskealder (eller 30 Aar) og deres Familier, endog skjönt de have hørt til Bondestanden, for at vise, naar de Personer levede, som et og andet berettes om, og tillige for at vore Samtidige kunde have den nöjagtigste Efterretning om sine Forfædre, og hvad de have haft at bestille med paa denne eller hin Tid; ti mange af dem, som hørte til den bedre Del af Almuen, vare den Gang anseelige Mænd og deres Forfædre, der nu høre til den dannede Klasse. Heraf kan man da tillige se, hvorledes de gamle fornemme Familier sank, og hvorlænge enhver af dem, samt hvorledes andre hævede sig til Anseelse, dog sjælden eller aldrig nedstammende fra Uslinger, men fra gode fri Bönder af den bedre Klasse i Henseende til Driftighed og anstændig Opførsel, som bestandig have haft de lykkeligste Efterkommere i Tidens Længde. Ved Slutningen af det Tidsrum, som denne Del indbefatter, foregik en Forandring i Tidsaanden, hvorved de Mangler og Fordele, som følge med Enfoldighed og Overtro aftoge, og de som mere Kundskab medfører, tiltoge. Dette maa nu være nok for denne Sinde.*

*Frostestade d. 29de Januar 1827.*

*Jón Espólín.*

*Hartnær engu hefi eg hervid ad bæta, nema ad láta í ljósi þakklæti mitt vid höfund þessa verks, og gledi yfir ad þad er svo lángt komid. Er nú hèrmed fullprentad þad sem fyrst var til prentunar ætlad, samkvæmt formála fyrstu deildar bls. X, nfl. sex þættir edr hlutar, er ná til 1684, útgefnir í sjö deildum svo kölludum. Hefir þó hinn frodi og óþreytandi höfundr enn sendt vorri fèlagsdeild sjöunda hlutann, er nær til 1740, og á næstkomanda vetri mun prentadr verda í áttundu deild, og gefid os ávæni um framhald til nálægt 1750, sem útgjöra mun 9^{da} deild; þarhjá tekid ad sèr þad vandamikla starf, ad búa til registr yfir alla bókina. Þær 3 seinustu deildir munu verda sýnu minni enn hinar, mun registrid samt fylla þad skard, svo haganligast verdr ad láta binda þrjár og þrjár deildir saman, enn láta registrid fylgja því þridja bindi. Loksins fel eg mig umburdarlyndi höfunds og lesanda, þyki frágángr minn á þessu hefti verri enn eg vildi, og vera ætti.*

*Kaupmannahöfn þ. 3. maji 1828.*

**R. Rask.**

# VI$^{ti}$ Hluti

tekr yfir ofanverda XVII$^{du}$ öld til þess, er amtmenn, almennt kalladir, komu út.

---

Hèr segir frá Höfdíngjum, er uppi voru, oc enkum Brynjúlfi biskupi, oc hans manndómi, oc ödrum heldri mönnum. Gísli verdr biskup á Hólum, oc segir frá ýmsu, er vidbar, þar til Magnús lögmadr dó, oc nockru þar eptir Arni Oddsson. Sídan segir frá landshöfdíngjum, oc ödrum mönnum; hefjast galdramál oc brennur miklar á dögum Þorleifs lögmanns Kortssonar, versnar árferdi. Jón Vigfússon kèmr fyrst í mál, oc ýmsir menn adrir. Þórdr Þorláksson vígist til Skálholts, enn Brynjúlfr biskup deyr; enn ad nockrum tíma lidnum hefjast deilur Jóns Eggèrtssonar oc gjörist þrætusamt. Jón Vigfússon hefir fengid veitíngu fyrir biskupsdómi á Hólum eptir Gísla, oc hafdi verit vígdr af

Brynjúlfi biskupi, enn sitr at Leirá. Skipadr hingad stiptamtmadr yfir landid Kristján Gyldenlöve, hjásonr Kristjáns konúngs fimta, enn kom ei út. Heidemann landfógeti stendr fyrir höfudsmanns verkum; oc segir frá ýmsu, er vidbar. Andlát Gísla biskups Þorlákssonar.

---

## I Cap. Nefndarmenn á dögum.

1656 Vetr sá var gódr, er Þorlákr biskup andadist á, enn vor var hardt, oc fèllu hestar í Skagafirdi oc vídar. Mun eg nú þess gèta, hvad eg veit þá uppi verid hafa hinna heldri manna. Voru þat fyrst af veraldlegum Henrik Bjelke höfudsmadr oc lögmenn Arni Oddsson oc Magnús Bjarnarson. Þorsteinn Magnússon, Arnasonar, Pètrssonar, Loptssonar, hèldt Þyckvabæar klaustr, hinn lögvitrasti madr þá, oc var þá gamall, þeir Einar son hans höfdu Skaptafellssýslu. Gísli Magnússon lögmanns hygg eg hafi kominn verid til Rángár-þings, oc bjó hann sídan at Hlídarenda, enn hann hèldt þó Múla-sýslu, oc um hríd alla, oc Skridu-klaustr, oc var kalladr vísi Gísli, er sagt hann hafi fengit at Hlídarenda korntunnu á sumri. Torfi Erlendsson hafdi Arness-þíng, hann hèldt þat nærst fyrir Jón eldra Vigfússon frá Hvoli, Gíslasonar, þann er at Stórólfshvoli bjó. Magnús Bjarnarson var í Vestmanna-eyum. Þorkèll, son Gudmundar Hákonarsonar hèldt Borgarfjardar-sýslu; enn stundum hafdi Björn Gíslason, Bjarnarsonar prófasts, Gíslasonar, umbod fyrir sunnan Hvítá. Sigurdr, son Jóns Sigurdarsonar í Einarsnesi, Gudmundarsonar, hafdi sýslu vestan Hvítá, oc var gervimadr, enn Runólfr Sigurdarson, födurbródir hans, hygg eg at hefdi Hnappadalsþíng, oc nockra litla hríd sýslu á Snæfellsnesi; Sigurdr Jónsson hafdi oc haft Stapa-sýslu fyrri enn Þórdr, son Steindórs Finnssonar; Sigurdr átti Kristínu, systur Þórdar prests Jónssonar í Hítardal, oc hèldu þau vid Einarsness ætt. Bjarni son Pètrs Pálssonar frá Stadarhóli hafdi sýslu í Dölum, at eg hygg, enn Eggèrt, son Bjarnar Magnússonar, hinn audugasti madr, hálfa Bardastrandar-sýslu, oc

bjó at Skardi, enn Jón at Reykhólum Magnússon, Arasonar hálfa. Þorleifr Kortsson Stranda-sýslu; Gudmundr Hákonarson Húnavatns-þing; Benedict, son Halldórs lögmanns, Hegraness-þing; hann lèt þau missiri gánga þar dóma, oc hèldt lengi sýsluna; Björn Pálsson Vadla-þing; enn Þorbergr Hrólfsson oc Hrólfr Sigurdarson, bródurson hans, Þíngeyar-þing; bjó Þorbergr at Seilu í Skagafirdi, enn Hrólfr nyrdra. Ecki veit eg hvert Gísli Magnússon at Hlídarenda, er fyrr var nefndr, hèldt þann tíma alla Múla-sýslu, eda Þorsteinn Þorleifsson, Magnússonar, mágr hans hafdi vidtekid. Þessir voru oc adrir veraldlegir med hinum heldri mönnum, lögrèttumenn, er opt höfdu lögsögu, eda ríkismenn eda merkilegir at nockru, oc meigu þó fleiri til vera, enn eg fæ talit. Jón í Flatey Torfason prests, Finnssonar, Jónssonar, Bjarnarsonar, Þorleifssonar hirdstjóra, hann var fródr madr; Jón Finnsson var födurbródir hans; Snæbjörn oc Sveinbjörn, synir Arna prests á Látrum, Jónssonar í Flatey, Bjarnarsonar. Pètr Einarsson á Ballará oc Magnús í Asgardi, bródir hans, synir Einars Teitssonar; Rögnvaldr, son Sigmundar í Fagradal, Gíslasonar, Jónssonar á Svarfhóli; Jón á Vatnshorni, launsonr Pètrs Pálssonar, oc Arnór, son Asgeirs Arnórssonar, er átti Ingibjörgu dóttur hans; Bjarnar tveir, sonr Jóns Dans Magnússonar oc sonr hans; Hannes Eggèrtsson, Hannessonar í Snóksdal oc Jón bródir hans; Hannes átti Jórunni dóttur Jóns Magnússonar í Haga; Gudmundr í Hvammi á Bardaströnd, son Jóns Magnússonar; Dadi Gíslason á Hrafnabjörgum, bródir Bjarnar í Bæ; Gísli at Saudafelli, son Olafs Hannessonar í Snóksdal, fadir Sigurdar Skálds; Sæmundr oc Arni, synir Magnúsar Sæmundarsonar, Arnasonar at Hlídarenda, Gíslasonar, oc Björn bródir þeirra at Hóli í Bolúngarvík; Þorlákr, son Ara Magnússonar; Snæbjörn Torfason frá Kyrkjubóli; Hákon, son Arna Gudmundarsonar, Þórdarsonar lögmanns, hann fèck Herdísar, laundóttur Bjarna Pètrssonar at Stadarhóli, oc bjó sídan at Vatnshorni í Haukadal, oc gjördist búhöldr mikill oc audmadr; Arni oc Jón voru synir hans; Jón bjó í Brokey, Pètrsson, er lengi hafdi verit á Englandi, oc hóf hèr at hreinsa ædardún, oc var fálkafángari oc gyldr í mörgu; hann átti börn mörg, oc vard gamall; Benedict vard merkilegastr barna hans, þó önnur væri eldri, oc fadir hans gamall, er hann var borinn. Loptr bjó í Sælíngsdal Arnason, Loptssonar prests, Pètrssonar, Loptssonar; Jón á Knerri, son Steindórs Gíslasonar; Þorgils

Jónsson á Brimilsvöllum; Halldór í Olafsvík, son Gudmundar Gudmundarsonar, Hallssonar, sem Halls ætt er vidkènd, Olafssonar prests; Arni oc Helgi, synir Vigfúsar prests Helgasonar vid Hellna, Arni var sídan lögrèttumadr, oc bjó at Heydalsá. Olafr í Keflavík þórdarson, þórdarsonar á Kyrkjufelli, Asmundarsonar betra; Jón hèt son hans, er var seinni madr Hallbjargar, er átt hafdi Steindór frá Ökrum, oc var Steindór einn son þeirra. Magnús var enn uppi vestra, Gissurarson frá Núpi, þorlákssonar; Jón Egilsson frá Skardi í Lángadal; Arni Dadason, Arnasonar, Oddssonar, hann bjó at Asgeirsá; Gudbrandr, son Arngríms prests lærda; Helgi Ingjaldsson á Reykjum, Illhugasonar; Oddr snickari, bródir Arna at Asgeirsá; Magnús, son Eiríks Magnússónar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, oc frændr hans fleiri; Magnús var fadir Eiríks oc Jóns, födur Odds, födur Jóns Hjaltalíns; þorlákr Pálsson í Vídidalstúngu oc Jón sonr hans; Páll Pálsson á Márstödum; Benedikt í Bólstadahlíd, son Bjarnar Magnússonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, oc þorsteinn son hans; Björn Hákonarson, bródir Gudmundar á þingeyrum; Jón Nikolásson Skagfirdíngr; Sigurdr Arnfinnsson, bródir Einars prests; Markús Olafsson á Breid; Gudmundr Kolbeinsson, Hjálmssonar; Gudmundr Arason í Flatatúngu; Halldór þorbergsson, Hrólfssonar; Rafn Jónsson frá Hlíd, Arnfinnssonar; Magnús á Sjávarborg Jónsson, Jónssonar, Grímssonar lögmanns, fadir Sigrídar, er Benedikt Pálsson átti; Hallgrímr Halldórsson á Vídimýri; Vigfús oc Jón, synir Jóns lögmanns Sigurdarsonar; Eggèrt Jónsson á Ökrum, bródir Gudmundar vestr í Hvammi; Einar, bródir þorláks biskups; Gudmundr snickari í Bjarnastadahlíd, bródir Halldórs í Olafsvík, allra manna hagastr, oc frændr hans voru fleiri. Asgrímr skáld Magnússon bjó at Höfda; Grímr at Vidvík, son Eiríks at Lundarbrecku, af ætt Ivars fundna, smidr mikill, hafdi verit þar sídan á dögum Gudbrands biskups, oc var þorlákr silfrsmidr, son hans, uppkominn í þennan tíma. Kolbeinn á Stóruvöllum var bródir Gríms, 6ti forfadir lángfedgum þórdar Kancellíráds; Gudmundr á Siglunesi, bródir Sveins prests á Bardi, Jónsson, Gudmundarsonar; synir Einars Skúlasonar oc Sæmundar prófasts Kárssonar. Benedikt á Mödruvöllum í Hörgárdal, son Páls Gudbrandssonar; Jón þorvaldsson á Audbrecku oc brædr hans; Grímr í Miklagardi, son Sigurdar Hrólfssonar; Magnús á Gilsbacka oc Halldór at Núpufelli, synir Halls Bjarnasonar; Vigfús Eyfirdíngr Olafsson; Jón Illhugason;

Sigurdr Magnússon á Skútustödum; Pètr, son Bjarna Oddssonar at Bustarfelli; Jón í Hafrafellstúngu, Einarsson, Nikolássonar, Þorsteinssonar; Sigurdr oc Jónar tveir oc Arni í Haga, Halldór oc Þorlákr, synir Bjarnar á Laxamýri, Arni hafdi tveggja manna megn; Nikolás Einarsson, Nikolássonar; Jón Jónsson á Draflastödum; Þorgrímr Gudmundarson í Krossavík; Rafn Jónsson á Kètilstödum; Bjarni, son Eiríks Sigvaldasonar á Búlandi, dótturmadr Bjarna Oddssonar á Bustarfelli, hann var undarlegr í mörgum greinum, oc hafdi lögsögn, Eiríkr á Búlandi var son hans, mikill madr oc sterkr. Magnús Kortsson bjó í Arbæ, bródir Þorleifs lögmanns, er sídar var, fadir Lýds prests; frændr Þorsteins Magnússonar voru í Skaptafells-þíngi, oc Hávardr Loptsson, er sjónirnar sá, oc synir Arna Magnússonar á Eydum austr; Jón, son Sigmundar Ormssonar, þess er búit hafdi at öllum bæum í Öræfum, oc verit mikilhæfr; hann bjó at Hofi, hans son var Einar at Svínafelli, fadir Jóns, födur Sveins, oc, at því er eg hygg, Sigmundr á Hnappavöllum. Klás Eyólfsson, Amundi Þormódsson, Bárdr Gíslason, Gísli Brynjúlfsson nafnkèndir úr Rángár-þíngi. Alfr Gíslason úr Arness-þíngi; Bergr at Amóti, son Benedikts í Búdardal; Þórdr son Orms í Eyum; synir Ögmundar Hallssonar, er lifdu; Jón oc Sigurdr, synir Arna lögmanns; Eiríkr Oddsson á Fitjum oc Oddr son hans; Pálmi Henriksson, Gíslasonar, bjó at Varmalæk; Sigurdr Gudmundarson í Þverár-þíngi; Jón, Steinþór oc Vigfús, synir Eiríks Steinþórssonar frá Ökrum, oc þeirra synir, því þeir voru sumir daudir sjálfir; hafdi Steinþór Eiríksson átt Hallbjörgu fyrri, er ádr gètr, oc med henni son, er Eiríkr hèt, oc var dáinn. Olafr var son Vigfúsar, oc vel á sig kominn, fadir Kristínar at Stadarstad.

## II Cap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Meistari Brynjúlfr biskup var mikit fyrir flestum mönnum, er þá voru á Islandi, oc hèrlendir, eptir því sem Jón prófastr Halldórsson segir; hann tók saman skíra Máldagabók, þó þat væri þá allerfidt, er kyrkna fjárhaldsmenn voru tregir, oc kyrkna fèn farid gègnum margra hendr; ritadi hann upp allar eignir þeirra í föstu oc lausu, sem hann mátti framast vita at þeim heyrdi, þó svo at fjárhaldsmenn voru vel íhaldnir; þackadi hann þeim, er vel hèldu

kyrkjufjánum, oc lockadi svo menn at gjöra; betr enn þat er undan hafdi gengid, eda brast á Máldagabók Gísla biskups Jónssonar, tilsagdi hann alvarlega oc þrálega at kalla inn aptr med lögum oc dómi, ef fjárhaldsmenn vildu ei sjálfir í borgun vera; voru kyrkju-eigendr hönum sumir erfidir, enn hann vildi þó ei ófrægja þá. Hann var mjög vandr at um lærdóm skólans oc hans kènnenda, tók ei til skólameistara únglínga óreynda, þó utan hefdi farit snöggvast, heldr fullordna menn rádsetta, Attestatos oc Baccalaureos, reynda at stjórnsemi oc sidlæti; voru á hans dögum Björn prestr Snæbjarnarson, er sídan var at Stadarstad, oc Þorleifr prestr Jónsson, er fyrr er gètit, at fengi Odda; þá Gísli prestr Einarsson, Oddr prestr Eyólfsson eldri, oc Olafr prestr Jónsson, allir hinir lærdustu menn. Heyrarar (Lókátar), er sídan kölludust Conrectores, voru einnin vellærdir, Attestati oc skólameistara-gildi: Pètr prestr Gissursson, Gamlasonar; Torfi prestr Jónsson, frændi hans; Bödvar prestr Sturluson; Halldór prestr eldri Jónsson, Bödvarssonar frá Reykholti; Páll prestr Arnason; Olafr prestr Jónsson; Kort prestr Amundason, Baccalaureus; Halldór prestr Jónsson yngri; Einar prestr Einarsson. Olafr prestr Gíslason oc Þorlákr prestr Arngrímsson hins lærda, þeir voru teknir í vidlögum, Olafr prestr um vetr, enn hinn um hálfan. Einnin voru kyrkjuprestar vellærdir menn, hafdi biskup alla slíka í virdíngu, oc galdt þeim fljótt oc ríflega laun þeirra, sóktu því margir námsmenn eptir at komast í hans þjónustu, þótt hann væri sidvandr, oc báru flestir menjar hans í lærdómsgreinum nockrum oc sidferdi framar ödrum, mannadi hann oc þá, sem þess vard audit. Þá framadist lærdómr kènnidómsins, því biskup fylgdi hönum fast, oc ann lærdum mönnum; tók hann oc til læríngar marga fátæka sveina, er skarpleik höfdu. Odd prest Eyólfsson eldra lèt hann njóta nafns oc lærdóms módurfödur hans, Odds prests Oddssonar á Reynivöllum, oc tók hann hardtnær af fátæki í skóla oc sína þjónustu, kom hönum svo til siglíngar oc skólameistara embættis. Teit prest Pètrsson frá Hesti oc Gissur Bjarnason frá Þíngmúla tók hann einnin í skóla oc þjónustu sína, oc kostadi til utanfarar; vard Teitr sídan kyrkjuprestr í Skálholti. Hann tók oc Olaf prest Gíslason, nær því af fátæki, til lærdóms oc menníngar, oc vígdi til kyrkjuprests í Skálholti, enn ei var Olafr sá hugþeckr mönnum fyrir mælgi; biskup útvegadi hönum sídan Hof í Vopnafirdi, oc gaf at skilnadi 20 hundrada

jörd oc 100 dali, enn þat vard miklu seinna, enn hèr var komit. 60 dali gaf hann Páli presti Jónssyni til utanfarar, er seinna hèldt Melstad, syni Jóns Magnússonar frá Reykhólum, Arasonar, því hann hèt eptir Stadarhóls-Páli, módurfödur Brynjúlfs biskups. Sigurd, son Bjarnar Gislasonar, tók hann í fríakóla, oc var hann smásveinn hans um 3 ár, oc veik úr þjónustunni at óvilja biskups, þó af brádsinnis vandlæti hans, gaf hann hönum 30 dali at skilnadi, oc rekommenderadi sídan til landþíngskrifara-embættis, oc svó gjördi hann vid fleiri. Flestir skólasveinár tóku vitnisburd hans úr skólanum til háskólans, oc gaf hann þeim 3 dali eda 4, 5 eda 6; oc ef þeir ritudu hönum sídan brèf á latínu, helzt ef hönum líkadi framför þeirra oc lifnadr, sendi hann þeim ætid pen-ínga aptr, oc hvatti til menta oc frama, enn Torfa prest Jónsson, frænda sinn, efldi hann öllum framar til menníngar, oc meir enn frá megi segja. Jón bóndi Torfason í Flatey gaf hönum Flateyar-*bók*, sem fyrr gètr, oc biskup hafdi ádr bodit vid 5 🙰 í jördu, hana gaf biskup konúngi. Þat var enn mark um lærdóm Brynj-úlfs biskups, at hinir lærdustu menn Meibomius oc Langius ritudu hverr ímóti ödrum, hvört Kristr hefdi pínzt oc dáit á fimtudegi eda föstudegi, (þat var þá tídska at dispútèra um slíkt,) oc bádu Brynjúlf biskup úr skèra, svo mikit ord hafdi hann á sèr, enn hann afsakadi sig, oc gèck forsjálni til. Hann var hinn röksam-legasti prèdikari, skír, slèttordr oc gagnordr, oc útlagdi svo at tók fyrir allan miskilníng, svo at all-audþeckjanleg var hans ræda frá annarra flestra; gudrækinn var hann oc bænrækinn, oc reglu-bundinn mjög vid tídir oc saung kvöld oc morgna; hann fastadi hvörn föstudag, enn þar til hvörn midvikudag í föstunni. A hans dögum gèck rádsmadrinn jafnan nærst biskupinum fyrir öllum ödrum embættismönnum á stólnum, oc hèldt svo rádsmanns em-bættit fullum veg sínum; hafdi rádsmadrinn med vandanum, oc myndugleika yfir stóls landsetum 15 hundrud oc 2 hesteldi frí, enn stód biskupi fullan reikníng; oc á medan kauptíd stód á Eyrarbacka, oc hann var í stadar eyrindum, hafdi hann fyrir sig oc þènara sinn vissan kost hjá kaupmanninum; enn fyrir þat oc annat, sem biskupsmönnum var til góda gjört, var kaupmanninum fengin hvert ár smjörtunna af stólsleigum. Brynjúlfr biskup var adgætinn húsbóndi oc stjórnsamr, svo þegar hönum vard ímilli eyrindagjörda oc bóknáms, gèck hann opt oc sá um verklag oc

húsabyggíngar, oc sagdi fyrir hversu eitt edr annad skyldi gjöra; þó var hann eigi smásmuglegr, eda gèck í fjós, peníngahús, vinnukvenna badstofu, sodbúr, eda slíkt, var þat ætlad yfirbrytanum, oc hafdir þar til skilvísir menn. Þeir voru rádsmenn á dögum Brynjúlfs biskups: Ormr Vigfússon í Eyum; Jón Halldórsson, mágr biskups; Hákon, son Orms í Eyum; Hannes Helgason; Bjarni Eiríksson frá Búlandi tvisvar; Gísli, son Sigurdar prests Oddssonar frá Skálholti; Teitr Torfason, Snæbjarnarsonar, gamall Baccalaureus; Halldór prestr Jónsson, oc þeir tveir miklu sídar, enn hèr var komit; þeir voru allir reyndir menn oc skynsamir, enn lítit var at segja um Björn Þorvaldsson oc Benedikt Þorleifsson, er sídastir voru, oc litla hríd. Brynjúlfr biskup var í daglegri umgengni dramblaus, oc yfirlætis, ókræsinn, oc voru vid bord hans daglega allir embættismenn á stólnum, oc svo skickanlegir gèstir, betri bændr oc sendimenn gódra manna, voru ætíd rædur yfir bordum, um andlegt edr veraldlegt, lögmálasóknir, frásagnir eda hvad annat, oc máttu menn ei sídr frædast vid enn mettast; enn hinum heldri mönnum hèldt hann bord í badstofu sinni, drack oc veitti störmannlega, þá hann tók til þess, tjádi þá ei undan at skorast, oc þoldu fáir til jafns vid hann. Vid vini sína oc presta, er hönum þóknudust, var hann trúfastr oc einlægr, slèttr oc metnadarlaus, ávarpsgódr vid hina minni menn, oc taladi opt vid skynuga bændr oc skilgóda um búnadar háttu oc ástand sveita, þycktist ei heldr vid, þó þeir hèldi svari sínu, ef á rökum var byggt; vid oflátúnga var hann smáglettinn oc vidqvæmr í ordum, enn vid stórbocka stór oc skorinordr, gjördu allfærstir sig til at gánga á hans hlut, var hann oc eigi þrætukær edr áleitinn vid adra menn, oc átti sjaldan í lagadeilum. Faung öll til stadarins oc búanna, þau voru þrjú eda fjögr, vildi hann láta vera ærin, svo at, ef hönum sýndist skortr mundi á nockru verda, fengu rádsmenn oc yfirbrytar, er fyrir því skyldu sjá, hardar átölur fyrir forsjáleysi þeirra. Þótti hönum einu sinni á þorra eda litlu sídar, fiskr ei vera svo mikill heima á stólnum, sem hann vildi, hugdu þó adrir hröckva mundi lángt á sumar framm; lèzt hann þá mundi uppflosna meiga med allri fjölskyldu sinni oc stadarfólki fyrir annarra forsjáleysi; var þá ei annars kostr, enn at rádsmadr, eptir slíka deilu, gjördi út hina hvötustu menn, um hávetr, med hesta marga járnada, til at sækja fisk austr í Skaptafells sýslu, oc allt í Hornafjörd, því þar spurdi

hann at skreid mátti fá keypta; hann lèt fyrst vega út fisk oc smjör stadarfólki til fædis hvern mánud eptir annann, oc þótti þat ómaks oc ámælisminnst, oc hèldst þat sídan; hann var öldúngslegr sýnum, hár medalmadr, þrekinn oc karlmannlega vaxinn, sterkr oc laungum heilsugódr, röddin skörugleg, oc ritadi eptir med höfdinu; hárit lèt hann ei ná lengra enn eyrnablödin, enn skeggid var raudt, þyckt oc mikit, oc breiddist yfir bringuna út á axlir; tóku nafnbótamenn eptir hönum at bera skegg; oc þótt hann væri svarpagódr, stód þeim ótti af hönum, er lítilsigldir voru. Hann ritadi *R* vid nafn sitt, greindist menn á hvert merkti raud eda Ragnheidarson, því hann ann módur sinni mjög. ꝉ stód á bókum hans, þat var þýdíng nafns hans, *Lupus loricatus*. Svo þótti mönnum sem ár oc fiskiganga hefdi aukizt med biskupsdómi hans, var hann oc audsæll. Ei var hann mjög eptir glislegu lausafè, heldr gagnlegu, varanlegu oc fèmætu; hafdi hann glöggvan reikníng á kaupum oc sölum, borgadi fljótt oc refjulaust hvad sem skyldi, enn galdt stundum tvenn verd fyrir þat, er hann girntist af ödrum. Hann keypti miklar jardir fyrir lausafè, var fyrst á hans dögum gefit 1 hundrad lausafjár vid jardarhundradi eda tvö, enn hann gaf stundum 3 eda 4 fyrir jardarhundrad í þeim jördum, er hann girnti, oc borgadi fljótt oc ríflega, oc sýndi þarmed gódgjörd nockra þeim, er hönum seldu fúslega, fèck því fyrri keyptar jardir enn adrir menn; enn vid þat tóku jardirnar at stíga í verdi. Sídst keypti hann þær, er kyrkjur stódu á, nema hin girnilegustu höfudból væri; eda þær, sem adrir menn áttu ítök í, nema hann keypti ítökin med; vildi hann lengi helzt eiga jardir í Borgarfirdi. Hann var stórgjöfull vid kyrkjur oc fátæka oc vini sína, oc gaf 3 hundrada eda meir í fasteign; voru þarmed tveir kyrkjustadir í Austfjördum, As í Fellum oc Dvergasteinn í Seidisfirdi, þá gaf hann fyrir beneficium prestum til uppheldis, er þar þjónudu, oc Skálholts biskupum umrád til skyldu-veitíngar. Hann var nýnæmr um sumt, oc fyrilagdi skútu sína hina gódu, er hönum þótti hún ei fengsöm; lèt hann byggja öll jardarhús á sumum jördum af gódum kostum, seldi sídan edr gaf á burt. Stekkr edr fjárhús var á Grund hjá Vatnsenda í Skorradal; þar lèt hann byggja bæ af grundvelli, sterkan oc þakinn súd, lèt oc gjöra þar kyrkju af gódum kostum, med skrúda oc kluckum, oc vígdi þar hálfkyrkju;

þar gjördi hann oc krosshús, oc lèt flytja þángat af Eyrarbacka sjóveg á skútunni oc inn eptir Borgarfirdi mikit lausafè oc gagnlegt, er ei mátti flytja á hestum svo lángan veg, voru þat eikarkistur miklar oc katlar oc þvílíkt; ætladi hann at Margrèt Halldórsdóttir, kona sín, skyldi setjast þar, ef sín missti vid, oc lifa af fasteign þeirra, er þá var mest í Borgarfirdi, oc af stólsjördum í Heyness umbodi, oc hafdi fengit brèf fyrir þeim af konúngi 6 vetrum fyrir andlát Þorláks biskups, enn þat snerist sídan á adra leid. Eigi vildi Brynjúlfr biskup láta lasta pápiskan sid, eda þá er hann höfdu; sumir kölludu hann sýngja tídir, enn fródir menn segja lítit til þess hafit, annad enn aptansaung hans eda morgunsaung, er hann afrækti aldrei. Ecki vildi hann láta ámæla Jóni biskupi Arasyni forfödur sínum, oc var þat eigi mjög kynjandi, sem hitt, at hann vildi ei heldr lasta láta krossa eda bílæti helgra manna, oc sagdi þau vera þarfleg til at vekja hugann vid bænagjördir, hafdi hann oc krossmark Krists fyrir augum, er hann sat eda fèll á knè til bænar í kyrkju, oc sat í Maríu-kapellu jafnan enn ecki í biskups-sæti, lokadi at sèr oc hafdi krossmarkit fyrir sèr; lèt hann þá er daglegar bænir voru, lesa þar kapitula úr ritníngunni, oc sást opt at loknu embætti at hann hafdi tárfellt. Mikit hèldt hann til kyrkjunnar, oc kvad ei frá hennar setníngum víkjandi, ef ei væri á móti ljósu Guds ordi; kvad Lúther verid hafa ærit frekan, þótt hann væri lærdr madr oc gudrækinn. Eittsinn kvad hann svo at ordi vid vini sína, at kyrkjan hefdi fyrir lánga vangætslu hirdara sinna fengit óklárindi í höfud sèr, enn þá hefdi Lúther verit sem kambr sá, er jafnt rífr hár oc svörd sem óklárindin. Hann hóf ecki ferd á laugardegi, ef hann mátti annars, heldr á þridjudag; svo gjördu lengi sídan bændr, er bjuggu nærri Skálholti, oc vissu þó ógjörla, hvadan sá sidr var; hann gætti oc þess, hvad hönum tilfèlli á messudögum helgra manna. Slíka hluti hyggja menn hann numid hafa í æsku af módurfrændum sínum oc vidfasta ordit, oc fleiri eru þeir, sem ætla hann mjög hneigdan verit hafa eptir hinum forna sidnum. Enn þat sem hèr er sagt af hönum, er eptir Jóni prófasti Halldórssyni hinum fróda, oc er þat allt merkilegast: oc þó ei væri fegrad, sem tídt hefir verit um slíka menn, oc þó ei væri stigit yfir bresti, sem enn er tídara um þá, enn sumt væri satt, er í sögnum er, um eigi sem mest rèttlæti; þá má þat eigi telja, sem ofmikit ómark er fyrir: enn ei þarf nú at dyljast vid

sannindi, at svo laungum tíma lidnum, oc er sýnt at madrinn hefir verit mikilmenni af sjálfum sèr, hversu sem var um annat.

## III Cap. Frá prestum.

Þau missiri, er Þorlákr biskup andadist, gjördist Einar, son Þorsteins prests Tyrfíngssonar, skólameistari at Hólum. Prestar voru þá þessir helztir uppi: Vigfús prófastr, son Arna Magnússonar, Vigfússonar, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns, hèldt Hof í Vopnafirdi; Eiríkr, son Olafs prófasts Einarssonar, Kyrkjubæ í Túngu; Bjarni Gissurarson Þíngmúla, hann var skáld gott; Steffán prófastr Vallanes, son Olafs prófasts Einarssonar, hann var skáld mikit oc yfirsetti sálma Thómasar Kingós, oc kvad margt annad; Þorvardr Arnason hèldt Klifstad; Rögnvaldr Hólma í Reidarfirdi, son Einars prests, er mikill styrjaldarmadr var, Magnússonar frá Reykjum í Túngusveit, Bjarnarsonar; son Rögnvalds prests var Marteinn, er enn mun gètit; Eyólfr hèldt Kolfreyustad, Bjarnason, Ormssonar prófasts at Kálfatjörn, Egilssonar, mikill fyrir sèr; Höskuldr Einarsson, bródir Odds biskups, lifdi í Heydölum, oc var gamall mjög, enn Halldór prestr Eiríksson hèldt stadinn; Magnús prófastr á Hörgslandi hèldt Kyrkjubæar-Þíng, Pètrsson, Gunnarssonar at Vídivöllum, Gíslasonar; Arni, son Klásar Eyólfssonar, Þyckvabæar-Þíng; Þorsteinn Jónsson Holt undir Eyafjöllum; Magnús Jónsson, Sigurdarsonar, Einarssonar frá Heydölum, Breidabólstad í Fljótshlíd; Þorleifr prófastr Jónsson frá Einarsnesi Odda, hann átti Sigrídi, systur Páls prófasts í Selárdal, þeirra son hèt Björn; Torfi Jónsson, Gissurarsonar, Gaulverjabæ; frændi Brynjúlfs biskups, Jóseph Loptsson, Skaptasonar, Olafsvelli; Erasmus Pálsson, Erasmussonar, Villadtssonar, Hreppphóla; Halldór prófastr Dadason, Jónssonar á Svarthóli, Olafssonar, Hruna; Engilbert Nikolásson Þíngvelli, hann var læknir; Jón Dadason Arnarbæli, hálfbródir Halldórs prófasts; Halldór Jónsson, Bödvarsson, var kyrkjuprestr í Skálholti; Gísli Bjarnason prófastr hèldt Stad í Grindavík; Hallkell Steffánsson, Hallkelssonar, Hvalnes, hans bródir var Björn, mikill madr oc sterkr, er sídan vard prestr, oc hèldt Snæfokstadi, oc fór med Helga presti at Húsafelli, oc gréfu þeir nöfn sín þar í hellinum, hann var módurfadir Finns biskups. Þorsteinn

Bjarnarson málara hèldt Utskálar, drambsmadr mikill; Amundi Ormsson Kálfatjörn; Olafr Jónsson, Krákssonar, Hallvardssonar, Garda á Alptanesi; Steffán Hallkelsson, Steffánssonar, Seltjarnarness þíng; Einar prófastr Illhugason Reynivelli í Kjós; Hallgrímr Pètursson Saurbæ á Hvalfjardarströnd, hann var mikit skáld, oc orkti ágæta sálma af pínu Krists oc margt annad. Grímr Bergsveinsson, Einarssonar, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar, hèldt Garda á Akranesi; Jón prófastr Mela, Jónsson prests þorsteinssonar úr Vestmanna-eyum, hann var merkilegr madr, mælskr oc vel-látinn; Audun Jónsson á Hesti Hvanneyrar-þíng; Eyólfr Jónsson Lund í Reykjadal sydra, hann var ágætr lærari; Jón Bödvarsson Reykholt, Jónssonar, Einarssonar, Sigvaldasonar Lángalífs; Helgi Húsafell, son Gríms prests, Jónssonar, þess er veginn var í Sídumúla, Grímssonar; Gunnar Pálsson Gilsbacka; Jón Olafsson, Jónssonar á Svarfhóli, Hvamm í Nordrárdal, hann var mikill oc sterkr, eptir því sem frændr hans voru, Jóseph prestr á Olafsvöllum eda þorgils á Brimilsvöllum, enn þó ei eptir því sem Jón födurfadir hans var eda Jón Páski; Sigurdr prófastr hèldt Stafholt, son Odds biskups. Jón Jónsson gamli at Stadarhrauni var þá dáinn fyrir þremr vetrum, oc hafdi haft 3 vetr hins 12ta tugar, oc lesit smáan stíl á bók, oc haft alla heilsu. þórdr Jónsson hèldt Hýtardal, Gudmundarsonar, þórdarsonar, hann var höfdíngi; Jón Akra, Brandsson prentara, Jónssonar, Jónssonar svenska, Matthíassonar; Björn prófastr Snæbjarnarson, Torfasonar Stadarstad; Vigfús Helgason Hellnaþíng; Gudmundr Jónsson Nesþíng; Vigfús Illhugason Setberg, bródurson Orms í Eyum; þorlákr prófastr Helgafell, Bjarnason frá Stokkseyri; Asmundr Eyólfsson Breidabólstad á Skógarströnd, er sídan var prófastr, Helgasonar, Eyólfssonar prests á Melum, Grímssonar, son hans var Brynjúlfr, fadir Halldórs biskups; Jón prestr Middalaþíng, Ormsson, Jónssonar, þorleifssonar, Gudmundarsonar undir Felli, Andrèssonar; Erlendr Einarsson, frændi hans, Hjardarholt í Laxárdal; Kètill prófastr Jörundarson Hvamm í Hvamms-sveit, hann var lærdr vel; Gunnlaugr Bjarnason Saurbæar-þíng, hann þá mjög gamall; Halldór prófastr Gufudal, Teitsson, Halldórssonar, Einarssonar, Sigvaldasonar Lángalífs; Nikolás Gudmundarson Flatey; Páll prófastr Bjarnarson, Magnússonar í Ögri Jónssonar, Selárdal, hann var vellærdr í hebresku máli; Gissr Sveinsson Alptamýri, bródir Brynjúlfs biskups;

þorleifr Bjarnason Sanda; Jón Jónsson prófastr Holt í Önundarfirdi; Jón prófastr frá Ögri Arason, Magnússonar, Vatnsfjörd; Torfi Snæbjarnarson, Torfasonar, Kyrkjuból í Lángadal; Sigurdr Gíslason, Einarssonar frá Heydölum, Stad í Grunnavík. Jón Gissurarson, Gamlasonar, Hallgrímssonar hèldt Stadarbacka; Erlendr Olafsson, Erlendssonar, Pálssonar, Melstad, hann ákærdi hardlega jardasölu Páls födur födur-födur síns til erfíngja Jóns biskups Arasonar, oc var hinn mesti óvin þeirra af því; þorvardr Olafsson, Erlendssonar, bródir hans, Breidabólstad í Vestrhópi, hardgjör madr mjög oc kèppinn; þorsteinn Vestrhópshóla Asmundarson, þorsteinssonar á Grund, hann var handverksmadr á smídi, óhlutvandir menn kölludu hann hinn merglausa, því hann var opt lángordr í kyrkju, þó ærid kaldt væri á vetrum; hann var födurfadir Páls prests Bjarnasonar, er seinast var at Upsum; þorbergr bródir hans var kyrkjuprestr at Hólum; Magnús Jónsson hèldt Mælifell, sumir kalla Jón födur hans son Jóns prests á þaunglabacka, enn sumir segja hann væri á Reykjum í Hjalltadal, oc sonarson Brands ríka í Fljótum; Magnús prestr var fadir Skúla prests í Goddölum. Hallgrímr prófastr Jónsson hèldt Glaumbæ, Gunnlaugr í Vallaholti Flugumýrar þíng, hans nafn bar seinna Gunnlaugr prestr at Helgafelli; Gudmundr Erlendarson Fell, sköruglegr madr oc velgáfadr oc skáld gott, er mælt þeir Hallgrímr prestr Pètursson hafi sendt hvörr ödrum kvedlínga sína til yfirskodunar; hann átti afqvæmi þar, enn Bjarni var launsonr hans, sem lengi bjó í Holkoti í Slèttuhlíd oc var einrænn, enn hinn mesti verkmadr oc þrifnadar. Sveinn Jónsson, Gudmundarsonar frá Siglunesi hèldt Bard í Fljótum, hann var vel lærdr madr. þorsteinn Illhugason hèldt Velli í Svarfadardal; Jón Einarsson Stærra Arskóg, hann var þríkvæntr, oc var skamma stund saman vid adra konuna, ei meir enn 4 mánudi, orkti hann þá kvædit: Gud kann at græda gjörvöll mín sár etc.; hann var haldinn mjög forspár, oc er kona hans hin þridja tefldi vid lítilsháttar mann, er Nikolás hèt oc kalladr Valltinkollr, kom hann frá brèfriti oc kvad:

Kafsveittr at klóra blad, kollvotr þá ordinn er,
veit eg ecki verra enn þad, Valltinkollr sefr hjá þèr.

Hann kvadst mundi drukna í á einni mjög lítilli, er Skallá heitir, oc hafdi orkt um, oc vidkvædi: hafi skömm fyrir skiptin öll hún

Skallá, oc er hann reid ejttsinn í ána, hvein hún mjög; þá mælti hann: láttú vel, þú fær mig senn; oc í henni týndist hann, enn kona hans gèck at eiga Valltinkoll, oc var þat miklu seinna enn hèr var komit. Bjarni son Halls Bjarnasonar hèldt Grund í Eyafirdi, hann þótti framarla, oc var haldinn svo mikill rædumadr, at menn sóktu lángt at til at heyra hann; Gunnlaugr son Sigurdar prófasts Arnasonar hèldt Saurbæ í Eyafirdi; Eiríkr son Halls prests hins digra, Arnasonar, Pètursonar, hèldt Höfda nordr, var hann skáldmæltr, oc þótti vel á sig kominn, enn Olafr bródir hans var prestr vestr í Grímstúngum, oc vel framadr madr; Jón ýngri Gissurarson, Gamlasonar hèldt Múla nordr; Jón prestr Magnússon Laufás, skáld mikit oc sterkordr; enn Sigurdr skáld Presthóla, Jónsson, Bjarnasonar Skálholts rádsmanns Hróbjartssonar; enn var uppi Geir prestr Markússon frá Felli í Kinn, Geirssonar, Jónssonar; oc í Borgarfirdi sudr Halldór prestr Jónsson á Ferjubacka, bródir Gudmundar, sem höggvinn hafdi verit; fáum vèr eigi talit alla merkilega presta í Nordrlandi, er menn vita þó víst um, þvíat ei er vel kunnugt hve lengi þar voru hverir uppi.

## IV Cap. Aldar sidr.

Lengst af 17du öld var hinn sami sidr í landi breytíngalaus; lög voru Jónsbók oc fornar rèttarbætr, oc fáar einar skipanir Dana konúngs, voru þó lagamenn betri enn fyrri, enn dómar mjög at álitum sem ádr, oc mikid vald lögmanna oc lögrèttunnar; svo var oc dæmt í hèrudum af dómsmönnum sem ádr, oc eigi af lögum Dana; var margt haglega skipad eptir lendsku landsins, ef því hefdi ordid fylgt framm, oc eldi jafnan nockud eptir af fornu atferli. Alþýda var mjög fáfród, líkt sem í hinni fyrri öld oc átburdalítil til at betra vinnu sína, kunnu flestir lítt til, oc var all hugsunarlítil sem fyrri, oc sem þá var vída oc fráleit öllum breytíngum; var því manndómr lítill, oc fór ei landi framm, þó all árgott væri, oc var þó hverki meira ydjuleysi enn sídan, oc ecki óhof á klædaburdi eda haldi alþýdu; var vidrlífi opt hardt, enn klædnadr med ullarlit eda sortadr; hafdi verit sidr til þessa, at karlmenn höfdu kýlabrækr, enn konur socka hvíta eda svarta; þó mátti þat nockud valda fátæki almúga, at kauphöndlun var

ecki góð, enn landskuldir tvöfaldar vid þat er sídan vard, 2 ℔ af 20 hundrudum. Margt var þá enn í landi hèr sterkra manna; uppeldi var mjög misjafnt, strángt hjá hinum heldri mönnum, oc var þat tídska med þeim, at kènna konum handvyrdir; var miklu meira ríkilæti þeirra enn sídar, oc þeir audugri margir, oc meiri grein á þeim oc alþýdu oc meiri virdíng á þeim, oc þó eigi hefdi adra yfirburdi enn fjármagn eda ætterni, er þá var virdt meira enn seinna vard. Höfdíngjar lètu skègg vaxa sèr í hinni 17du öld nidr af hökunni; enn rökudu kjálkana oc hina efri grön; lærdir menn voru miklu fleiri enn fyrri, oc svo mjög í túngumálum hinum fornu, at ei hefir betr ordit, enn jafnast vid þá sídan, enn í ödru mörgu voru þeir lítt at sèr flestir, oc helzt í náttúruvísi oc þánkafrelsi öllu, oc brá mörgum til hindrvitna, oc nálega var allt fólk undirlagit hjátrú oc teikna trú, oc ei höfdu menn þau greindarvísindi, er vel máttu skilja sátt frá ósönnu; var þetta efni til, med því at höfdíngjar voru trúræknir, at svo var hardt gengit eptir fjölkýngi, oc svo hitt at hindrvitna trúin olli, at margir lögdu hug á þat, er adrir vildu illt, eda girntust at hræda adra, enn almenníngr óttadist þat; enda voru lögin hörd vid alla misbrota menn, oc svo hörd í sumu, at alþýda lagdi óvild á þau oc yfirmennina; þó ollu þau því hjá mörgum, eda þó heldr vani sá er ákomst af þeim oc hörku þeirra, at margt var haldit ókvædi er þau fyrirbudu, oc urdu því eigi mjög margir stórglæpamenn, oc mundu ordit hafa færri, ef ei hefdi hlutdrægni verit ofmikil stundum; oc víst var almenníngr eirnari fyrir þat er hann var einfaldari; var fátt manna lesandi, oc öll þeckíng lítil, nema þat sem lært var bóklaust, oc vard þat þá mörgum vidfast, kunnu þá oc fleiri menn rím oc ættvísi enn seinna er fjöldi vard læs, oc vanhirdtu ei svo lítil vísindi, þau er færi gafst á oc bóklaust voru kènd, sem opt hinir seinni menn mikil, er þeim budust audveldlega; þóttust af því flestir menn í 17du öld óvitandi, sem þeir voru, þar sem hinir, er á margt líta snöggvast, þykjast sídan einfærir um hvervetna. Skáld voru þá fleiri enn í hinni undanförnu öld, oc betri enn flest höfdu verid, oc þó at slíka menn skorti flesta þeckíngu til at laga sig eptir gódum smeck fornra skálda, þá voru nockrir þeir, er svo urdu frægir af gáfunni einni saman oc hluttekníng í efni sínu, at ei er víst, audveldt sè af þeim at bera, í því sem þeir lögdu verk á.

## V Cap. Utanför Gísla biskupssonar oc þíng.

Þennan tíma var Þorkèll son Gudmundar Hákonarsonar sýslumadr í Hunavatns-þíngi, þvíat Gudmundr lagdi af sèr med merkilegum ordstýr. Þá hafdi Gísli, son Þorláks biskups, látit af skólameistara-embætti at lidnum jólum, þá fadir hans var andadr, sakir umsjónar, er hann þurfti at hafa med módur sinni, oc annara stadar eyrinda; enn hinn 21ta dag Aprílis mánadar var prestastefna haldinn at Flugumýri oc talad um biskups-kosníngu, var þá Gísli kosinn í stad födur síns, oc kosinn biskup seinastr af almenníngi á landi hèr; var þat meir af ást manna vid födur hans oc Gudbrand biskup lángafa hans, enn fyrir sjálfs hans lærdóm oc atgjörfi; var hann þá fyrst hálf þrítugr, oc hafdi at litlu í embættum stadit, höfdu sumir viljad hafa heldr Olaf prest Hallsson í Grímstúngum. Hann fór útan um sumarit med Mads Rasmussyni, nafnkèndum kaupmanni, oc Þórdr bródir hans, enn Hallgrímr prófastr Jónsson í Glaumbæ var officialis. Þat vor lèt Benedikt Halldórsson dóm gánga at Lýtíngstödum, oc annann sídan at Vallalaug um fjár vardveitslu Jóns Olafssonar, voru þar í hinum fyrra dóminum Eggèrt Jónsson á Ökrum, Gudmundr Kolbeinsson, Rafn Jónsson, Arnfinnssonar, Halldór son Þorbergs Hrólfssonar, lögrèttumenn, Erlendr Nikolásson oc Ingimundr Bessason, Hrólfssonar. A alþíngi bad Brynjúlfr biskup alla menn útvega konúnginum eda sèr konúnginum til handa íslendskar sagnabækr fornar; hann vígdi þrjá presta at nordan. Eigi kom höfudsmadr á þing, enn birt var þar brèf Fridriks konúngs þridja til hans, útgèfit 9da dag Maji hid fyrra árit; þarí lèzt konúngr merkja óvilja alþýdunnar hèr á landi, at leggja nockud af sínu til hospítalanna, baud hann því biskupum oc lögmönnum oc 24 hinum beztu mönnum at gjöra tilskipun þá, at alþýda eptir tiltölu oc jöfnudi legdi nockud; þá tilskipun kvadst konúngr vilja stadfesta sídan. Þannin var þá optast leitat at landsmenn sjálfir legdi undirstödu til laga sinna, þó þeir vanhirdti þat opt, enn fengi stundum eigi allt samþyckt er þeir lögdu undir. Höfudsmadrinn var ei útkominn, enn Thómas Nikolásson, umbodsmadr hans, óskadi med brèfi, at meistari Brynjúlfr biskup oc Arni lögmadr Oddsson útnefndi 12 menn at gjöra þar um, auglýsandi gódvilja höfudsmannsins, at hann vildi bædi leggja nockud til sjálfr, oc þarmed sjá til at höndlunar-fèlög Islands,

kaupmenn þess oc skiparar, gæfi nockud; af þeirri samkomu vard nærsta lítit, nema þacklæti vid konúnginn oc höfudsmanninn fyrir umhyggju þeirra; kvádust þeir heitit hafa árlegum fiskatolli; enn ef meira skyldi uppá menn leggja, þá lèt Arni lögmadr þat rád vera, at heitdagr væri haldinn eins oc fyrir nordan, med einmánadar komu, oc gæfi þá hverr af eginlegum gódvilja sínum meira edr minna, fátækum hospítals limum: fèll svo nidr þat umtal at sinni. Dômr hafdi farit fram um vorit at Ingjaldshóli, um laúsamenn oc búdamenn; þvíat Þorgils bóndi Jónsson á Brimilsvöllum hafdi þat kært, at hann eda adrir menn fengi ecki hjú fyrir lausamennsku þeirri, er mjög tídkadist: var þar fyrir dóminum Matthías Gudmundsson, sýslumadr á Stapa; Halldór Gudmundarson í Olafsvík; Asbjörn Gudmundarson, er þar bjó einnin; Jón Illhugason í Lóni, bródurson Orms í Eyum; Jón Steindórsson, Gíslasonar, er bjó at Knerri; Finnr Sigurdarson prests, Finssonar; oc Jón Jónsson. Vestra hafdi þat oc ordit, at tveir menn voru bornir galdri; annar þackadi presti sínum fyrir messugjörd, oc rètti hönum hönd, enn vid handtakit hvarf prestinum heilsa, medgekk þá sá madr at hann hefdi haft staf í hendinni, er því hefdi átt at valda, oc at til þess hefdi gjör verit. Þorleifr Kortsson lèt brenna þá, oc var af því mjög lofadr. Kom þat fyrir á alþingi, at dæmt var um eptirlátit fè þeirra, at skiptist milli konúngs oc erfíngja, enn prestrinn, er Jón Magnússon hèt, tæki 20 hundrud í bætr, hálft í jördu enn hálft í lausafè. Þar var oc dæmd 4ra marka refsíng Narfa í Smidjuvík fyrir galdrastaf, er Magnús sýslumadr Magnússon hafdi var ordit vid; oc þó nockud fleira var þar dæmt um. Gudmundr Hákonarson birti þar uppsögn sína á sýslu, oc gaf fátækum eptir sig Asa í Svínavatns sókn, 20 hundrud. Thómasi umbodsmanni var utanstefnt, oc hafdi Hákon landþíngskrifari, er þá var, oc sýslumadr, son Orms í Eyum, umbodit. Björn son Magnúsar lögmanns fèck þá konúngs-brèf fyrir Múnkaþverár klaustri, er fadir hans fèlli frá.

## VI Cap. Tilburdir fleiri.

Þat ár var hlutar-ár gott; þá sleitt upp Höfdaskip ok braut, ok druknudu 4 menn; Eiríkr hèt þar kaupmadr, hann hafdi haft

skipti vid strandamenn; ok var haldit þeir hefdi sendt hönum óhapp med fjölkýngi; var kallat at skilgódir menn hefdi sèd sem eldknött fara at skipinu at vestan, ádr uppsleit: mátti þó sýnin vera med rèttu edli, oc skipit fá grand af ödrum atburdi, sem tídt er á Skagaströnd, enda mundi töfra mönnum mátt þykja hægra oc forsjálegra at týna skipinu heldr í hafi, eda þar sem midr hefdi bjargad ordit; enn þadan af fèckst helzt til mikit af slíkum sögum, oc hèldust oflengi, oc má þó ei allar undanfella, þó leidar sèu, ef vita skal hve lengi hverr óvitska geck mest yfir. Kona lagdi steina á barn sitt undir Jökli vestr, svo þat dó, oc var hún hýdd: barn þrèvett af Skaga hljóp upp á fjöll, oc þóttu álfar valda slíku: bóla geck vestra oc vídar um land; dóu einnin úr sótt 6 menn hins 15da tugar undir Eyafjöllum, oc fleiri urdu tjón: hjónaskilnadir 18 í Skagafirdi. Svo sögdu menn at tvær konur hefdi deilt á Mýrum, oc önnur heitizt vid hina, dáit sídan, oc ordit henni at bana. Þá andadist í Júníó Þorsteinn Magnússon á Þyckvabæ, oc Hannes Eggèrtsson í Snóksdal. Þeir voru synir Þorsteins, Magnús, Hákon oc Einar, oc eru frá þeim öllum ættir: Einar var fadir Olafs oc Isleifs sýslumanna, oc þeirra systkina margra; Sigurdr var einn Einarsson, hann átti Helgu, dóttur Þórdar prests Gudmundarsonar á Kálfafelli, þeirra son var Jón, oc annar Vigfús, fadir Gudmundar œconomuss oc Erlendar prests; Jón hèt annar Einarsson, hann átti Alfheidi Amundadóttur frá Skógum, þeirra börn voru Amundi, Margrèt, oc Kort á Kyrkjubóli, fadir Gísla oc Audbjargar, er átti Gudna Sigurdarson. Eggèrt á Ökrum Jónsson var á ferd, hann var þá þrem vetrum betr enn fimtugr, hann reid yfir Jökulsá, er menn kalla Hèradsvötn, hinn 27da dag Agústi mánadar, oc Jón sonr hans 13 vetra; Eggèrt rak af hestinum, oc týndist, þat var jafnskjótt eignad göldrum Gunnlaugs prests í Vallholti, því þeir höfdu deilt um engi; lík Eggèrts fannst um daginn eptir, oc var grafit at Reykjum í Túngusveit, enn Jón sonr hans deildi um engit, oc vann þat, oc var sú hans fyrsta þíngdeila. Þorbergr Hrólfsson á Seilu reid í kaupstad um haustit, hann var þá gamall mjög, hann lagdist í tjaldi sínu á heimleid hjá Oslandi, oc vard komit heim á bæinn med harmkvælum, lá nær viku, oc andadist sídan; hafdi hann haft Þíngeyar þíng med Sigurdi bródur sínum oc Hrólfi syni hans 4 vetr hins 5ta tugar, enn lifat 3 vetr hins 9da tugar; þat var hinn 8di dag Septembris er hann dó, oc stódu

til arfs eptir hann brædrasynir hans 9; þá dó ok Magnús á Sjáfarborg lögrèttumadr, Jónsson, Jónssonar, Grímssonar lögmanns á Ökrum, fadir Sigrídar, er Benedikt Pálsson átti, oc köllud var hin stórráda, hann var skáld, þat skedi í Novembrí snemma. Einnin andadist Margrèt á Öndverdunesi, dóttir Odds biskups Einarssonar.

## VII Cap. Vígsla Gísla biskups ok fleira.

Sá vetr var nærsta gódr med þýdum oc snjóleysum, oc hlutir miklir umhverfis allt land. Þá dó Hákon Ormsson, hann átti ecki konu nè afkvæmi, oc fèck Arni lögmadr Matthías Gudmundarson til hans starfa, er verit hafdi í höfudsmannsins þjónustu oc sýslumadr vestra á Stapa; enn Greger Mikkelsson, sveinn fógotans, var settr til at vakta konúngsgardinn. Vor var nockut kaldt, oc gengu landskjálftar miklir, svo tveir bæir fèllu sydra; lá fólk í tjöldum á einum bæ í Fljótshlíd; mjög vel áradi þá til lands oc sjáfar. Þá dó Höskuldr prestr Einarsson í Heydölum bródir Odds biskups, oc druknadi Henrik prestr Jónsson á Stödvarstad; þá andadist einnin Jón prestr Bödvarsson í Reykholti, oc tók stadinn Halldórr eldri sonr hans, oc var prófastr seinna; einnin deydi Gunnlaugr prestr Bjarnason í Saurbæar þíngum, oc fèck þau Jón Loptsson frá Sælíngsdal, Arnasonar, módir hans var Þórun Arnadóttir frá Læk, Bjarnasonar, Jónssonar biskups. Gísli son Þorláks biskups var utan farinn, sem fyrr er gètit, hann prèdikadi fyrir konúnginum oc hoffólkinu á látínu, oc var sídan prófadr undir vígslu, sem venja var, er mælt lítit hafi fundizt til hans lærdóms oc andsvara, oc höfudsmadrinn fyrir þá sök heyra mátt af konúngi þá spurn med nockurri misþóknan: hvert ei mætti fá þartil lærdari mann edr algjörfari á landi hèr? enn gengi þat oc afhald, er Henrik Bjelke var þá í, afplánadi slíkt; var Gísli vígdr eptir konúngsbrèfi af Doktor Hans Svaning Sjálands biskupi, 6ta sunnudag eptir páskir, enn þat var þá hinn 10di dagr Mají mánadar; kom hann út um sumarit, oc vígdi þá tvo presta fyrst, Olaf Egilsson oc Þórarinn, er sídan var prestr at Hrafnagili, son Jóns í Hafrafellstúngu, Einarssonar, Nikolássonar, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns, 1657

## VIII Cap. Alþíng, mannalát ok vidburdir.

Þessi missiri gekk sótt vestra kríngum Jökul, ok dóu 200 menn; vard ok mannadaudi hjá Mývatni; þá brann bær í Reykjarfirdi á Ströndum oc 9 menn inni, oc vída hús; 6 menn týndust á Skagafirdi, oc þrír á Kotferju, er ofhlódu sig í myrkri. Konúngsbrèfum var lýst um jardabókar gjörd, oc um landhlaupara, oc enn fleira. Madr kom sá til alþíngis er Eysteinn Jónsson hèt, úr Holtum, hann hafdi brotit handlegg í födur sínum med heipt, oc var hönum dæmd húdláts refsíng, sem hann mætti bera, oc fíngr höggvinn af hverri hendi. Þar var dæmt um húsaga oc vinnufólk, oc tíundargjörd af Hamri, er Jón Jónsson á Svínavatni bar í lögrèttu, þeirri jördu er Gudmundr Hákonarson hafdi gefit fátækum; einnin at módir annist barn sitt at þridjúngi. Þar bar Gísli prestr Brynjúlfsson á Bergstödum jardamál framm, vegna Sigurdar prests gamla í Goddölum, er Benedikt Halldórsson oc dómsmenn í Skagafirdi höfdu frá sèr vísat, enn því var vísat aptr í hèrad, oc Jón Egilsson, er þat kalladi ránglega gjört, bad forláts á þínginu. Eggèrt Bjarnarson sýslumadr á Bardaströnd, bar þar undir lögrèttuna um galdrarykti Halldórs Bjarnasonar í Bjarneyum, oc um burthorfit barn, oc var þarum dæmt, oc enn fleira. Bjarni Jónsson Eyfirdíngr, lagadeilumadr mikill, var þar dæmdr fjölmælismadr. Á því þíngi taldist meistari Brynjúlfr biskup brèflega undan í lögrèttu, at hafa lengr allt ómak oc umsjón á aukahlutum til hospítala í Skálholts biskupsdæmi, vid þá tregdu, sem alþýda manna sýndi; kalladi eigi ágódann svara kostnadinum, svo at, ef at slíkt lagadist ecki, neyddist hann til at láta hjálída, oc hin fjærlægu tillögin leggja til hinna fátæku veiku manna í sveitunum, er þá mætti meiri not af hafa; bad hann lögmenn sjá til slíkra hluta hin beztu rád, medan konúngr oc lènsherrann (landstjórinn) gjördi þar ei adra skipun á, enn lèzt mundi sjálfr á medan, byggja hospítalsjardirnar fátækum til gagnsemdar; urdu lögmenn því samþyckir at gjafir þessar legdist hinum fátæku mönnum í sveitunum. Þann tíma geck bóla um Vestrland, oc fór ecki ódt, var þó mannskæd, kom hún um haustid nordr í Húnavatns þíng. Þá urdu umbodsmanna skipti at Bessastödum, kom út Thómas Nikolásson oc Margrèt kona hans. Þat bar enn til um Sigurd prest Magnússon at Audkúlu í Svínadal, bródur Jóns prests í Laufási, at hann reid frá

Svínavatni heimleidis einn á nóttu, ok lítt drukkinn, fannst at morgni hestrinn oc föt hans sitt í hverju lagi, enn hann í ödrum stad, örendr oc meiddr mjög. Þá dó Þorlákr í Vídidalstúngu, son Páls Gudbrandssonar þrem vetrum betr enn fimtugr, 12ta dag Septembris. Þorsteinn Illhugason skólameistari kvæntist þá, oc sá atburdr vard sudr á Strönd, at þar var madr einn er vedjadi vid sambúa sinn eitt kvöld, at 20 selir skyldu verda komnir í nót hans at morgni, sídan lagdi hann nótina, enn þá nótt vard hann fyrir íras mikilli af nockru, oc flýdi rúmit fáklæddr, fór þá hinn eptir hönum, oc fann hann daudan oc illa leikinn hjá festarsteini nótar, enn 20 selir gamlir voru fastir í henni; sögdu menn þat þá almennt, at sá madr hefdi gefit sig fjandanum; var þá hinn mesti ótti af göldrum um land allt. Þá öndudust enn Magnús Bjarnason á Leirubacka, oc Gudmundr Jónsson í Hvammi á Bardaströnd, er fyrir sýslum hafdi stadit, bródir Eggerts á Ökrum. Mikill ófridr var þá med Svíum oc Dönum, veitti Karl Gustav Svíakonúngr svo mikinn yfirgáng, at Danir máttu eigi vidhröckva.

## IX Cap. Frá ýmsu.

Þareptir gjördi stormavetr mikinn, sudrænan oc snjóa lítinn; 1658
hann var þúngr eystra oc stórfellir, enn gódr á Sudrlandi; kom svo mikit vedr hinn 13da dag Janúaríí mánadar, at vída spillti, oc sló nidr allri yfirbyggíngu af klucknaporti á Hólum, enn rotadi mann í Höfdahverfi er bjarga vildi heyi sínu. Þá var snemmgrótt oc fiski-ár mikit. Prentad var á Hólum Dominicale. Kom út Þorkell son Arngríms prests lærda. Þá var ályktad á alþíngi, at í ærlegum sökum skyldi ærlegr madr leggja á refsíngu, ef til væri, enn þó mætti ei lagarefsíng undangánga, þó adrir yrdi at brúkast þar til, nema líflausir þjófar voru undanskildir. Þar var oc dæmt um, hvert börn skyldu fylgja arfi, oc um eidstaf Þurídar Magnúsdóttur fyrir allan galdr gjörfan Jóni presti Magnússyni, sem henni hafdi verit borit; einnin um slag med Dönum oc Islendíngum í Isafirdi; oc samtök Jóns Jónssonar í Reykjadal vid konu sína. Þá fèck Gísli biskup Grón, dóttur Þorleifs Magnússonar at Hlídarenda oc Sessilíu Bjarnardóttur frá Laxamýri, var brúdkaup haldit at Hólum, oc hönum talin 5 hundrud hundrada í föstu oc

lausu, enn henni 3 hundrud hundrada ok 107 hundrud, þar var rausn mikil oc veitt á þridja dag; voru at bodi flestir virdíngamenn nyrdra, enn alls 230 bodsmenn; enn ei vard þeim barna audit. Konúngsbréf komu nokkur, oc var eitt um taxta þann er gjörr var þá fyrir 39 vetrum, at kompagníit edr. kaupfélagit vildi hæcka hann, því varan sè dýrari enn fyrri hafi verit. Þat segir sumstadar, at Sigurdr Jónsson frá Einarsnesi, Sigurdarsonar, tæki þá vid sýslu. Þá var dæmt húdláts refsíng þeim konum, er eigi segja rètt til fadernis barna þeirra, allt til þess er þær komast í Danmörk. Bóla geck fyrir nordan oc sunnan, oc dóu margir vída tvítugir oc ýngri, oc mest vid sjó. Landskjálfti var á páskum; enn vor svo gott at sóley var sprottin í sídustu viku vetrar, enn sumarit vard þó kaldt, mikill manndaudi vard af bólu í Grímsey, því hún hafdi eigi komit þar ádr, svo menn vissi; dóu oc margir vída, oc margar urdu slisfarir; druknudu 7 menn undir Jökli, enn 5 menn, er voru á ferd hjá Spákonufells höfda, fèllu af baki med undarlegum hætti jafnframt, oc meiddust allir, enn einn dó; nockrir urdu sèr at skada sjálfir. Þessir dóu hinna heldri manna: Olafr prestr í Gördum sudr, Jónsson, Krákssonar, fèck Þorkell Arngrímsson þann stad; oc Olafr prestr á Miklabæ í Skagafirdi, Jónsson, Bjarnarsonar, fadir Hallgríms prests at Múnkaþverá, oc Þorláks prests at Miklabæ, hann hafdi verit prestr 2 vetrum fátt í 60, oc prófastr í Skagafirdi um hríd, oc skorti 2 vetr á níræðan; Arngrímr prestr Gissurarson, Gamlasonar, Hallgrímssonar, oc Sumarlidi prestr Einarsson; Jón prestr Pálsson í Vogshúsum, hann vard brádkvaddr; Jón Arngrímsson í Sælíngsdalstúngu, oc Margrèt Jónsdóttir í Brædratúngu. Halldóra á Oslandi, dóttir Gudbrands biskups, hafdi þá legit í kör nockur ár, hún var nafnfræg at bænrækni oc ölmusugjördum, hún andadist þetta haust hinn 12ta dag Septembris mánadar, hálfníræd. Þeir eru nockrir sem herma at Jón lærdi hafi þá fyrst dáit eystra, enn þó hygg eg þat ósannara enn þat er ádr segir, at þat yrdi 8 vetrum fyrri; hann hafdi átt son hórgetinn í elli sinni, oc hèt sá Jón, oc kalladr litli lærdi, oc var líkr födur sínum. Þá gjördi hret á ymbrudögum med miklum hörkum oc snjóum, oc herdti med vetri, oc æ meira, svo at ei vard vitjad kyrkna á jólanótt oc jóladag. Þá jólanótt skar sig madr á háls í Hraungerdis hjáleigu. Var þá hardr vetr, oc menn urdu úti vída.

1659 Þá andadist Gudmundr Hákonarson 21ta dag Mají mánadar, Thómas

Nikolásson var umbodsmadr. Var styrjöld mikil med Dönum ok Svíum, því at Karl Gustav Svíakonúngr rauf sættir, er hann þóttist hafa Danmörk í hendi sèr. Madr oc kona úr Snæfells þíngi voru aftekin; urdu barnahvörf sumstadar. Magnús Magnússon er sagt at þá tæki sýslu, enn eg ætla at þat væri fyrri, hann var á Vestfjördum; oc annar Jón Runólfsson, hann hygg eg hefdi Hnappadals sýslu. Þrír menn týndust af skipi í Hrauni, þá druknadi oc Eyólfr prestr Bjarnason á Kolfreyustad; oc Þorleifr á Irafelli í ósnum vid Hvalfjardareyri; dó oc Steffán prestr Hallkellsson í Seltjarnarness þíngum, oc Þorbergr Asmundarson kyrkjuprestr at Hólum, nær áttrædr, bródir Þorsteins prests í Vestrhópshólum; lögmönnum þótti ei meiga hæcka taxtann sökum fátæktar landsins; þeir ákvádu þat einnin at forlagi Brynjúlfs biskups, at þar skyldi jafnan fylgja máldagabók Gísla biskups Jónssonar er ei fengist önnur ljósari skjöl um kyrkna-eignir. Á alþíngi komu til dóma barnahvörfin, oc sumt annad lítt merkilegt, oc var þá mjög fátídindasamt.

## X Cap. Mannalát ok annat.

Annar vetr, þar eptir var gódr; þá vard skipreiki í Mýdal 1ta dag aprílis, oc týndust menn nockrir enn sumir nádust. Þann dag dó Jón Jónsson á Hömrum, oc kom þar þá nautadaudi, oc á fleiri bæum; hestar fèllu oc vída daudir nidr. Þá druknadi Hákon Brandsson í Þorleifslæk í Ölvesi, oc fleiri menn; oc skip týndist í Eyrarsveit, enn þat var seinna á ári. Um þær mundir herjadi Svía-konúngr mjög í Danmörku, oc sat um Kaupmannahöfn, enn Danir vördust vel: þar voru oc nockrir íslenzkir menn, sem sýndu hraustlega vörn, Teitr Torfason frá Kyrkjubóli, Snæbjarnarsonar; Marteinn, son Rögnvalds prests Einarssonar; Oddr Eyólfsson, oc enn fleiri; enn þat vard umsídir Dönum til haníngju at Karl Gustav deydi. Þá andadist Gísli son Eggèrts Bjarnarsonar at Skardi á Skardsströnd, oc Gísli prestr Þorvardsson í Vestmannaeyum, Jón prestr Egilsson á Völlum oc Þórdr prestr í Adalreykjadal nyrdra, einnin Þórarin prestr Eiríksson frá Búlandi, er fyrr var í Heydölum, oc misst hafdi prestskapar, Þórdr prestr Gudmundarson á Kálfafelli, oc Einar Kolbeinsson, er fyrri var prestr at Kolbeins-

stödum, ok afsettr meir enn fyrir 30 árum, enn hafdi æ jafnan sídan átt í deilum ok kærumálum, þótti mörgum þá ærit mál komit at þeim linnti. Þá deydi ok Gísli prestr Einarsson at Stad á Reykjanesi, er fyrir mjög laungu hèldt Vatnsfjörd, bródir Odds biskups, ok var hann þá gamall mjög; einnin Gudrún Jónsdóttir á Eyri í Seidisfirdi, módir Olufar, er Magnús Magnússon sýslumadr átti, oc Finnr, sem átti Múla undir Skálmarnesi, Þórólfsson, Einarssonar, Þorleifssonar, Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar í Þykkvaskógi, Gudmundarsonar, Andrèssonar. Nikolás prestr í Flatey átti Ingibjörgu systur Finns, þeirra son var Finnr fadir Þórólfs í Múla, enn dóttir Gudrún, módir Ragnhildar Sigurdardóttur, er Olafr Gunnlaugsson átti, þeirra synir Eggèrt oc Magnús lögmenn, oc Jón. Benedikt Halldórsson lèt gánga dóm á Lýtíngstödum um misþyrmíngar Jóns Þorgrímssonar vid Sigurd Bergþórsson, á hans heimili, Reykjum; þar voru í dómi Hrólfr Sigurdarson sýslumadr, oc er svo at sjá sem hann hafi þá verit í Skagafirdi, Markús Olafsson á Breid, Gudmundr Kolbeinsson oc Halldór Þorbergsson. A alþíngi fóru framm dómar um hórdóma, lausamenn, oc enn fleira. Þá var af hálfu Dòktors Thómasar Bangs, prófessórs í Kaupmannahöfn, lesin þar upp handskrift, med nöfnum Þorláks biskups Skúlasonar, Hákonar Gíslasonar í Brædratúngu oc Benedikts Halldórssonar á Vídimýri, 8 ára gömul, um loford þeirra á skuldaborgun meistara Runólfs Jónssonar; þar gekk Benedikt Halldórsson þverlega í móti, oc kvadst eigi hafa at Brædratúngu komit um 24 ár, enn þar skyldi handskriftin hafa gjör verit, oc baud hann þar eid á; Helga Magnúsdóttir, ekkja Hákonar, kvadst ei heldr kannast vid hönd manns síns, gaf þó 20 dali, enn Þorlákr biskup hafdi látit 100 dali fyri meistara Runólf. Jóhan Pètursson Klein kom þá út med umbod höfudsmanns, hann hafdi verit undirkaupmadr á Arnarstapa. A þat alþíng kom Sigrídr stórráda, hún var grunud um hór undir Benedikt bónda sinn Pálsson, sór hún þar fyrir alla menn nema Benedikt, ok svo þat at hann væri fadir sona hennar Magnúsar ok Þorláks.

## XI Cap. Frá Þorsteini presti.

Þorsteinn prestr at Utskálum Bjarnarson málara gat barn í hórdómi, þá hann var karlægr af þúngri líkþrá ok blindr, lèt hann

aka sèr á kviktrjám á alþíng, ok fyrir búdir flestra höfdíngja til at fá tal af þeim, ok deildi fastlega um málit, hvar sem hönum gafst færi til, vildi verda sýkn, ok halda stadnum, enn þat dugdi ekki, ok fèkk Þorleifr prestr stadinn, son Klásar Eyólfssonar, enn Þorsteinn fór af hönum; er þó mælt hann hafi látit teyma hest undir sèr umhverfis stadinn, ádr hann fór þadan, ok hafi þar sídan brunnit strax eptir. Hann lèt lesa sèr þat til skemtunar sídan, er voru í mörg bindrvitni, ok lifdi eptir þat mjög lengi, ok samdi sjálfr grafskrift sína harla stórláta ok drambfulla, taldi þar í lærdóm sinn ok fródleik framm yfir allra eda flestra annara manna.

## XII Cap. Frá ýmsu.

Þessi missiri voru prentud frædi Lúthers ok Gerhardi hugvekjur á Hólum. Þá var Jóhan Klein höfudsmanns umbodsmadr; kom út Þórdr, son Þorláks biskups, ok vard skólameistari at Hólum, enn Einar Þorsteinsson, er skólameistari hafdi verit, tók Múlastad, ok hèldt lengi sídan, skorti hann þá 3 vetr á þrítúgan. Þá gjördist Fridrikr þridji Dana-konúngr einvaldr ríkis síns, ok sóru allar stèttir í Danmörk hönum eida. Skúli prestr, son Þorláks biskups, tók nú Grenjadarstad eptir Gudmund prest Bjarnason, Gamlasonar, oc af hönum; hèt Benedikt Halldórsson, sýslumadr í Skagafirdi, hönum dóttur sinni, ok annari Gudbrandi bródur hans; hèldt Benedikt alla stund Reynistadar klaustr, þó svo sè at heyra, sem hann hafi búit á Vídimýri um hríd. Þá andadist Gróa Þorleifsdóttir, kona Gísla biskups, þrem vetrum midr enn þrítug, ok barst hann lítt af eptir hana, ok gaf sídan nöfnu hennar Gróu, dóttur Þorsteins prests Illhugasonar á Völlum, 20 hundrud í jördu, ok þarmed lausafè; mun sídar getit er hann fèkk einnar dóttur Benedikts. Elín Þorláksdóttir, systir hans, var þá ok heitin Þorsteini, syni Þorleifs Magnússonar, enn Jón Vigfússon frá Lögmannshlíd, Jónssonar lögmanns, Sigurdarsonar, keypti Helgu, dóttur Magnúsar á Reykhólum Arasonar, systur Sigurdar at Skútustödum, ok bjó at Lögmannshlíd sídan; Sigurdr, bródir hennar, tók þá Þíngeyar sýslu med Hrólfi Sigurdarsyni. Þá fór framm skipti at Leirá med börnum Eiríks á Fitjum Oddssonar, er kalladr var hinn heimski, at Arna lögmanns bródur hans; fèkk Oddr Fitjar í Skorradal, 40

hundrud at dýrleika, enn 60 hundrud í arfaskipti, Vatnshorn í Skorradal 24 hundr., Grímstadi í Andakýl 16 hundrud, 5 hundrud í Irafelli í Reynivalla sókn; Gísli fèkk Fiskilæk í Mela sókn 20 hundrud, Hædarenda 16 hundrud, 20 hundrud í Signýarstödum í Reykholts-Reykjadal, Hæl ok Brennistadi 40 hundrud, hálfa Vatnshamra 12 hundrud; Gudrún fèkk Laugarvatn í Middals sókn 30 hundrud, hálfa Signýarstadi 20 hundrud, 5 hundrud í Hömrum í Reykholts sókn, 5 hundrud í Stóradal í Eyafirdi; Helga fèkk Skálpastadi í Lundar sókn 30 hundr., ok Máfahlíd 24 hundrud. Þat bar enn vid hinn þridja dag Nóvembris, at jökulhlaup mikit ok eldgángr kom úr Kötlugjá, ok nærri Þykkvabæar klaustri, ok Alptaveri, ok tók af bæi nokkra, ok svo í Mýrdal; sá eldr tók einnin af Höfdabrekku, ok var þar þurt um morguninn, sem 20 fadma djúp var um kvöldit fyrir; fluttust skip í jökulhlaupinu 77 fadma; tók ok af kyrkju á Höfdabrekku, ok var bærinn sídan fluttr uppá fjallit; varadi öskufall ok myrkr í 9 daga, enn eldrinn sást lángt framm á vetr.

## XIII Cap. Ymist.

Þá var þíng á Vatnsleysu hinn 4da dag Decembris, ok var Arni lögmadr fyrir dóminum, enn Sigurdr Jónsson í Einarsnesi sókti Torfa Erlendsson sýslumann fyrir illyrdi á þíngi vid Helga Sveinsson, ok var dæmd af Torfa sýsla ok virdíngar allar ok fullrètti ok hálfrètti á ordunum, eptir því sem þau voru. Torfi var audugr madr, ok var Þormódr sonur hans þá í Danmörku, ok hafdi
1661 konúngs traust mikit. Gjördi þann vetr hardan ok lángan, ok vor kaldt, ok allt árferdi midr, enn fyrri hafdi verid lengi; gengu þá málasóknir med Arna lögmanni ok Torfa. Þann vetr á 12ta dags nótt jóla brann Stóraborg í Grímsnesi, ok allt fèmætt, er þar var inni, enn mönnum vard borgit; Gröf brann ok á Höfdaströnd, þar var bú Gísla biskups, ok týndist mikill fjárhlutr. Þá var prentud á Hólum Molleri handbók, ok eintals sálmar Pèturs lögrèttumanns Einarssonar at Ballará, er hann eignadi Valgerdi Gísladóttur, konu Eggèrts á Skardi, ok lètu þau Eggèrt því prenta. Islendíngar bádu konúng um sumarit, med adstod herra Henriks Bjelke höfudsmanns, at hækka ekki taxtan, enn þeir brædr á Þykkvabæ, Há-

kon ok Magnús Þorsteinssynir, bádu Jóhan Klein fækka heima kvikfè klaustrsins, því þat mætti ei fæda sakir eldgángs ok öskufalls, er þá ok hid fyrra árit höfdu fallit á klaustr-landit, baud hann þá at leysa med geldnautum til Bessastada þridja hlut kúgilda heima á klaustrinu. Á þat alþíng er þá var haldit kom ekki Magnús lögmadr Bjarnarson, hann var þrotinn at heilsu, ok gegndi Arni lögmadr Oddsson öllum málum. Þar dó Eiríkr Sigvaldason lögrèttumadr snögglega. Þar fór margt framm; Vigfús Jónsson lögrèttumadr úr Eyafirdi ákærdi Hrólf sýslumann Sigurdarson fyrir rèttarneitun móti Jókkum Mumm, er byggt hafdi Raudasel á landi Vigfúsar, enn Hrólfr afsakadi sig med því, at Sigurdr á Skútustödum, annar sýslumadr, hefdi ei vid verit; áleizt þat ógild afsókun, ok hverr sýslumadr skyldr at gegna málum, er vid var látinn. Medal gjörnínga var eidr Ulfhildar Jónsdóttur, ekkju Steffáns prests Hallkelssonar, hún sór fyrir alla karlmenn nema bónda sinn; þat var hinn 1ta dag Julíí; þann dag kom í dóm bana tilrædi Jóns Þórarinssonar úr Snæfellsness sýslu vid Hallgrím Erlendsson, er hann hafdi hrundit hönum af kletti framm, ok fleira; einnin um galdragjörnínga Margrètar Þórdardóttur, sú mun verit hafa seinni kona Tómasar prests Þórdarsonar frá Tindum, er misst hafdi prestskapar fyrir barngetnad med henni, ok komst í háska af því, at hann vardi mál hennar. Þar er getít sýslumanna: Gísla Magnússonar at Hlídarenda; Þorkell Gudmundarsonar; Bjarnar Magnússonar, bródur Gísla, þó þat sè nokkud óljóst, hvar hann hefdi þá sýslurád; Sigurdar Jónssonar í Einarsnesi; Magnúsar Magnússonar vestra; Bjarnar Pálssonar á Espihóli; Benedikts Halldórssonar á Reynistad; Sigurdar Magnússonar á Skútustödum; Þorsteins úr Múlaþíngi Þorleifssonar, Magnússonar. Tveimr dögum seinna var þar vidtekinn Midgardadómr um vinnufólk, er Matthías Gudmundarson hafdi gánga látit, eptir beidni Bjarnar prests Snæbjarnarsonar at Stad; í þeim dómi voru fyrstir, Jón Steindórsson á Knerri, ok Jón Illhugason í Lóni, lögrèttumenn, Halldór Gudmundarson í Olafsvík, Þorgils Jónsson á Brimilsvöllum, Þórdr, son Steindórs Finnssonar. Þar átti Arni lögmadr ok Torfi Erlendsson mikit saman í máli sínu, ok kölludu þeir hverr annann nöfnum embættislausum. A þeim missirum andadist Halldóra Jónsdóttir í Skálholti, ekkja Halldórs lögmanns Olafssonar, Elín Sigurdardóttir at Helgafelli, ok Gudrún at Borg Sæmundardóttir, Arnasonar, Gíslasonar. Landskjálftar voru

um sumarit. Gunnar prestr Pálsson at Gilsbakka deydi þá, ok Sigurdr prestr, skáldit í Presthólum, er orkt hefir hugvekju-sálma ok margt annat, ok var gáfumadr mikill, son Jóns prests Bjarnasonar; Jón Torfason í Flatey, ok Illhugi prestr Ingjaldsson at Tjörn á Vatnsnesi, hann var einn haldinn fjölkunnugr. Þrír menn týndust í Lagarfljóti. Þá fóru framm brúdkaup þeirra sona Þorláks biskups ok dætra Benedikts Halldórssonar. Þess er getit á þeim vetri öndverdum, er þá fór í hönd, var Oddr Eyólfsson skólameistari í Skálholti, Arni Halldórsson prófasts í Hruna, Dadasonar, kyrkjuprestr, Olafr Jónsson frá Reykholti lókator, ok Sigurdr, son Bjarnar Gíslasonar, sveinn biskups; því þeir vitnudu um kaup Brynjúlfs biskups á 20 hundrudum í Audólfstödum í Lángadal af
1662 Magnúsi Þorsteinssyni. Sá vetr var med blotum ok áfredum, batnadi um stund med midgói, enn hardnadi aptr fjórda í páskum, ok hèlzt framm á vor, fèllu fè ok færleikar. Týndust tveir áttæríngar med 14 mönnum í Lambaness röst, þeir voru á sudrferd; urdu ok þrír skiptapar vid Isafjardar djúp. Var þá deila med Eiríki Jónssyni ok Þorláki Þórdarsyni um 20 hudrud í Gunnsteinstödum í Lángadal. Vóru prentadir Davids sálmar Jóns prests Þorsteinssonar í ljódum ok eintal. Þá andadist Amundi prestr Ormsson á Kálfatjörn, ok Helga Jónsdóttir, ekkja Odds biskups, med Arna lögmanni syni sínum at Leirá, hálf tíræd, ok Þorkell á Þíngeyrum Gudmundarson, Hákonarsonar, hafdi Björn Magnússon frá Múnkaþverá umrád Húnavatns sýslu, ok var til adstodar systur sinni. Einnin dó þá Sigurdr prestr Jónsson gamli í Goddölum, hann var son Jóns prests í Laufási Sigurdarsonar, Jónssonar príors, Finnbogasonar lögmanns, ok hafdi átta Bergljótu, systur Halls Bjarnasonar, ok er mikil ætt frá þeim; Þurídr var ein af dætrum hans, módir Skúla, födur Þóru, módur Ketils prests í Húsavík; annar deydi Magnús prestr Jónsson at Mælifelli, var Skúli merkilegastr hans barna, ok gjördist hann prestr at Goddölum, ok var lengi; hann lèt Gudmund snikkara í Bjarnastadahlíd gjöra þar prèdikunarstól, ok fór ímóti hönum med prócessíu, ok flutti í kyrkjuna; hann var rædumadr mikill, ok þótti mikilmenni, ok verdr mikit at segja af hans afkvæmi. Þau missiri, er nú er frásagt, var getit eins dóms Benedikts Halldórssonar at Lýtíngstödum; þá stryktu foreldrar barn sitt til bana í Eyafirdi, enn stjúpfadir drap stjúpbarn sitt í Skagafirdi. Um þær mundir var spurt til Kaupmanna-

hafnar slis Torfa Erlendssonar, er þá sagt at Þormódr sonur hans, er þar var, ok í vináttu vid konúnginn hafdi brugdit á sig fásinnu, ok gefit þat at sök, at sèr gengi svo nærri, er fadir sinn á Islandi hefdi verit sviptr embætti ok æru, ok þat er ljóst at hann vann þat á, at konúngr gaf út brèf öndverdlega á þessum missirum til Henriks Bjelke höfudsmanns, at hann skyldi setja Torfa aptr í sýslu sína, ok fulla uppreisn á æru ok embætti.

## XIV Cap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Brynjúlfr biskup átti tvö börn, er fulltída urdu, Halldór ok Ragnheidi. Halldór var heitinn eptir Halldóri lögmanni, módurfödur sínum, hann var þá tvítugr er hèr var komit, þægr í vidreign allri, enn tornæmr ok óskarpr, meir enn biskup vildi at væri, lèt hann af því bregda upp skólalæríngu hans, ok kom hönum utan til Englands, þar framadist hann um hríd, ok var lengi í Jarnamódu. Ragnheidr var vetri eldri, hún hèt eptir módur biskups, ok var skörp ok mannvænleg, ok vel at sèr um allt, ann biskup henni mikit, ok lèt kenna henni kvennlegar handvyrdir, ok allt þat hæverskri konu hæfdi at kunna. Halldór prófastr í Hruna Dadason, Jónssonar á Svarthóli, var í þann tíma vel virdr af biskupi, hann var mikill madr ok gjörfuglegr, ok svo voru börn hans; Dadi hèt einn son hans, hann ólst upp at mestu í smásveins þjónustu biskups, ok komst í kærleika vid hann, enn ei var hann mjög þokkadr af samþjónum sínum, hann var mikill madr ok frídr sjónum, ok styrkr, ok vel á sig kominn um allt, þat er hönum var ósjálfrádt, trúdi biskup hönum fyrir at kenna dóttur sinni at reikna ok skrifa, ok slíkt annad. Hún hafdi farit um vetrinn, er þá var næst lidinn, á kynnisleit, til Helgu Magnúsdóttur í Brædratúngu, at því er yfirhelgat var; þar ól hún barn, hèt Þórdr, ok lýsti Dada Halldórsson födur at, enn Dadi hafdi þá nýlega smeygt sèr úr þjónustu biskups, ok vígzt födur sínum til kapelláns, ok var frá Skálholti, átti þó litlu sídar tvíbura vid vinnukonu einni á stadnum, er minnsthátttar var, dóttur Sveins Sverrissonar, stadarsmids gamla; vard biskupi þat med ödru til sturlunar, at hann hefdi tekit hina leidustu ambátt jafnframt med dóttur sinni. Torfi prófastr Jónsson, frændi biskups, var fenginn til at segja hönum harmsögu

þessa, setti hann þá fyrst hljódan um hríd, enn sídan hrutu hönum af munni ord Psammetíchuss Egyptalands konúngs: *mala domestica majora sunt lacrymis*, edr: heïmaböl er meira enn tárum taki. Þat jók þó miklu á, at dóttir hans hafdi at hans rádi, er hann vissi ei annat, enn hún væri saklaus, enn máske ord nokkut hafi verit ákomit, svarit fyrir allt karlmannafar, ok ei lengri tíd ádr enn hún ól barnit, enn svara mundi tæpum medgaungutíma. Bar hann varla jafnrètt höfud sídan, enn dóttir hans þó miklu sídr; segja sumir, þó vèr vitum ei fullan sann á því, at hönum muni ordit hafa skapbrádt vid hana, enn þat var ei svo mjög at undra, þó verit hefdi nokkurt hæfi í, er í venju var í þann tíma at beita ærinni hörku vid ýnglínga ok börn, helzt fyrirmanna, ok þó alvöruminni menn ok minnihátttar ætti hlut at, enn Brynjúlfr biskup var, ok med minni göllum væri hagr þeirra enn þetta var: enn þat er ljóst, at hann fèkk á sama ári brèf Fridriks konúngs þridja henni til uppreisnar, ok at hún mætti njóta kristilegra fríheita, sem rád hennar væri óspjallad; enn Dadi hlaut at láta úti í rètt ok rádspjöll 60 hundrud í fasteign, ok fór þartil allt jardagóts foreldra hans, ok 60 hundrud í lausafè, er frændr hans lögdu hönum, til at kaupa sig í frid med, ok var þat seinna. Lèt biskup As ok Dvergastein koma þar fyrir, sem hann gaf fyrir beneficium á Austfjördum, svo ei rynni inn hja hans erfíngjum, enn Dada mátti hann hverki heyra nè sjá sídan, kalladi hann ordit hafa sèr at fótakefli, á líkan hátt ok Dada í Snóksdal Jóni biskupi forfödur sínum. Dada var lengi nálega hvergi óhætt, svo var mikit ríki Brynjúlfs biskups; hann fór utan at fá uppreisn, enn þat vann ekki, því biskup hafdi ritat í móti hönum; vard hann þó þá at útvega sèr verndarbrèf; samt vard þat fyrir tillögur vina biskups, helzt Páls prófasts í Selárdal, er hann virdi mest, ok þó laungu seinna, at hann nádadi hann, því hönum var gefit allt í vald um þat, svo hann fèkk Steinsholt í Hreppum; gekk hönum opt hrumult, ok kallad sem fyrir óbænum hefdi ordit; var hann ok ei þokkasæll. Brynjúlfr biskup átti þessar jardir í Borgarfidi: Skáney 60 hundrud, Vilmundarstadi 24 hundrud, Hól 24 hundrud, Brennistadi 16 hundrud, Eyri 24 hundrud, Brúsholt 16 hundrud, Skóga 12 hundrud, Kvigstadi 20 hundrud, í Skipaskaga 20 hundrud, Elínarhöfda 20 hundrud, Reyni 20 hundrud, í Kalastödum 40 hundrud, Vatnsenda 40 hundrud, Indridastadi, Skard í Leirársveit,

Skálpastadi 8 hundrud, Túngufell 16 hundrud, Litlaskard í Stafholtstúngum 16 hundrud, Sle[illegible]læk 24 hundrud, ok enn fleiri. Hann gaf Reyni á Akranesi med 6 kúgildum til afgjalds ok uppheldis æfinlega, þeirri fátækri ekkju í Akraness hrepp, ef ærleg væri ok gudrækin, er ætti 3 börn í ómegd eda fleiri, á medan hún er í ekkjustandi, ok til þess hid ýngsta-barn hennar er 15 vetra; enn ef sú ekkja er engin til á Akranesi, þá njóti sú sem er í Skilmannahrepp, enn þarnærst í Skorradal; enn ef hún er engin í þeim hreppum, leggist þat afgjald fyrir skilgetit barn födurlaust ærlegra foreldra, úr Akraness hrepp, medan er í ómegd, ok sè vel ok kristilega alit upp. Skyldi hèrads prófastr hafa umsjá um slíkt, ok byggíngarrád á jördinni, ok taka í laun 60 álnir af afgjaldi, ok mannslán; enn ef þeirri skikkan væri brjálat, fyrir nokkurs manns vald eda vilja, skyldi jördin gánga dómlaust aptr til nánustu erfíngja biskups, sem ógefinn hefdi verit. Var sú gjöf gjör hinn 20ta dag Júníí þat sumar er fyrri getr. Brynjúlfr biskup gaf mörgum mönnum í jördum; þeim mædgum Helgu Magnúsdóttur í Brædratúngu, ok Sigrídi Hákonardóttur 80 hundrud, Ragnheidi Torfadóttur 40 hundrud, Olafi presti Gíslasyni 20 hundrud, Sigurdi syni Arna lögmanns 30 hundrud eda 40, Helgu, Sigrídi ok Valgerdi Halldórsdætrum tilsamans 30 hundrud, Sveini Torfasyni prests 15 hundrud. Einar Torfason hafdi nærst verit skólameistari í Skálholti, enn konúngr hafdi bodit, at Oddr Eyólfsson nyti þess eda hvers annars góds brauds er fèlli, fyrir fræga ok ágæta framgaungu, er Svíar sóktu Kaupmannahöfn; hafdi hann vitnisburdi góda, bædi frá Brynjúlfi biskupi, er hann fór utan, ok svo frá meistara Vilhjálmi Lange, er hann fór híngad aptr, fyrir lærdóm sinn ok sidsemi. Helgi Magnúsdóttir, er opt er getit, keypti Túngufell í Hreppum af Gudlaugu Finnsdóttur, því hún hlaut at selja frá börnum sínum, hafdi Gudlaug sú átt Asmund, bródur Sigurdar lögrèttumanns, Gudnason, Sigurdarsonar, Gudnasonar, Eiríkssonar, Torfasonar í Klofa.

## XV Cap. Hyllíngar-eidar oc lögmannaskipti.

Snemma um vorit þess árs, er nú er getit, komu út brèf Henriks Bjelke höfudsmanns, eda lènsherra, sem hann var kalladr, ok budu

biskupum bádum ok lögmönnum, prófóstum, prestum, sýslumönnum ok lögrèttumönnum, ok sk?' . um bændum, at koma til alþíngis, eptir bodi Fridriks konungs þridja, til at vinna hönum arfahyllíngar-eida til einvaldsdæmis; kom höfudsmadrinn sjálfr fyrst út um þínglausnir, ok med hönum Tómas Nikolásson ok kona hans, þó fáir hefdi óskat þeirra; voru því allir menn bodadir sudr til Bessastada hinn 26ta dag Júlíí mánadar; setti þá Arni lögmadr Oddsson tveim dögum sídar þíng á Kópavogi, unnu þar eidana fyrst biskupar bádir, ok meistari Brynjúlfr fyrstr, prófastar allir, sem komast máttu úr hverutveggja biskupsdæmi, ok tveir prestar úr hèradi hverju. Magnús lögmadr hafdi þá sagt af sèr, ok var kosinn í hans stad Þorleifr Kortsson, sýslumadr í Stranda sýslu, unnu þeir lögmenn badir eidinn, Arni Oddsson ok Þorleifr, flestir sýslumenn, tveir lögrèttumenn ok tveir bændr úr hverri sýslu; var Fridriki konúngi svarinn trúnadr, ok öllum afkomendum hans í karllegg ok kvennlegg, ok hefir æ jafnan eflzt konúngs valdit enn minkat ríkismannavaldit þadan af, medan Fridrikr konúngr lifdi ok hans nærstu ættmenn, þó bádu Islendíngar þar hjá konúng, at halda mætti landslögum sínum fornum, ok kvádust vænta þess. Sídan var haldin ágæt veizla, ok stód lángt á nótt framm, súngit ok leikin hljódfæri, ok skotit af þremr fallbyssum í senn, enn því var svarat med skotum af varnarskipi konúngs, sem lá í Seilunni. Arni lögmadr badst þá undan lögmanns embætti lengr, kvadst í því hafa stadit 3 vetr hins 4da tugar, enn allir embættamenn bádu hann brèflega lengr vid vera. Fèkk þá konúngsbrèf Magnús Jónsson á Reykhólum, Magnússonar, Arasonar í Ögri, Magnússonar, fyrir hálfri Stranda sýslu ok hálfum Stranda jördum, hann var úngr madr, dótturson Magnúsar lögmanns á Múnkaþverá; enn Jöklamenn afsögdu alla sýslumenn útlenzka, hygg eg því valdit hafa óvinsæld Matthíasar Gudmundssonar. Höfudsmadr samdi þá þrætur med Arna lögmanni ok Torfa Erlendssyni, hann birti ok konúngsbrèf um, at menn styrki Þormód Torfason, sagnameistara konúngs, med fornfrædum öllum, þeim er fást mætti; konúngr bad ok biskupa senda sèr tvö exemplaría af öllum þeim bókum, sem prentadar hafa verit á íslenzka túngu, edr prentadar verda, því at Fridrikr konúngr ann mjög vísindum. A því sumri brann Saurbær á Hvalfjardarströnd at Hallgríms prests Pètrssonar, ok týndist inni karl einn adkomandi, ok haldinn fjölkunnugr, ok var hönum

þó kennt um þat, enn prestr vildi þat ei heyra; ok fleiri urdu slis; hýddi bóndi sá í fljótum, er Sigurdr hèt, son sinn til bana, ok vard fyrir sèktum. Þá andadist Olafr prestr, son Hálfdánar prests Rafnssonar at Undirfelli. Þat haust var haldit kaupöl Magnúsar frá Vatnsfirdi, sonar Jóns prófasts Arasonar, ok Astrídar Jónsdóttur, þar var þrímenníngs leyfi; þau bjuggu sídan í Vígr, ok var hann kalladr Magnús digri. Þá andadist Magnús lögmadr Bjarnarson at Múnkaþverá hinn 6ta dag Decembris mánadar, ok var hann jardadr at Mödruvöllum í Eyafirdi; hann var audugastr hèr landsmanna, medan hann var uppi.

## XVI Kap. Skipti eptir Magnús lögmann.

Þann vetr á útmánudum, edr nær Maríumessu á lángaföstu andadist Ragnheidr, dóttir Brynjúlfs biskups, 2ja ok 20 vetra gömul. 1663
Þá var vetr gódr. Tómas Nikolásson var umbodsmadr höfudsmanns. Þá dó Rögnvaldr prestr Einarsson at Hólum, fadir Marteins. Jón Egilsson á Skardi var umbodsmadr Bjarnar Magnússonar í Húnavatns þíngi. Um vorit er getit dóms Hrólfs Sigurdarsonar í ordamáli Jóns Sigurdarsonar vid Vigfús, son Fridriks kaupmanns, födur Þórarins í Grenivík; ok konu einni sydra voru dæmd 3 húdlát, hún sagdi á sig 13 menn. Þat vor hinn 19 dag Júníí mánadar, voru skipti gjör eptir Magnús lögmann, ímillum barna hans ok Gudrúnar Gísladóttur, ekkju hans; komu þessar jardir í hennar tilgjöf: Reykjahlíd 30 hundrud, Strandir tvær vid Mývatn, bádar saman 24 hundrud, Mýrakot á Tjörn-nesi 5 hundrud, ok Hlídarhús á Seltjarnarnesi 10 hundrud; þat eru 69 hundrud allt. Gísli Magnússon at Hlídarenda fèkk, er fadir hans hafdi ánafnad hönum, Mödruvelli med Jálkstödum tvö hundrud hundrada, Litladal hálfan 20 hundrud, Krossavík í Vopnafirdi 50 hundrud, 4 jardir á Lánganess ströndum, Fell, Midfjardarnes, Midfjörd ok Djúpalæk 30 hundrud, Grímstadi hálfa á Fjöllum 3 hundrud, Lund 16 hundrud, Voga vid Mývatn 40 hundrud, í Hallgilsstödum í Fnjóskadal 13 hundrud, Krossanes 30 hundrud, Hól á Fjalli 8 hundrud, ok í kaup hans auk skipta hálft Fagranes vid Mývatn 4 hundrud, enn þat var allt 4 hundrud hundrada 65 hundrud, ok

eru nokkrar ótaldar. Björn Magnússon hlaut Eyrarland med Kotá 1 hundrad hundrada, Gardsvík med Gerdi 60 hundrud, hálfa Midvík 15 hundrud, í Draflastödum í Fnjóskadal 20 hundrud, Mela 10 hundrud, Dæli 12 hundrud, Ljósavatn 60 hundrud, Kross 12 hundrud, Hrafnstadi í Kinn 20 hundrud, Bríngu 20 hundrud, Seljahlíd 20 hundrud, Jökul hálfan 10 hundrud, Halldórstadi 10 hundrud, Brennihól 10 hundrud, Háls 20 hundrud, Haga 20 hundrud, Skridu í Skriduhverfi 70 hundrud, Bergstadi 12 hundrud, Anastadi í Sölvadal 10 hundrud; alls 4 hundrud hundrada 71 hundrad. Helga Magnúsdóttir hlaut Gardsá ok Þröm 60 hundrud, Jódísarstadi 30 hundrud, Torfufell 50 hundrud, Engey ok Laugarnes 80 hundrud, í Hvarfi 20 hundrud, Kross 30 hundrud; þat eru 2 hundrud hundrada ok 30 hundrud. Jórun hlaut Kyrkjuhvamm 15 hundrud, Sanda 24 hundrud, Bjargshól hálfan 8 hundrud, í Blöndubakka 10 hundrud, Þúfu hálfa 8 hundrud, Tinda á Skardströnd 12 hundrud, Nes hálft 10 hundrud, Sandhóla á Tjörnnesi 15 hundrud, Hóla í Laxárdal 20 hundrud, Vetrlidastadi 30 hundrud, hálfan Hól í Fnjóskadal 10 hundrud, Neslönd hálf 10 hundrud, Grenivík 20 hundrud, Vargá 20 hundrud, ok enn fleira; þat var tilsamans 2 hundrud hundrada ok 30 hundrud. Solveig Magnúsdóttir hlaut Borg 70 hundrud, Vatnsenda 16 hundrud, Illhugastadi 16 hundrud, Skutulsey 30 hundrud, Laxárholt 20 hundrud, ytra Samtýni 30 hundrud, hálfa Skjaldarvík 20 hundrud, hálf Látr 10 hundrud, Svínárnes hálft 20 hundrud, Hjalla 30 hundrud, hálfan Hól í Fnjóskadal 10 hundrud; þat eru 2 hundrud hundrada 32 hundrud. Gísla Magnússyni voru aptr lagdir Hrafnstadir í Kinn 20 hundrud, nema sú jörd sè 40, ok í lausafè hlaut hann 3 hundrud hundrada ok 8 hundrud ok 30 álnir. Björn Magnússon fèkk í lausafè 3 hundrud hundrada ok 8 hundrud ok 45 álnir; Helga 2 hundrud hundrada, 32 hundrud; Jórun 2 hundrud hundrada 44 hundrud, 47 álnir; Solveig 2 hundrud hundrada, 24 hundrud ok 15 álnir: þar at auki var allt þat lausafè, er húsfrú Gudrún Gísladóttir hafdi med höndum, ok ei kom í þat sinn til skipta, skyldi sídar jafna skiptin af því fè, þau er nú voru ójöfn, ok seinna skipta med þeim systkinum, því er afgángs yrdi eptir hennar dag.

## XVII Kap. Frá höfudsmanni ok landsformönnum.

Á alþíngi í sýnódó hinn 30ta dag Júníí, þá er þar voru biskupar bádir ok allir kennimenn, lagdi Tómas Nikolásson, umbodsmadr höfudsmannsins, brèf hans ok bodskap framm fyrir, þá þess innihalds, at fyrir því at Enskir ok Hollenzkir hefdi samit frid vid Tyrkja, svo þeir mætti fyrir þá sök frjálslega fara um Nordrhöfin, þá sè Islandi hætt varnarlausu fyrir þeim ok ödru illþýdi, er undir þeirra nafni herja kynni, sýndist því lènsherranum naudsýnlegt at andlegir ok veraldlegir, ok öll alþýda legdi sjálfir skatt á sig, svo at kaupa megi fyrir eitt varnarskip, er vera mætti á ferd umhverfis landit, ok verja þat, þegar tillag þetta er ordit nokkurra ára. Þeir þökkudu höfudsmanninum slíka hans ágæta fyrirhyggju, enn töldu í vankvædi stór, fátækt landsins, ok uppáfallin hardindi, sögdu traudt mundi finnast 10 eda 12 menn á öllu landinu, er ætti 5 eda 6 þúsund dala virdi (þat kynnum vèr eptir dýrleiks mun at virda nú 11 eda 12 þúsundir, ok yrdi nú slíkir heldr færri innlendir); sè þar af allt at taka til þess kostnadar, svo at þó þeir gengi nærri sèr, mundi tillagit verda lítit um fram þúsund dali, enn þat nái skamt til at kosta jafnvel hid minnsta herskip, ok sýnist þat þó lítil vörn öllu landinu; enda sjái þeir ei fært at þýngja á almúganum; fyrir því kvádust þeir skjóta slíku öllu undir Guds födurlega miskun ok vörn á móti öllu illþýdi. Enn til at sýna þakklætis vilja sinn audmjúkan, kvádust þeir samþykkt hafa, at hin andlega stèttin í öllu landi lagdi út 300 dali, ok greidist á næstkomandi alþíngi, höfudsmanninum til þóknunar í slíka minníngu, enn þeir bidji hann audmjúklega afstýra med gódum tillögum frá þessu fátæka landi ok þeirra stètt öllum óbærum nýúngum, sem einn eda annar landsins fátækt ókunnr, eda ei mjög velviljadr tilætla kynni, því til skada eda þraungvunar. Bádu þeir hann vel virda þá litla þjónustu eda þökk, ok stydja mál þeirra í því, er þeir bádu konúnginn hid fyrra árit, ok öllu ödru. Var þat samþykkt, at biskupar skyldu fullt vald hafa, at meta á sèrhvert prófastsdæmi at jöfnudi eptir inntektinni, ok prestr hverr hafa greidt í fardögum í hönd prófasti sínum, enn prófastr afhendi biskupi seinast á nærstkomanda alþíngi; hèt Gísli biskup 90 dölum af Hóla biskupsdæmi; enn lögmenn ok hinir veraldlegu hètu einnin at leggja nokkut med vidlíkum hætti til höfudsmannsins. Má af slíku sjá,

at ei hefir landit svo mjög audgazt á svo mörgum gódum árum; því þó ríkismenn væri meiri enn nú, þá var flest alþýda litlu byrgari eda engu. Brynjúlfr biskup fèkk þá af Eiríki Múnk, kaupmanni á Eyrarbakka, at setja eitt ár á rentu þá peninga, er komu fyrir hin leystu kyrkna inventaría; hann fèkk þá sídan Henrik Bjelke höfudsmanni, ok voru þeir þá 3 þúsundir ok 40 dala.

## XVIII Kap. Þat er frammfór á alþíngi, ok annat.

Þá komu út nokkur brèf Fridriks konúngs þridja: var eitt forbod at kaupa vid útlendar þjódir; eitt um fè Þormódar Torfasonar; eitt var uppreisnarbrèf Torfa, fèkk hann sýsluna aptr, ok baud höfudsmadrinn, at hönum væri reiknîngr gjör af inntekt hennar. Sigurdr Torfason, bródir Þormódar, hafdi ok misst prestskapar fyrir barngetnad, enn hann fèkk sídan Mela eptir Jón prófast Jónsson, því hann andadist þá, ok þótti verit hafa hinn virduglegasti madr, ok merkilegr um gáfur ok lærdóm, var þat ok af tillögum Þormódar, þvíat Þormódr hafdi svo mikit yfirlæti af Fridriki konúngi, at hann sókti hans fund opt. Þormódr útlagdi allar norrænar sögur í eina bók á látínu, enn konúngr var vel látínu lærdr; hann ritadi ok um Dana konúnga, ok margt annat, ok rengdi mjög margt í þeim sögum, er Danir höfdu haft þángad til um hin fornu tídindi, ok kom Islendíngum í þat álit fyrstr, at þeir vissi allar sögur nordrlenzkar sannastar í forneskju. A því alþíngi las Arni lögmadr fyrst um afsögn sína á lögmanns embætti, taldi vankvædi, lánga þjónustu, elli ok orkuhnignan, dapran sýnar ok minnis, ok adra hluti, ok tók dæmi af Þórdi lögmanni ok Gísla, syni hans, er svo hefdi gjört, ok hefdi þeir þó verit gildir menn um allt; var þar undirtekit, ok kosinn aptr Sigurdr Jónsson í Einarsnesi, ok vann eid sinn; til hans kvad Hallgrímr prestr Pètrsson heilrædi. Dadi, son Jóns prófasts Jónssonar á Melum, vann ok sýslumanns eid, hann hèldt Kjósar sýslu. Þar var lesit konúngsbrèf, at undirdómarar mætti ei dæma í lífs ok æru sökum; slíkir voru þá lögrèttumenn ok bændr í hèrudum. Engin voru stórmæli. Gísli biskup lèt þar upplesa jardargjöf Þorláks biskups, födur síns, er hann hafdi gefit skólanum á Hólum As í Hörgárdal 20 hundrud, med 4um kúgildum ok hundrads landsskuld, med því skil-

yrdi, at hinum fátækasta stúdíósó frá Hólaskóla, er framast í Kaupmannahöfn, leggist til afgjaldit. Tómas Níkolásson fór utan, því Margrèt, kona hans, var dáin, ok fèkk annarar konu, Elínar Pètursdóttur. Hans Pètrsson Bladt sendi þá híngad skip mikit eptir brennisteini. Þá ströndudu franskir menn í Bolúngarvík, týndust nokkrir, enn skiptu sèr upp 30. Þorleifr Kortsson lögmadr tók þá Þíngeyra klaustr, ok bjó þar sídan. Þau missiri deydi Magnús Gissurarson, Þorlákssonar, bartskeri ok lögrèttumadr, er bjó at Lokinhömrum vid Arnarfjörd, födurbródir Torfa prófasts í Gaulverjabæ, sjötugr at aldri, Magnús prestr Sigfússon á Höskuldstödum, ok Þórarinn prestr Olafsson at Bægisá, hans son var Jón, enn annar Þorlákr, fadir Þórarins, födur Þorláks prófasts at Osi. Páll prestr Hallsson, Bjarnasonar, ágætr madr, andadist ok í Danmörku. Þá týndist skip vid Flatey, enn 3 fyrir nordan, ok tvær stúlkur af báti vid Skagaströnd, einnin Asbjörn Jónasson, madr Bóthildar á Bjarnastödum í Selvogi, ok synir þeirra tveir. Kona týndi barni sínu laungetnu í Slèttuhlíd, henni var drekkt at Hofi á Höfdaströnd. Þá fèll Loptr Gíslason ofan af Helgafelli, ok fèkk af því bana. Þórdr, son Þorláks biskups, fór utan um sumarit; gjördi þá er haustadi rigníngar miklar, ok tók af bæ á Vídivöllum í Fljótsdals hèradi austr.

## XIX Kap. Frá ýmsu.

Vetr gjördi þá enn gódan ok æskilegan, enn tjón urdu á mönnum ok fè á páskadaginn fyrir áhlaupahríd á nordan, einn druknadi í Túngufljóti, sló vedr hönum um, þá hann ætladi at sækja prest. Halastjarna sást um vetrinn; þat hræddust þá allir menn, ok hvern hlut annann, som var óvenjulegr; gætti þess lítt á þeim tímum, þó nokkrir menn hefdi atgjörfi, kunnu fáir at sýna, ok var heldr svo háttat uppeldi, at hömlun vard fyrirtektum, ok hræddust margir smá-atvik af hjátrú. Madr hvarf úr Svartárdal. Þá dó Benedikt at Mödruvöllum í Hörgárdal, Pálsson, Gudbrandssonar, hann var vinsæll madr, ok þá mjög adþreyttr, var ei umrædulaust af sumum. Sigrídr stórráda, kona hans, var kvenna frídust, hárit gult sem silki; Magnús ok Þorlákr voru synir þeirra, er hún hafdi svarit á hann á alþíngi; Magnús gjördist sídan illmenni, enn dóttir

þeirra var Hólmfrídr, fögr sýnum sem módir hennar eda fremr, hennar fèkk Jón prestr Þórdarson at Myrká, þeirra dóttir var Þorbjörg, er Jón prestr átti Ketilsson, módir Þurídar, er átti Steffán prestr Halldórsson, ok Hólmfrídar á Laxamýri. Þorlákr var fadir Jóns ok Halldóru, módur Bjarnar Tómassonar sýslumanns. Björn var enn sonr Benedikts ok Sigrídar. Mælt er, at Jón Eggèrtsson frá Ökrum hafi fest af Tómasi Nikolássyni Mödruvalla klaustr at Bendikt lidnum fyrir 300 dali, ok eptir þat hafi Tómas kvongazt, ok komit út aptr þetta sumar. Þá deydi Dadi, son Eggèrts Bjarnarsonar á Skardi, ok var Eggèrt nú sonlaus, hann var þá audugastr madr á landi hèr, eptir Magnús lögmann lidinn. Sigurdr Jónsson lögmadr hafdi þá Borgarfjardar sýslu alla, enn Torfi Þorsteinsson var þó umbodsmadr hans, ok lèt dóm gánga at Lækjarbug um medferd húsgángsmanna. Sigurdr lögmadr var vel á sig kominn um allt, ok vænlegr til höfdíngja. Jón prestr Bergsson í Fljótshlíd dó, ok Arni Þorsteinsson prests, Tyrfíngssonar, úngr madr knálegr ok útlærdr, er sagt ordit hafi af sjósótt, er hann ætladi utan; ok enn Arni Jónsson, Halldórssonar lögmanns, í Kaupmannahöfn af mislíngasótt; Gudmundr á Siglunesi druknadi, ok med hönum Magnús, son Gudmundar Arasonar í Flatatúngu. Gudmundr var bródir Sveins prests á Bardi, ok átti afkvæmi margt, einn hans son var Olafr prófastr, fadir Steffáns prests at Höskuldstödum. Svo er sagt, at Tómas umbodsmadr hafi viljad heimta manntalsfiska af biskups mönnum í Grindavík, var hann enginn vin biskups, illa þokkadr af ödrum, ok fór hann ok hans menn verrbúnir aptr þadan. Þetta sumar komu út brèf Fridriks konúngs: var eitt um giptíngarleyfi Gísla biskups Þorlákssonar ok Ingibjargar, dóttur Benedikts Halldórssonar á Reynistad, var því framfylgt, ok komu þau saman, hún var snotr kona ok vel greind; annad var um lögmanns embætti Sigurdar Jónssonar; slíkt var ok um lögmanns kosníngu Þórleifs Kortssonar, at konúngr gaf út brèf því til stadfestu, ok vard nú eigi kosníngin èinhlít; hid 4da var um Þorkel prest Arngrímsson, at hann skyldi fá eitt hid besta kall er fèlli; ok eitt til Markúsar prests Geirssonar fyrir Laufási, er hann losnadi; ok enn fleiri. Gísli Jónsson, umbodsmadr Tómasar Nikolássonar fógeta, var settr fyrir Isafjardar sýslu, hygg eg sè sá sem bjó í Melrakkadal, ok þótti fjölbreytinn sumum. Fátt kom fyrir stórmæla á þíngi; þar kom enn mál Jóns Sigurdarsonar úr Þíngeyar þíngi,

ok um ord vid Vigfús Fridriksson, voru sýslumenn Hrólfr ok Sigurdr Magnússon hverr um sig skyldadir til at synja Jóni ei dóma útskrifta. Eigi var allskostar gott, þvíat fjallbúendr í Hraunhrepp beiddust dóms á alþíngi, um þá til útörmunar horfandi ok nærsta ólídanlegu umferd húsgángsmanna, helzt vestan úr Breiduvíkr ok Ness hreppum komenda, margt hvad hraust ok vinnufært, svo sem búdarkonur, er fari um sveitir med börnum sínum, sumum drokunar færum, kannske af rádi ok vilja sinna bænda, er sína kaupaeda sumarvinnu selja þó í dýrasta máta í sveitunum fyrir beztu peninga, hafa til leigu vestra 12 mánada búdir, fá mikla hluti, hvar med þeir kunna at forsorga sig ok sína; hafa allopt á haustin meiri byrgdir enn margir búendr, venjast brjálsemi, leti ok sjálfrædi meir enn skattbændr í sveit; gjalda litla tolla yfirvaldi andlegu ok veraldlegu, ok hjálpa fáum eda engum naudþurftugum í þessu landi. Slík óskipun hefir æ jafnan á verit í landi hèr, sökum agaleysis, ok voru þó húsgángsmenn miklu fleiri ok verri vidreignar fyrrum enn nú; enn þat hèlzt lengi, ok er enn vid of á vorum dögum, at hid mesta ókvædi var haldit, at synja hvad mörgum óverdugum, sem adkomu. Ymislig urdu slis á þeim missirum.

## XX Kap. Kvonfaung úngra manna.

Fiski-afli var þá umhverfis land, helzt eystra, enn hafís kom nyrdra eptir þíng. Þá hèldt Stafholt Sigurdr prófastr, son Odds biskups, hann átti Gudrúnu Jónsdóttur prófasts Gudmundarsonar, systur Þórdar prests í Hítardal; börn þeirra voru Oddr, Gísli, Sigurdr, Gudrídr ok Hólmfridr. Oddr var utan 3 vetr, hann bar lángt af öllum systkinum sínum um flesta hluti, hann andadist vetri midr enn hálfþrítugr; Gísli var ok utan um hríd, ok vard rádsmadr í Skálholti; hann keypti þetta sumar Þorbjörgu, dóttur Vigfúsar Gíslasonar á Hvoli, enn Gísli Vigfússon, bródir hennar, vard þá skólameistari at Hólum. Jón yngri, son Vigfúsar Gíslasonar, fór þá utan, ok verdr hans nokkud vidgetit sídar. Einar prestr í Múla, Þorsteinsson, Tyrfíngssonar, fèkk hid sama sumar Ingibjargar, dóttur Gísla prests Brynjúlfssonar á Bergstödum í Svartárdal, ok Sessilju Grímsdóttur; þau áttu 15 börn saman, er enn mun verda getit. Jón Þorláksson, Pálssonar, bjó at Vídidalstúngu, hann fèkk

þá Hildar, dóttur Arngríms prófasts lærda Jónssonar, þeirra son var Páll Vídalín. Þórdr, son Hannesar í Snóksdal, Eggèrtssonar, Hannessonar, Bjarnarsonar, kvæntist þá einnin, ok fèkk Karítasar, dóttur Jóns prests Ormssonar á Kvennabrekku, enn Illhugi prestr at Setbergi Sigrídar Hannesdóttur, systur Þórdar. Leirulækjar Fúsi var bródir Karítasar, hann var nídkvædinn, enn skorti ekki vit; annar Magnús prestr, fadir Magnúsar prófasts í Hvammi, ok Jóns ok Arna assessórs. Gísli prestr Einarsson at Helgafelli, er skólameistari hafdi verit, fèkk enn Kristínar frá Setbergi Vigfúsdóttur prests Illhugasonar, þá tók Bjarni prestr Arngrímsson hins lærda Höskuldstadi, ok lagdi ádr út fyrir 100 dali, enn Gunnar prestr Bjarnarson, Magnússonar, lagdi af vid hann. Tómasmessu fyrir jól gjördi fjúkvedr mikit, urdu mannskadar ok fjárskadar, ok hvarf madr af Kjalarnesi, þann hrakti í sjó, því klædi hans rak upp sídar, enn annar vard úti í Hrútafirdi.

## XXI Kap. Andlát Arna lögmanns.

1665 Sá vetr var gódr, ok svo þadan af ársæla, er sumradi. Þá bjó at Hesti í Borgarfirdi Audun prestr Jónsson, sá er hestinn seldi fyrrum höfudsmanninum, hann var þá vid aldr, ok átti ekki börn, fyrir því hafdi hann tekit til uppeldis börn Pèturs Teitssonar, prests at Lundi í sydra Reykjadal, Pèturssonar. Benedikt Pètrsson var eitt þeirra, er sídan var prestr at Hesti, ok lèt heita Audun son sinn eptir Audunni presti í Saurbæ. Benedikt prestr hefir ritat annál, ok hóf á þessum vetri, er nú var frásagt, ok mátti hann þat sjálfr muna, ok svo allt þadan af, segir hann af því öllu ljósast, er hönum var kunnugast, var hann ok kalladr rèttordr. Þennan vetr bar þat vid eitt kvöld at Leirá, er þat upphaf sagna Benedikts prests, at Arni Oddsson lögmadr gekk at dyrum þeim á bænum, er til vestrs vissu, ok vildi láta koma loku fyrir, at þá bar hurdina frá dyrunum, ok gekk hún á hann jafnódt, gat hann traudlega lokat umsídir, enn hurdinni var vant at vera svo hægt, at hún fèll sjálf í klofa; hann vard fár vid, ok kalladi undarlegt. Litlu sídar seint á einu Frjádags kvöldi á föstu, enn hann fastadi jafnan á þeim dögum, hafdi hann svo gengit heiman, at menn urdu ei varir vid; hann var vanr at láta hringja til bænahalds kvöld ok

morgna, enn nú kom hann ei. Þar var laug ein skamt frá bænum, enn bar þó leiti á milli; þar hafdi hann gengit til at laugast; enn er heimamadr kom þar at, sá hann, at hann flaut á grúfu í lauginni, ok var andadr; var þá sveipad klædum um líkam hans, ok tekin hurd sú, er var fyrir vestr andyrum, ok á henni líkit borit í kyrkju. Voru þetta mörgum harmatídindi, ok mæltu margir, at ei mundi svo ágætr lögmadr upp þadan landslögum stýra, eda slíkr höfdíngi koma á Leirá. Þat var 10da dag Marzí mánadar, er hann var þrem vetrum betr enn sjötugr. Kvad Hallgrímr prestr í Saurbæ eptir hann, ok kalladi hann einna merkilegastan mann verit hafa eptir Gudbrand biskup. Þau missiri sáust loptsjónir margar.

## XXII Kap. Druknun Tómasar.

Mattías Gudmundarson hèldt þá enn Stapa sýslu, enn sá madr hafdi útkomit um sumarit fyrir, er Kristofor Roer hèt, ok fengit forrád umbodsins, ok ridit vestr um haustit med nokkra menn, ok kallat sèr Stapa umbod med haustgjöldum öllum; Mattías kvad þvert nei vid, ok lèzt engu sleppa mundi, fyrri enn ef yrdi at vori komanda; samdist svo med þeim, at þeir voru sáttir at kalla, ok var Kristofor vestra um vetrinn. Enn um vorit eptir andlát Arna lögmanns, bjóst Tómas Nikolásson umbodsmadr vestr á Nes, at innsetja Kristofor; þadan ætladi hann á Vestfjördu, enn fyrst hugdi hann, at halda undir Einarsnes frá Bessastödum; hann kvadst ok þangad mundi halda um kvöldit, ok taka þar hesta til ferdarinnar. Setti hann framm ródrarferju danska, er hann átti, ok gekk þará vid 5ta mann; þótti þá mörgum, sem hann væri ærit harddrægr ordinn, ok var hönum bædi borin fègirni, ofsi ok óheilamídi. Þeir sigldu fyrir Kjalarnes ok sídan til Akraness, ok sáu menn ferd þeirra af hverutveggja nesinu; enn sem þeir komu gagnvart Melum í Melasveit, urdu þeir menn, er á landi voru, ei fyrr varir, enn skipit hrakti flatt, ok var einn madr á sídunni; hrundu menn þá framm báti litlum, er nærstur var, ef þeim mönnum yrdi borgit, enn þeir fengu ei atgjört, því sá var ómála ok ódaudr at eins, er þeir sáu: týndist þar Tómas ok skipverjar hans. Höfdu menn þat fyrir satt, at blindskèr mundu ollat hafa, þar sem

heitir Kotatángi; enn lík Tómasar rak upp nokkru sídar á Akranesi vid Nordurflös; er þessi frásögn Benedikts prests; enn Jöklamenn ok fleiri eignudu þat fjölkýngi, sem þá var tídt, ok drógu þat saman, at Mattías skyldi sagt hafa þann dag, at gott væri nú vedr fyrir Tómas Nikolásson. Þá var ófridr med Enskum ok Hollenzkum, hèldu Danir med Hollenzkum, ok fyrir þá sök tóku Enskir kaupför fyrir Dönum, ok hindradist siglíng út híngad af því. Svo er sagt, at kona Tómasar Nikolássonar hafi heitit, at gefa Garda kyrkju 20 dali, ef lík hans fyndist, ok þat endti hún.

## XXIII Kap. Frá þíngi ok fleiru þesshátar.

Ekki var mjög tídindasamt á þíngi þá, enn konúngsbrèf komu út, ok var eitt um brúagjörd ok vegabætr; eitt at Gabriel Marcellus mætti taka brennistein. Gudrún Þórdardóttir kærdi fyrir lögmönnum, at Einar Oddsson í Vogum hefdi látit órádvandan dóm gánga yfir Þórd bródur sinn, ok líflátit hann í Gullbríngu sýslu hid fyrra árit, ok kvadst erfíngi hans; enn ef hann er sá, er sídar getr at hengdr var, þá er þar villzt um árit, ok þetta sannara. Þá tók Gudbrandr, son Þorláks biskups, Húnavatns sýslu hálfa. Bárdr Gíslason lögrèttumadr samdi þá merkilega ritgjörd yfir alla Jónsbók, ok eignadi Gísla sýslumanni Magnússyni at Hlídarenda. Prentat var ok um þetta leiti á Hólum sálarlækníng Urbanuss, ok sköpunar-bókar sálmar Jóns prests Þorsteinssonar.

## XXIV Kap. Frá Jóni Arnasyni.

Jón hèt madr ok var Arnason, hann bjó á þeim bæ í Reykjadal hinum nyrdra, er Breidabólstadr heitir; hann var at heyverkum um sumarit med bóndanum á Nordr-Reykjum, lögdust þá bádir til svefns vid rúst eina í nesinu, er gengr framm í Hvítá, ok lítit bil á milli þeirra, lá Jón framar ok nær ánni, enn bóndinn ofar; Jón sofnadi skjótt, enn hinn vakti, ok heyrdist hönum þytr mikill koma austan frá ánni, ok þar at, er þeir lágu, ok fara sídan vestr í ána med svo miklu afli, at Jón reistist sofandi beint á fætr, í svo hördum svip, at varla mátti auga á festa, þótti hönum sem þytr sá mundi færzt hafa undir höfud ok herdar hönum,

því þat horfdi vid ánni; vard hönum felmt vid, ok mælti til Jóns, því hann hafdi vaknad, ok kalladi þetta undarlegt, ok spurdi hverju sæta mundi? Hinn segir eitthvad muni umsvipast, þat er nesid byggdi, kvadst þó ætla vera mundi nokkur fyrirbódi; Jón gekk þá til verks, ok var hljódr um daginn. Um haustit reid hann til Stóra-áss at eyrindum sínum, bjóst heimleidis seint á degi, var ok fenginn madr til fylgdar; reid Jón ört, því hann var ölkendr, enn rökkvad var, svo at fylgdarmadrinn missti hans. Um morguninn sást hestr Jóns skamt frá Signýarstödum, enn södulreidi fannst hjá Refstödum, ok þar hjá hetta hans ok vettir, var vafinn lokkr úr faxi hestins um vetlínginn annann, ok hafdi svo slitnad. Reidinn var at ofanverdu í tvennu lagi, sem tídt er, ödrumegin negldr med einum járn-nagla, enn ödrumegin med tveimr, voru þeir útdregnir allir, ok gjardar gagntakit slitit sundr í midju. Ymsar voru getur hvad af hönum hefdi ordit, er hann fannst ekki, sumir ætludu meinvættir mundi álíggja, ok var þat þá trú um fjöllin þar sydra; hefi eg heyrt, at Skardsheidi hafi þá ei farin verit á vetrum, ok svo var vídar. Madr bjó á Refstödum er Steffán hèt, kölludu sumir heimska Steffán; hann var haldinn mjög skygn; hann mælti þá mannsins var saknad: „ekki þarf at leitá at hönum Jóni, hann er kominn ofan í Hvítá, eg get gengit slódina hans, hann hefir gengit ýmist rèttr eda hálfboginn." Ei fannst af Jóni utan hempa, er hann hafdi í verit, hana rak upp í víkina millum Hvítár-óss ok Gufuár-óss vid Borgarfjörd. Þórdr hèt einn umrenníngr í Sydra-Reykjadal; hann var at Reykjum nokkrar nætr um sumarit; bóndi bad hann starfa nokkud, enn Þórdr hèt gódu um; litlu sídar hvarf hann á brottu, svo at enginn vissi, hvert hann fór, enn eptir 3 vikur kom hann aptr, kvadst hafa verit vid helli nokkurn austr á heidinni, enn ansadi fáu, ef hann var spurdr, hvad hann hefdi haft til matar, sagdi þar vera súrur ok rætr nógar; svo þótti mönnum þrif hans ok litarháttr, sem hann hefdi ekki skort, ok eins neytti hann matar ok ádr, enn þarum var hönum tídrædt, at hönum hefdi vel fallit, at vera ómakslaus hjá kindum sínum austr þar, ok leidt þætti sèr at heyra knur ok áfrýun manna; litlu sídar hvarf hann brott af bæ þeim, er at Idunarstödum heitir, ok fannst ei sídan; enn laungu seinna, edr nokkrum árum, fundust bein ok stafr, er menn ætludu hans vera, undir steinum

nokkrum í Alptaklettum. Nú hefir eg ei þessvegna viljad undanfella sögur þessar, at skilríkr madr hefir ritad þær, ok þó samtídis, ok í sjálfs hans minni skenar, ok getit grant um öll atvik.

## XXV Kap. Frá ýmsu.

Mikil var þá ársæla, grasvöxtr ok nýting. Þau missiri týndust 15 skip á Breidafirdi ok á Vestfjördum; voru hvalrekar vída, ok hverjar 15 vættir seldar 60 álnum; sveinn 14 vetra hengdi sig í Borgarfirdi, ok tveir fedgar stálu úr húsum Dana í Dýrafirdi til 7 vætta ok 20, þeir voru hýddir; ok fleiri urdu mannskadar ok ótíd-indi. Þá deydi Sigurdr Jónsson, prestr til Ögrs ok Eyrar, ok Torfi Erlendsson, sýslumadr í Arness þíngi, stódu 9 prestar yfir grefti hans. Snorri prestr Jónsson var vígdr til Eyrar í Skutulsfirdi; Teitr prestr Halldórsson kapellán til födur síns; Halldórs prófasts í Gufudal; Björn Þorleifsson til Ögrs; Gudbrandr Jónsson til födur síns, Jóns prófasts Arasonar í Vatnsfirdi; Eiríkr, son Eyólfs prests at Lundi í Sydra-Reykjadal, til födur síns; ok Páll, son Ketils prests Jörundarsonar í Hvammi, einnin til födur síns. Jón, sonr Þorláks biskups, fór þá utan í ödru sinni, ok fèkk þar Mödruvalla klaustr, er Jón Eggèrtsson hafdi ádr fengit fyrir ærit fè af Tómasi Nikolássyni, spannst af því sídan mikill ófridr. Jón fèkk Sigrídar stórrádu, ekkju Benedikts Pálssonar, ok komu þau betr skapi saman; þeirra son var Eggèrt, er seinna bjó á Ökrum. Þau missiri dó Hálfdán prestr Rafnsson at Undirfelli, nær hálfníræðr, hans nafn bar seinna magister Hálfdán Einarsson.

## XXVI Kap. Frá ýmsu, ok kauphöndlun enskri.

1666 Vetr sá, er þá fór í hönd, var medallagi; þá andadist Gísli, son Sigurdar prófasts Oddssonar í Stafholti, at Oddgeirshólum, þar hann bjó, hinn 7da dag Februarií mánadar, ok seldi á deyanda degi jördina fyrir smájardir slæmar, fyrir því áfrýdi fadir hans þat seinna. Vor var kaldt, enn Gunnlaugr prestr Þorsteinsson segir þó allgott verit hafa, ok urdu 8 skiptapar fyrir Sudr- ok Vestrlandi. Teitr Torfason frá Kyrkjubóli vard Skálholts rádsmadr eptir Gísla, mikill

madr ok sterkr, ok gjörfuglegr at mörgu, ok þokkadr vel. Fè fennti þá ok hesta í 5tu viku sumars. Þat segir sumstadar, at þá dæi Eiríkr Oddsson á Fitjum; þá andadist ok Páll prestr Arnason á Kolfreyustad, Páll Þorláksson í Vídidalstúngu, ok Jörun Jónsdóttir, er átti Hannes í Snóksdal. Jón Jónsson frá Hraunskardi, er kalladr var Osaprestr, reid drukkinn frá Brimilsvöllum, ok fannst sídan daudr upp med Fródá; fleiri urdu druknanir, eda voveiflegr bani stöku manna. Ein kona í Flóa bar út launbarn sitt, svo þat fannst, ok var hún líflátinn. Þetta sumar ætladi Halldór, son Brynjúlfs biskups, út híngad frá Englandi, enn styrjöld var mikil med Enskum ok Hollenzkum, ok rèdu hönum gódir menn á Englandi, at hætta sèr ei til siglíngar, þó nokkrar enskar duggur vogudu, at hleypa til fiskiveida undir Island; sló hann því af, enn andadist um haustit í Járnamódu hinn 16da dag Októbris, af lúngnavisnun, er venjuleg landfarsótt er á Englandi, 24 ára gamall. Brynjúlfr biskup gjördi seinna grafskrift á legstein hans, ok sendi vers þessi:

*Halthoris Islandi cineres humus anglica serva,*
*depositumqve bona qvandoqve redde fide.*

Þeir voru medalgaungumenn meistara Brynjúlfs biskups ok Halldórs sonar hans, nordlenzkir menn ok stallbrædr: Bjarni Halldórsson ok Sigurdr Ingimundarson, Englandsfarar gamlir; þeir ridu hvert sumar í Skálholt, ok sídarst flutti Sigurdr út híngad klædi Halldórs ok grafskriftina utan, ok lèt gjöra legsteininn at forlagi biskups. Var þá í þann tíma siglíng mikil af fiskiduggum híngad undir land frá Englandi, ok fylgdi þeim opt herskip; þat kom undir Snæfells jökul fyrir krossmessu á vorum, ok fór aptr, ef fridr var, enn kom stundum tilbaka í Agústó at fylgja þeim heim; skyldu allar duggur vestra komnar á Dýrafjörd á Lárenzíus-messu, enn á Lodmundarfjörd fyrir austan, ok bida þar; med þeim komu nokkrir menn til verslunar med enska vöru, gód klædi, kersu, alún, ábreidur, knífa, skæri ok annad, lágu helzt vid Neshrepp á sumrum, seldu fyrir ullar vöru ok krónur, laungum med gódu verdi; sumir fóru upp til sveita, nordr til Hóla, edr ok til alþíngis, enn voru komnir med allt sitt í Beruvík, er duggurnar komu vestan, ok fóru med þeim aptr. Þetta voru enskir menn, mörgum gódum mönnum vel kunnugir hèr á landi, ok gáfust margir íslenzkir

menn í kaupferd med þeim, ok fóru med þeim til Englands, helzt til Járnamódu (*Yarmouth*); voru þar á vetrum, enn sigldu híngad á vorum, ok fóru á sumrum med vöru sína um allar sveitir, höfdu þeir þat sumt út híngad, er kaupmenn fluttu ekki, ok græddu svo allmikit fè; enn þat er nú kallad landpráng, hefir ok jafnan verit fyrirmunad.

## XXVII Kap. Ymislegt er vidbar.

Jón Þorláksson, bródir Gísla biskups, var utan, ok hafdi fengit Mödruvalla klaustr, sem fyrr segir, hinn 11ta dag Marzí mánadar, ok ætladi út híngad, enn kaupfarit var tekit af Skottum, ok kom hann ekki út þat sumar. Jón ýngri Vigfússon frá Hvoli kom út, ok hafdi fengit brèf Henriks Bjelke höfudsmanns fyrir allri Borgarfjardar sýslu, enn hana hèldt þá Sigurdr lögmadr Jónsson í Einarsnesi, ok hafdi haldit hinn sydra hluta 4 eda 5 vetr, enn hinn vestra 17 vetr eda 18, þótti hönum sèr tilbekkíng gjör, ok vard kali med þeim, ok eymdi af lengi. Jón bjó fyrst í Hjörtsey 2 ár, til þess er hann flutti at Leirá, er Þórdís Jónsdóttir, ekkja Arna lögmanns, var lidin. Jóhan Klein var umbodsmadr höfudmanns, hann kom ei út, enn sendi Jakob Benediktsson sín vegna, þann er sídan fèkk Snæfellsness sýslu ok Stapa umbod; var höfudsmadrinn sjálfr þá mjög aflátinn förum. Þá dó Jón í Landeyum, Arnason, Gíslasonar lögmanns, Þórdarsonar, hraut á stein, er hann var at draga sleda á tún; ok veiktist Þórdr prestr Sveinsson, svo at kallat var af göldrum; hann var fyrri í Ögri, enn hafdi farit þadan til Adalvíkr at bón Arna prests Loptssonar, verit sídan um hríd med Páli prófasti í Selárdal, ok því nærst til þess er hèr var komit med Brynjúlfi biskupi, þá fór hann til frænda sinna, ok lifdi sídan einn vetr; hann ritadi rím, ok var furdulega lærdr í sumum hlutum, enn engum kom þat ödrum til lids enn sjálfum hönum. Þá voru prentadir fyrst Píslar-sálmar Hallgríms prests Pèturssonar, ok adrir Gudmundar prests Erlendssonar undir Felli í Slèttuhlíd, minni Katekismus, hústafla ok bænir, ok sálarlækníng Urbanuss segir ok Þorlákr Markússon at þá hafi prentud verit. Hlutir voru miklir, ok nýttust illa, ok einnin hey. Þórdr hèt þjófr er hengdr var í Gullbríngu sýslu, ok hygg eg rángsett árit,

ok sannara þat, er ádr er sagt; urdu ok nokkrar slisfàrir. Einar prestr Arnfinnsson á Stad í Hrútafirdi gat enn barn ókvæntr. Þá tók Jón Vigfússon eldri Arness sýslu eptir Torfa Erlendsson. Þat sumar kom út konúngsbrèf um bænadags hald 4da föstudag eptir páskir, er haldizt hefir á vora tíd; ok annad at uppáskrifadar væri supplíkazíur af ædri yfirmönnum. Enn er menn voru á heimleid af þíngi, dó Snæbjörn Torfason frá Kyrkjubóli, lögrèttumadr, er bjó at Bæ í Króksfirdi; hann var bródir þeirra Teits Skálholts rádsmanns, Einars prests, Páls ok Þorsteins; enn Eggèrt á Kyrkjubóli var son Snæbjarnar, fadir Margrètar, er Teitr átti Arason, Þorkelssonar, Gudmundarsonar á Þíngeyum, Hákonarsonar. Þá dó ok Sæmundr á Sæbóli Eggèrtsson, Sæmundarsonar, Arnasonar at Hlídarenda, Gíslasonar; hans son var Eggèrt, sem átti Þorkötlu, dóttur Jóns Torfasonar í Flatey. Magnús, prestr at Kvennabrekku, missti stadar ok embættis fyrir hórdóm, son Jóns prests Ormssonar; voru þá synir hans úngir, Jón, Arni ok Magnús, er sídar urdu nafnkunnir menn. Sigrídr á Skardi í Lángadal, Jónsdóttir Dans Magnússonar, kona Jóns Egilssonar, andadist hinn 1ta dag Nóvembris, enn 6 dögum seinna Gudrún í Flatatúngu Bjarnardóttir frá Laxamýri, kona Gudmundar Arasonar, enn systir Sessilju á Hlídarenda, er Þorleifr Magnússon hafdi átta. Seinast í þeim mánudi deydi Olafr prestr Olafsson í Vidvík, er deilurnar átti fyrrum vid Olaf lærdakarl, ok hafdi misst prestskapar fyrir hórdóm, enn átt sídan ertíngar vid Jón Pálsson prest sinn, er var at Rip. Vid þat lyktar annál Gunnlaugs prests Þorsteinssonar í Vallholti, þann er eg hefi sèd. Staf rak í Hrútafirdi 20 álna lángan, med broddi miklum ok hvalbeinshólki; eignudu menn tröllum, hvad sem verit hefir med rèttu.

## XXVIII Kap. Ar ok tilburdir.

Þá gjördi vetr hinn bezta nema fyrir sunnan, þar flosnadi sumstadar fólk upp, ok fór um í hópum. Is þydnadi á þorra af flestum vötnum af sólarhita, enn vor var frostamikit ok gnædíngasamt, ok skáru menn bædi kýr ok ær austr í Mýrdal, ok þar vídar eystra milli krossmessu ok fardaga, gjördi þar ok hvervetna hardt, þvíat illar urdu nýtíngar á eptir, ok dóu sumir. Jón Bjarnason gjördist 1667

þá skólameistari á Hólum, þvíat Gísli Vigfússon lèt af, ok fór sídan utan til meiri frama ok lærdóms. Þau missiri dó Snjólfr prestr Einarsson á Seltjarnarnesi, enn Saurbæ á Hvalfjardarströnd tók Torfi Jónsson frá Reykholti, Bödvarssonar, því Hallgrímr prestr Pètursson tók at krenkjast. Kvennabrekku fèkk Þorleifr, son Jóns prófasts Jónssonar á Melum, ok hèldt lengi sídan. Bjarni Jónsson frá Hvítárbakka, er einnin kallast Bakkakot, dó á vestanför; hann hafdi látit hettu fyrir andlit sèr, enn var drukkinn, ok lagzt at sofa. Eigi komu skip um vorit sökum ófridar med enskum mönnunum ok hollenzkum, nema hleypiskúta ein til Bessastada. Magnús Þórólfsson dó undir klettum vid Olafsvík vestra, ok rak af sjó sídar. Þá andadist Gudrídr Jónsdóttir á Stadarhóli; ok vígdist Oddr Eyólfsson eldri, skólameistari í Skálholti, til Holts undir Eyafjöllum, enn skólameistari vard aptr Olafr, er heyrari hafdi verit, Jónsson frá Reykholti Bödvarssonar, bródir Halldórs prófasts, er þá var í Reykholti er hèr var komit. Kort Amundarson Bakkaláreus vard heyrari aptr, enn kyrkjuprestr Loptr, son Jóseps prests Loptssonar á Olafsvöllum. Þá kvæntist í ödru sinni Sæmundr Magnússon, Sæmundarsonar, Árasonar at Hlídarenda, ok fèkk Solveigar, dóttur Jóns prests Dadasonar í Arnarbæli, hann gjördist þá lögrèttumadr. Mál mikit var fyrir nordan í Vadlaþíngi um sumarit, voru nefndir til bændr tveir, er almennt voru haldnir fjölkunnugir mjög; hèt annar Jón Gudmundarson, ok hafdi lengi búit at Hellu á Arskógströnd, kalladr illgjarn ok áleitinn vid menn, enn annar Jón Illhugason prests Helgasonar, þess er stelpurnar hýddi í kyrkjunni, kalladr hinn lærdi, sá bjó í Skógum á Þelamörk, ok var atgjörfismadr, þeir höfdu lengi áttst illt vid, ok dó Jón á Hellu á hladinu hjá sèr heima á steini einum, ok spítti ádr blódgusum þremr; var þat eignad galdri hins, ok svo þótti mönnum, sem hann gengi mjög aptr, ok veitti mörgum ónádir. Var þó eignad gudi at sú aptrgánga hefdi hvorfit, enn ei lidsinni galdramanna, sem of mjög var tídt. Veit eg ógjörla hve hugsa skulu menn á vorum dögum, um svo marga vitra menn ok lærda, er þá voru uppi, er þat var látit vidgángast, er sumir voru brendir fyrir stafi eina ok fjölkýngisgrun, enn ekki vard eydt med röksemdum slíkum hindrvitnum ok illgirni, er þeim fylgdi, er meir var af enn í heidni, hjá þeim er þat stundudu, ok eigi ákomit því at almenníngr legdi svívirdu á fjandans átrúnad, er skömm þótti í heidni; því þat ætla

eg vist, at margir hafi hugsad at þvílíkt væri vísindi nokkur, ok fyrirmunud alþýdunni af yfirmönnum, ok væri fyllilega saklaus, ef ei væri höfd til illgjörda, því sú ætlan hefir haldizt oflengi; enn þó má vita at því veldr helzt tvennt, annad þat at þeirrar aldar kennendr hafa eigi kunnad at eyda slíku med fullskiljanlegum rökum, margir hjátrúarfullir sjálfir; enn annad, at land er strjálbyggt, ok torsókt at sannfæra hvern mann, helzt Islendínga, er skjaldan eru eins hugar, ok opt hafa margir haft litla virdíngu á tillögum fyrirmanna sinna, enn trúad betr sjálfum sèr, ok því er þeim hefir verit skapfeldt.

## XXIX Kap. Arfleidsla Brynjúlfs biskups.

Bjarni Bjarnason frá Hesti í Önundarfirdi, kom út þetta sumar í Austfjördum, frá Englandi, spurdi þá Brynjúlfr biskup andlát Halldórs sonar síns, ok reid eptir þat vestr í Önundarfjörd, ok hafdi med sèr Þórd Dadason, dóttursson sinn, 6 vetra gamlan, ok arfleiddi hann at Holti vestra eptir landslögum, at öllu því fè, föstu ok lausu, er hann ætti ok eigandi yrdi, med samþykki Jóns prests ok Þorleifs, hálfbrædra sinna, ok Gissurar prests á Alptamýri albródur síns, leiddi hann þá af med nokkrum peníngum, enn tilskildi at, ef Þórdr ætti ekki börn, skyldi sá arfr aptr falla til erfíngja sinna ok í módurætt Þórdar, enn ei til hans födurfrænda; var ok Þórdr þá arfleiddr af Margrètu Halldórsdóttur, módurmódur sinni, med samþykki brædra hennar, Benedikts sýslumanns á Reynistad, ok Hallgríms, er fyrr bjó á Vídimýri, enn þá at Vík í Sæmundarhlíd. Þórdr gjördist ok efnilegr sveinn.

## XXX Kap. Þíng ok skipakomur.

Þat bar helzt vid á alþíngi, at þángad var hafdr madr einn af Vestfjördum er galdri var borinn, sá hèt Þórarinn; hann hafdi sloppit úr járnum frá Magnúsi Magnússyni, sýslumanni í Isafirdi, enn nádist aptr af Gísla sýslumanni Magnússyni at Hlídarenda; hann medkenndi at stúlka nokkur, Hallfrídr at nafni, mundi dáit hafa fyrir galdra sína, ok at hann hefdi haft illt hjarta til Sigurdar

Jónssonar, sóknarprests til Ögrsþínga; var hann úr sókn hans, ok var mælt, at hann hefdi svo talat eitt sunnudags kvöld, er hann kom frá messu, at hardmæltr hefdi prestr verit í dag til galdramanna, enn þat væri óvist, hvert hann yrdi jafn hvatvís nærsta sunnudag; yrdi þá þegar eptir prestrinn undarlega ok þúnglega veikr, ok dæi af því; var sá Þórarinn brendr. Skip komu um þíngtímann á Austfjördum, hèldu menn enska ok Ira; þeir ræntu þar 5 bæi, þrjá í Lodmundarfirdi, ok einn á Lánganesi, voru þar med þeim 2 menn íslenzkir, þeir tóku þat allt er þeim þótti fèmætt, færdu menn úr fötum, ok slepptu nær nöktum, ok spilltu mat; öllu ræntu þeir fè Þorvardar prests Arnasonar á Klifstad ok úr kyrkjunni. Þeir komu 18 á land vopnadir í Lodmundarfirdi, ok ræntu þar duggu, enn drápu einn mann. Fólk flýdi á fjöll ok í hella frá sjónum, ok einn madr í Fáskrúdarfirdi bar med sèr ketil, ok vildi fela í urd, fèll þá á hann bjarg mikit, svo at 15 menn urdu at hefja af líkinu. Skip mikit steytti fyrir austan land, þat var hollenzkt ok Indíafar, hafdi á brott verit 7 ár, ok var á heimleid, enn setti nordr um sakir ófridarins, ok braut vid Sólheimasand; menn flestir komust upp, enn dóu mjög margir er á land komu, því þeir voru í silkiklædum einum, 300 voru alls á því skipi, enn 50 komust til bygda; þeir komu sèr í skip med Dönum um haustit er lifdu, enn sumir skiptust milli manna til vetrvistar. Svo sögdu menn, at þat sem helzt var á því skipi hefdi virdt verit fyrir 3 ok 40 tunnur gulls (ef þat er rètt ritit), þá er þat fór úr Indíum; klukkukopar einn hefdi verit barlestin, enn áhöfn gull ok perlur, silki, skarlat, pell ok purpuri, kattún ok lèrept ærit, ok mörg dýrindi, einnin demantar ok karbúnkular, desmerkettir ok margt annat; vissu menn engin dæmi um jafnmikinn aud hèr at landi kominn, sem þat er upprak smámsaman, enn sýslumönnum var tilsagt at flytja þat allt til Bessastada, því Danir kölludu þat vogrek ok konúngsfè. Þeir sem á vist voru höfdu silki til undirgirdínga ok heptínga á hestum sínum, eda lètu af hendi fyrir annat traustara. Brotit skip ok mannalaust rak ok fyrir vestan nærri Látrabjargi, med bordvid miklum ok annari vöru; ok er skip komu flest, sem var um Michaelsmessu, braut kaupfar í Hólmi, er búit var til utansiglíngar, ok lágu menn af hèr um vetrinn. Enskir nokkrir lágu ok á Vestfjördum, er flúit höfdu fyrir sjóvíkíngum hollenzkum, eda kapurum.

## XXXI Kap. Manna útkomur ok fleira.

Nú kom út Jón Þorláksson, ok heimti Mödruvalla' klaustr af Jóni Eggèrtssyni; hann var tregr upp at standa, ok urdu þar af lagadeilur ok fleiri glettíngar, fyrst med þeim nöfnum, ok sídan med Gísla biskupi ok Jóni Eggèrtssyni, þvíat Þorgrímr Olafsson, klaustrprestr, kvartadi þar um, at ei hefdi fengit lykil at kyrkjunni á tveimr sunnudögum, nè fengit opnad kyrkjuna, svo at ei væri brotinn, ok eigi hefdi messuvín fengizt til naudsynja þeim, er hann hefdi skriptad, svo þeir hefdi ordit at fara svo búnir, þarmed hefdi Jón Eggèrtsson slegit prestinn í kyrkjugardinum á helgum degi, vanvirdt ok illa leikit, svo hann vildi fyrir þá sök ei taka hann til heimuglegrar aflausnar. Fyrir þat stefndi Jón presti fyrir Þorstein prófast Illhugason, enn hann leiddi hjá sèr, þartil Jón skrifadi fyrir biskup; þarum hèldt Gísli biskup prestastefnu, ok dæmdi Jón skyldugan at standa opinberar skriptir, ok í sumum hlutum undir konúngsins nád ok ónád; stód nú í þessu fyrst. Þat hid sama haust kom út herra Otti Bjelki admiráll, bródir höfudsmannsins; hann hafdi konúngsbrèf, ok átti at láta gjöra varnarskans nokkurstadar á landinu; med hönum kom út Johan Klein umbodsmadr, ok var hann fyrstr umbodsmanna í Danmörk á vetrum. Þar voru hersveitar-höfdíngjar nokkrir ok málamenn. Þeir voru 300 saman, er þeir lögdu út, enn sótt kom í lidit, ok dóu margir í híngad siglíngu; 25 dóu hèr vid land, ok voru grafnir at Reykjavíkr kyrkju; lá skipit í Engeyarsundi. Þrjú komu þau stórskip alls híngad; var bændum bodit at flytja alla konúngs skreid frá Bessastada á Víkr sand, ok tjádi engum móti at mæla. Þat sumar gjördist Þórdr Þorláksson magíster utanlands, hann hafdi verit í Wittenbergi, ok í París á Frakklandi, ok farit sídan gegnum Holland ok Nidrlönd til Danmarkar. Jón eldri Vigfússon fèkk um haustit hinn 27da Októbris mánadar, Helgu Þorláksdóttur frá Súdavík, Arasonar í Ögri, Magnússonar; enn Sæmundr, son Odds á Borg, Þorleifssonar, Bjarnasonar frá Skardi, Oddssonar, Salvarar, systur Jóns, hinn sama dag, ok var ekki öl vidhaft, því skip höfdu seint komit; þótti mönnum þat nýlunda. Jón bjó at Stórólfshvoli, ok var sýslumadr; voru hans börn Kristín ok Erlendr at Hvoli, fadir Vigfúsar prófasts at Setbergi. 15 stórfiska rak þá á Vestfjördum, suma med járni, enn suma ei. Vard Otti Bjelki

hèr í landinu, at konúngsbodi, ok var sá vetr gódr; hann lèt brèf útgánga til allra sýslumanna, undir sýslutöpun ok hærsta straff, at leggja skyldi fè til skansgjördar, ok kvad viss gjöld á hvern, skyldi gjalda 36 dali af Kjalarness þíngi, af Borgarfjardar sýslu allri 156, af þórness þíngi 106, skyldu allir tilleggja andlegrar ok veraldlegrar stèttar; mæltu prestar mjög í móti, enn Brynjúlfr biskup sendi brèf um biskupsdæmi sitt, ok áminnti þá til hlýdni; fèll þá
1668 flestum hugr, þó fullhardir væri. Svo var skipad um þverár þíng, at 3 merkr fiska skyldi gjalda af hundradi hverju föstu ok lausu. þat var sídan allt goldit í peníngum, ok er mælt ordit hafi 15 hundrud dala.

## XXXII Kap. Mannalát ok annat.

Landskjálftar voru miklir um vetrinn; kaldt vor ok lítill grasvöxtr á eptir; týndist skip á Akranesi, ok tveir menn; ádrir tveir á Eyasandi. þá dó þorsteinn prestr Jónsson í Hollti undir Eyafjöllum, ok Torfi prestr Jónsson í Saurbæ á Hvalfjardarströnd, enn Hannes, són Bjarnar Gíslasonar fèkk þann stad, bródir Sigurdar, er um hríd var med Brynjúlfi biskupi ok sídan verdr getit; einnin Gunnlaugr Sigurdarson prestr á Bardaströnd, Hallgrímr Jónsson á Eyri, þorleifr Bjarnason at Söndum, allir aldradir prestar; Gudmundr at Nesi Bjarnason Gamlasonar, er fyrri hèldt Grenjadarstad, ok hafdi uppgefit vid Skúla prest þorláksson, ok Torfi Snæbjarnarson at Kyrkjuboli, fadir þeirra Torfasona. Steindór, son Gísla lögmanns þórdarsonar var þá gamall mjög, ok hafdi hönum enzt betr heilsa enn fè; er þat sagt, hann hafi setit eittsinn at bordi kaupmanns nokkurs í Olafsvík, svo at þar væri þá einnin Jón sonur hans, er bjó á Knerri, Sigurdr son Jóns, ok úngr son Sigurdar, ok þótti þat fátídt at 4 fedgar væri svo staddir saman. Steindór dó er hèr var komit, ok var þá med þórdi presti í Hítardal, systursyni sínum; enn af Gudrúnu, konu hans, er þat í sögnum, at hún hafi ei lógat festinni, er Jón lögmadr gaf henni fordum, þó hún væri snaud, til þess er brotnadi nistit, ok þá hafi komit úr því skjal eitt, ok þarí verit gefin henni jörd fyrir austan, ok hafi hún þar vid bjargazt í elli sinni; enn ef þat er satt, ætla eg þat nú fyrir laungu skèd verit, ok hún hafi verit skilin

at samvistum vid Steindór, ok hafi dáit fyrri enn hann. Konúngsbréf kom um Jóhan Trelund, at hann mætti fánga hvali; ok annat um Jón Vígfússon, at hann mætti búa útan sýslu; eitt um þat, at Gudbrandr prestr Jónsson skyldi fá Vatnsfjörd eptir födur sinn; eitt at Sigurdr prestr Jónsson fengi Holt; önnur var þá minna verdt um. A alþíngi deydi Magnús Gudmundarson drukkinn skyndilega. Otti Bjelke fór utan med œrnu fè, ok fèkkst þó eigi meira af svo menn viti, enn þat sem þá var ordit, nema lítit sýnishorn af skansi; slík atferli mörg hafa stodad med ödru til at letja Islendínga alls kostnadar til nýbreytni, þó þörf hafi verit. Þórdr Þorláksson kom út um sumarit, ok fór utan aptr. Þá vard ókyrrd af ótta fyrir fjölkýngi í Trèkillisvík ok í Hrútafirdi. Nýtíng var ill, ok urdu úti 8 hundrud hestar heys á Hólum í Hjaltadal, ok 5 hundrud á Þíngeyrum, tólfræd talin. Jón Eggèrtsson fór utan med mál sín, ok kærdi fyrir konúngi ok höfudsmanni, at Gísli biskup ok dómsprestar hans hefdi ránglega dæmt sitt mál, dregit sig frá varnarþingi sínu, ok gefit sèr ekki stefnufrest í 14 daga; hrakit gögn sín ok vitni, enn látit óærlega menn sverja í móti sèr, enn þó þessu væri sidar fullkomlega mótmælt; ávann hann mikit um sitt mál, ok er mælt, at fengit hafi mikit af festipeníngunum aptr, var ok Jóhanni Pèturssyni Klein umbodsmanni bodit af konúngi at setja nidr þá þrætu med þeim Gísla biskupi. Endrnýad var þá heitdagsbrèf Olafs biskups Hjaltasonar. Þat haust kvæntist Jón ýngri Vigfússon at Leirá, ok fèkk Gudrídar, dóttur Þórdar prests frá Hítardal. Teitr Torfason gekk ok at eiga Helgu, dóttur Jóns prófasts í Vatnsfirdi; Torfi, son Jóns í Flatey, fèkk Ragnheidar, systur hennar. Magnús, son Jóns sýslumanns frá Reykhólum, Magnússonar, Arasonar, kvæntist þá ok svo einn, ok fèkk Gudrúnar, dóttur Þorgils Jónssonar á Brimilsvöllum; hann gat barn med annari konu jafnsnemma. Páll prestr Kètilsson í Hvammi fèkk Gudrúnar Bjarnardóttur. Páll Torfason, bródir Teits, tók hálfa Isafjardar sýslu. Sigurdr, sýslumadr á Skútustödum, Magnússon, Arason, lá mjög lengi sjúkr, ok þjádist allmikit, hann andadist um allraheilagra messu; var hans sonr Magnús í Brædratúngu, er mál átti vid Arna assessór, fadir Sæmundar prófasts á Miklabæ ok Jóns á Núpi. Þat bar til undir jólin, at prestr til Ögrs Björn Þorleifsson vard fyrir ógrlegri kynjasótt, ok Þórun Arnadóttir, kona hans, þó enn meir; þau voru nýkomin saman;

var þat eignad göldrum, ok lètti af sídar, eptir þat er gjördar voru almennar bænir til guds. Nordan fjúk mikit kom í ymbru vikunni fyrir jólin, med hinu hardasta frosti, urdu menn nokkrir úti, enn 60 hross hröktust í sjó af Skagaströnd, ok bar sum uppá Vatnsnes; saudfè braktist vída, ok brotnudu 18 skip fyrir vedri um Skardströnd ok Breidafjardar oyar, enn tvö týndust med mönnum á Skagafirdi. A fjórda í jólum druknadi Teitr Torfason, Skálholts rádsmadr, í polli þeim er Bauluskurdr heitir, er vard fyrir hönum í myrkri skamt frá útverkum, áttu þau Helga ekki barn saman, er þau höfdu skamma hríd saman verit, enn launson átti Teitr, er Sigurdr hèt. Þótti mörgum at Teiti mikill mannskadi, ok ei sízt Brynjúlfi biskupi; enn seinna gjördi Jón Vídalín grafarletr hans þannig:

*Hic Titus Hectoreos artus et Achillea membra*
*deposuit, summo restituenda die.*

## XXXIII Kap. Frá ýmsu, helzt mannalátum.

1669 Þegar á bak jólum rak upp í Stadarsveit mörg hundrud steinbíts, ok hugdu menn þat af stormi þeim hinum mikla er verit hafdi þá. Frostavetr var þá mikill ok stórvidrasamr, gekk hann mjög at mönnum, ok helzt um Vestrland, vard mikill fellir ok hestadaudi fáheyrdr vída; var þá sá vetr kalladr af mörgum hestabani. Mest fèll í Skagafirdi, ok var kallat af fallit hefdi þúsund hesta milli Þingeyra ok Hóla í Hjaltadal; var þá ridit úr Helgafellssveit á Skardströnd. Skiptapi vard á Hjallasandi, annar í Dritvík, þridji í Stadarsveit, fjórdi í Selvogi; hlutir urdu miklir, ok var hlýtt vor ok gott, enn vída druknudu menn. Madr hèt Símon Gíslason, hann átti heimili at Saxahóli undir jökli, ok bjóst eitt kveld heim þángad af Hellissandi; hann fannst at morgni í hrauni fyrir sunnan Gufuskála-ós, daudr ok beinbrotinn. Nokkrir dóu þá af ofdrykkju. Sigurdr hèt einn madr, Eiríksson, Jónssonar, Eiríkssonar, Steindórssonar á Ökrum, Finnssonar, hann var skáld gott ok skrifari, átti hann heimili at Lángárfossi, ok fannst örendr austan framm vid Lángá; höfdu menn þat fyrir satt, at sjáfarfall hefdi undirgengit, er hann hafdi lagzt at sofa. Getit er enn á því vori eins dóms Benedikts Halldórssonar í Skagafirdi. Þá voru prent-

ádar Avenarií bænir á Hólum. Margt andadist presta: Sigurdr prestr Arnason á Skorrastad, fadir Arna prests, er þar var sídan, ok Engilbert prestr Nikolásson á Þíngvelli, læknirinn, var hann þá gamall; Grímr prestr Bergsveinsson í Gördum á Akranesi, ok Audun prestr Jónsson á Hesti, hafdi þó Benedikt prestr Pètursson tekit þar vid fyrir tveim vetrum. Einnin deydi Vigfús prestr Illhugason á Setbergi, bródurson Orms í Eyum, fadir Illhuga prests, er eptir hann kom, ok Erlendr prestr, er fyrr var í Skardsþíngum, enn þá í Hjardarholti, Einarsson, Gudmundarsonar, Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar, hann hafdi verit líkþrár, ok átti ei börn eptir, enn þángat kom aptr Eiríkr prestr Vigfússon, Eiríkssonar, Steindórssonar, Eiríkssonar frá Lángárfossi, Steindórssonar frá Ökrum, Finnssonar, hann var seinna prófastr, ok var bródir hans Olafr, fadir Kristínar á Stadarstad. Fleiri dóu prestar: einnin Gudmundr á Keldum Torfason, Eiríkssonar, Bjarnarsonar, Þorleifssonar lögmanns frá Skardi, hann hafdi átta Valgerdi, dóttur Halldórs lögmanns Olafssonar; þeirra dóttir var Gudlaug, er átti Oddr hinn digri, son Jóns prófasts Arasonar í Vatnsfirdi, módurmódir Gísla biskups Magnússonar at Hólum. Oluf Jónsdóttir, kona Hallgríms Halldórssonar í Vík, sú er fyrr átti Jón Arngrímsson, dó ein fyrir sig, ok Steinun, ekkja Eggèrts á Ökrum, módir Jóns. A þeim missirum var Jóhanni Klein leyft at taka saman ædardún allan á Islandi; enn Henrik Muller ok Hans Pètursson Bladt fengu forrád af konúngi fyrir kaupskap á 7 höfnum Islendínga, gjördust þadan af þau atvik, er mjög tóku af hina ensku siglínguna. Þá gjördi stórfjúk í áttundu viku sumars, ok fennti fè á fjöllum.

## XXXIV Kap. Galdramál.

Um vetrinn ok framm á sumar var mjög kvellíngasamt í Selárdal, vard yfrit meint Helgu Hallsdóttur, konu Páls prófasts, ok þótti mönnum af fjölkýngis ásókn vera, flýdi hún umsídir bæinn med allmörgu heimafólki; enn eptir margar bænir til guds í söfnudum þar vestra, lètti því af; kom þat þá í ord, at Jón Leifsson, drengr einn úr Arnarfjardar dölum, hefdi því valdit, fyrir þá sök at hann fèkk ekki at eiga vinnukonu hennar; Jón medgekk þat,

ok kalladi þann mann hafa kennt sèr galdra; er Erlendr Eyólfsson hèt; var hann brendr þar vestra fyrir alþíng; kom Eggèrt, sýslumadr á Skardi, Bjarnarson, á þíng med málsrekstr þann, ok köllludu lögmenn vel ok rèttvíslega slíku máli framm fylgt. Þeir greindu ok Jón Leifsson bedit hafa eptir sèr at skrífa, at Erlendr Eyólfsson væri valdr í hans ólukku, ok enginn annar, hverki daudr nè lifandi; enn Erlendr neitadi þverlega, nema því einu, at hann hefdi kennt Jóni þá mynd, er hann kalladi Ausukross. Páll prófastr ritadi einnin til lögmanna á þennan hátt: «Æruverdugum «ok virduglegum herrum ok landsins höfdíngjum, herra Sigurdi «Jónssyni sunnan ok austan, ok herra Þorleifi Kortssyni, mínum «herrum, med allri alúd! Þegar jardskjálftar gánga, grípr hverr til «fastra taka er til nær, ok eg nú, bædi mín vegna, í mínum hörm«um, sem spurt munud hafa, ok annara vegna, sem líkan málahlut «eiga, seilist til ykkar beggja, sem fastra landsins stólpa, midt í þeim «galdragángi ok ædi, sem árlega skekja ok skelfa frómra velgengni, «ok grundvöll kristilegrar kyrkju hèr á Vestfjördum, hvar um ekki «verdr ykkar herradómi svo tilkynnt sem bæri, ydar annríkis «vegna ok umsvifa á lögbergi, þó þessi leki sýnist fyrst ausandi, «sem sökkva ætlar annars þessum landsparti. Því beidist eg í «Guds nafni ok hans dýrdar vegna, at þessi Jón Leifsson, sem eg «lýsi valdan í öllum þeim kvala feiknum, sem gengit hafa í vetr «yfir mitt hús, sem málsrekstr þar um genginn ljóslega vottar, ok «12 dánumenn hafa til lykta búit, sleppist ekki undan rèttlátum «dómi, sem galdramönnum hæfir; því nái hann komast med lífi «frá þessari ódædu, sem sjálfr einnin medgengit hefir, er víst hann «deydi, kvelì, ok tjón gjöri mèr ok ödrum; er þat þá í ykkar «ábyrgd bædi fyrr ok sídar, ef þat af ykkr hlotnast, hann lífi «haldi. I annann máta tilsegi eg ykkr hans skólameistara Erlend «Eyólfsson, sem þessum Jóni hefir kennt hvernin hann skyldi «mínum þessa eymd med göldrum yfirhella, ok annann fleiri galdr «hönum sem ödrum undirvísat. I einu ordi: þessi Erlendr óráð«vandr er sekkr djöfulsins úr hverjum hann tekr hvad hverr vondr «girnist, meistari þeirra, sem lært hafa ok læra vilja, uppsprettu«brunnr alls djöfuls í þeirri sveit ok kannske vídar, fullryktadr ok «fordæmanlegr, fullr af djöfli, svo eg meina þúsund manns muni «hann afmádan vilja; enn hverir geta eda þora upp at stynja? «gáit því at gudi, hverjum þèr eigid reikníng at gjöra, svo þat

«illa, sem mögulegt er, mætti takast af Israel, annars vegna eins, «þó ekki væri fleiri, kann ólukka at koma yfir lönd ok lýdi. Gud «veri med ykkr ok styrki í því, ok öllu gódu." Var brèf þetta útgefit í Selárdal hinn 7da dag Júníí, ok álitu lögmenn ok lögrèttumenn Erlend rètt tækan af valdsmanni á Bardaströnd undir ytrustu ransókn, eptir konúngsbrèfi 1617, enn hvert þat brèf hefir híngad sendt verit fyrir lög leikr heldr tvímæli á. Þat eitt vitu menn víst, at slík lög voru til, ok vitnar þat at frekja þessi var svo annarstadar sem hèr á landi, ok má ei afráda at þær sakir, sem enginn ótti eda hjátrú fylgdi, hafi verit sóktar svo, eda heldr hèr enn annarstadar. Nádist Erlendr sídan, ok var færdr nordr Þorleifi lögmanni Kortssyni at Þíngeyrum, ok þar brendr; þótti mönnum, sem hann mælti nokkra stund úr eldi; hafdi hann medgengit ádr, at hann hefdi bædi fjölkýngi framit ok kennt ödrum. Slík ærsli gengu þá í Trèkillisvík, sem hid fyrra árit, ok var þar tveimr mönnum dæmdr synjunar-eidr.

## XXXV Kap. Umferdar ákæra.

Sveitarmanna ákæra í Kjós hafdi verit borin fyrir Dada Jónsson sýslumann, enn hann bar fyrir lögrèttuna; má þaraf sjá, at all-illa hefir tilgengit; hún var á þann hátt: «Vèr hreppstjórnarmenn ok «búendr í Kjós gjörum æruverdum valdsmanninum Dada Jóns«syni vitanligt, at vèr þykjunst fulla orsök til hafa fyrir hönum «um at kvarta þau stóru þýngsli ok átrodníng, er vèr med ödrum «þessarar sveitar búendum nokkur nærst umlidin sumur mætt höfum, «af þeim ærit mikla mannfjölda, sem til umferdar sunnan frá «sjósídunni í þessa Kjósarsveit sig gefit hefir, af hverjum fólksfjölda, «bædi karla ok kvenna, vèr meint höfum allmarga heldr færa enn «ófæra verit hafa á ádrsögum tíma sèr næríngar at leita med ein«hverjum erfidismunum, sem bædi Gud ok menn tilskikkad hafa, «ok náttúrunni ok naudsyninni vel henta. Enn vèr höfum þessa «vora umkvartan þessvegna undandregit, at vèr vid dulizt höfum «at sú umferd ok átrodníngr þesshàttar fólks mundi þannin ár«lega í vöxt fara, sem annars skèd er, svo at ef þannin lengr «framfer edr úr þessu magnast kynni fyrrnefnd fólks umferd ok «átrodníngr, þá er í þessu efni eigi annat audsjáanlegra fyrir vorri

«skynsemi, enn at þat fátækt búandi fólk sem fyrir er innan þess«arar sveitar, ok nefndum átrodníngi mætir, muni allshendis van«megnast slíkum þúnga at gegna til tæríngar líkamans edr daglegs «fóstrs, hvaraf uggandi er at, sökum þessháttar sjálfrædis umferdar «ok átrodníngs, muni ei alleina konúngleg Majestæt sína skatta ok «skyldur missa, heldr ok búandi fólkit ásamt med hinum hljóti frá «jördunum at gánga, hvar fyrir vèr bædi Guds, rèttarins, vorra «ok þessarar sveitar búenda vegna, at fyrrskrifudum valdsmann«inum Dada Jónssyni innilega óskum, at hann med einhverjum «kristilegum ok naudsynlegum upptektum, ok sæmilegu atfylgi vid «virdugligt ædra veraldlegt yfirvald, vora þessa eigi ónaudsynlega «umkvartan álíti, svo nokkrar skordur (ef mögulegt væri) vidreis«ast mætti, at upptekinn óvani ádr nefnds umfarandi sunnanfólks «í þessa sveit mætti aptrast, ok oss ok ödrum bærilegri verda." Margir dómar fóru þar framm adrir, ok enn fleira, þótt eg ætli litla þörf til at greina, þat er eigi kom til almenníngs.

## XXXVI Kap. Brynjúlfr biskup vildi segja af sèr.

Þá lèt Páll Gíslason á Hvanneyri af landþíngskrifara embætti fyrir elli sakir. Var þat sumar sigldr upp Straumfjördr, ok gjörvar þar upp búdir. Brynjúlfr biskup fèkk stadfestíngu konúngs uppá arfleidslu Þórdar Dadasonar. Þórdr Þorláksson var þá utan med Þormódi Torfasyni, frænda sínum, á bæ hans Strangalandi vid Karmsund í Stafángrs stipti, fèkk hann konúngsbrèf útgefit hinn 15da dag Júníí uppá at vera Více-biskup í Skálholti, ok þó engin laun taka, enn rèttr biskup eptir meistara Brynjúlf; ætladi um þær mundir Brynjúlfr biskup at gefa sig frá, ok hyggja menn hann af þessu hafa haft pata nokkurn; enn er Sigurdr lögmadr Jónsson vard þess vís, ritadi hann hönum á þennan hátt: «*Senectus «habet suum honorem, cupiunt juvenes, adeptam incusant.* Eg «undirskrifadr Sigurdr Jónsson, undir Guds þolinmædi lögmadr «sunnan ok austan á Islandi, læt med þeim einföldum ordum «augljóst, at mig ránkar nú vid ordróm mèr til eyrna komnum, «í þann máta, at æruverdugr, heidrlegr ok hálærdr herra biskup«inn M. Brynjúlfr Sveinsson, eptir Guds almáttugs forsjón vor and«legr yfirmann, hefdi í rádi edr áformi haft at resignera, eda af

»at leggja þat háverduga biskups tignar embætti, vid hvört vor »dýrdar herra hefir hann nú nokkur ár kristilegri kyrkju til upp»bygggíngar sparat ok vidhaldit; enn hvad helzt af þessu áformi »rædst edr ekki, þá er eg ofannefndr Sigurdr Jónsson auglýsandi, »ok alvarlega óskandi fyrir mína egin persónu, at velnefndr eru»verdugr minn herra biskupinn, M. Brynjúlfr Sveinsson, vildi samt »án umbreytíngar, eptir almáttugs Guds adstod, framvegis blífa, »svo lengi drottinn ann mèr eda ödrum landsins innbyggjurum »þess njótandi at verda, hafandi í minni þessa gömlu lærdóms-reglu: »engan skal til lausnar nefna, ok því at eins skipti ágjöra, at þeim »gángi lögleg forföll til er fyrr var nefndr. Herrann dýrdarinnar »spari vel ok lengi vorn herra biskup, ok gefi allt farsællegt, med »gódri þolinmædi í Jesú nafni, amen; skrifat vid Öxará 1669 þann »átta dag Júlíí." Einnin ritudu prestar hönum til látinnbrèf um hid sama, ætla menn Þorleif prófast Jónsson í Odda samit hafa, bródur Sigurdar lögmanns, voru þeir undirskrifadir, Þorleifr prófastr, Torfi prófastr Jónsson í Gaulverjabæ, Halldór prófastr Jónsson í Reykholti, Einar prófastr Illhugason á Reynivöllum, Jón prestr Dadason í Arnarbæli, Arni prestr Halldórsson í Hruna, bródir Dada, Þórdr prestr Bárdarson á Torfastödum, Jón prestr Snorrason at Mosfelli, Jón prestr Gíslason í Middal, Hannes prestr Bjarnarson at Saurbæ vid Hvalfjörd, Páll prestr Gunnarsson á Gilsbakka, Loptr prestr Jósepsson í Skálholti, Þórdr prestr Þorleifsson á Þíngvelli, frændi biskups, Einar prestr Magnússon í Mörk, Helgi prestr Grímsson at Húsafelli, Jón prestr Oddsson í Skrauthólum, Alfr prestr Jónsson í Kaldadarnesi, Jón prestr Steffánsson á Seltjarnarnesi, Þorleifr prestr Arnason at Kálfafelli, Sigurdr prestr Jónsson at Hólmum undir Eyafjöllum, Jósep prestr Loptsson á Olafsvöllum, Sigurdr prestr Helgason vid Hellna, Hallgrímr prestr Pètursson, er Saurbæ hafdi haldit, ok þá bjó at Ferstiklu. Þessu tók Brynjúlfr biskup vel, kom til alþíngis, ok sat Synodum generalem, sem hann var vanr.

## XXXVII Kap. Frá ýmsu.

Þetta sumar kom út Jón Eggèrtsson, ok þóttist hafa sigr mikinn, enn hafdi þó kostad ærnu til, voru þó í þann tíma audveldar

utanfarir; Jóhan Klein kom ok út med konu sína ok börn. Þá var mál vestra, ól Ragnhildr, dóttir Torfa prests Snæbjarnarsonar, barn at Kyrkjubóli, ok kendi Snorra presti Jónssyni at Eyri, hann var bródurson Jóns prests Magnússonar skálds í Laufási; sídan dó hún ok barnit, enn brædr hennar, Einar ok Páll Torfasynir, áttu at sækja eptir rètti ok rádspjöllum; stefndi Páll Snorra ok samdist med því, af lögmönnum ok lögrèttumönnum, at Snorri galdt 10 hundrud í föstu, enn 20 hundrud í lausu; fèkk þá Bjarni Gunnlaugsson prests, Snorrasonar, Margrètar Torfadóttur; þeirra son var Torfi prestr at Snæfjöllum, enn Rögnvaldr Ragnheidar, son Sigmundar Gíslasonar, Jónssonar á Svarfhóli. Gísli Vigfússon frá Hvoli kom þá út, ok hafdi fengit magistri gradum. Þá tók Teitr prestr Halldórsson vid Gufudal, enn Jón eldri, son Sigurdar lögmanns frá Einarsnesi, fór utan. Skadar urdu enn nokkrir, ok smærri tídindi, ok nenni eg ei at tína. Orm þóttust menn sjá í Lagarfljóti um haustit, ok hefjast hátt; þá var margslags sótt, ok flekkjasótt sum, gekk svo framm á vetr um allt land, ok sofnadi margt fólk. Jón prestr Einarsson, bródurson Þorláks biskups nýkvæntr frá Glaumbæ, týndist þá í hèradsvötnum, ok annar prestr, er Þórarinn hèt, úr Kelduhverfi, austr í Jökulsá.

## XXXVIII Kap. Mál Jóseps sona.

Þat hafdi enn borit vid á þeim tímum í Skálholti, at fóstrdóttir Brynjúlfs biskups, Ragnheidr, dóttir Torfa prófasts Jónssonar, frænda hans, fríd sýnum ok vel á sig komin, vard til þrætu þeim Lopti presti Jósepssyni ok Jóni Sigurdarsyni yngra í Einarsnesi, hann var þá skólasveinn; höfdu þeir bádir hug á henni. Komu þá flog nokkur at Jóni ok andvökur, ok þó ei nema þá hann var í Skálholti, hugdu menn þegar þat væri af galdri, ok eignudu Lopti presti Jósepssyni ok Skapta, bródur hans, höfdu þeir hótad Jóni nokkud svo, ok þat sagdi Jón, at prestr hefdi fengit sèr stafi nokkra vid svefnleysi, enn sèr hefdi heldr ordit vid verra enn betra; kvadst hafa látit þá í bók, ok mundi Skapti frá sèr tekit hafa, því hann hefdi skilad sèr bókinni; kvad ok Skapta sett hafa tvo stafi á halsband sitt. Þarum var haldin prestastefna, ok átti Loptr prestr at færa sig undan med tylftareidi; þat mátti hann ei gjöra,

ok vard hann grunadr um medvitund; sídan var hann settr af prestskap, enn biskup vildi ei selja hann í hendr veraldlegum dómendum, eda jafnvel brennudómi, ok ritadi konúngi hans málefni; fór Loptr prestr sídan utan, ok var í Danmörk ok Holsetulandi ok Svíþjód um lánga tíma, ok adstodadi presta, þar sem hann fèkk. Jón Sigurdarson gat barn vid Ragnheidi, ok fèkk þat biskupi mikils, vildi Jón fá hennar, enn þat tjádi ei medan biskup lifdi. Jón var þó vel farinn ok gjördist mikilsháttar seinna, enn var kalladr kvennsamr af sumum. Skapti fór laungu seinna nordr til Hóla, ok bjó seinast at Þorleifstödum í Skagafirdi, vard hann madr gamall, ok var fadir Þorleifs prófasts ok Magnúsar á Vídimýri, födur Sæmundar, ok þeirra systkina.

## XXXIX Kap. Arferdi, tídindi ok þíng.

Sá vetr var gódr, enn hardnadi; þá gekk hlaupabóla vestra; 1670 prentad var á Hólum *Dominicale* ok Hallgríms sálmar, bænabók Gudbrands biskups, ok nokkrar huggunar greinir móti freistíngum. Þá var gott fiski-ár fyrir nordan, enn medallagi sydra. Skip týndist á Eyrarbakka med 6 mönnum, enn 3 komust af; annad med þremr mönnum vid Hvalnes. Stöku menn druknudu, eda urdu brádkvaddir, enn einn var sá í Hrútafirdi er hengdi sig í hrosstagli. Þessi missiri urdu lát margra merkilegra manna. Fyrst andadist um vetrinn Fridrikr konúngr hinn þridji, ok tók ríki Kristián sonur hans hinn 5ti med því nafni, hann gaf út brèf um hollustu eid sinn, ok annat at skógr væri ei höggvinn á kyrkjueignum at þarflausu, eitt um kauphöndlunar fèlag á Íslandi. Þessir öndudust hèr út: Einar prófastr Sigurdarson, Einarssonar frá Heydölum, hann hèldt Stad í Steingrímsfirdi; Sigurdr prestr Torfason á Melum, bródir Þormódar; Ketill prófastr Jörundarson í Hvammi, merkilegr madr; Jón Sigurdarson, bartskeri í Káranesi í Kjós, eptir hann orkti Hallgrímr prestr Pètursson, ok var hann lofadr at mönnum; Gudmundr Þorleifsson í Arnardal; Gudmundr prestr á Þæfusteini; Þórdr prestr Jonsson í Hítardal, hann var höfdíngi, ok hafdi átta Helgu, dóttur Arna lögmanns, voru þeirra börn Jón ok Þorsteinn á Skardi, ok Gudrídr, er gipt var Jóni Vigfússyni at Leirá. Um sumarit andadist frú Margrèt Halldórsdóttir, kona

Brynjúlfs biskups, ok sídan þórdís Jónsdóttir at Leirá, ekkja Arna lögmanns, ok fór Jón Vigfússon fyrst þángat eptir þat. Gudmundr prestr Erlendsson í Felli var andadr ádr. Danskr madr vo íslenzkan í Djúpavogi, skaut hann, er þeim bar til, flýdi sídan til Berufjardar, enn þorsteinn sýslumadr eystra þorleifsson, Magnússonar, nádi hönum, þó fríadist hann sídan. Kona ein á Höfdaströnd bar út barn sitt, ok var líflátin, ok fleiri urdu misferli. Sá vard ómerkilegr hlutr, er því er talinn at skrásettr hefir verit ádr, ok þó meir hins vegna, at menn héldu þá slíkt forboda fyrir dómadegi; þat var at fátækan mann dreymdi í Seydisfirdi mann einn ókendan, þóttist spyrja hann at heiti, sá nefndist rádsvinnr, rádhollr, rádgjafi, ok kvad þetta:

Hætta stór, heiminn er allt um kríng,
undan fór ydrunar áminníng,
enginn hana aktar neitt, allfáir geyma,
er því bruna bálit heitt búit þeim gleyma,
sjáit vid, senn lída tídir,
brúsa lid blæs hardt ok strídir,
lömb ok kid leidast um sídir;
einn ok sèrhvör sjái at sèr.
Kemr, kemr, kemr snart, kemr óvart,
kemr, kemr, kemr snart, Kristr at dæma.

Henrik Bjelke höfudsmadr kom ei út; var hann þá aldradr ok þúngfær. Var sendr konúnglegr kommissaríus Jens Rodsteen af Leerbek, kom hann undir Vestmanna-eyar hinn 28da dag Júníí, ok nádi ei alþíngi; med hönum var Teitr Pètursson, fóstrson meistara Brynjúlfs, hann sendi admírállin Rodstein til umbodsmannsins Jóhans Pèturssonar Klein, því hann hafdi verit hèr um þann vetr; var Teitr settr upp í Vestmanna-eyum, ok þadan til fastalands, ok fór hann med flýti til alþíngis, svo at fógetinn fèkk hinn 1ta dag Júlíí birt lögþíngis mönnum inntak brèfsins, ok tilsagdi þeim öllum, er tilnefndir voru, ok þar voru samankomnir, at gegna konúngs eyrindi, ok bída á lögþínginu til þínglausna, enn ella fara sudr at Bessastödum, ok þat kusu þeir. Á þíngi veitti Jóhan Klein Sigurdi, syni Bjarnar Gíslasonar, landþíngskrifara embætti; því Páll Gíslason á Hvanneyri hafdi aflátit fyrir elli-sakir, vann

Sigurdr eidinn. Þar kom fyrir galdramál, borit Sigmundi Valgardssyni úr Stranda sýslu, hana höfdu þeir Magnús Jónsson ok Vilhjálmr Arnfinnsson, ok voru í dómi med Þorleifi lögmanni Kortssyni þeir lögrèttumenn: Sigurdr Jónsson, Sæmundr Magnússon at Hóli í Bolúngarvík, Arni á Heylæk, son Vigfúsar prests Helgasonar, Þorgils Jónsson á Brimilsvöllum ok tveir adrir; enn med Sigurdi lögmanni Arni Pálsson, Magnús Kortsson í Arbæ ok 4 adrir, ok slapp Sigmundr med hýdíngu, því hverki medkenndi hann, nè þóttu líkur nógu sterkar. Þrætumál kom þar meistara Gísla Vigfússonar, ok Jóns Eggèrtssonar vid Þorvald Gunnlaugsson í Hrísey, um eptirskilit fè Markúsar Jóhanssonar Mumms. Eyólfi Jónssyni úr Stranda sýslu voru dæmd þrjú húdlát, sem mest fyrir galdra líkur; ok fleira kom þar enn slíkt fyrir, ok mörg mál önnur. Eitt var dómr Bents Lárizsonar hins sænska at Laugarbrekku, milli Stapa kaupmanns ok Bödvars Jónssonar á Yxnakeldu. Eptir þíngit fóru menn sudr at Bessastödum, ok unnu eidana fyrir admirálnum hinn 9da dag Júlíí, ok las Jóhan Klein þá fyrir, fyrst meistari Brynjúlfr biskup ok Gísli biskup, þarnæst 6 prófastar úr Skálholts umdæmi, Þorleifr Jónsson í Odda, Torfi Jónsson í Gaulverjabæ, Björn Snæbjarnarson at Stad, Einar Illhugason, Vigfússonar at Vindási í Kjós, Eiríkr Vigfússon í Hjardarholti, ok enn einn; enn þrír at nordan, Skúli Þorláksson á Grenjadarstad, Hallgrímr Jónsson at Glaumbæ, ok Þorlákr Halldórsson at Audkúlu; þá sýslumenn, þá 2 lögrèttumenn ok 2 bændr úr hverri sýslu, er allr almúgi hafdi fengit umbod sitt; prestar höfdu ok gefit hinum umbod, er á þíngi voru. Þar eptir var haldin ágæt veizla öllum fyrirmönnum, er þiggja vildu, ok heitit mildri stjórn, enn nýnæmi engin bodud; þar gjördi Jóhan Klein sátt med Gísla biskupi ok Jóni Eggèrtssyni, án útláta á bádar sidur, fyrir medalgaungu 24 hinna beztu manna, er Jens Rodsteen kommissaríus útnefndi; urdu fyrir gjörd ok medalgaungu meistari Brynjúlfr biskup, ok lögmenn bádir, Sigurdr Jónsson ok Þorleifr Kortsson, sýslumenn hinir helztu ok adrir beztu menn, fannst mörgum til hve vitrlega ok djarflega Jón Eggèrtsson svaradi þá fyrir sig, ok þó skikkanlega; enn ekki dugdi sú sætt til hlítar, sem jafnan verdr þá er óvild er innkomin. Meistari Þórdr Þorláksson hafdi fengit stadfestíngu Kristiáns konúngs uppá biskupsdóm í Skálholti, ok kom hann út med admirálnum, ok fór til Hóla til Gísla biskups, brodur

síns. Admiráilinn birti þat Brynjúlfi biskupi, at konúngr vildi at Islendíngar hefdi nokkra kaupböndlan sjálfir, sem adrir þegnar hans, ok bad hann auglýsa þat prestum í öllu hans biskupsdæmi, ok vita hvad þeir treystu sèr til at leggja, svo upplagdir peníngar eda höfudstóll mætti verda; þarum ritadi biskup prófóstum til, ok bad þá halda prestastefnur í hèrudum, ok senda sèr aptr svar brèflegt fyrir sumarmál hin næstu; fýsti hann þá at taka því nádarbodi konúngs med þökk ok hlýdni, kalladi þat bædi mildilegt ok nytsamlegt, ok óvíst hvert betr færi ef neitad væri; enn flestir töldu vankvædi á fyrir fátæktar sakir at taka því bodi, ok kom þat svo fyrir ekki.

## XL Kap. Mál Jóns Vigfússonar, ok enn fleira.

Þetta sumar kom sá skipstjórnari med kaupfari sínu í Straumfjörd, er Thor Brunnersen hèt; hann kærdi skriflega yfir Jóni Vigfússyni sýslumanni, at hann hefdi hinn 15da dag Agústi yfirfallit sig ok stýrimann sinn, Pál Bocsted, med höggum ok slögum, sem gódir menn vissi, bædi íslenzkir ok danskir, ok heitit at skipstjórnarinn skyldi fá ólukku, ok ekki vel komast heim aptr í sitt land; beiddist hann því, at yfirvöld í landi hèr hèldu þeim sýslumanni til at setja sèr fullnóga borgun fyrir skipit, ádr hann færi hèdan, ella neyddist hann til at setja þat upp. Þar vard ekki af, ok lagdi skipit út um haustit, ok braut á Kotfjörum austr hjá Landeyum, týndust tveir menn ok mikit fè, ok vard margrædt um. Var Jóni sýslumanni dæmt at vinna eid fortakslausan, at hann hefdi aldrei galdr eda fordædu lært nè brúkat, ok aldrei í rádi verit, vitordi eda samsinníngu med fjölkýngis mönnum, ok ei sè hann valdr töpunar þess skips eda manna, sem í Straumfirdi voru, ok ströndudu á Kotfjörum í vestri Landeyum á Islandi; þann eid skyldi hann vinna hinn 8da dag Júlíí at Smidjuhóli í Mýra sýslu í návist fógetans Jóhans Kleins. A þessum missirum vígdist Einar Torfason, Snæbjarnarsonar, til Stadar í Steingrímsfirdi, eptir Einar prófast Sigurdarson, var hönum þó mjög mótmælt, því hann var þokkadr all-lítt. Þá fèkk meistari Gísli Vigfússon Gudrídar, dóttur Gunnars prests á Hofi; þeirra son var Vigfús á Hofi. Þá var hjónabandsmál þeirra Einars Gudmundarsonar ok Sigrídar Þorkels-

dóttur úr Húnavatns þíngi. Gjördist Helgi Jónsson prestr at Melum, ok keypti at fógetanum veitínguna fyrir 100 dali. Þessir menn deydu þá enn: Bárdr Gíslason í Vatnsdal, lögrèttumadr vitr, er skírt hafdi Jónsbók, fadir Þórdar prests, ok Gísli Jónsson í Melrakkadal, kalladr hinn lærdi, bródir Þórdar prests, er var í Hítardal, hann dó skyndilega í Höfda kaupstad. Þá kvæntist Dadi Jónsson sýslumadr í Kjós, ok fèkk þjónustu stúlku Mattíasar Gudmundssonar á Stapa danskrar, hún hèt Margrèt Gam, þeirra börn voru Jónas Gam í Maríubæ á Sjálandi, Pètr á Vallá í Kjós, Ursula ok Soffía, er Lárits Skevíng á Mödruvöllum átti seinna enn Þórunni, dóttur Þorleifs Kortssonar, var Hannes son þeirra Þórunnar, enn Hans son þeirra Soffíu. Skipti urdu þá á sýslum; hafdi fallit misklíd milli Bjarnar Pálssonar á Espihóli ok fógetans, enn Björn, son Magnúsar lögmanns, bjó þá at Múnkaþverá, hèldt klaustrit, ok var í uppgángi; kom svo, at Björn Pálsson sleppti sýslunni, enn Björn Magnússon festi hana fyrir ærna peninga, þar med gaf Helga Gudmundardóttir, kona hans, 50 dali konu fógetans, hugdu þau eigi þá, hve útseljast mundi. Jón Þorláksson hafdi ok skipti um þær mundir vid Þorstein, son Þorleifs Magnússonar, sýslumann í Múla sýslu, er átti Elínu, systur Jóns, þóttist Jón ei meiga vera á Mödruvöllum fyrir fjölkýngis áreitíngum af Jóni Eggèrtssyni, ok gaf Þorsteinn hönum upp sýslu sína, nema fjóra hina nyrdstu þíngstadi, þeim hèldt hann, ok hafdi Martein, son Rögnvalds prests Einarssonar, at umbodsmanni; fór hann um haustit nordr, enn er hann var kominn med lest sinni yfir brúna á Jökulsá, gjördi med kvöldinu vedr mikit med snjó, ok braut brúna, ok var þat kallat brúarbilr. Þorsteinn var gæflyndr ok fastlyndr, ófrídr sýnum, kvartadi hann ekki yfir gjörníngum af Jóni Eggèrtssyni, ok var þá haldinn fjölkúnnugr, sem fadir hans. Gudmundr Steindórsson hèldt Hunavatns sýslu hálfa, móti Gudbrandi Þorlákssyni, ok var afsettr, enn Gudbrandr, son Arngríms prófasts lærda, fèkk þann hlut aptr, hann var fadir Þorláks Vídalíns, þvíat Arngrímr prófastr hafdi fyrstr Vídalíns nafn, ok þadan hafdi þat Jón biskup, sonarsonr hans, ok Páll dóttursonr hans. Gudbrandr bjó í ýmsum stödum, ok var vel látinn ok skáld gott, enn opt átti hann óhægan fjárhag; enn af Gudbrandi Þorlákssyni var lítit látit. Björn Pálsson á Espihóli átti Ragnheidi, dóttur Magnúsar bónda á

Reykhólum Arasonar í Ögri, þeirra börn voru Magnús á Espihóli ok mörg önnur; Björn var athafnamadr, ok hýsti vel bæ sinn, ok er frá hönum kyn mikit.

## XLI Kap. Frá Brynjúlfi biskupi.

Þann dag, er Margrèt Halldórsdóttir átti at jardast, kona Brynjúlfs biskups, vígdi hann þrjá presta, ok stód líkkistan á medan í kyrkjunni, enn biskup framdi þó verk sitt med allmikilli hugprýdi; enn medan jardarförin skedi fèll hann í ómegin nokkrum sinnum; hann var þá ok horfinn þeim öllum, er hönum voru nákomnastir. Seldi hann þá allt sitt fè í Borgarfirdi, fast ok laust, med gódu verdi, hverjum þeim er kaupa vildi, enn keypti aptr fasteign mikla í Austfjördum, var þat erfingjum hans til hins mesta óhagnadar. Hann hafdi látit smída skemmu mikla ok sterka á Hæli í Flókadal, til at geyma í smjör, katla ok annad lausafè, enn seldi sídan med jördunni. I skipaskaga hafdi hann látit byggja krosshús mikit ok sterkt. I Túngufelli í Hrunamannahrepp átti hann 5 hundrud, lèt þar skipta túni, engjum ok skógi úr þeim hluta jardar, ok byggja vid túngardinn bæ af grundvelli sterklega, öll hús med súd ok þili, ok kalladi Jadar; nokkru sídar gaf hann þau 5 hundrud med allri byggíngu Sveini, syni Torfa prests Jónssonar frá Gaulverjabæ, frænda síns, er þar nafn födur hans; sá Sveinn hèldt Múnkaþverár klaustr laungu seinna. Med slíkum hætti lèt hann byggja af grundvelli med miklum ok sterkum vidum öll bæarhús hjá Gröf í Grímsnesi, ok kalladi Grafarhól, ok lèt gjöra garda umkríng, enn gaf litlu sídar þá jörd Sigrídi Hákonardóttur í Brædratúngu. Bordsilfr sitt smídad, skeidar, staup ok skálar, margt vel gjört ok óbrúkad, lèt hann sídarst umsmelta, edr hann seldi þat eptir vigt fyrir dali, þeim er kaupa vildu, sídan lèt hann íslenzka smidi gjöra þaraf annad bordsilfr eptir sjálfs hans fyrirsögn, sterkt, stórt ok vidhafnarlaust, enn þó var ei grunlaust um sumra smídi, hvert ei væri falsat. Bókhlödu sína ágæta, þar er komin var saman flest frædi, geymdi hann i nordrstúku kyrkjunnar; vard hann þess var eitt sinn, at mús hefdi nagad eina eda adra bók, þá hèldt hann at hún mundi leggjast á hveitilím útlenzkt, er í bókunum var, ok lèt því rífa þær úr gódu bandi

útlenzku, ok binda aptr í trèspjöld ok band íslenzkt, ok hèr-tilbúit skinn, ok bera mikit skinnlím í; tjádi engum at telja hann af slíku, því allt hlaut jafnan at vera sem hann vildi. Enn þótt hann væri svo tilbreytinn í slíku, þá var hann eigi laus í embættis athöfnum sínum edr vináttu. Vard þat ok einmælt, at hann hefdi verit hinn mesti madr af sjálfum sèr um flesta hluti. Bjarna Einarsson frá Asi í Fellum hafdi hann fyrir umbodsmann um jardakaup sín eystra; ætladi hann at láta Þórd dótturson sinn stadnæmást þar, sem þær jardir lágu, svo at sem fjærst væri Bessastada valdi.

## XLII Kap. Frá Jóni Vigfússyni, ok ýmsu ödru.

Næsti vetr eptir þau tídindi, er nú voru talin, ok eidasumarit, 1671 var hardr ok þurt vor; fiskr var mikill fyrir sunnan. Þá dó Mattías Gudmundsson á Stapa med undarlegum hætti, hann var mjög í skuldum ok lítt þokkadr af flestum; Marin Eiríksdóttir hèt kona hans, ok var jótsk, ok mikil vexti, hennar fèkk Bent Láritsson hinn sænski, hann bygdi Bentsbæ vid Búdir, ok var búsýslumadr mikill; enn seinna fèkk hennar Jakob Benediktsson, danskr madr frá Jótlandi, hann tók þar sýslu ok umbod eptir Mattías. Þann vetr andadist ok Vigfús Hákonarson frá Brædratúngu. Fjórir menn týndust á Seltjarnarnesi ok einn í Höfnum af skipreika, ok skip týndist í Jökulfjördum vestr med fjórum mönnum. Þrír menn urdu úti fyrir nordan ok einn á Lónsheidi. Þá gjördi vedr mikit, ok braut búdir dana á Djúpavogi, ok 30 skip íslenzk á Austfjördum. Skrida hljóp á Reynivöllum í Kjós, laugardags nóttina fyrir páskir, ok tók af mestan hluta túnsins, hún klaufst um bæinn, enn grandadi hverki mönnum nè fè. Hús hrundu í Grímsnesi ok Ölvesi af landskjálftum. Bólusótt gekk enn á Vestfjördum hæg, ok þó fleiri sóttir vídar. Smalamadr at Bustarfelli í Vopnafirdi fannst úti myrdtr. Þá var prentat á Hólum rím meistara Þórdar Þorlákssonar, Musculi bænabók, sálmabók ok Davids saltari hinn stutti. Hardindi voru þá ok snjóar miklir hvervetna, kvádu svo at ordi prestar í Borgarfirdi, er þeir svörudu því er biskup rèdi þeim at leggja saman í kaupskip: „Þridja afsökun er," sögdu þeir, „almennilegar óhægdir, ok bágindi vors bjargrædis af ýmsum

„áttum ok tilfellum: at nordan hafisinn, at sunnan hretvidri, sumr-„in stutt, vetrnir lángir, nú grasbrestrinn, þá nýtíngarleysit, hèr „hagaskortrinn ok jardbönnin, þar hretvidri, hrídir ok hrakn-„íngar, bætast á illdýri, húngr ok hordaudi hjardá vorra ok fèn-„adar, enn af eptirstödvunum hljótum vèr at taka almennilegar ok „árlegar skuldir." Yfirstódu þá hórdómsmál Þórdar prests at Undir-felli í Vatnsdal, hann var son Þorláks, Þórdarsonar at Mardarnúpi, ok vafdi þau lengi; ok urdu mörg misferli. A alþíngi komu fyrir mál mörg úr sýslum Dada Jónssonar ok Jóns Vigfússonar eldra í Arness þíngi, ok annara. Eggèrt Bjarnarson frá Skardi bar framm galdramáls rekstr sýslumanna á Bardaströnd um Jón Ulfsson, enn hann vildi ekkert medkenna, var hönum dæmd hýdíng sem nærst lífi hans. Magnús Magnússon ok Páll Torfason, sýslumenn í Isa-firdi, komu med þann mann, er Sigurdr Jónsson hèt, hönum hafdi sá madr borit galdra, er Gudmundr hèt Magnússon; þar um nefndi Jóhann Pètursson Kléin, höfudsmanns umbodsmadr, ok lögmenn sýslumenn þá í dóm, er á alþíngi voru, Eggèrt Bjarnarson á Skardi, Gísla Magnússon á Hlídarenda, Þorstein Þorleifsson, Jón Vigfús-son eldra á Hvoli, Björn Magnússon á Múnkaþverá, Dada Jóns-son úr Kjós, Jón Vigfússon á Leirá, Jón Runólfsson, Gudbrand Arngrímsson, Jakob Benediktsson á Stapa, enn lögrèttumenn Amunda Þormódsson, ok Sigurd, son Arna lögmanns Oddssonar. Med-kenndi Sigurdr galdra á blödum, guds ords vanbrúkun ok adra hjátrú, med illum atvikum, enn ekki særíngar ok formæli, sem hann hafdi gjört í hèradi, var hönum dæmt líflát, ok at brenna búkinn. Jón Vigfússon vann eidinn, er hönum hafdi dæmdr verit, enn þó vard hönum þá nokkud annat til ákæru. Dugga hollenzk hafdi komit snemma um vorit á Krossvík á Akranesi, þar var á Torfi, son Hákonar Bjarnasonar, Hákonarsonar, Arnasonar at Hlídarenda, frændi Jóns, hann hafdi fengit stadfestu í Hollandi med þeim hætti, at hann kom híngad undir land á sumrum á duggum, til at verdslá nokkru til frammfæris sèr; var hann frómr madr, enn óheppinn í fiárhag sínum; hann fór á fund vid Jón sýslumann, frænda sinn, ok kannadist hverr vid annann, fór sýslu-madr til skips med Torfa, ok er ei getit, hvad þeim fór í milli. Enn einn morgun litlu sídar, kom Torfi á land í Skipaskaga ok tveir bátsmenn hollenzkir med 6 tóbaksrullur, eptir því sem þá var venja til at flytja, ok báru í búd Hannesar Teitssonar, erlegs manns, er

opt geymdi eitt eda annat fyrir sýslumann; tók Hannes vid þeim í þeirri meiníngu, at þær mundu sýslumanni tilheyra; hann lèt ok mann sinn flytja þær á hestum heim at Leirá. Enn á medan duggan beid eptir Torfa, ok Torfi eptir verdinu, kǫmu menn frá Bessastödum, ok tóku hann ok dugguna, ok fluttu sudr þángad. Var Torfi hafdr uppá alþíng til vidtals ok andsvara vid sýslumann, ok lýsti því borliga í lögrèttu, at þær tvær tóbaksrullur hefdi sýslumadr keypt af sèr, ok heitit vísu verdi fyrir, enn ekki afhendt, ok í þeirri meiníngu kvadst hann þær í land hafa látit flytja til Hannesar Teitssonar, eptir umtali þeirra; þar gekk sýslumadr í móti, ok kvadst hafa markad þar í skipinu rullur þær undir konúngsmark K ok M med krít, ok þar svo eptirskilit; voru þær fluttar fjórar, at forlagi sýslumanns til Bessastada, ok voru 2 vættir ok tveir fjórdúngar med trè ok mottum; stód þat svo um hríd. Var Jón Ulfsson hýddr þar á þínginu, enn Sigurdr drepinn ok brenndr sídan. Enn Torfi fór slippr til Hollands, gjördist þar Kalvinisti, ok dó seinast af brennivíni.

## XLIII Kap. Tilburdir ýmsir.

Þat bar til þessi missiri, at gipt kona í Grímsnesi stakk sig í kvid á knífi, er hún hafdi týnt í rúmi sínu, fór á fætr sídan, ok skar sig á háls. Fór utan hinn danski madr, er vígit vann, ok galdt erfíngjunum 80 dali, veit eg ei hvert hann var sektadr meira, ok var ei gód stjórn, er íslenzkir valdamenn skyldu ei meiga dæma hann um víg, þó at konúngr hefdi þá linad seinna. Sigurdr kom þá út, son Sigurdar prófasts í Stafholti Oddssonar, ok hafdi fengit konúngsbrèf fyrir Hítardal, enn Sæmundr prestr son Odds Þorleifssonar, var þá vígdr þángad, ok hafdi veitíngu Jóhans Kleins fyrri, sendu þeir þá konúngi sitt málefni bádir. Konúngsbrèf voru gefin út um íslenzka fálka ok hesta, ok at sýslumenn uppberi kostnad sinn af fè óbótamanna at loknum skuldum. Þau ár var jafnan íllt med Birni Pálssyni á Espihóli ok Jóni Eggèrtssyni. 2 menn druknudu á Breidafirdi, er fluttu kvígur, því önnur var óbúndin. Þá var hlýtt sumar, enn grasvöxtr þó lítill, ok gott haustit. Sá madr gat barn vid dóttur sinni, er Jón Eiríksson hèt, í Skálanesi á Austfjördum, lýsti hún á hann naudúngu, enn hann

týndi sèr sjálfr viku sídar. Jóhann Klein fór utan um sumarit, enn allir eptirlegu menn úr höfnum, ok var þeim bannad at liggja hèr um vetr. Sumir menn hlupu í burtu at austan eginkvæntir, ok tóku med sèr adrar konur. Þá andadist Gudrún Gísladóttir lögmanns, ekkja Magnús lögmanns, hún var þá at Eyrarlandi, ok gömul mjög, ok var jardsett at Mödruvöllum. Þá dó ok Bjarni prestr á Þaunglabakka nordr, Alfr prestr Jónsson í Kaldadarnesi, Jón prestr Gunnlaugsson á Núpi; þann stad fèkk Dadi Halldórsson þá. Fleiri prestar dóu, ok svo nokkrir menn adrir af misförum. Oddr Jónsson, prófasts í Vatnsfirdi, Árasonar, fèkk þá Gudlaugar frá Keldum austr, hann bjó at Reynistad sídan. Þat sumar kòm út Þormódr Torfason at taka arf eptir Sigurd prest, bródur sinn, á Melum, seldi hann fasteign sína alla út hèr fyrir 18 hundrud dalí, þarmed var Svignaskard; sídan fór hann utan aptr í Höfda ok til Hollands, enn þadan á ödru skipi til Danmarkar; þar var med hönum Loptr prestr Jósepsson, því hann var dæmdr á konúngs nád, ok tveir adrir íslenzkir menn, braut skipit vid Sámsey, ok vard bjargad mönnum ok nokkru fè; Sigurdr Asgeirsson hèt einn Islendíngrinn, hann ok bátsmadr deildu drukknir, ok kom Þormódr þar í, ok vard banamadr bátsmannsins ófyrirsynju, voru þeir þá teknir ok settir í hald, Þormódr ok Sigurdr; dæmdist Sigurdr frí seinna, enn konúngr nádadi Þormód. Er sagt hann hafi verit margbreytinn ok nokkud bardlyndr, ok ordit mannsbani, er hann átti þó at verja sig, enn hversu sem var, þá frelsti hann lærdómr hans, djarfleikr ok snilli. Þá fór Arni prestr úr Dýrafirdi Loptsson, Arnasonar, til Sælíngsdals, enn þángad fór Bjarni prestr Brynjúlfsson, ok þá visiteradi Brynjúlfr biskup Vestfjördu í 7da sinn. I þeirri för hygg eg þat hafa verit, er hann reid um Hvalfjardarströnd ok um þat framm, er Hallgrímr prestr Pètrsson var, ok þá nær karlægr, ok er sagt hann hafi sendt til hans med sálm, enn hann hafi snúit aptr vid ok vitjad hans. Kona var drekkt í Húnavatnsþíngi fyrir barnsmord, hún hèt Gudrún Bjarnadóttir. Þá dó Hannes Arnason í Nordtúngu ok Helgi í Einarsnesi. Aflagt var þá aptr brennisteinsverk í landi hèr, ok má þó verit hafa all-ardsamt. Um haustit fór meistari Þórdr Þorláksson utan, ok var vígdr um vetrinn í Kaupmannahöfn til Vícebiskups í Skálholt af Doktor Jóhanni Vandalín, ok vígdir eins meistari Arnold de Fine til Vicebiskups í Noregi.

1672

## XLIV Kap. Mannadaudi.

Sá vetr var stórvidrasamr á Islandi; þá andadist Vigfús prófastr Arnason at Hofi í Vopnafirdi, ok fèkk þann stad Teitr Pètrsson frá Skálholts kyrkju; hann átti ferd yfir Brúará, ok reid djarflega, ætladi at láta synda eptir ferjunni, enn hönum sló í kaf ok hestinum, rak hestinn upp daudan, enn hann hugdu menn sjálfan í leir fastan ordit hafa, þó fannst lík hans seinna. Þá dó ok Gunnar prestr Bjarnarson at Hofi á Höfdaströnd, Jón prestr Erlendsson í Villíngaholti, ok Eyólfr prestr Jónsson at Lundi, hinn merkilegasti madr; voru þeir hans synir: Jón prestr á Gilsbakka ok Einar sýslumadr, vitrir menn ok vel at sèr, ok Jón prestr, er seinna var í Hvammi, sem sá morgana. Enn deydi Ögmundr prestr Torfason í Otrardal, Bjarni lögrèttumadr á Eyvindarstödum, ok konur presta, Gunnlaugs Sigurdarsonar í Saurbæ nordr ok Hallkells Steffánssonar; Jón sonr Steindórs Gíslasonar, er bjó at Knerri, fór sudr á Þorra, ok andadist at Leirá af munnbita sínum, á þridja vetri um sextugan, hann hafdi átta Solveigu, dóttur Gudmundar prófasts Einarssonar at Stadarstad, þeirra börn voru Sigurdr á Knerri ok Halldóra, er átti Jón prestr Gudmundarson á Þæfusteini, Gudný, er átti Hallkell prestr Steffánsson, ok Gudrún, er átti Gudni Sigurdarson. Jón prestr Gudmundarson var fadir Helga prests at Stadarhrauni, ok Gudmundar prests at Helgafelli, ok Elínar, konu Torfa prests í Saurbæ, ok Valgerdar, er átti Steinn biskup; enn dætr Gudmundar prests at Helgafelli voru Ragnhildr, er átti Sigurdr prestr at Bardi, Karitas, er átti Sigurdr skólameistari, sem sídan hèlt Dala sýslu, son Vigfúsar, Arnasonar at Heydalsá, Vigfússonar prests vid Hellna; Halldóra, er átti Þorsteinn prestr í Saurbæ, ok Kristín, er átti Sæmundr, son Þórdar prests at Stadarstad, Jónssonar, Vigfússonar frá Hvoli, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar.

## XLV Kap. Misferli ok annat.

Þennan vetr var skipreiki sudr í Gardi, ok týndust fjórir menn; ok tveir á Akrancsi, týndust af ödru 5 menn, enn tveir af ödru; einn í Beruvík á Snæfellsnesi med 7 mönnum, annar á Hellissandi med

8 mönnum. Á Grímseyarsundi týndist skreidarskip Bjarnar Magnússonar á Múnkaþverá, er kallat var Hjörtr, fyrir hafís spaung, þar fórust 11 menn, ok voru 10 kvæntir; Hollenzkir einir voru nærri, ok vildu duga þeim, enn lá vid voda sjálfum. Margir urdu einstakir mannskadar, gekk þá ok bóla sunnanlands. Þá kom út meistari Þórdr Þorláksson, ok fèkk Hof í Vopnafirdi til uppheldis sèr, hèldt hann þar umbodsmann sinn, enn sat á Hólum sjálfr med Gísla biskupi bródur sínum. Konúngsbrèf kom ok þá, at Sæmundr prestr skyldi halda Hítardal, enn Sigurdr sleppa, vard Sæmundr sídan prófastr; annad brèf kom um kyrkjuþjófa, at þeir sèu hengdir. Bær brann at Brandagili í Hrútafirdi, ok bóndinn inni ok húsfreyan, ok fadir bónda, ok karl einn tírædr, vissi enginn hvad olli, því þar var ei lengi med eld farit. Madr drakk sèr bana undir jökli, sá hèt Páll Jónsson. Þá var galdramál Páls Oddssonar í sýslu Gudbrands Arngrímssonar í Húnavatns þíngi. Sumar var hid bezta, ok gjördi mikit gras; var þá sigldr upp Straumfjördr ok tekinn fiskr einn. Sá madr var hengdr á Höfdaströnd, er Jón Jónsson hèt eda Ivarsson, at því er adrir segja, hann hafdi stolit úr Hofsósbúdum.

## XLVI Kap. Frá þíngi, málum ok fleiru.

Páll Torfason, sýslumadr í Isafirdi, bar framm á alþíngi galdramál fedga tveggja Þórdar Jónssonar ok Jóns Þórdarsonar, er ei fengu fríunarmenn; nefndu lögmenn í dóm sýslumenn þessa, Eggert Bjarnarson á Skardi, Bjarna Pètrsson á Stadarhóli, Vilhjálm Arnfinnsson af Ströndum, bródur Einars prests á Stad í Hrútafirdi, hann var sjálfr haldinn mjög fjölkunnugr ok kalladr af alþýdu Galdra-Vilki, Gudbrand Þorláksson úr Húnavatns þíngi, Magnús Jónsson af Ströndum, Hrólf Sigurdarson úr Þíngeyar þíngi, Jón Þorláksson úr Múla þíngi, Jón Vigfússon eldra frá Hvoli, Dada Jónsson úr Kjós, Jón Vigfússon á Leirá, Jón Runólfsson ok Jakob Benediktsson: barst ekki annat á þá enn heitíngar einar á Þórd, voru hönum dæmdar tvær hýdíngar, enn Jóni syni hans ein. Önnur mál voru smærri. Þar var lesit upp veitíngarbrèf meistara Þórdar, fyrir biskupsdæmi eptir meistara Brynjólf biskup. Jóni Vigfússyni, sýslumanni á Leirá, vard þar sundrorda vid Jóhann Klein

umbodsmann, er hann var nýlega kominn út, lèt hann þá þegar eptir alþíng stefna hönum til Heyness á Akranesi, fyrir dóm Sigurdar lögmanns, hinn 3dja dag ágústi mánadar, sóru þá Þórdr Grímsson ok Þórdr Erlendsson lögrèttumenn frammburd Torfa, einnin Hannes Teitsson ok Gudmundr Jónsson, at ekkèrt sýnilegt mark hefdi verit á rullum þeim, er um var deilt, þá þær voru á land fluttar, nema þat er þær höfdu úr Hollandi, enn sýslumadr gat ei sannad sína sögn, var þá dæmt, at hann hefdi brotit af sèr lèni sitt, ok lögsagnarar þegar settir í sýsluna; því kaupskapr vid utanríkis menn var þá mjög hardlega bannadr, ok þúngt vidlagt, enda Sigurdr lögmadr enginn fylgismadr hans. Umbodsmadr fór utan aptr hid sama sumar. Þá voru ok mál med Birni Pálssyni ok Jóni Eggèrtssyni, enn Þorleifr lögmadr Kortsson samdi med þeim; einnin med Birni Magnússyni ok Magnúsi Jónssyni, systursyni hans, er átti Gudrúnu Þorgilsdóttur frá Brimilsvöllum, ok lögmadr vard sídan, ok fèllu þau mál nidr. Mikit tók vída á því ári af túnum ok engjum fyrir skriduföllum. Þá kvæntist Jón eldri, son Sigurdar lögmanns frá Einarsnesi utanlands, enn hèr á landi Gudbrandr Jónsson úr Vatnsfirdi ok Páll Torfason frá Kyrkjubóli, sýslumadr, hann fèkk Gróu, dóttur Markúsar Snæbjarnarsonar frá Asi í Holtum; hann taldi sèr þá hundrad hundrada í fasteign ok hundrad hundrada í lausafè, ok gaf 60 hundrud í tilgjöf, enn Gróa fèkk heiman 100 hundrada ok jafnt í lausu. Páll var athafnamadr; þessi voru börn þeirra: Snæbjörn, er sídan verdr getit, Magnús, Þorsteinn í Búdardal ok Teitr prestr, fadir Jóns biskups. Einar prestr Torfason fèkk þá ok Ragnheidar Jónsdóttur frá Midhúsum, Magnússonar, Arasonar, hún var systir Magnúsar Jónssonar, þeirra börn voru Þórunn, Einar ok Gudrún, enn Isleifr Þórdarson frá Reykjum fèkk Önnu, annarar dóttur Markúsar í Asi. Þat hafdi verit sidr í 17du öld, at gamanvísur voru kvednar til allra brúdkaupsmanna fyrir vítabikar, ok fundit nokkud óhæversklegt hverjum til, ok mjög alvörulaust, ok kalladar vítavísur, ok tídkadist þat þá enn. Þá bjó í Hrappsey í Breidafirdi Arni Jónsson, hann var á sjó, ok dró flydru hina sömu tvisvar, ok misstí hennar aptr, enn þridja sinn undir bord, ok fèll þá daudr nidr, enn þarnæst eptir drógu hásetar hina sömu flydru. Skiptapi vard í Höskuldsey, ok týndust tveir menn, ok vída urdu menn úti eda druknudu. Orm þóttust menn sjá í Lagarfljóti, ok þvílíkast

um haustit sem tvo hólma; enn annat smærra, er tilbar á þeim missirum, hyrdi eg ei at rita, ok þó líklegt at margt sè undanfellt, sem merkilegra er enn sumt, þat sem talit er; því fáir skrásettu þá tilburdi, sem skyn vissu á um allt land, þó af mörgu sè ljóst sagt í munnmælum einum.

## XLVII Kap. Frá meistara Brynjúlfi biskupi.

Nú kemr vetr, ok er mjög hardr eystra, enn hinn bezti fyrir
1673 sunnan land; urdu þar miklir hlutir, enn litlir fyrir nordan. Peníngafellir vard í nordrsýslunum. Hafskip komu snemma, ok konúngsbrèf, at fángar, sem brjótast úr járnum, missi líf sitt. Fátt var stórmæla á þíngi. Bergr í Þorlákshöfn, son Benedikts Þorleifssonar í Búdardal sókti þar ordamál. Jóhann Klein umbodsmadr kom út um alþíng med konu sína, ok ól hún hèr sveinbarn; enn um sumarit hafdi andazt úr sótt Þórdr Dadason, dótturson Brynjúlfs biskups, 11 vetra gamall, ok gott mannsefni; var þá úti allr hans afspríngr, ok snerust mjög þánkar hans frá veraldar umsýslun, til at rádstafa efnum sínum, sem hönum líkadi; var Torfi prófastr Jónsson í Gaulverjarbæ þá helztr hans frænda, ok verit hönum jafnan eptirlátr, ok nú nálægastr til adstodar hvervetna, þar sem þurfti; fyrir því gaf hann hönum eptir sinn dag, ok testamenteradi med konúngsleyfi, allt sitt aflafè fast ok laust, enn erfdafè sitt, 50 hundrud í jördum, skyldu nánustu frændr taka, ok hlutu þeir þat Þorleifr ok Gissr prestr; enn barni þessu Jóhans Kleins er getit var, gaf hann bækr sínar latinskar ok griskar, ok á útlendum túngum skrádar; hugdu lærdir menn alla bókhlödu hans ei minna enn þúsund dala verda, medan hún stód heil, enn margt sundradist; gaf hann ok mörgum lærdum manni bók. Islenzkar bækr sínar, sögur ok frædibækr, gaf hann frændkonu sinni Helgu Magnúsdóttur í Brædratúngu, ok Sigrídi Halldórsdóttur í Gaulverjabæ til helmíngaskipta. Hann rádfærdist þá einnin vid lögmenn ok lögrèttuna, hvert eigi mundu óhætt, at afhenda inventaríum stadarins vícebiskupinum, meistara Þórdi, eptir samníngi, enn þeir kvádu sèr þat sýnast.

## XLVIII Kap. Tilburdir.

Nú andadist frú Ingibjörg Benediktsdóttir at Hólum, kona Gísla biskups, ok meistari Gísli Vigfússon á Hofi, skólameistari. Þá var gott sumar, enn graslítit. Eyólfr Arason hèt madr fyrir nordan, er hengdr var fyrir peníngastuld frá Vilhjálmi Arnfinnssyni. Skip týndist med 6 mönnum úr Vestmannaeyum, annat med 8 mönnum á Vestfjördum, ok þrír menn á Akranesi. Þorvardr Runólfsson frá Brennistödum, Sigurdarsonar frá Einarsnesi, frændi Sigurdar lögmanns ok bródir Jóns sýslumanns, var uppödslumadr, hann átti Þórunni Eggèrtsdóttur, Hannessonar frá Snóksdal, hann reid út í Haukadalsvatns ós í dölum í öli, ætladi at hitta vinkonu sína, ok druknadi þar. Margir urdu einstakir mannskadar. Bjarni Sveinsson, er getit hafdi barn vid Sigrídi Þórdardóttur, systur konu sinnar, var höggvinn á alþíngi, enn henni var drekkt í hèradi. Mál Margrètar, dóttur Jóns Eiríkssonar, er hann hafdi naudgat, at því er menn vildu sverja, var sett til konúngs nádar. Enn stód þá yfir hórdómsmál Þórdar Þorlákssonar, er prestr var, því hann vafdi þat mjög, bjó hann þá at Stóruborg. Skip týndist í Hænuvík, ok fórust 4 brædr, svo at fadir þeirra horfdi á, ok barst af aumlega, enn adrir 4 voru heima. Kona skar sig í Laugardal, enn madr, sá er þar bjó, átti dóttur hennar, hún skar sig litlu sidar. Þá deydi Þorlákr prófastr Bjarnason at Helgafelli, ok Þorbjörn prestr Einarsson á Raudasandi, einnin Arni prestr í Vestmanna-eyum, son Klásar Eyólfssonar. Jón Vigfússon frá Leirá fór utan med mál sitt, til at fá uppreisn, ef hann mætti; kom hann sèr framm ok því, vid Pètr Griffenfeld, höfud-kancellera, er í þann tíd hófst yfir adra menn, sakir lærdóms síns ok vitrleiks, ok hann kom hönum á framfæri; sat hann þar um vetr. A þeim vetri nokkru fyrir jól, setti meistari Brynjúlfr upp skilmála sína í Skálholti vid meistara Þórd Þorláksson, enn hann ritadi upp nokkrum dögum sidar. Þá tók snjóflód bæinn á Klifstad austr, adfángadag jóla, ok Þorvard prest Arnason, hann var merkilegr lærimeistari, ok fadir Arna prófasts at Þíngvöllum í Þíngvalla sveit.

## XLIX Kap. Hardindi ok ýmsir tilburdir.

1674 Þessi vetr var þúngr med miklum frostum nordan ok austan land, enn hey höfdu ónýzt sumarit fyrir af votvidrum sífeldum, af því vard þat, þó lengi hefdi allárgott verit, med því at þá var hagnadr minni vidhafdr, eda varúd um kvikfènad enn á vorum dögum, at peningafellir gjördi mikinn, ok þvínærst húngr ok manndauda, ok mest fyrir nordan Vadlaheidi; strádó nidr bædi fè ok menn, ok lögdust margir bæir í audn, fylgdi þarmed fiskleysi ok öll óáran; dóu 230 menn í Vopnafirdi, ok eyddust 14 bæir, enn á Hofi urdu eptir tvær kýr ok 6 ær, ok svo vidlíka á ödrum hinum betri bæum. A bak páskum hófst þó manndaudinn mest, ok hèlzt árit allt, enn þá taldist at dæi 11 hundrud í Þíngeyar þíngi úr húngri ok vesöld, enn 14 hundrud í Múla þíngi; margt vard ok úti á heidum. Var enginn gródr kominn í fardögum, ok aldrei fór klaki úr jördu á því sumri; var þess vors hörku vidbrugdit alla stund sídan. Ekki vard fyrir hestleysi sakamanni komit úr Þíngeyar sýslu til alþíngis. Þó var hinn mesti fiski-afli fyrir sunnan ok vestan, 15 hundrada hlutr fyrir vestan jökul, ok nær því í Gardi sudr. Þar urdu tveir skiptapar med 9 mönnum. Eptir fardaga linnti frostum ok hrídum, vard sumar þurt, ok grasvöxtr lítill. Komu engir at austan til þíngs, enn fáir at nordan. Þá var prentat á Hólum Odds bænabók, *Examen Catecheticum*, ok frædasálmar Jóns prests Einarssonar. Þann tíma andadist Jón prófastr Arason í Vatnsfirdi, hann átti eptir margt afkvæmi: Gudbrandr prófastr, son hans, tók Vatnsfjörd; annar var Magnús í Vígr, fadir Þorbjargar, er átti Páll Vídalín; þridji son hans var Oddr, er seinna var á Reynistad, fadir Gudrúnar, módur Gísla biskups Magnússonar ok systkina hans; 4di Sigurdr prestr, fadir Sigurdar prests at Holti í Önundarfirdi; 5ti Ari, hann jók ok ætt sína. Dætr Jóns prófasts voru Helga, er átt hafdi Teit Torfason, enn sídan fèkk hennar Þorsteinn prestr Geirsson í Laufási, lærdr vel; Ragnheidr, er átti Torfi Jónsson frá Flatey, Torfasonar sýslumanns frá Bardaströnd; önnur Ragnheidr, er giptist Gísla biskupi Þorlákssyni; ok Anna digra í Vídidalstúngu, kona Olafs prests Þorvardssonar. Fèkk Gísli biskup Ragnheidar á þessu sumri, enn meistari Þórdr, bródir hans, Gudrídar, dóttur Gísla sýslumanns at Hlídarenda, hins göfugasta manns, Magnússonar

lögmanns, Bjarnarsonar, var þeirra hóf haldit at Hlídarenda at Gísla med mikilli rausn. Enn þat vard um Hólmfrídi, ekkju Jóns prófasts Arasonar, ok börn hennar hin ógiptu, at þau fóru nordr med Gísla biskupi, ok mannadi hann þau. Oddr fór ok med hönum, ok vard rádsmadr at Hólum, enn sídan útvegadi hann hönum Reynistadar klaustr; hann var mikill ok feitr, svo at hestar báru hann ekki, medan hann lifdi at munum sínum, ok af því var hann kalladr hinn digri.

## L Kap. Frá málum, brèfum ok þíngi.

Jón Vigfússon, Jónssonar lögmanns, Sigurdarsonar, bjó í Lögmannshlíd, ok var þá sýslumadr í Þíngeyar þíngi fyrir 6 árum, er hèr var komit, med Hrólfi Sigurdarsyni. Á þessu sumri kom út Jón Vigfússon frá Leirá med brèf Kristjáns konúngs 5ta, er Griffenfeld kancelleri hafdi útvegad hönum, at hann skyldi vera vícebiskup á Hólum, ok taka vid eptir Gísla biskup Þorláksson, var þó misrædt um af sumum, hversu brèfit væri tilkomit; í því brèfi eru nefndir amtmenn í stiptinu, hefir ok Henrik Bjelke kalladr verit befalíngsmadr, ok ætla eg allt sè eitt ok hid sama, þó amtmanna nafn yrdi eigi algengt hèr fyrr enn eptir Henrik Bjelke. Annad brèf var til meistara Brynjúlfs, at hann skyldi vígja Jón; hafdi hann ok fengit meistara nafnbót, ok vígdi meistari Brynjúlfr hann biskupsvígslu í Skálholti; þat þrennt hafdi aldrei sked hèr á landi, at sýslumadr vard biskup, ok at biskup var vígdr hèr, ok at fjórir voru biskupar samlendir undir eins, settist meistari Jón at Leirá, ok lifdi af eignum sínum um hríd. Konúngsbrèf kom enn um bænadaga; annat um ófrjálsa útlenzka kaupmenn; ok enn um prestatillagit, getr þess seinna. Jakob Benediktsson bar framm á alþíngi galdramál Bödvars Þorsteinssonar af Snæfellsnesi, um hindran á afla skips Bjarnar prófasts Snæbjarnarsonar at Stadarstad; hafdi Bödvar medgengit þat í hèradi, enn kvadst sídan hafa á sig logit; var hönum borin ill kynníng, ok var hann brendr, ok annar Páll Oddsson úr Húnavatns þíngi. Jón Eggèrtsson sókti þar Björn Pálsson, ok var því vísat heim. Þar var mál med Jóni presti á Mýrum Halldórssyni, Marteinssonar, ok Vigfúsi Jónssyni at Leirulæk; ok Eggèrt Bjarnarson frá Skardi flutti þar framm fjölkýngis merki ok annat. Kom ok enn fyrir mál Margrètar,

dóttur Jóns Eiríkssonar úr Múla þíngi; ok getit er þar dóms Benedikts Halldórssonar úr Skagafirdi. Drekkt var konu nordlenzkri, er undankomst hid fyrra árit, ok barn gat vid systurmanni sínum. Ok enn bar þat til, at madr stakk annann med staf í fótinn í Húnavatns þíngi, kom í blástr, ok fèkk sá bana er stúnginn var, enn hinn fèkk fordat sèr. Ekki voru þá tídir umskiptasamar í þann tíma, hverki at háttum nè hugferdi manna eda tilburdum. A þeim missirum er getit Þorsteins prests Olafssonar í Miklagardi, er marga sálma orkti, ok mjög undir ókendum lögum.

## LI Kap. Frá biskupum, ok för Þórdar biskups í Skálholt.

Nú kom út ljósahjálmrinn mikli í frammkyrkju í Skálholti, er Brynjúlfr biskup hafdi látit steypa, sá vóg nær 12 fjórdúngum, enn kostadi 32 dali, átti kyrkjan þaraf brotakopar fyrir 11 dali; hann hafdi ok tillagt altarisflösku af silfri, er vóg 24 dali, enn setti hana 20 ok 8, enn þá voru allir peníngar heilir silfrdalir í þann tíma, er svo voru taldir; einnin fèkk hann kyrkjunni mörg ornamenta í messuklædum ok ödru, fyrir fornt ok ónýtt. Hann virdi byggíngarkostnad hennar eptir reikníngum fyrir fjögr hundrud hundrada ok 30 hundrud á landsvísu. Hann tók þetta sumar vid brèfi Kristjáns konúngs 5ta, þar hann segir at Herra Henrik Bjelke til Ellingegaard, riddari ok annad er hann telr af nafnbótum hans, hafi lagt inn dali 1721 ok tvö mörk fyrir óbrúkanlegt inventaríum af Islandi. Þat var þó miklu meira, er hann tók vid eptir Eirík Múnk; fyrir þat lagdi konúngrinn út til Skálholts biskupsdæmis ok fátækra prestakalla jardir þessar undan Skridu klaustri: Fagradal í Jökulsdal 10 hundrud med 60 álna landskuld ok 2 kúgildum, Hvamm 20 hundrud med hundrads landskuld 2 kúgildum, Eiríksstadi 20 hundrud, med hundrads landskuld einu kúgildi; Skeggjastadi 20 hundrud, med hundrads landskuld ok einu kúgildi; Kolmúla í Fáskrúdarfirdi med hundrads landskuld ok einu kúgildi, Kross í Mjófafirdi med hundrads landskuld ok 4 kúgildum, Selamýri í Lodmundarfirdi 10 hundrud, med 20 álna landskuld ok 3 kúgildum, Austrdal 20 hundrud med hundrads landskuld ok 4 kúgildum; Brimnes 20 hundrud med hundrads landskuld ok 4um kúgildum; Karlskála 20 hundrud med hundrads landskuld ok 3

kúgildum; Krossanes í Reidarfirdi 13 hundrud 40 álnir med 40 álna landskuld ok 3 kúgildum; Arnarstadir í Breiddal 10 hundrud med 60 álna landskuld ok hálfu ödru kúgildi; skal þat jardagóts ætíd liggja undir Skálholts stipti, enn afgjöld þess prestum í fátækum prestaköllum til uppheldis, sem biskup skal hvert ár rèttilega útskipta. Þetta brèf konungs med egin hendi hans ok innsigli afhendi meistara Brynjúlfi biskupi Jóhann Klein umbodsmadr, höfudsmannsins vegna, til at gjöra skíra skilagrein á því kyrkjugjaldi, ádr Brynjúlfr biskup skildi vid biskupsdæmit, ok samankalladi til Bessastada hinn 28da dag Júlíí meistara Þórd Þorláksson vícebiskup, tvo prófasta ok 9 presta, ok lèt þá taka saman þann reikníng allan, ok ritadi med þeim undir gjörnínginn. Meistari Þórdr hèldt Hof í Vopnafirdi til þessa, til uppheldis sèr, ok hafdi þar umbodsmann sinn ok kapellán, enn nú afhendi Brynjúlfr biskup hönum Skálholts stad ok stipti, var þó ei Þórdr biskup vid sjálfr, heldr tók vid hans vegna Halldór Jónsson, er seinna vard prestr á Stad í Grindavík, rádsmadr í Skálholti, bródir Halldórs prófasts í Reykholti. Afhendi meistari Brynjúlfr inventaríum kvikt ok daudt, ok í sumum greinum miklu meira ok yfirfljótanlegra, enn hann hafdi sjálfr vidtekit: hafa menn ætlad, at slíkt yfirmál skyldi annadhvert koma í reikníng milli sjálfra þeirra biskupanna, eda meistari Brynjúlfr hafi ætlad sèr þat til athvarfs seinna, ef vidþyrfti, voru þat mest smjör, katlar ok hey, því ótrúanlegt hefir virdst, at hann hafi ofþýngja viljad eptirkomendum sínum med nýu inventarió, þar sem hann lètti því á sjálfr fyrri. Hann lèt færa í eina reikníngsbók, med degi ok dató ok undirskriftum vissra, manna sèrhvad eitt, sem hann afhendi, enn þat gjördi hann smámsaman ok ei allt í senn; ok öll þau skipti, sem hann hafdi gjört vid kyrkjuna ok stólinn, hvad hann hafdi innleyst, eda burtselt af óþörfu eda úrgengnu inventarió, ok aptrlagt, ok útskriftir af þeim brèfum ok gjörníngum dómkyrkjunnar, er hann edr hans erfíngja mætti umvarda sídar; svo at sú bók skyldi vera skýlaust athvarf hönum ok hans erfíngjum, fyrir frekari útsvörun; enn hún komst at láni í annara hendr, ok spannst af ágreiníngr á dögum meistara Jóns Vídalíns; hann tilskildi sèr lítinn hlut af túni, engjum ok úthaga heima á stadnum fyrir lítit bú, ok húsrúm fyrir vinnufólk sitt, enn hafdi fyrir sig badstofu sína, er sídan var köllud midbadstofa, ok stúlkna-badstofu fyrir þjónustu-stúlkur hans. Fyrir framan portit

svo kallat lèt hann byggja sterkt hús med súd ok þili í gólf nidr, ok þiljat sundr í þrennt, bordhús, búr ok kjallara, med lopti yfir, ok sængum í, ok nordrstúkuna tók hann fyrir bækr sínar í kyrkjunni. Hann hafdi Hreppa umbod sèr til uppheldis 32 jardir, ok eitt hundrad (stórt) 53 leigu kúgilda, med landskuldum 43 hundrudum, ok Skipholtsbúit, ok nokkrar skipstödur vid sjó. Þá reid hann seinast á alþíng, er næst var þess getit, ok hèldt synódum generalem med meistara Þórdi, ok ádr upp var sagt, lèt hann lesa uppgjafarbrèf sitt vid meistara Þórd, kvaddi svo fyrst kennidóminn med handabandi, ok sídan alla landsyfirmenn, er þar voru samankomnir, ok vini sína, skildu þeir vid hann med trega ok tárum. Þar segist Jón prófastr Halldórsson hafa sèd hann, 9 vetra gamall, ok verit þá í sveít med 9 eda 10 sveinum úngum, er seint um kveld bidu fyrir nordan Þíngvalla kyrkju eptir fedrum sínum ok húsbændum, er inni voru hjá biskupinum til skilnadar. Hafi þá meistari Brynjúlfr komit einnsaman til þeirra nokkud gladr, heldr óvörum, ok spurt hinn fyrsta, er hann heilsadi, at ætt ok nafni ok forfedrum hans, þar til er sá fèkk ei lengr svarat, enn baud hönum at horfa beint uppá sig á medan; sídan hafi hann spurt hvern at ödrum med sama hætti, ok Jón Halldórsson seinast, því hann var yngstr; öllum hafi hann sagt þeim nokkud at skilnadi, ok klappad í koll sèr ok mælt: veldr elli mèr, enn æska þèr, þú ofr úngr, eg ordinn gamall, at þú hafir nokkut gott af mèr; gengit sídan at tjaldi sínu. Ok ætla eg at Jón hafi þá verit med Halldóri prófasti í Reykholti, födur sínum, Jónssyni, Bödvarssonar. Hólmfrídr var módir Jóns, sem köllud var prófastamódir, dóttir Hannesar Helgasonar prests frá Melum, Eyólfssonar. Þat ár allt sátu biskupar bádir í Skálholti med kærleikum, ok hafdi Þórdr biskup meistara Brynjúlf í virdíngu sem födur sinn, ok leitadi hans ráda ok atkvæda í öllum hinum stærrum efnum: hann virdi hann ok aptr á mót í öllu sem rèttan biskup, enn hafdi skemtan af at gjöra þeim til góda, sem hans fund sóktu, ok hèldt svo virdíngu sinni til enda.

## LII Kap. Mannalát.

Á þeim missirum öndudust prestar nokkrir: Jón prestr á Hjalltabakka, son Þorgeirs, er eitt sinn bjó at Ketu á Skaga, Steinssonar,

þorgeirssonar á Grund í Svarfadardal, er verit hafdi sveinn Jóns biskups Arasonar, hann hafdi verit þríkvæntr, ok var seinasta kona hans Gudrún Steingrímsdóttir frá Hofi í Skagafjardardölum, er Steingríms ætt er vidkennd, Magnússonar, ok alls átti hann 34 börn, var einn son þeirra Gudrúnar Steinn, er sídar mun getit; Eiríkr prestr þorsteinsson á Krossi var annar; Hallgrímr prestr Pètrsson, er fyrr var í Saurbæ, var hinn þridji, hann andadist hinn 27da dag októbris mánadar sextugr at aldri; hefir verit settr legsteinn eptir hann ok letr á fyrst á vorum dögum, ok hefir jafnan þótt mikils verdt um hann; var þá í Saurbæ Hannes prestr, son Bjarnar Gíslasonar, bródir Sigurdar landþíngskrifara; Vigfús prestr Helgason, Vigfússonar, Jónssonar í Kalmanstúngu, Grímssonar, var hinn fjórdi, hann hafdi lengi verit prestr vid Hellna, ok verit mikill fyrir sèr, var hann fadir Helga, sem datt framm af Stapaklettum, ok Arna lögrèttumanns at Heydalsá, födur Vigfúsar, födur Sigurdar; hinn 5ti var Klás Eyólfsson í Hólmum, nírædr at aldri.

## LIII Kap. Tídindi ok þíng.

Þá gjördi frostavetr medallagi hardan, voru hardindi mikil í Húnavatns þíngi, ok allvída fyrir nordan; þá týndist skip á Hjallasandi, ok 5 menn undir jökli, 10 menn alls. Kristján konúngr seldi þá Henriki Bjelke höfudsmanni margar jardir á landi hèr, enn hans erfíngjar seldu íslenzkum sídar. þá var prentadr á Hólum Les-saltari Davids, ok um höfudgreinir trúarinnar. Gekk þá mikil sótt þau missiri fyrir nordan. Týndi sèr í Hörgá kona Eyólfs Bjarnarsonar á Hallfrídarstödum í Myrkár sókn, hún var sturlud. Utkljád var þá hórdómsmál þórdar þorlákssonar á Stóruborg, ok höfdu ádr verit prestastefnur margar, vard hann þá med öllu frá prestskap, enn sídan krenktist hann af líkþrá, margt er frá hönum komit; hann átti þóru, dóttur Páls Gíslasonar at Hvanneyri, voru þeirra börn: Gísli, Hólmfrídr, er átti Steffán prestr Hallkelsson, módurmódir Vigfúsar prests at Miklaholti ok Arngríms prests á Melum, ok Eyólfs Jónsonfuss, Oddný, Gudrún, Sigrídr, módir Gudmundar Lýdssonar. Mjög margt er frá systkinum hans. Fiskitekja var gód sydra ok vestra, þegar áleid vetrinn, tók sídan at batna árferdi fyrir nordan land, enn sydra gjördi vott sumar, ok 1675

skemdust hey nálega á hverjum bæ. Þá lèt Gunnlaugr prestr Sigurdarson í Saurbæ nordr Mödrufells hospital af hendi vid Hrólf Sigurdarson sýslumann, þar var Bjarni prestr á Grund vid, son Halls Bjarnarsonar, ok Gudbrandr Þorláksson. Jón prestr á Saudanesi ok Amundi Þormódsson í Skógum urdu brádkvaddir; Amundi var frændi Þorleifs lögmanns. Þá andadist Ormr Vigfússon í Eyum, hann hafdi fyrrum haft um hríd sýslu sunnan Hvítá, ok þótt mikilmenni, skorti hann vetr á tírædan, lifdu þá 8 menn hins 10da tugar af hans afkvæmi; Vigfús Jónsson á Kalastödum, fadir hans, var bródurson Alexíuss ábóta. Hákon landþíngskrifari, sonr Orms, var laungu dáinn, ok átti ei barn; Þórdr átti Ingibjörgu, dóttur Gudmundar Gudmundarsonar ok mörg börn; Ingibjörg átti Björn, son Gísla Bjarnarsonar fyrrum, ok var Sigurdr landþíngskrifari ok Hannes prestr í Saurbæ af þeirra börnum; Kristín átti Sigurd, son Gudmundar Gudmundarsonar, ok börn mörg; Jórun átti Jón prest Oddsson í Skrauthólum, þeirra börn voru mörg: eitt var Árni, fadir Gests prests á Kjalarnesi, födur Þorláks, födur Gests prests; Gudrún átti Gudmund Narfason á Hálsi í Kjós, ok margt afkvæmi; Gudrún önnur átti Halldór prest Ketilsson, Olafssonar prests frá Saudanesi, Gudmundarsonar; þeirra son einn var Ketill prestr á Asum, fadir Arna prests, födur Halldórs prests at Húsafelli, födur Bjarna sýslumanns ok hans systkina; Gudrún þridja átti Asbjörn Gudmundarson, er konúnginum gaf Olafsvík; Vigfús átti Ragnheidi, dóttur Gísla Bjarnarsonar, ok börn; Domhildr átti Arna, son Halldórs Marteinssonar á Alptanesi, ok er þadan ætt; Asta átti Gudmund prest Bjarnason í Laugardal, af Dada ætt; Gudrídr ok Þurídr áttu eigi börn eptir. Mikit fólk er komit frá Ormi; voru börn hans 17, enn barnabörn 7 hins áttunda tugar, ok þeirra börn 104, er öll voru alin, ádr hann deydi. Margt fólk er ok komit frá Illhuga, bródur hans, á Kalastödum, er átti Sessilíu Arnadóttur, þau voru hans börn: Vigfús prestr á Setbergi, er margt fólk er frákomit; Einar prófastr at Vindási í Kjós, fadir Einars prests í Gördum, ok Snæbjarnar prests; Einar prófastr átti dóttur Eiríks Pálssonar í Asgardi, enn Vigfús prestr Bergljótu, dóttur Lopts prests Skaptasonar, systur Jóseps prests á Olafsvöllum. Þórarinn, hann átti Þorbjörgu, dóttur Gísla Bjarnarsonar, ok afkvæmi margt. Jón í Lóni, hann átti Hallvöru, systur Þorgils á Brimilsvöllum, þeirra synir voru Bjarni, er Þorgils mannadi, ok

sídan vígdist til Magnúsar prests Jónssonar at Breidabólstad austr, enn dó at Melum í Borgarfirdi, ok Steindór. Nikolás kvæntist einnin ok átti börn. Jórun átti Gudmund prest á Þæfusteini ok margt afkvæmi. Gudrídr ok Ingibjörg voru enn. Þessir öndudust þá enn: Sigurdr prófastr í Stafholti, son Odds biskups; Þorsteinn prestr fyrrum á Utskálum, er lengi lá í kör; Jón prestr Bessason á Saudanesi, hann var gamall, enn sonur hans, er kapellán var, vakti hann til tídagjördar einn sunnudag, ok þóttist hann ofsnemma vaktr, kvad sig dreymt hafa, at hann væri kominn í nokkurn stad, ósegjanlega yndislegan, flutti sídan embætti, ok er kyrkjumenn höfdu kvadt hann, hneig hann daudr nidr á hladinu litlu sídar. Bessi prestr var son hans, fadir Jóns, ok Kristjáns prests á Saudanesi, födur Kristjáns prófasts. Margrètar máli at austan var skotit til konúngs nádar á þíngi, ok samþykktr brennudómr Þorleifs lögmanns Kortssonar yfir Magnúsi Bjarnasyni, galdramanni, úr Húnavatns þíngi, enn annar dómr dæmdr um Lassa Didriksson af Bardaströnd, ok voru þeir brendir. Hafdi Lassi ei fengit undanfærslu, sem þá þótti þurfa, enn margir ætludu þó, hann mundi vera saklítill eda saklaus; hafdi Eggèrt Bjarnarson hinn ríki fylgt fast at hans dauda, enn hann medgekk aldrei; var svo kveikt bál á alþíngi, ok kom regn mikit, svo sloknadi þrisvar at mestu; enn sídan, er hann var brenndr, reid Eggèrt af þíngi, ok braut fót sinn, ok fèkk ámæli af mörgum manni. Margt hafdi Eggèrt sýnt af galdrablödum, ok margt var þar fjölkýngismála. Þar kom enn dómaraverk Benedikts Halldórssonar úr Skagafirdi, ok undanfærsla Hallgríms, bródur hans, undan galdra áburdi Markúsar Olafssonar á Breid. Þar voru ok barngetnadarmál nokkur; ok enn mál Vigfúsar á Leirulæk vid prestinn. Jón Eggèrtsson átti ok í málum. Lesit var þar konúngsbrèf um forbodna kauphöndlun. A því sumri fèkk Þorsteinn í Hjörtsey, Þórdarson prests í Hítardal, Arnfrídar, dóttur Eggèrts á Skardi, enn Björn, sonur Gísla Magnússonar at Hlídarenda, annarar, ok hèt sú Gudrún.

## LIV Kap. Andlát Brynjúlfs biskups.

Meistari Brynjúlfr biskup hafdi haldit 6 eda 7 skólasveina á sinn kost um vetrinn í Skálholti; hann sagdi svo, at enginn madr mundi

verda hjá sèr, þegar hann andadist, ok þat mundi ske á 70ta ári hans, enn ella mundi hann mjög gamall verda; lèt hann þat þá vèra hina helztú huggun sína, at nidjar hans voru undan hönum farnir í hvíldarstad ok sælu, enn hann laus vid allan vanda ok ábyrgd af stóls ok dómkyrkju-peníngum, ok hafdi rádstafat sínu, sem hann vildi, kvadst ei eptir eiga nema þat eitt, at leysa upp landtog hèrvistar sinnar, ok bída heimfararleyfis med Síméóne. Bar svo til um sumarit, at meistari Þórdr biskup reid í visitazíuferd vestr um land, um Strandir, Isafjörd ok Dali, fór med hönum at bón hans Halldór prófastr frá Reykholti; var þá Magnús í Ögri Jónsson, Arasonar, ok Astrídr, kona hans, adskilinn med dómi fyrir hórdóm hans; fór Þórdr biskup í visitazíu sinni, sem hann mátti at dæmum meistara Brynjúlfs; enn á heimleid sat hann á Skardi brúdkaup Bjarnar Gíslasonar ok Þorsteins Þórdarsonar, er þeir fengu dætra Eggèrts. Enn er hann var ridinn fyrir viku úr Skálholti, var fátt manna heima á stadnum, þá lagdist meistari Brynjúlfr, ok lá mánud, þó ei þúngt, var Einar Einarsson kyrkjuprestr helzt hjá hönum til skemtunar, ok mest um kvöld hins fjórda ágústí, ok um nóttina framm til aptrbirtu, var þá biskup kátr, ok miklu lèttari enn fyrri, sem hönum tæki at batna; ok er prestr var á brott genginn, baud hann Olafi Asmundarsyni, sveini sínum, at leggja sig til svefns um hríd, kvadst vilja söfna sjálfr; Olafr sá var son Asmundar á Hrafnabjörgum, Olafssonar prests at Saudanesi, Gudmundarsonar, ok var seinna prestr austr á Kyrkjubæ, ok átti Ingibjörgu, dóttur Bjarnar Pálssonar at Espihóli, var hann fadir Bjarnar í Bödvarsdal, ok hann sagdi þetta Jóni prófasti Halldórssyni, ok annad fleira. Biskup baud hönum at vitja sín aptr seinna, breiddi Olafr þá ofan á hann, ok hagræddi koddanum sem hann vildi, gekk sídan á brott ok til svefns, ok bad þá sem vökta vekja sig eptir sólar uppkomu, ok var svo gjört; gekk Olafr þá í svefnherbergit, ok hafdi biskup snúit sèr til veggjar, ok lagt hönd undir kinn sèr á koddann, ok ætladi Olafr hann sofa mundi, enn er hann hugdi at betr, var biskup örendr; þat var á fimtudag hins 5ta ágústí, ok hafdi hánn lifat 6 vikum fátt í 70 ára, enn verit biskup hálfan fjórda tug, ok þat ár lengr sem hann lifdi sídan hann lèt af stólnum. Lèt Torfi prófastr Jónsson gjöra útför hans sem virduglegasta, ok var svo mannmargt þar vid, at Halldór Jónsson rádsmadr, er forsagnari var grafarfarar,

vard at gánga úr kórnum um líkprèdikunina út, at rádstafa nokkru, ok komst þá ei framm um kyrkjuna fyrir þrengslum, fyrr enn hann lèt rydja med hörku gángrúm med sudr útbrotunum kyrkjunnar, ok komst út ofan undirgáng. Hverki hafdi meistari Brynjúlfr viljad láta grafa sig innan kyrkju, nè leggja grafstein á leidi sitt, kaus hann sèr legstad austr í kyrkjugardinum, sudr undan kyrkjubúdinni eda Þorlákskyrkju, þar hvílir hann, ok næst fyrir sunnan Þórdr, dóttursson hans, þá húsfrú hans, Margrèt, þá Ragnheidr, dóttir hans, þá hin ýngri börnin; lá hann einn utan kyrkju af Skálholts biskupum. Lèt Helga Magnúsdóttir í Brædratúngu, frændkona hans ok vinkona göfug, gjöra trèvirki velsmídad, med pílárum krosslögdum, ok málad raudt, kringum legstadi allra þeirra, enn negla skjöldu á efri hluta verksins yfir höfdalagi hvers legstadar, med nöfnum þeirra; var silfrskjöldr sem mannslófi yfir höfdalagi biskupsins íhvolfr, ok greypt á M. B. S. S., annar jafnstór yfir húsfrú hans, ok á M. H. D. Messíngarskildir flatir yfir hinum med bókstöfum, ok krossar yfir þeim, er ei hlutu skírn. Stód þat um 30 ár eda lengr, enn fèll sídan nidr af vanrækt, ok veit nú enginn hvar meistari Brynjúlfr er leiddr. Telr Jón prófastr Halldórsson þat heldr óhöfdínglegt fyrir erfíngjann, at ekkèrt skyldi leggja af audi sínum, til at halda vid slíks manns minníngu, þar sem hann fèkk eptir hann nær 4 hundrud hundrada í jördum, ok þarmed fèmætt lausafè, er hann flutti úr Skálholti á 60 hestum, voru þó sængrföt, tin, messíng ok kopar ok húsbúnadr annar á 11 eda 12 af þeim; þótti ok mörgum sem erfíngjum Brynjúlfs biskups at lögum, fèlitlum fjölskyldumönnum, mundi sárnad hafa at missa slíks alls saman.

## LV Kap. Frá ýmsu.

Nú gjördist hardr vetr ok stórvidrasamr, svo nálega vard aldrei 1676
róit fyrir sudrlandi til páska framm, gjördist þá bjargleysi ok sultr fyrir sunnan land, meir enn verid hafdi þar í manna minnum, svo sá á mörgum manni; enn skorpu gjördi stránga um sumarmál, voru þá skornar kýr ok ær; því hey var vídast undangengit. Segir Benedikt prestr at Hesti, at þá væri fargat frá lögunar tíma um haustit í Hvanneyrar ok Bæjar sóknum 60 nauta; hlutadist ok

illa vorit allt. Þann vetr týndist bátr med 2 mönnum á Seltjarnarnesi, ok 6 menn af skipi á Gufuskálum. Prentad var á Hólum Thómas a Kempis*) um eptirbreytni Krists, hafdi lagt út Þorkell prestr Arngrímsson í Görduin, ok Pankratíuss postilla. Gudmundr Halldórsson hèt einn madr, er á þeim vetri stakk annann, er Einar Gudmundarson hèt, í sídu, med fleirum áverkum, enn særdi Ingimund, bródur hans, stórum sárum. Danskr madr, Adrian Múnk Jensson í Isafjardar kaupstad, lýsti Örnólf Jónsson í Hnífsdal gjörníngamann sinn ok bana. Konúngsbrèf kom um mútur, ef teknar væri. Galdramál smá komu á þíng at vestan, ok ýmisleg mál voru þar; Björn Magnússon sýslumadr stefndi þángat Ara Þorkelssyni, Gudmundarsonar, ok enn frammbar hann fleira, ok var lítt heyrdr. Þar er enn getit Benedikts Halldórssonar sýslumanns, ok Stokkseyrar brædra, Markúsar ok Gísla. Þar var dæmt Gudmundi, sem á brædrunum vann, at tvístíngast gegnum hönd, ok hýdast at auki, hann var úr Hegraness sýslu. Þeir voru þá sýslumenn í Borgarfirdi; Gudmundr Jónsson, bródir Sigurdar lögmanns, sunnan Hvítá; enn Jón, ýngri son Sigurdar, vestan, ok er þeirra getit í þíngbókinni. Mjög margt kom þá fyrir mála, ok voru flest smá. Arni Jónsson hèt borgfirzkr madr, er hengdr var fyrir þjófnad; annar úr Skagafirdi, hann hèt Bessi. Þá hófst ófridr millum Kristjáns 5ta Danakonúngs ok Karls 11ta Svíakonúngs; fyrir þá sök kom út konúngsbrèf, at haldast skyldi þrír bænadagar í landi hèr, hinn 30ta júníí ok 7da ok 14da júlíí, med föstu yfir sólarlag framm, ok hardlega forbodin vinna, ferdalag ok heimasetur frá kyrkju, voru settir vissir textar ok kollektur, ok ein bæn fyrir alla dagana, er lesa skyldi af prèdikunarstólum, bædi í hámessu ok aptansaung; enn af því at naumr tími var at kunngjöra slíkt, setti meistari Þórdr biskup þá seint á töduslætti; þeir voru ok uppábodnir hvert ár, ok haldnir stundum seint á sumrum, stundum á

*) Sá nafnfrægi latínski ritlíngr, *Imitatio Christi*, er í raun rèttri samantekinn hèrumbil 1240 af *Abbate Gersen*, múki í klaustri nokkru í Fridsælu í efra Vallandi, en *Tómas af Kempis*, þýzkr múkr, er hann er eignadr venjulega, mun einsúngis afskrifari, er hefir sett nafn sitt undir, eins ok títt var í fyrrdinni, og munu þýzkir fyrst hafa prentad bókina eptir hans afskrift, og þannig mistekit hann fyrir höfundinn; hvadan sú villa hefir dreifzt allvída.

*R. Rask.*

haustum edr öndverdum vètri lengi sídan. Grasvöxtr vard mikill um sumarit, enn mjög óþerrasamt. Þá var Griffenfeldt kancelleri dæmdr til dauda, enn fèkk þá vægd at setjast í æfinlegt fángèlsi, ok upptækt konúngi fè hans hid mikla, vorn hönum færdar til margar sakir, enn þó var hann manna mestr þá í Danmörku; fèll þá mikil stytta Jóns biskups Vigfússonar at Leirá. Þá dó Þórdr prestr Þorleifsson á Þíngvöllum, bródurson Brynjúlfs biskups, ok Jón prestr í Arnarbæli Dadason, silfrsmids, Jónssonar á Svarfhóli, vard brádkvaddr, hann hefir ritat Gandreid, um grös ok steina, ok edli hluta, enn var frásneiddr allri galdratrú, þó sumir hèldi annat um þat, ok vel at sèr í lögum, fornfrædi ok ödru. Enn er þá getit Eiríks prests Halldórssonar í Höfda, þótti kveda at hönum, ok er talinn med ritsmidum, orkti hann ok eitt ok annad, þó sumt væri lítt vandad. Madr skar sig á háls á Hjallasandi, sá hèt Bjarni Snorrason. Misfarir urdu nokkurra manna, einn hèt Sigurdr Runólfsson, er druknadi í Haukadalsá, annar druknadi, Helgi Sveinsson, í Þíngvallavatni, enn Gudmundr Oddsson í Hvítá hjá Skálholti; verdr því slíkt at tína, at ei fæst annat merkiligra. Sótt gekk mikil, ok dóu midaldra menn. Jón Sigurdarson ýngri sýslumadr fèkk um haustit Ragnheidar Torfadóttur frá Gaulverjabæ, er hann gat barnit vid fyrri, því þat vanust hönum ei, medan Brynjúlfr biskup lifdi. Öndverdan vetr gekk sóttin mest, ok var sá vetr 1677
gódr, ok tók aldrei af nautjörd frá Pálsmessu á vor framm; urdu hlutir miklir austr med landi, ok í útverum, enn litlir á innnesjum; týndist eitt skip á Hjallasandi med 8 mönnum. Hardr þótti vetr fyrir nordan, ok vard vída fellir á hestum ok fè, hrakti ok fè vída; 10 tygi hrakti frá Undirfelli í Vatnsdal, ok sudr á heidar, ok sumt í Borgarfjörd, fannst margt daudt ok uppetit á fjöllum, ok urdu margir menn saudlausir nordr í sveitum. *Examen Catecheticum* var prentad á Hólum, Katekismuss-sálmar ok Díaríum Hallgríms prests Pètrssonar.

## LVI Kap. Mannalát ok fleira.

Sigurdr lögmadr Jónsson í Einarsnesi tók sótt, ok andadist hinn 4da dag marzí mánadar, lá hann í 8 daga, ok hafdi lögmadr verit nær 14 árum, enn skorti vetr á sextugan. Hann var haldinn spek-

ingr at viti, ok sóktr mjög at málum um allt land, lítillátr vid alla, ör af fè, gjöfull ok gestrisinn, ok hèldt virdíngu sinni til daudadags; hann var grafinn fyrir framan altari at Borg; hann hafdi átta Kristínu, systur Þórdar prests í Hítardal, þeirra börn voru Jón, er nokkra stund bjó at Reynistad, ok hèldt hálfa Húnavatns sýslu, enn sídan at Bjargi í Midfirdi, ok átti Bentu Hansdóttur danska, þeirra börn voru Axel Fridrik, Sessilía ok Gudrídr. Annar Jón, son Sigurdar lögmanns, bjó í Einarsnesi, ok átti Ragnheidi Torfadóttur, sem sagt hefir verit, þeirra börn voru Þóra, Sigurdr á Hvítárvöllum, Magnús á Brennistödum, Torfi, Helgur tvær, Ragnhildr, Ragnheidr. Jón átti 3 launbörn. Gudmundr Sigurdarson lögmanns bjó á Alptanesi, ok verdr sídar getit afkvæmis hans. Þá gekk dómr at Skridu í Hörgárdal um Gísla Bjarnason, er misst hafdi prestskapar, ok Björn Magnússon sýslumadr heimti af skatt ok gjaftoll, enn Þorleifr lögmadr Kortsson vildi fyrst heyra ætlanir audlegra embættismanna, enn hann ályktadi um slíkt. Heldr tóku þá at aukast deilur med þeim Birni Magnússyni ok Jóni Eggèrtssyni. Þat sumar var tekinn til lögmanns Sigurdr landskrifari Bjarnarson, vildu menn engan annann hafa í kjörum, því hann þótti öllum best tilfallinn, nema nokkrum þótti hann eigi nóg audugr. Arni, son Geirs prests Markússonar í Laufási, vard aptr landþíngskrifari. A þíngi var upplesinn vitnisburdr Sigurdar lögmanns Jónssonar. Þar var brenndr Þorbjörn Sveinsson úr Mýrasýslu fyrir galdra, er hann medkenndi sig brúkad hafa, er þó ei getit hvört mein hann hafi gjört, enn stolit hafdi hann ádr til hýdíngar ok brennimarks; ok annar Bjarni Bjarnason vestan úr Breidadal, hönum voru bornir gjörníngar, ok líflát þeirrar konu, er Ingibjörg Pálsdóttir hèt, ok fornt illt rykti, ok fèkk hann ei eidamenn. Bessa Einarssyni þjóf úr Húnavatns þíngi vard dæmd hengíng. Arna Pètrssyni úr Bardastrandar sýslu var ok dæmd hýdíng fyrir þat hann flutti enskan mann í land. Önnur mál voru smærri. A þeim árum lèt Þorleifr lögmadr telja hèr landsmenn; voru 7 þúsund býli, enn fólk lítid yfir 50 þúsundir, ok vitu menn ei fyrri hafa talit verit. Madr hèt Oddr Olafsson á Svalbardi nordr, hann skutladi þá nokkra hvali á Eyafirdi, enn á hverju ári hnísur ok höfrúnga, sókti sá ok fast hákallaveidar, ok fèkk mjög margt af þeim; hálfan 5ta tug hinna stærri hvala fèkk hann einn missiri, ok hákalla at auki, ok átti þó opt þraung í búi. Þá lèt Bene-

dikt sýslumadr Halldórsson í þann tíma af sýslu, ok tók Þorsteinn Þorleifsson sýslu í Skagafirdi, enn Oddr Jónsson hinn digri Reynistadar klaustr. Enn öndudust þeir Gissur prestr á Alptamýri, bródir Brynjúlfs biskups, ok Þorkell prestr Arngrímsson hins lærda í Gördum sudr, tveim vetrum midr enn fimmtugr, hann hafdi verit skarpbygginn madr ok læknir, ok átta Margrètu Þorsteinsdóttur, þeirra synir voru meistari Arngrímr Vídalín, skólameistari í Hnakkaskógi á Láglandi; ok meistari Jón Vídalín ok Þórdr; ok ein dóttir, er átti Arni prestr Þorvardsson á Þíngvöllum. Einar prestr Einarsson, Illhugasonar, Vigfússonar, tók stadinn. Þorlákr Þorsteinsson hèt madr, er af var tekinn í Strandasýslu. Þá druknudu 4 menn af skipi á Berufirdi, ok deydi snögglega Nikolás Þormódsson, er haldit hafdi Kyrkjubœar-klaustr, ok Páll Magnússon á Akranesi. 4 menn druknudu af skipi á Vatnsleysuströnd, ok sá madr, er Filippus Jónsson hèt, í Markarfljóti. Þá voru stuldir vída, ok urdu uppvísir þjófar á fjöllum, nádust margir, ok vard refsat; einn var hengdr í Steingrímsfirdi, hann hafdi brotit hús ok hyrdslur manna til fjár. Misfarir urdu fleiri á einstökum mönnum. Þat haust fèkk Sigurdr lögmadr Bjárnarson Ragnheidar Sigurdardóttur lögmanns í Einarsnesi, ok voru þar at bodi nær allir virdíngamenn í Borgarfirdi.

## LVII Kap. Frá ýmsu.

Annar vetr var í medallagi frosthardr, enn snjóalítill; var borit 1678
út barn í Eyrarsveit, þat gat madr vetri meir enn hálfsjötugr frammhjá konu sinni, hann hèt Bjarni Hallsson, enn kona hans Gudrún, ok Gudrún dóttir þeirra, vid henni gat hann barnid, ok hjálpudust þau öll at útburdinum, voru þau fedgin sídan tekin af, enn konunni refsad. Brann bær at Bakka í Vatnsdal, enn 2 menn urdu fyrir snjóflódi í Fljótum; 9 menn urdu á skiptapa á Midnesi, enn 4 á Akranesi, 14 menn týndust af tveimr skipum vid Landeyar, hid þridja rak til Vestmannaeya, enn Enskir, er umsigldu, björgudu hinu 4da. Þá var mikid peníngatjón í Bardastrandar sýslu, hardt vor ok útmánudir, enn gott árferdi fyrir austan; hlutir voru 3 ℔, ok allt at 8 á Sudrnesjum. Þá voru prentadir á Hólum sköpunarbókar-sálmar, ok píslarprèdikanir, er útlagt hafdi Jón prófastr Arason. Manntapar einstakir urdu nokkrir;

voru þau missiri haldnir þrír bænadagar. Þá deydi Halldór prófastr Dadason í Hruna, ok á annann í hvítndögum, er þá var 9di júníí, var grafin Jórunn Einarsdóttir, Þórdarsonar lögmanns, er átt hafdi Þorsteinn prestr Tyrfingsson, ok módir Einars prests í Múla, at Flugumýrar kyrkju; þar tók Gunnlaugr prestr Þorsteinsson í Vallholti sótt, ok reid heim, ok dó 2 dögum seinna, er mælt hann hafi opt bedit gud, at láta sig ei hafa lánga banasótt, ok var 3 vetrum betr enn sjötugr. Halldór Jónsson ýngri frá Reykholti tók þá vid Stad í Grunnavík, hefir hann einn útlagt aldarhátt Hallgríms prests Pètrssonar, ok voru þá fáir svo færir at þat gæti, því fornfrædavísindi voru fyrst farin at koma upp aptr þá í öld.

## LVIII Kap. Þíng, mál ok tídindi.

Arni prestr Loptsson, Arnasonar, bjó þá í Gerdi í Hvamms sveit, ok hafdi ekkèrt kall, enn Rögnvaldr mágr hans, son Sigmundar í Fagradal, Gíslasonar, Jónssonar á Svarfhóli, bjó í Fagradal, lifdi þó Sigmundr fadir hans, ok var hann gamall mjög. Rögnvaldr bar uppá Arna prest, at hann hefdi med fordædu ok fjölkýngi hleypt þvíngunarsömum veikleika á sig ok Ragnheidi Torfadóttur, Snæbjarnarsonar, konu sína, ok drepit peníng sinn ok píndan suman med göldrum, ok stefndi Arna presti til alþíngis, fyrir meistara Þórd, kom ei Arni prestr þar at því sinni. Sigurdr, son Pálma Henrikssonar, gjördist þar lögrèttumadr í stad Arnórs Asgeirssonar. Var þar talat um at þíngmenn kæmi ekki, ok sýslumenn skyldadir at sækja jafnan þíng er mætti. Þar voru dæmd til dauda Eyvindr Jónsson ok Margrèt Símonardóttir úr Arnessþíngi fyrir hórdóm ok útileguþjófnad, ok líflátin, enn Magnús Benediktsson ok Klement Ulfsson úr Húnavatns þíngi til hýdíngar fyrir galdramedferd, einnin Þórdr Gudmundarson úr Arnessþíngi fyrir galdrablöd. Gudrúnu á Frodastödum var dæmd hýdíng fyrir uppnefni; annari konu fyrir illa vöktun á barni. Jón Sigurdarson gjördist sýslumadr í hálfri Húnavatnssýslu, ok Jón Þorleifsson klaustrhaldari. Fleirum voru hýdíngar dæmdar, einn þeirra hèt Jón Nikolásson, hann hafdi sagt í öli, at Kristján 5ti konúngr vor hefdi átt tvö börn frammhjá. Sætt fór framm med þeim mágum Markúsi á Breid Olafssyni, Markússonar, ok Jóni Olafssyni, var

Markús jafnan mikill flysjúngr, ok stód ei sættin lengi. Mörg voru slík smámál. Sagt er, at brendr hafi verit borgfirzkr madr Steffán Grímsson fyrir galdr, ok kona ok sonr hennar af Vestfjördum; hún var skagfirzk, ok óryktud ádr um galdr, enn sonr hennar óvandadr laust því upp af raupi, ok var því trúad ok frammfylgt vestra. Stódu þá ok mál Ara Pálssonar, er borinn var göldrum vestra, ok þess eins, at hann hefdi verit valdr í veikleika Þorkötlu Snæbjarnardóttur á Lokinhömrum, er Magnús Gissurarson hafdi átta. Þá fèkk húsfrú Ragnheidr Jónsdóttir konúngsbrèf fyrir lènsjördum, enn Páll Jónsson annad fyrir Melstad, nær sem tilfèlli. Fè mikit rak upp fyrir Ströndum, er franskir hvalveidamenn týndu. Var þá grasmikit sumar, gott ok þurt öndverdt sunnanlands, enn vott fyrst nyrdra ok þornadi, enn gjördi vætur sydra er áleid, svo nádust engin hey frá Barthólomæusmessu til Michaelsmessu. Jón Sigurdarson, sýslumadr á Bjargi í Midfirdi, druknadi í Lángá, er hann reid úr Straumfjardar kaupstad, ok þrír menn af skipi fyrir Öndverdunesi, er upphleypti í Skarfsvík seint ársins. Þá gjördist Egill Sigfússon heyrari á Hólum, hann hafdi attestazíu, er köllud var. Jón, son Arna lögmanns, fèkk Þórunnar Hallgrímsdóttur, Halldórssonar. Eptir Michaelsmessu komu fjúk ok fannalög med snjóum ok frostum, ok lagdi flestar ár fyrir vetr, urdu þá miklir fjárskadar í Fljótshlíd ok Landeyum. Um vetrnætr gjördi hláku, ok tók af allan snjó, vard þá hinn besti vetr, ok því betri sem áleid meira. Menn ok fè týndust vid Noreg af Hafnarfjardar ok Stapa skipi; þá kom aldrei sá dagr, at fjúk eda frost mætti 1679 heita á þeim vetri. Þá týndist skip af ofhledslu fyrir Hjallasandi, ok misfarir urdu nokkrar. Hlutir voru miklir sydra, vorgott ok mjög snemmgróit, svo at sóley var útsprúngin á páskum, enn fífill viku eptir krossmessu, þó var vetrinn þúngr nyrdra, þvíat í Höfdahverfi voru ekki nema tveir bændr í skiptitíund eptir, enn 34 umferdarmenn ok ómagar; dó þar fè af madki.

## LIX Kap. Mál ok ýmsir tilburdir.

Þórdr biskup hafdi haldit prestastefnu at Hvammi í Hvammssveit um sumarit fyrir í galdramáli Arna prests, ok þóttu veikar ástædur Rögnvalds, var því Arna presti dæmt at færast undan med tylftar-

eidi ok fángavottum, þat voru hverir prestvígdir menn, sem fá mátti, ok afleggja fyrir prófasti í Dalasýslu, Eiríki Vigfússyni, fyrir 14da dag júníí hinn nærsta; hafdi Arni prestr unnit eidinn á sama hausti med 5 presta fángavottum, enn prestar úr Borgarfirdi ok Strandasýslu, er hönum höfdu lofazt fyrir eidvættismenn, höfdu hindrazt vegna snjóa ok óvedra, enn sönnudu nú þennan eid med hönum hinn 4da dag janúaríí þennan vetr, á nefndum stad fyrir prófasti. Þann eid vildi Rögnvaldr vefengja ok nokkrir veraldlegir, er hans taum drógu, enn svo kom at þeir sættust á alþíngi Arni prestr ok Rögnvaldr, at óskerdtri virdíngu beggja þeirra, ok án millilags; fèkk Rögnvaldr eptir þat Strandasýslu, ok hèldt hann hana nokkur ár; þóttust menn ei vita jafnmikit stórmæli ok hátt reist, fallit hafa svo slètt nidr á bádar sídur, ok ætludu þó margir svo í gard búit fyrir þeim mágum, at þat mundi skárst afrádit; var sá Arni prestr fadir meistara Jóns, hins seinna biskups í Skálholti. Margar voru þá málaþræsur adrar. Jón Eggèrtsson á Mödruvöllum vildi ná af Birni sýslumanni Magnússyni jördinni Bægisá sydri vid Yxnadal, enn lögmenn dæmdu hana Birni. Ekki hafdi Þorleifr lögmadr nordr komizt, at skera úr þrætum þeirra Bjarnar Pálssonar ok Jóns, hann sagdi af sèr lögmannsdæmit sakir vanheilsu, enn Magnús Jónsson frá Reykhólum, Magnússonar, Arasonar, var kosinn í hans stad, dótturson Magnúsar lögmanns, voru med hönum í kjörum Jón Sigurdarson í Einarsnesi, ok Þorsteinn Þorleifsson sídan á Vídivöllum. A þíngi var gefinn vitnisburdr Þorleifi lögmanni. Irar höfdu brotit skip sitt vid Skaptafellsþíng, ok nádist nokkud fè, enn sumt var stolit, ok var Þórarni Jónssyni, er þat gjördi, dæmt húdlát af lögrèttunni, sem nærst lífi, ok skyldi ábyrgjast sig sjálfr. Þá mælti Markús Olafsson illmæli vid Jón mág sinn, ok mörg voru þar mál, um barneignir ok ófrjáls kaup ok annat. Jón Eggèrtsson átti deilur vid marga, hann fór utan at ákæra mótstödumenn sína, ok med hönum Gudmundr, son Sveins prests frá Bardi, er verit hafdi heyrari á Hólum, enn hann fann sèr nokkud til saka vid Gísla biskup, ok gaf sig af því í fylgi med Jóni Eggèrtssyni óvin hans. Magnús lögmadr hafdi unnit lögmannseid sinn fyrir Olafi Jónssyni Klov umbodsmanni, er fyrrum var sýslumadr um 17 ár. Var skipadr á þíngi hospítalsdagr í Múlasýslu, nærsti dagr eptir þíng Maríumessu, enn 20ti apríl edr nærstr eptir í Þorskafjardarþíngi. Þá var prentad gra-

duale á Hólum í kvartó, ok píslarprèdikanir Forsters; var þá allstadar mikil ársæla; þóttust menn sjá í lopti um sumarit mann dýrdlegan á hesti glóanda med brugdnu sverdi. Stolit var af skipbroti í Skaptafells þíngi ok refst.

## LX Kap. Mannalát ok tjón.

Manndaudar urdu margir á þeim missirum; andadist þá Björn prófastr Snæbjarnarson at Stadarstad, ok fór Sigurdr á Skáney, son Sigurdar prófasts Oddssonar, utan í þridja sinn, einnin Jón prestr Halldórsson af Mýrum. Annar andadist Björn sýslumadr í Bæ á Raudasandi, son Gísla Magnússonar at Hlídarenda ok mágr Þórdar biskups, úngr madr ok líklegr til höfdíngja, af meinsemd í kvidi sèr. Enn Bjarni Markússon frá Stokkseyri, er hann ætladi at fá Margrètar Gudmundardóttur frá Heynesi, lagdi hestinn á sund yfir þveran fjördinn, ok druknadi þar, enn þeir komust í eyuna sem med hönum voru. Gísli prestr Sigurdarson frá Refstödum í Vopnafirdi druknadi í Hofsá, enn Pètr Rafnsson at Stöd í Stödvarfirdi, ok madr med hönum í Kvíaá í Öræfum; Einar Klemusson í Þorleifslæk í Ölvesi. Högni prestr í Einholti deydi þá enn, Gudmundarson prests, Olafssonar prests á Saudanesi, Gudmundarsonar, hann var fadir Sigurdar prófasts, födur Högna prests, födur þeirra Högnasona, er allir voru prestar. Einnin Jón Rúgmann erlendis, hann var son Jóns prests Gudmundarsonar at Mödruvöllum í Eyafirdi ok Sigrídar Olafsdóttur, Jónssonar prests í Lauf'si, Sigurdarsonar, Jónssonar príors, Finnbogasonar lögmanns, ok var sagnameistari Svíakonúngs. Ok margar konur öndudust af barnsförum á því hausti. Einar prestr Torfason, Snæbjarnarsonar, at Stad í Steingrímsfirdi, hafdi kunnr ordit at hórdómi, enn vafit lengi at konan lýsti hann, fyrst med þögn hennar, ok sídan med lýgi á annann, ok tekit hana sjálfr til aflausnar, hafdi hann flækt mál þat lengi med krókum ok kyndugum brögdum. Sigmundr hèt nordlenzkr madr, Bergsson, er hengdr var í Rángárþíngi. Þá lèt meistari Þórdr biskup byggja forkyrkjuna í Skálholti, enn þó hafdi Brynjúlfr biskup lagt til ádr stólpana miklu, ok mikinn vid annann. Þat vard enn til tídinda um jólaföstu, at Torfi prófastr Jónsson í Gaulverjabæ hlaut skadà af eldi; hann hafdi fest stólsjördina

Hraungerdi fyrir sig ok konu sína, medan þau lifdi, hýst hana vel, ok látit flytja þángat til geymslu mikit af því lausafè, er hann erfdi eptir Brynjúlf biskup; enn þar brann allr frammbærinn ok allt þat er í var, eina kvöldvöku, fólk allt vakti í badstofu, ok sakadi ekki, enn enginn vissi af, fyrr enn óbjargandi var. Torfi prófastr reid þat kvöld frá Skálholti, ok kom at öskudýngjunni daginn eptir; hnignadi þadan af audi hans ok heimilis blessan, ok eignudu margir andvörpunum fátækra erfingja Brynjúlfs biskups yfir gjöfinni. Dó Gísli í Reykjarfirdi Jónsson, Magnússonar, Arasonar, ok Gudný, kona hans.

## LXI Kap. Frá ýmsu.

1680 Vetr þessi var gódr til jóla, enn hardnadi þá; hljóp uppá úr jólanótt med fjúki, hríd ok hardvidrisfrosti miklu, ok var þat svo til einmánadar at fáir dagar voru fjúklausir til kvölds; voru þær hrídir stundum 6 eda 8, 10 eda 12 daga í samt; þá lestust 3 skip vid Hjallasand, ok týndust 5 menn af, enn 8 menn urdu á skipreika á Brimilsvöllum, 4 í Stadarsveit, 2 á Gufuskálum, 7 í Gardi sudr, urdu þá bágar gæftir, ok litlir hlutir vída. Sá madr hèt Ögmundr Þorvardsson, er týndist í Kríngluskardi hjá Einarsnesi; vard þá mikill fjárfellir í mörgum stödum. Madr skar sig á háls í Kjós, sá hèt Gísli, annar á Rángárvöllum. Sumir segja þá væri prentat á Hólum Díaríum Hallgríms prests Pètrssonar. Einn madr hengdi sig á Tjörn í Svarfadardal. Þat hafdi verit hid fyrra vorit, at Kristján konúngr baud, at strídshjálpar-tollr skyldi gjaldast á landi hèr, ok jafnt af andlegum sem veraldlegum, enn Henrik Bjelke höfudsmadr hafdi því svo hagad, þó ei fengi hann tollinum afstýrt, at undandrógst at krefjast þessa, þar til er hèr var komit; var þá mjög hardt vorit, sem ádr segir, ok fiskileysi; skyldi hverr eigandi gjalda tvær vættir fiska af 20 hundrudum í jördu hverri, ok leigulidi eina vætt, ok svo eptir tiltölu, hvert sem jördin væri meira eda minna, enn hver skyldi metast fyrir 20 hundrud, sem á var kúgildis landskuld; 10 fiska skyldi ok eigandi gjalda af kúgildi hverju, ok leigulidi 5, enn þeir sem höfdu jardir í lèn skyldu svara af hverri hálfu minna enn eigandi; jafnt skyldi þat hvert sem eignarmadr byggi á jördu sinni edr ei; hèldu menn til þessa

tolls undirrót verit hafa Martein, þènara höfudsmannsins, er komizt hafdi yfir jardabókina hjá hönum, ok er hann var úr hans þjónustu reiknad saman, hvad landit gæti úti látit, komit því sídan á lopt sèr til framhalds sjálfum. Menn þóttust mjög illa vidlátnir, óvanir slíkum álögum, enn ár hardt, ok tollrinn mjög þúngr, var þá kurr mikill ok klögun medal manna, enn ekki var hægt til undanbragda, þar sem upp hafdi verit skrifat jardir ok kúgildi ádr; bádu þá andlegir ok veraldlegir konúnginn audmjúklega uppgjafar vegna hardinda í landi, ok höfudsmanninn hjálpar ok lidsinnis í því máli, biskupar bádir, meistari Þórdr ok Gísli, lögmenn Sigurdr Bjarnarson ok Magnús Jónsson, ok allir adrir. Arni prestr Jónsson frá Hofi á Skagaströnd, er fyrri hafdi haldit Fagranes, strauk þat sumar í enskt skip fyrir galdrarykti, ok var hönum lýst á þíngi, segja sumir þó at hann stryki hid fyrra sumarit, enn aldrei kom hann aptr; Ingibjörg hèt kona hans, er þó var meira brugdin vid fjölkýngi, hún flæktist í Austfjördu, ok hafdi hid sama ord á sèr sem ádr. Var mikit sagt þar af fjölkýngi hennar, var eitt daudi Halldórs prests Eiríkssonar, ok veikindi annars prests, enn hönum batnadi, er henni var settr tvíkostr. A einum bæ dóu kýr allar, er hún fèkk ei eina. Þá andadist Teitr prestr í Gufudal Halldórsson, Teitssonar, Halldórssonar, Einarssonar, Sigvaldasonar lángalífs, ok Gunnlaugr prestr at Stad á Reykjanesi Snorrason, Asgeirssonar prests at Lundi, frá hönum er margt fólk vestra; einnin Magnús prestr Pálsson í Kálfholti, ok Þorvaldr skáld Rögnvaldsson á Saudanesi í Svarfadardal; var mikit sagt af nærgætni hans ok ákvædamegni, ok var því haldinn margkunnugr af ýmsum, hefir hann verit gamall mjög, því þá voru 55 vetr sídan Jón, bródir hans, var borinn galdri ok brenndr hèr fyrstr. Þá andadist enn Ragnheidr at Espihóli, kona Bjarnar Pálssonar, ok hann nokkru seinna; kvad Þórarinn prestr at Hrafnagili erfiljód eptir þau bædi, hann var son Jóns í Hafrafellstúngu, Einarssonar, Nikolássonar, Þorsteinssonar, Finnbogasonar lögmanns, ok var þá haldinn merkilegr. Konúngsbrèf komu út um Kancellíbrèf, ok um höndlunarfèlag ok hvalaveidi. Sigurdr Sigurdarson, Oddssonar, kom ok út med brèf fyrir Stad á Ölduhrygg, sem hann hafdi eptir farit; einnin Jón prestr Halldórsson, hann fór eyrindislaus, þvíat Jón biskup Vigfússon at Leirá hafdi sendan hann med Súpplíkazíu sína um Stadarstad, var hvorutveggja, at hönum

var ei mjög vel tekit eptir fall Griffenfeldts, enda hafdi annar borit sig framm sjálfr, ok var Jón prestr Halldórsson ordinn hælislaus fyrir ferdína, því Þorsteinn prestr, son Þórarins Illhugasonar frá Kalastödum, var settr aptr í sóknirnar. Einar prestr Torfason kom ok út, hafdi farit med mál sitt, ok fengit at halda embætti, enn ei kallinu, fèkk hann seinna Stad í Reykjanesi, ok var þar enn ei mjög vinsæll.

## LXII Kap. Frá þíngi ok málum.

Nú vil eg geta sýslumanna ok lögrèttumanna á þíngi, svo sjá megi hverir jafnsnemma voru uppi. Þorsteinn Þorleifsson var þar sýslumadr úr Skagafirdi, ok Sigurdr Hákonarson annar, Jón Vigfússon frá Hvoli, Dadi Jónsson úr Kjós, Gísli Magnússon at Hlídarenda, Gudmundr Jónsson á Hvítárvöllum, Jón Sigurdarson á Einarsnesi, Jakob Benediktsson af Stapa, Eggèrt Bjarnarson hinn ríki á Skardi, Páll Torfason úr Isafirdi, hann hafdi þá 9 vetr haft þar sýslu, Gudbrandr Arngrímsson úr Húnavatns sýslu, ok annar Þorsteinn Benediktsson frá Bólstadarhlíd, Bjarnarsonar, Magnússonar, Björn Magnússon frá Múnkaþverá, Bjarni Pètrsson á Stadarhóli, Jón Vigfússon í Lögmannshlíd, Jón Þorláksson úr Múlaþíngi. Lögrèttumenn voru Þorgrímr Gudmundarson úr Krossavík, ok Bergr Einarsson, Olafr Einarsson, Þorsteinssonar frá Þykkvabæ, Sigurdr, bródir hans, Jón Eiríksson, Magnús Kortsson í Arbæ, Oddr Magnússon á Sperdli, Einar Eyólfsson, Þorsteinn Jónsson, Jón Asmundarson frá Stóruvöllum af Klofa-ætt, Jón Jónsson, Þórdr Erlendsson, Arni Jakobsson, Henrik Magnússon í stad Þórdar Ormssonar frá Eyum, Sigurdr Arnason lögmanns; Oddssonar, Gudmundr Arnason, Sæmundr Arnason frá Hólmi af Hlídarenda-ætt, Þorvardr Magnússon, Finnr Sigurdarson prest at Ökrum, Finnssonar, Jón Gunnlaugsson, Finnr Jónsson, Þórdr Runólfsson, Hákon Arnason á Vatnshorni, Sigurdr Pálmason, Henrikssonar, Þórdr Steindórsson frá Ingjaldshóli, Finnssonar, í stad Halldórs Gudmundarsonar í Olafsvík, Arni á Heydalsá Vigfússon prests Helgasonar, Þórdr Bjarnarson, Egill Einarsson í stad Jóns Egilssonar á Geitaskardi, Sigurdr Jónsson úr Skagafirdi, Olafr Magnússon, Þorsteinn Steingrímsson frá Hofi, Magnússonar, Sigurdr, son Hrólfs sýslu-

manns Sigurdarsonar, Jón Sigurdarson, Sigurdr Jónsson. Þar var Sæmundr Þorláksson úr Fljótshlíd dæmdr til dauda ok líflátinn fyrir launúng ok nidrgröft á barni, er hann gat vid Hergerdi Brandsdóttur; Einar Þorsteinsson, sýslumadr at austan, sendi öxina, er hann var högginn med, ok gaf hana lögrèttunni, ok var hún lengi höfd sídan. Dæmt var þar ok um dýratolla, ok húdlát Höskuldi Sveinssyni fyrir galdrastafa medferd. Ekki vard útgjört mál Ara Pálssonar. Páll Torfason sýslumadr hafdi keypt fyrir nokkra sokka ok vetlínga færi af Enskum til skipa sinna, því kaupför Dana voru ei komin; hann var dæmdr frá búslód ok embætti, þó þat linadist seinna. Gísli biskup Þorláksson tók þar vitnisburd sinn ok Olafr Klov. Búslód var dæmd af tveimr brædrum vid Arnarfjörd fyrir kaup vid Hollenzka. Jón Eggèrtsson hafdi komit út litlu fyrir þíng, hann hafdi átt deilur vid Björn Pálsson, sem fyrri segir, útaf drykkjuordum Bjarnar vid Sigrídi konu hans, ok hafdi Sigrídr svarit 2 eida í hèradi, enn hinn þridja á alþíngi. Björn Magnússon lèt frammbera í lögrèttu galdrablöd nokkur med 12 manna vitnisburdum, at hyggdi vera med egin hendi Jóns Eggèrtssonar, var hann því stefndr til svara fyrir Magnúsi lögmanni, enn Jón bar þat framm fyrir umbodsmanninn Jóhann Klein, at Björn sýslumadr hefdi ei viljad taka prjónasaum Jóns Jónssonar á Hrauni í Yxnadal, enn sagt hönum at selja hollenzkum duggurum fyrir dal ok færa sèr hann; kvadst Jón í slíku sýna konúnginum trúnad, ok hversu dyggr embættismadr Björn væri, ok ætladi at sýslumanni mundi þessi sök einna verst gegna. Jón stefndi ok Magnúsi lögmanni 12 mánada stefnu fyrir hæsta rètt í Kaupmannahöfn, ok fyrirbaud hönum eida at taka um sig, eda dóm at dæma; þó tók lögmadr eidana, ok var þat svarit, at þat rúnablad, er eidamenn hèldu á, meintu þeir Jón ritad hafa med egin hendi, enn þat var útsett, hversu háan eid Jón skyldi hafa. Jón hafdi fengit Mödruvalla klaustr undan Þorsteini Þorleifssyni, ok gengit svo hardt eptir, at Þorsteinn vard at láta laust á midju sumri, ok flutti sig at Vídivöllum til húsfrúr Kristínar Gísladóttur, ok bjó þar medan hann lifdi, enn Jón hafdi alla höfdíngja fyrir sökum, Þorleif lögmann, er frá var, ok báda þá lögmenn, er vid voru, Sigurd ok Magnús, ok áfrýadi dóma þeirra, einnin Björn Magnússon, sem fyrr segir. Þeir Jón ok Gudmundr frá Bardi höfdu störum ofrægt flesta yfirmenn á Islandi, medan þeir voru utan, ok mest Gísla biskup Þor-

láksson; voru hönum margar sakir fundnar til; sú var ein hin helzta, at hann hefdi studlat til at prestr fengi konu, þeirrar er ádr var spjöllud af ödrum; sú önnur, at hann hèldi ekki skóla nema frá allraheilagramessu til páska; sú hin þridja, at hann sæi illa fyrir hospítalinu, ok þat fleira smærra, er þeir tíndu til. 16 pósta hafdi Jón sett framm fyrir höfudsmanninn landshöfdíngjum til nidrunar; ok því tók Gísli biskup vitnisburdi sína; vard Jón stórum óþokkadr, enn Gudmundr var dáinn. Þorsteinn Þorleifsson stefndi þá Jóni fyrir róg ok lygi, enn hann fór utan á Akreyri ei at sídr, skömmu eptir, ok á hinu sama sumri. Dæmt var enn á alþíngi um illmæli Gudmundar Gudmundarsonar vid lögmennina; þar var ok tekinn vitnisburdr Jóhanns Kleins. Eptir þíngit fór Gísli biskup til fundar vid Jóhann Klein umbodsmann, ok bar af sèr þær rógssakir Jóns, er nokkurs voru verdar, sýndist þá at Jóni gekk til margs fullkominn illvilji.

## LXIII Kap. Um Galdramál.

Þat hefir ordit landsformönnum hèrlendum at mestu ámæli af vorrar aldar mönnum, hversu mjög þeir trúdu galdramálum, ok refstu óvægilega, ok verdr þeim eigi mæld bót í því, enn þó er þat órètt, ef ætlat er at íslendíngar einir hafi verit svo vanvitrir; því þó menn vissi ei, at á dögum Kristjáns kónúngs 4da brendu embættismenn konúngs marga Finna, ok at hid sama edr líkt fór framm í Danmörku ok Noregi, ok hvervetna annarstadar, þar sem menn voru bornir fjölkýngi í 17du öld, þá vitu menn at stjórnin í Danmörk hlutadist þá til um smærri mál hèr í landi, þegar hún vildi, enn þó aldrei um þetta, eda tók þat af; ok at Henrik Bjelke var hèr höfudsmadr alla þá stund, er mestar brennur gengu, ok enginn höfudsmadr hafdi verit hèr kunnugri, ok lagdi hann ekkèrt þat til, er slíkt tæki af, ok ei var þat heldr gjört á hans dögum öllum, eda neitt vidhreift; ei heldr sökudu rógsmenn, Jón Eggertsson edr hans makar, yfirmenn hèr um slíkt; ok svo kom einvaldit í Danmörk, ok hafdi lengi stadit, at ekkèrt var lagt til um þetta efni; ok enn seinna, er konúngr gaf út lögbókina, lagdi hann sjálfr brennurefsíng vid hina hærstu tröppu fjölkýngis, ok má þó sjá af því er seinna segir, at þá var tekit til at fara var-

legar í þeim efnum, enn ádr hafdi gjört verit. Er af því sýnilegast, at þat atferli er haft var, hafi ei verit einum saman Islendíngum förult, ok engri þjód einstakri, enn heldr hafi verit aldar brestr; ok var þat jafnt á bádar sídur hèr á landi, hversu almenníngr hræddist fjölkýngi, ok hitt, at margir af þeim, er fyrir því voru hafdir, trúdu því um sig, at þeir væri sannir at sök, ok sumir vildu gjarnan orka med galdri, at gjöra ödrum illt; ok af því fengust hèr svo margar medkenníngar pintíngalaust, ok margir tilburdir urdu, er sýndust undarlega at styrkja sannindi trúar á þessu. Er líkast at stjórnin hafi þá fyrst hlutazt til, at taka fyrir svo mikid hardrædi, sem var í galdramálum, (þar sumir fèllu þó nálega fyrir grun einn, ok at þeir fengu sídan ei eidamenn) af því einu er barst út af ritgjördum lærdra manna í þann tíma; ok víst hefir þvílíkt valdit, at flest lönd í nordrálfu skiptu um þetta; ok vard þat audveldara, er hin sama ætlan komst inn hjá þjódunum sjálfum sem hjá stjórnunum, at galdr væri lítils megnandi, því þadan frá tókst af, at leggja hug sinn eptir hönum, ok sá illvilji, er því fylgdi, svo þat vard miklu skjaldgæfara.

## LXIV Kap. Tilburdir.

Um þær mundir tóku sig saman bændr í Biskupstúngum, Jón Jónsson smidr í Miklaholti, ok adrir sveitarformenn, ok vildu gjöra brú á Brúará, í stad bogans, er Helga Jónsdóttir lèt afbrjóta fyrrum, ok veltu stórgrjóti ofan í árþrengslin, enn þat þurfti jafnan um at bæta, þvíat vatnavextir spilltu því verki, í hvert sinn er þeir urdu miklir. Þá dó Hallgrímr prófastr Jónsson í Glaumbæ, ok tók Ari prestr Gudmundarson at Mælifelli prófastsdóm í Skagafirdi, enn Sigurdr Jónsson í Vestr-Isafirdi; dó ok Tómas, gódr drengr, á Lángamýri, son Rafns Bessasonar, Hrólfssonar sterka, ok Hákon, son Þorkels Gudmundarsonar sýslumanns. Rak 130 hnísur á Þíngeyrasand. Þat haust var hengdr madr í Arnessþíngi, sá hèt Magnús Jónsson. Þá sáu menn halastjörnu fyrir jólin, ok ætludu furda mundi nokkru, enda spurdust bædi sjónir ok fyrirburdir margir úr Þýzkalandi, enn Jón prestr Gudmundarson kvad um þá halastjörnu sálm, er hèt Bænarbelti; sú halastjarna var mikil ok nærgaungul, ok á at koma aptr, er þridjúngr er af 19du

1681 öld. Þann vetr voru hlutir litlir sydra ok eystra; gengu þá rosar, ok rak skip undan í Landeyum med 16 mönnum, annat týndist í Þorlákshöfn med 12, ok bátar tveir á Hafnarfirdi med 4 mönnum, 4 menn í Gardi, 5 í Borgarfirdi, ok enn 6 á Akranesi sudr. Margir menn dóu þá skjótt, ok þeir flestir sem sýktust. Prentadar voru þá Lassenií bænir á Hólum. I þann tíma deydi Olafr prestr Hallsson í Grímstúngum, enn Eiríkr prestr, bródir hans, lifdi þá enn í Höfda; Olafr prestr hafdi lagt út margar postillur, ok kvad sig þat gjört hafa líttlærdum prestum til stodar; hans son var Hallr prestr, fadir Halldórs prests á Breidabólstad. Þá dó ok Jón Jónsson prófastr í Holti í Önundarfirdi, Sigurdr prestr Jónsson i Miklaholti, Jón prestr at Ökrum Brandsson, Jónssonar prentara, Jónssonar svonska, Mattíassonar, hann var fadir Jóns prests at Hítarnesi, sem kom í stokksmálit; Sigurdr prestr Bjarnason á Kálfafelli, Magnús prestr Einarsson at Undirfelli, ok Jón prestr Oddsson í Brautarholti, þángat kom aptr Páll, son Sveins prests frá Bardi nordan. Gudmundr Kolbeinsson dó þau missiri at Gudmundar snikkara, mágs síns, Arnþrúdr Bjarnardóttir, kona Skúla prests í Goddölum, ok fleira heldra háttar fólk. Þá brann Skeidarárjökull.

## LXV Kap. Um skattinn ok annat.

Sigurdr prestr frá Skánoy Sigurdarson, Oddssonar, hafdi fengit um haustit fyrir Sigrídar Hákonardóttur frá Brædratúngu, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar, var þeirra son Oddr, er sídan verdr getit. Magnús, son Sigurdar á Skútustödum Magnússonar, Arasonar, hafdi jafnsnemma fengit Jardþrúdar, systur hennar, settist nú Sigurdr prestr at Stadarstad, enn Magnús at Brædratúngu, ok verdr hann nefndr seinna. Þá komu konúngsbréf út um sumarit, eitt um skógarhögg, eitt um þat, at konúngr kvadst gefa hönum af sèrlegri nád hálfan strídstollinn eptir, enn hálfr skyldi gjaldast; eitt um Páll Torfason, hann skyldi meiga halda sýslu sinni ok búslód, enn svara sektum sem mestum til Bessastada kyrkju byggíngar, eptir því, segir konúngrinn, sem amtmadr ákvædi. Var nú tekit til at heimta tollinn þat sumar, ok vard mörgum þúngbær, var þó ei göldit af biskups stólunum eda klaustrum, kyrkjustödum, lènsjördum presta nè hospítals, því menn vissu ei gjörla dýrleikann,

ok var skotit enn til konúngs. Prestar guldu hálft at kyrkju-kúgildum, enn lögmenn komu því á, at ásaudr var ei reiknadr, nè kýr óleigufærar. Þau missiri brann allr Gilsbakkastadr í Hvítársídu af badskyndíngu, enn ekki sakadi menn, þar var þá Páll prófastr Gunnarsson eldri. Þat þóttu enn tídindi, at barn tvævett hvarf úr vöggu á túnvelli úti, í Öxarfirdi, enn foreldrarnir voru skamt þadan frá at heyverkum, ok 3 menn druknudu í Lóni vestr, er hjálpa vildu skipum undan brimi. Enn kom konúngsbrèf, er stadfesti lögmannsdæmi Magnúsar Jónssonar nordan ok vestan, ok eitt til Hannesar, sonar Þorleifs lögmanns, at vera antíkvaríus konúngs.

## LXVI Kap. Frá þíngi ok ýmsu er vidbar.

I þann tíma var sá danskr madr umbodsmadr Jóhanns Kleins fógèta, er Lárits Gottrup hèt, ok mun hans verda nokkut vidgetit; fyrir hönum aflögdu þeir sýslumanna eid, Bjarni Eiríksson frá Búlandi, Þorsteinn Benediktsson frá Bólstadahlíd ok Pètr Pálsson. Lárits Gottrup sendi til Asbjarnar bónda Jokkumssonar yfir um fjörd, ok bad um frían flutníng fyrir fógètann; Asbirni þótti þat ekki skyldt, ok vard ekki af; fyrir þat var hann klagadr fyrir Sigurdi lögmanni Bjarnarsyni, ok dæmdust hönum tvær hýdíngar, sem hann mætti bera, fóru þær framm, svo hann leid í ómegin. Mætti mikit umræda, hve illa slíkt atferli kom í hald. Var þá dæmdr til dauda á alþíngi Þorkell þjófr Sigurdarson úr Skaptafellsþíngi, er vída hafdi rænt ok stolit, ok hengdr, ok þar kom fyrir um galdrablöd nokkur ok margt annad. Þorkell Ingjaldsson úr Snæfellsness-sýslu var höggvinn fyrir hórdóma. Ok þar komst til lykta galdramál Ara Pálssonar, ok medkenndi hann sig dauda verdan, ok var brenndr, hann var hreppstjóri, ok svo búinn í skart, at margir höfdíngjar keyptu klædi hans. Þar sættist mál med Gudbrandi Arngrímssyni ok Skúla á Seilu lögrèttumanni, hann var Olafs son, Bergþórssonar, Sæmundarsonar prófasts, Kárssonar. Ekki þóttust lögmenn geta gjört at galdramáli Jóns Eggèrtssonar. Eggèrt Bjarnarson, sýslumadr á Skardi, hafdi andazt um sumarit, þeir Páll prófastr í Selárdal voru brædr at faderni; Eggèrt hafdi átta Valgerdi Gísladóttur lögmanns, Hákonarsonar, Dadi var dáinn, sonr

þeirra ok Gísli, enn dætr voru giptar, nema Elín ok Ragnheidr, Gudrúnu hafdi átt Björn, son Gísla Magnússonar, ok var dáinn; enn önnur átti Gudmund á Alptanesi, son Sigurdar lögmanns Jónssonar, þeirra börn voru Eggèrt ok Þórun; Arnfrídr átti Þorstein Þórdarson prests frá Hítardal, hann bjó sídan at Skardi, ok var merkilegr madr. Helga bjó í Dagverdarnesi; önnur giptist Gudmundi syni Þorleifs lögmanns Kortssonar, þau bjuggu at Eyri á Skógarströnd ok í Brokey, ok gjördust audug ok verdr sídar getit. Var nú á þessu þíngi tekinn vitnisburdr Eggèrts; ok mörg mál komu þar. Þeir deildu þá enn, mágar úr Skagafirdi, Jón ok Markús Olafssynir þar á þínginu, ok urdu fjölmælismenn bádir fyrir illyrdi, ok hverki dómsætir nè vitnisbærir. Þorsteinn Þorleifsson lagdi framm varnir móti rógi Jóns Eggèrtssonar. Loptr hèt madr úr Strandasýslu er fór á fjöll med konu sína ok fylgikonu, ok lifdu vid saudastuld; hann nádist í Vatnaflóa, er þau ætludu í Surtshelli, ok voru med þeim 4 börn, ok önnur konan med barni, var Loptr höggvinn í Strandasýslu. Þá bjó í Hrísey á Eyafirdi Þorvaldr, son Gunnlaugs Grímssonar, er fordum druknadi á Grímseyarsandi, hann var þá gamall, ok hafdi verit þríkvæntr, átti hann sídast Herdísi, dóttur Bjarna prests at Grund, Hallssonar harda, Bjarnasonar, þeirra synir voru Hallgrímr ok Gunnlaugr, knálegir menn, var Hallgrímr frumvaxta, er hèr var komit, enn Gunnlaugr barn. Þorvaldr var audugr, er mælt hann hafi eitt sinn borgit hollenzkri duggu med vistir til Hollands, ok verit fullu launad, enn Eyafjördr var þá meir afsídis enn nú. Hallgrímr er sagt hafi smídad duggu, þó sumir beri þat aptr, ok ætlad inná Akreyri á þessu sumri, sigldi hann frá eyunni snemma morguns, ok er svo líklega frásagt, at hann hafdi 3 segl uppi, enn vedr var hvasst, ok nær tómt skipit; kom þá bilr mikill, ok sló hid mikla seglit flötu skipinu, sva at eigi vard vidrètt, týndist Hallgrímr ok hans menn á móts vid Arnarnes. Gunnlaugr, bródir hans, bjó at Sokku í Svarfadardal laungu seinna, hann var módurfadir Ragnheidar Þórarinsdóttur. Arferdi var þá enn allgott, er hèr var komit.

## LXVII Kap. Frá ýmsu.

1682 Fiskigángr var mikill, ok hlutir gódir sydra ok vestra um vetrinn eptir, enn minni fyrir austan land, urdu þá misfarir nokkrar ein-

stakra manna. Prentat var þann vetr á Hólum Lasseníí bænir, Díaríum, ok vikusálmar Kolbeins Grímssonar, hann hafdi verit skáld mikit, ok er sagt hann hafi fyrrum kvedit rímur af Sveini Múnkssyni, ok diktad sjálfr efni sem feiknalegast, ok sendt Brynjúlfi biskupi, ok þegit fyrir 10 dali. Þá dó Bjarni prestr Erlendsson í Kálfholti, Helgi prestr Jónsson á Melum, Jón prestr Runólfsson á Völlum, hann hafdi tvö um tírædt, ok Markús prestr Geirsson prests í Laufási, Markússonar, hann var fadir Magnúsar prests, er sídan var á Grenjadarstad. Sæmundr, son Hrólfs Sigurdarsonar, var skipadr til at þjóna at Grímstúngum um sinn. Jón Vigfússon, sýslumadr í Arnessþíngi, deydi á öndverdu ári, ok segir Benedikt prestr sýslan hafi sídan verit haldin uppá reikníng, enn ei at lèni; ok svo hafi verit um Snæfellsness- ok Ísafjardarsýslu, hafi Magnús lögmadr haft umsjón yfir þeim, enn Arness-sýslu hèldt danskr madr Hans Vilhjálmsson Londemann, hann átti Gudrídi, dóttur Markúsar *Bjarnasonar* á Stokkseyri, ok Gudrúnar Torfadóttur Erlendssonar, systur Þormódar, þeirra synir voru Torfi ok Evert Londemann, eru frá þeim Evert komnir hinir tignustu menn í Danmörku; Torfi vár ok mannvænn at karlmensku ok fleiru; systir Gudrídar var Þórdís, er bjó at Stokkseyri, ok nafnkend var at illu einu. Þá kom konúngsbrèf um utanferd fjögra skynsamra manna til at semja taxta nýan á vöru, því sá mátti eigi standa lengr, er þá var saminn fyrir þremr ok 60 vetrum, á dögum Odds biskups Einarssonar ok Gísla lögmanns Hákonarsonar, enn fyrir því at mönnum þótti tími ofnaumr, vard ei af, at neinn færi utan at því sinni, enn sýslumenn allir skyldu koma til nærsta alþíngis, ok skyldi þá tekit vera fullkomit umbod alþýdu ádr, til þeirra er utan færi. Þá dæmdi Magnús lögmadr Jónsson hina frekustu húdlátsrefsíngu Jóni Sigurdarsyni frá Þverá í Þíngeyarþíngi fyrir gudsorda vanvirdu; hann var son Sigurdar á Hóli í Kinn, Jónssonar prests at Ljósavatni, Magnússonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, ok var kalladr Brennir. Henrik Bjelke lèt þá af höfudsmanns embætti, ok hafdi mikid lof af landsmönnum hèr, hafdi hann verit þeim velviljadr at forda þeim álögum, fastheldinn ok ónýúngagjarn, var hann höfudsmadr í 3 vetr ok 30, ok enginn jafnlengi, hafdi ok verit eining medal landsformanna, ok kyrd á medan hann var á landi hèr, rèdust nú biskupar í med rádi klerka á sýnódó, at dispensèra um vidreisn presta, er fyrsta sinn fèllu í einfaldt frillu-

lífi, medan konúngr gjöri þar ei adra skipun á, med því móti at þeir sýni vitnisburdi sína, ok þeirra kvenna, er þeir féllu med, frá prófasti ok sóknarpresti, ok ei skyldu þeir fá prestsembætti aptr, fyrr enn at lidnum 2 árum. Þó var litlu sídar sú uppreisn sókt til konúngs sjálfs, ok svo þadan af. Fleiri komu konúngsbréf enn þat um utanferd 4a manna; eitt um þriggja bænadaga hald, ok annad til Olafs Asmundarsonar fyrir Kyrkjubæ; eitt um kauphöndlan. Þá var á alþíngi hengdr Jón Pétrsson úr Önundarfirdi, annar madr úr Strandasýslu fyrir þjófnad. Höggvinn var þar ok Jón Þorsteinsson úr Skutulsfirdi, ok hafdi þat at sök, at hönum hafdi borit til útaf tóbakskaupum vid Adrían Jensson Múnk á Skutulsfjardareyri, er fyrr er nefndr, reiddi Adrían upp rullutréd, enn Jón hljóp undir höggit, ok tók um hálsklædit, ok herdti svo at hálsinum, at hinn fèkk bana af, þó spillti þat hans málefni, at hann hafdi tekit sídan leynilega tóbak ok nokkra fèmuni adra. Þorsteinn Högnason hèt madr, er galdramál var borit af mörgum í Húnavatnssýslu, enn medgekk aldrei, hann var strýktr. Þórdr Steindórsson, Finnssonar, hafdi þá lögsögn í Snæfellsness-sýslu, hann kom þar med meinamál Olafs Einarssonar, ok var hönum dæmd útlegd. Gísli Arnason hèt madr af Vestfjördum, er hýdast skyldi nærst lífi fyrir galdra medferd. Stadfestr var þar fjallskiladómr Jóns sýslumanns Sigurdarsonar úr Borgarfirdi, ok margt fór framm annat. Höfudsmanns umbodsmadr hafdi Gudbrand Arngrímsson fyrir ákærum. Þau missiri urdu mörg slis, ok þat sumar reid Þorsteinn sýslumadr Þorleifsson á Ríprland, ok virdi fyrir 16 hundrud. Jón Eggèrtsson kom út med utanstefnu til Þorleifs lögmanns, er dœmd hafdi nokkud um mál hans, einnin til Sigurdar ok Magnúsar lögmanna, ok Dada Jónssonar, sýslumanns í Kjós; fór Dadi utan á Höfdaskipi ok Hannes, sonr Þorleifs lögmanns, vegna födur síns; var sagt, þat skip hefdi komit til Noregs, ok brotit þar, enn Dadi ok Hannes druknad bádir. Þá var vott sumar, ok fátt annad til tídinda enn nú er talit, þvíat enginn madr brá þá í neinu háttum þeim, er í vana voru komnir.

## LXVIII Kap. Frá landsformönnum.

1683 Annar vetr var rosasamr ok sjógæftir bágar; þá vard skiptapi í Fljótum nordr med 6 mönnum; annar á Vatnsleysuströnd med tveimr;

þrír menn týndust af skipi á Seltjarnarnesi, ok margir urdu skadar á einstökum mönnum. Þá var frostasamt sydra ok vestra, enn hlutir miklir, litlir fyrir nordan, lá hafís med nordrlandi öllu, lángt á sumar framm, ok sá hvergi útyfir af hinum hærstu fjöllum; rak hann eptir sumarmálin at austan allt í Grindavík, ok hindradi ródra. Þá andadist herra Henrik Bjelke, ok var hann geheimerád at nafnbót, ok margar hafdi hann nafnbætr adrar. Jóhann Klein hafdi verit fógêti hans vegna á elliárum hans, sem sagt hefir verit, enn Jóhanns umbodsmenn voru, fyrst Jakob Benediktsson, er hafdi Stapasýslu, hann átti Marínu, ekkju Mattíasar Gudmundssonar, þeirra börn voru Soffía, skörugleg kona ok lík módur sinni, er átti Eirík vid Búdir, son Steindórs Jónssonar, ok Benedikt prestr, fadir Jónasar prófasts at Höskuldsstödum. Annar umbodsmadr Jóhanns Kleins var Olafr Jónsson Klov, hann var reidari ok kaupmadr í Keflavík, er hèr var komit, spakr madr ok mannordsgódr. Þridji var Lárits Gottrup Kristjánsson, hann hafdi fyrst verit undirkaupmadr í Straumfirdi. Jóhann Klein var þetta sumar sídarst í landi hèr, hann var spaklyndr ok óáleitinn, hann lèt byggja Bessastada kyrkjukór, svo at kyrkjur hèr á landi lögdu engan peníng til; hann fèkk embætti sídan utanlands, ok var þarmed reidari á Vatneyri ok Bíldudal. Var þá híngad skipadr at vera landfógèti Kristófor Heidemann, son Jóhanns Heidemanns fógèta í Færeyum, er Færeyíngar áttu deilu vid, hann skyldi gjöra reikníng hvert ár, af vissri ok óvissri landsins ínntekt, enn hafa laun viss, ok var hann hinn fyrsti hèr, er svo var launad, þarmed gjöra amtmanns ok stiptamtmanns verk; hafdi hann mikid vald, ok á líkan hátt sem Jens Söfrensson á dögum Kristjáns konúngs 4da; hann kom út undir alþíng med konu sína Soffíu Amalíu, börn ok þjónustufólk, á konúngs skipi, því er í Seiluna fór, ok sókti gjöld ok fisk konúngs, ok fálka, var hann þá assessor í Kommercekollegíó, ok sat hèr sumar ok vetr optarst, nema þá er hann þurfti at gegna reikníngum sínum. Hann skipadi Jóni at Ærlæk í Öxarfirdi, syni Jóns prests Þorvaldssonar á Skinnastödum, sýslu í Þíngeyarþíngi, ok bad hann gegna ákæru Magnúsar prests í Húsavík Illhugasonar, Bjarnarsonar á Laxamýri, um átrodníng, enn umbodsmadr hans tók frá Gudbrandi Arngrímssyni þann hlutà Húnavatnssýslu, er hann hèldt, ok veitti Þorsteini Benedikts-

syni. Höfdu sýslumenn þá meira ríki enn nú um sumt, enn miklu var þat stopullra opt. Lárusi Gottrup var þá veitt af konúngi Þíngeyraklaustr, Vatnsdals ok Stranda-jardir, þegar fèlli. Á þíngi tók Jón Vigfússon í Lögmannshlíd vitnisburd sinn, því hann var frá sýslu; einnin Markús Snæbjarnarson í Asi, sýslumadr í Vestmannaeyum, ok Jón Runólfsson, ok svo Jóhann Klein landfógèti. Averkamál var úr Hnappadals sýslu, enn ekki var þar gjört at í neinum stórmælum. Hinn 30ta dag júníí, ok aptr hinn 9da júlíí, komu biskupar bádir saman á alþíngi, Gísli ok meistari Þórdr, Þorlákssynir, ok lögmenn bádir Sigurdr Bjarnarson ok Magnús Jónsson, ok svo hinir helztu menn allir, voru tilkosnir sameginlega 4 menn, ok þeim í hendr fengit umbod allra landsmanna til at semja taxtann vid reidara landsins, voru þessir menn tilnefndir: Marteinn Rögnvaldsson, sýslumadr úr Múlaþíngi; Jón Eyólfsson, sýslumadr í Kjósarsýslu; Magnús sýslumadr í Dalasýslu, er fyrri var prestr at Kvennabrekku, Jónsson prests, Ormssonar, Jónssonar prests í Gufudal, Þorleifssonar í Stóraskógi; enn Þorsteinn at nordan, frá Bólstadarhlíd, Benediktsson, Bjarnarsonar, Magnússonar. Jón Eyólfsson var nordlenzkr, hygg eg hann hafi verid settr yfir Kjósarsýslu, ádr enn kona Dada fèkk at halda sýslunni, enn þat hefir ei fyrri ordit, enn sannspurt var líflát þeirra Dada ok Hannesar; enn á þann bana þeirra lagdist sá ordrómr alþýdu, at Sigrídr hin stórráda, kona Jóns Eggèrtssonar, hefdi keypt af fjölkýngismönnum, at fyrirkoma þeim ok fleirum. Enn þat sèst af því, er konu Dada var veitt Kjósarsýsla, ok mörgu ödru, at þá var ei ætlad til at sýslumenn hefdi vanda af dómum, eda neinar annir, ok sýslur voru lèn heldr enn embætti, ok hefir þeim þó ekkèrt verit vilnat í meir enn þá var, sídan annir ok vandi margföldudust, nema um lítla vidrlífis peninga á eptir. Sigurdr lögmadr hafdi hönd yfir Kjósarsýslu, því hann bjó í Saurbæ á Kjarlarnesi, ok hygg eg hann þau umrád haft hafa, medan Jón Eyólfsson var utan. Var af öllum landsmönnum audmjúklega súpplicèrad til konúngsins, ok hann bedinn at sjá vægd ok vorkun til handa fátæki lands þessa. Þorsteinn Benediktsson fèll af baki, er hann ætladi til skips, ok laskadist í handlegg, þóttist hann þá ei ferdfær, ok settist aptr, enn hinir fóru, sem ákvedit var.

## LXIX Kap. Frá ýmsu.

Þat hafdi verit bodit, at nidr skyldu fellast utanstefnur Jóns Eggèrtssonar, enn Heidemann landfógèti skyldi prófa med 24 hinum helztu mönnum þann dóm er Jón ákærdi, var sendt eptir Jóni undir þíng, enn hann vildi eigi koma, dæmdist þá málit sem fyrri, ok hönum sektir, at eigi hlýddi stefnu konúngsins; hann fór utan um haustit med Hollenzkum, enn Magnús Benediktsson, stjúpsonr hans, med Frönskum; Magnús var íllt mannsefni, líkr módur sinni í skapi, enn ekki Benedikt Pálssyni. Þat sumar sá Jón prestr Eyólfsson í Hvammi, hinn 20ta ok 4da dag júlíí mánadar, heila nótt, ok nær allan daginn eptir, er hann var á ferd, Morgana eda loptsjónir, ok svaf þó í milli stund eptir sólaruppkomuna; med hönum var á ferd sá madr er Arni Gudmundarson hèt, ok sá hann allt hid sama, þat voru menn ok konur í ridlum, hús ok skip ok dýr marghättud. Þótti mörgum tídindavænleg minni sjón, þó er ei þess getit, at neitt hafi á eptir komit óvenjulegt. Sá madr er sagt höggvinn hafa verit á þíngi, er Jón Bernhardusson hèt, ok drekt barnsmódur hans Þurídi Þorláksdóttur fyrir leynd, hún var systir Sæmundar, er höggvinn var ádr fyrir barnsleynd. Einn madr var brenndr á Vestfjördum, er galdr var borinn. Mál var um hval milli Gísla biskups Þorlákssonar ok Páls prests Jónssonar á Melstad, reid Magnús lögmadr Jónsson þar á lönd. Þá var vígdr Þorsteinn prestr Geirsson til Laufáss, hann fèkk þá ok Helgu, dóttur Jóns prófasts Arasonar, er átt hafdi Teitr Torfason; enn Hallr Eiríksson, Hallssonar, til Höfda eptir födur sinn, ok Jón Sigfússon at Ríp ok Vidvík. Þau missiri andadist Jósep prestr Loptsson at Olafsvöllum, um hann hafdi farit saman afl ok þolsþrek ok saungrómr; einnin Gottskálk Oddsson, er fyrr var prestr í Middal, ok Gudmundr Einarsson í Skardsþíngum. Þá voru prentadar á Hólum píníngarprèdikanir Arndts, er útlagt hafdi Hannes prestr Bjarnarson í Saurbæ.

## LXX Kap. Siptamtmadr skipadr, ok ýmsar veitíngar.

Þat haust um vetrnætr gjördi skorpu harda; enn sídan var vetr 1684
hinn bezti; höfdu flestir lestarhlut fyrir sunnan um vertíd, ok

margir meira, enn minna fyrir austrlandi. Vor var kaldt ok þurt ok sídgróit. Fiskleysi ok hardindi var at heyra af Lánganesi ok nordan ad; virdtist þá audsýnilegt, at allar sveitir fyrir nordan Jökulsá í Axarfirdi mundi eydast, ok fólk deya nidr í húngri. Jón Jónsson á Ærlæk dæmdi hinn 14da dag aprílis um átrodníng höndlunarmanna í Húsavík, ok annann dóm um lagvad. Svo var alla þá öld, at bændr dæmdu eda lögrèttumenn, enn sýslumenn samþykktu at eins. Lagvadsmálit var ímilli Þorláks Jónssonar í Rauf, födur Sigmundar í Saltvík, ok Jóns bónda á Bakka, sonar Illhuga prests í Húsavík, Bjarnarsonar á Laxamýri, hann ok synir hans drógu leynd á lagvad Þorláks, óttadist hann fyrir málinu, ok gipti Þorláki dóttur sína med annari þóknan, enn var þó mælt at hann fengi fyrri karl einn, Jón Þorvaldsson í Húsavíkrkoti, er haldinn var fjölkunnugr, til at fyrirkoma sýslumanni, ok hafi Jón á Ærlæk dáit á ferdinni til þíngsins í Nordmannalág eda Leidará, ok er líkara verit hafi frá þínginu, ok at þetta hafi verid dregit saman. Fèkkst þá ekki bod uppá Þíngeyarsýslu sökum hardindanna, enn Jón Vigfússon í Lögmannshlíd, er hana hafdi haft, fór vestr at Tjaldanesi til Pèturs, mágs síns, Bjarnasonar frá Skardi, Pètrssonar, þeim lyndti ekki, því Pètr var stirdlyndr, ok fór Jón nordr aptr. Kristófor Heidemann stefndi Birni Magnússyni at Múnkaþverá. Þau missiri dó Jón prestr Grímsson í Gördum á Akranesi, enn Magnús Jónsson, Ormssonar, sýslumadr í Dölum, sá er utan fór, kom út sjúkr, ok var fluttr til Saudafells, þar hann bjó, ok deydi þar; voru þeir hans synir Arni assessor, ok Magnús prófastr í Hvammi, ok Jón sýslumadr. Hinir komu út, er utan höfdu farit. Eitt konúngsbrèf kom út, er dagsetti þrjá bænadaga; annat um okrsölu, letíngja ok slíkt fleira; þridja um veitíng Olafs prests Steffánssonar frá Vallanesi fyrir kallinu, ef Steffán prófastr Olafsson, fadir hans, fèlli frá; fjórda um Vatnsdals ok Stranda-jardir, er Lárusi Gottrup voru veittar ásamt med Þíngeyra-klaustri; hönum var ok bodit af kammerinu, at gegna embætti Heidemanns, ef hann dæi. Heidemann hafdi samþykkt, at Gudbrandr Arngrímsson væri frá hálfri sýslunni; fyrir því tók Gudbrandr eptir þat vitnisburdi sína á þíngi, enn Lárusi var veitt sýslan á móti Þorsteini, ok fór hann þá til Þíngeyra. Hid 5ta var um veitíng Andrèsar Andrèssonar fyrir Snæfellsness-sýslu ok Stapa-umbodi. Isleifr, son Einars Þorsteinssonar í Þykkvabæ, tók þá austr Skapta-

fellssýslu, enn Jón Þorláksson, er hafdi 14 þíngstadi af Múlasýslu, ok sleppti ádr tveimr hinum nyrdstu vid Þorstein Þorleifsson, lèt nú af 7 vid Bessa Gudmundarson. Þá var skipadr hinn fyrsti stiptamtmadr yfir Island, hinn ágætasti madr ok hinn tiginbornasti, ok hafdi margar nafnbætr ok stórar, Kristján Ulrik Gyldenlöve, sonur Kristjáns konúngs 5ta med hjákonu hans, var hann hinn bezti höfdíngi, enn ei kom hann út híngad. Tók nú at gjörast mörg önnur skipan á, enn fyrr hafdi verit, ok líkari því, er verid hefir á vorum dögum öndverdum, eda seint í 18du öld.

## LXXI Kap. Konúngsbrèf ok ályktanir.

Konúngsbrèf kom þá út til beggja biskupanna um rifnar ok brotnar klukkur, at þeim skyldi komit verda til Bessastada til rádstöfunar landfógètans. Annad at þeir hèldi kyrkjuverjendum til at endrbæta kyrkjur, ok gjöra fyrir þær glöggvan reikníng til biskups ok landfógèta, er ok skyldi utan fara. Þridja um at biskupar sendi meiníngu sína utan ásamt veraldlegum, um þat hversu bezt aptrad yrdi ferdum heilbrigdra húsgángsmanna. Eitthvad kom um ákærur yfir meistara Jóni Vigfússyni á Leirá. Um kyrkjureikníngana gjördi meistari Þórdr áminníngu, ok lèt færa í alþíngisbókina seinna, enn prófastar visitèrudu hvervetna kyrkjur á því vori, ok sendu biskupi reiknínga. Margir fluttu einnin klukkur brotnar eda rifnar til Bessastada, eda í adra kaupstadi, at forlági landfógèta, gleymdist þó sumum at taka brèflega medkenníngu kaupmanna fyrir afhendíngu þeirra, ok vissu því ei hvar sumar lendtu, gátu nokkrir til, at af púdri mundu klíngja nokkurstadar, ei sídr enn í kyrkjum; lèt því Þórdr biskup sjálfr umsteypa klukkuna miklu í Skálholti, ok trúdi bezt sèr sjálfum, ok var í ferd med, þegar hún var heimflutt á ísi um vetrinn. Þá kom enn út konúngsbrèf um taxtann, steig kaupmanna varan upp allmjög, helzt mjöl ok eldividr, enn hin íslenzka nidr, þar med skyldi vera Brimarahólms ok áleigumál, at kaupa nokkru vid utanríkismenn ok jafnvel vid undirmenn í kaupstödunum, nema kaupmenn ok reidara eina saman; þótti þat mörgum hardindi ok ófrelsi, ok var þat at vonum. Eitt konúngsbrèf kom til landfógètans Heidemanns, þarí var bodit at velja skyldi til á alþíngi vissa skynsama menn, at setja jafnad-

arverd á frammfærslu kaupmannsvörunnar medal Islenzkra sjálfra; einnin at veraldlegir yfirmenn skodudu, med hverjum hætti húsgángi heilbrigdra manna mætti helzt afkoma. Fyrir því tilsagdi Heidemann med lögmanna rádi, í lögrèttu, hreppstjórum ok bændum í hverri sýslu, at grípa alla umhleypíngja ok letíngja, ok færa sýslumanni til alvarlegrar hirtíngar, ok halda þeim til at vinna fyrir sèr. Enn til frekari úrgreidslu á bádum þeim greinum, nefndi landfógètinn báda lögmennina, Sigurd Bjarnarson ok Magnús Jónsson, tvo sýslumenn Jón Sigurdarson í Þverárþíngi ok Jón Runólfsson, ok tvo hina skynsömustu lögrèttumenn Gudmund Arnason ok Sæmund Arnason, báda úr Þverárþíngi, til at koma saman á hentugum stad ok tíma. Þat var ályktad á alþíngi um kostnad þann, er hinir tilteknu menn höfdu haft fyrir utanferdinni, at hann skyldi gjaldast af öllum landsmönnum, af hverju tíundarvirdu hundradi einn fiskr, enn tveir af þremr hundrudum, ok þrír af fjórum, af þeim sem minna tíundudu enn 5 hundrud; lausamenn ómagalausir, sem ei ætti 5 hundrud, skyldu gjalda slèttan dal, enn hálflausir hálfslèttan; ríkisdal þeir lausamenn, sem ætti 10 hundrud, ok hálfan annann hinir ríkari, sem kaupverzlan hefdi, ok þarmed fisk af hverju tíundarhundradi, sem bændr; búdarmenn ómagalausir, sem verzlan hefdi, 2 fiska af hverju tíundarhundradi, ok einn fisk þeir er ómaga hafa; af hverju eignarhundradi í jördu, sem byggist med venjulegri landskuld, gjaldist hálfr fiskr, enn ein mörk af hverju því, sem laklegast byggist, edr liggr eignarmanni bagalega.

## LXXII Kap. Annat er frammfór á þíngi.

A þessu þíngi var hengdr fyrir þjófnad Vilkin Arnason, hann hafdi vída stolit ok miklu, nyrdra, sydra ok vestra, ok eitt sinn 20 saudum frá Goddölum, var ok samþykktr daudadómr Magnúsar lögmanns yfir Sveini Arnasyni úr Isafjardarsýslu. Sigurdr lögmadr birti konúngs veitíngarbrèf til sín fyrir Kjósarsýslu, ok þar var lesinn vitnisburdr Jóns Þorlákssonar, sýslumanns úr Múlaþíngi. Landfógètinn hafdi þá framm stefnu sína yfir Birni Magnússyni. Þar var drekkt Helgu Gunnarsdóttur úr Strandasýslu, er barn hafdi getit vid brædrum tveimr, enn hinn sídari barnsfadirinn Björn

Höskuldsson var sloppinn úr járnum frá Pètri Pálssyni sýslumanni. Bjarni Arnason hèt madr úr Garpsdals sókn, hann hafdi ritat mjög svívirdulegt brèf undir nafni heilagrar þrenningar, til óvildarmanns síns, hönum var dæmt at missa þrjá fíngr um midlid, ok hafa 12 vandarhögg á hverju ári medan hann lifdi; voru þannig margir dómar í þann tíma eptir mati dómenda, þvíat Jónsbók leyfdi þat, ok tók ei sjálf mjög mörg dæmi til. Upp voru þar bodnar jardir Henriks Bjelke höfudsmanns; ok Sveinn Arnason var þar hengdr, sá er fyrri getr. Segja ok sumir, at Jón Valdason at austan, er misþyrmt hafdi nábúa sínum á messuleid til bana, væri þar aftekinn, (hann hèt heldr Sigvaldi Jónsson); ok kona frá Bessastödum sudr, er barn gat vid dönskum manni, at hún sagdi, ok kvadst hafa borit út úr húsi sínu um kvöld, ok hefdi þá fugl komit ok tekit þat. Urdu fleiri smámál um barnahvörf ok annat; slík hvörf voru þá tíd, ok segja menn vid hafi borit, at ernir hafi tekit börnin. Þar var lesit brèf stiptamtmanns. Var Gísli biskup Þorláksson frá Hólum til þíngs ridinn, ok þó mjög þrotinn at heilsu, ok var at reka ákæru Páls Jónssonar til sín, er hann hafdi lagt fyrir landfógètann hönum til ófrægdar. Þar kom fyrir mál mikit, stefnumál, milli landfógètans ok Jóns Eggèrtssonar, var hann dæmdr frá búslód fyrir utanför sína med Hollenzkum, ok frá klaustrinu fyrir skuldir, enn undir tiltal fyrir lagabrot sín; þar var ok almennilega játud lángvaranleg ófridsöm kynníng ok skadleg fyrirtekt Jóns Eggèrtssonar, ok óskat at gud ok konúngrinn vildi hana alvarlega hindra ok nidrþrykkja, svo Jón megnadi ekki med illum ásetníngi sínum, at koma landinu í ólukku eda sviksamlega forráda undan konúngsins vernd. Önnur mál voru þar smærri. Magnús Hrómundsson var þá sýslumadr í Hnappadals sýslu, ok hafdi nokkur mál fyrir. Björn Magnússon á Múnkaþverá lýsti þar brygd á jardasölu þeirri allri, er Gudbrandr, son hans, hafdi gjört, hann var hönum mjög ódæll, ok í mörgu átti Björn þá andstædt. Jón Eggèrtsson hafdi verit tekinn í hald í Kaupmannahöfn, ok ritadi þat híngad, at þat væri fyrir skuldir sínar af Mödruvallaklaustri, er ógoldnar voru, enn annad ætludu menn valda, ok komst hann ei út híngad. Jón hèt madr á Akranesi íllr ok ódæll, ok kenndr at stráklyndi, hann var Hreggvidsson, var hann tekinn fyrir óráðvendni, ok átti at flytjast í Heynessþíng, ok hýdast þar; var Gudmundr Jónsson, sýslumadr sunnan Hvítá, á ferd med hann þángad,

ok skildust menn at, því sumir voru drukknir mjög, vard þá Sigurdr Snorrason bödull einn í fylgd med Jóni, því hönum var helzt falit at gæta hans, þá rèdist Jón á hann, enn aflsmunr var mikill, því Jón var sterkr, ok kom hönum undir, ok dró hann í fen, ok kafdi hann þar; urdu menn þess skjótt varir, ok tóku Jón, lèt Heidemann setja hann í járn, enn hann medgekk aldrei; var hann í haldi á Bessastödum, ok brauzt þar úr járni, ok komst til Hollenzkra fyrir nordan land, ok fór utan med þeim; var hann dæmdr daudamadr, ok lýst á þessu þíngi.

## LXXIII Kap. Nordrför Heidemanns.

Snemma á þeim missirum hafdi brunnit bær á Lángamýri í Vallhólmi, þar bjó þá ekkja Tómasar Rafnssonar. Þá kom út Lárus Kristjánsson Gottrup med Mettu, módur sína, ok settist at Þíngeyrum, ok átti þá ok at styrkja Heidemann. Enn eptir þíng reid Heidemann nordr med Gísla biskupi, kom Gísli biskup heim hinn 16da dag júlíí, ok var á ferli 2 daga sídan, ok lagdist þá í hægri sótt, ok lá um 4 daga.

## LXXIV Kap. Andlát Gísla biskups ok prestastefna.

Gísli biskup Þorláksson var lítilátr madr ok ljúfr, ok vellátinn af gódum mönnum, ör ok gódgjarn; eitt sinn hafdi hann gefit meistara Þórdi, bródur sínum, er hann kom úr siglíngu, 300 dali; hann hafdi látit gjöra hinn mesta ljósahjálminn í Hólakyrkju, ok skírnarfontinn af steini, hann hafdi gjört Gudmundr smikkari í Bjarnastadahlíd, ok er mikill hagleikr á. Yfirsjónir þeirra sem leitudu hans, vildi hann bæta sem hann mátti, ok virdu þat sumir fyrir röggsemdarleysi, sem gjördu sèr dælt vid hóglyndi hans. Hann brúkadi prentverkit sem fadir hans ok lángafi, ok lèt eptir sig húss-postillu; enn rèttleika bókanna, bandi ok pappír hnígnadi á hans sídurstu árum, þá hann trúdi ödrum fyrir slíku, sökum heilsubrests hans, ok annars mótlætis, er hann hafdi af óvild ok rógi óvina sinna. Hann var þríkvæntr, sem sagt hefir verit, ok átti ekki börn eptir. Andadist hann nú hinn 22an dag júlíí mánadar

heima á Hólum á 53ja aldrs ári sínu, enn hafdi verit biskup 7 vetr hins þridja tugar, ok nær hálfan þridja mánud, er svo sagt at hann væri saddr lífdaga, þó hann væri eigi allgamall; var hann jardsettr 6 dögum seinna í dómkyrkjunni medal kvenna sinna tveggja, enn þorsteinn Gunnarsson dómkyrkjuprestr hèldt líkrædu; hann hafdi vígt 60 presta. Ragnheidi, dóttur Jóns prófasts Arasonar, ekkju sinni, er eptirlifdi, hafdi hann útvegad konúngsbrèf fyrir 12 jördum Hóla dómkyrkju, til afgjalds ok umráda, medan hún lifdi, ok vóru þat fullir 100 dalir á ári. Var Gísli biskup því Vatnsfjardarfólki til upphefdar, at því sem fyrir því var rekit. Spurdi nú þetta Jón biskup Vigfússon at Leirá, ok reid þegar jafnskjótt nordr eptir embættisbrèfi sínu, at taka at sèr stjórn ok umrád yfir Hóla biskupsdæmi, en hann hafdi ámæli ok óþokka fyrir verdslan ok veraldligar sýslanir, ok var hönum ei vel tekit á Hólum; hèldt hann þó prestastefnu at Flugumýri hinn 26ta dag ágústí, ok lèt þar lesa upp brèf sitt fyrir biskupsdóminum, í vidrvist Heidemanns landfógèta, því hann kom þá vestan at, ok lagdist heldr í móti því, at hann settist á stólinn. En Ari prófastr Gudmundarson setti adra prestastefnu at fornri venju, ok ákvad á Flugumýri hinn 5ta septembris, um biskups kosníngu, sem fyrr hafdi verit; vildi Jón biskup ei bída hennar, ok reid sudr. A þeirri stefnu ræddu prestar um, at þeir vildu taka einhvern gudhræddan mann í hid auda sæti yfir sig; komu framm ákærur presta í móti Jóni biskupi, ok lögdust 10 hinir helztu í móti hönum, ok afsögdu at hafa hann at yfirmanni, kvádu hönum hafa verit borinn galdr, ok hann hefdi keypt vid ófrjálsa kaupmenn, ok okrad med tóbak ok brennivín sídan hann var vígdr; sendu þeir þegar um haustit þær greinir fyrir konúnginn, ok voru þessir fyrir: þorsteinn prestr Illhugason á Völlum, prófastr í Vadlaþíngi, hann hafdi fyrr verit skólameistari, ok var systurson þorláks biskups Skúlasonar, sonr Illhuga Hóla rádsmanns Jónssonar á Einarstödum, Illhugasonar prests Gudmundarsonar; Einar prestr í Múla þorsteinsson, Tyrfingssonar; Jón prestr á Stadarbakka, Bjarnason prests frá þaunglabakka, Jónssonar prests, þórdarsonar trèfóts, um hann segir Jón prófastr Halldórsson, at hann hafi rètt kalladr verit stálmunnr; þorsteinn prestr Geirsson í Laufási; þessir höfdu allir verit skólameistarar á Hólum, ok þóttist enginn verr fallinn til biskupsdóms enn meistari Jón Vigfússon; þórarinn prestr Jónsson á Hrafnagili; Gunnlaugr

prestr Sigurdarson í Saurbæ; Þorlákr prestr í Glæsibæ, Sigfússon, Olafssonar, bródir Þórdar prests at Myrká; Þorsteinn Gunnarsson kyrkjuprestr at Hólum, mótfallinn mjög Jóni biskupi; Olafr prestr á Breidabólstad Þorvardsson prests Erlendssonar; Bjarni prestr Hallsson á Grund; Einar prestr á Skinnastödum; Jón prestr í stærra Arskógi Gudmundarson frá Flatatúngu Arasonar, bródir Ara prófasts at Mælifelli, hann var lángafi Benedikts Gröndahls; Jón prestr Þórdarson at Tjörn; Jón prestr Gudmundarson í Felli Erlendssonar; Þorsteinn prestr Olafsson í Eyafirdi, ok Olafr prestr Einarsson.

## LXXV Kap. Sýslanir Heidemanns nyrdra.

Kristófor Heidemann landfógèti reid af prestastefnu heim til Hóla, þá er þeir Jón biskup skildu, ok sídan nordr til Eyafjardar, var hann at ransaka lögsögn ok hèradsstjórn, ok hversu klaustrin voru setin ok fleira; þar voru med hönum í för: Magnús lögmadr Jónsson ok hinir skynugustu sýslumenn, er hann hafdi tekit med sèr, Jón Sigurdarson í Einarsnesi, Jón Eyólfson, Þorsteinn Benediktsson í Bólstadarhlíd, Arni Geirsson landþíngskrifari, bródir Þorsteins prests í Laufási, ok énn fleiri; urdu margir at leggja drjúgum ofan á klaustrin. Hann reid fyrst til Múnkaþverár til Bjarnar Magnússonar, var hann ákærdr fyrir þær sakir, at hann hefdi eigi bygt klaustr nè kyrkju, ok eigi gjört mönnum lög eda rètt yfir rángri kauphöndlan Akreyrar kaupmanns, ok annad lagaleysi. Er sagt hann hafi verit leiddr í klaustrhúsit, þar var þá gestastofa, tók hann at deila á Björn, ok er þá mælt, at Björn hafi borit fyrir hann silfrkönnu væna, ok er hann lèt ei af ávítum at heldr, hafi Björn smámsaman laumat í könnuna 10 dölum, ok ödrum 10, þá er sagt Heidemann hafi í annat sinn lokit upp könnunni ok litit í, ok ekki viljad afláta deilunni; hafdi þá Björn gengit til Helgu konu sinnar ok sagt: ekki líkar herranum ennþá, Helga mín! ok er þat sídan at málshætti ordit; laumadi hann enn 10 dölum í könnuna, ok er mælt, Heidemann hafi þá aflátit; ætla menn Björn hafi fyrir þat fríazt frá stórsektum, enn dæmdr var hann frá sýslunni ok klaustrinu af Magnúsi lögmanni, systrsyni hans, ok fór hann utan um haustid med dóminn á Akreyri, ok med hönum Arngrímr, son Hrólfs Sigurdarsonar, ok Olafr

klaustrdjákn Gudmundarson; lèt konúngr hann njóta aldrdóms síns, ok halda hverutveggju um sinn. Magnús lögmadr lèt ok dóm gánga, at forlagi Heidemanns, um Solveigu Magnúsdóttur, módursystur sína, ok Gudmund son hennar; þau höfdu vænst at þau hefdi óskad dóms af Birni Magnússyni sýslumanni, ok leidrèttíngar á þeim rángindum í kaupköndlan, er þau þóttust hafa ordit fyrir, ok kvádu Björn ei hafa gegnt því, ok leiddu þar at tvo votta; þótti dómsmönnum annar vottrinn jafnskyldr þeim-bádum Birni ok Solveigu, þridja ok fjórda lid, ok dæmdu hana af því seka 13 mörkum vid konúng, enn Birni fullrètti, sem bornum fullri sök, ósannadri; hid sama var ok dæmt af Gudmundi, fyrir þat hann hefdi kært þat mál í umbodi módur sinnar, ok sídan fyrir landfógèta; en óskerd skyldi mannvirdíng þeirra. Þadan reid Heidemann til Mödruvalla, ok krafdist álags af Þorsteini Þorleifssyni, er haldit hafdi klaustrid fyrir Jón Eggèrtsson; gjördi hann 100 dali fyrir affallna stofu, auk annars; taldi ok Jón Eggèrtsson skyldugan fyrir 2 ár, ok hafa heitit sjálfan at gjalda, ádr hann fór utan; sídan reid hann sudr, ok bádu fáir Nordlendíngar hann aptr koma; hann hafdi látit virda klaustrin öll; en Jón Eggèrtsson hafdi látit útgánga at nýu margar ákærur um alla landshöfdíngja hèr, ok háttu landsins, einninn höfudsmanninn Henrik Bjelke, er andadr var, kalladi hann hollari verit hafa landsmönnum enn konúnginum, ok fyrir þat var hann í haldinu. Meistari Jón Vigfússon kom aptr at sunnan um vetrnætr, ok vard á Hólum um vetrinn med einn svein, ok hafdi kost afhaldslítinn, ok allar virdíngar litlar. Þat haust rak mikla síld í Hrútafirdi, er marþvara var köllud, ok var hún sókt í lestum þángad úr nærstu sveitum, enn ekki þótti hún allskostar holl. Á þeim misserum druknadi í Hvítá Þorvardr Magnússon at Bæ í Borgarfirdi, merkilegr madr, ok andadist Gísli Árnason frá Ytrahólmi, ok ein kona í Rángárvalla-sýslu, er hafdi hundrad vetra tólfrædt, ok 4 betr, ok hafdi hún þá lifad, sídan Þorleifr lögmadr Pálsson dó, 10 vetrum eptir líflát Jóns biskups Arasonar. Þá var vetr gódr allt framm til jólaföstu, enn þó frost mikil. Var nú tekit at gjörast miklu rostumeira í landi hèr, enn um nokkrar stundir hafdi verit.

---

Þess vil eg geta hèr, at nokkra nýa stod hefi eg fengit; sèd Vatnsfjardar annál hinn seinna, ok gat eg fáu aukid úr hönum, ok þó nokkru; ok fengid bókalán af einum hinum ædsta manni lands vors, er eg ætla fródastan í landssögunni, ok einna bezt at sèr gjörfan um flest, ok í þeim bókum fann eg sumt þat, er auka þyrfti í undanfarnar árbækr, sem hèdan af verdr at vera sèr í lagi, en þat sem af þeim má auka í þá sjöundu edr hinar sídari, kemst inn í textann.

Frostastödum þann 15da janúarí 1828.

*J. Espólín.*

---

*Jeg maa her anmærke, at jeg har haft et nyt Hjælpemiddel til denne Bog, da jeg har faaet den senere Vazfjords-Annal at se, hvoraf jeg vel har hentet lidet, men dog noget; ja erholdt et betydeligt Boglaan af en af de første Mænd i Island, og som jeg anser for den kyndigste i Landets Historie og mest udmærket i flere Henseender. I hans Bøger har jeg fundet adskilligt, som burde tilföjes til de forrige Dele af mit Verk; men det maa nu trykkes som Tillæg, hvorimod det af dem, som hører til syvende eller følgende Dele, kommer ind i Teksten.*

---

# Vidaukar ok rèttíngar til árbóka.

## Til fyrstu deildar árbóka.

### Til 51. kap. bls. 70.

Þat hefir fundizt í broti fornu af ættartölum þeirra manna, er þá voru uppi, ok fródligt hefdi verit, ef heilt væri, ok sýnir at sá sem þat hefir samit, hefir viljad verda hinum seinni mönnum at frædimanni í ættvísi, er hèr má vidgeta; er at sjá sem sá madr hafi lifad um ok eptir daga þeirra Audunnar ok Lárenzíuss biskupa, ok má vera sè Haukr lögmadr, því menn vitu sídan engan upplýst hafa Islands sögu, svo at teljandi sè, allt til daga Jóns prests Egilssonar, um 250 ár; ok má því eigi ljóst gjöra um upphaf hverrar hinnar helztu ættar í 14du öld, enn miklu sídr seinna. Finnst þar nokkut um ættfedr Brynjúlfs hins ríka, er hèr verdr getit, ok er hann þar kalladr Bjarnarson, en eigi Bjarna, hèt ok Björn annar son hans, ok bjuggu þeir fedgar bádir á Ökrum; hèt fadir hans Björn prestr Brynjúlfsson, enn hans fridla, módir Brynjúlfs ríka, Ingunn, systir Einars ok Sigurdar, ok Þorvards prests, ok dóttir Gríms Einarssonar skikkjupeds; sá Einar var systurson Ingvildar Finnsdóttur, módur þeirra Helgasona úr Lángadal. Eyrný hèt dóttir eins þeirra, er átti vid herra Þórdi Hallssyni Rannveigu, konu Þorsteins í Audbrekku, Geirssonar ins audga á Silfrastödum, er getr í Þorgils-þætti í Sturlúngasögu; var Þorsteinn sá bródir Þorvalds í Launguhlíd bónda Solveigar, er druknadi, ok deilan vard um legstad eptir; enn Solveig var systir Þorláks ábóta, dóttir Lopts Helgasonar ok Borghildar Eyólfsdóttur, Þorsteinssonar. Þat sannar ok þessi höfundr, er vèr höfum tilgetit, at Eyríkr vestra, sem getr í Stadamálum, væri son Mardar hins sterka, er veginn var í Hvammi, ok Borghildar, systur Eyólfs. Hann getr ok frændlids Uppsala-Hrólfs, ok er af at sjá, at hann hafi verit ríkr madr ok mikilhæfr, enn má ei telja nidr; ok enn nefnir hann Eyólf Arnfinnsson, ok er miklu líkast sá hafi verit fadir Þorsteins lögmanns hins gamla, því Arnfinnt hèt ok son hans, fadir Eyólfs riddara; en kona Eyólfs Arnfinnssonar, ok at líkindum módir Þorsteins lögmanns, segir hann hèti Oluf, dóttir Bjarnar Þorkelssonar ok

Arnfrídar, enn hún var dóttir Bödvars Breidavads ok Valgerdar, frændkonu Jörundar biskups.

Til 62. kap. bls. 83, lín. 4.

Er þat missagt um Magnús á Svalbardi, at Eyríkr væri bródir hans; Magnús var Brandsson, en fadir Eyríks, födur Soffíu, er Guttormr Örnólfsson átti.

Til 86. kap. bls. 112, l. 30.

Þat er sumra manna sögn, at þeir væri at eins hálfbrædr Oddr, Leppr ok Sigurdr fóstri, en Þórdarsynir voru þeir bádir. Ok segja enn nokkrir, Oddr hafi verit son Þórdar Sigmundarsonar.

Til 93. kap. bls. 119, l. 26.

Gáta sú er þar stendr, at Ari Gudmundarson hafi fengit dóttur Þórdar Sigmundarsonar, heldr enn Ari einhverr Gudbrandsson, er hvergi er getit, er enn sönnud af ættabók einni merkiligri.

## Til annarar deildar árbóka.

Til 16. kap. bls. 22. l. 19.

Þat er mælt, at Loptr hafi ei verit búinn at fá Ingibjargar, þá hann lagdi fyrst lag vid Kristínu, en hafi haldit vid hana heldr lengi, ok verit hafi vid atvik, þau er köllut eru varla fögr, þó fátt verdi nú sagt af þeim eda upphafi þeirra eda enda; er sagt hann hafi gipt hana sveini sínum, er Höskuldr hèt, ok átti 2 hundrud hundrada, ok mælt, er þat var sked: kjörvilt varstu, Kristín! ek ætladi þú mundir kjósa mig.

Bls. 23, l. 14.

Svo segir einn hinn hálærdasti madr (Dr. H. F.), hvat sem hann hefir haft fyrir því, ok hvört þat kemst saman edr ei vid þá sögn, er hèr er sögd eptir fródum mönnum, at Sigvaldi lángalíf hafi komit vestan úr Isafirdi. Hann lætr þat ok fylgja, at hann hafi smídad kyrkju í Vatnsfirdi med spónþaki, ok mælt at mynd hans hafi verit þar á dyrastaf (en eigi mál), hún hafi tekit hærstu mönnum undir höku; hafi hann skamtat sjálfum sèr smídalaun; numit frá Olufu Þurídi Einarsdóttur júnkæra, Þorleifssonar, ok farit med austr.

Til 30. kap. bls. 41, l. 25.

Þat er ljósast frásagt, at Gudmundi hafi mest verit fundinn til ofsi hans ok yfirgángr í nordrreid nokkurri, ok líkast hann hafi þá átt at skipta vid þá Vatnsfirdínga, mága sína, ok þeirra menn; lèt

ok Einar hirdstjóri þorleifsson dæma sídan upptækt fè hans, ok komust þeir Björn brædr yfir mikit af því sídan; var allt fèd 27 hundrud hundrada 113 hundrud og 60 álnir í jördum, en kúgildi 628. Björn þorleifsson gjördist sídan hinn mesti ofbeldismadr.

Til 39. kap. bls. 49, l. 25.

Eiríkr var kalladr slónefr.

## Til þridju deildar árbóka.

Til 24. kap. bls. 32, l. 35.

þat finnst í fornum brèfum ok vitnisburdi Tuma þorgrímssonar, er sídan var á Skídastödum, at Arnfinnr hafi heitit bródir Finnboga, ok vitu menn ei ljóst at segja, hvert þar er meintr Finnbogi lögmadr, þó svo sýnist, ok verit hafi dætr Finnboga Margrèt, módir Tuma, Una og Ragna, er barn gat vid Jóni Jónssyni, ödrum ok þridja vid sig, ok Gottskálk biskup tók af henni gard í *Olafsfirdi* fyrir, en Jóni Bæ í Dölum, Vindheima ok As í Hörgárdal ok Hóla í Yxnadal.

Til 25. kap. bls. 33, l. 32.

Benedikt hafdi dáit med þeim hætti, at hann reid á sudrfjöllum út í tjörn eina frá mönnum sínum, eptir álptum, er hann þóttist sjá, en enginn sá annar.

Til 32. kap. bls. 43, l. 19.

þorleifr Grímsson átti seinna Solveigu, en 7 ár, ádr enn þat yrdi, var hann utanlands, ok er sagt hönum hafi verit kennt þar sitt barn hvört ár, en alls 26 eda 27. Sigrídr kona þorleifs var dóttir Sturlu Magnússonar, er vèr ætlum son Magnúsar Jónssonar ok Helgu Einarsdóttur frá Djúpadal, Arnasonar, Dalskeggs Magnússonar. Er sagt, at Eyólfr lögmadr hafi ok verit son þess Einars, ok Bessi, er átti Sæunni Gudnadóttur, Oddssonar lepps. Son Sturlu var Jón í Dúnhaga, er átti Gudnýu, dóttur Gríms Pálssonar.

Til 71. kap. bls. 97, l. 29.

þorsteinn var kalladr leikari.

Til 72. kap. bls. 98, l. 5, eptir: var stórbokki mikill: Jón Sturluson, Magnússonar bjó í Dúnhaga í Hörgárdal, ok átti Gudnýu, dóttur Gríms Pálssonar á Mödruvöllum, Grímr hèt son þeirra, hinn efniligasti madr ok hinn vinsælasti, hann tók sótt þúnga, er hann var 18 vetra, ok gekk svo nær hönum, at hann var haldinn daudr. Gudnýu þótti þat þúngt, ok hèt fyrir hönum,

ef hann lifnadi, ok þat vard; var þá kallad hún hefdi heitit hann úr dauda; en hann vard aldrei med sinnu, ok sem ódr sídan, ok kalladr Grímr tvídaudi, voru hönum dæmd 16 hundrud á ári til vöktunar fyrir burdar sakir.

Lín. 38.

Svo hefir sagt hinn lærdasti madr ok ættvísati, at Grímr, son Jóns Gudmundarsonar muni hafa verit hinn sami sem Grímr Jónsson lögmadr á Ökrum í Skagafirdi; en þat fæ eg varla skilit fyrir þá sök, at sinn landsfjórdúngr, sín mægd ok sitt afkvæmi, er hverjum eignad, nema svo sè, at Grímr lögmadr hafi misst konu sinnar, ok látit eptir Akra ok adrar eignir hennar börnum, en farit sídan sudr til Sídumúla, ok fengit þar annarar konu, ok átt börn med, ok gjört lítid um sig á efri árum. Ok víst er þat undarligt, at hvergi getr forfedra Gríms lögmanns fyrir nordan, ok eigi veit hvad um hann vard, sídan hann sleppti lögsögn, er hann hafdi haldit hana skamma stund.

## Til fjórdu deildar árbóka.

Til 18. kap. bls. 118, l. 13.

Þá tók Þórdr Gudmundars. Reykjaholt, ok bar þat fyrir, at hann hefdi umbod Pètrs, sonar Odds Gottskálkssonar, hálfbródurs Jórunnar konu hans; hann bjó fyrst í Þíngnesi, en sídan á Hvítárvöllum lengi.

Til 29. kap. bls. 134, l. 7.

Hafdi hann tekid Mela af Eyólfi presti Grímssyni, fyrir þát hann hýsti son sinn lengr enn hæfa þótti, þann er Þórdr hafdi útlægan gjört fyrir óeyrd á þíngi.

## Til fimtu deildar árbóka.

Til 38. kap. bls. 8, l. 10.

Páll nádi svo Reykhólum til kaups af Þorleifi presti Bjarnarsyni, Þorleifssonar, at eitt kvöld um sumar baud hann sveinum sínum at vera árla uppi at morgni, ok hafi hverr tvo hesta, ok svo gjördu þeir; ridu þeir sem þeir máttu umhverfis Gilsfjörd ok Króksfjörd, ok kvad hann þá mundi Reykhólar fást, ef þeir kæmi nógu tímanliga. Þorleifr prestr var úti á túnvelli ok heimamenn hans, er þá bar at, þvíat þerrir var, en kyrkja stód opin; brá Páll sèr í hana

ok tók þar bók, er geymd var í altari, ok lèt hjá sèr, ok gekk á túnit, ok kvaddi prest; ok er þeir höfdu rædst vid litla hríd, spurdi Páll, hvert Reykhólar væri ei falir? ok neitti prestr því; þá tók Páll til bókarinnar, ok sýndi hönum, ok kvad hana mundi gjöra þá fala; þá brá presti svo vid, at hann seldí hönum jördina, ok galdt Páll rífliga fyrir. Þreifst Þorleifr prestr aldrei sídan, ok vard veizlumadr Páls at lyktum.

Til 55. kap. bls. 31, l. 11.

Eggèrt hafdi sídast átta Steinunni, dóttur Jóns Magnússonar á Svalbardi, barnamódur Bjarnar prests biskupssonar; fèll lítt á med þeim, ok yfirgaf hann hana.

Til 60. kap. bls. 36, l. 34.

Magnús var náliga fyrir öllum brædrum sínum, hann var kalladr hinn prúdi; hann hafdi keypt Grænavatn, þá er hann hafdi fyrri Vadlaþíng, af Asgrími Andréssyni, því Asgrímr var kominn í mál mikit, hafdi sèd fyrir stúlku einni, ok fannst hún daud í fjósinu; en Magnús hafdi fengit höfudsmannsleyfi fyrir hann, at hann mætti fara utan; þar hafdi Asgrímr játt verkit á sig fyrir Páli bródur Magnúsar; Magnús hafdi ok komizt at því, en komit hönum á óvart; segir ei af Asgrími, en kaupit gjördi Magnús styrkvara sídan vid adra, er rèttan hlut áttu at eign jardarinnar.

Bls. 38, l. 29.

Svo segja Sunnanmenn, at Teitr hafi seinastr vopn borit, ok öll hertýgi, en Nordanmenn nefna Hrólf Bjarnason til.

Bls. 39, l. 5.

Halldór hafdi haldit Skaptafells sýslu ok Þykkvabæar klaustr næst eptir ábótana, hann átti Ingvildi hina gódu, dóttur Þorvalds bónda Jónssonar í Skál, hún var kvenna minnst ok ófrídust, en audug at kostum, tók útyfir hórdóma hans, sem hún mátti, ok fóstradi hjábörn hans sem sín, er hann hafdi átt med Gudrúnu sól; hún var köllud svo af fegurd hennar.

Lín. 20.

Þá er þeir brædr, synir Jóns Olafssonar, bjuggu saman í Dölum, Gísli í Galtardalstúngu, Olafr á Svarfhóli, en Dadi at Felli á Fellsströnd, ok Jón Magnússon á Reykhólum, er enginn smælíngi var í þann tíma, hafdi Dalasýslu; þá mælti hann svo, at þá sýslu mætti hverr hafa sem yildi fyrir sèr, ef þeir brædr væri þar allir,

hefdi Gísli hardfengi ok snarrædi fyrir þá alla, Olafr illaku ok árædi fyrir þá alla, en Dadi vit fyrir þá alla.

Til 61, kap. bls. 41, l. 20.

Pètr prestr Arnason prests í Hítardal, Arnórssonar, hafdi hàldit Hvamm í Hvamms sveit edr hèldt þá enn, hann var hverki haldinn lofligr at lærdómi, nè lifnadi, lagdist hann at Gudrúnu, fridludóttur Arna Gíslasonar, þá hún var ekkja eptir Jón Olafsson, ok tældi hana, ok voru hönum dæmd fyrir þat 12 keyrishögg.

Til 64. kap. bls. 47, l. 9.

Sumir eigna þó vísu þessa Halldóri Pálssyni, dóttursmanni Eyríks prests, ok enn sumir Jóni presti hinum gamla at Stadarhrauni.

Til 74. kap. bls. 62, l. 35.

Eptir Magnús er grafstadr merkiligr, ok sýnir vitrleik ok smekkvísi þeirra hèdan úr landi þá í öld er rádit hafa. Er Málverksbrík útlend yfir kórdyrum at Haga á Bardaströnd, þar sem hann er máladr med sonum sínum fimm, ok Ragnheidr Eggèrtsdóttir, kona hans, hinn mesti skörúngr, med dætrum 6, hvört á móti ödru, med lyptum höndum, ok krossmark í milli þeirra. Eru efst á spjaldinu þessi ord:

*ecce Agnus dei qvi tollit peccata mundi.*

En þar nedan undir er krossmarkit; en þar undir standa hjónin hvert med skara sínum; þá eru þarundir vers þessi:

*Mors tua, mors Christi, fraus mundi, gloria cœli*
*et dolor inferni sunt meditanda tibi.*

Hægramegin eru þessi vers:

*Vita viatoris transitus, omnia finem,*
*qvæcunqve immundus mundus honorat, habent,*
*transit honor, transit fortuna, pecunia transit,*
*mente deo similis, corpore transit homo;*
*transivere patres, simul hinc transibimus omnes,*
*in Cœlum patriam qvi bene transit habet.*

Vinstramegin eru þessi:

*Qvi data præclarè transegit tempora vitæ,*
*huic etiam veniunt tempora læta necis.*
*hoc tu, Magne! modo terris abreptus abibas,*
*qvi dilexisti pectore et ore deum.*
*Dum præcepta dabas moriturus more Jacobi*
*natis, et optabas omnia fausta tuis,*
*cum Paulo ardebas miseris excedere regnis*
*gaudiaqve astriferi posse videre patris,*

*et Christô tandem lacrymis in vita vocato*
*reddebas animæ munia fessa deo.*

þar var nedst undir; *Hodie mihi cras tibi.*

Legstein mikinn lètu erfingjar Magnúsar flytja út í Flatey á Breidafirdi, var hann höggvinn utanlands, ok mælt hefdi kostat 50 dala; var hann fluttr til Haga á Bardaströnd, ok lá þar vid sjó nokkra vetr. Enn laungu seinna ætladi Jón Magnússon at láta menn sína flytja hann sjóleid til Bæar, þar Magnús var grafinn, tókst þeim illa, ok misstu steininn í Bæarósi, ok lá vid lífstjóni; bar sídan sjáfarflód sand yfir hann, ok var hans lengi leitat med hverri fjöru, ádr hann var fundinn.

Til 79. kap. bls. 72, l. 25.

Páll bad ok um þær mundir Ingvildar dóttur Gudmundar Helgasonar á Eyri. Gudmundr sá ádr talinn á Eyri í Arnarfirdi mun rèttara talinn á Eyri í Seydisfirdi.

Til 89. kap. bls. 85, l. 12.

Þat er sumra manna sögn, at mordverk Axlar-Bjarnar hafi fyrst komizt upp af hettu Einars, er hann myrdti seinast, ok hann hafdi á höfdi sèr á páskadaginn vid Knararkyrkju. I þann tíma tók Gísli prestr Einarsson Vatnsfjörd, bródir Odds biskups, ok fèkk Jón prestr Loptsson, er þar var ádr, ekki hússnædi hjá hönum, ok því sídr meira tillæti; er þá sagt hann hafi þat mælt, at Gísli prestr mundi hýsa dreng eptir sig. Gísli prestr hafdi fengit Þornýar konu sinnar af tilhlaupi sínu, var komit at þeim í seli, ok vard hann at eiga hana, en menta átti hana í Skálholti, ok vann lítit; ok er hann var skólameistari, naut hann styrks biskups bródur síns; en í Vatnsfirdi átti hann búskap erfidan, ok svo hjónaband, leid fèmissu mikla, ok þó enn fleira motkast.

Til 90. kap. bls. 89, l. 31.

Svo bar þat til um Jón prest Egilsson í Hrepphólum, at hann var at losa stórgrýti í fjalli, ok festist med 3 eda fjórum fingrum millum drángasteina, ok var þar um tvö dægr edr meir, þar til er járnkallar miklir ok önnur verkfæri fengust í Skálholti, til at losa hann, kvad hann raunakvædi á medan, ok festi; missti hann fingurnar, ok vard sídan veizlumadr í Skálholti.

Til 1. kap. í 5ta hluta, bls. 109, l. 9.

Jón lögmadr hafdi í einu úti fyrir jökli 50 skipa, en svo sagdi hann, at ekki mundi hann haldast vid med Stapa umbod, ef Þing-

eyra klaustr batadi ekki. Magnús Jónsson, bródir hans, hafdi gipt Elínu dóttur sína Sæmundi Árnasyni, Gíslasonar, ok bjó hann at Hóli í Bolúngarvík; ok ádr þat yrdi, vard hann at eignast þá jörd, sem Magnús hafdi kvedit þá hann bad Elínar:

Fæst ei skjól hjá falda-sól,
firdar hönum þad segi,
nema eigi hann Hól fyrir höfudból,
hana fær hann eigi.

Lín. 23.

Jón Magnússon hafdi gefit konu sinni at morgungjöf sídkápu ok linda kostuligan.

Til 2. kap. bls. 113, l. 30.

Henrik prestr var kalladr læknir gódr, en máls Everts má geta seinna.

Lín. 33.

Páll prestr var ydkunarmadr mikill, lærdr vel, gladsinna ok sidlátr.

Bls. 114, l. 14.

Röksamligr var Jón prófastr, ok mikilfengr nokkut, ok kalladr heldr kvennkær.

Bls. 132, l. 19.

Byr mikinn hafdi Gísli lögmadr af hinu danska valdi, lèt hann eigi heldr mikit á móti því.

Til 11. kap. bls. 129, l. 4.

I þann tíma var Björn Grímsson málari uppi, hann hèldt hálfa Arness sýslu nokkur sumur, ok seinna enn nú var komit, at eg hygg; hann var undarligr í háttum; bar þat til um hans framferdir á þessum missirum, eda vetrinu nærsta fyrir. þat er nú er frásagt, at hann var staddr at Hlídarenda í Fljótshlíd, ok gjördi þá snjóleysíngu mikla, heimti hann hest sinn úr húsi ákafliga, ok bad um fylgdarmann, lèzt eigi naudsynja eyrindi þann dag til Höllu systur sinnar austr í Skógum, ok komst um kveldit yfir Markarfljót ok önnur Vatnsföll, er mönnum sýndust ófær, í regni miklu ok leysíngu, ok til Skóga, ok bad Höllu systur sína búa sèr rúm í kyrkjunni, ok senda sèr þángad vinnukonu hennar til gamans, kvad þat vera forlög sín at geta þá son, ok mundi verda prestr, ef hann væri getinn í helgum stad; ok er ei getit at hann væri kenndr vid konu eptir nè ádr. Gekk þetta framm, ok vard konan barnshafandi, ok ól son, sá hèt Þorsteinn, ok vard prestr seinna, ok undarligr, sem fadir hans.

## Til sjöttu deildar árbóka.

### Til 25. kap. bls. 4, eptir lín. 33.

I þann tíma eda nokkru ádr barst at daudi Olafs prests at Helgafelli Einarssonar frá Hvanneyri; hann tók sárasótt, er þá var tíd, ok var med hönum bartskeri þýzkr, veik hann frá hönum á tal vid mann einn, en prestr seildist eptir vatni, ok brast þá æd í hönum; þat heyrdi bartskerinn, ok fèllst mikit um. Máttu sáramenn sídst drekka, hvörsu mjög sem þá þyrsti, en líf þeirra var nært at eins med vissum medölum.

### Til 35. kap. bls. 19, l. 31.

Þat bod var mjög at minnum haft um rausn ok vidhöfn, ok var fenginn til Jón prestr Bödvarsson sunnan frá Reykholti til at syngja fyrir skálum ok minnum, en Ara' Magnússyni mislíkadi mjög at saungmadr hans útvalinn, er hann hafdi at vestan, fèkk ei afburdarord.

### Til 49. kap. bls. 37, eptir l. 17.

Kap. Jón son Jóns prests Þorsteinssonar í eyunum, er kalladr var Vestmann, hafdi ætlad at fara utan til læríngarframa, med eyaskipi þá Tyrkjar ræntu þar, ok fór til eyanna, en hann fèll þá í hendr þeim med módur sinni ok systur, ok var med þeim hertekinn lengi; hann var sterkr madr ok hugadr vel, ok hinn mesti madr at öllu, gjördist hann hermadr gódr, ok mjög reyndr í því, ok sjókapteinn med Tyrkjum, ok var sendr af þeim med ödrum, er norrænn var, til víkíngar í spanska sæ, gjördu þeir þá rád sín at umhlaupast, ok sigla til ríkja Dana konúngs, edr annara kristinna landa; ok drukku saman eitt kveld; ok er hinn norræni kom aptr á sitt skip, ok var drukkinn, ok gekk at sofa, slapp hönum ord óvarliga ok mælti: gladir vorum vèr í dag, en þess væntir mig, at innan mánadar hèdan verdum vèr þó gladari í Noregi. Þat heyrdi skódrengr hans, en sídan vöknudu þeir Jón Vestmann vid þat, at þeirra menn gjördu þá handtekna, ok fluttu þá aptr í Tyrkjaríki, ok var Jón þá haldinn hardt. Olafi presti Egilssyni var sleppt úr þrælkan, því hann þótti gamall. Ok var þetta seinna enn frá sögum er komit.

### Til 57. kap. bls. 43, l. 3.

Kap. Systkin þrjú voru á Hvalfjardarströnd, Þórdr, Sighvatr ok Gudlaug; áttu þau Sighvatr ok Gudlaug nokkur hundrud hvert í Þyrli, ok hèt Gunnsteinn umbodsmadr Gudlaugar; þau dóu í bóla-

sótt á einum degi bædi, en Þórdr, er átti at erfa þau, var fávis, ok hafdi Gunnsteinn tekit eignina, hálft áttunda hundrad, ok selt þeim manni er Olafr hèt. Vaknadi Þórdr, er hèr var komit, ok lèt stefna Gunnsteini um eignina fyrir Gísla lögmann Hákonarson, ok dæmdist hún Þórdi, en Gunnsteinn átti at skila Olafi verdinu. Nokkuru seinna kom upp kaupbrèf, ok vottadi at Þórdr hefdi selt Gunnsteini 5 hundrad í Þyrli, ok fannst hjá Ormi Vigfússyni í Eyum, ok ritad med hans hendi, en hundrada talan skafin ok ólæsilig, ok mátti lesa 5, 10 eda 15; var Ormr tengdr Gunnsteini, ok þótti grunsamt, enn hann hafdi verit í dómi Gísla lögmanns, ok eigi mátt leidrètta málit, því Gunnsteinn hafdi medkennt þar, at kaupbrèf væri ekkèrt. Þeir Ormr ok Gunnsteinn veittu Þórdi árásir þúngar, ok fengu seinna med sèr Arna Oddsson, er hann vard lögmadr, en Þórdr gjördi þat þá til at firrast ofrefli Orms, at hann fèkk þat af Vigfúsi Gíslasyni med þrábænum, at kaupa af sèr, ok vard þat seinna, ok eitt óvildar efni þeirra Arna med Baugstada-máli ok ödru.

Til 67. kap. bls. 56, l. 13.

Ekki veit eg þó víst, hvört Björn lifdi þá enn.

Bls. 57, l. 28.

Olafr prestr var einlægr madr, fordildarlaus, kalladi sig jafnan Jónsson Kráksson; lítt var hann í kærleikum vid fyrirmenn á Bessastödum, ok helzt getit vid Holgeir Rósenkranz, enda hræsnadi hann fyrir engum; sagdi hann svo um sinn hag: böl er búskapr, kvöl er hjúskapr, aumt einlifi, ok þat elska eg. Hann mælti þat opt: gott kall er Gardar, ef eigi væri Ofridarstadir ok Ottarsstadir í sókninni; svo heita þar bæir tveir.

Lín. 36.

Jón prestr Bödvarsson var spaklyndr ok sidavandr, saungmadr gódr.

Til 68. kap. bls. 59. l. 14.

Vel var Arni Gíslason um marga hluti, en heldr þótti hann óbilgjarn vid öl.

Til 76. kap. bls. 70, l. 36.

Þá höfdu þeir brædr Vigfús Gíslason ok Hákon í Brædratúngu Rángárþíng ok Vestmannaeyar, ok fyrirbaud Jens Söfrensson þeim þær sýslur, því þeir vildu ei vinna eid fyrir hönum.

Til 80. kap. bls. 76, l. 19.

Þá var enn Evertsmál, ok vard med þeim hætti, at þá er Kristín

Eyríksdóttir, Bjarnarsonar á Keldum, Þorleifssonar lögmanns, sú er átti Gísla prest Gudmundarson, var í Háholti á Skeidum, vildi Evert son Henriks prests Evertssonar fá Katrínar dóttur hennar, en hún bar sjálf á hann samrædi vid sig, ok þó hann beiddist undanfærslu, dæmdi Arni lögmadr henni eidinn, ok rádspjöll af Evert; vann hún þann eid, ok reid af þíngi, fèll af hesti ok lærbrotnadi, ok lagdist í kör, en Evert fèkk vidreisn enga, því Arni lögmadr nádi höfudsmanns samþykkt á dómi sínum; fann Gísli biskup bródir hans mjög at því vid hann, ok þó hógværliga sem jafnan, því hann lagdi jafnan gott til hvers máls, þar sem þörf þótti; voru hönum leidar deilur þeirra Árna ok Vigfúsar Gíslasonar.

Til 81. kap. bls. 77, l. 20.

Ekki hafdi Jón prestr Árason verit tregadr af skólasveinum, þá hann fór frá Skálholti, ok mest fyrir þótta sakir ok drambs, en seinna í elli vard hann gudhræddr ok audmjúkr af mótlæti; en því skipti hann vid Gísla prest Einarsson í Vatnsfirdi, at Gísli var þá dæmdr frá stadnum, fyrir þat hann gaf sig sjálfr í hjónaband med seinustu konu sinni; var ok stadrinn hrörnadr mjög, hús höfdu stadit 50 eda 60 ár atgjördalaus, þvíat Gísla presti hafdi gengit allt öfugt í Vatnsfirdi; en lengi hèldt hann Stad sídan.

Til 83. kap. bls. 80, l. 38.

Fór Gudmundr prestr, son Jóns lærda, í skjóli hans til Kaupmannahafnar til at fá uppreisn, ok gaf Kristján konúngr 4di hönum kost á klaustri um vetrinn fyrir fátæktar sakir, ok brèf höfudsmanninum at láta prófa mál hans.

Til 84. kap. bls. 81, l. 13.

Sá madr er Magnús Jónsson hèt, kærdi þá til Þorleifs prests Magnússonar í Mýrdal, um 6 batsmídar atrennur vid sig.

Til 87. kap. bls. 84, l. 17.

Var Gudmundr prestr haldinn skyngr, ok ekki medfæri hvers manns.

Til 90. kap. bls. 89, l. 36.

Þorlákr biskup hafdi fundit Gísla biskupi til grun um villu nokkra, enn hann hafdi afsakat sig vid hann frá öllu slíku med mjúkum ordum. Eigi hafdi hann samþykkzt því er Ari í Ögri veitti Þorbirni presti Einarssyni Túngustad med rádi Olafs Pètrssonar, eda at hann yfirgæfi Raudasands þíng, er hönum voru veitt fyrri. Jón prestr Sigmundarson, er misst hafdi Kjalarness þíng, ok margir fátæklíngar adrir ok þrotprestar höfdu sezt uppá hann í Skálholt

eptir Hvítavetr, ok ætlat hann ætti at fæda þá í hardindum, ok vard hann opt at leita prestafunda, til at rydja þeim af sèr. Aminnt hafdi hann menn hógværligum ordum eptir því sem afstódst, hvern sem hann vissi at þess þurfti, jafnvel veraldliga; Vigfús Gíslason er var óvildarmadr þeirra Oddssona, ok at sumu leiti fyrir álítligar sakir at rèttindum, enkum vid Arna lögmann, ok hafdi ásamt ákært Gísla biskup fyrir tignarmönnum, hönum rèdi hann til fridar ok eindrægni; enn Steindór Gíslason um ofdrykkju hans hina miklu, ok illyrdi vid menn.

Bls. 90. l. 18.

En ekki var hann haldinn hinn lögvitrasti.

Til 91. kap. bls. 91, l. 4.

Var Þórdr prestr attestèradr, vellærdr madr ok veitíngasamr, forsjámadr mikill ok rádsettr, ok ei á þann hátt sem fadir hans, vann meira med lempni enn stórmensku.

Til 92. kap. bls. 92, l. 27.

Andadist þá enn Torfi prestr Finnsson at Hvammi í Hvamms sveit, gudrækinn madr ok lærdr vel.

Til 98. kap. bls. 101, l. 31.

Þat er rèttara at Jósep prestr vód ána hjá Vörduskeri ofan ferjustad á Skálholtshamri, ok drakk 6 eda 7 merkr sýru.

Til 110. kap. bls. 115, eptir l. 30.

Kap. Nokkru eptir þat er Jón Vestmann var tekinn af Tyrkjum ödrusinni, hafdi hann enn farit í för, ok ordit hertekinn af spönskum med ödrum Tyrkjum, ok fluttr til Spánar, þar var þá staddr herramadr nokkur úr Nordrlöndum, ok er hann vissi at Jón var íslenzkr, keypti hann hann undan dauda, en hinir voru hengdir. Sídan hafdi Jón komizt á Frakkland til Margrètar systur sinnar, hana hafdi keypt út kaupmadr franskr fyrir 200 dali, því hún var fríd sýnum, ok haldit vid hana, ok áttu þau 2 dætr, ok bjó hún med þeim í Marselju, er seinast spurdist til, ok vitu menn ei víst, hvert hann var dáinn eda hafdi yfirgefit hana; því þær konur, er svo voru keyptar, urdu at eiga allt undir trúnadi þeirra, er þat gjördu, hvert þeir seldu þær í ánaud aptr, eda fóru betr vid þær. Þadan komst Jón í Danmörk, ok var þá tíma komit sem nú fara sagnir framm; hann var reyndr í sjóferdum öllum, snar ok einardr, ok kunni vel at segja frá, ok svo fyrir atferli mörgu ok verklagi, er þá var eigi tídt í Danmörku; segja menn hann hafi fyrstr látit

smída hèr hjólbörur. Fèkk hann virdíngar miklar af stórmenni, ok sjálfum Kristjáni konúngi fjórda; enn sídan kom upp kvittr af trúnadarordum hans vid Dada Jónsson frænda sinn, ok lausmælgi Dada, at hann hefdi neydst til at umskerast; ok er Doktor Kaspar Brochmann Sjálands biskup lèt spyrja hann þess, ok gekk fast eptir, játti hann því þegar; þótti biskupi þat daudamál, en ríkis kancelleri kom svari fyrir hann; ok slapp hann med afflausn, segja menn hann tæki hana af biskupi sjálfum, ok var hann hönum sídan sinnr.

Til 111 kap. bls. 116, l. 23.

Svo segja sumir frá láti Þorsteins prests, ok eigi ómerkir, at þeir Benedikt Bjarnarson hafi ridit undan lest sinni af Stakkhamarsfitjum, en Hákon Arnason, er sídan var at Vatnshorni, systurson prests, kom á eptir med hana, var hann gætinn ok skynsamr, ok fann hann þá sofnada báda, ok nær flædda, enn hesta þeirra á ríngli framm med Núpá; vedr var heitt, ok var ætlad þeir hefdi prófat ærit af brúdkaupskostinum, ádr þeir fóru úr áfangastad, vard Benedikt vaktr, enn eigi prestr, því hann var örendr.

Til 113. kap. bls. 119, l. 28.

Frómr var hann í lund ok lífnadi, en tortryggni hans gjördi hann lítt vinsælan.

Til 119 kap. bls. 127, l. 22.

Ok þakkadi hann þá vandliga Olafi prófasti Einarssyni, ei at eins fyrir æru ok gódan reiknîngskap vid Kyrkjubæar kyrkju, heldr ásamt lofliga ok eptirtakanliga embættisþjónustu, prýdiligan lifnad ok lærdóm, guds ríki til uppbyggíngar, ok öllu landi til lofligra eptirdæma.

Bls. 128, l. 28.

Jón Vestmann var þá í Kaupmannahöfn, ok nýkvæntr, hafdi fengit dóttur kapteins nokkurs; er þá sagt hann hafi fallit á svelli um vetr, ok marizt nokkut á læri, ok yrdi ei læknat, ok legit 20 vikur sídan, ok var getit til at módir konu hans hefdi viljad giptast hönum; þótt hönum upphefdar von, ef hann lifdi, ok hast vid töfra; enn hinn merkasti madr (Dr. H. F.) hefir sagt, hann hafi verit stúnginn til bana vid Hólms brú, ok er þó at sjá sem hann hafi legit lengi, því Jón prófastr Halldórsson hefir sagt eptir födur sínum, at hann hafi opt verit hjá hönum þá hann lá, ok vakat yfir hönum hina sídurstu nótt, ok sagt lát hans fyrstr privato præceptori sínum Doktor Olafi Worm, er lagt hafdi allan hug á at lækna hann; hafi hann þá svarat:

hvar fær nú ríkit slíkan mann? ok lèti hann sèr hid mesta finnast um hann, ok margir adrir, tignir ok ótignir.

Til 126. kap. bls. 138, l. 26.

þessi missiri gengu þeir í bönd í Skálholti, at kaupa jardir í Austfjördum á jafnadar kostnad ok til jafnadar skipta, meistari Brynjúlfr biskup, Bjarni Oddsson at Bustarfelli, hann var ástvin hans mikill, því hann var stórlyndr ok trygdfastr, Bjarni Eiríksson á Búlandi, er átti Sigrídi dóttur Bjarna Oddssonar, ok Hjalti Jónsson. Hafdi Bjarni Eiríksson rádsmensku í Skálholti um hríd, ok hafdi fengit af Brynjúlfi biskupi yfirlæti mikit ok vináttu hans, ok hèldt því til þess er biskupi þótti hann gjörast sèr heldr til stór, enn þá var Bjarni Oddsson daudr. Hèldust bönd þessi um 3 ár.

Til 128. kap. bls. 140, l. 7.

Torfi prestr Snæbjarnarson á Kyrkjubóli mátti þá varla prests þjónustu fremja fyrir deyfu, ok var þat kært, ok ákvedit at hann skyldi útvega þeim prest, er eigi vildu hans þjónustu, en þeim væri sjálfrádt, at hlýda hans embætti, er hann fengi til þess; því hann átti kyrkjustadinn sjálfr.

Til 131. kap. bls. 145, l. 22.

Jón Arnason hèldt fyrstr Klaustrhóla hospítal, en Eiríkr Sigvaldason Hörgslund, fadir Bjarna á Búlandi.

Til 133. kap. bls. 147, l. 29.

þau missiri dó Arni prestr á Látrum Jónsson, Bjarnarsonar á Reykhólum, hann var á tíunda tugi, ok þótti verit hafa forneskjumadr mikill. Ok þá vard mál í Skálholti med Gísla Einarssyni skólameistara ok Gudmundi snikkara Gudmundarsyni, er þar hafdi verit forsmidr at kyrkju, í drykkjuþrasi; kærdi Gudmundr at skólameistari hefdi fleygt á sig tinkönnu, ok stúngit sig med knífi; samdist þat svo at skólameistari lèt úti vid hann 8 hundrud, en Brynjúlfr biskup leitadi höfudsmanns um þat, at hann fengi at vera vid embætti, sakir kennslu hans gódrar, ok vard þat.

Til 138. kap. bls. 155, l. 20.

þat er mælt, at þorlákr biskup hafi gipt systkin sín 10, ok gefit hverjum bródur sínum eptir þat er hann vard biskup 40 hundrud af sínu fè, enn hverri systur sinni 20 hundrud, enn þær voru átta, hálft í föstu, enn hálft í lausu.

# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espólín,
Sýslumanni í Skagafjardar Sýslu.

## VIII. Deild.

Kaupmannahöfn, 1829.
Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafélags*
hjá Bókþrykkjara *S. L. Møller.*

# Formáli.

Þar hefjum vèr frásagnir, þær er dragast til hinnar 18du aldar, er umskipti urdu á landstjórn vorri, þau er sídan fóru í vöxt á þeirri öld, ennþótt þat væri nokkrum árum fyrir upphaf hennar; verdr þat þó ærit fátt, er vèr fáum greint af því, sem næst oss er, því þat er margt ókunnugast, ok fæst umritad, en sumt liggr enn hulit, ok er varliga farandi med, sumt, þat er seinast hefir skrád verit, höfum vèr ok ekki sèd. Vil ek nú at vísu fullyrda þat eina, sem eg þykjunst med sönnu vita, en má þó vera fleira þyki fullyrdt þeim er varfærnastir eru, af því at eg vildi færa fleira til, svo at eigi falli nidr fyrir þá sök, ef mèr þykir ei röksemdalaust med öllu, ok megu þá seinni menn heldr umbæta ok rètta, ef nokkud reynist ofhermt, en hafa þó jafnframmi studníng af þessu. Megu þeir ok meira hafa undir höndum af sögnum ok fornum brèfum enn eg, sem fullgjöra slíkar sögur allar. Veit eg at margs er vant, enda má ok margt missast úr aldarsögunum, er eg vildi þó ei med öllu undanfella, ef í annálum stód, ok má þat ætla þeim er umbæta sídan. Þó hefi eg fellt undan margar sjónir, drauma ok heilabrot manna, er í annála eru sett, ok svo misfarir einstakra manna, sumrahverra umfarandi, þótti mèr þat minna merkiligt enn skipskadar, eda sviptir mannvænligra manna ok karlfólks fleiri saman. Til hefi eg týnt lýsíngar nokkrar á mönnum, þar eg hefi

# Fortale.

*Begyndelsen til Efterretningerne om det 18de Hundredaar tage vi af den Forandring, som foregik i Landets Bestyrelse, og siden tiltog bestandig, skönt den indtraf nogle Aar tilforn; det bliver dog kun lidet, som vi have at berette, om det som ligger os nærmest, da meget af det er mindre bekjendt og omskrevet, noget er endnu skjult, og maa behandles varlig, adskilligt af det sidst skrevne er heller ikke kommet mig for Öjne. Uagtet jeg nu blot vil anføre som vist, hvad jeg tror at have fuldgyldigt Bevis for, kan dog vel være, at andre ville anse mig for at have antaget for meget for afgjort; ti mange Ting har jeg ikke villet udelade, for at de ikke ganske skulde glemmes, naar de blot ikke syntes aldeles grundløse; Efterkommerne kunne altid forbedre og rette, hvad der maatte befindes overdrevet, og ikke desmindre have Gavn af dette. Den der skal fuldende alle slige Fortællinger, maa ogsaa have flere Sagn og Opskrifter og Brevskaber under Hænde end jeg. Meget fattes vist nok, og meget kunde være borte, som jeg dog ikke vilde udelade, naar det stod i Annalerne, det kunne de göre, som siden forbedre Historien. Dog har jeg forbigaaet mange Syner, Drömme og Indbildninger i Annalerne, som og enkelte Personers, stundum Betleres, Ulykkestilfælde; da det syntes ubetydeligere end Fiskebaades Forlis, eller haabefulde Mænds Bortrykkelse, især fleres tillige. Jeg har samlet, saavidt jeg har kunnet over-*

mátt fá, sálar-atgjörvi þeirra ok líkams, ok þó sem fáordast ok minnst geypad. Þykir mèr þad mikilsverdt í öllum frásögnum, ok gjöra menn kunnari þeim er sídar lifa, ok eigi sízt í þeim er svo þurrar eru sem annálar vorir, ok helzt til lítit af því uppteiknad af forfedrum vorum. Aldar sid ok þenkíngu manna eda hugarfari á hverri öld hefi eg einnin lýsa viljad, (ok má þó ske sízt hafi tekizt), þótt þat allra merkiligast, ok má af því vera at eg hafi ordit frekordr sumstadar eda ok eigi rèttsýnn, þvíat þann feril veit eg engan hafa rudt fyrir mèr; ætti ok eigi þess at þurfa; en þá þarf þess ekki, ef sögurnar eru ljósar, ok geta um atvik ok ordatiltæki manna ok slíkt, sem Sturlúnga-saga gjörir, ok adrar sögur vorar fornar. Slíkar sögur mála öldina sjálfar; en annálar vorir, sem fátt eitt hafa af merkiligum tilburdum ljósliga greint, eru því óljósari flestir í þessu, ok því vænti eg vorkunnar af þeim er sídar skoda, þótt eg lýsi ófródliga.

Frostastödum þann 15da januarii 1828.

*Jón Espólin.*

---

*komme, nogle Skildringer af Personer, deres Sjæls- og Legems-fortrin, dog kort og uden Ordbram. Det synes mig interessant i al Historie, at skildre Personerne nöjere for Efterkommerne, fornemmelig naar den ellers er saa mager som vore Annaler, hvor alt for lidet af sligt er optegnet om Forfædrene. Tidsalderens Aand og Folkes Tænkemaade og Karaktér i hvert Hundredaar har jeg ogsaa villet beskrive (skönt det maaskje mindst har lykkets mig), da det tyktes mig allermærkværdigst; men jeg frygter at jeg undertiden har udtrykt mig for stærkt eller ubilligen, da ingen har banet mig denne Vej. Dette burde vel ikke behøves, og vilde det ikke heller, hvis Fortællingerne vare tydelige og indeholdt Omstændighederne, Personernes egne Ord og deslige, som Sturlunga gör tillige med vore andre gamle Sagaer, da slige Sagaer selv male Tidsalderen: men vore Annaler, som indeholde saare lidet om mærkelige Tildragelser, skildret med Klarhed, ere meget magre i denne Henseende, og vænter jeg derfor Overbærelse hos efterkommende Granskere, skönt mine Skildringer ere ufuldkomne.*

*Frostestade den 15de Januar 1828.*

Jon Espolin.

## Prentvillur í árbókanna 7du deild.

| | | |
|---|---|---|
| Bls. 6 | lín. 1 | gjöra; betr, l. gjöra betr; |
| 11 | — 30 | l. Bödvarssonar |
| - | — 34 | med Helga presti ad Húsafelli í þórisdal |
| 17 | — 34 | l. sleit |
| 19 | — 21 | l. Bjarnarsonar |
| 22 | — 8 | l. dæmd |
| 27 | — 23 | þorkell, l. þorkels |
| 31 | — 28 | l. Helga Magnúsdóttir |
| 33 | — 15 | Hólum, l. Hólmum |
| 35 | — 24 | lagdi út, l. legdi út |
| 48 | — 16 | Amundar, l. Amunda. línu 19 l. Arnasonar |
| 51 | — 26 | Bessastada l. Bessastödum |
| 55 | — 30 | Hallsdóttur l. Halldórsdóttur |
| 79 | — 26 | vissra, manna l. vissrá manna |
| 82 | — 4 | Bjarnarsonar l. Bjarnasonar |
| 83 | — 12 | Kristjáns prests á Saudanesi, födur Kristjáns prófasts, l. á Saudanesi födurfödur Kristjáns prófasts; edr: födur Jóhans prests, födur Kristjáns prófasts |
| 88 | — 15 | fyrst l. fyrri |
| 96 | — 28 | prest l. prestr |
| 100 | — 28 | gefa hönum l. gefa mönnum lín. 30 Páll l. Pál |
| 101 | — 1 | at l. af |
| 104 | — 27 | dæmd l. dæmt |
| 107 | — 17 | hafa l. hafi |
| 124 | — 29 | eigi l. eiga |
| 125 | — 37 | bólasótt l. bólusótt. |

# Sjöundi Hluti.

Taldir helztu menn nokkrir; mannskadar miklir; mál Jóns biskups ok annat; hefst hardæri mikit, ok frá meistara Þórdi biskupi; kom út Kristján Muller amtmadr, ok sókt mál á Jón biskup Vigfússon; mál fleiri ok fráfall hans; hefjast Stokks mál, upphaf Einars biskups, ok hardæri mikit; tilburdir ýmsir, ok frá Kríumálum; koma upp nokkrir adrir menn; óár mikit; fráfall Einars biskups ok Þórdar biskups; meistari Björn at Hólum; meistari Jón Vídalín vígdr til Skálholts; mál ok illtídir; konúngaskipti, ok hefst nýi stýll; hardindi frá amtmanni, ok Lárusi lögmanni ok hans eyrindagjördum; komu út kommissaríí Arni Magnússon ok Páll Vídalín; frá Magnúsar máli ok ödru, ok upphaf Páls Beyers; mord sydra ok enn önnur mál, ok eitt Magnúsar Benediktssonar; kom út bólan mikla, ok Oddr Sigurdarson; enn frá málum, ok manndaudi mikill af bólunni; Oddr ok Páll Beyer verda umbodsmenn; sóktr ok áfelldr Sigurdr lögmadr ok adrir; batnar í ári, ok talit eitt ok annat er vidbar; fráfall Bjarnar biskups.

## I Kap. Taldir helztu menn lærdir ok leikir.

Þar skipti um landstjórn vora, er Henrik Bjelke höfudsmadr var dáinn, en Ulfrekr Kristján Gyldenlöve stiptamtmadr ordinn, ok Kristófor Heidemann landfógèti; vil eg þá telja hina helztu menn í landi, þeim til fródleiks, er lesa vilja, en þeir hlaupa yfir slíkt, er þat þykir leidinlegt. Meistari Þórdr Þorláksson var biskup í Skálholti, enn meistari Jón Vigfússon var seztr at Hólum, ok sat
1685 þar um vetr med einn svein, ok mjög í óþökk Nordlendínga. Sigurdr Bjarnarson ok Magnús Jónsson voru lögmenn, en Þorleifr Kortsson hafdi aflagt. Sigurdr lögmadr var vinsæll madr, en þat skerdi heldr eptir þat, er lögmannstollr var skipadr at hans forlagi, hann var heldr hár mèdalmadr á vöxt, rèttvaxinn ok lidlegr, lèttr í vidmóti vid menn. Þorleifr lögmadr hafdi verit mest virdr fyrir alvöru hans hina miklu vid galdramenn, lauk ok mjög brennum þeirra med hans lögsögn. Hann var þó spaklyndr madr ok audsæll, fátaladr á þíngum, ok þótti lítt adsopa, lítill vexti ok einsýnn. Jón hèt sonr Þorleifs, ok var klaustrhaldari á Þíngeyrum um hríd, nádi klaustrinu med leynd undan födur sínum, hann deydi ókvæntr, ok hafdi átt 3 launbörn; annar var Gudmundr, er lítil rækt var lögd vid í æsku ok ekki mentadr, en vard þó audsæll, ok fèkk Helgu Eggèrtsdóttur frá Skardi. Þórunn hèt dóttir Þorleifs, ok getr seinna. Marteinn Rögnvaldsson hafdi Nordr-Múlasýslu, hann var stöduglyndr madr, skynsamr ok hraustr at afli; Páll hèt sonr hans, en Gudrún ein dóttir, hennar fèkk Björn, son Pètrs Bjarnasonar á Bustarfelli, Oddssonar, sá var Pètr hinn ýngri, er átti Elízabetu, dóttur Jokums Mumms hollenzka, hann var nokkut serlegr sem þeir frændr fleiri, mikill vexti, bjó hann í Öxarfirdi. Bjarni Oddsson, fadir hans, var þá dáinn fyrir meirr enn 20 árum, hann hafdi verit adkvædamikill ok vinhollr, ok hinn mesti ástvin Brynjúlfs biskups, en undarlegr í háttum. Pètr hafdi umbod nokkud eystra, ok er svo sagt, at hann hafi átt illt vid Einar prest á Skinnastödum Nikolásson, Einarsonar, Nikolássonar, Þorsteinssonar, ok þó af áleitni Einars prests, var Einar haldinn fjölkunnugr mjög, ok mælt haldit hafi galdraskóla, ok brugdit var hans afkvæmi vid galdra ok óhamíngjusamt margt; er svo sagt at Pètr hafi tekit hann eitt sinn, ok borit til ár, ok viljad fyrst fleygja í hana, þvíat aflsmunr var svo mikill, at hann vard einn öllu at ráda med þeim,

enn hann stödvadi sig sjálfr fyrir guds sakir, kalla menn at Einar prestr hafi ordit hönum at meini med ólifjani. Björn var son Pètrs, á Bustarfelli, ok Vigfús á Hjartarstödum, ok Bjarni, hann fèkk ei at kvongast sem hann vildi fyrir frændum sínum, fá sveitar konu, ok var sídan sèr, ok bjó einn saman á Djúpalæk á Lánganess ströndum, ok var ramr at afli, svo at traudt fannst þá slíkr. Jón Þorláksson biskups ok Bessi Gudmundarson hèldu Sudr-Múlasýslu ok midja; Isleifr Einarsson, Þorsteinssonar í Þykkvabæ, Skaptafellssýslu; Markús Snæbjarnarson frá Odda, Steffánssonar, Gíslasonar biskups, Vestmannaeyar; Gísli á Hlídarenda, son Magnúsar lögmanns, Rángárþíng, hinn mesti merkismadr; Hans Vilhjálmsson Londemann Arnessþíng, danskr madr, spaklátr; Sigurdr lögmadr Bjarnarson Kjósarsýslu; þar var Henrik Magnússon lögsagnari; Jón Eyólfsson Gullbríngusýslu. Jón Sigurdarson í Einarsnesi hèldt Borgarfjardarsýslu alla, hafdi hann haft hina vestri í 9 ár, er hèr var komit, en hina í 7, hann var vel at sèr gjör; Magnús Hrómundarson Hnappadalssýslu; Þórdr Steindórsson, Finnssonar, Snæfellssýslu, hann var heldr til rausnarmikill, ok vann þat at fullu seinast. Torfi son Jóns Torfasonar í Flatey hafdi haft hálfa Bardastrandarsýslu, hann var lítt vid hóf eda góda háttu, þar var þá lögsagnari Þórdr Bjarnarson. Páll Torfason frá Kyrkjubóli hafdi Isafjardarþíng, þar var lögsagnari Sæmundr á Hóli Magnússon, Sæmundarsonar; Pètr Strandasýslu, son Páls landskrifara Gíslasonar lögmanns Þórdarsonar. Þorsteinn Benediktsson í Bólstadahlíd Húnavatnsþíng, vitr madr, ok Lárits Gottrup hinn danski, er ok hèldt Þíngeyraklaustr; Þorsteinn Þorleifsson Skagafjardarsýslu, hann var kyrrlátr ok drjúglyndr sem fadir hans, ekki frídr sýnum; Björn Magnússon lögmanns Vadlaþíng, hann var þá í siglíngum. Eyríkr á Búlandi, son Sigvalda Halldórssonar, Skúlasonar, Gudmundarsonar, Sigvaldasonar lángalífs ok Elínar Jónsdóttur frá Svarfhóli, Olafssonar, hafdi haldit fyrstr Hörgslands hospítal, ok verit lögrèttumadr, ok ordit bráddaudr í lögrèttu vid hlid Arna lögmanni Oddssyni, þat ár sem hann dó; hann hafdi átt sonu marga, Halldór prest, er mikill var ok frækinn, ok Þórarinn prest, er var flysjúngr mikill, ok ætladi at verda sagnaritari konúngs, en dó þá í útsveimi sínum, ok Bjarna, er verit hafdi Skálholts rádsmadr, ok haft mikinn byr af Brynjólfi biskupi. Bjarni hafdi þá Skaptafellssýslu hálfa, ok var hönum meir lagit afl ok vöxtr, ok þeim frændum fleirum, enn fyrirhyggja

eda búsæld, hann var undarlegr í háttum, hann átti Sigrídi, dóttur Bjarna Oddssonar á Bustarfelli, þeirra son var Eyríkr hinn stóri. Hrólfr sýslumadr í Þingeyarþíngi Sigurdarson hygg eg þá hefdi frá sèr gefit fyrir elli sakir, ok byggi þá at Bríngu, en seinast var hann í Dal med Birni syni sínum, en þar var lögsagnari Einar Einarsson; Arni Geirsson var landþíngskrifari. Prestar voru þá nafnkendastir uppi; Eyríkr prestr Olafsson Einarssonar í Kyrkjubæ, Bödvar Sturluson á Valþjófstad, Steffán prófastr Olafsson í Vallanesi, skáld ok nafnkendr madr, hann var þá líkamaþúngr ok fóthrumr, Arni Sigurdarson á Skorrastad, Páll Amundason á Kolfreyustad, Jón Eyríksson Sigvaldasonar í Bjarnanesi, Sigurdr í Einholti Högnason prests, Gudmundarsonar, Olafssonar prests á Saudanesi Gudmundarsonar; Þorleifr Arnason hèldt Kálfafell á Sídu af ætt Arna Oddssonar í Midgördum; Magnús prófastr Hörgsland Pètrsson, Gunnarssonar, Gíslasonar; Jón var at Reipi Salómonsson, Jónssonar, Salómonssonar prests í Hvammi, Gudmundarsonar; Oddr Eyólfsson í Holti; Magnús Jónsson at Breidabólstad í Fljótshlíd; Þorleifr prófastr Jónsson í Odda; Oddr Eyólfsson ýngri í Kyrkjubæ í Vestmannaeyum; Pètr Gissursson, Gamlasonar Ofanleiti. Torfi prófastr Jónsson í Gaulverjabæ, er opt hefir verit getit, hann var öldúngslegr at vexti, áliti ok sid, vel-látinn ok vel-lærdr, optast gladsinna, en fèkk stundum sturlunarsnert eptir þat er Brynjólfr biskup testamentèradi hönum fè sitt. Dadi Halldórsson Dadasonar var at Núpi, Arni Halldórsson bródir hans í Hruna, Þórdr at Torfastödum Bárdarson, Gíslasonar, er Þórdarbænir eru kendar vid; Björn Steffánsson, Hallkelssonar, Steffánssonar at Snæfuglstödum, hann var forsjáll madr, spaklyndr, gestrisinn ok vel-farinn, mikill ok sterkr. Arni Þorvardsson hèldt Þíngvelli merkilegr; Hallkell Steffánsson Hvalsnes; Þorleifr Klásson, Eyólfssonar, Utskálar; Einar prófastr Garda á Alptanesi, Einarsson frá Reynivöllum, Illhugasonar, Vigfússonar; Jón Steffánsson, Hallkelssonar, Seltjarnarnessþíng; Páll Sveinsson frá Bardi nordr Brautarholt; Einar prófastr Illhugason Reynivöllu, med þeim Ormi í Eyum födurbródur hans hafdi fyrrum verit óvild mikil lengi, því Ormr var stórrádr ok eigi medalnáti á hinum fyrri árum. Hannes Bjarnarson hèldt Saurbæ á Hvalfjardarströnd, bródir Sigurdar lögmanns; Jón Garda á Akranesi, Jónsson prests frá Hjaltabakka, Þorgeirssonar, Steinssonar; Benedikt Pètrsson var at Hesti, er annálinn reit; Einar at

Lundi Eyólfsson, Jónssonar. Halldór prófastr hèldt Reykjaholt Jónsson, Bödvarssonar, hann var snarvitr, einlægr ok lögfródr, ok einn af þeim prestum 4um, er Þórdr biskup tók med sèr, til at samantaka kyrkjulaga formid. Helgi var at Húsafelli Grímsson, Jónssonar í Kalmanstúngu, Grímssonar; Páll at Gilsbakka eldri Gunnarsson prests allmikilhæfs manns, Pálssonar á Stórahólmi, Jónssonar á Kalmanstjörn, Einarssonar, Olafssonar, Jónssonar á Kyrkjubóli, er drepinn var fyrir lidsinni vid Nordanmenn, er þeir vógu Kristján skrifara, Kenichssonar. Jón gamli í Hvammi Olafsson illa, Jónssonar á Svarfhóli, hann hafdi verit afburdamadr, en var kalladr födurbetríngr mikill; Páll Gunnarsson yngri at Stafaholti; Sæmundr prófastr Oddsson at Hítardal; Sigurdr prófastr at Stad á Ölduhrygg Sigurdarson, Oddssonar biskups; Illhugi á Setbergi Vigfússon, Illhugasonar, Vigfússonar á Kalastödum; Gísli at Helgafelli, er skólameistari hafdi verit í Skálholti, ok lærdr vel, Einarsson, Pètrssonar í Vík, Magnússonar; Asmundr Eyólfsson at Breidabólstad á Skógarströnd; Þorleifr á Kvennabrekku Jónsson prófasts frá Melum, Jónssonar prests, Þorsteinssonar, hann var andríkr sem fadir hans ok födurfadir; Eyríkr prófastr Vigfússon í Hjardarholti af Akra ætt, Páll Ketilsson, Jörundarsonar í Hvammi; Jón Loptsson, Arnasonar frá Sælíngsdalstúngu í Saurbæ; Einar á Stad á Reykjanesi Torfason, Snæbjarnarsonar, Torfasonar; Nikolás Gudmundarson í Flatey, af ætt Moldar-Brands; Lýdr Magnússon, Kortssonar á Bardaströnd; Páll prófastr Bjarnarson í Selárdal öldúngr mikill; Sigurdr prófastr Jónsson í Hollti í Önundarfirdi; Gudbrandr prófastr Jónsson í Vatnsfirdi; Sigurdr Gíslason, Einarsonar frá Heydölum at Stad á Grunnavík; Einar Olafsson at Stad í Adalvík; sá hèt Vernhardr, er þar var fyrir hann, Erlendsson lögrèttumanns eins mikilhæfs, Bjarnasonar, Jónssonar prests í Vatnsfirdi, Loptssonar, ok hafdi hann misst prestskapar fyrir galdra rykti, hann var fadir Gudmundar prests, födur Þorláks, födur Jóns prests skáldsins mikla. Magnús Einarsson prófastr var at Stad í Steingrímsfirdi, Asgeir Einarsson bródir hans at Túngu gamall mjög; Jón at Stadarbakka Bjarnason prests úr Fjördum, Jónssonar prests at Hleidargardi, Þórdarsonar Trèfóts; Einar Arnfinnsson at Stad í Hrútafirdi, er ritadi Framfærslukamb, ok opt hefir verit getit; Páll Jónsson prests Þorgeirssonar at Melstad; Þorvardr at Breidabólstad í Vestrhópi Olafsson, Erlendssonar prests at Melstad; Þor-

lákr prófastr Halldórsson at Audkúlustödum, Hallr Olafsson Hallssonar at Grímstúngum; Bjarnì Arngrímsson hins lærda at Höskuldstödum; Ari Gudmundarson frá Flatatúngu at Mælifelli, en Jón bródir hans var nordr at Stærra Arskógi, kalladr atgjörfismadr, skáld og hagr vel, en medallagi trúr; þorsteinn Gunnarsson kyrkjuprestr at Hólum; Jón Gudmundarson at Felli; Skúli í Goddölum Magnússon prests frá Mælifelli, Jónssonar, rædumadr mikill, Einar son hans var nordr at Nesi; Hallgrímr prófastr Jónsson var í Glaumbæ; Jón þórdarson at Völlum nordr, eda þó þorsteinn prófastr Illhugason; Sveinn prestr Jónsson at Bardi; þorlákr Sigfússon, Olafssonar, at Glæsibæ; þórdr Sigfússon bródir hans at Myrká; þórarinn Jónsson at Hrafnagili, Einarssonar, Nikolássonar; Bjarni at Grund Hallsson, Bjarnasonar, hann var þá gamall, ok haldinn rædumadr mikill, en sumir hèldu hann fornlegan; þá hygg eg væri í Saurbæ Jón Hjaltason sunnan frá Teigi; þorsteinn Geirsson í Laufási, lærdr vel; Hallr Eyríksson, Hallssonar í Höfda; Einar þorsteinsson prests Tyrfínggssonar í Múla, merkilegr; Skúli þorláksson biskups at Grenjadarstad; Bjarni í Reykjahlíd vid Mývatn Ormsson, Bjarnasonar, Jónssonar frá Einarstödum, allmikilhæfr; Einar Nikolásson á Skinnastödum; ok fleiri má telja nordanlands, þó eg fái ei gjörr ákvedid þeim tíma, ok koma enn fyrir sumir. þessir voru enn hinir heldri menn ok nefnum vèr ei alla: Gudbrandr í Húnavatnsþíngi Arngrímsson hins lærda, er sýslumadr hafdi verit, ok þeir Geitaskardsmenn, Gudbrandr þorláksson biskups, Magnús í Vígr Jónsson prófasts Arasonar, ok Hólsmenn vestra, þorsteinn þórdarson prests frá Hítardal, at Skardi á Skardsströnd, spakr madr, háttaprúdr ok veitull vid snauda menn; Pètr Bjarnason í Tjaldanesi; Ari þorkelsson, Gudmundarsonar, Hákonarsonar; Sigurdr Hákonarson; Sigurdr Dalaskáld Gíslason, Olafssonar, Hannessonar; Hákon Arnason á Vatnshorni; Sigurdr Pálmason, Henrikssonar, Gudmundr ok Sæmundr Arnasynir lögrèttumenn; Vigfús Jónsson, Ormssonar, á Leirulæk; Arni á Heydalsá, son Vigfúsar Hellna-prests, ok Helgi bródir hans, son Arna var Vigfús, mikill madr fyrir sèr; Arni var kalladr kvennkær; Oddr Eyríksson á Fitjum, Oddssonar biskups, veit eg ei hvert þá lifdi; Sigurdr son Arna lögmanns Oddssonar; þorkell bjó í Njardvík, son Jóns lögrèttumanns, er þá var nydáinn Halldórssonar á Hvaleyri, Jónssonar á Járngerdarstödum, Gudlaugssonar, hann átti Ljótunni

Sigurdardóttur, Arnasonar lögmanns, hún er sagt at safnad hafi þrádarleggjum öllum, þeirra son var Jón Rektor. Gísli lögrèttumadr Olafsson, Gíslasonar prests, Bjarnasonar, átti Gudbjörgu, systur Þorkels, ok bjó í Njardvík, þat er frá Gísla Sveinssyni í Midfelli, þeirra son var Olafr. Bergr bjó at Amóti, Benediktsson, Þorleifssonar; Magnús Sigurdarson, Magnússonar, at Brædratúngu; Torfi Gudmundarson at Keldum; Hákon Hannesson, Vigfús Hannesson, Helgasonar, Magnús Kortsson í Abæ; Sigurdr Núpsson á Esjubergi ok sídan Þorleifr son hans; Hávardr Loptsson gamli á Sídu. Jón Einarsson bjó austr á Svínafelli, ok sídan Sveinn son hans; en Sigurdr á Hofi, son Sigmundar á Hnappavöllum, födur Jóns, födur annars Jóns, födur Eyríks á Hólmi, eru þadan ættir merkilegar, en Einar ok Sigmundr voru Jónssynir frá Hofi, Sigmundarsonar, Ormssonar. Pètr Bjarnason, Oddssonar eystra; í Skaptafellsþíngi voru enn Olafr Einarsson, bródir Isleifs sýslumanns, ok Sigurdr. Arni hinn gamli, son Bjarnar á Laxamýri, bjó í Haga í Þíngeyarþíngi, hann var sterkr, enn ekki hávaxinn, synir hans voru Olafr ok Jón í Keldunesi. Gudbrandr Magnússon, Arasonar í Ögri, bródir Sigurdar á Skútustödum, bjó at Laugum í Reykjadal virduglegu búi, ókvæntr ok barnlaus, hann var ágætr madr, ok gjördi mörgum gott. Þá voru enn sudr á Rángárvöllum Jón Asmundarson á Stóruvöllum ok Sigurdr Gudnason af Klofaætt. Jón Eggèrtsson var at Mödruvöllum, ok þó þá ádr úr landi farinn. Þorgrímr Jónsson var enn í Þíngeyarþíngi. Magnús bjó at Espihóli, son Bjarnar Pálssonar, ok kalladr göfugr madr; Skapti Jósepsson í Skagafirdi, ok Halldór, son Þorbergs Hrólfssonar, ok Skúli Olafsson á Seilu; Jón Þorláksson, Pálssonar, Gudbrandssonar biskups, vestr í Vídidalstúngu, ok átti Hildi Arngrímsdóttur hins lærda, þeirra son var Páll Vídalín. Oddr son Jóns prófasts Arasonar úr Vatnsfirdi er enn at telja, er hèldt Reynistadar klaustr sídan, ok kalladr var hinn digri, ok enn fleiri voru til, er halda mætti med merkilegri mönnum.

## II Kap. Frá Páli.

Páll son Jóns Þorlákssonar, er kalladr var sídan Vídalín, var eigi frumvaxta, hann var snemmindis efnilegr til náms ok vitsmuna, en þroskadist lítt, ok kvad þetta er prestr einn var vidstaddr:

Átján er eg vetra,
ýtist vöxtr lítid;
lof sè gudi ljúfum,
sem lífinu mínu hlífir;
ei fèkk oddaknýir
afl nè deigulskafla.

þá jók prestr vid:

Vítid er verdi betra,
valla hafa þat allir.

## III Kap. þat er framfór um vetrinn ok vorit.

Þá var vetr snjóalitill med áhlaupum, ok var kalladr mannskadavetr, urdu skiptapar ógrlegir á Góiþrælinn, 7 á Stafnesi, 3 í Gardi, voru þarmed tveir teinæríngar ok flest útródrarmenn nordan ad, ok margir valdir, skorti einn á 10 tygi, þarmed var Olafr yfirlestamadr frá Hólum þorsteinsson; fjórir teinæríngar týndust í Vestmannaeyum, ok á tveir menn hins 6ta tugar; þrír á Stafnesi; meira týndist þá enn hálft annad hundrad manna; Tíæríngr týndist á Eyrarbakka med 11 mönnum, ok sexæríngr á Tjörn-nesi; voru midvikudaginn eptir, er var hinn 11ti marzí mánadar, jardadir 2 menn ok 40 vid Utskála kyrkju, en sumir segja 47 líka ræki upp daginn eptir, er þar voru grafin, voru nefndir formenn merkilegir, Magnús Tómasson frá ytri Ey á Skagaströnd, ok Rafn son Helga Eyvindarsonar frá Mói í Fljótum, gildr madr ok gódr drengr. Hlutir voru í medallagi, en hardt vorit, því hafísar komu á Einmánadi, ok lágu til Bartólómêusmessu nyrdra, urdu duggur hollenzkar vída at leggjast á land upp, til at verja sig broti. Prentadr var þá at Hólum seinni hlutr Gísla-postillu, enn fyrr voru prentadir Vikusálmar Jóns prests Magnússonar í Laufási. þá kalladi Heidemann landfógèti snemma í mánadinum aprílí, eptir kon-úngsbodi hid fyrra árit, meistara þórd biskup, ok lögmenn báda, Sigurd Bjarnarson ok Magnús Jónsson, til Bessastada, Jón Sigurdarson sýslumann, ok Jón Rúnólfsson, hann hygg eg ei þá væri sýslumadr, ok lögrèttumenn Gudmund á Heynesi ok Sæmund á Ytrahólmi Arnasyni, ok lèt þar taka saman greinir, þær er Bessastada-póstar heita, um vinnufært hússgángsfólk ok letíngja, verdlag á útlendri vöru medal Islenzkra, vinnufólks skyldur ok annat fleira; skyldi ófölsud þúngavara meiga uppstíga til þridjúnga inn-

anlands, fyrir flutníng, en lèttavara til fimtúngs, óþarfi eigi meiga færast framm; fengu þeir þat landfógètanum, til at bera framm fyrir konúng til samþykkis, þó var þat fyrri samþykkt í lögrèttu. Nordan-skip komu á Austfjördu, ok lètu út aptr fyrir ísnum. Þau missiri andadist Gunnlaugr prestr Sigurdarson í Saurbæ nordr; Gudmundr prestr Jónsson at Hjaltastad; Bjarni kapellán at Melum á páskadaginn Jónsson frá Lóni, Illhugasonar, Vigfússonar; Jón prestr Ormsson í Middölum. Þá var eldr uppi í Grímsvötnum, ok hafís nyrdra lengi sumars, ok vard af skortr grass ok svo bjargrædis.

## IV Kap. Mál Jóns biskups ok þíng.

Þessi missiri var Björn Magnússon frá Múnkaþverá utan, ok hèt at láta Heidemann verda skadlausan fyrir strídshjálpartolls restanz, en gjöra jardabók fyrir Vadlasýslu; hann fèkk danskan sláttumann, er hann kom út med sídan, ok sló hann ekki meira enn íslenzkir, þó hann lèti svo, ok má valdit hafa, at hèr var ei landslag til þess. Arngrími syni Hrólfs Sigurdarsonar var veitt Þíngeyarþíng, ok leyfi at fá þrímenníngs síns, Hólmfrídar, dóttur Bjarnar Pálssonar at Espihóli. Þá reid Þórdr biskup fyrir fardaga vestr í Borgarfjörd, ok nordr Holtavörduheidi, var því komit til vegar vid hann í þeirri ferd, at Stafholtsey, er legit hafdi til Stafholtssóknar þángad til, legdist til Bæar, því Hvítá hafdi grafit sig ígegnum Eyarfaxit vestr í Þverá, ok var þar fordum jardbrú. Hann reid til Hóla, ok afhendi þar med brædrum sínum Skúla presti á Grenjadarstad, Gudbrandi ok Jóni, meistara Jóni Vigfússyni Hóla stad ok dómkyrkju, med öllum eignum ok inventaríó, en tók til sín prentverkit, eptir konúngsleyfi, er hann hafdi fengit um þat. Því skömmu eptir heimanför hans, komu 2 konúngsbrèf til hans med hinum fyrstu skipum sunnanlands, var annat um þat at hann mætti, eptir ósk sinni til konúngsins, flytja prentverkid sem eign sína ok samarfa sinna, til Skálholts; lèt hann þat gjöra seinna um sumarit, ok byggja prenthús af Nýu-húsum, er svo voru köllud, er hann hafdi keypt af Torfa prófasti Jónssyni, erfíngja meistara Brynjólfs. Þat var alþiljad, ok kostulega gjört, med glergluggum miklum á bádum hlidum, kakalaofni gódum ok bókbindarahúsi, svo at ei var annad fegra í Skálholti. Annad brèfid var til meistara Þórdar biskups ok Heidemanns landfógèta, at þeir skyldu kalla

til prófasta ok presta á tilteknum tíma, ok ransaka vandlega ákærur þær, sem 16 prestar úr Hóla biskupsdæmi höfdu utan sendt í móti Jóni biskupi Vigfússyni, ok senda þat próf sídan til konúngs úrskurdar. Fyrir því stefndi Þórdr biskup, ádr hann fór nordan, í nafni sínu ok landfógètans, Jóni biskupi Vigfússyni, ok nordanprestum, mótstödumönnum hans, til slíkrar ransóknar at Þíngvöllum, hinn 3ja dag júníí mánadar. Brèf var til Heidemanns um fornfrædi af Islandi. Ekki var þá regla gjör um nádarár húsfrúr Ragnheidar, biskupsekkju á Hólum, ok urdu þaraf ágreiníngar, lídr nú til alþíngistíma, ok fór þar margt fram. Þar var dæmdr ok brenndr Halldór Finnbogason, er Fadir-vor ok skriptargángi ok sálmi um pínu Krists hafdi snúit uppá fjandann, ok medkennt sig í draumi hafa gjört sáttmál vid hann, ok heitizt um at gánga aptr; hann var úr Þverárþíngi vestan Hvítá, ok lesin var þar veitíng Andrèsar Andrèssonar fyrir Snæfellssýslu ok Arnarstapa umbodi, en Þórdr Steindórsson var lögsagnari, ok svo önnur konúngsbrèf. Sýslumenn voru nefndir í dóm um illyrdi Pètrs Jónssonar úr Þverárþíngi vid lögmenn; hann hafdi óskad, þeir væri afhöfdadir. Landfógèti gaf Lárusi Kristjánssyni umbod sitt, ok lýsti sekt á fè Jóns Eggèrtssonar. Mörg voru smámál. Þar er fyrst getit Arna Magnússonar, at hann fèkk Vigfúsi Jónssyni á Leirulæk, födurbródur sínum umbod sinna mála, er hann fór utan. Þángat kom at stefnu fyrir meistara Þórd biskup, ok 4a helztu prófasta ok þrjá presta, á Þíngvelli, Jón biskup Vigfússon frá Hólum, ok af mótstödumönnum hans Einar prestr Þorsteinsson í Múla, Jón prestr Bjarnason á Stadarbakka, Þorsteinn prestr Geirsson í Laufási, Olafr prestr Þorvardsson á Breidabólstad, Þorsteinn prestr Gunnarsson frá Hólum, hann var bródir Páls prests at Gilsbakka. Þeir sendu forföll Þorsteinn prestr Illhugason á Völlum, Jón prestr Þórdarson, ok Jón prestr Gudmundarson í Stærra Arskógi, en stódu vid frammburd sinn hinn fyrra; adrir voru flestir sættir vid biskup. Fyrst mæltu þeir á móti hönum í þeirri grein, at hönum hefdi verit borinn galdr, ok fyrir þá grunsemd hafi hann svarit, en biskupi hæfi þó at hafa gódan vitnisburd at Páls postula bodi; þar uppí færdu þeir framm þat, er Þór Brunnersen skipari hafdi borit hönum. Því svaradi Jón biskup, at hann hefdi óneyddr ok sjálfkrafa hrundit því, til at taka fyrir grun allan. Þvínæst báru þeir hönum tóbaks-verzlan vid útlenda ófrjálsa kaupmenn, vitanlega ok

ímóti konúngs bodi, fyrir því sè hann frá sýslumanns embætti dæmdr ok afsettr, ok muni sídan med rángri medferd hafa nád háverdugu biskupsembætti, en biskup skal þó vera óstraffanlegr hússtjórnarmadr guds; þetta sönnudu þeir med Heynessdómi Sigurdar lögmanns Jónssonar. I þridja lagi kvádu þeir hann haft hafa, sídan hann vard biskup, mikla tóbakssölu, med yfrid háu verdi, ok adra þá hegdun, er æruverdugu biskupsembætti sómir eigi, því biskup skal ei vera skemmilegs ávinníngs gírugr; þat lètust þeir sanna meiga þar strax, ef hann vildi á þat herda; en Jón biskup kvadst ei mundi mótmæla, at hann hefdi tóbak nokkru dýrara selt, enn alþíngis samþykkt, þá fyrir 6 árum gjör, kvædi á, lèzt hafa gjört þat sèr ok heimili sínu til framfærslu, þar sem hann hefdi ei haft annad enn eignir sínar at stydjast vid í margt ár. I fjórda lagi færdu þeir framm, at þeir tali fátt um vígslu hans hèr í landi, því þeir hafi sumir fyrir skömmu sèd embættisbrèf hans, ok konúngsbrèf til meistara Brynjúlfs, en þó óska þeir, at Jón biskup auglýsi þeim skjallega sín Testimonia Academica, ok vitni um attestazíu hans, samvizkum þeirra til fríunnar, ok at hann hafi nokkurn tíma gudfrædi stundad, er þeim þótti efanlegt, ok hyggi þeir at hann hafi því fengit leyfi, at vígjast á landi hèr, at hann hafi eigi treyst sèr þar til andsvara, er hinir lærdu menn í Danmörku skyldu prófa. Þar til svaradi Jón biskup engu, veik frá rèttinum, ok kom ei aptr, þó tvisvar væri sendt eptir hönum; kvadst fullu svarad hafa ákærum prestanna, ok þurfa ei framar; var af því próf þetta sendt utan um sumarit, enn hann ætladi at sigla um haustit vestr í Rifi, laskadist þá skipit degi ádr enn út skyldi leggja, ok fyrir því fór hann hvergi, ok sneri aptr nordr til Hóla. Kölludu óvinir hans hann Bauka-Jón, sögdu hann hafa selt í smábaukum þat er hann lèti sem væri dýrindi nokkur.

## V Kap. Eitt ok annat.

Heidemann var bodadr utan um sumarit, ok lètust ei kaupmenn sydra vilja flytja hann, kvádu hvern hans peníng okradan út; lèt hann flytja 4 peníngaskrín til skips á tveimr hestum, ok lèt ei mundu annan fógèta jafnaudgan ordit hafa á jafnskömmum tíma; var Lárits Gottrûp settr í hans stad. Mikit brast á inventaríum á Hólum, er meistari Jón Vígfússon tók þar vid, voru lagdir ofan

á kyrkjuna 200 dalir, en meistari Þórdr biskup ok brædr hans höfdu viljad eignast allar hálfar landskuldir vid Ragnheidi biskupsekkju eptir nýum Danmarkar lögum, ok var þeim dæmt þat vid Vallalaug, ok skotit til alþíngis, en lögrèttumenn skutu til konúngs. Prentverk hafdi verit at Hólum 108 ár, er þeir brædr fluttu þat þadan, en frú Ragnheidr fór at Hofi á Höfdaströnd, jördu sinni. Skip týndist á Eyafirdi vid land um þíngmaríumessu, ok tók út allan reka af Tjörnnesi, er at kom hinn fyrra vetr, ok þótti 20 ára fordi, gekk þar sær á berg 15 fadma hátt. Grasamenn þóttust sjá tröll á Mývatns öræfum, en þat er ei skrásett þó einstakir menn hermdi slíkt. Björn Magnússon sýslumadr í Eyafirdi kom út um sumarit, ok hafdi þá enn veitíngar sínar sem fyrr segir, ok gekk enn óhaglega. Þá vard danskr drengr íslenzkum manni at bana í Grundarfirdi, sumir segja í Olafsvík, med byssu þeirri er aldrei hafdi afgengit. Þurt var ok grasbrestr um sumarit, því at hafísar lágu til höfuddags, lágu kaupför Dana vid Austfjördu, þau er send voru til Nordrlands, ok fóru til baka sídan, kom engin siglíng fyrir nordan, nema eitt á Akreyri, þar fór utan Þorsteinn prestr Gunnarsson frá Hólum, óvin Jóns biskups. Þá kom ok út Arngrímr Hrólfsson med veitíngu Þíngeyarþínga ok 6 konúngsjarda í Reykjadal; þar vard eptir fiskidugga ensk á Raufarhöfn á Slèttu, ok kom enginn þeirra upp at vitja; lèt sýslumadr dóm gánga um þat, ok tók hana til sín konúngsins vegna. Kominn var ok út prentari danskr at forlagi Þórdar biskups, sá hèt Henrik Krúse, ok hafdi prentad fyrri at Hólum, einnin pappír til prentverksins, ok hvad annad er þurfti; hóf hann þá þegar at láta prenta á þeim vetri, en Þórdr rektor Þorkelsson Vídalín skrádi þá um Jökla á Íslandi. Voru sídan mikil frost til jóla.

## VI Kap. Frá ýmsu.

1686 Eptir jólin gjördi snjóa, ok voru jardbönn fyrir nordan; svo hross dóu af húngri sakir áfreda, en sydra var fimm dægra snjókoma í Borgarfirdi ok Þíngvallasveit, svo at mældar voru 3 álnir á slèttlendi; komust menn ei til fjárhúsa nema skrídandi; lægdi þar eptir af þýdvindi smámsaman, ok gjördi þar vetr gódan, en kaldt vorit; miklir urdu einnin hlutir sunnan ok vestan. Skip týndist þat vor sunnan jökul, ok 6 menn af, þeir höfdu ordit

vansáttir vid öl, ok gád ei leidar. Þá rak níræðan hval á Vík á Vatnsnesi, ok vard mönnum at lidi gódu í hardæri því er þá var. Þat kom upp, at skipsbrot franskt hefdi rekit hjá Brimsnesi í Vidvíkrsveit, en reyndist rekinn frá Dönskum vid Málmey, höfdu bændr tveir leynt, ok flutt af rekhald til Hóla, 190 fadma lángan kadal, hvalavopn, árar ok bordvid, ok var þíngad í því at Vidvík um vorit, ok skotit til lögmanna at ákveda refsíng. Prentad var þá fyrst í Skálholti, Paradísar lykill, ok Forfedra bænabók svokölllud, Dominicale, ok Kingós sálmar, er Steffán prófastr Olafsson í Vallanesi hafdi umsett, ok kvedit á íslenzku máli. Þá bjó at Hólum í Eyafirdi Magnús, son Benedikts Pálssonar ok Sigrídar stórrádu, hann hafdi fengit med vèlum Ingibjargar, dóttur Þorkells Gudmundarsonar á Þíngeyrum ok Solveigar Magnúsdóttur lögmanns Bjarnarsonar, systur Bjarnar sýslumanns ok Gísla at Hlídarenda, þar hafdi Solveig ridit til brúdkaups, gengit inn, ok lýst bölvun yfir hjónabandinu, ok ordit á brott sídan. Magnús fór utan med Hollenzkum, ok lèt Björn Magnússon dóm gánga hinn 12ta dag aprílis at Skridu í Hörgárdal um þá utanför; var Magnúsi dæmt 8 marka brèfabrot, en skyldi synja med sjöttareidi, at engar vörur hefdi flutt frá landi edr til; í sjöttareidi voru þrír menn stefndir á hverja sídu, var sá hinn fjórdi er ákærdr var, en tveir voru kalladir fángavottar. Þorsteinn Þorleifsson lèt dóm gánga um vorit at Vidvík um hvalfángarabátinn, er Hákon Gudmundarson ok Arngrímr Sigurdarson höfdu fundit, sem fyrri getr. Þá dó Sigurdr prestr Jónsson í Eyvindarhólum. Mörg voru þá gefin út konúngsbrèf; var eitt um bænadag 4da föstudag eptir páska, sem sídan hèlzt; eitt um erklæríngu edr áteiknun biskups á súpplíkazíur andlegra; eitt um nádarár biskups-ekkna; eitt var heit til Bjarnar Þorleifssonar fyrir Oddastad eptir födur hans, hann kom út med því brèfi; en Arna prófasti Þorvardssyni á Þíngvelli hafdi verit gefit þat heit ádr, ok var þat aptrkallad. Eitt var til meistara Þórdar biskups, ok Kristófors Heidemanns landfógèta, at þeir skyldu taka med sèr lögmenn báda, ok alla hina beztu menn, andlega ok veraldlega, ok sætta Jón biskup Vigfússon ok mótstödumenn hans, því Þorsteinn prestr Gunnarsson var útkominn, ok var þá at vistum at Bæ í Borgarfirdi med Gudnýu systur sinni; einnin sætta húsfrú Ragnheidi Jónsdóttur vid biskup, um nádarárs takmark hennar, en gjöra skilnad á slíkum deilum, ef ei yrdi

ödru ákomit. Prestr einn, er allvel hafdi verit virdr, Rafn Olafsson á Stad í Grindavík, vildi ekki halda bænadaginn, ok var alló þekkr biskupi, bannadi hönum kyrkju, er hann visítèradi, ok taladi til hans illa, var hann afsettr prestsskap, en eptir þat útdeildi hann sjálfum sèr altaris nautn. Kom nú alþíng, ok bar Bessi Gudmundarson, sýslumadr í Múlaþíngi, þar framm hórdómsbrot hid þridja þess manns, er Jón Þorláksson hèt, ok laungröft á barni hans, ok var Jón dæmdr ok höggvinn. Arngrími Hrólfssyni var dæmt at taka at sèr dugguna, er fyrri getr, konúngdómsins vegna, ok sekt fyrir vanhirdíngu; margt var þar dæmt annat. Landfógètinn spurdi lögrèttuna, hvert ei væri gott at landit ætti fiskiduggur, ok var því játad. Jón Hreggvidsson, er þá hafdi verit utan, hafdi frelsisbrèf at fara til Islands, ok svara þar til saka. Um þá þíngstund dó Arnþrúdr, kona Magnúsar Sigurdarsonar í Brædratúngu, at fjórda barni andvönu. Þá komu tvær duggur hollenzkar á Skagaströnd, þar hèt kaupmadr Lárits Bech, ok fóru 2 bátar í land med 20 mönnum, ok brutu þeir búdarjáfrit, ok stálu ok ræntu nær þriggja þúsunda dala virdi, en landsmenn voru hræddir vid þá, ok þordu ekki at varda, því þeir þóttust ei vita hverir voru; kærdi kaupmadr skadann, ok þíngadi Þorsteinn sýslumadr Benediktsson um þat á Vindhæli hinn 14da dag septembris. Eyólfr hèt madr, er dó á Eyrarbakka af rothöggi, er danskir menn voru at kasta sleggju. A því hausti var lagdr samfundr í Kalmanstúngu, komu þángad þeir menn, er til voru nefndir í málum Jóns biskups Vigfússonar, at sunnan, en at nordan komu engir fyrir stórvidrum, ok vard ei atgjört. Sumir segja at ekki hafi Þorsteinn prestr verit þá kominn út. Slisfarir urdu nokkrar einstakra manna, ok þó ei allvída; en þat þótti nýnæmi um þær mundir, at bóndi sá er Helgi hèt Eyólfsson hafdi lesit í Sócínuss bókum, ok fèll á hans ætlanir, þordi þó ei annat enn afláta, er Þórdr biskup ok Sigurdr lögmadr Bjarnarson fundu at vid hann. Þá nádi Sigurdr lögmadr med lidveizlu meist. Þórdar biskups kaupi hjá konúngi á Skálholts jördum í Heyness umbodi, Hvítárvöllum, Heggstödum ok Búrfelli, med 2 hundrada ok 40 álna landskuld, ok 12 leigu kúgildum, öllum saman fyrir Oddstadi í Reykjadal sydra 40 hundrud; sú jörd var leigd med Kleppum, sem nú eru í eydi, fyrir 3 hundrud, med 12 eda 13 kúgildum. Þann tíma dó Þorvardr prestr

Olafsson at Breidabólstad í Vestrhópi, hann hafdi verit hardgjör, ok bóndalegr í öllum háttum, en Olafr prestr son hans hèldt þá stadinn.

## VII Kap. Ýmislegt er vidbar, ok illi vetr.

Sá vetr þarnæst var gódr fyrir sunnan, en stirdr nordanlands, 1687
vor kaldt ok sídgróit; þá dó Sæmundr prófastr Oddsson í Hítardal, ok Magnús prófastr Pètrsson á Hörgslandi, hann átti afkvæmi margt eptir, ok þó flest fátækt; Bjarni prestr Sveinsson í Medallandi, ok Arni prestr í Hruna Halldórsson, Dadasonar; einnin Sveinn prestr at Bardi í Fljótum, lærdr klerkr, ok merkismadr á sínum dögum, hann hafdi 3 vetr hins 9da tugar; voru þá uppi synir hans, Páll prestr í Brautarholti ok Jón, er bjó í Túngu í Fljótum. Borinn var þá Þorsteinn Ketilsson. Var nú prentud *Harmonía* Evangelica, Bænabók Olearíí, ok Rím Þórdar biskups. Hinn 5ta dag aprílis dó Sessilja at Hlídarenda Bjarnardóttir frá Laxamýri, módir Þorsteins sýslumanns á Vídivöllum Þorleifssonar, ok hafdi 3 vetr ok 80. Prestar nokkrir fengu konúngsbrèf fyrir stödum, ok eitt brèf kom um at kvidfletja fiskinn. Skip týndist á Vestfjördum med 6 mönnum, ok tvö í Bolúngarvík med 12 mönnum; eitt á Snæfjallaströnd med fjórum, eitt í Adalvík med fjórum. Einstakir menn druknudu vídar. Olafr Jónsson skólameistari í Skálholti, bródir Halldórs í Reykjaholti, vígdist til Hítardals. Þat vor flutti Sigurdr lögmadr Bjarnarson frá Hvítárvöllum til Saurbæar á Kjalarnesi. Jón Eggèrtsson komst þá úr haldi, ok voru teknar upp eigur hans á landi hèr, en hann hèldt til Svíþjódar ok þar dó hann sídan. Eggèrt son hans bjó eptir þat at Ökrum í Skagafirdi. Þann tíma seldi Björn Magnússon sýslumadr Vatnsleysu í Fnjóskadal Einari presti Þorsteinssyni í Múla, en Helga Gudmundardóttir kona hans ok Halldóra dóttir hans brygdudu jafnskjótt. Þorsteinn Benediktsson hèldt þá enn Húnavatnsþíng med Lárusi Gottrúp, hafdi hann verit hönum studníngsmadr í íslenzkri lögvísi, en þótti nú mikill uppgángr hans, ok gatst ei at fègirni Heidemanns, er Lárus hafdi umbod fyrir, ok vildi láta af sýslu. A alþíngi voru mörg barngetnadarmál; þar var drekkt Borgnýu Brynjólfsdóttur úr Dýrafirdi vestan, er barn hafdi getit vid Torfa Brynjólfssyni, hálfbródur sínum, en hann strauk ok komst

úr landi. Kona vann eid fyrir galdrarykti úr Múlaþíngi, ok hafdi góda kynníngu. Getit er þar þess, at Þórdr Steindórsson hafdi þá enn Stapa umbod. Registr var fært í lögþíngisbókina yfir allar konúngsjardir á landi hèr. Þar til nefndi Heidemann landfógèti hinn 5ta dag júlíí mánadar Sigurd lögmann Bjarnarson ok Magnús lögmann Jónsson, ok 6 hina fremstu sýslumenn, at skoda misklíd Jóns biskups ok húsfrúr Ragnheidar, álitu þeir at haldast skyldi eptir brèfi Fridriks konúngs þridja 1650 hinn 3ja dag mají mánadar, um nádarár prestaekkna, þvíat biskupsfrúr höfdu eigi notit þess hèr fyrrum, nema Helga Jónsdóttir í Skálholti at eptirlátsemi Holgeirs Rósenkrantz höfudsmanns; ok samþykkti þetta meistari Jón Vigfússon; vard ok samit í millum hans ok prestanna hverumtveggjum at ávirdíngarlausu. Sigurdr lögmadr tók vitnisburd sinn á því þíngi; en um haustit fór Heidemann landfógèti utan. Kaupförum var safnad í Hafnarfjörd til at fylgja herskipi, þvíat spurzt hafdi til Tyrkja í Nordrhafi. Þann vetr vard Olafr prestr Jónsson, þótt hann væri vígdr, samt at Skálholti, ok kenndi skóla-
1688 mönnum. A hönum gjördi þessu næst hörkur miklar, voru þá fjúk med frostum af öllum áttum, áfredar ok hagskortr, fellu stórum peníngar í flestum sveitum, eigi sízt á Vestr-Mýrum; fyrir austan land hardnadi þó einna mest um bjargrædit, þar voru ok litlir hlutir, en í medallagi sydra ok vestra. Fyrir nordan ok vestan var vedrátt mjög ill, ok ætludu hinir elztu menn ei hafa komit slíkan vetr í 100 ár hin næstu; var sá peníngr nær ónýtr sem af lifdi, sökum hardinda á sumar framm ok grasbrests, ok horfdi til hins mesta mannfellis. A Krossmessu um vorit gjördi fjúk med stórsnjó ok frosti miklu, ok gekk viku fulla, fèkk þá af nýu margr mikinn fjárskada; hesta fennti þá til bana hópum saman kríngum jökul, ok um Mýrdal hrakti vída ok fennti fè. Urdu tveir skiptapar í Leiru, en hinn þrídji á Seltjarnarnesi. Þá rak 36 smáhvali annars hundrads á Þíngeyrasand, þá er hnýdíngar heita, fyrir brimi ok nordanvedri.

## VIII Kap. Umskípti ýmisleg.

Þessi missiri urdu mörg tídindi; þá andadist Steffán prófastr Olafsson í Vallanesi, hafdi hann á hinum sídustu árum verit mjög veikr í fæti, ok svo í gedsmunum, ok tók þann stad Olafr, prestr sonr

hans, er sídan var prófastr. Anna var dóttir Steffáns prófasts, er fèkk Olafr prestr, son Gudmundar Jónssonar á Siglunesi ok bródurson Sveins prests at Bardi, þeirra son var Steffán prestr at Höskuldstödum. Annar prestr andadist, Bjarni Hallsson at Kálfafelli, ok enn Sigurdr Helgason vid Hellna, ok Gísli Einarsson at Helgafelli, er fyrr var skólameistari, ok hafdi lagt sig eptir utanlands, med ödrum lærdómi, stjörnuvísindum ok Mælíngarfrædi, ok haft fyrir því konúngsbrèf, at meiga kenna slíkt í Skálholti, ok afgjald til launa af Flögujördum, er kalladar voru. Olafr prestr Jónsson skólameistari fór til Hítardals, ok var prófastr þar í hèradi, en andadist á þeim missirum. Hávardr Loptsson at A á Sídu, er opt hefir nefndr verit, ok fyrr meir þóttist sjá sjónirnar á Kyrkjubæ, en var lengi lögrèttumadr, deydi þá þremr vetrum betr enn tírædr; ok þá tók Oddr prestr Reynivelli, son Jóns bartskèra í Káranesi, Sigurdarsonar, er var af einni ætt ok Gunnar prestr at Gilsbakka, hann vard prófastr seinna, ok merkilegr madr. Prentadr var þá hinn minni Katechismus Lûthers, Kristindóms-saga ok Schedæ Ara prests hins fróda, en sídar Olafssaga ok Landnámasaga; Grænlandssaga Arngríms hins lærda hygg ek þessi missiri væri prentud, þvíat Þórdr biskup lagdi stund á fornfrædi, ok fèkk konúngsbrèf fyrir, at þvílíkt mætti hann ok hans eptirkomendr prenta láta, ok halda prenthúsunum, er hann hafdi sjálfr látit byggja, þó vard ei af sögu-prentun meira; en upphaf var þat þess, at augu almeníngs lykist nokkud upp um forn tídindi, þó lengi væri lítit; því þángad til höfdu flestir menn um stundir verit blindir í slíku, ok um flest bókvit, nema þat er kennt var af kristindómsbókum, en svo er sagt, at þá hafi verit lærd frædin (Katechismus Lûthers hinn litli) ok 12 spurníngar. Þórdr biskup lèt mjög bæta prentstýlinn, ok steypa upp, ok auka mörgum stórum stöfum ok hnútum, var hann ok hagleiksmadr mikill, ok hugvitsmadr fyrir at segja, ok at því skapi stundadi hann at vanda prentverkit sem best, ok allt er þar heyrdi til, þá stund alla er hönum endist heilsa, en henni tók um þessar mundir at hnigna, fèkk hann bjúg í líkam sinn, ok ætludu menn mest olla stadnad vatn, enn hann var kyrrsetu-mikill. Mörgum þótti þat illa, er prentverkit var tekit frá Hólum, en vard þó svo at vera, kölludu þá sumir at þat færi saman, er hann þraut heilsuna, ok prentverkit hófst mest í Skálholti. Þat bar helzt til tídinda, at konúngsbrèf komu

mörg, ok skipti á ýmsum hlutum, ok verdr eigi senn greint frá öllu. Ein kom út stadfestíng konúngs fyrir jardakaupum Sigurdar lögmanns, er fyrr èr getit, þar vid missti Lundar kyrkja jardartíund af Oddstödum. Tvö komu konúngsbod, annad til biskupanna beggja, meistara Þórdar ok Jóns, at þeir skyldu med hinum skynsömustu prófóstum, taka saman íslenzk lög um öll andleg mál, eptir annari bók í norsku lögum, er þá voru útkomin í Danmörku ári ádr, ok fara þeim sem nærst; hitt var til lögmanna beggja, Sigurdar Bjarnarsonar ok Magnúsar Jónssónar, ok lögbókin þarmed, um þat at þeir skyldu med hinum vitrustu sýslumönnum semja lög um veraldleg mál, sem nærst henni, ok þó eptir landskapnum út hèr, en halda sem þeir mætti formi norsku laga í öllu því, er yrdi vidkomit; þvíat Kristján konúngr 5ti var löggjafi mikill, ok vildi þó svo fara med einvaldi sínu, at Island nyti eindreginna laga, er því voru edlileg, þó þess yrdi eigi audit. Jón biskup Vigfússon hafdi þá í ödru at standa, sem enn mun sagt verda, ok hindradist hann; en meistari Þórdr biskup kalladi til fjóra prófasta, var einn Halldór Jónsson frá Reykjaholti, annar Sigurdr Sigurdarson á Stadarstad, þridji Einar Einarsson í Gördum, fjórdi Þórsteinn Gunnarsson, er þá var ordinn prestr í Skalholti, ok prófastr í Arnessþíngi; hann hafdi þessvegna ekki áorkat vid Jón biskup Vigfússon, er hann var utan, at því er hann sagdi sjálfr, at Bagger Sjálands biskup hafdi haldit taum Jóns biskups, því hann átti systur Griffenfelts, er Jón hafdi hafit; var Þorsteinn prófastr nú settr í stad Páls prófasts í Selárdal, at vera vid samkomu þessa, því Páll prófastr mátti ei vera á Þíngvelli sökum fjærlægdar ok svo elli, en ekki vard fundrinn á þessum missirum.

## IX Kap. Mannalát ok annat.

Þá andadist Þorsteinn prestr Geirsson í Laufási, ok druknadi Sigurdr Dalaskáld Gíslason, Olafssonar, Hannessonar, hann datt útbyrdis á Breidafirdi, ok fannst ei sídan, eignudu menn þat kvedlíngum ok vidskiptum þeirra Vigfúsar á Leirulæk. Dó ok Gudrún Þorsteinsdóttir á Alfgeirsvöllum, systir Gunnlaugs prests í Vallholti, tveim vetrum minnr enn tíræd, ok átti börn ok barnabörn 64, hana hafdi átta Bjarni lögréttumadr, son Hrólfs hins sterka, ok bjó þá at Alfgeirsvöllum Þorsteinn son þeirra, ok var gamall, var

hans son Hrólfr mikill madr fyrir sèr. En í októbri deydi Jón lögrèttumadr á Nautabúi, Þorsteinsson prests, Tyrfingssonar, bródir Einars prests í Múla, ok litlu sídar Benedikt Halldórsson sýslumadr í Skagafirdi, er fyrr var 80 vetra ok eins, ok hafdi haldit sýslu í 44 ár, ok lengst allra, en legit í kör um 2 ár. Þá dó enn Þorleifr prestr í Blöndudalshólum, all-mikilhæfr, Olafsson, Gudmundarsonar í Sölvatúngu, Gíslasonar, frá hönum er ætt ei alllítil; ok enn Einar prestr Arnfinnsson at Stad í Hrútafirdi áttrædr, Gudmundr, son Þorkels Gudmundarsonar á Þíngeyrum, ok Helga Gudmundardóttir at Múnkaþverá, kona Bjarnar Magnússonar. Eptir Olaf prest fèkk Hítardal Sæmundr prestr, er lengi var ádr skólameistari, Oddsson frá Borg, Þorleifssonar, en Hákon Hannesson Rángárþíng eptir Gísla Magnússon á Hlídarenda, er hann lèt af, ok var ei nema lögsagnari fyrst. Þá var at Stad í Kinn Jón prestr, son Þorgríms Olafssonar Mödruvalla prests, er átt hafdi vid Jón Eggèrtsson, hann fór í Skóg med nokkra menn at afla vidar, en á heimleid vard fyrir hönum hrísla, hann mælti: þessa hríslu má hafa til einhvers, vid skulum höggva hana upp. Madr, sá er med hönum var, mælti: þat vil eg gjöra. Nei, sagdi prestr, ek vil gjöra þat sjálfr, hljóp af baki ok hjó til, ok rann öxin á lær hönum, vard sár mikit, ok lá hann lengi.

## X. Kap. Frá amtmanni ok landshöfdíngjum.

Þat er enn ótalit, sem fyrst skyldi telja, útkoma Kristjáns Mullers af Katterúp, hann var skipadr amtmadr yfir land þetta af konúngi, ok hafdi umbod stiptamtmanns; kom ok út Kristófor Heidemann, hann var þá Assessór at nafnbót, ok landfógèti sídan yfir reikníngum einum saman; leitudu hans allmjög flestir menn, því hann var kunnugri enn amtmadr, þarmed skarpvitr ok stórmannlegr á hvern hátt, er hann snèri sèr, hafdi hann látid byggja frammkyrkjuna á Bessastödum, er ádr var undir torfþaki, ok lögdu kyrkjur hèr á landi ekkèrt til. Muller amtmadr var ókunnugr, nokkud audtrygdr ok talhlýdinn ok eigi djúpsær, lærdr var hann ok lesinn ok vídförull, ok gæfr madr af sjálfum sèr, ljúfr í vidrædu ok dramblátr, þá at eins stór, ef undir hann var ridit; hann var lítilmenni at sjón ok ekki frídr. Eitt konúngsbrèf kom med þeim, er veitti Magnúsi lögmanni Jónssyni Snæfellssýslu ok Stapa-umbod,

en Andrèsi Andrèssyni Dalasýslu. Eitt var um lögmannstollinn, hann kom þá, því lögmenn höfdu ritit konúngi um þat, þóttust hafa laun lítil. Eitt var veitíng Hákonar fyrir Arness-sýslu; Hákon var Hannesson, Arnasonar frá Ytrahólmi, Gíslasonar lögmanns, Þórdarsonar. Eitt var veitíng Sveins Torfasonar prófasts frá Gaulverjabæ fyrir Múnkaþverár klaustri, hann var þar sídan, ok eigi spilsamr. Önnur voru fyrir prestaköllum, ok enn minniháttar, ok þau at auki sem ádr eru talin; voru þau upplesin á þíngi, ok instrúkzíón amtmanns; þángat komust menn ekki at nordan, nema tveir lögrèttumenn úr Hegranessþíngi, en alls 8 af Vestrlandi, ok ollu því hardindi; var þat ok á þíngi borit framm med stórri kvörtun, at menn hefdi ei heyrt um slíkan vetr nè önnur þvílík hardindi getit um 100 ár hin nærstu, þarmed væri peníngr ónytr at mestu, ok fiskiafli hinn minnsti. Þar kom búdastuldar-mál úr Isafirdi, ok þar var Torfi Jónsson frá Flatey, ok hafdi þá enn hálfa Bardastrandarsýslu. Lýst var þar skuldum sýslumanna, ok svo var lengi sídan, at þeim var lýst allra þeirra, er reiknínga höfdu. Rafn Olafsson, er prestr hafdi verit, átti þar illordamál; en stórmæli voru engin. Þat sumar reid Kristján Muller amtmadr nordr í land, ok Heidemann landfógèti, at prófa mál Jóns biskups Vigfússonar, var hann mjög ófrægdr utanlands af reidurum Islands ok kaupmönnum þeirra fyrir nordan, um mikinn kaupskap hans vid ófrjálsa kaupmenn, ok okr á tóbaki ok krami óþörfu. Þetta vildu þeir prófa, amtmadr ok landfógèti, ok enn fleira. Þeir ridu til Vidvíkr, ok var þar þíngad nokkra daga samt, ok stefnt þángad Jóni biskupi, ok öllum þeim, er höfdu nokkut at kæra hann um, eda vitna í móti hönum, vard sú eptirleitni med mikilli frekju, ok svo ósparlega borit framm af mörgum hönum í móti, ok allt þat uppritat, ok hans svar í móti því vitnad ok svarit, sem annat fullt þíngsvitni: báru þat sumir, at biskup hefdi sendt þá ok gjört út til kaupskapar vid hollenzka duggara ok ófrjálsa kaupmenn, ok lögdu framm brèf ok önnur líkindi til styrktar sínu máli. Þat var ok frammborit, at stóls landsetar vid sjósídu, helzt í Fljótum, hefdi verit neyddir af hönum, til at selja hönum hálf skip þeirra, ok sèr heitit afarkostum ella; vída hafdi aukit verit kúgildum á stólsjördum, sett lambafódr óvenjuleg, ok adrar nýúngar fleiri, er þá kærdu bædi leikir ok lærdir; var þat allt hid ytrasta ritad upp, ok sendt utan sídan; en þeir landfógèti ridu sudr, ok

sat amtmadr at Bessastödum einn síns lids med tvo þjónustumenn; var hann hèr út sídan sumar ok vetr. Grasmikit var þat sumar þegar áleid, en vída var matskortr af peníngafelli, þeim er undan var farinn, helzt í Vestmannaeyum, því þar hafdi eigi aflazt í þrjú ár fiskr. Jón Vídalín, son Þorkells prests Arngrímssonar hins lærda, var farinn utan fyrir einum vetri, hann gjördist nú Bakkaláreus, ok var hann skarpvitr, ok þeir brædr allir Þorkelssynir. Þann vetr sat amtmadr fyrstan í landi hèr, ok var þá kallad nýúngasamt, hardt í ári, ok rostumikit af málaferlum.

## XI Kap. Árferdi ok málaferli.

Vedrátt var gód ok medallagi vetrinn eptir, en hardindi mikil 1689
voru ákomin ádr ok ónýtíngar, var ok fiskleysi sem mest, en málnýta, kýr ok ær mjög skorit til matar, ok dó margt fólk í ýmsum sveitum af skorti, ok svo var á sumar framm, eptir því sem lögþíngismenn vitnudu sídan um. Var þat svo í öllum áttum landsins, því verra enn hid fyrra árit, sem skortrinn hèlzt lengr; flosnudu þá margir upp, ok urdu margir skadar á björgum manna. Þá dó um vorit Jón prestr Þórdarson at Hvammi í Laxárdal, ok sumir segja Þorsteinn prestr Geirsson í Laufási dæi þá fyrst, hann var barnlaus, ok var Geir Markússon, bródurson hans, ordinn þar kapellán. Jón Magnússon, bródir Arna, hafdi misst klerkdóms fyrir barngetnad í skóla, ok fengit uppreisn, ok var hönum nú veitt Hjardarholt í Dölum, því hann var hinn mesti gáfumadr. Páll prestr Amundason gjördist prófastr í Múlaþíngi. Þau missiri druknudu margir menn, einn eda 2 sèr; var einn Teitr gullsmidr Hallsson frá Mödrufelli, Bjarnasonar, hann druknadi í Túnguós vid Búlandshöfda; einn madr braut höfud sitt milli mjölhálftunna, hann fór drukkinn úr Rifi. Skrida tók af velli ok 2 konur ok barn á Björk í Eyafirdi, ok skip týndist um vorit med 6 mönnum á Isafirdi. Egill Sigfússon var þá skólameistari at Hólum, en Þórdr Þorkellsson Vídalín í Skálholti. Þorsteinn Benediktsson ok Lárits Gottrûp hèldu enn Húnavatnssýslu saman. Þá lagdi Þórdr biskup med prófasta rádi Hólma í Reidarfirdi, Skorrastadi ok Kolfreyustad til prestajarda hinna fornu. Þat sumar kom út Margrèt Bartólíne, kona Mullers amtmanns; þat var vott sumar ok heyskaparlítit; þá andadist Torfi prófastr Jónsson at Gaulverjabæ, ok

tók þar vid Halldór prestr son hans; þeir voru ok hans synir Jón prestr Torfason, er seinna var á Breidabólstad í Fljótshlíd, ok átti Sigrídi, dóttur Bjarnar Pálssonar af Espihóli, er afbragd hafdi þótt meya, ok Sveinn at Múnkaþverá. Annar prófastr andadist, Einar á Reynivöllum Illhugason, Vigfússonar. Björn Magnússon kom á þíng úr Eyafirdi nordan, ok flutti þángad tindali, en hönum var bodit at grenslast eptir sjálfum sem fastlegast heima í hèradi; voru þá samdar deilur med hönum ok Gudbrandi syni hans, ok Jón Eyólfsson sýslumadr kjörinn fjárhaldsmadr Gudbrands. Konúngsbrèf voru nokkur, um uppreisnir presta, Jóns prests Þórdarsonar á Myrká, Sigfússonar, ok Sæmundar prests, sonar Hrólfs Sigurdarsonar, ok eptirbidarbrèf gefit Páli syni Marteins Rögnvaldssonar fyrir fjórum þíngstödum þar eystra. Þar var dæmt Magnúsi Markússyni á Reykjum í Sydra-Reykjadal, at færast undan galdra áburdi. Rögnvaldr Sigmundarson, sýslumadr í Strandasýslu, hafdi þar mál fyrir; sá madr hèt Vigfús Jónsson, er þadan var kærdr um ofsa ok kyrkjufridarspell. Rafn Olafsson var kærdr fyrir marga þverúd vid biskupinn, meistara Þórd, sakramentis útdeilíngu sjálfum sèr, ok mörg vandrædi, var hönum dæmd refsíng, ok skyldi Einar Eyólfsson, er þá hafdi lögsögn í Arnessþíngi, láta leggja á hann. Þeim bar til orda útúr Skardi ok Dadastödum Jóni biskupi Vigfússyni ok Heidemann, ok var fellt á biskup ósanninda ord. Aftekit var þá um markaungla ok lódarstúfa háseta ok vinnumanna, ok lagfært um sveitar-naudsynjar margar. Þar kom ákæra nokkur um Bjarna Eyríksson á Búlandi, sýslumann í Skaptafellssýslu, undarlegar athafnir hans; ok enn mál þeirra Bjarnar í Dal úr Húnavatnsþíngi Hrólfssonar sýslumanns, ok Jóns Grímólfssonar, er hann hafdi bardan, ok var sýslumönnum Þorsteini ok Lárusi bodit at fullgjöra um málit. Þorsteinn Benediktsson sýslumadr hafdi ákært Skúla Olafsson á Seilu um hempu-rif, en Skúli vardi sig med því, at Þorsteinn hefdi leyst hár í skeggi sèr, sömdu þeir vel med sèr sídan; Skúli var fadir Bjarnar prests á Hjaltastödum. Sigurdr hèt madr Sigurdarson, hann ákærdi þá frændr Magnús Benediktsson ok Eggèrt, son Jóns Eggèrtssonar, fyrir hrakníngа á sèr, er hann hefdi verit staddr á Eyrarlandi, í för med Ara Þorkelssyni, ok var því vísad til hèrads. Eitt konúngsbrèf var um sektir á svívirdíngar-ritum móti konúngi, stjórn ok trúarbrögdum. Þá komu saman prestar þeir, er Þórdr biskup hafdi fyrr útnefnda, at taka

saman kyrkjulög, ok sendu þeir þau utan í dönsku ok íslenzku, en lögmönnum endist þat í nokkur missiri, því þat var verk miklu meira, ok lagdist nidr sídan.

## XII Kap. Frá Jóni biskupi.

Tvö komu enn konúngsbréf, annat til Mullers amtmanns, meistara Þórdar ok lögmanna, Sigurdar Bjarnarsonar ok Magnúsar Jónssonar, at þeir skyldu med hinum helztu prestum ok sýslumönnum prófa ítarlega ok dæma sídan ákærur þær ýmsar, er komnar voru fyrir konúnginn yfir Jóni biskupi Vigfússyni, bædi um hörd vidskipti vid alþýdu ok kaupskap vid útlendar þjódir móti konúngs bodum. Annat var til Heidemanns landfógèta, at hann skyldi vera sóknari sakar þeirrar; ridu þeir þá nordr amtmadr ok landfógèti, ok settu þíng í Vidvík hinn 18da dag ágústi, kölludu fjórdúngsþíng, til at taka nýa prófun í málinu, en meist. Jón biskup var þá allr á brottu. Hann hafdi ridit vestr, ok í Grundarfjörd, ok hèt þeim skipara, er þar var, at sjá hönum borgit fyrir allan skada, ef hann flytti sig; en lítid vard þá af ransókninni, er hans missti vid. Ekki fèkk Jón biskup farit, fyrr enn hann hèt skiparanum aleigu sinni, ef þess þyrfti, en fyrir þat hefdi þó sá skipari ákærum sætt seinna, nema hann hefdi dáit ádr. Medan þessu fór framm, haustadi eigi vel, ok gjördi fjúk um Krossmessu, þá fèkk Magnús Sigurdarson í Brædratúngu Þórdísar, dóttur Jóns biskups, en Björn Þorleifsson frá Odda Þrúdar, dóttur Þorsteins Þorleifssonar sýslumanns, var þat bod inni á Vídivöllum, ok meirr enn 200 bodsmenn. En degi fyrir Michaelsmessu druknadi Bjarni prestr Arngrímsson hins lærda, skamt frá Höskuldstödum í Laxá vid sjó nidr, kom at drukkinn mjög úr sókn sinni. Margt fólk dó þá í Skagafirdi, var þar med Skúli, son Illhuga Jónssonar Hólarádsmanns, ok Olafr Gunnlaugsson, umbodsmadr biskups á Hólum. Jón biskup kom til Kaupmannahafnar, ok fèkk áheyrslu enga, því þeir voru flestir frá, er hann höfdu ádr styrktan, en þeim er nokkurs voru rádandi, þóttu mál hans ófögr, ok vildu ei sinna þeim. Gekk þá út þat konúngsbod öndverdan vetr, at hann skyldi fara til Islands aptr med hinu fyrsta skipi, ok verja þar mál sitt fyrir þeim, er þat skyldu skoda ok dæma, en skjóta sídan þeim dómi fyrir hinn hærsta rètt konúngs, ef hann þættist vanhaldinn.

## XIII Kap. Tilburdir.

Þessi missiri var Ari prestr at Mælifelli, son Gudmundar í Flatatúngu en bródir Jóns prests í Stærra-Arskógi, prófastr í Skagafirdi. Þá tók Jón Þorkelsson Vídalín examen theologicum í Kaupmannahöfn, ok fèkk þann vitnisburd sem kallast haud illaudabilis, en Jón prófastr Halldórsson segir svo, at hann hafi þá þótt fágætr ok mikill. Hann vildi brjótast í því at komast til mannvirdíngar, því hann var stórhuga ok hvatr í sinni, en þat var hönum talit af undirofficèrum kunnmönnum hans, sem mörgum er, at hermannaþjónusta væri skjótastr vegr til virdíngar, ok þarmed hètu þeir at gefa sik skjótlega frá því standi, ok fengi hann þá þeirra sæti, ok framadist æ meir, þó hann væri slèttr lidsmadr eda undirgefinn málamadr í fyrstu; gekk hann fyrir þá skuld í soldats þjónkan, ok hafdi ekki af nema ánaud, en módir hans ok frændr skapraun, þvíat heitin urdu ei efnd, ok stód þat svo um hríd. Þann vetr eptir gjördi þúngan, ok hófst med Magnúsmessu, en hèlzt til Pèt-
1690 ursmessu, voru þá fjúk ok frost, kröp ok jardbönn, ok lá svo mikil neyd á mönnum, at frábært var, því margir höfdu fellt ok skorit peníng sinn í sèrhverju hèradi; þarmed fiskleysi vídast, öllu meir enn hid fyrra árit; fèllu þá á Hólum í megurd hálft annat hundrad geldínga ok 100 ásaudar, ok þó mjög sakir illrar geymslu. Gekk yfir sótt mikil ok þúng, ok lágu menn ei lengi, hún jókst bædi vid sjó ok í sveitum, ok gjördi mikinn mannskada, hrundu menn nidr, ok urdu margir hjónaskilnadir, en þat fólk dó allt at auki, sem snaudt var ok vesöld þrengdi mest at. Þann vetr dó Jón Eggèrtsson í Svíþjód, ok var kista hans flutt út híngad. Þá gjördi á Pálsmessuaptan stormhríd mikla á landsunnan, frostlausa ok fjúklausa, svo menn mundu ei adra jafnharda; lamdist í henni til bana Arngrímr Eilífsson í Kalmanstúngu, úngr madr skólagenginn, ókvæntr ok audugr, en Olaf bónda Pètrsson á Þorvaldsstödum hrakti í fljótit þar hjá ok druknadi, bóndinn á Hallkelstödum komst heim ómála ok máttdreginn mjög, hafdi hann skridit lengi. Þá lamdi börk af skógartrjám vída.

## XIV Kap. Mannalát.

Nú var prentad allmargt í Skálholti; eitt var Húss- ok Reisupostilla, annat Píslarsálmar Hallgríms prests Pètrssonar, þridja

Hugvekjusálmar Sigurdar prests í Presthólum, einnin Krosskvedjur Arngríms prófasts, Píslarsálmar Jóns prests í Laufási, Pistlapostilla, ok Ydrunarsálmar Jóns prests þorsteinssonar, ok Missiraskipta-offr Sigurdar prests. Mörg urdu þá tjón í landi hèr. Madr skar sig á Skardströnd til bana, bær brotnadi á Austfjördum af reidarslagi, ok skip týndist vid Höskuldsey vestr med 6 mönnum, en annad med fjórum í Eyrarsveit; tvö skip týndust í Flatey, ok tveggja manna far á Seltjárnarnesi. Sexæríngr ok 5 manna fár hröktust úr Gardi sudr, týndist annat í landtöku vid Hellisvelli undir jökli, en til annars vissu menn ei fyrr enn þat fannst í sjó á hvolfi; þau skip voru köllud Brædr, því sá madr er þórdr hèt Gudmundarson smídadi þau bædi eitt haust, átti annat þorleifr Sumarlidason, en hitt Sigurdr bródir hans. Bátr týndist med tveimr mönnum í Hraunum sudr. þá tók skrida hjáleigu hjá Silfrastödum, ok börn þrjú, en kona komt undan lerkud med eitt. þessi míssiri öndudust þeir Sigurdr prófastr Sigurdarson á Stadarstad, ok þorleifr prófastr Jónsson í Odda, fadir Bjarnar prófasts, Gudbrandr prófastr í Vatnsfirdi Jónsson, Arasonar, hans dóttir var Helga, er átti Jón, son Hákonar Arnasonar á Vatnshorni; Einar prófastr Einarsson í Gördum; Jón prófastr Eyríksson í Bjarnanesi, þorsteinn prófastr Gunnarsson í Skálholti óvin Jóns biskups, ok þorlákr prófastr Halldórsson á Audkúlu; ok prestar þessir adrir Eyríkr Olafsson í Kyrkjubæ, bródir Steffáns prófasts í Vallanesi, Einar Olafsson á Mosfelli, þórdr Bárdarsson á Torfastödum; ok ætla eg at þetta yrdi í sótt þeirri er yfirgekk; ok enn Björn prestr á Miklabæ í Skagafirdi Skúlason prests í Goddölum, Magnússonar. Björn prestr Halldórsson á Audkúlu dó med hinum seinni, ok sumir af þessum ekki fyrr enn seint á ári, en eru því allir taldir saman, at vèr fáum ekki deilt þá eptir tíma. þá dó ok Páll, son Páls Gudbrandssonar biskups, ok þóra Torfadóttir, kona Einars prófasts í Gördum af Barnburdi.

## XV Kap. Frá þíngi ok ödru.

Vor var gott ok sumar grösugt, þó þat kæmi þá ekki fyrir mikit; lèt þorsteinn Benediktsson af Húnavatnssýslu hinn 21ta dag júníí mánadar; ok voru gefin út konúngsbrèf um námsdóma ok um hengíngu stórgripa-þjófa, ok refsíng ótrúrra þènara. Lögrèttumenn

komu á þing: Pètr, son Asmundar Jónssonar, á Ormarsstödum úr Múlaþíngi; Sigurdr, son Einars þorsteinssonar á þykkvabæ, Gudmundr þórdarson prests frá Kálfafelli, Gudmundarsonar, dótturson Páls prests Erasmussonar; Jón Eyríksson ok Eyríkr stóri Bjarnason á Búlandi, Eyrikssonar, úr Skaptafellsþíngi; Pál Sigurdarson, Oddr Magnússon, Arnór Eyólfsson, Sigurdr Magnússon, Jón Magnússon, Magnús Kortsson í Abæ, Olafr Arnason úr Rángárþíngi; þorsteinn Jónsson, Bjarni Arnason, Sigurdr Gudnason, Brynjólfr Hannesson, Halldór Einarsson, Bjarni Kolbeinsson úr Arnessþíngi; ok Illhugi Vigfússon var nefndr í stad Bergs Benediktssonar, en þorstein Eyólfsson í stad Arna, er lengi hafdi verit, Pálssonar prests í Klaustrhólum, Jónssonar prests í Hrepphólum, er annálinn skrádi, Egilssonar, var Arni fadir Páls prests í Klaustrhólum. Vilhjálmr Jónsson, Gísli Illhugason, Rúnólfr þórdarson, Jón Olafsson, Jón Pètrsson, þorlákr Arvidarson, Vigfús Gudmundarson, Sigurdr Högnason úr Kjalarnessþíngi. Sæmundr Arnason á Hólmi, Jón þórdarson, Sigurdr Magnússon úr þverárþíngi sunnan Hvítá; Arni Hannesson, Sigurdr Jónsson, ok Gudmundr á Alptanesi Sigurdarson lögmanns, Jónssonar, úr Mýrasýslu; Sigurdr Pálmason, Henrikssonar, Olafr Gudmundarson Arnbjarnarsonar, úr þórnessþíngi; Hákon á Vatnshorni Arnason, Gudmundarsonar, Arni á Heydalsá Vigfússon prests, Helgasonar, Tómas Jónsson ok þórdr Jónsson, er nefndr var í stad Einars á Rekstödum Gunnlaugssonar prests, Snorrasonar, vestan at. Halldór Jónsson, Björn Hrólfsson í Dal, Egill Einarsson prests, Sturlusonar, Grímr Jónsson, ok Hákon, son Jóns Eggèrtssonar á Hofstödum, er nefndr var þá, úr Húnavatnsþíngi; Olafr Magnússon, Jón Bjarnason, Jón þorsteinsson, fadir Olafs bryta, úr Skagafirdi; Halldór þorbergsson, Hrólfssonar, Sigurdr Jónsson á Skídastödum, ok Skúli Olafsson á Seilu, Björn, son Halls Bjarnasonar, Gudmundr Gudmundarson, Illhugi, son Gríms í Miklagardi Sigurdarsonar, Hrólfssonar úr Eyafirdi; Jón Sigurdarson, Sigurdr Jónsson ok Einar úr þíngeyarþíngi. Meigu menn á vorum dögum rekja ættir til mjög margra þessara, ok margir eru þeir kunnir at því, at þeir voru miklir af sèr. Sýslumenn komu: Jón þorláksson, Bessi Gudmundarson, Páll Marteinsson úr Múlaþíngi; Bjarni Eyríksson á Bulandi úr Skaptafellssýslu; Hákon Hannesson úr Rángárþíngi lögsagnari; Hans Vilhjálmsson úr Arnessþíngi, Einar Eyólfsson lögsagnari hans; Jón

Eyólfsson úr Gullbríngusýslu, Jón Sigurdarson frá Einarsnesi á Mýrum, Magnús Hrómundarson úr Hnappadal, Andrès Andrèsson úr Dölum; Torfi Jónsson af Bardaströnd, Magnús þórdarson, hann var þar um lítinn tíma; Páll Torfason úr Isafirdi, Rögnvaldr Sigmundsson af Ströndum, Lárits Gottrûp ok þorsteinn Benediktsson at nordan. þessir komu ei: Marteinn Rögnvaldsson, Isleifr Einarsson, þorsteinssonar, Gísli Magnússon at Hlídarenda, þorsteinn þorleifsson á Vídivöllum, Björn Magnússon úr Eyafirdi, Arngrímr Hrólfsson úr þíngeyarþíngi, Sigurdr lögsagnari úr Dölum, son Páls Gíslasonar landskrifara, þó komu þeir einhverir seinna. þar kom fyrst fyrir galdramál þess manns, er Klemens Bjarnason hèt, úr Strandasýslu, prófadist um hann vond hjátrúar kynníng, heitíngar, tóuvers ok fleira, ok var hann dæmdr til dauda, en Heidemann skaut því at amtmanni, at hann lèti slíkt undandraga til konúngs álita, ok var þá Rögnvaldi Sigmundarsyni sýslumanni bodit at geyma Klemens til annars árs, ok þat gjördi hann. þar var afrádit at byggja úr lögrèttunni almennilegt þínghús, ok hèt Heidemann at leggja vidinn til, en sýslumadr hvörr skyldi leggja 10 álnir vadmáls. Eyríki Gíslasyni úr Gullbríngusýslu voru dæmdar tvær hýdíngar fyrir stuld. þar kom ok tindalamálit úr Eyafirdi, ok var Magnúsi Hallssyni, Bjarnarsonar, er grunadr var, dæmdr lýrittareidr hinn meiri, ok Birni sýslumanni bodit at halda því til laga. Dæmt var þar um sekt Bjarna Vilhjálmssonar, er tælt hafdi ok barnat dóttur Eyríks Jónssonar á Núpi í Midfirdi; Eyríkr var son Jóns Eyríkssonar, Egilssonar frá Skardi, Jónssonar, en Bjarni var son Vilhjálms Arnfinnssonar sýslumanns, ok fèkk sídan stúlku þessarar, hún hèt Elín. Atti Eyríkr á Núpi börn mjög mörg, var eitt Jón, fadir þeirra Jóns, fódur Arngríms lögsagnara, ok Gudmundar á Fródá. þar kom ákæra Jóns Sigurdarsonar úr þíngeyarþíngi yfir Arngrími sýslumanni Hrólfssyni, at hann gjördi sèr ei rètt vid Pètr Bjarnason í Tjaldanesi, er hèldi mörgum jördum fyrir sèr med ofríki, Hálsi í Kinn, þverá í Fnjóskadal, Ljótstödum, ok miklu í Vídivöllum; var Arngrími bodit at sækja málit. Einnin um illyrdi Jóns Gudmundarsonar úr Arnarfjardardölum til Halldórs prests Pálssonar í Selárdal, ok margt annat. Kvörtun var mikil um hardindi, ok kölludu menn í þíngsvitninu slík eigi verit hafa um hundrad vetr; en talat var um strídshjálpar skuldina, ok at sýslumenn gyldi hana þá þegar,

ok sæki aptr sýslubúa sína, en svari henni ella med allri rentu ok renturentu. Lesnir voru vitnisburdir Páls prófasts í Selárdal ok landfógètans, ok testamentisbrèf Þórdar biskups Þorlákssonar, gaf hann Maríukyrkju at Hólum í Hjaltadal jördina ytra Vallholt í Hólmi 40 hundrud at dýrleika med 6 kúgildum, svo at hún sè Kristsfè æfinlega hèdan í frá, med þeim skilmála at fátækar ekkjur ok börn födurlaus njóti af, en Hóla biskup hafi umsjón; þarnæst um fasteignarskipti eptir hann med sonum hans Þorláki ok Brynjúlfi. I þridja lagi um prentverkit, er hann kallar sig innkeypt hafa af samörfum sínum, ok segir börn sín eignast skuli; ok svo gjördi hann rád fyrir lausafè sínu. I fjórda lagi gaf hann fátækum í Sunnlendíngafjórdúngi 10 hundrud eptir, en 5 hundrud í Vestfirdínga, ok 5 hundrud í Austfirdínga fjórdúngum. Tók hönum þá mjög at þverra heilsa. Enn var þar lesit upp brèf Solveigar Magnúsdóttur lögmanns, er átt hafdi Þorkell, son Gudmundar Hákonarsonar, afheimiladi hún Ingibjörgu dóttur sinni arf allan eptir sig fyrir brot hennar, ok þat er hún hafdi móti frænda rádi ok med vèlum, gengit at eiga Magnús Benediktsson. A því þíngi sættust þeir Ari Þorkelsson ok Magnús.

## XVI Kap. Atburdr.

Sá atburdr vard á Höfdaströnd á þeim bæ er heitir at Hugljótsstödum, at þar bjó sá madr er Gísli hèt; kona hans gekk til fjár eitt kvöld, ok vard á vegi fyrir henni gridúngr af ödrum bæ, rèdst á hana ok lagdi undir, ok gekk af henni daudri; en er Gísli vissi þat, heimti hann bætr af þeim manni, er nautit átti; hann lèzt ei mundi gjalda annat fyrir enn gridúnginn, kvad hann hafa fyrirgjört sjálfum sèr ok ei meiru; þat lèt Gísli sèr líka, tók bola ok skar hann, ok át einætum, ok þóttist hafa vel veidt, var hann sídan kalladr ýmist Bola-Gísli eda Gísli boli.

## XVII Kap. Mál ok fráfall Jóns biskups.

Nú verdr at geta þess er fyrir þíng skedi þó sumt: Jón biskup Vigfússon hafdi komit út snemma um vorit sudr í Hólmi, ok þann dag lèt Heidemann landfógèti kunngjöra þar vid votta, at hann hefdi um vorit nordr á Hólum látit lesa at hans heimili stefnu til

hans at mæta á alþíngi, ok svara fyrir mál sín. Biskup hafdi þá ridit nordr þegar, ok búit sig til alþíngisfarar, en Kristján Muller amtmadr lèt kyrrsetja inntekt Hólastadar, ádr nokkur dómr gengi. Voru fyrir þá sök hardlega stefndir til alþíngs þessa allir hinir nálægustu prófastar ok skynsömustu prestar úr Skálholts biskupsdæmi, einnin sýslumenn, ok hafdar vid heitíngar miklar, ef eigi kæmi; tók þá heldr vitra menn at bjóda vid kappi því, er lagit var á mál þessi, þó þau sýndist eigi gott at verja, því konúngr lagdi þá embættistjón ok búslódar, ok Brimarahólms þrælkan vid kaupskap vid ófrjálsa kaupmenn, hugdu því at sneyda sig hjá því er þeir máttu, ok þó ei af óhlýdni vid konúnginn, ok eigi fyrir vináttu sakir vid Jón biskup, heldr hinu, at sumir ugdu hönum mundi bágt veita med afbatanir þó sannar væri, fyrir óvinsælda sakir; fengu þeir þó sídst undanskorazt sem skemst áttu til alþíngs, en sóttin var þá svo mikil ok skæd, sú er fyrr getr, helzt um Borgarfjörd ok Vestrsveitir, at margir töldu sèr fyrir fulla hindrun. En hinn seinasta dag júníí mánadar andadist Jón biskup heima á Hólum, þrem vetrum midr enn fimtugr, var hann fyrrum sýslumadr í 6 ár, en biskupsefni eda med-biskup í 10 vetr, ok bjó at Leirá, einn saman biskup í 6 ár, ok hafdi þá meiri armædu enn sæld. Vissu ei þetta þíngmenn, þá þeir nefndu dóm í málinu hinn 7da dag júlíí, 12 prestar ok 12 sýslumenn; Einar prófastr Einarsson, Þorsteinn prófastr Gunnarsson, Jón prófastr Eyríksson, er allir dóu litlu sídar, sem fyrr er getit; Oddr prestr Eyólfsson frá Holti, Björn prestr Þorleifsson frá Odda, Hannes prestr Bjarnarson frá Saurbæ vid Hvalfjörd, Arni prestr Þorvardsson á Þíngvelli, Brynjólfr prestr son Jóns prests gamla í Hvammi Olafssonar frá Svarfhóli, Frans prestr Ibsson í Hruna, hann var danskt barn fátækt ok födurlaust, er Þórdr biskup var vígdr, ok hafdi hann tekit hann ok mannad, Sigurdr prestr Eyólfsson, ok Benedikt prestr Pètrsson á Hesti, Steinn prestr Jónsson prests á Hjaltabakka, Þorgeirssonar af Skaga, Steinssonar, hann hafdi verit í þjónustu hjá Solveigu, dóttur Magnúsar lögmanns, ok Gudmundi Þorkelssyni, syni hennar í Hólum í Eyafirdi, ok framazt sídan utanlands, ok var nú kapellán at Hítardal, med hönum hafdi verit samtídis í Kaupmannahöfn Páll, son Jóns Þorlákssonar í Vídidalstúngu, er kalladr var Vídalín. Þessir voru sýslumenn í dóminum: Jón Þorláksson biskups úr Múlaþíngi, Jón Sigurdarson í Ein-

arsnesi, Hans Vilhjálmsson Londemann, Jón Eyólfsson, Andrès Andrèsson at vestan; Þorsteinn Benediktsson, Bessi Gudmundarson úr Múlasýslu; Hákon Hannesson lögsagnari úr Rángárþíngi, hann hafdi vonarbrèf um sýsluna eptir Gísla Magnússon at Hlídarenda; Gísli hafdi verit hinn mesti höfdíngi, ok manna örfastr at fè, hann var þá í Skálholti med Þórdi biskupi dóttursmanni sínum; Magnús Hrómundarson úr Hnappadalssýslu; Páll Marteinsson, Rögnvaldssonar, ok Olafr Einarsson úr Skaptafèllsþíngi, bródir Isleifs; ok er fyrirkallit var svarit, ok dæmt löglegt, ok taka skyldi til varna, bar þat framm Egill Sigfússon, skólameistari at Hólum, at Jón biskup hefdi fullkomlega ásett sèr at koma sjálfr, ok þínglest hans verit á leid kominn, en þá hefdi hann tekit hasta sótt ok strída, ok andazt um morguninn hinn 30ta júníí mánadar heima á Hólum; var nú engin svaramadr af biskups hendi, ok engin brèf eda skjöl þar komin, ei heldr þóttust valdamenn fá sett hönum ok börnum hans úngum ok ómyndugum nokkurn talsmann á svo naumum tíma, kvádu dómsmenn svo at, at þeir vissi ekki hverjar málsbætr til kynni vera, sem naudsynlega ætti at yfirvegast, ádr enn dóms ályktun væri lögd á svo vandasamt mál. Vildu þá nokkrir dómendr eigi fara lengra framm, ok setja út málit, en þat fèkkst ei fyrir kappi sækjandans, ok þeirra, er hönum fylgdu. Vard þá slíkr dómr afsagdr, at sökum þess at þeir þóttust klárlega ok útþrykkilega finna, þat Jón biskup hafi í sínu biskuplegu embætti stórum brotit ámóti útþrykkilegum tilskipunum ok landsrètti, en greindu þó ekkèrt þvílíkt brot berlega, þá dæmdu þeir 10 hundrud ríkisdali í sektir til konúngsins af hans fè, 50 dali til fátækra prestaekkna í Hóla biskupsdæmi, ok adra 50 til fátækra í Skagafirdi, enn 600 dali til Kristófors Heidemanns landfógeta, ok skyldi allt goldit fyrir næsta alþíng amtmanni Kristjáni Muller í hönd; en af því þeir þóttust ekki kunna at dæma um þat, hvört Jón biskup hefdi forbrotit sitt biskuplegt embætti í hans lifanda lífi, þá settu þeir til konúngs nádar, hvört ekkja hans ok börn mætti ei njóta nádarárs frelsis. Engínn trad sèr þá til biskupsdóma á Hólum, ok enginn var tilkosinn, eda tekinn til af amtmanni, ok var þat eigi vel virdt sídar af konúngi, en þannin stód nú at sinni; enginn var skipadr officíalis, ok dróg amtmadr nokkur nordan mál fyrir Skálholts biskup. Jón biskup hafdi útvegad Þórdi syni sínum 16 vetra gömlum vonarbrèf fyrir Hítardal eptir Sæmund

prófast, en Olafr prófastr Jónsson hafdi notit þess fyrri enn hann vardi, því hann var hinn lærdasti madr; hafdi hann skjótt dáit aptr, sem ádr er sagt, en Þórdr var utanlands er hèr var komit, ok þá enn úngr. Hafdi nú hvörr prófastr fyrir nordan andleg forrád í sinni sýslu, en Ari prófastr á Mælifelli sá um skólann. Fór Heidemann þat haust utan at konúngsbodi med reiknínga sína. Jón biskup hafdi verit hinn mesti fyrirhyggjumadr, umsýslumadr ok búsæll, ok at mörgu vel á sig kominn; hann átti Gudrídi, dóttur Þórdar prests í Hítardal ok Helgu Arnadóttur lögmanns Oddssonar, hún var nokkut smávaxin, góð kona, ok at öllu merkileg, börn þeirra voru Þórdr, Gísli, Magnús ok Vigfús, Jón ok tvær Sigrídar, Þórdís ok Helga, ok verdr þeirra allra vidgetit sídan, þvíat Jón biskup var hinn kynsælasti.

## XVIII. Kap. Frá ýmsu.

Vetrinn eptir andlát Jóns biskups Vigfússonar ok margra annara 1691
merkilegra manna, er getit er, var gódr mjög. Þá var mjög daprlegt fyrir kennidóminum í Nordrlandi, ok eigi sídst á Hólum, biskupslaust ok enginn officialis, en meistari Þórdr biskup í Skálholti lá veikr. Prentadr var í Skálholti grallari. Þá týndist skip í Rifi med 7 mönnum, annat á Seltjarnarnesi med fjórum, en vídar druknudu einstakir menn, eda urdu úti. Eyríkr Gíslason var hengdr undir Snæfellsjökli fyrir stuld. Hlutir voru þá í medallagi sydra, en nær engir austan Þjórsá, ok var skortr eystra. Þórdr, son Jóns biskups, var þá í Kaupmannahöfn ok spurdi dóm þann, er dæmdr hafdi verit um födur hans; fèkk hann þá med styrk ok rádum vina sinna gódra, þó hann væri úngr, nád hærsta rèttar stefnu, ok kom út med, ok stefndi þeim dómsmönnum utan öllum, ok Kristófor Heidemanni landfógèta, ok svo mönnum fyrir nordan, er vitnad höfdu um kaup Jóns biskup vid Hollenzka. Konúngsbrèf komu ýmisleg: um at dómarar stytti mál, ok forbod lögkróka; um Biblíu prentun; prjónsless ok vadmálagjörd; hengifisk; Visítazíur biskupa ok prófasta; veitíngarbrèf inntekta af landi fyrir afgift, til Heidemanns; um ákærur yfir Niels Jakobssyni, kaupmanni í Hofsós; uppgjöf á lífláti Ara Jónssonar af Vestfjördum fyrir hórdóm í 4da sinn, hann skyldi fara utlægr, ok á sama hátt Klemens Bjarnason galdramadr, þat hafdi hverugt fyrri ordit;

leidibrèf þórdar Jónssonar, ok veitíngarbrèf Magnúsar þórdarsonar fyrir hálfri Bardastrandarsýslu; embættisbrèf Sörens Mattíassonar fyrir landskrifaradæmi, þat kom þó ei út þau missiri. Sum voru um kauphöndlunar vörur; eitt var veitíngarbrèf Jóns eldra, sonar Halldórs prófasts í Reykholti fyrir Hítardal, hygg eg þat þó eigi þá hafa útkomit. þórdr biskup ok hans börn skyldu hafa tillag af kyrkjum fyrir Biblíu prentun. Víkíngar komu í Nordfjörd í Múlasýslu, ok rændu nokkru fè, ok tóku duggur enskar, er þar lágu. Gudmundr Sigurdarson gjördist lögsagnarmadr í Kjós. þá druknadi Jochum Jochumsson yngri í Lagarfljóti. Jón þorkelsson Vídalín var nú leystr úr strídsmannastètt af Heidemanni landfogèta med 30 dölum eda 24 fyrir innilega bón módur hans, ok kom hann út med landfógètanum fátæklega til fara. Á því sumri var fyrst lögrèttan tjöldud yfir med vadmálum at forlagi Heidemanns, en hann lagdi vid til grindar med tillögum sýslumanna, var hún þá mjög mikil ummáls, því at hvert ár voru nefndar í dóm þrennar tylftir lögrèttumanna, en til þess er hèr var komit, var þíngat undir berum himni. Gissuri Brandssyni voru þar dæmdar tvær hýdíngar miklar, ok at slá sig vid hverja þrisvar á munninn, fyrir ógudleg ord. Sigurdr Hannesson þóttist hafa fundis galdrakver á Skutulsfjardareyri, var þat frammlagt, ok hönum dæmdr eidr fyrir, tylftareidr. Snorra Jónssyni, er fyrr var prestr á Eyri, ok missti fyrir barngetnad, var dæmt at gjalda skatt. þar lagdi þórarinn klaustrhaldari á Mödruvöllum, son Vigfúsar Fridrikssonar, framm vitnisburdi sína, ok þar dæmdist Pètri Bjarnasyni hald á jördum þeim, er Jón Sigurdarson kærdi til. Birni Magnússyni var bodit at halda eidvættum til lýrittareids hins meira, til at sanna hyggju sína um tindali þá, er eignadir voru Magnúsi Hallssyni, ok þótti Björn þat vanrækt hafa. Margt fór þar annad framm. Ekki var þá þórdr biskup þíngfær, ok stód Björn prestr þorleifsson í Odda, er nýlega var ordinn prófastr, fyrir biskups verkum á þíngi.

## XIX Kap. Kosinn biskup.

Nú var alvarlega bodit, at amtmadr skyldi med biskups rádi nefna til nokkra prófasta ok presta, er bezt þætti tilfallnir biskupsdóms á Hólum, ok senda utan. Nefndi þá þórdr biskup til ættmenn sína suma ok tengdamenn, ok fyrst Pál prófast Bjarnarson í Selár-

dal, þarnæst Skúla prófast Þorláksson á Grenjadarstad, bródur sinn, Sigurd prófast Jónsson úr Vatnsfirdi, Arasonar at Holti í Önundarfirdi, bródur húsfrúr Ragnheidar mágkonu sinnar, ok Björn prófast Þorleifsson í Odda, er í mægdir var kominn vid hann; kvad ok einnin til meiga nefna Einar prest í Múla Þorsteinsson, Tyrfíngssonar, ok Odd prest Eyólfsson eldra í Holti undir Eyafjöllum. Páll prófastr í Selárdal var lærdastr haldinn í hebresku ok grisku máli, gáfumadr mikill í andlegum hlutum, ör ok gladlyndr, ok þótti mörgum bezt tilfallinn, en hann skaut vid elli sinni ok ödru fleiru. Prófastarnir Skúli og Sigurdr gáfust ei til heldr, ok þat vard af, at engir rèdust til utanfarar, nema Björn prófastr Þorleifsson, þótt hann væri úngr, ok líttreyndr at lærdómi ok ödru, því hann var frammgjarn ok audugr, ok hafdi frændafla mikinn, ok annar Einar prestr Þorsteinsson, hann var roskinn ok reyndr at forsjá, ok virdr vel af amtmanni ok landfógèta, vildu þeir hann gæfi sig vid; fóru þeir utan seinna, en engir á því sumri þeirra manna, er Þórdr Jónsson hafdi utan stefnt. Arni prestr Þorvardsson gjördist þá prófastr í Arnessþíngi, en Olafr Einarsson, bródir Ísleifs, sýslumadr í vestri Skaptafellssýslu.

## XX Kap. Hèr hefr stokksmál.

Gód var vinátta med amtmanni Muller ok Þórdi biskupi í fyrstu, ok á medan Heidemann var í rádum med amtmanni, en spiltist sídan, er adrir komu til, þeir er vildu draga sig framm; bar ok þat nokkud til jafnframt, er slíkt leiddi af. Þat hafdi ordit um sumarit, at bóndi á Raudkollstödum í Eyahrepp fann bikadan trèstokk í flædarmáli hjá Skógarnesi, ok afhendi Magnúsi sýslumanni Hrómundssyni á Krossholtsþíngi edr hinn 5ta júníí. Var hann sídan opnadr, ok fundust í nokkrir smásteinar, ok eitt brèf, lukt ok þrílakkad, til drottníngarinnar í Danmörku, Skarlottu Amalíu, þat afhendi sýslumadr landfógètanum á alþingi, ok kom þeim þat saman amtmanninum og lögmönnum, at opna þat sakir trúleiks ok hollustu vid konúngdóminn, ef nokkut kynni í at finnast, sem hèr í landi þyrfti eptir at spyrja, braut amtmadrinn hid fyrsta innsigli, landfógètinn annad, en hid þridja lögmenn bádir; var þat þá sûpplíkazía til drottníngarinnar á þýzka túngu um Hítardals prestakall, því þat var þá enn eigi svo veitt at menn vissi

hèr, en undirskrift var at Hítarnesi hinn 12ta dag júníí, 8 dögum seinna enn stokkrinn hafdi fundizt, ok Jón Jónsson Mppria. Jón sá var þar þá prestr, son Jóns prests Brandssonar, Jónssonar prentara, Jónssonar prests hins svenska, Mattíassonar. Þessi þótti mönnum undarleg medferd, ok ósæmileg vid drottnínguna, ok var þat rádit af, at Magnús lögmadr tók vid brèfinu til heimuglegrar rannsóknar vid Jón prest. Vildi hann þá hverki neita því nè játa á sig, en gódir menn höfdu þó lagt til hid bezta, vid valdamenn, at hann mætti hæglega komast af, svo ei væri mjög tillagt; en þat vannst ekki, því prestr var óvitr ok einrádr, ok þeir eri miklu aflátssamari, er hlut þóttust eiga í móti hönum, ok stód svo um hríd. Sumar var þá vott ok heyskapr íllr, helzt eystra, en betri nordanlands. Þá tók meistari Þórdr biskup Jón Vídalín Þorkelsson um haustit í Skálholt á kost ok veru, af medaumkun einni saman, ok fyrir bón frænda hans. Þá rak höfrúnga á Alptanesi, ok voru sumir reknir á land, hundrad ok 30 saman.

## XXI Kap. Einar biskup vígdr, hardindi.

Einar prestr Þorsteinsson fór utan um haustit med Húsavíkr skipi hinn 4da dag septembris mánadar, hann var 30 daga í sæ til þess er hann kom til Kaupmannahafnar. Þar fèkk hann konúngsbrèf
1692 fyrir biskupsdæmi at Hólum hinn 30ta dag janúaríí, ok var vígdr til biskups af Doktor Jóhanni Bager, Sjálands biskupi, á passíons sunnudag, er var hinn 12ti dagr marzí, ok Björn Þorleifsson med hönum til Více-biskups, hann fèkk meistara nafnbót, sem þá var tídt, ok skyldi ekki hafa til launa, medan Einar biskup lifdi, hèldt hann sig ríkmannlega. Einar biskup þág ekki nafnbótina, ok hèldt sig sparlega. Sá vetr var gódr til Kyndilmessu, en sídan gjördi frost med spillíngarblotum, hèlufalli miklu ok sjúki, ok gnístandi frostum, lagdi firdi ok víkr allar, svo ridit vard af framanverdri Skardsströnd á Skógarströnd, en Hvalfjörd lagdi allt at Hvaleyri, ok eigi var skipfært milli Saurbæar á Kjalarnesi ok Innrahólms á Akranesi. Rída mátti ok til Drángeyar á Skagafirdi, ok hvalr fannst á midjum Húnaflóa hálfa þíngmannaleid frá landi, ok mátti flytja á hestum á land; farit var med klyfjahest af Siglunesi innum firdi ok á sjó, allt inn til Mödruvalla. Var á páskum nær enginn fiskr fenginn sydra; þá kól marga menn til dauds

í ýmsum stödum, en hross ok saudir frusu vída til bana, ok álptir lágu daudar vid sjóarvíkr; fengu margir menn tjón af fellir á fjám ok færleikum í Borgarfirdi, en stórhardindi ok peníngafall fyrir austan ok nordan, ok fiskleysi, fèll margt fólk í hardrètti eystra. Batnadi í 5tu sumarviku. Um vorit hrakti skip af Vatnsleysuströnd, ok voru þeir menn úti 6 dægr, ok nádu Skaga á Akranesi, dóu tveir af vosi, en fjórir lifdu mjög þrekadir. Þat vor kom út Einar biskup Þorsteinsson, ok fór til Hóla, tóku þeir út stadinn til handa hönum í fardögum, Lárits Gottrûp ok Þorsteinn Benediktsson, Páll Jónsson prófastr í Húnavatnsþíngi, Ari Gudmundarson prófastr í Skagafirdi, ok 6 lögrèttumenn, var gjört álag 3 hundrud ok 50 álnir á kyrkjuna; hèldt Einar biskup hina fyrstu prestastefnu at Flugumýri hinn 21ta júníí, ok vígdi sídan Gísla eldra son sinn til Múla, ok Olaf djákn at Múnkaþverá, son Gudmundar á Siglunesi, ok dótturson Asgríms skálds at Höfda til kapelláns Bjarna presti Hallssyni. Meistari Björn kom ok út, ok hèldt Oddastad sem ádr, ok lèt hann Bjarna prest Hallgrímsson frá Glaumbæ nordan þjóna þar kauplaust, hann reid um sumarit nordr til Hóla at sjá stadinn, ok sídan aptr til Odda.

## XXII Kap. Frá ýmsu.

Þessi missiri voru prentadir í Skálholti þánkar Hallgríms prests Pètrssonar kvöld ok morgna med bænum, Rím Þórdar biskups, ok annat med rímreglum ok gudspjallavísum, ok enn fleiri smáfrædi ok bænabók Oleariíí. Þat hafdi ordit ádr enn biskupar komu út, at Jón, son Þorvalds prests Jónssonar, nordan frá Presthólum fèkk Miklabæar stad af Kristjáni Müller amtmanni, reid hann frá Bessastödum ok í Skálholt, ok tók vígslu af meistara Þórdi, þadan fór hann til Hamarsholts í Ytrahrepp, ok lagdi þadan upp árla sunnudags nordr á fjall med fjóra hesta alda, ok nádi háttum at Vídivöllum þat kvöld. Þá fèll sandr yfir Asbjarnarnes í Vestrhópi þar Bárdr Gudmundarson bjó fyrrum, ok tók bæinn allan ok túnit; þann sand allan dreif úr Þíngeyrasandi í nordanvedri, en á tánga af jördunni var sídan settr annar bær ok kalladr Gottrûp, þar vard 10 hundrada leiga. Konúngsbrèf voru þá gefin út; eitt Bjarna presti Hallgrímssyni fyrir Oddastad, þó Björn biskup hèldi hann, annad Magnúsi syni Magnúsar prests frá Hvammi í Dölum í

Hvammssveit, Jónssonar, Ormssonar, fyrir Hvammi, hann var bródir þeirra Arna ok Jóns. Eitt vonarbrèf Þorvaldi presti Steffánssyni frá Vallanesi fyrir Hofi í Vopnafirdi; ok annad Hannesi presti Halldórssyni frá Reykholti fyrir þeim stad eptir födur sinn, en Jón prestr bródir hans tók nú vid Hítardal, ok gjördist sídan merkilegr madr; eitt Þorfinni, syni Þórdar prests Sigfússonar á Myrká, bródur Jóns prests, fyrir Felli í Slèttuhlíd, þeir brædr Jón prestr ok Þorfinnr voru spakir menn, gildlegir fyrir sèr. Eitt Hjalta presti Þorsteinssyni frá Saurbæ, Gunnlaugssonar, fyrir Stafholti; ok vonarbrèf Jóni, syni Arna prests Loptssonar, fyrir Stad í Steingrímsfirdi; uppreisnarbrèf tvö, ok eitt um ófríhöndlara í Strandasýslu; eitt um kyrkna inventaríum óbrúkanlegt, ok eitt um málslok Jóns biskups Vigfússonar. Þat þóttu þá mikil nýnæmi at kosníngar presta voru nidrfallnar, en sókt til konúngs um flesta stadi. Var þat af skiptum þeim, er ordin voru á stjórn, at slíkt gekk sem mátti, en þar komst á regla seinna, ok ei var þá fleirum landsreglum breytt löggjafarlaust at sinni. Þat vard um Bjarna prest Hallsson á Grund, er þá var áttrædr, ok hafdi verit kalladr klerkr mikill, lögfródr ok mikilsháttar, at hann skírdi barn, er hann átti sjálfr frammhjá konu sinni, ok fleygdi hempunni at því loknu, ok mælti: þú hefir lengi þjád mig; gekk sídan í próventu med Magnúsi at Espihóli, syni Bjarnar Pálssonar, ok lifdi þar 4 ár sídan. Madr var myrdtr í Vestmannaeyum, Gísli Pètrsson prests, Gissurarsonar, Gamlasonar, Hallgrímssonar; annar fátækr madr austr í Hreppum veikr í fæti, lèt taka sèr blód, ok komu út ormar, bad hann þá afhöggva fótinn, en þat vildi enginn gjöra, þá fèkk hann sèr öxi, ok dróg sig í einhýsi, fannst hann þar daudr, ok höggvinn, hann hèt Gottskálk Arnason. Fleiri urdu slisfarir. Þat var eitt, at á bæ þeim, er Gröf heitir, austr í hèradi í Eyda þínghá, fundust heimilismenn allir 5 saman daudir, ok hjá þeim silúngr á diski, var sagt þar væri óætr silúngr í sumum vötnum, ok á hönum sem lodna lítil, ok horfi öll framm, en finnist gjörla ef umm er strokit, ok í mörgum vötnum er sagt sá silúngr sè á Islandi, ok færdar margar dæmisögur til med alþýdu; þau voru sprúngin á kvidi, er þar fundust, ok þrútin öll. Þá deydi Eyríkr prestr at Húsafelli Vigfússon, Eyríkssonar, Steindórssonar frá Ökrum; en Steinn prestr Jónsson gjördist kyrkjuprestr í Skálholti. Gudrídr, ekkja Jóns biskups Vigfússonar, flutti sig at eignarjördu sinni

Leirá, ok naut hún ei nádarár, þó þat væri ályktat seinna. Þá andadist enn Hólmfrídr Sigurdardóttir, ok var þá stund at Laufási.

## XXIII Kap. Frá alþíngi ok fleiru.

Á alþíngi um sumarit báru þíngmenn þat framm hversu þúnglega fallit hafdi um vetrinn, svo nema gud hefdi þat sumar gefit gott grasár, mundi útgjört ordit hafa um landit; þá var ok borin framm bón Skaptfellínga, at þeir æsktu sökum stórfeldra hardinda er þá höfdu lengi gengit, ok helzt á þeim hinum sídasta vetri, at fjölskylda þeirra mætti flakka um allt land sèr til bjargrædis, en því var neitat fyrir þá sök, at hin sama umkvörtun heyrdist hvadan æfa, sva at hvert hèrad hafdi ærnan þúnga sjálft at bera. Þar var enn talat um tindalamálit úr Eyafirdi. Þar var ok hýddr mjög fyrir galdra sá madr, er Bárdr Bjarnason hèt af Bardaströnd. Vigfús, son Arna Vigfússonar á Heydalsá var þá lögsagnari í Snæfellssýslu, því Magnús lögmadr hafdi mörgu at gegna. Magnús Bjarnarson Pálssonar bjó þá at Eyrarlandi, ok kærdi um toll fyrir landit á Akreyrar kaupmenn. Búdaþjófnadar-mál var þá úr Gullbríngusýslu, ok þar fór framm sáttargjörd millum Olafs Einarssonar sýslumanns í Skaptafellsþíngi ok Vigfúsar prests Isleifssonar, sá var födurfadir Vigfúsar prests Benediktssonar. Landfógètinn ok Magnús lögmadr tóku þar vitnisburdi sína, ok Vigfús Arnason. Þareptir fór Kristófor Heidemann landfógèti utan, eptir stefnu Þórdar biskupssonar, en hinir, er stefndir voru, bádu herramann einn danskan at bera framm málit af sinni hendi. Segir Benedikt prestr á Hesti at þá hafi tveir menn tekit í lèn öll afgjöld landsins, er Heidemann stód reikníng af ádr, Matts Kristjánsson ok Tómas Janson, nema hafnirnar einar, þær veitti konúngr, ok hafi þeir goldit eptir 6 þúsundir, 5 hundrud ok nær 40 dali; en sumir segja at konúngr fengi á þeim missirum í hafnartólla 13 þúsundir 6 hundrud ok 40 dali alls. Hans Londemann fór ok utan med konu sína ok börn, ok gjördist tollheimtumadr í Presteyu á Sjálandi, var kona hans Gudrídr Markúsdóttir frá Stokkseyri, Bjarnasonar, systir Þórdísar, vard Játvardr son þeirra sídan hinn mesti virdíngamadr, ok er þadan Rósenkrónu greifaætt, en annar, er Torfi hèt, vard hèr sídan. Jón Vídalín gjördist heyrari í Skálholti med þeim vetri er þá fór í hönd. Þat hafdi ordit til tídinda um Lárits Gottrûp

á Þíngeyrum, at hann hafdi ætlad at fá Þórunnar, dóttur Þorleifs lögmanns Kortssonar gamla, en annar danskr madr Lárits Skeving var sveinn hans, ok er hann var eigi vid, fèkk Lárits Skevíng ástir hennar, ok þótti mikill manna munr, ok hann fèkk hennar á þessum misserum, fèll vel á med þeim, ok fèkk hún mannord ágætt, ok var þeirra son Hannes.

## XXIV Kap. Kríumál.

Þetta sumar hóf Muller amtmadr aptr mál sitt, ok sendi Magnúsi Hrómundarsyni sýslumanni stefnu, til at auglýsa Jóni presti í Hítarnesi, ok stefna hönum til prestastefnu at sydri Gördum í Stadarsveit hinn 12ta dag októbris, fyrir Asmund prófast Eyólfsson á Breidabólstad, til at játa edr neita hinni þýzku supplíkazíu med ödru; þat gjördi sýslumadr, ok fèkk presti útskrift af stefnunni, med nöfnum stefnavotta undir, er vottudu at samhljódandi væri upphafsskjalinu, en af gáleysi hafdi þó sýslumadr misskrifad nafn amtmannsins *Chrian* fyrir *Christian*. Þar komu á þá prestastefnu Jón Eyólfsson sýslumadr í Kjósarsýslu, skipadr af amtmanni sóknari sakar hans vegna, Jón prestr, ok svo Magnús sýslumadr at sanna fyrirkallit, en er at því kom, var annar stefnuvottrinn á brottu, hafdi Jón prestr hann yfirtaladan, ok kallad hönum mundi verda hrundit med mínkun úr stefnuvætti, ef hann gæfi sig í ljós, fyrir þat er hann vitnadi um rètta útskrift af stefnunni; fèll þá nidr sóknin, þvíat Jón prestr vildi engu tilsvara, nema stefnulestrinn væri svarinn. En hann lèt ei þar med búit, því hann las upp þar fyrir rèttinum spottsbrèf nokkurt; í fyrsta lagi um stefnuvottana, sem þeir hefdi svo vitnad, at krían, fugl meinlaus, hefdi látit stefna sèr, med fleirum kímiligum kríngilyrdum, ok tilfærdum óskikkanlega, at því er mönnum þótti, furduverkum guds, taladi um ösnu Bíleams, ok slíkt annat. Þarnæst voru sneidir til Magnúsar sýslumanns, kalladi hann hönum, slèttum sýslumanni, mundi þykja sèr óvirdíng gjör, ef hann væri kalladr Mángi í stad Magnúsar, en miklu fremr mætti velbyrdugum herra amtmanninum þykkja sneidilegt ok sèr til óvirdíngar, ef hann væri kalladr Krían heldr enn Kristján; „en þótt eg, sagdi hann, þurfi ekki mjög at þykkja fyrir hans persónu, þar sem eg veit ekki hvad hann muni þykkja fyrir mig"; med ödru fleira er hann fann til. Því nærst

stakk hann brèfinu hjá sèr, ok gekk á brott. En þat fór þó ei svo lángt þadan sem hann ætladi, því þá hann athugadi betr, hafdi þat ordit eptir af gáleysi hans ok óheppni, þar sem hann sat í þínghúsinu, ok komst þegar í hendr Jóni Eyólfssyni. Stefndi hann þá presti til annarar prestastefnu á sama stad hinn sídasta dag októbris mánadar, bædi um þetta brèf ok súpplíkazíuna. Þar kom Jón prestr ekki, ok gjördist lítit af málinu, nema þat at hann ok málit var dæmt fyrir nærstu synódum generalem á alþíngi; þángad stefndi ok Jón prestr Asmundi prófasti fyrir atgjördir hans; en brèf þetta var kallat kríubrèf, ok málit sídan kríumál eda stokksmál. Amtmanni lá mjög þúngt í skapi kríubrèfit, ok kærdi þat brèflega fyrir biskupinum meistara Þórdi, at hann hefdi lidit spott ok hád af Jóni presti, ok sagdist vera stórum of-lêdèradr ok sneiddr, ok vildi hafa brádar atgjördir biskups í þessu. Biskup vard vid ósk hans ok vilja, ok lèt stefna Jóni presti til prestastefnu at Krossholti hinn 22an dag febrúaríí mánadar, fyrir Pál prófast Gunnarsson í Mýrasýslu, ok setti hann þar dómara í sinn stad, med prestum úr Þverárþíngi bædi fyrir vestan ok sunnan Hvítá; var Jóni presti stefnt til andsvara vid amtmanninn um brèf þat sem hönum væri eignad, ok áminnti Þórdr biskup hann at gegna gódlátlega, ok hegda sèr í andsvari sínu, sem kennimanni somir, flækjulaust ok lögkróka. Biskup bodadi ok þángat Asmund prófast ok hans presta, sem ritit höfdu uppá kríubrèfit, at Jón prestr hefdi þat lesit upp á sydri Gördum hinn 12ta dag októbris, til þess at sanna þar vitnisburd sinn ef þyrfti, ok slíkt allt gaf hann amtmanninum til vitundar, svo hann mætti senda þángat umbodsmann sinn med ákærur sínar. En er þíngdagr kom, þá kom enginn 1693 framm af amtmanns hendi, ok ei heldr þau brèf sjálf, er Jón prestr var ákærdr um, ok ei nema afskriftir, er biskup sendi þeim af ödrum afskriftum, er amtmadr hafdi hönum sendar; sá þá Jón prestr at ekki var at ottast ákafa sókn í málinu at því sinni, ok hóf upp segl stórmennsku sinnar, neitti hann fyrst at sèd hefdi þannin ordat brèf, sem kríubrèfit var, en snerist sídan at biskupi sem sakar-ábera, fyrir þá sök, at hann hefdi hann þángad bodadan, ok beiddist brèflega fyrir rèttinum, at meistari Þórdr biskup ok amtmadr Kristján Muller, eda einhvörr þeirra vegna, sönnudu framburd þeirra, at hann hefdi þvílíkt brèf lesit fyrir rètti at sydri Gördum, ok at amtmadr hefdi svo stórum lêdèradr verit edr

sneiddr, þarmed gaf hann óvirdíngarord Asmundi prófasti ok dómsprestum hans. En med því at enginn var af saksóknarans hendi, ok ei heldr adalbrèfin þar þá; þóttist Páll prófastr ok medhjálpendr hans ei mega mikit atgjöra, en þó tóku þeir saman próf nokkud eda ransókn til fyrirgreidslu í málinu. Asmundr prófastr ok hans prestar vildu ei heldr vinna eid um afskrift af krínbrèfinu, en budu sig þó til at sanna medkenníngu sína, þegar lagt væri framm fyrir þá þat brèf, er þeir höfdu sjálfir skrifat undir med egin höndum. Urdu þat hinar helztu atgjördir, at Asmúndr prófastr ok prestar hans, ok svo Jón prestr, voru skyldadir til at mæta á nærstkomandi synódó generalí á alþíngi, til andsvara vid amtmann, svo málit mætti þar komast til lykta. Biskup lèt ok kalla saman nokkra lærda menn í Skálholti, til at meta sneidyrdi Jóns prests til amtmannsins í krínbrèfinu, ok þat er hann hafdi lagt þár vid guds furduverk, ok sögdu þeir þat er þeim sýndist; en amtmadr vard þá enn gramr, ei at eins vid alla þá presta, er komit höfdu saman at Krossholti, at þeim hefdi ei áorkazt, heldr einnig vid Þórd biskup saklausan, ok þótti þeir allir tradka sínu máli, en halda med Jóni presti, ok kenndi þeim þat er hönum var sjálfum at kenna, er hann sendi engin skilríki af sinni hendi, ok kalladi þá meir svörum haldit hafa vid Jón prest fyrir biskupsins atgjördum enn sèr. Blès ok at því Jón Eyólfsson sýslumadr rádgjafi amtmanns, af kala vid Pál prófast, ok svo óþolinmædi Asmundar prófasts, því hann kærdi þat fyrir amtmanni, at ei hefdi fengit vitnad á Krossholts prestastefnu um sneidyrdi Jóns prests til sín, en þat reyndist þó ósatt, því Páll prófastr ok dómsprestar hans höfdu bedit Asmund prófast bída þar, til þess er lokit væri prestastefnunni, ok bodit sig til undir votta at gegna hans beidni, en hann var þá farinn á brottu.

## XXV Kap. Ýmislegt.

Þessi var hinn bezti vetr, svo aldrei kom fjúkdagr, en torf rist ok stúngit á þorra; snjór sást hvergi á gói nema á fjöllum; þó var eigi hardindalaust at heldr, þvíat afli var lítill sydra, en eldr kom úr Heklu med undrum ok ódæmum hinn 13da dag febrúarií um kvöldrökkr, er var fyrsti mánadagr í gói, ok varadi allt fram á mají mánud, grandadi þó ei mönnum eda fè, en aska ok sand-

fall vard svo mikit, at gefa urdu menn útigångspeníngi at snjólausri jördu í Hrútafirdi ok Midfirdi, ok nordan til á Vestfjördum, en margar jardir eyddust eda skemdust í Hreppum ok á Landi, ok um Biskupstúngur, svo þadan leiddi sídan eydíng 20 jarda Skálholts stadar; rjúpur dóu hrönnum í Borgarfirdi nordarlega, en silúngr í vötnum á Tvídægru ok vestr um Dali; var vída sandr vadinn í mjóalegg. Þá andadist í marzi mánadi snemma Katrín á Hvoli Erlendardóttir, Asmundssonar, Þorleifssonar lögmanns, er átt hafdi Vigfús Gíslason, en módir var Jóns biskups Vigfússonar, ok var hún gömul mjög; ok druknudu synir Erlendar prests Illhugasonar at Tjörn á Vatnsnesi, Páll ok Illhugi, sudr á Hafnarfirdi, hvolfdi undir þeim bátnum; þeir voru brædr Pèturs á Brúsastödum ok Gudnýar, módur Gudlaugs prófasts Þorgeirssonar í Görðum. Þá var prentat í Skálholti Díaríum Hallgríms prests Pètrssonar, Þrefaldr Trúar-fèsjodr, er Jón prestr Jónsson at Holti hafdi útlagt, Idrunar-íþrótt, ok fleiri slíkar smábækr fornar, er út hafdi lagt Þorlákr biskup. Snjóflód tók Þorkel prest á Þaunglabakka, ok tvo menn adra ok stúlku. Þrír menn týndust af skipi á Akranesi, ok tveir sunnan jökul. Vída eyddust skógar af Heklubruna. En um allt þat fjölgadi þá enn fólk í landi, eptir því sem prestar í Borgarfirdi hafa vitnad um.

## XXVI Kap. Lyktir kríumála.

Þórdr biskup útnefndi þá enn prestastefnu med prestum úr Kjalarnessþíngi ok Arnessþíngi, ok undir forsögn Arna prófasts Þorvardssonar á Þíngvelli, at sydri Görðum í Stadarsveit hinn 19da dag mají mánadar; þángat var Jón prestr stefndr í kríumáli, ok þángat fór amtmadr sjálfr ok Jón Eyólfsson sýslumadr, talsmadr hans. Voru þá lögd framm adalbrèfin, en vid þat lækkadi Jón prestr sig, ok medgekk súpplíkazíuna þýzku, ok at ritat hefdi kríubrèfit, en kvadst aldrei upplesit hafa at Görðum, gekk þá framm vitnisburdr Asmundar prófasts ok presta hans, ok önnur fleiri fjölmæli Jóns prests, er gjördu hann ómerkan at því, svo fór ok Arni prófastr ok dómsprestar hans at því sem biskup ok lærdir menn höfdu metit um vetrinn í Skálholti, ok dæmdu þeir Jón prest fyrir slík fjölmæli, ok marga óhlýdni ok þverúd vid yfirmenn sína í þessu máli, ok svo þar sem hann hefdi ótilheyrilega lagt

vid hègóma guds furduverk háleit, en sneidt óvirduglega nafn amtmannsins ok náúngans yfirsjón, þá skyldi hann vera settr frá allri prestslegri þjónustu, til þess er endilegr dómr gengi í málinu á nærstu sýnódó generalí, ok skyldr þar at mæta ok dóm at líða. Amtmadr lèt ok stefna Krossholts prestum fyrir Sýnódum generalem, med prestastefnu gjördir þeirra, fyrir þann dómara, er þar sæti fyrir, því hann hafdi ásett sèr fastlega at víkja meistara Þórdi úr dómssæti, en setja þar aptr til Einar biskup Þorsteinsson á Hólum, sendi hann því eptir hönum, ok kom hönum sudr at Bessastödum fyrir alþíng, bad amtmadr hann mjög, en Einar biskup var svo vitr madr, at hann afsagdi slíkt, ok kvad hann ei fyrir þat svara meiga, þó hann bydi sèr svo at gjöra; vard þat þá at koma undir Þórd biskup; en prófastar ok prestar voru flestir í Snæfellsness ok Mýraþíngi, Gullbríngu ok Arness-sýslum svo mjög flæktir ordnir vid þat mál, at biskup vard at boda til alþíngis á sýnódum þá er austar voru, ok allt í Múlasýslu, en suma vestan úr Dölum, setti hann sjálfr sýnódum, ok stód á nær þrjár vikur, ok dæmdi í málunum, en ekki fundust þeir amtmadr, þóttist hann ei geta komit framm vilja sínum vid biskup, ok þrasadi vid Krossholts presta um viku tíma; þóttust menn ei vita, at eitt prófþíng hefdi kostat meira stím eda ransókn; ok sem þat sýndist at Krosshyltíngar mundu verda saklitlir, ýfdist óvild amtmanns enn meir til biskups ok kennidómsins. Vard þat þá um sídir fyrir tillögur Einars biskups ok lögmanna, svo meistari Þórdr, mæddr ok þrotinn at heilsu, ofþjakadist ei af slíkri ónádan, at Krosshyltíngar gjördu sátt vid amtmann at óskerdtri virdíngu þeirra, svo þat hèti at hann hefdi vinníng, ok gengust undir at gjalda ferdarkostnad hans til Garda prestastefnu, ok svíadi nokkud þar vid deilan. En Asmundr prófastr var dæmdr í fèsekt nokkra fyrir atgjördir hans í máli Jóns prests. Jón prestr frá kalli ok kjól, ok at taka opinbera lausn af Páli prófasti Gunnarssyni, ok láta úti fè mikit til amtmanns. Magnús Hrómundarson missti ok sýslunnar, ok sætti útlátum; ok vard sá endir Kríumála; en af þessu hefir gjörst sagt ok mörgu ödru Jón prófastr Halldórsson í Hítárdal, hinn fródi.

## XXVII Kap. Alþíng ok annat.

Þat sumar var Þórdr biskup seinast á þíngi, þar var ok Kristófor Heidemann útkominn, ok hafdi lagt gott til at sættin tæk-

ist; en Þórdr, son Jóns biskups, hafdi unnit mál sitt, ok var svo ályktad í hæsta rètti: Kommissaríórum hardi dómr ber ekki at komi sáluga meistara Jóni Vigfússyni í hans gröf, ei heldr nokkrum af hans náúngum, til minkunar, prêjúdíce, hindranar edr skada á nokkurn hátt, ei heldr til frekari peninga útláta, enn at erfíngjar sáluga meistara Jóns gjaldi til landfógètans Kristófors Heidemanns 100 ríkisdali í málskostnad, svo byrjar ok hinni gjördu kyrrsetníngu á biskups inntektum at vera öldúngis úti ok endadri, ok at ekkjan ok erfíngjar njóti nádarárs, sem sidr hefir verit. Af því vard þó ei um ekkju Jóns biskups, en mörgum þótti Þórdi skörugliga tekizt hafa tvítugum manni. Þat sumar var Heidemann seinast í landi hèr, þótti hann vitr madr verit hafa ok skörúngr mikill, þó hann þætti fègjarn, fór hann utan, ok vard amtmadr í Noregi, ok lifdi 10 ár sídan. Björn Magnússon sýslumadr vedsetti hönum ádr Núpufell, jörd sína, fyrir skuldum, hálfu fjórda hundradi dala, ok skyldi hann halda, ef ei væri goldit fyrir annat alþíng, var þar mjög þverradr audr Magnúsar lögmanns. Höskuldr Halldórsson var þá settr sýslumadr til adstodar Jóni Þorlákssyni í Múlaþíngi med sýsluvon eptir hann. Á því þíngi var dæmd til dauda Gudrún Eyríksdóttir úr Múlasýslu, er barn hafdi getit med Ivari Þorsteinssyni, stjúpfödur sínum, hann var strokinn, en hûn var trúlofud ödrum manni, ok hafdi lýst naudúng, var því málinu skotit til konúngs nádar. Sá madr var hengdr vestr í Isafirdi fyrir stuld er Steingrímr Helgason hèt, hann hafdi tvisvar strokit úr þrílæstum járnum á höndum ok fótum. Uppgötvadist þá um mordit í Vestmannaeyum á Gísla Pèturssyni, því hafdi valdit Ingibjörg Oddsdóttir, kona hans, hûn hafdi getit barn vid umbodsmanni dönskum yfir Eyunum, Hans Kristjánssyni, ok ætludu menn hûn mundi fyrir þá sök hafa viljat skilja vid bónda sinn, enn í vitordi voru med henni ok adstod Ingvildr, systir hennar, ok Steinunn Steinmódsdóttir, vinnukona; var Einar Eyólfsson prests, er fyrr var at Lundi, sýslumadr í Árnessþíngi, fenginn til at reka þat mál, ok taka menn med sèr úr landi, madr gekk af Hellisvöllum yfir Jökulsháls nordr, ok fannst sídan á fjallinu daudr ok beinbrotinn. Einn madr var hengdr á þíngi úr Árness-sýslu, ok margt var þar málaferla, eitt var tindalamálit úr Eyafirdi. Þá var hid bezta sumar at grasi ok nýtíngu, en þó var eldrinn uppi til krossmessu um haustit, skemdust ok mjög tennr í úngfè ok hross-

um. Þeir Einar biskup Þorsteinsson ok Lárits Gottrûp sættu þá Arnbjörn prest Jónsson ok sóknarfólk hans at Giljá. I þann tíma tók vid umbodi þeirra er lèni höfdu yfir landinu, Andrès Ivarsson Rafn, hann tók vid því af Heidemanni, ok var fáskiptinn ok lítilmótlegr. Gott var haustit ok þurrt. Hvalmál var á Skaga kallad stûfsrekamál, ok þá voru margir hnýdíngar reknir á land í Rifi. Þat bar enn til tídinda þau misseri, at andadist Helga í Hítárdal, Arnadóttir lögmanns Odssonar, en ekkja Þórdar prests, er þar var fyrrum, ok módir Frúr Gudrídar, ekkju Jóns biskups; Gudrídr Einarsdóttir, ekkja Einars prófasts Illhugasonar í Vindási; Jórunn Henriksdóttir Gíslasonar, ekkja Benedikts sýslumanns Halldórssonar lögmanns, ok Jón prestr Hallgrímsson í Glaumbæ; einnin Illhugi prestr á Setbergi Vigfússon prests Illhugasonar frá Kalastödum; fèkk þá Steinn prestr Jónsson Hítárnes, en Jón Þorkelsson Vídalín gjördist kyrkjuprestr í Skálholti, ok komst þar í kærleika mikla, því hann tók at stoda biskupinn í vanheilsu hans, ok lèt hann hann vísitèra fyrir sig.

## XXVIII Kap. Ýmislegt.

Sá vetr öndverdr eptir var med þokum ok frostamikill fyrir
1694 jól, en regn ok rosar um midjan, hardnadi vid kyndilmessu, ok gjördi frost ok fjúk mikil, urdu nokkrir menn úti, en marga kól til meidsla; batnadi nokkut eptir Maríumessu á Lángaföstu. Hafísar miklir komu fyrir nordan ok austan, ok allt fyrir Vestmannaeyar, stód af óáran nyrdra; hlutir voru í medallagi. Þá var prentat í Skálholti Speculum pœnitentiæ, ok bæklíngr úr postillu, er Þorsteinn prófastr Illhugason hafdi lagt út, ok Þórdar-bænir. Þat bar til á sunnudaginn fyrstan í Góì, at tók ofan kyrkju alla at Ingjaldshóli allt at bitum, fyrir utan kórinn, þar bjó þá Magnús lögmadr Jónsson, er mjög opt hefir verit getit, hann var son Jóns Magnússonar, Arasonar í Ögri, en dóttursson Magnúsar lögmanns at Múnkaþverá, ok hafdi þá Snæfellssýslu, Stapa-umbod ok Hnappadal, Skógarstrandarjardir, ok konúngsjardir í Strandasýslu ok í Alptafirdi med lögsögninni, var hann snarvitr madr ok ordskjótr; hann andadist eptir sumarmál úr steinsótt, ok hafdi verit lögmadr 15 ár; hafdi hann átta Gudrúnu, dóttur Þórgils Jónssonar á Brim-

ilsvöllum ok var þeirra dóttir Margrèt, áttu ]
hlíd, ok af því kvad Gísli, son Jóns biskup
Held èg bezta hlutskipti, hverjum þat
meiga eignast Margrèti, Máfahlíd ok
Hamraenda-Jón, son Jóns Þorvaldssonar
Hnappadalssýslu eptir Magnús Hrómundsso
menni mikit ok fjölkýngisgjarn. Þá kom
er fyrr getr, en Einar Eyólfsson úr Arne
stad, ok hann dæmdi í hvalmálinu nyrdra.
Páli presti Ketilssyni frá Hvammi Stadarstad,
esar Helgasonar, Arness-sýslu med Einari. Þ
systrnar frá Vestmannaeyum, því þær med
Steinunni var dæmt líflát. Eyríkr prestr H
hesti sínum ofaní Brúará, ok týndist þar,
4 menn druknudu í Hvalfirdi, en 2 á Mi
húsi á Gufuskálum í Leiru. Meistari Þór
lá optast í rekkju, en sagdi fyrir brèfaskrift
í sæng sinni; hèldt meistari Björn biskup S
suma í Skálholti en suma í Odda. Brynjúlfr p
hesi, son Jóns prests í Hvammi Olafssonar, h
Islandi, enn grannlegr at því, sterkr madr,
sem födurfrændr hans. Hann hafdi dáit, en
sókt um þann stad, en Kristján Muller ar
Pètrssyni, sveini sínum, ok vildi ei álíta
hafdi þó veitt Olafi fyrri Glaumbæ nordr.
at bodum stjórnarrádamanna, med konu sí
mjög um framferdir sínar út hèr; en Jón
arsvegar fara súpplíkazíu sína, ok fèkk
fyrir Gördum seinna. Björn Magnússon s
um af landi, ok átti í vandrædum, en M
sonar, hafdi lögsögn hans í Eyafirdi. Lár
er getit hefir verit, ok átti Þórunni Þorlei
dómara í Noregi, Lárussonar prests í Skevi
ar, hann hafdi verit fyrri umbodsmadr Jóha
ínga í Gullbríngusýslu, ok svo med Lárus
hann Mödruvallaklaustr, ok sumir ætla h
íngarbrèf amtmanns fyrir Vadlasýslu, var
rusi Gottrúp, sídan milli bar um konuna,

Jónsson at eiga Valgerdi, dóttur Jóns prests úr Neshrepp Gudmundarsonar ok Halldóru Jónsdóttur, Steindórssonar, Gíslasonar, ok fèkk nær þeim tíma heit fyrir Setbergi eptir Arna prest Amundason. Þat var enn þá med tídindum talit, at í Lambhaga á Rángárvöllum fèll madr af hestsbaki í túninu, ok deydi þegar, en daginn eptir ól systir hans barn, ok lýsti födur at ókendan mann med nidrbrotna hettu; ok annat þat, at madr gat barn vid dóttur sinni á Vestfjördum, ok struku þau bædi. Þat þótti ok nýúng, at rostúngr var drepinn á Midnesi. Mislíngasótt var um sumarit ok um haustit, ok öndudust ekki margir menn; enn dó í þann tíma hin göfugasta kona Kristín Gísladóttir, Hákonarsonar, ekkja Þorláks biskups, ok módir biskupa tveggja, 4um vetrum meir enn áttræd, ok Sigrídr Magnúsdóttir stórráda. Gjördist vetr frostasamr öndverdr; en fyrir jól brann bær at Þverá í Fljótum ok mikill fiskr ok hákall inni ok annat, hafdi þó Sæmundr bóndi, er þar bjó, synjat med eidi fyrir björg alla, ok ei viljat hýsa snauda menn.

## XXIX Kap. Ýmislegt er vidbar.

1695 Þann vetr týndust tvö skip í Gardi ok tveggjamannafar, ok á 18 menn, 3 menn í Bjarneyum, 6 á Grímseyarsundi, ok þrír menn ok tvær konur nálægt Hjörtsey; margar urdu þá misfarir einstakra manna; einn hèt Gaungu-Halldór, hann var sendr til Skálholts, ok gekk Gagnheidi úr Skorradal í gódu vedri, ok kom aldrei fram. Hafísar voru þá svo miklir fyrir nordan ok austan, at færdust fyrir Þorlákshöfn sudr fyrir sumarmál, þadan fyrir Reykjanes ok Gard, ok seinast at Hvalseyum ok í Hítárós, ok mundi þat enginn madr at svo hefdi fyrr verit, en gánga mátti á ísnum af skaga á Akranesi í Hólms kaupstad. At vestan komst ís fyrir Látrabjarg, en nordanlands mátti rída ok renna fyrir hvern fjörd um vor-krossmessu. Þá var mikit fiskiár, ok þó skjaldróit væri, fengust lestarhlutir sydra ok vestra, ok sumstadar meira. Um vorit dó Ragnheidr Eggertsdóttir frá Ökrum, systir Jóns, at Reykjum í Túngusveit, jördu sinni, hafdi búit þar ógipt. Þá komu skotskir menn sydra, er ræntir höfdu verit af Frönskum ok sumir drepnir, ok skiptust þeir á vistir um Sudrnes þartil er skip komu. Þúng sótt gekk þá yfir ok mannskæd, andadist Ingibjörg Gísladóttir, frú Einars biskups, 3ja ok 50 vetra, hún hafdi haft þúnga legu nær því

frá jólum; einnig Teitr prestr í Bitru Einarsson, Sigurdarsonar, þorsteinn, prestr í Middölum þórarinsson, Illhugasonar frá Kalastödum, Gísli prestr Einarsson á Krossi, ok Andrès Rafn umbodsmadr, tók vid eptir hann Jens Jörgensson, sveinn hans. Lárits Skevíng var nú sýslumadr í Eyafirdi, ok lèt dóm gánga um kvedskapar áburd á Jón í Hólum. Prentadar voru í Skálholti Gerhardí Hugvekjur, ok aukit vid nokkrum sálmum ok rímtöflu. Konúngsbrèf voru gefin út; eitt um rentupeninga; annat um þá er trúlofast med prests vitund, ok rjúfa þat, at þeir sèu lygarar; eitt um þá er mordíngjum hjálpa; eitt um lausgángara, at þeir rói á konúngs skipum, en 30 af þeim fari til hersins; eitt um höndlunarfèlög, ok inntekt þá, er konúngr áskildi af kaupmönnum þeim, er höfdu lands-afgjöldin at lèni. Eitt var brèf til Lárusar Gottrûps, at hann væri lögmadr; eitt um kyrkjubyggíngu á Ingjaldshóli. Um sumarit kom út Kristján Muller amtmadr, ok fór sídan spaklega med völd sín, ok hlýddi midr fortölum þeirra, er hánn hafdi ádr hlýdt.

## XXX Kap. Frá þíngi ok ödru.

Þat þótti mönnum nýlunda, er Lárus Gottrûp hafdi sókt um lögmannsdæmi, ok verit skipadr af konúngi ókosinn, en hann var merkilegr madr, ok mátti sýna þat er hann var audugr, hèldt hann sem ádr sýslu ok klaustr í Húnavatnsþíngi, ok tók sèr lögsagnara Jón Illhugason; hann setti alþíng med Sigurdi lögmanni Bjarnarsyni, ok voru lesin upp þau brèf, er ádr er getit, ok eitt nádarbrèf fyrir Gudrúnu Eyríksdóttur úr Múlaþíngi, þar líkindi væri at Ivar stjúpfadir hennar hefdi naudgat henni. Ingibjörgu Arnadóttur Hildibrandssonar frá Ekkjufelli var dæmt nýtt húdlát fyrir þat, er eigi vildi segja til barnsfadernis síns, en hafdi fengit annat ádr í hèradi, en í rykti var, at Arni fadir hennar mundi af valdr. Þurídr hèt kona úr Isafirdi Bjarnadóttir, er þar var dæmd fyrir barngetnad med födur sínum, þó nokkud svo naudug, én hafdi eigi lýst naudgan, ok alit í dulsmáli, henni var drekkt, en Einar Jónsson, èr borinn var medvitund um dulsmálit, ok fèll á eidi, fèkk 13 marka refsíngu. Þá voru lesnar vedsetníngar Bjarnar Magnússonar sýslumanns, var hann utan; ok veitíngarbrèf þeirra fyrir Arness-sýslu, Einars Eyólfssonar ok Vigfúsar Hannessonar; einnin

Bjarnar, sonar Pètrs Bjarnasonar, Oddssonar fyrir Múlaþíngi hinu nyrdra, þá Páll Marteinsson mágr hans lèt af; hann bjó sídan at födurleifd sinni, Bustarfelli, ok gjördist audugr, ok var stórmenni mikit at áliti ok í öllum háttum. Andrèsi Andrèssyni, er haft hafdi Dalasýslu, var skipud Snæfellssýsla, ok umbodit ásamt, sem hann hafdi haft fyrir Magnús lögmann Jónsson. A því þíngi sömdu lögmenn, ok skipudu lögþíngis hegdunarreglu, ok at sýslumenn sèu þángat komnir Pètrsmessu aptan, ok lèti hvörr sinn lögmann vita mál úr hèrudum; önnur var um þrjár hríngíngar til lögrèttu fyrir hádegi ok eina á nóni; þridja um mála tilbúníng í hèrudum, ok at dómar sèu endilegir, ella gegni lögmenn þeim ekki sem þángat til. Fjórda um þá dóma, er hèradsdómarar treysta sèr ei til at kveda upp, skulu málefnin vera send lögmönnum fyrir alþíng; fimta um uppteiknun landþíngskrifara á málunum; sètta ok sjöunda um brèfalestr eptir dóma ok sektir, ef ámóti er brotit. Jens Jörgensson, er í fógèta stad skyldi vera, lèt birta þær. Var þá ok komit á ródrum eda mannsláns kvödum á konúngs skipin. Ara, syni Þorkels Gudmundarsonar frá Þíngeyrum, veitti Muller amtmadr vestri hlut Bardastrandarsýslu, en fyrri hafdi hann verit þar lögsagnari, hann átti Astrídi Þorleifsdóttur frá Haga, ok bjó at Haga eptir Þorleif, þeirra börn voru Þorkell, Þorleifr, Magnús, Teitr ok Halldórur tvær. Einar Eyólfsson hafdi átt at taka Snæfellssýslu ok Stapa-umbod eptir Magnús lögmann, fyrr enn Andrès tók þat, því Einar var vitr madr ok virdr vel, ok hafdi verit settr í lögmanns stad, en er hann reid af þíngi, tók hann sótt ok andadist, hann var fadir Halldórs, er sídan hafdi Þíngeyarsýslu. Arni Geirsson landskrifari dó ok um þær mundir, en Björn Magnússon lèt med öllu af sýslu ok klaustri í Eyafirdi, ok var þá laungum utan med sveini sínum Þórarni, syni Jóns prests Gudmundarsonar í Stærra Arskógi, ok tekinn fast at drekka, en þrotinn at heilsu ok velgengni; er þá sagt, at Þórarinn hafi verit hönum medallagi trúr, en þó hefir Þórarinn sá fengit þat ord sídan, er hann vard prestr, at hafi verit vitr ok vinhollr, læknir gódr ok bjargvættr mörgum, ok eigi skorti hann gáfur, var hann bædi skáld gott ok djúpsær, ok haldinn margkunnugr af flestum mönnum. Björn Jónsson, Brynjúlfssonar prófasts í Hjardarholti, Bjarnasonar, Jónssonar í Hjardardal, hafdi verit lögsagnari Magnúsar lögmanns Jónssonar, þá hann hèldt Dalasýslu, ok enn hafdi hann þar lögsögn;

hann skipadi nú fyrsta af Jörvagledi í Haukadal, þat var samkoma til dansa, þótti valda ósid. Björn vard snaudr; bródir hans var Björn á Stadarfelli, er átti Margrètu, dóttur Nikólásar Þormódssonar, ok var þeirra dóttir Katrín; sá Björn var hugmikill ok knáligr, hafdi farit til Englands ok grædt þar fè, ok tekit Björn Nikólásson mág sinn af Englismönnum, er þeir vildu taka hann í herför, ok komit hönum út; hann hafdi ok eitt ár lögsögn í Dölum, ok veit ek því ei víst, hverr þeirra brædra var, er tók af gledina, ok er þessi jafn-líklegr, en þó dó hann þessi misseri. Jón Skön Jónsson, Vigfússonar, bródurson Orms í Eyum, dó þá gamall mjög; en Bödvar lángr, bródir hans, hygg ek væri daudr ádr: þeir brædr höfdu vit sitt til refja, ok ætlad væri af toga födur þeirra, hafdi Bödvar verit vel at sèr, en átt heilsu bága ok hamíngju andstæda. Bjarni prestr Hallgrímsson gjördist prófastr í Rángár þíngi, en Lárits Gottrúp tók at láta byggja Þíngeyrakyrkju; þat var mikil smíd ok vöndud, ok stód lengi vel, var hvelft húsit ok trèstólpar miklir undir sívalir. Þá fargadi kona barni sínu á Ingunnarstödum í Brynjudal, lèt í lèreptspoka ok sökkti í vaz-lind. Mikit var þá grasleysi um sumarit, ok urdu sumstadar eigi slæg tún, en sumstadar var flutt heim tada í pokum. Fengust á smájördum 10 eda 15 hestar af tödu, en 5 kaplar á engjum, þar sem ádr fèllu á 80; þareptir gjördi nýtíngu illa, ok haust hretvidrasamt til jóla, ok því nærst hardan vetr, ok hina mestu óáran. Jón, sonr Arna prests Loptssonar, hafdi þá fengit skólameistaradæmi á Hólum; en hinn 20ta dag decembris andadist Gudmundr Olafsson Islendíngr í Svíþjód, hann hafdi gefit út Sturlaugssögu ok Illhuga grídarfóstra, ok yfirsett konúngasögur Snorra Sturlusonar á sænska túngu; enn fleira var eptir hann, sem eigi komst út í almenníng, ordbók mikil íslenzk ok latinsk, útleggíng á kvidum í Sæmundar-eddu, Snorra-edda ok Málshatta-safnadr, Hálfdánarsaga Eysteinssonar ok Hrólfssaga Kraka, útleggíngar margar á fornvísum, Vilkinasaga, Hervararsaga, Nomenclator Junii, ok útleggíng flestallra kapitula Januæ lingvarum Comenianæ; ok voru þat ærin verk allt saman.

## XXXI Kap. Óár.

Þessi vetr var fellivetr mikill, svo engir vissu slíkan verit hafa 1696

sídan hvítavetr, átu þá lifandi hestar hina sem daudir voru, ok þó þeir hefdi fódr eda væri feitir, þeir átu ok trè ok torfveggi, en fè ull hvad af ödru, vard naumast haldit kûm vid líf, ok leit út til hins mesta mannfellis; en margir dóu af húngri í Þíngeyarþíngi. Ekki var kominn saudgródr á Ströndum fyrir Jónsmessu, ok svo var vídar; vard enginn hestr á sumum bæum, en margt þótti þar sem 5 hross voru; sumstadar stód hverki eptir hross eda saudr, en lömb fá sem lifdu bitust flest um sumarit, ok hlutir voru litlir. 15 menn urdu þá úti á Þorraþrælinn fyrir nordan, ok í Dölum; þar var hríd mikil, en slettíngr í Borgarfirdi þann dag, en hláka austr frá, at því er Benedikt prestr á Hesti segir. 9 skip tók út undir Eyafjöllum fyrir nordanstormi á öndverdum einmánudi. Skip týndist í Selvogi, ok annat á Midnesi med 6 mönnum hvert, ok vídar urdu smá-mannskadar. Fóru menn med þjóf úr Olafsfirdi til Lárusar Skevíngs á Mödruvöllu, ok urdu í snjóflódi á heimleid, hèt einn Magnús, ok fannst einnsaman ófúinn mjög laungu seinna ok allt á honum. Bródir þess þjófs var annar þjófr, er kalladr var Gráni, ok var mikil þjófaöld. Madr vard ödrum at skada med byssu á Eyrarbakka, kvidreif hann. Margir menn gengu þá frá heimilum, en fedgar fjórir týndust í Eyrarsveit, er þeir fluttu skreid af Hellissandi.

## XXXII Kap. Fyrirmanna lát.

Páll prestr ýngri í Stafholti Gunnarsson andadist um vetrinn, bródir Páls prófasts á Gilsbakka, hann dó úr svefni, ókvæntr ok barnlaus; þann vetr allan hafdi meistari Þórdr legit í rekkju, ok gjördist sjóndapr mjög, en meistari Björn vígdi þá tvo presta í Skálholti en fjóra í Odda. Þann vetr var afli gódr fyrir sunnan, en lítill vestr undan. Björn Magnússon hefir nú verit 4 ár utan, ok var búinn til útkomu, ok fór med því skipi, er ætladi til Austrlands, ok hugdi at setjast at í Vallanesi at dóttur sinnar Halldóru, er átti Olafr prófastr Steffánsson; hann tók sótt í hafi, ok er þeir sáu landit, andadist hann, ok var grafinn at Vallanesi; vel hafdi hann verit látinn af gódgjörnum mönnum. Þá andadist ok í Skálholti Gísli sýslumadr Magnússon, bródir hans, af steinsótt, hálfáttrædr, ok var þar grafinn virdugliga; hafdi hann þótt hinn merkiligasti höfdíngi, godgjarn ok gudrækinn, ör ok vitr, ok lærdastr

allra veraldligra manna í landi á hans dögum; hann hafdi fengit tunnu korns hvert sumar, medan hann bjó at Hlídarenda. Var þá sorgligt í Skálholti, er biskupinn mágr hans var karlægr. Söfren Mattíasson gjördist landþíngsskrifari, ok var prentud í Skálholti Lögþíngisbókin, at beidni amtmanns, lögmanna ok hans. Húsfrú Ragnheidr, ekkja Gísla biskups Þorlákssonar, fèkk þá konúngslèni fyrir 8 Hólakyrkju jördum; en í fardögum flutti Jón prestr Þorkelsson Vídalín sig til Garda. Þá kom svo mikit fjúk hinn 12ta dag júní mánadar, at margt fè dó fyrir nordan, en moka vard fyrir nautum; graslítit var sumarit, en þó gott at ödru. Þá var gjör kyrkja at Ingjaldshóli, ok var konúngsbod at adrar kyrkjur legdi til hennar, urdu þat 400 dalir. Voru nú fluttir utan 30 menn, þrír úr hverri sýslu, at því er Benedikt prestr telr, ok í her konúngs, ok var sá fyrstr mannskattr hèdan af landi; voru þeir einhleypíngar óþarfir, sem til voru nefndir, en slíkir menn á Íslandi eru opt hverki leiditamir nè líkligir til manndóms. Arna Hildibrandssyni var dæmd hýdíng mikil á þíngi, ok Ingibjörgu, dóttur hans, hin þridja hýdíng fyrir þrá sitt, ok önnur mál voru þar smærri. Þar var lesin skikkun Kristjáns Mullers amtmanns um lögmannstoll, ok ályktud útlegd konunum úr Vestmannaeyum, Ingibjörgu ok Ingvildi Oddsdætrum, einnin tekin þíngsvitni um bágindi landsins, ok sumir segja tekin væri af sú kona, er týnt hafdi barni sínu í Brynjudal hid fyrra árit. Þá voru reiknadar hèr á landi landskuldir af jördum öllum meir enn 33 þúsundir dala, ok hnignadi þeim mikit sídan. Svo komu fáir nefndarmenn á þíng at nordan ok austan, at ei vard lögrèttan fullskipud; en er menn ridu af þíngi, andadist Andrès Andrèsson sýslumadr, ok var jardadr í Stafholti, tók þá vid Stapa umbodi ok sýslu Magnús Bjarnarson prests frá Hvanneyri í Siglufirdi nordr, Jónssonar, ok hafdi verit sveinn Magnúsar lögmanns Jónssonar; en Páll Jónsson Vídalín, er þá var skólameistari í Skálholti, var settr fyrir sýslumann í Dalasýslu. Hákon Hannesson tók Rángárþíng til fulls ok Lárits Skevíng Vadlaþíng, en Sveinn, son Torfa prófasts í Gaulverjabæ, Jónssonar, hèlt þá Múnkaþverár klaustr.

## XXXIII Kap. Andlát Einars biskups ok fleiri manna.

Þá var allgott haust; kvæntist Magnús bóndi á Espihóli í Eya-

firdi Bjarnarson, Pálssonar, ok fèkk Sigrídar, dóttur Jóns biskups Vigfússonar. Einnin kvæntist Einar biskup á Hólum ödru sinni, ok fèkk Ragnheidar Jónsdóttur, ekkju Gísla biskups; var kaupöl þeirra haldit hinn 30ta dag ágûstí, ok brúdkaup hinn 12ta septembris at Hólum, med rausn mikilli; þar voru at bodi Kristján Muller amtmádr, Lárits Gottrûp lögmadr, ok adrir hinir beztu menn nordanlands. Einar biskup var vel at sèr í andligum efnum ok veraldligum, ör ok gladsinna, stjórnsamr í stiptinu ok heima, en vel látinn af mönnum, sá hann vel um eignir ok jardir stadarins, ok hafdi andgazt þar mjög; hèlzt stóllinn ok skólinn á hans dögum vid forna hefd ok virdíngu, ok eigi sídan med jöfnum hætti. Hann var heilsumadr mikil ok ósótthættr; en hinn 3a dag októbris næst eptir brúdkaupit, er hann sat vid bord sitt, ok yfirheyrdi undir prestsvígslu Pál prest Jónsson á Melstad, kenndi hann verkjar í öxlinni, sem sló ofan undir síduna, fèkk hann med þjáníngu fullkomnad þá vígslu sunnudaginn næstan eptir; ok er hann kom aptr í nýa húsit, er kallat var, ok lagdi af sèr biskupskjól sinn, mælti hann: Gud rádi nú, hvert eg klædist hönum aptr. Þadanaf vóx sóttinn svo mjög, at hann andadist um nóttina hins 9da októbris, á þridja ári aldrs síns um sextugi, var hann hálft 5ta ár biskup, en at embætti alls 6 vetr hins 4da tugar, ok hafdi vígt 10 presta; var hann 3 vikur heill í þessu hinu sídara hjónabandi, en var jardadr virdugliga í Hólakyrkju hinn 16da dag októbris mánadar, voru 10 prestar vid: Gísli prestr son hans, Olafr prestr Gudmundarson, Erlendr prestr Gudbrandsson prests, Arngrímssonar, ok Jón prestr bródir hans, Gudmundr prestr Jónsson, Olafr prestr Pètursson, Jón prestr Einarsson frá Skinnastödum, Nikólássonar, Gudmundr prestr Þorláksson, Magnús prestr, son Ara prófasts at Mælifelli, Egill prestr Sigfússon, hann var Latínuskáld gott, ok Páll prestr Jónsson. Var hann jardsettr vid kyrkjudyr, ok báru þeir líkit: Björn prestr Bjarnarson frá Hvanneyri í Siglufirdi, Jón prestr Sigfússon á Ríp, Björn prestr Þorsteinsson, Jón Illhugason Hóla rádsmanns, Skapti Jósepsson, Jón Jónsson snikkari, forsmidr kyrkjunnar, en Ari prófastr stód fyrir erfinu. Hann hafdi útvegat konu sinni, at mætti halda jördum þeim, er fyrr er getit, ok hefir hûn ein til þess gipt verit tveimr biskupum á landi hèr, ok þó hinum sídara meir til gráts enn gledi, sleppti hûn ok nádarári sínu sakir barna Einars biskups, ok fór til Grafar,

eignarjardar sinnar, ok bjó þar sídan, medan hûn lifdi. Þau voru börn Einars biskups ok Ingibjargar Gísladóttur, konu hans: Gísli prestr, hann fór utan, ok fèkk sídan Múla, ok átti Gudrúnu, dóttur Þorláks prests Halldórssonar á Audkúlu, þau áttu ekki börn; annar Gísli prestr var at Audkúlu, hann átti Kristínu, dóttur Eyríks prests á Fagranesi, Gudmundarsonar, Kolbeinssonar, Hjálmssonar. Sigurdr hèt hinn þridji, hann var rádsmadr Hólastadar nokkra stund, ok sídan lögsagnari Lárusar Gottrûps; hann átti Kristínu, dóttur Markúsar prests Geirssonar, þeirra börn voru Frú Ingibjörg ok Sigurdr, fadir Steinunnar á Hjaltastödum. Fjórdi var Nikólás, hann var lengi med Kristoffor Heidemanni, en fèkk seinna Hegraness þíng ok Reynistadar klaustr, hans son var Einar á Söndum, fadir Ragnheidar á Stad. Fimti hèt Benedikt, sjötti Bjarni, sjöundi Gudmundr. Gudrún var ein dóttir Einars biskups, hûn var gipt Jóni skólameistara Arnasyni Loptssonar, er biskup vard seinna; önnur Gudrídr, kona Jóns Jónssonar sýslumanns, Þorlákssonar; þridja Jórunn, fjórda Sigrídr. Nikólás Einarsson hafdi um hríd verit lögsagnari í Þíngeyarþíngi, en gjördist nú lögsagnari Þorsteins Þorleifssonar á Vídivöllum. Jón á Nautabúi var bródir Einars biskups, dáinn þá fyrir skömmu, hann hafdi átta Þorbjörgu, dóttur Ara prófasts Gudmundarsonar at Mælifelli, þeirra dóttir var Ingibjörg, en fèkk Þorleifr prófastr, son Skapta Jósepssonar prests Loptssonar. Arni var annar bródir Einars biskups, knáligr madr, hann hafdi dáit af sjósótt, ok var þat fyrir mjög laungu. Gudrún var systir hans, kona Benedikts í Bólstadarhlíd Bjarnarsonar; þeirra börn voru Þorsteinn sýslumadr, Björn ok Oddný, er átti Páll Jónsson; Gunnvör, hana átti Björn í Dal, son Hrólfs sýslumanns Sigurdarsonar, ok Halldóra, hennar fèkk Halldór, son Jóns Egilssonar í Geitaskardi, hûn átti ádr launbarn med Arna presti Geirssyni til Reynistadar, ok því missti hann prestskap, ok var sídan landskrifari, ok nú andadr fyrir skömmu. Olafr, son Arna hins gamla nordr í Haga, Bjarnarsonar á Laxamýri, gjördist þá lögsagnari Markúsar Snæbjarnarsonar í Asi til Vestmannaeya, hann var kalladr Olafr Klaki. Enn þessir öndudust þá adrir enn Einar biskup: Jón prófastr á Reyni Salómonsson prests, Jónssonar, Salómonssonar prests í Hvammi; annar Björn prestr Jónsson í Hólum; þridji Jón prestr í Hvammi í Nordrárdal, hinn gamli, Olafsson, Jónssonar frá Svarfhóli; fjórdi Sigurdr prestr í Nesþíngjum Halldórs-

son frá Olafsvík, hann var födurbródir Pètrs prests á Raudamel; fimti Olafr prestr Þorleifsson á Söndum í Dýrafirdi; sjötti Björn prestr, son Bjarnar prests gamla frá Hvanneyri Jónssonar, bródir Magnúsar sýslumanns vestra; sjöundi Grímr prestr Þorláksson á Knappstödum í Fljótum; áttundi Jón prestr Gudmundarson at Stærra Arskógi, bródir Ara prófasts, var hann skáld ok lærdr vel, ok dó hann á heimleid frá Hólum; einnin Þórunn Þorleifsdóttir, Kortssonar, kona Lárusar Skevíngs. Meistari Björn vígdi þá fyrir jól tvo presta í Odda, er komu at norðan til hans: Pál Bjarnason frá Vestrhópshólum, Þorsteinssonar, til Hvanneyrar, en Þórarinn Jónsson til Stærra Arskógs eptir födur sinn.

## XXXIV Cap. Árferdi illt.

1697 Þvínæst gjördi þá enn hinn frostamesta vetr med snjóum ok áfredum, lá ís vid land, ok var hvít storka yfir land ok sæ, svo at selir gengu upp vída þar sem slètt var, ok voru drepnir á landi, vard ok vída vart vid birni á ísunum; þá voru 11 vikur hardindi á ströndum, svo fè gaf ei út á jörd, en hestar fèllu hrönnum; 14 vikur hafdi þar jafnillt verit hid fyrra árit. Kvikfè hrundi þá, ok var hid mesta fiskleysi; var þó helzt til fár ordinn peníngrinn ádr. Refar sóktu þá svo at saudfè at ei vard varit, gengu þeir heim at bæum, ok í húsdyr inn, ok urdu bædi teknir ok veiddir í bogum, en sumir fundust daudir í húngri, ok vard bítislaust á eptir lengi sídan. Þá fèllu margir snaudir menn, ok gekk hettusótt; er mælt at 54 dæi í Trèkyllisvík, en 34 umhverfis jökul, meir enn 100 um Fljót ok Olafsfjörd ok þar nordr; 70 segir Benedikt prestr dáit hafi af húngri í Svarfadardal, en 30 í Höfdahverfi, ok at því skapi annarstadar nordr undan. Hval þóttust menn sjá í ísi fyrir Mallandi á Skaga, gengu fjórir á ísinn, en hann losnadi í sundr, ok ráfudu þeir vída, til þess er þeim vard bjargat á skipi frá Bæ á Höfdaströnd. Sydra voru mikil frost. Þann vetr voru tveir menn í haldi í Vídidalstúngu med Páli Jónssyni Vídalín, er þá var settr sýslumadr yfir Dalasýslu; hètu Þorsteinn Þorleifsson ok Olafr Brandsson; þeir höfdu drepit Jón Olufarson hinn mesta þjóf ok illmenni, ok dysjat sídan. Páll fèkk á þeim misserum sýsluna. Björn biskup fór nordr at Hólum á Gói ok settist þar, en tók sídan vid stadnum í fardögum. Um vetrinn dó Þorlákr, son Bjarnar

at Laxamýri at Þorsteins sýslumanns á Vídivöllum, systursonar síns, hafdi verit med hönum í elli; en Pètr Gudmundarson frá Flatatúngu, annar systurson Þorláks, dó at Ara prófasts, bródur síns at Mælifelli, ok lifdi hann þá einn eptir þeirra brædra Gudmundarsona. Þorlákr, son Þórdar biskups, lagdist af verk miklum í læri, ok tveir skólasveinar í Skálholti voru strýktir fyrir galdra medferd, ok reknir úr skóla. Var ein kona tekin af fyrir dulsmál sudr í Höfnum. Þá rak 3 hvali á Grenjadarstadar reka, ok gaf Skúli prófastr Þorláksson einn fátækum allan.

## XXXV Kap. Andlát Þórdar biskups.

Meistari Þórdr biskup hafdi lengi verit mjög veikr alla stund, hann hafdi verit gudhræddr ok bænrækinn, ok hinn kennimannligasti í öllu framferdi, ávarpi ok búnadi, svo at eigi gekk hann hradara einn tíma enn annann, hvert sem úti var hret eda skin, ok varla reid hann hesti skeid. Hann var vel hár medalmadr, ok þykkr eptir hæd, medan hann hèlt heilsu; hann hatadi allan ósid, ok mest drykkjuskap eda vanskikkun presta sinna á mannfundum, fastadi hvern föstudag, ok gjördi gott naudstöddum mönnum, lèt engan fara synjandi. Var þá sem á dögum forverja hans, mart veizlulid í Skálholti bjargþrota manna, hvört ár. Hann lèt smída líkkistu sína ok konu sinnar 6 vetrum fyrri enn hann deydi, þá hann fann heilsubrest sinn, ok byggja gröf þeirra fyrir innan nordrstúku dyr í Skálholts kyrkju. Hann var stjörnufródr, gefinn fyrir mælíngarkunst, ok rím-madr mikill; eigi var hann hradmæltr nè hámæltr, en vandadi sem bezt verk sín í tómi; virtr var hann ok ástsæll, þótt hinum eldri mönnum þætti hann ei jafnmikill skörúngr sem Brynjúlfr biskup; hann var ör ok gestrisinn vid góda menn ok vini sína, ok hafdi optast nær fyrir sitt bord sjálfr útlenzkan steikara eda matreizlu-stúlku; lèt hann hina helztu dómspresta sitja at bordi med sèr í tjaldi sínu á alþíngi jafnan, ok ræddi vid þá um vandamál, eda hvad sem til var. Adra presta lèt hann fá matar ok drykkjar í Þíngvallastofu, sem þiggja vildu, ok hressíngar skál, medan sýnódus stód, en þakkadi at lyktum öllum fyrir þángatkomu sína ok adstod, ok fann einnin at því sem hönum þótti þurfa, svo at hann gætti jafnan virdíngar sinnar ok góda mannords. Rádsmanns virdíngu hnignadi mjög á hinum sídustu

árum hans, ok vard flest at koma til biskupsins, svo at rádsmadr hafdi varla byggíngarrád yfir kotum, ok hlýddi biskup allmjög á fortölur bænda; þótti ok rádamönnum lítit kaup sitt, því þeir höfdu 15 hundrud fyrrum, ok mart óreiknad, en nú þótti þeim talit, þó smátt væri, ok at þeir fengi ei annad enn þat, sem biskupi þótti stadrinn helzt missa mega. Fengust þá ei-forsjálir menn, er nokkud voru stórhugadir, til at bera nafnit ok vandann ok ámæli, ef nokkud mistókst, en ráda litlu; vard sá at lyktum sem skorti skyn ok framkvæmd, er helzt lá á, en þá var húsbóndinn karlægr, en árit hid hardasta til lands ok sjáfar; var þá vant allrar forsjár fyrir stadnum, en kostnadr ok mannhald óþarfligt med óttaleysi, svo mart þótti þar mjög á trèfótum gánga, ok þó án vilja biskups edr vitundar, en gjördist hönum svo sjúkum til mikils ángrs. Þennan vetr fann Amtmadr Muller biskup fyrst í Skálholti; en nokkrum tíma sídar leiddi vanheilsa hans hann frá þessum heimi, hinn 16da dag marzí mánadar; var hann þá á 60ta aldrs ári, en 20ta ok þridja sídan hann kvæntist; hann hèlt ok Skálholts biskupsdæmi nær þremr árum hins þridja tugar, en biskup var hann alls hálfan þridja tug vetra. Einn prest skorti á 100, sem hann vígdi, ok urdu þrír biskupar, ok voru meistarar: Björn, Jón Vídalín ok Steinn. Hinn 26ta dag þess mánadar var hann grafinn virdúgliga, þar sem hann hafdi fyrirmælt, ok gjördi Arni prófastr Þorvardsson líkprèdikun eptir hann, en sjálfr hafdi hann valit at texta úr hinum 39da Davíds sálmi: „Drottinn! heyr þú bæn mína, ok gæt at mínu hrópi, þegi ekki vid minni grátbeidni, því eg er hjá þèr pílagrímr ok innbyggjari sem allir mínir fedr. Húsfrú hans Gudrídr Gísladóttir, Magnússonar, hafdi sèr til uppheldis 6 jardir stólsins eptir konúngsbrèfi. Þorlákr var son þeirra, er nýordinn var skólameistari, ok hafdi lagzt af meinsemd sídan um vetrinn eptir jól, en annar hèt Brynjólfr eptir meistara Brynjólfi biskupi; tóku allir sonarsynir Þorláks biskups Thorlacíuss nafn.

## XXXVI Kap. Tilburdir sem framfóru.

Þá andadist Markús í Asi, er lengi hafdi verit sýslumadr í Vestmannaeyjum, son Snæbjarnar prests Steffánssonar, Gíslasonar biskups, hann hafdi átta Kristínu, dóttur Einars Hákonarsonar, ok voru þeirra börn: Gróa, kona Páls Torfasonar sýslumanns á Kyrkju-

bóli; Ragnheidr, er átti Þorvaldr prestr á Skammbeinsstödum; Katrín, ok Gudrún, er átti Bjarni Gíslason af Stokkseyrar-ætt. Annar deydi Hallkell prestr Steffánsson á Hvalsnesi. Þá var kidunabbamál í Þíngeyarþíngi, ok lèt Arngrímr sýslumadr Hrólfsson dæma Jón, er geitina hafdi krufit, ok tekit úr mörinn, til húdláts ok brennimarks. Skiptapi vard í Mýrdal austr med 15 mönnum, annar undir Eyafjöllum; þridji at Eyrarbakka. Vetr þennan gjördu Nordanmenn lestir sudr til fiskikaupa; urdu þá vída menn úti. Skip týndist á Akranesi med 5 mönnum, þeir fóru úr kaupstad, ok hugdu menn drukkna verit hafa, hèt sá Steffán Olafsson, er formadr var. Hvalr grandadi báti á Gufunesi, med 3 mönnum, ok sáu menn hann gleypa tvo. Konúngsbrèf komu nokkur út: eitt um skipti á búum daudra manna; eitt um hina verstu mordíngja, at þeir klipist þrisvar, ok höfud ok hönd setjist á staur; eitt var stadfestíng á Testamenti Asu Torfadóttur, Erlendssonar, til Hans Vilhjálmssonar Londemanns; eitt stadfestíng Páls Vídalíns í sýslu hans, ok annat um Víse-lögmannsdæmi, en fulla lögsögn eptir Sigurd Bjarnarson, sem hann hafdi beidst eptir. Bjarni í Arnarbæli Bjarnason, Jónssonar Dans, var lögsagnari hans fyrst, ei var einmælt um þann Bjarna, at hann væri sonur Jóns Dans, en Magnús Bjarnarson hafdi fyrst verit í Dölum, ok tók þá Snæfellssýslu ok Stapa-umbod, ok var eitt brèf veitíngarbrèf hans fyrir því. Þá var drekkt á alþíngi Jóreidi Þorgeirsdóttur úr Ölvesi, er geymt hafdi barn sitt andvana um hríd, ok fært sídan þeim manni, er hún lýsti födur at, hann hèt Asbjörn Þorvardsson, ok synjadi. Jón Jónsson hèt madr úr Skagafirdi sá er kalladr var Gráni, en annar Sigurdr Skúlason, þeir voru hengdir þar fyrir stuldi. Þeir menn voru ok teknir af, er þjófinn höfdu drepit. Þá var mikill grasbrestr um sumarit, ok hinn mesti kuldi, en þó gott sydra ok vestra. Amtmadr skipadi Jón prest Vídalín Þorkelsson í Gördum officialem yfir Skálholts biskupsdæmi; en kallat var at Þórdr biskup hefdi súpplísèrad til konúngs, ok bedid þess at Jón yrdi biskup eptir sig, ok mælt hid bezta fyrir hönum, fylgdi ok amtmadr því, svo at Olafr prestr fengi sídan Garda; fyrir því fór Jón prestr utan um alþíng med hinu fyrsta skipi, ok studdi Gudrídr húsfrú hann med peníngum ok ödru, sem hún mátti, ok ætludu menn hún mundi hyggja sèr þat til nota sídar, þótti þat bædi fýsiligt, ok var kölluð fjörmikil; var Arni prófastr Þorvardsson í Arness-

þíngi officialis á medan, ok visitèradi Austfjördu. Jón, son Einars prests í Gardi, Skúlasonar prests í Goddölum, Magnússonar, fèkk konúngsbrèf fyrir skólameistaradæmi á Hólum, þá laust yrdi. 30 eda 50 menn röskvir ok vel vaxnir skyldu þá fara utan til hersins, fra 18 vetra til 26 vetra at aldri, ok eiga aptrkvæmt um 2 ár eda 3; en Islendíngar báru fyrir sig manneklu ok hardindi, ok bádust uppgjafar, fjölgadi þá þó enn fólk í landi sumstadar, því þess gat Arni prófastr Þorvardsson, er hann visítèradi Múlasýslu, at tíundir minkudu, en fólk fjölgadi. Kristján Muller amtmadr fór þá enn utan, en Lárits Gottrûp lögmadr hafdi umbod hans. Þá var kalt ok snjóasamt um haustit, ok týndist skip í Keflavík undir Jökli med 8 mönnum; annat med 6 mönnum á Völlum. Vída urdu þá hey úti. Kona var tekinn af á Kópavogi, hûn hafdi fleygt barni sínu fyrir sjáfarhamra. Þat haust fór utan Brynjúlfr, son Þórdar biskups, en Þorlákr skólameistari, bródir hans, er þann starfa hafdi haft eptir Pál Vídalín, andadist fyrir allraheilagramessu, ok hafdi þá legit hræríngarlaus lángt á annad ár, hann var tvíellefstr; þjónadi Jón Einarsson því embætti þann vetr, þar til er Þórdr, son Jóns biskups Vigfússonar, tók vid. Um þær mundir tók Geir prestr Markússon vid prófastsdæmi í Þíngeyarþíngi af Skúla prófasti Þorlákssyni á Grenjadarstad. Þau misseri var borinn Steffán Einarsson; ok gat Egill prestr Sigfússon, er skólameistari hafdi verit, ok þá hèlt Glaumbæ, barn ókvongadr, svo hann missti prestskapar um sinn. Þorleifr Arnason gjördist prófastr í Skaptafellsþíngi Þann tíma fóru margir búendr úr Nordrlandi, nær bjargþrota, vestr til sjáfar.

## XXXVII Kap. Jón Vídalín vígdr til biskups.

Jón prestr Þorkelsson Vídalín kom til Kaupmannahafnar um haustit, ok bar fram sûpplikazíu sína, fylgdi henni svo vel fram vid konúnginn Mattías Móth yfirsekretèri sem hann mátti, hafdi hann mikit traust Kristjáns konúngs fimta, ella ætludu menn at danskr biskup mundi sendr ordit hafa út híngat, frændi Nielsar Juuls, edr hönum tengdr at nokkru, en Niels Juul var hinn mesti hermadr ok hreystimadr ok mjög kær konúngi, ok mælti fram med hönum. Hafdi þat mjög verit talit fyrir konúngi, at danskr madr mætti eins vel fremja biskupsembætti í landi hèr sem inn-

lendr, ok því framar, sem hann væri lærdari ok betr at sèr. Þarum rœddu þeir Juul ok Móth, svo at konúngr heyrdi á, ok spurdi þá Móth hann at, hverr naudsyn mundi mest þykja fyrir biskup at framkvæma? hvört þat mundi ei at yfirheyra presta í kenníngum þeirra, ok vita hvert þeir kenndi rètt guds ord? prófa fáfrodan almúga í trúarbrögdum hans; leidrètta ok fræda hina einföldu, en hugga nákvæmliga freistada menn ok sturlada, ok þvílíkt annad? hvörsu má nú, sagdi hann, danskr madr eda útlendr, sá er lítit eda ekki skilr í íslenzku máli, gjöra þvílíka hluti svo vel ok vandliga, sem hann mætti svara Gudi fyrir ok konúnginum, nema hann lærdi ádr tvö ár eda þrjú, at mæla ok skilja rètt íslenzka túngu? Þá er mælt, at konúngr hafi svarat til, ok kallat Móth hafa rètt at mæla, ok fyrir því skyldi hinn íslenzki madr í biskupsdæmit. Var sídan gefit út konúngsbrèf Jóni presti Þorkelssyni fyrir því embætti, hinn 16da dag desembris mánadar, en vígdr var hann 1698
biskupsvígslu af Doktor Hans Bornemanni, Sjálands biskupi, hinn fyrsta sunnudag eptir páska hátíd, ok fèkk meistara nafnbót.

## XXXVIII Kap. Óár í landi ok annat.

Sá vetr var gódr, en þó dóu snaudir menn, er yfirfóru, vestr ok sudr um land; var hinn mesta óöld af stuldum ok ránskap vída um sveitir, brotnar hirdslur ok hús, ok saudir teknir úr fjárhúsum, ok þó þeir væri luktir í badstofum, er svo fátt var til, voru þeir teknir þadan, en stundum skornir ok skilit eptir höfud, gærur ok innifli, stundum tekinn mör einn úr. Var umferdin óbærilig búendum; kom fjöldi at vestan, ok voru fluttir á einum degi úr Flatey ok Bjarneyum á Breidafirdi 60 menn bjargþrota í land; ok er hvergi gagnsamara á Íslandi enn í Breidafjardareyum. Fjöldi dó í milli bæa. Sjógæftir voru bágar, en fiskadist þó vel sydra ok vestra. Fjárskadar urdu í Borgarfirdi, ok skip tvö týndust í Keflavík vestr, ok 9 menn af. Hákallatekja var mikil um Fljót ok Olafsfjörd. Bádir gengu þeir dóma um vorit í umbodi Lárusar Gottrúps, Jón Illhugason ok Björn Hrólfsson í Dal. Þá dó Jón prestr Didriksson at Keldum, Jón prestr Gíslason í Middal, ok Einar prestr at Stad í Steingrímsfirdi, er fyrr er getit vid málaflækjur ok annad, Torfason, Snæbjarnarsonar, bródir Páls sýslumanns. A skírdag dó Þórunn Benediktsdóttir, sýslumanns í Skaga-

firdi Halldórssonar, kona Gudbrands Þorlákssonar biskups, hann bjó þá í Vallholti, ok var lítt vinsæll, ok ólíkr gódum frændum; þau höfdu átt eina dóttur Ragnheidi, ok ærdi Gudbrandr hana, Þorlákr hèt ok son þeirra. Milli páska ok hvítasunnu dó Gudrún Þorsteinsdóttir, systir Einars biskups, módir Þorsteins í Bólstadahlíd, gömul mjög. Þá var Hólastadr afhendr meistara Birni. Fuglafli var mikill vid Drángey, en stolit hafdi verit úr Hofsósbúdum um vetrinn til 18 hundrada fiska, ok vard ransókn mikil. Þá bjó at Sokku í Svarfadardal Ari, son Jóns prófasts úr Vazfirdi Arasonar, hann fór á báti yfir fjörd til Laufáss, ok mætti andvirdi í heimleid, ok nádi landi sem nauduligast, ok barg á land fèlaga sínum ok farángri, ok andadist sídan af vosi ok kulda.

## XXXIX Kap. Frá Jóni biskupi.

Öndverdliga á því sumri kom út meistari Jón biskup Vídalín, hafdi hann fundit ádr í Kaupmannahöfn Þórd, son Jóns biskups Vigfússonar, er þá var sem mest virdr, sídan hann vann mál födur síns, ok farit hafdi utan eptir Jóni Þorkelssyni, ok viljat freista at sækja um biskupsdæmi, en svo hafdi samizt med umtölum vina þeirra beggja, ok helzt Arna Magnússonar, at Þórdr bekktist ei til vid hann, heldr skyldi hann hafa þat gott af hans upphefd, sem Jón biskup mætti veita hönum, ok binda vid hann trygdir ok tengdir, sem sídan komu fram. Tók Jón biskup vid Skálholtsstad í fardögum, ok brast þar mjög hina naudsynligustu innstædu, smjör, skreid, kúgildi ok annann kvikfènad, tók hann fyrir þat ýmsa hluti, ok þarámedal hálfan Teig í Fljótshlíd fyrir 50 hundrud, ok þó hvört hundrad á tíu dali, en þat var þá hálft þridja hundrad, ok gaf sídan Brynjúlfi Þórdarsyni, er þá var út kominn, kvittanzíu skýlausa fyrir Skálholts dómkyrkju inventaríum, eptir því sem meistari Þórdr biskup hefdi medtekit af sínum formanni meistara Brynjúlfi; en þat veitti eptirköst seinna. Var meistari Jón biskup hverki ásvellr um þá afhendíngu, enda var kallat svo í gard búit. Reisti hann bú á hálfum heimastadnum móts vid Gudrídi húsfrú, ok gjördist brátt umsvifamikill ok framsýnn, ok útvegadi skreid ok matfaung, þó hart væri árferdi, ok svo adra hluti, hvar sem fá mátti, vestr eda austr eda sudr um land, ok horfdi í engan kostnad, til þess hann væri at birgari; lèt ok mjög

stunda veidiskap í Brúará, Hagaósi, Höfdavík, Apavatni ok þíngvallavatni hjá Midfelli, ok lágu þar sumir menn hans á sumrum med bát ok lagnet, var þat lengi mikill styrkr. Hann var hinn blídasti ok lèttlátasti í umgengni vid smámenni, en ríklundadr vid stórmenni, ok hinn skarpasti madr, á þann hátt sem verit hafdi þorkell prestr Arngrímsson fadir hans; hann var hinn mesti mælskumadr, ok svo mikit látínuskáld, at mæla af munni fram, at eigi var hans jafníngi, hvar sem leitat var, ör ok gódgjarn ok vidkvæmr í þraut. Hann var vel í vexti ok limadr vel, frídr sýnum ok tígugligr, skarpeygdr ok snögglyndr, lærdr var hann næst meistara Brynjúlfi. Hann setti þá þegar Sigurd prest Eyólfsson í Arnarbæli frá prestskap, fyrir þat at hönum var kennt barn of skömmu eptir brúdkaup hans, en seinna meir, þá er hann steig framyfir vid Jón kapellán Torfason á Breidabólstad, ok sektadi at eins med fèbótum, ok vid Vigfús prest Jóhannsson á Hvalsnesi fyrir rángt atferli í sakramentis útdeilíngu, kölludu óvildarmenn hans þat jafnadarleysi; var eigi trútt um at sumir ríkismenn óvirtu hann ei, fyrir þat er hann hafdi verit málamadr í her. Er svo sagt af þeim, er sannfrètt þykjast hafa, at þá er hann visíteradi fyrst Austfjördu, ok setti tjöld sín hjá Bustarfelli, færi Björn Pètrsson sýslumadr at hönum til tjalds med ótta nokkrum ok glettíngum, til þess er biskup syndi hönum med korda sínum, hvad hann átti undir sèr, ok sídan, er Björn baud hönum til stofu, þág hann ekki af hönum annat enn fulla virdíngu; en þat stórged fèll Birni svo vel í skap, at hann vard sídan vin hans mikill. Hann þoldi öll mótmæli illa, ok vard af því þrætusamt á hinum fyrri árum sínum.

## XL. Kap. Frá ýmsu.

Þetta sumar kom út Muller amtmadr, ok brèf konúngs til Steins prests Jónssonar í Hítarnesi fyrir Setbergi, þegar losnadi; fèkk amtmadr Lárusi lögmanni Gottrúp umbod sitt, ok fór utan aptr; var þá mikil vinátta þeirra. Á alþíngi var dæmt líflát Erlendi Gíslasyni úr Rángárþíngi; hann hafdi lostit Gísla Jónsson, er bjó í Holtamannahrepp, med vakastaung, svo at hann fèkk bana af; var hann þó miklu minni fyrir sèr, ok gjördi þat ei um sakleysi, ok því var skotit til konúngs nádar. Þar komu fyrir þjófsdómar

Skapta Jósepssonar, er þá var lögsagnari Þorsteins Þorleifssonar í Skagafirdi, ok bjó at Þorleifsstödum; einninn mörg mál Páls Torfasonar, sýslumanns úr Isafirdi, ok mál er Rögnvaldr, son Sigmundar Gíslasonar, sýslumadr á Ströndum, ok Þorbergr prestr í Vík höfdu at kæra til Gudmundar í Avík, sonar Vilhjálms sýslumanns Arnfinnssonar, um ofsa hans ok ilt atvik. Lárits Gottrûp ok Torfi sýslumadr á Bardaströnd Jónsson, Torfasonar, ok Arngrímr Hrólfsson ok enn fleiri sýslumenn höfdu þar mál. Voru þá dæmdar rètttækar Vestmannaeya systrnar Ingibjörg ok Ingvildr, hvar sem fyndist á landi; hafdi Ingibjörg getit barn á Vestfjördum med þeim manni er Arni hèt Jónsson, ok skyldi hann svara 13 mörkum, fyrir þat hann vissi útlegd hennar; hún komst í duggu enska, ok giptist á Englandi. Madr hèt Jón Gudmundarson frá Austmannsdal, er strýktr var á alþíngi fyrir marga órádvendni, ok at hafa barit prest sinn, fèkk hann 200 högg, ok sá ei á hönum, hýddu þó tveir til skipta; sídan keypti hann brennivín, ok gjördist drukkinn, ok bjóst til heimferdar; fannst hestr hans ok farángr skamt frá Þíngvelli, en sjálfr hann aldrei sídan, ok ætludu menn farit mundi hafa í vazgjá; grunadi suma, bödullinn mundi hafa stjakat hönum í hana. Nikulás, son Einars biskups, fèkk þá Reynistadar klaustr. Þá tók Velli í Svarfadardal ok prófastsdæmi í Eyafirdi Þórdr prestr, son Odds prests í Holti undir Eyafjöllum; Olafr prestr Gudmundarson vildi þat ekki; ok Olafr, son Arna í Haga, til fulls Vestmannaeya-sýslu; Jón bródir hans bjó þá í Keldunesi. Dó Þórarinn prestr Jónsson á Hrafnagili, er prófastr hafdi verit í Eyafirdi, ok Þorleifr lögmadr gamli Kortsson í Bæ, þat var snöggliga, um þíngtímann; en Páll Vídalín bjó þá í Vídidalstúngu, ok hafdi lögsagnara sinn í Dölum, Bjarna Bjarnason frá Arnarbæli; hans dóttir var Ingvildr, er átti Benedikt Jónsson í Hrappsey, Pètrssonar, módir Boga; annar lögsagnari Páls var í Dölum, ok tók vid þessi misseri, Þorlákr, sem kalladr var Vídalín, son Gudbrands, módurbródur Páls, Arngrímssonar hins lærda. Jens Jörgenson umbodsmadr fèkk þá Soffíu, systurdóttur Lárusar lögmanns Gottrûps, ok var brúdkaup þeirra at Þíngeyrum at Lárusar. Þat haust kom út Þórdr, son Jóns biskups Vigfússonar, ok gjördist skólameistari í Skálholti. Egill Sigfússon í Glaumbæ fèkk prestskap aptr, ok galt þó 50 dali, en Jón Magnússon í Hjardarholti missti fyrir hórdóm. Þorbjörg Eyríksdóttir, er búit hafdi ógipt í

Djúpadal í Skagafirdi, dó þá þremr vetrum minnr enn níræd, ok afsagdi med öllu, at líkkista væri gjör at sèr. En Jón Þorsteinsson, lögrèttumadr í Egilsholti, er kallat er Eyhildarholt, gekk á ta í jólum til Frammness ok Þverár til tengdamanna sinna, ok tladi at koma at yztu Grund, en kom ei þar; fannst hann sídan örendr fyrir ofan stóru Gröf á Lángholti, ok lá á grúfu med adra hönd í barmi sèr, vissu menn ei hvad olli, því madrinn var sterkr ok hraustr, ok vel klæddr, en vedr eigi hart; hann hafdi átta Steinunni Steingrímsdóttur, systur þeirra Jóns ok Þorsteins ok Sigfúsar ok Gudrúnar, módur Steins, er þá var prestr at Hítarnesi; þeirra son var Olafr bryti.

## XLI Kap. Vetrarfar.

Eptir allraheilagramessu hafdi gjört hardan vetr ok fjúkasaman med frostum miklum, lagdi þá Hvalfjörd, svo at gengit var af Hvalfjardareyri at Klafastödum; ei sá heldr audan sjó af skaga á Akranesi; var enginn dagr fjúklaus um jólin, urdu þá úti ei færri enn 20 menn, þeir er med skilum urdu taldir, en fyrir nordan hafdi lagt at med Michaelsmessu. Þá var ridit úr Gardi yfir Stakksfjörd 1699
inn á Vazleysuströnd, en álptir ok sjófuglar lágu brönnum vid sjóinn, frosnar til bana; sligudust skógar, ok brotnudu af snjóþúnga ok kól, svo þeir fèllu nidr, fúnudu ok eyddust í mörgum sveitum af slíkum frostavetrum hverjum eptir annann, kól ok menn marga; hófst þareptir manndaudi, sá er stód um þrenn misseri, af þeim hardindum. Þat bar til á sunnudags kvöld í midjan þorra, at snjóflód fèll á bæinn á Reynivöllum í Kjós, ok braut bæarhús öll, en þau voru þá sterk ok nýbyggd; þar bjó Oddr prófastr Jónsson bartskera, merkiligr madr ok göfugr, hann gekk um gólf í badstofu ok til dyra, ok mælti: eg meina at eg heyri til snjóflóds, ok í því skall húsunum ok kollvarpadi, ok týndist hann, ok sex menn adrir, en 7 fundust med lífi, er til var grafit, ok var eitt systir prófastsins handleggsbrotin, ok hèlt á barni. Þángat kom eptir hann Torfi, son Halldórs prófasts í Reykhólti. Annat snjóflód fèll hina sömu nótt at Hurdarbaki, gagnvart Reynivöllum, þat kom á fjósit, ok dráp 13 nauta, ok snjóflód skemdu 2 bæi á Vestfjördum, ok tóku naut, var annar Otrardalr; urdu þá vída fjárskadar. Hlutir voru litlir nema fyrir austan, ok matskortr mikill

ok mannfall vid sjóarsíduna, dóu 70 af húngri undir Jökli. Þann vetr lá Hvítá í Borgarfirdi uppundir stóra Ás, en Skorradalsvatn lá frá allraheilagramessu til fardaga. Ís var fyrir nordan land, ok enginn afli til þíngs. Á einmánadi hröktust til bana 40 hestar ok eitt hundrad fjár á þeim bæ er á Flögu heitir austr á Sídu. Var kalt ok hart vorit, ok sá lítt til jardar á sumarmálum vid fjallgardinn. Voru stjörnuleyptranir miklar. Ekki voru þá at Hólum nema 20 skólasveinar, sakir fiskleysis. Þá týndist skip á Isafirdi med 5 mönnum, annat í Bjarneyum med 6; voru smáhvalir 140 grýttir á land í Helgafells sveit. Þá dó margt umfarandi fólk, ok var skortr á öllum hlutum.

## XLII Kap. Frá því ödru er vidbar.

Á þeim misserum keypti Lárits Skevíng sýslumadr margar jardir, er Björn Magnússon hafdi áttar; leyfdi þá konúngr Jóni sýslumanni Eyólfssyni, at búa utan Kjósarsýslu at Nesi vid Seltjörn, ok hafa lögsögn í Gullbríngusýslu; veitti einnig Jóni presti Torfasyni frá Gaulverjabæ Breidabólstad í Fljótshlíd, ok fleirum prestum köll. Kom Kristján Muller amtmadr út um sumarit med kaupförum, en fór utan aptr, ok setti Lárits lögmann í sinn stad. Jens Jörgenson fógèti sat at Bessastödum, tók landsgjöld ok veitti lèni; höfdu þá 4 menn danskir landsgjöld öll vís ok óvís, einnin hafnartolla, vogrek, festufè, ok veidi í Hellirám, ok allt nema hauka; segir Benedikt prestr mælt hafi verit, þeir skyldu gjalda konúngi hvert ár 50 þúsundir 400 þrjátíu ok 6 ríkisdali ok fjóra skildínga. Sumar var allgott. Þá drap þruma 14 saudi í húsi í Ossabæ, ok braut hvert bein í. Þorlákr, son Gudbrands Arngrímssonar, var lögsagnari í Dalasýslu, en Skapti Jósepsson í Skagafirdi, Þorgrímr Jónsson í Reykjahlíd í Þíngeyarþingi, því Arngrímr Hrólfsson, sýslumadr á Laugum, krenktist. Á alþíngi var Jón Sigmundarson dæmdr til hengíngar fyrir tvennan stuld, ok lánga kynníngu illa, ok hengdr sídan, en annar, er Steingrímr hèt Helgason, var dæmdr, hann slapp ok nádist aptr af Þórarni bónda at Ásgeirsá, sem kalladr var hinn ríki, ok var hengdr sídan í Vídidal, lèt Lárits lögmadr brenna kroppinn, því hann hafdi heitit at gánga aptr, ok drepa hann innan þriggja daga. Önnur mál voru smærri. Hólmfastr Gudmundarson, hjáleigumadr á Brunnastödum, var ákærdr af

Knúti Storm kaupmanni á Keflavík, um at hafa selt úrkastsfisk nokkurn í Hafnarfirdi, ok var hönum dæmd fèsekt á Kálfatjarnarþíngi, ok hýddr er hann mátti ei gjalda, en sett til konúngs um Brimarahólms þrælkan. Ari Þorkelsson Gudmundarsonar, sýslumadr á Bardaströnd, lýsti skipbrots-vid á þíngi, ok mörgum var þar lýst óskilamönnum. Tveir voru hengdir fyrir nordan, hèt annar Sveinn Halldórsson úr Borgarfirdi, en mjög margir voru hýddir ok markadir vída, því ránskapr var næsta mikill. Þetta sumar hinn 25ta dag ágústí mánadar andadist Kristján konúngr 5ti, en Fridrekr son hans hinn 4di med því nafni tók ríki eptir hann. Þá endadi lögsögn Þorláks Gudbrandssonar í Dölum, en Jón Magnússon frá Hjardarholti var lögsagnari Rögnvalds Sigmundarsonar, ok lèt Rögnvaldr af Strandasýslu vid hann. Hinn 15da sunnudag eptir Trínitatis var haldit brúdkaup meistara Jóns biskups Þorkelssonar í Skálholti, ok Sigrídar Jónsdóttur biskups, Vigfússonar, ýngstu systur Þórdar skólameistara, med rausn mikilli, voru þar 23 prestar, Sigurdr lögmadr Bjarnarson, sýslumenn ok annat göfugmenni, en ádr hafdi verit kaupöl þeirra at Leirá; en þó þar væri fjölmennt, þá var þar hverki Gudrídr húsfrú nè sonur hennar Brynjúlfr Þórdarson, þau voru litlu ádr alfarin at Hlídarenda, ok þótti sem dofnud mundi hin mesta vinátta þar í medal. Nokkru sídar, edr hinn 21ta dag októbris mánadar, var haldit at Hólum brúdkaup Jóns, er kalladr var Thorlacius, sonar Jóns Þorlákssonar sýslumanns í Múlaþíngi, ok Gudrídar Einarsdóttur biskups med veg miklum; voru þeir brædrasynir Brynjúlfr Thorlacíus Þórdarson ok Jón. Þá vard víg sydra eda mord, var madr stúnginn med broddstaf, er rauf hús til stuldar, af þeim er fyrir var, en fannst sídan daudr ok idrin úti, ok ætludu menn förunautr hans hefdi ábætt, viljad eigi flytja hann til bæa. Þorsteinn prestr at Svalbardi Jónsson, Runólfsonar, dó, ok Bergsteinn prestr í Breiddal austr meirr enn áttrædr, dótturmadr Magnúsar prests Jónssonar á Mælifelli; Einar prestr Nikulásson gamli á Skinnastödum, fadir Jóns prests, er kalladr var greipaglennir ok þeirra systkina; Olafr, son Magnúsar prests Jónssonar gamla á Mælifelli, hálfbródir Skúla prests hins gamla í Goddölum, hann var lögrèttumadr. Jón Bjarnarson frá Espihóli, Pálssonar, hafdi haft fásinnu, ok var þá med Magnúsi bródur sínum, hann druknadi á för í kýl einum. Skip týndist á Skaga í logni, ætludu menn komit hefdi í þúngan drátt,

ok hvolft svo. Jón Hallsson, Gudmundarsonar prests í Felli, Erlendssonar, ýnglíngr, fór vestr undir Jökul, ok stakk þar konu í arminn, fyrir þat hann fèkk ei mat, var hann stúnginn aptr, ok vard úti sídan. Þjófaöld var mikil, sem fyrr segir, ok nádist Þorleifr Jónsson útileguþjófr med hinum borgfirzka, er ádr getr, ok var hengdr med hönum. Ok er Björn biskup mátti ei halda skólann á Hólum sakir fiskleysis, gjördi hann menn út um vetrnætr vestr undir Jökul, komu þeir aptr fyrir jól sjálf, med hesta mjög þrotna. Voru dampar í lopti, ok gjördu menn sèr ímyndir af lögun þeirra óvenjuligri, þóttust sjá í hádegis stad á annan dag jóla 6 ský med ýmsum litum, ok tvö sem bodordatöflur máladar, voru helzt regnbogalitir í, en þat er edliligt, ok boda slík ský jafnan úrkomur ok rosa stóra ok lángvinna, ok eru köllud gyllini ský.

## XLIII Kap. Frá ýmsu.

Ekki var vetr sá mjög frosthardr, en þúngr ok rosasamr med snjóum ok svipvidrum frá Marteinsmessu, ok svo allr þadanaf. Var
1700 þá hallæri mikit um allt land, svo margir menn dóu af sullti, ok mest fyrir sunnan ok vestan umferdarmenn, ok svo búdamenn, er sjóarbændr höfdu dregit at sèr á fiskiárum, til at fleyta bátum sínum, en fengu nú ei bjargat. En þúngi ógrligr útarmadi sveitirnar, því húsfyllir var á bæum af farandi mönnum hverja nótt, þar sem þeim vard nokkud gefit. Var þá etit hrossakjöt, er þó þótti ókvædi, ok svo hrafna, ok hvad sem tönn festi á, gekk hneppusótt ok blódspýa. Vedr voru þá ofsalig, ok urdu skiptapar miklir, fleiri enn 20 á sudrnesjum ok í Gullbríngusýslu, á þeim týndist hálft annad 100 manna, ok 129 af þeim á föstudaginn seinastan í gói, er var hinn 8di dagr marzí, á einni eykt. 4 skip týndust á Vestrnesi ok 7 menn á hins þridja tugar; skip í Vestmannaeyum med 9 mönnum, skip á Akranesi. Svo segir Þorlákr Markússon, at farizt muni hafa í sjó 400 manna þann vetr allan, en ei veit ek annan sann á því; var þá kalladr mannskada-eda páskavetr, því svo mikil nordanhríd var á páskadaginn, at hvergi vard lokit upp kyrkjum eda sóktar tídir. Ógrligir voru þá stuldir, ok voru tveir þjófar hengdir nærri Þíngeyrum, þridji á Sudrnesjum. Margir menn urdu ok brádkvaddir. Torfi bóndi á Keldum, son Gudmundar Torfasonar, Eyríkssonar, Bjarnarsonar, Þorleifs-

sonar lögmanns á Skardi, lagdist til svefns í kyrkju, ok fannst örendr sídan; annar vard brádkvaddr Illhugi Einarsson á Sólheimum, ok í Skálholti andadist þann vetr Eggèrt, son Þorsteins Þórdarsonar á Skardi; hann hafdi nýliga tekit inn drykk til heilsubótar sèr, ok var andadr þá at var hugad. Þorsteinn bóndi, fadir hans, andadist einnin, hinn göfugasti madr; hafdi hann engin völd þiggja viljat, ok svo Páll prófastr Gunnarsson á Gilsbakka; kom þar eptir hann Jón prestr eldri Eyólfsson prests frá Lundi. Þá dó einnin Arni prestr Amundason at Setbergi, en Steinn prestr Jónsson, Þorgeirssonar, tók þar vid. Þat vor lèt Lárits Skevíng, sýslumadr í Eyafirdi, dóm gánga at Grund í Svarfadardal um refsíng þá, er Erlendr Jónsson, hrèppstjóri á Sökka, lèt leggja á stelpur tvær illa kynntar, Sigrídi ok Gudrúnu, at hann skyldi gjalda 20 álnir til hreppsins; var sá Erlendr sonur Jóns Illhugasonar á Urdum, ok födurbródir Skúla prests Illhugasonar, en bródir Benedikts prests í Bjarnanesi, Jóns prests hins braudlausa ok vífna ok þeirra systkina. Sigurdr, son Einars biskups, var þá lögsagnari Lárusar Gottrûps.

## XLIV Kap. Skipti á rímstýl, ok fleira á þíngi.

Um sumarit kom út Kristján Muller amtmadr, ok vard alþíng fjölmennt; þar voru sýslumenn Páll Vídalín Víselögmadr, er Dalasýslu hafdi; Jón Magnússon af Ströndum (Arni, bródir hans, var þá jafnan erlendis); Ari Þorkelsson, Gudmundarsonar, ok Torfi Jónsson af Bardaströnd; Magnús Bjarnarson úr Snæfellsþíngi; Jón Jónsson, Jón Sigurdarson lögmanns frá Einarsnesi, Jón Eyólfsson í Nesi, Vigfús Hannesson úr Arnessþíngi; Olafr Arnason úr Vestmannaeyum; Isleifr Einarsson, Þorsteinssonar, úr Skaptafellsþíngi; Lárits Hansson Skevíng frá Mödruvöllum nordan; Arngrímr Hrólfsson úr Þíngeyarþíngi; Sigurdr Einarsson biskups lögsagnari; Gudmundr Sigurdarson lögsagnari úr Kjós; Skapti Jósepsson lögsagnari úr Skagafirdi. Þeir komu ei at austan: Björn á Bustarfelli, Jón Þorláksson biskups ok Bessi Gudmundarson, ei heldr Páll Torfason at vestan eda Þorsteinn Þorleifsson úr Skagafirdi. Lögrèttumenn voru, úr Múlaþíngi: Olafr Andrèsson, Eyríkr Bjarnason, Pètr, son Asmundar á Ormarstödum, Gísli Eyríksson, Jónssonar, Ketilssonar, Olafssonar prests á Saudanesi, Eyríkr annar Bjarnason. Ur Skapta-

fellsþíngi: Sigurdr ok Björn Þorleifssynir, Þorleifr Einarsson, Páll Bjarnason, Magnús Isleifsson. Ur Rángárþíngi: Sigurdr Magnússon, Pètr Jónsson, Gudmundr Einarsson, Steffán Jónsson, Gísli Gudmundarson, Sigurdr Jónsson, Jón Magnússon. Ur Arnessþíngi: Ofeigr Magnússon, Þorsteinn Eyólfsson, Brynjúlfr Jónsson, hann var lángfedgum frá Torfa í Klofa, Jón Hjörtsson, Andrès Finnbogason, Illhugi Vigfússon, Gudmundr Jónsson, Jón Gíslason, Bjarni Arnason, Sigurdr Gudnason, Jón Jónsson. Ur Kjalarnessþíngi: Runólfr Þórdarson, Erlíngr Eyólfsson, Gísli Illhugason, Jón Pètrsson, Sigurdr Högnason, Vilhjálmr Jónsson, Þorkell Jónsson. Ur Borgarfirdi sunnan Hvítá: Þorgeir Jónsson, Jón Þórdarson, Bjarni, son Sigurdar Arnasonar lögmanns, var þar nefndr. Af Mýrum: Þórdr Finnsson, Sigurdarsonar prests at Ökrum, Sigurdr Jónsson, Gísli í Munadarnesi, Þórarinsson, Illhugasonar, Vigfússonar, Runólfr Olafsson. Ur Þórnessþíngi: Bjarni Bjarnason; Olafr Gudmundarson, Arnbjarnarsonar; Sigurdr á Breidabólstad Pálmason, Henrikssonar; Brynjúlfr Asmundarson prófasts, Eyólfssonar. Ur Þorskafjardarþíngi: Olafr Arnason, Torfi Magnússon, Gunnlaugr Jónsson, Magnús Bjarnarson, Sigurdr Sigurdarson. Ur Húnavazþíngi: Hákon, son Jóns Eggèrtssonar á Hofstödum, Björn Þorláksson, Grímr Jónsson, Sigurdr Hannesson, Jón Eyríksson. Ur Hegranessþíngi: Skapti Jósepsson lögsagnari, Bergr Magnússon, Asmundr Einarsson, Magnús Gíslason, hann var lángfedgum frá Birni presti Jónssyni biskups; Jón ok Þorsteinn Steingrímssynir frá Hofi; Sigurdr Steffánsson var þar nefndr, frændi Magnúsar Gíslasonar, ok Jón Gudbrandsson prests frá Hofstödum, hann var nefndr í stad Skúla Olafssonar á Seilu. Ur Vadlaþíngi: Jón Einarsson, Jón Þorleifsson, Sigurdr Hrólfsson, Sigurdarsonar, Björn Hallsson, Bjarnasonar; Illhugi Grímsson, Sigurdarsonar, Hrólfssonar, Jón Jónsson. Ur Þíngeyarþíngi: Einar Einarsson, Gudmundr Gudmundarson, Þorgrímr Jónsson í Reykjahlíd. Þar var fyrst lesit upp konúngsbrèf um hollustueid Islendínga, er þeir skyldu vinna Fridreki konúngi, ok hafdi verit ákvedit, at menn skyldu til þíngs komnir fyrir Pètrsmessu, tók amtmadr þá eida hinn 1sta dag júlíí á eyrinni fyrir nedan lögrèttuna, ok var Lárits Gottrúp þá mest at rádum med hönum, ok enkis manns tillögur virdi hann jafnmikils; unnu fyrst eidinn biskupar bádir, meistari Jón Vídalín ok meistari Björn, ok lásu hann standandi hverr um

sig, þvínæst prófastar ok umbodsmenn þeirra, sem forföll höfdu, ok stódu á knjám; þeir unnu eidinn éptir því sem hann var lesinn fyrir þeim; sídan prestar med sama hætti; voru þrír prestar kalladir til úr prófastsdæmi hverju, en ádr höfdu adrir prestar, sem heima voru, gefit þeim umbod sitt. Prestar sóru 90 eda fleiri, en sídan sóru lögmenn ok hinir veraldligu, ok þareptir var skrifat af öllum undir eidana, en þat stód yfir frá dagmálum ok framm yfir sólarfall, ok mundu menn ekki þíng fjölmennara; en á þíngmaríumessu eptir framit embætti, var hinum helztu fyrirmönnum haldin veizla í búdum amtmanns ok landfógèta. Annat Konúngsbrèf var auglýst, at allir embætta- eda lènamenn skyldu taka nýa stadfestíngu konúngs fyrir embættum sínum, ok fá skyldu þeir hana gefins sakir fátæktar landsins, ok fór þat framm. Þá var hid þridja gefit út hinn 10da dag aprílis, um tímatalsbreytni eptir nýa stýl hèr ok í Færeyum, þvíat þángat til hafdi allstadar á Nordrlöndum verit haft hid forna tímatal, eptir rími Júlíí Cêsars, en Fridrekr konúngr gjördi á því breytíngu, svo at halda skyldi eptir rími Gregóríí páfa hins 14da, svo at þegar kominn væri 16di dagr nóvembris þessa árs, skyldi fella úr 11 daga, ok sunnudagrinn at morgni komanda teljast hinn 28di þess mánadar, ok svo allir messudagar færast áfram um 11 daga, tókst þarvid af allt hid fyrra rímtal, en þeir dagar voru í Danmörku teknir úr febrúarío. Eptir þeirri tilskipun settu lögmenn ok lögrèttumenn á alþíngi nidr tídamerki búskapar; hófst vertíd ádr sunnanlands á Pálsmessu, en endadi á tveggjapostulamessu, en hèreptir skyldi hún hefjast á Blasíussmessu, ok standa fullar 10 vikur hvert ár; hjúaskildagi var á Krossmessu edr 3ja mají, en nú skyldi vera hinn 14da næsta dag eptir Hallvardsmessu. Alþíng hófst hinn 29da júníí, þat er Pètrsmessa ok Páls, en skyldi nú hefjast hinn 8da júlíí eda seljumannamessu; heyannir hófust á þíngmaríumessu, en skyldi nú vera á Margrètarmessu 13da júlíí. Vetrarkoma var ádr haldin þann föstudag, sem fèll inn milli 9da ok 18da októbris, en skyldi nú vera millum hins 20ta ok 29da; sídan var vetrinn sjálfreiknadr 6 vikur ok 20, ok fardagar þá 6 vikur væri af sumri.

## XLV Kap. Enn frá þíngi.

Á því þíngi voru enn lesin konúngsbrèf um veitíngar nokkrar, ok landskrifara-embættis uppsögn Söfrens Mattíassonar vid Sigurd-

son Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar, ok vann hann eid sinn. Sakir voru margar fyrir, ok fáar stórar, nema um Andrès þórdarson þjóf úr Nordrárdal, hann var hengdr; ok ákæra kaupmanns vestra um ófrjálsa höndlan, til þriggja manna í sýslu Páls Torfasonar, þeir voru dæmdir á Brimarahólm, en málit þó sett til konúngs. þá var beizt af konúnginum, at rádum Lárusar lögmanns Gottrûps, at annarhverr lögmannanna mætti fara utan, at bera fram naudsynjar landsins, fylgdi amtmadr því sem ödru, er Lárits Gottrûp lagdi til, en sú vinátta þeirra afladi lögmanni öfundarmanna, er spilla vildu med þeim. Jón Magnússon hafdi stadfestíngu konúngs uppá Strandasýslu, en vard þó ásamt lögsagnari Páls Vídalíns í Dölum. Jón var hugvitsmadr mikill ok skynsamr, hann var vel at sèr í vísindum öllum, ok hinn mesti lagamadr.

## XLVI Kap. Annat til tídinda.

þá dó Arngrímr Hrólfsson at Laugum í þíngeyarþíngi, ok átti hann margt afkvæmi fyrir nordan, Páll á Víkíngavatni var sonur hans, ok Björn at Laugum; en sýsluna fèkk eptir hann Halldór, son Einars sýslumanns í Arnessþíngi, Eyólfssonar prests at Lundi, hafdi þó ei þá konúngsveitíngu, hann var gáfadr vel, sem fadir hans, ok allra manna mjúkastr til rits, fjörmikill ok hardsinnadr. þorbergr Illhugason prestr vard prófastr á Ströndum, en Páll prestr Jónsson á Höskuldstödum í Hunavazþíngi; Jón Gíslason konrektor á Hólum. Steinn prestr Jónsson hafdi flutt um vorit frá Hítarnesi til Setbergs, ok bjó at Kverná þau misseri, því þá var nádarár ekkjunnar. Jón prestr, er ordit hafdi í Stokksmáli, ok gjört kríubrèf, fèkk þá aptr prestsembætti ok Hítarnes; var hann ordinn audsveipr ok allr annar madr. þá var gott sumar ok gras í medallagi. Torfi Jónsson gaf þá upp hálfa Bardastrandarsýslu, er hann hafdi haldit, en tók vid Einar Einarsson prests, Torfasonar, sá er Svínaness-ætt er frákomin. þá var sett af nýu brúin á Jökulsá austr; þar voru 100 menn í mánud, ok var þat allmikit verk, gekk Björn Pètrsson sýslumadr á Bustarfelli fyrir því, ok var þar borit vitni fram, at hûn væri hærri ok betri at byggíngu ok kostum, enn sú er ádr var. þau misseri fèkk þórdr Jónsson skólameistari Margrètar Sæmundardóttur prófasts frá Hítardal, Oddssonar, þau voru systkinabörn, ok fylgdu henni heiman 6 hundrud

hundrada; en Vigfús frændi hans Gíslason frá Hofi, Vigfússonar sýslumanns á Hvoli, Gíslasonar, bródurson Jóns biskups, fèkk brædrúngu sinnar Helgu frá Leirá, dóttur Jóns biskups; Vigfús var hygginn madr, sem frændr hans í födurkyn; voru þau brúdkaup þeirra frænda bædi haldin at Hofi med rausn mikilli; var ok vinátta med tengdum med Jóni biskupi Vídalín ok Þórdi Jónssyni, ok hèlzt jafnan. Torfi prófastr at Reynivöllum Halldórsson frá Reykholti fèkk Sigrídar Pálsdóttur prófasts frá Gilsbakka Gunnarssonar, en Jón prófastr, bródir hans, í Hítardal Sigrídar Bjarnardóttur, prests frá Snæfuglstödum eda Snæfokstödum Steffánssonar, hûn var stórmannlig ok skörúngr, sem hûn átti kyn til. Lárits Skevíng kvæntist ok ödru sinni, ok fèkk Soffíu Dadadóttur, sýslumanns í Kjós, Jónssonar prófasts á Melum. Einar prestr at Helgafelli, son Gísla prests Einarssonar, var ólíkr födur sínum at skarpleik, hann var líkþrár, ok fór utan um sumarit, fyrir at láta læknast, en kom út þetta sumar, ok kránkari enn ádr. Þá bjó í Keldunesi nordr Jón, son Arna hins gamla í Haga Bjarnarsonar á Laxamýri, bródir Olafs sýslumanns í Vestmannaeyum; hann var sterkari enn flestir menn adrir, hann fór vid þridja mann, ok son sinn, er hann leitadi lækníngar, ok Gunnar hèt, yfir Reykjaheidi um haustit, ok er þeir voru á heimleid, Jón ok fylgdarmenn hans, gjördi á þá fjúk á heidinni ok villtust, ok fóru af baki, sídan kannadist Jón vid, hvar þeir voru, ok vildi á bak aptr, en hann var þá svo stirdr ok máttvana í fótum, at þat vard eigi; þá bad hann fylgdarmenn girda fast, ok halda ödru stígreipi, ok vildi hefja sig upp, ok tók í ilveg á því er at hönum sneri, ok sleit úr jarnit; þá kvadst hann ætla at eigi mundi sjálfrádt um: ok hygg eg, segir hann, leikr sè til mín gjör, ok hèr mun eg deya, ok ei lètta hrídinni, medan eg er í för, farid ok segid Bergþóri bródur mínum, at sækja líkam minn híngad á morgun, því þá mun ek sofnadr, en vedr mun batna, þá þèr hafit yfirgefit mig. Ei fengu þeir annat af hönum, hversu sem þeir leitudu; sagdi hann þeim öll einkenni til bygda, ok kvöddu þeir hann sídan, en litlu sídar birti, ok var hans vitjad daginn eptir, ok var hann örendr. Ei kom ætt frá hönum, nema dóttur hans Oddnýu, hûn var skörúngr ok mikilhæf, ok fèkk hennar Magnús prestr, son Einars prests í Gardi, Skúlasonar prests í Goddölum, ok urdu þadan miklir menn, sem enn segir. Þau misseri

gekk hnéppusótt, ok vedr gjördi mikit hinn 20ta ok 21ta ágústí, ok braut mörg skip nyrdra.

## XLVII Kap. Smátídindi.

Jafnframt því, er Björn biskup hafdi haldit brúdkaup Jóns Thorlacíuss ok Gudrídar Einarsdóttur, kvæntist at hans í þridja sinni Gísli lögrèttumadr Eyríksson úr Múlaþíngi, ok fèkk Oddnýar Sigfússdóttur, var þeirra son Sigfús prestr. Gísli var þá lögsagnari eystra, var hans son med fyrstu konu Gísli prestr hinn gamla á Desjarmýri, fadir Halldórs prests ok Arna í Höfn. Þá dó Þorsteinn Bjarnason at Alfgeirsvöllum med Hrólfi syni sínum; ok sendi Björn biskup lestamann sinn vestr til sölvakaupa, hann týndist í skurdi hjá Vídimýri. Gudbrandr Magnússon, Arasonar, bródir Sigurdar á Skútustödum, en födurbródir Magnúsar í Brædratúngu, andadist í þann tíma; hann hafdi búit ókvæntr á Skútustödum nordr, ok lèt eptir ord ágætt, ok enn Þorsteinn Þórdarson á Skardi á Skardströnd, mikilsvirdr. Þóttust menn sjá skrímsl gánga á land undir Jökli mjög ókenniligt.

## XLVIII Kap. Hardindi mikil.

1701 Vetr gjördi þareptir mjög mislægan um land, var sydra gódr í Arness-sýslu ok á Rángárvöllum, en annarstadar þúngr af snjóum ok áfredum, ok þó hægr at vedrum, hardr nordanlands. Þá dó Hans Skevíng, fadir Lárusar sýslumanns á Mödruvöllum, vetri meir enn sjötugr. Hlutir voru litlir sydra ok vestra, en betri austr undan; fluttu margir fiskabein til heimila sinna til seydis, ok var mikil naud í landi. Bóndinn í Njardvík hafdi 30 hluti vid sjó, ok fèkk í þá alla 306 fiska; 12 menn reru út frá Hólastad, þeir fengu allir 300. Vorit var kalt, þurt ok sídgróit, ok var mikill matbrestr med mönnum; hljópu þá skridur miklar í Skorradal; grasmadkr var mjög mikill. Voru vída tekin þíngsvitni um land um þat, at engir menn mundu slíka ánaud; gekk ok hnéppusóttin. Þá voru 400 ok 60 nidrsetníngar í Skaptafellssýslu vestri, nær tvöfaldt fleiri enn býlin. Fjöruþáng átu menn í Múlasýslu, ok prestr einn var þar fluttr á vergángi. I Isafirdi dóu margir menn af sullti, ok vermenn á Fjallaskaga átu hákallsskrápa sodna ok

blautan háf; voru refstir 20 þjófar í Arness-sýslu. Margir menn urdu brádkvaddir, ok margir dóu úr undarligum veikindum; sá var einn á Sudrnesjum, er hann var genginn til hvílu, kvartadi hann um fótakulda, fór konan at fótum hans at verma þá, ok dóu þau þá jafnskjótt bædi. 240 vættir áttu at gjaldast til Hóla, en fengust fjórar einar úr Fljóta umbodi, ok skorti 60 vættir smjörs á leignagjald úr heima-umbodi. 150 menn dóu á 100 bæum rúmum í Þíngeyarþíngi vestarliga, en í Austrsýslunni miklu fleiri. Sögdu svo öll þíngsvitni, at hardindin hefdi þá varat 7 ár, ok umferdin hefdi aukit þau mest. Vorit var hardt, ok sumarit graslítit eptir, ónýttust hey, ok stód ei sláttr nema 6 vikur; eyddust náliga útkjálkar, en rán ok stuldr var úr hófi sem fyrri; var þá lest gjör úr Skálholti vestr í Tálknafjörd, ok önnur frá Hólum, ok fengu mest steinbít. Forráds nordanvedr var á föstudaginn seinastan í vetri, ok vard þá úti fjöldi fjár ok menn 17.

## XLIX Kap. Frá brèfum ok málum.

Öndverdliga á þeim misserum var hengdr þjófr í Gálgagili í Eyafirdi, sá hèt Jón Eyólfsson. Þar kom birna á land í Svarfadardal med 2r húnum um sumarmálin, ok var hûn drepin, en eigi húnarnir. Föstudaginn eptir hvítasunnu var Lafranz Jónsson búandi í Hjallahverfi, dæmdr til dauda, hann hafdi myrda konu sína, ok höggvinn þar á þínginu af bródur konunnar. Um þær mundir voru dampar miklir í lopti, ok sáu menn 5 dögum seinna vedrahjálm, ok var þat enn haldin furda. Sunnudagskvöldit þat hid nærsta, fyrsta eptir Trínitatis, druknadi Magnús Þórdarson vestra med syni sínum, er þeir vildu fara til eya út. Þareptir litlu komu kaupför; kom út Kristján Muller amtmadr, ok Knútr Storm, er verit hafdi kaupmadr í Hafnafirdi, hann hafdi þá afrekat húdstrýkíngu Hólmfasti Gudmundarsyni hjáleigumanninum á Brunnastödum ádr, fyrir þat hann seldi úrkasts fiskinn í Hafnarfjörd, ok hafdi sú refsíng farit fram í nærveru amtmanns. Skip kom í hverja höfn, en med amtmanni komu konúngsbrèf; var eitt um stadfestíngu bænadaga; eitt um þat er landsmenn beiddu hid fyrra sumarit, at lögmadr annarhverr færi utan, ok bæri fram naudsynjar þeirra, var því vel tekit, ok sendi amtmadr þat nordr til Þíngeyra til Lárusar lögmanns, ok bad hann búast til utanfarar; hann brá

þegar vid, ok fór til alþíngis med konu sína ok þjónustumenn, þat voru þá Bjarni, son Einars biskups, ok Hallgrímr, son Bjarna prests á Grænavatni, Ormssonar, ok var hann albúinn til ferdar; en þá bjó í grun sumra þeirra, er eigi voru hönum velviljadir, ok heldr vildu lækka hans uppgáng, at ferd hans mundi þeim ei allþörf, ok hönum til meira gagns sjálfum enn landinu; komust á þat band Páll Víselögmadr ok Jón biskup Vídalín ok enn fleiri, ok töludu sumir fyrir amtmanni, ok mæltu hönum hughvarf, svo hann vildi hvergi láta Lárits lögmann fara, ok er lögmadr setti upp sûpplíkazíur tvær landsins vegna, adra fyrir konúnginn, ok adra fyrir stórkanselleranu, greifann af Rewentlou, ok lèt lesa upp í lögrèttu, ok rita undir af flestöllum mönnum veraldligrar stèttar, þá urdu þó ei allir á því máli. Hinir báru þat fyrir, at svo naudugliga, sem þá var stadt landit, mætti menn ei nýta sèr leyfi konúngs um utanför lögmannsins, því ferd hans yrdi ekki kostud fyrir örbyrgdar sakir. Þat voru Páll lögmadr Vídalín, ok Jón Eyólfsson sýslumadr, at því er sagt hefir sonur hans sjálfs, Eyólfr prestr hinn lærdi, Jón Magnússon í Strandasýslu, ok Halldór Einarsson í Þíngeyarþíngi; þeir ritudu eigi nöfn sín undir sûpplíkazíu lögmanns, heldr adra, er saman höfdu setta meistari Jón Vídalín ok klerkarnir. En er lögmadr ok þeir er med hönum voru sýndu amtmanni sûpplíkazíu sína, ok spurdu, hvert ei mætti svo vera, lèt amtmadr hana hjá sèr, ok stakk undir stól sídan; snerist þadan af öll vinátta þeirra í fjandskap mikinn. Eitt konúngsbrèf var til lögmanna Sigurdar Bjarnarsonar ok Lárusar Gottrûps, at þeir skyldu fullan dóm leggja á málefni Tómasar Konrádssonar, er kaupmenn höfdu ákært, Mattías Pètrsson á Stapa ok Kristján Pálsson Fyhn, fyri þat hann seldi kaupmanni vid Búdir lítit eitt af fiski, en átti heimili í Stapa umdæmi, ok hafdi verit dæmdr fyrir þat í hèradi af Þórdi Steindórssyni, er þá var lögsagnari Magnúsar sýslumanns Bjarnarsonar, til aleigu missirs ok Brimarahólms þrælkunar. Tómas var einfaldr madr ok vanfær, ok var málit sókt á lögþíngi, ok var Skapti Jósepsson svaramadr fyrir hann; þótti lögmönnum ei dómrinn allskostar gódr, en samþykktu hann þó, þótti lögmál binda sig, ok skutu til konúngs nádar um landsvistina. Má af slíku marka ok mörgu ödru ánaud þá er landsmenn áttu, at bjarga sèr í kaupskapnum, svo mikil hardindi sem voru. Mörg konúngsbrèf voru önnur, ok flest um kauphöndlun, eda stadfestíngar embætta

manna; var þar stadfest veitíng til Lárusar Skevíngs fyrir Mödruvalla klaustri; eitt var til meistara Bjarnar biskups, at hann mætti minka láta Hóla kyrkju; eitt til húsfrúr Ragnheidar Jónsdóttur at Gröf, at hûn mætti láta messa þar heima, ok þvílíkt annat. Hákon Hannesson fékk stadfestíngarbrèf fyrir Rángárvallasýslu. Mjög áminnti Muller amtmadr menn um prjónles ok vadmálagjörd, ok bad sýslumenn vel vara sig ok adra vid ófrjálsum kaupmönnum. Hann heimti 96 hesta af bændum til ferda sinna. Var þá sýslumönnum bodit, at gjalda hvítt vadmál til yfirþaks lögrèttunni, jafnmargar álnir sem nefndarmenn væri í hvers sýslu. Eitt brèf var veitíng þórdar Jónssonar fyrir Stadarstad, hafdi hann um vorit látit af höndum skólameistarasýslu í Skálholti, ok farit vistum med konu sinni ok Salvöru, módur hennar, til Hjörtseyar vestr frá Mýrum. 50 tjöld voru þá á alþíngi, en ádr höfdu verit 300, þó urdu þau mjög miklu færri seinna. þar var dæmt um mál Asmundar Jónssonar, er stolit hafdi nokkru í Strandasýslu, ok brotizt úr járnum, ok logit mjög, ok var hann hengdr; annar var hengdr Jón Jónsson úr Hnappadalssýslu, hann hafdi fyrst stolit eyris virdi, ok verit dæmdr, en sídan 35 ríkisdölum ok hrossum þremr. þar var ok talat um ósæmiligan hjónaskilnad sjálfrádan, ok lýst mörgum óskilamönnum, ok önnur voru mál smærri. Gjördist nú Jón prestr Halldórsson í Hítardal prófastr í Mýrasýslu, ok kvæntist Sigfús þórdarson Skálholts rádsmadr, fèkk Gudrúnar Jónsdóttur frá Urdum, Illhugasonar Hólarádsmanns, dó hann skyndiliga seinna.

## L Kap. Utanför amtmanns ok Lárusar lögmanns.

Lárits lögmadr Gottrûp fór af þíngi med konu sína til Saurbæar, ok þadan til Bessastada, ok voru þau þar 3 vikur, en eigi mæltust þeir amtmadr þá ord vid; þadan fóru þau hjón ok dóttir þeirra ok fólk fleira sudr til Keflavíkr, þar hafdi lögmadr tekit sèr far, því hann var einbeittr í því at fara utan, hvad sem á bak kæmi; þau bidu lengi ádr skip sigldi, ok var þat ei fyrr enn 6 dögum fyrir Maríumessu fyrri, ok þar fóru þau med; var þá amtmadr farinn utan í Hafnarfirdi einum hálfum mánudi ádr, ok hafdi fengit umbod sitt Jóni Eyólfssyni sýslumanni, vin sínum fornum, en skipad lögmannsdæmi Páli Vídalín; var Páll stórvitr madr, lærdr

vel, fornfródr ok skáld gott, en nokkud þótti sumum hann grályndr ok tilleitinn. Jens Jörgenson sat at Bessastödum at sínu starfi, ok skal seinna getit hvad rak fyrir amtmanni ok Lárusi lögmanni á för þeirra. Þá dó Höskuldr Halldórsson, lögsagnari Jóns sýslumanns Þorlákssonar, af undarligum sjúkleik.

## LI Kap. Frá ýmsu.

Nú settist á Setberg Steinn prestr Jónsson; en Þorlákr, son Gudbrands Arngrímssonar, fèkk hinn nyrdra hlut Isafjardarsýslu; Þorlákr var skáld mikit, sem fadir hans eda framar, hann hefir kvedit hálfar Ulfarsrímur, háttalykil ok fleira, ok sýnir allt gáfu hans mikla, en lítt kunnu menn þá at velja, því fáir voru sögufródir, ok riddarasögu-andi ok annat úr múnkaöld loddi heldr lengi vid. Pètr, son Markúsar prests Geirssonar, hafdi lögsögn í Þíngeyarþíngi, þar til er Halldór sýslumadr tók vid. Þá var sumar med litlum grasvexti, sem fyrr segir, en nýting var betri nyrdra enn sydra, því þar var þurt. Gísli Jónsson biskups Vigfússonar fèkk þá Margrètar, dóttur Magnúsar Jónssonar lögmanns, sem hönum hafdi hagkvæmzt fyrri, hann bjó at Máfahlíd, en Magnús, bródir hans, gjördist skólameistari í Skálholti. Þá bjó at Narfeyri á Skógarströnd Gudmundr, son Þorleifs lögmanns Kortssonar, hann átti Helgu, dóttur Eggèrts Bjarnarsonar á Skardi, ok var audugr ok fèsæll; hann lèt flytja skreid at utan inná Skógarströnd, ok druknudu þeir menn, er fluttu, 6 saman fyrir Eyrarsveit, en hann sjálfr vard á skipreika, ok missti 40 vættir fiska, týndust þannin fyrir hönum tveir skipsfarmar af skreid, mjöli ok annari vöru. Madr hèt Gudlaugr, ok bjó í Skoreyúm, ok kalladr af því Skoreyar-Laugi, hann var sterkr ok hinn mesti sjógarpr, ok reri hvört vedr, ok afladi mjög, þó ödrum þætti ófært öllum, ok hvort sem hann fèkk med sèr fleiri eda færri; hann fór at Eyri med pillt einn á áttæríngi, sem hann var vanr, ok týndist, er hann vildi heim aptr, med allri áhöfn, ok ætludu sumir spillt hefdi verit áhöldum skipsins fyrir hönum af hrekk, þat skip rak upp aptr. Þá visítèradi meistari Jón biskup vestr til Borgarfjardar ok undir Jökul, ok fór þadan til Reykhóla, ok var at kaupöli Gísla Jónssonar mágs síns ok Margrètar, sídan reid hann sudr aptr. Björn biskup var veikr um sumarit, ok vard hverki af þingreid hans nè visítazíu. Misferli urdu nokkur fleiri enn hèr eru töld, ok smá

mannutjón. Haust var ókyrrt ok vindasamt, ok sáu þeir Páll Vídalín lögmadr, ok Gudbrandr Arngrímsson, frændi hans, loptsýn, er þeir ridu frá Holtastödum í Lángadal. Þá fèkk Magnús sýslumadr Bjarnarson Þornýar, dóttur Einars prests Torfasonar, systur Einars sýslumanns á Bardaströnd, en bródurdóttur Páls Torfasonar í Isafirdi, fóru þau sudr á Arnarstapa, því Magnús bjó þar. Þridjudaginn þareptir gjördi svo mikit regn, at skridur spilltu vída, urdu ok um þær mundir bæabrunar miklir. Var hinn mesta landnordanhríd sunnudaginn seinastan í sumri, en vetr var þó allgódr ok kyrr til jóla. 11 menn urdu brádkvaddir undir Jökli, en 4 druknudu á Eyafirdi. Þat þótti mönnum nýlunda, at sèzt hafdi kattugla á Þíngeyrum, en engin þóttist hana sèd hafa þar um kríng. Þat bar þá enn til, at andadist Söfren Mattíasson, er landskrifari hafdi verit eptir Arna Geirsson, enn fyrir Sigurd, ok var hann þá at Nesi. Á þeim misserum voru bornir Björn, son Magnúsar Bjarnarsonar at Espihóli, ok Sigrídar Jónsdóttur, biskups Vigfússonar, ok Bjarni, son Halldórs prests Arnasonar at Húsafelli, er seinna urdu mikilsháttar menn.

## LII Kap. Eyrindagjördir Lárusar lögmanns.

Lárits Gottrûp lögmadr vard vel reidfari til Kaupmannahafnar ok þeir amtmadr bádir, fèkk Lárits lögmadr at mæla vid Fridrik konúng sjálfan, ok segja hönum ástædur lands hèr þúngbærar, bar hann þar fram þær greinir, er sûpplíkazía hans hljódadi uppá; var sú ein, at híngad gæfist 3 þúsundir tunnur mjöls, ok fèkkst þat ekki, var talit betra, at landit fengi hægan taxta, svo at naudsynja vörur væri ódýrar, ok hlaut konúngr fyrir þat at gefa reidurum eptir 6 þúsundir ríkisdala af hafnartollum, fyrir hvert ár þeirra fjögra, er eptir stódu af lènstíma þeirra. Önnur var um hardýdgi kaupmanna ok nidrskipan umdæma höndlunarstadanna, er þeir höfdu komit því á, at Hólmfastr Gudmundarson var húdstrýktr, en Tómas Konrádsson dæmdr í aleigumál ok þrælkan fyrir mjög litlar sakir; var sídan vid þessháttar brot lögd einsaman 10 dala sekt, en konúngr baud sídan Arna Magnússyni ok Páli Vídalín, er þeir voru kommissaríí, at gjöra betri jöfnud á kaupstada umdæmum, ok prófa mál Hólmfasts, en lèt sleppa því at framkvæma dóminn á Tómasi, ok áminnti kaupmenn alvarliga um mannúdligra framferdi sídan. Ein var sú grein, at 600 dalir, er konúngr hafdi gefit eptir í

afgjöldum, kæmi fátæklíngum til nota, en ei lènamönnum, ok baud konúngr at þess skyldi vel gætt vera. Ein var, at Islendíngar med Kaupmannahafnar búum eda adstod þeirra, mætti gjöra út fiskiduggu fyrir hverjum landsfjórdúngi; þat leyfdi konúngr, en eigi vard því ákomit. Ein var um þat, at konúngr vildi unna fátækum preſtum í Hóla biskupsdæmi, þeirra 100 ríkisdala hvert ár, sem Fridrikr konúngr annar lagdi þeim til, en þeir hefdi nú þarfnazt um 11 ár; baud konúngr svo skyldi vera, ok at Hóla biskup skipti þeim peníngum hinn 11ta dag októbris hvört ár, sem hann vildi standa gudi ok sèr reiknìng fyrir. Sú var enn ein, at sýslumenn mætti fríast frá fángahaldi fèlausra fánga, en þat fèkkst ekki. Lárits lögmadr gaf ok efni til kommissíónar þeirrar, er sídan hófst, gjördi hann þat í hinni beztu tilætlan, ok margt nýttist vel af hans tillögum; þó var ekkèrt jafnþarft sem taxtinn, ok linun ánaudar kaupmanna; var þat hvorutveggja, at Islendíngar voru mjög naudugliga staddir, enda hittu þeir fyrir konúnginn gódan ok vitrán, er var Fridrikr konúngr 4di, ok fengu trúan eyrindisreka, þar sem Lárits lögmadr var, svo fáir mundu innlendir at ætterni hafa gjört jafnvel, ok eigi meira syndt fyrir sjálfum sèr, ok var því meira um verdt, sem sumir þökkudu hönum midr.

## LIII Kap. Árferdi ok mannalát.

1702 Sá vetr var gódr, sem Lárits lögmadr var utan, en afli nær enginn sydra; hardindi voru mikil manna á medal, ok manndaudi á Akranesi af faranda fólki, var þá náliga etit þat allt, er tönn festi á, en eptirlegumenn voru í höfnum, ok midludu mjöli til kaups ok láns, vard þat at allgódu lidi, enn skuldir vóxu í landi. Hefir nú í þessum hardindum dáit 600 manna í Skagafirdi, en 9 þúsundir á Islandi öllu. Rán ok stuldr var þá ógrligr um allar sveitir, ok voru margir hýddir ok markadir, en 3 hengdir í Gullbríngusýslu, ok 4 adrir sydra ok vestra, einn fyrir nordan. Þá vard brádkvaddr Sigfús Þórdarson rádsmadr Skálholts stadar, at þeim bæ, er at Selfossi heitir, ok nær 30 menn á Sudrnesjum. Misferli urdu ok nokkur, at menn druknudu, eda urdu úti. Þat þótti þá nýlunda, at Hvítá þornadi hjá Arhrauni, en nokkru sídar sást kryppa sem selsbak mikit millum klappanna á Skálholtshamri. Oddr snikkari, son Arna at Asgeirsá, Dadasonar, Arnasonar í Midgördum, Odds-

sonar, hafdi farit vída um lönd í allri Nordrálfu, ok vída komizt í mannraun nokkra, ok ratat úr, en stadit jafnan á því, at hann mundi drukna á Islandi; hann druknadi í Svartá vid Blöndu, hann hafdi átta Ragnheidi Jónsdóttur, Jónssonar lögmanns frá Reynistad, Sigurdarsonar, ok áttu þau börn eptir, Benedikt hèt son þeirra, ok vard sá utanlands, en hjáþarn Odds var Gudrídr, er Gunnlaugr fèkk, son þorvalds í Hrísey, ok var hûn módurmódir Ragnheidar í Videy. þorleifr prófastr á Kálfafelli var bródir Odds, fadir Bjarna prófasts, födur þorleifs prófasts í Reykholti. þórdr prestr Jónsson settist nú at Stadarstad vid uppgjöf Páls prests Ketilssonar, en hann fór at Slítandastödum, ok hafdi þó hálfa inntekt stadarins, voru þeir synir Páls prests: Páll prestr ýngri ok Bödvar, fadir Arna skálds á Mýrum. Vigfús, son Odds Eyríkssonar á Fitjum vard úti vestra, sleit hann frá förunautum sínum í vedri ok fjúki, hann var skólagonginn. Prestr vard bráddaudr í Skagafirdi Jón Gudmundarson at Felli, kom þar aptr þorfinnr, son þórdar prests Sigfússonar at Myrká, ok hafdi verit djákn á Reynistad. Margir dóu þá fleiri menn merkiligir: Arni prófastr þorvardsson á þíngvelli, virdugligr madr ok vellærdr; Sigurdr prestr at Stad í Grunnavík Gíslason prests, Einarssonar frá Heydölum; Asgeir prestr Einarsson í Tröllatúngu, Asmundr prófastr Eyólfsson at Breidabólstad; þeir voru allir yfir áttrædt; bjó þá Brynjólfr, son Asmundar prófasts fyrir utan Jökul, ok var lögrèttumadr, ok hafdi umbod, hann var fadir Halldórs biskups. Magnús skólameistari, son Jóns biskups Vigfússonar, druknadi á Hólmsgranda, hann hafdi gengit þar fram á seint um kvöld, er hann var drukkinn. þá andadist ok Oddr prófastr Eyólfsson at Holti undir Eyafjöllum, vitr madr ok vellærdr, ok vel at sèr um flest, ok Magnús í Vígr, son Jóns prófasts Arasonar í Vazfirdi, fadir þorbjargar, er Páll Vídalín átti; þorleifr prestr á Hallormsstad Gudmundarson prests, Jónssonar lærda, fèll ofan um snjóbrú rídandi, ok nádist andadr, höfdu 30 hestar farit saman yfir brúna undan hönum, ok lá hestrinn ofan á hönum, er hann fannst. þá dó einnig Valgerdr Halldórsdóttir á Keldum, ok Valgerdr Gísladóttir á Skardi, er Eggèrt Bjarnarson á Skardi hafdi átta; en Salómon, hospitals rádsmadr á Eyri, er kallad er at væri forríkr at fè, en fátækr at bæninni, var úti Rifi, ok vildi vera einn í húsi, ok hengdi sig þar í veidarfærum; hann var fadir Sigrídar, er sídan var í miklum veg med Jóhanni Gottrûp.

## LIV Kap. Frá Halldóri Einarssyni.

Halldór Einarsson fèkk á þessum misserum konúngs stadfestíngu fyrir Þíngeyarsýslu, hann þótti stórrádr ok snögglyndr, ok var hinn einardasti madr, en sýslumenn höfdu þá ríki mikit, ef þeir voru sáttir at eins vid landshöfdíngjann. Bóndi sá er Ögmundur hèt deildi vid kaupmann á Húsavík um sokkatöku, en kaupmadr sló hann, ok bar hann þat fyrir Halldór, gjördist þar af slagr mikill, en fleiri voru í þann tíma smærri, ok er þeirra ekki getit; ok er landsmenn þóttust bornir ofrlidi ok bardir, tók Halldór kaupmennina í hald, ok urdu þeir at leysa sik med miklu fè, en hann stód á medan fyrir kaupskapnum, ok vóg ok mælti rètt. Halldór átti þá ok deilu vid bónda einn, Gísla Arnason at Asi í Kelduhverfi, hann tregdadist um gjöld sín, ok var mikill rekstr á því máli, bar Gísli sýslumann því, at hann hefdi brotit á börnum sínum rèttarbót Magnúsar konúngs ok tvö konúngabrèf, einnin sneiddi at hönum um galdr; var Þorgrímr Jónsson í Reykjahlíd skipadr at dæma í milli þeirra, ok dæmdi hann Gísla í sektir allmiklar. Þorgrímr var vitr madr, hann átti Margrètu, dóttur Bergs Benediktssonar í Þorlákshöfn, systur Markúsar syslumanns, ok eigi börn, hlaut Páll Vídalín fè þeirra seinna. Halldór sýslumadr lèt dóm gánga at Helgastödum í Reykjadal á hinum sömu misserum, um konu nokkra, er fyrirfarit hafdi barni sínu, var poki dreginn yfir höfud henni, ok drekkt í Breidumýrará; spurdi hún þá hvort Olafr Sveinsson væri ei nálægr, ok ætludu menn hann mundi hafa verit í rádum med henni. Halldór átti Margrètu, dóttur Skúla prófasts Þorlákssonar at Grenjadarstad; hann var hár madr vexti, nokkut grannligr, dökkhærdr ok hörundsbjartr, limadr vel, lángleitr ok nokkud opinmynntr, snöggr ok skjótr í bragdi, skrautmadr í meira lagi, áhuga- ok sýslunarsamr, ok hardlyndr, vel viti borinn ok hagordr; flestum þótti hann hardr vidskiptis, ok brugdinn vid margt. Þá er sagt at í Austfjördum dæi kona nokkur, er hafdi 100 vetr tólfrædt, ok hafdi fengit nýar tennr hvítar.

## LV Kap. Frá Höfdíngjum, ok ýmsu.

Nú kom út Kristján Muller amtmadr, ok Lárits Gottrúp lögmadr med taxtann ok önnur konúngsbrèf; var eitt um kommissarios

er konúngr skipadi á landi hèr, hinn 22an dag maji, Arna, son Magnúsar prests, Jónssonar prests, Ormssonar, bródur Jóns sýslumanns, hann var prófessor ok fornfræda sekretèri, ok hafdi þá verit 16 vetr erlendis, ok Pál Vídalín víselögmann, skyldu þeir vegna konúngs fara um land allt, ok gjöra fullkomna jardabók, ok greina þar í hverrar jardar kost ok löst, ok hvad fleira til var tekit, ok auglýsa konúngi, galt konúngr sjálfr kostnadinn, ok kom Arni Magnússon út á Hofsós skipi undir alþíng, ok reid til þíngs med meistara Birni biskupi. Lárits lögmadr hafdi komit út; en ordit eptir af hönum dóttir hans med módurfrændum sínum, ok Hallgrímr djákn Bjarnason, hann var mikill madr ok sterkr, sem fadir hans, ok Pètr bródir hans, ok vard hann soldáti, ok var felldr seinast úr stiga, ok dó þar. Kom lögmadr út med þófaradanskan til þíngeyra; hann hafdi óskad reglugjördar fyrir Pólitístjórn Islendínga, eda stjórn sida húss ok hèrads, þá er fer fram dómlaust eda þó án vanaligrar lögsóknar, ok var þat einna mest orsök til kommissíónarinnar, en reglugjördin kom aldrei. Hann hafdi einnin beizt at landit mætti hafa rádanaut eda talsmann í Kaupmannahöfn, ok var þat veitt, en Islendínga skorti samheldi til at nota sèr þat. Fleiri voru birt konúngsbrèf, stadfestíngar fyrir lènum ok þvílíkt, sem sýsluveitíng Halldórs Einarssonar, er fyrri gètr, ok veitíng Sveins Torfasonar á Múnkaþverár-klaustri, ok Vigfúsar Hannessonar fyrir Arness-sýslu, ok voru endrnýanir. Eitt var til amtmanns ok Skálholts biskups um bændr í Ingjaldshóls-sókn, at þeir skyldu sektast fyrir þat, er þeir vildu ei vera vid, þá er biskup visitèradi kyrkjuna, ok ei hlada kyrkjugard. Enn var hin sama óvild med þeim amtmanni ok lögmanni, ok kom amtmadr því svo, at Jens Jörgensson missti umbod sitt fyrir tengda sakir vid lögmann, enn Páll Beyer tók vid, er verit hafdi undirkaupmadr í Grundarfirdi ok í Stykkishólmi. Kommissaríí báru þat fyrir konúnginn, at jardir væri eyddar, rekár þryti, sandr ok vötn ok grasmadkr spillti landinu, ok öllu lægi vid eydíngu, en agaleysi ógrligt, svo at þjónustumenn bjódi opt ok rádi meir enn húsbændr, ok af því hafi orsakazt hid mesta ólag, umrenníngsháttr, rán ok stuldir ok óöld; enn þó var þetta sumar svo grasgott, at tún voru slæg eptir fardaga. Asmundr Marteinsson var hengdr fyrir stuld á þíngi, hann var úr sýslu Bjarnar Pètrssonar á Bustarfelli, en þóroddi þorsteinssyni af Ströndum dæmdust þrjár

hýdíngar. Þar var tekit þíngsvitni um ródra á konúngsbátum sydra, ok húdstrýkíngu Alberts Asgeirssonar, er ei hafdi viljat róa á þeim. Þar kom enn til álits arftökumál Páls prests Amundasonar, ok rèttarbót Hákonar konúngs, er köllud var Mödruvalla rèttarbót, ok þeir Erlendssynir Þorvardr ok Vigfús höfdu gengit eptir fyrrum vid Grím Pálsson, kölludu menn hana rèttarspillir, ok ósamkvæma íslenzkum lögum, ok vard ei meira atgjört. Páll Torfason, sýslumadr í Isafirdi, tók skip spanskt, er strandadi, ok galt þess sídan vid Odd Sigurdarson, ok Snæbjörn son hans, ok Eggèrt Sæmundarson. Um haustit gjördist Magnús, son Markúsar prests Geirssonar, skólameistari í Skálholti, ok stód vel í því; en Jón Jónsson Thorlacíus var ordinn lögsagnari födur síns í Múlaþíngi. Tóku nú kommissaríí at ferdast yfir, ok fyrst í Helgafellssveit; en þó at bædi væri bodit amtmanni ok lögmönnum at styrkja þá med rád ok dád, endtist þeim verk sitt ærit lengi, sem enn mun sagt, þvíat margt fèll fyrir þá. Var Arni Magnússon í Skálholti med Jóni biskupi Vídalín öllum stundum, er hann var eigi á för sinni um land, ok var med þeim vinfengi mikit.

## LVI Kap. Frá ýmsu er vidbar.

1703 Nærsti vetr var þúngr, gekk þó misjafnt yfir; var mikil fiskigángr eystra, en lítill á inn-nesjum. Þá dó í Noregi Heidemann, er hèr hafdi verit landfógèti. Var þá kalladr manntalsvetr, þvíat Arni Magnússon lèt telja landsfólk allt med nöfnum ok aldri, ok hverja sýslan hverr hafdi, ok var þat allt saman þá 50 þúsundir ok 7 hundrud. Annat baud hann þat, at jardaeigendr skyldu gefa hönum skírt registr yfir allar jardir, dýrleika þeirra, landskuldir ok kúgildi, hjáleigur, ok allt er þeim heyrdi til, ok sýndi sèr skjöl fyrir þeim. Sú var hin þridja skipan, at allr kvikfènadr skyldi skrifast upp fyrir fardaga, ok fellast ekki undan; slíkt þóttu þá mörgum nýúngar, en sumum nær ókvædi. Þá andadist utanlands meistari Arngrímr Þorkelsson Vídalín, bródir meistara Jóns biskups. Urdu tjón: týndust 18 menn af skipreikum fyrir sunnan Jökul, en 4 á Mýrum, 4 í Gardi ok 7 í Vopnafirdi. Madr var hengdr í Ölvesi, en fleiri refstir, urdu ok misferli nokkur. Þá dó Halldór Jónsson, Egilssonar at Skardi í Lángadal, ok Jón á Eyvindarstödum, son Þorleifs prests Olafsonar, systurson Þorleifs

lögmanns, Arni Dadason at Kálfafelli, tírædr, hann hafdi haft sýslu í Dölum, ok Þorvaldr Gunnlaugsson, er fyrr var í Hrísey, hann skorti tvo vetr á tírædan; Gudmundr Sigurdarson, sýslumadr frá Einarsnesi, deydi ok þá, þremr vetrum betr enn áttrædr, ok Arni Magnússon á Sídu tírædr, ok Ingibjörg Jónsdóttir frá Haga, ekkja Þorleifs lögmanns Kortssonar; einnin Oddr prestr Bjarnason at Mödruvöllum í Hörgárdal. Björn prestr, er sumir kalla Þorsteinsson at Hvammi í Laxárdal, vard ber at hórdómi fyrir játun sína vid Ketu kyrkju, nema eigi ad vera Björn Þorvaldsson, Skúlasonar, er þar var prestr, ok missti fyrir hórdóm, ok átti dóttur Halldórs prests á Þíngeyrum, ok var ónytjúngr mikill ok börn hans. Voru þá prentadir Hugvekju-sálmar Sigurdar prests í Presthólum, en Björn biskup ok Jón Einarsson jóku einum vid. Getit er þá nokkurra dóma Sigurdar Einarssonar, lögsagnara Lárusar Gottrûps; var einn um atbúd þess manns, er Gudmundr Jónsson hèt, vid konu sína, er fyrir þá sök hafdi dáit í megurd. Vildi Lárits lögmadr at Sigurdr fengi sýsluna þá þegar, en lögdæmit eptir sig, ok sókti um þat, en þat fèkkst ekki, því þeir voru ákærdir bádir. Þá kom konúngsbrèf til lögmanna, at þeir skyldu prófa mál Páls prófasts Amundasonar, eptir íslenzkum lögum, en annat veitti Nielsi Kjær Kjósarsýslu ok Gullbríngusýslu, því Jón Eyólfsson, tengdafadir hans, hafdi uppgefit vid hann. Jón Eyólfsson hafdi verit skinnamakari fyrrum, en sídan var hann lengi sýslumadr, ok í gengi svo miklu, sem sagt hefir verit, ok umbodsmadr amtmanns, en Niels Kjær, er átti Þórdísi dóttur hans, var eptirlegusveinn Dana, ádr hann fèkk sýsluna. Katrín Þorvardsdóttir úr sýslu Jóns Sigurdarsonar í Einarsnesi, var dæmd fyrir dulsmál, ok henni drekkt á alþíngi, en þó var kallat hûn hefdi verit ei med fullu rádi um þann tíma. Barnfadir hennar slapp, hann hèt Audunn Sigurdarson, systurson Sigurdar lögmanns, ok bar hûn hann undan. Ok hengdr var Gísli Einarsson úr hinni sömu sýslu fyrir stuld á hesti, ok ödru fleiru í ýmsum stödum. 3 þjófar voru hengdir úr Gullbríngusýslu: Jón Þorláksson, Jón Þórdarson ok Gísli Oddsson, fyrir stórstuldi ok útilegur, ok enn einn er Jón hèt Jónsson úr Isafirdi, sýslu Þorláks Gudbrandssonar, fyrir fjórda stuld eptir refsíngar svo at tók eyri. Björn biskup reid eptir þíng til Hlídarenda, ok fann Brynjólf Þórdarson, hafdi Páll Vídalín lagt til mála, keypti hann af Brynjólfi prentverkit

aptr, er Þórdr biskup hafdi brúkat ok eignad sèr ok erfingjum sínum, fyrir 5 hundrud dali, fèkk hverjum erfingja 100, en tók eitt undir sjálfum sèr, var smidjan flutt fyrrum til Skálholts á 10 hestum, en nú nordr til Hóla á 16 sakir vidbætirs. Kristján Muller amtmadr fór þá utan, ok var hèr ei sídan vetrarlángt, en setti Pál Beyer fyrir umbodsmann sinn. Þá gjördist Sigurdr prestr Högnason prófastr í Austrskaptafellssýslu, Bjarni prestr Einarsson í hinni vestri, en Jóhann prestr Þórdarson í Rángárþíngi. Oddr, son Jóns prófasts Arasonar í Vazfirdi, hafdi haldit Reynistadar klaustr, hann var mikill ok feitr, svo trautt báru hann hestar, ok ei mátti hann gánga, ok var kalladr hinn digri, hann átti Gudlaugu Gudmundardóttur frá Keldum, Torfasonar, voru þau nú komin at Gröf til frúr Ragnheidar, systur Odds, ok eptir þat rann Oddr, svo hann vard hestfær ok gaungufær, þar dó Gudlaug þetta sumar í ágústó. Kvæntist þá Þórdr prestr Oddsson á Völlum, ok fèkk Valgerdar, dóttur Jóns prests Sveinssonar at Bardi, en Jón Arnason skólameistari fèkk Gudrúnar, dóttur Einars biskups; Nikulás, son Einars biskups, Gudrúnar, dóttur Páls prests Jónssonar á Melstad. Þat sumar var gód nýtíng, ok haustadi vel, ok
1704 batnadi allt árferdi. Vetrinn eptir var gódr vídast ok frostalaus, en týndust 9 menn af skipi fyrir Jökli, fyrsta midvikudag í Gói, ok 13 menn eda 14 dóu snöggliga í Önundarfirdi, ok þó einn eda tveir úr laungum svefni. Nokkrir menn dóu á Messuvegi á Raudasandi; var þá enn hardt í milli manna vid Isafjörd, svo menn átu þáng ok skóbætr ok annat óæti, ok 3 hross voru þar drepin til matar. Gott var vorit, ok spratt vel gras; var þá annann þridjudag í sumri hengdr í Sjáfarkvíum á Kjalarnesi Klemens Þorgeirsson, hann var ættadr úr Ölvesi, midaldra, hafdi lengi hlaupit um land, fyrst med leti, sídan med stuldum, hafdi hann rofit kyrkju á Hrossholti í Flóa til stuldar, en stolit úr kyrkju at Setbergi í Eyrarsveit alltarisbrún af spansledri gylltu, ok gjört sèr skó af, einnin nærkjól vírknepptum allgódum af Gudmundi Jasonssyni Vest á Stokkseyri, manni Þórdísar Markúsdóttur. Gudmundr sá var allmikit illmenni, en Þórdís sparadi eigi at spilla. Þat læt eg hjálída er annálamenn vorir greina jafnan, hversu hverr þvílíkra manna bjóst vid dauda sínum eda tók idran. Þá fèll fram af Stapaklettum Helgi á Lundum, mentadr vel enn heldr brögdóttr, son Vigfúsar Hellna-prests Helgasonar, er hann var drukkinn;

hann var bródir Arna á Heydalsá, en fadir Helga, födur Vigfúsar á Eyri; ok dó um vorit Hrólfr gamli sýslumadr Sigurdarson at sonar síns Bjarnar í Slèttárdal. Hljópu þá 100 smáhvalir á land í Njardvík, en 37 voru reknir upp.

## LVII Kap. Frá kommissaríis ok fleiru.

Þann vetr voru 6 hundrada hlutir í Vestmannaeyum, ok 3 hundrud minnstir, 11 hundrud vid Eyafjöll ok í Mýrdal, 11 hundrud á Eyrarbakka, en miklu minni vestr undan; minnstir vid Isafjörd, en bjargligir fyrir nordan, þá tíd var til. Akærur voru þá yfir Sveini Torfasyni á Múnkaþverá um frekar landskulda-heimtur, ok prófadi þær Halldór Einarsson sýslumadr at amtmanns bodi, ok vard ei mikit af. I þann tíma var Magnús Benediktsson í Hólum í Eyafirdi ryktadr, um at hafa sálgat barnsmódur sinni í Eyafjardará, því Jón Hálfdanarson, húskarl hans, medkenndi atvist med hönum. Þá andadist á Krossmessu Skúli prófastr Þorláksson á Grenjadarstad, skorti vetr á sextugan, tók Þorlákr prestr son hans vid stadnum eptir hann, en um fardaga dó Gudbrandr Þorláksson í Vallholti, bródir hans, ok var sjötugr, ok grafinn at Vídimýri þar í kyrkjunni. A þeim dögum, edr hinn 8da mají, sem var fimtudagrinn næstr fyrir hvítasunnu, reid Arni Magnússon úr Skálholti, ok Jón biskup Vídalín med hönum, austr at Eyasandi; þadan fóru þeir út í Vestmannaeyar á laugardaginn, ok voru þar um hátídina, visítèradi biskup í eyunum, en þat hafdi eigi gjört verit sídan á dögum Odds biskups Einarssonar, ok fór á land aptr nokkrum dögum sídar. Arni Magnússon vard þar eptir, ok skrifadi upp jardirnar einn, ok svo á Sudrnesjum. Þar höfdu druknad vid eyarnar 4 menn á föstudaginn, en 5ta dag hvítasunnu deydi Halldór prófastr Jónsson í Reykholti, hinn merkiligasti madr, ok skorti tvo vetr á áttrædan; tók sídan stadinn ok prófastsdæmi eptir hann Hannes prestr sonr hans, bródir Torfa prófasts á Reynivöllum, Jóns prófasts í Hítardal ok Jóns prests á Þingvelli, en var vígdr fyrir mörgum árum. Arni Magnússon var 5 vikur í Vestmannaeyum, ok stódu tjöld hans hjá Landakyrkju, kom hann aptr á Barnabas-messu, ok reid frá skipi at Dal undir Eyafjöllum, ok þadan at Hlídarenda, þadan í Skálholt, var þá Páll lögmadr þar fyrir, ok kominn at nordan fyrir fám dögum, dvaldi hann þar litla hríd upp þadan, ok reid sudr í Mosfellssveit.

## LVIII Kap. Frá máli Magnúsar ok kommissaríis.

Magnús, son Sigurdar á Skútustödum, Magnússonar á Reykhólum, Arasonar í Ögri, bjó þá at Brædratúngu, hann var kvæntr ödru sinni, ok átti Þórdísi, dóttur Jóns biskups Vigfússonar, systur húsfrúr Sigrídar, er meistari Jón biskup Vídalín átti; Magnús var drykkjumadr, skapstórr, ok óstilltr vid öl, ok helzt vid konu sína, ok þó Jón biskup vandadi um slíkt vid hann, skipadist hann lítt vid, en biskup hlífdist vid stærri atgjördir fyrir tengda sakir. Hafdi Þórdís þennan vetr flúit í Skálholt med nokkra gripi sína, medan Magnús var drukkinn, ok vissi ekki til; kom hún ei til hans aptr, þó hann beiddist, ok ei fèkk hann at mæla vid hana, því menn ætludu henni mundi ei óhætt at fara til hans aptr. Fóru þá hègómamaurál ok rógr í milli sem opt kann verda, ok sveigt til umgengni Arna Magnússonar vid Þórdísi, en Magnús trúdi því, ok ritadi til Arna kvörtunarbrèf um þat, at kona sín gengi heldr þráliga í hús hans, med mörgum sneidíngarordum; tók Arni því illa, ok kærdi Magnús fyrir þat, ok leiddi af íllt hönum til handa. Þá komu skip út at venju, kom fyrst Hólms skipit, ok þar á Kristján Muller amtmadr. Páll lögmadr kom til Gufuness næsta dag eptir Bótólfsmessu, ok var þar vid tjöld, medan hann skrifadi upp hinn nedra hlut sveitarinnar, lèt sídan flytja tjöldin upp til Varmár, ok skrifadi upp hinn efra hlutinn; sídan reid hann á Jónsmessu kvöld á Kjalarnes, ok var tjald hans nidr frá Vallá hinni ytri; þar kom til hans eptir um nóttina Arni Magnússon, ok hafdi ridit austan Mosfellsheidi, höfdu þeir þar tjöld sín bádir í 9 daga. Kunnum vèr því svo gjörla frá þessu at segja, at þat er eptir Eyólfi presti hinum lærda á Völlum, en hann var sonur Jóns Eyólfssonar í Nesi, er verit hafdi sýslumadr í Kjós.

## LIX Kap. Fleira tídt.

Sóttkennt var þá vída um Sudrsveitir, lágu þeir stutta stund sem dóu, ok höfdu sótt harda. Þá dó í Sídumúla at módur sinnar Oluf, dóttir Olafs Hallgrímssonar á Vídimýri, Halldórssonar lögmanns, hún var úng ok ógipt, einberni ok allfjád í föstu ok lausu. Guldust þá á Sudrnesjum landskuldir í líkara lagi, ok þó óvída til fulls. Vígdr var til Helgafells Vigfús, sonur Gudbrands pró-

fasts í Vazfirdi, Jónssonar prófasts, Arasonar, en hafdi fengit brèf fyrir stadnum þremr vetrum fyrri, þó lifdi þar þá enn Einar prestr Gíslason. Ymislig komu konúngsbrèf, ok ei mjög merkilig, nema þat eitt til Mullers amtmanns, at prófa skyldi gildleika rèttarbótar Hákonar konúngs, er Páll prófastr Amundason hafdi ákært; einnin afsvar Sigurdi Einarssyni at fá Húnavazsýslu, ok at Jón lögsagnari, son Jóns Þorlákssonar sýslumanns, fengi sýslu eptir födur sinn. Stiptamtmadr herra Gyldenløve baud ok amtmanni at láta dæma arfamál Hannesar Bjarnarsonar. Þá voru prentadír Hallgríms-sálmar á Hólum, ok svo Þánkar Hallgríms prests, ok Misseraskipta-offr Sigurdar prests í Presthólum; breytti Björn biskup nokkrum ordum í Hallgrímssálmum, en þat líkadi mönnum ílla, enda þótti hann sèrvitr ok tilgjördasamr í fleiru, ok urdu sumir til at flimta um, því nær var borinn Magnús, son Gísla í Máfahlíd, Jónssonar biskups, er seinna vard mikill höfdíngi; ok þá sleppti Jón Sigurdarson í Einarsnesi sýslu í Borgarfirdi sunnan Hvítá, vid Sigurd son sinn, er lengi bjó at Hvítárvöllum seinna, ok setti Jón biskup Vídalín Steffán prest Hallkelsson í Grindavík frá prestskap fyrir þat hann hafdi vedsett tveimr hinn sama bát, en var þó mjög adþrengdr af skuldum; þó var þat satt, at Steffán prestr var drykkjugjarn heldr, ok þótti mönnum því kynligra, at ei var hönum fundit þat til.

## LX Kap. Frá þíngi.

Arni Magnússon ok Páll Vídalín ridu af Kjalarnesi frá Brautarholti, annann dag eptir þíngmaríumessu, ok sudr til Reykjavíkr, ok voru þár 6 nætr vid tjöld sín, sídan ridu þeir Mosfellsheidi til alþíngs á Seljumannamessu sjálfa; hafdi amtmadr ridit degi ádr, ok var þíng medallagi fjölmennt ok engin stórmæli; þó kom þar til umsýslunar hordauda-málit úr Hunavazþíngi um Þórdísi Magnúsdóttur, konu Gudmundar Jónssonar, er upp hafdi verit grafinn, ok vard ei atgjört, þvíat lögmönnum ok lögrèttumönnum kom ei saman um, hvert stefna til Gudmundar væri gild, ok skutu til hæsta rèttar; ok svo mál Gísla Arnasonar vid Halldór Einarsson sýslumann, ok linudust bætr Gísla; ok enn mál þeirra Arna Magnússonar sekretèra ok Magnúsar Sigurdarsonar, var Arna dæmt gildt lögmanns fullrètti ok sektir á Magnús; eitt var illorda mál úr

Arnessþíngi, ok var vísat heim; var ok talat um skipit franska eda spanska, er rekit hafdi á Isafirdi, ok Páll Torfason sýslumadr ok Snæbjörn son hans komst í mál af. Tvo dóma lèt amtmadr útnefna ok gánga í búd sinni, var annar um arfamál þeirra Páls prófasts Amundasonar ok Odds Jónssonar, er verit hafdi á Reynistad, þar höfdu lögmenn dæmt í ok lögrètta hid fyrra sumarit, enn Páll prófastr skotit fyrir amtmanns dóm ok 24 manna, var nú dæmt eptir Hákonar rèttarbót Páli prófasti ok Oddi, systramönnum Torfa Gudmundarsonar á Keldum, arfr eptir hann; dugdi þat mest í því, at Páll prófastr lagdi fram fyrir dómsmenn innsiglada stadfestíngu Kristjáns konúngs 4da tíutígi ára gamla uppá rèttarbót Hákonar konúngs, er lögmenn höfdu kallad ólögliga, ok voru kommissaríí bádir í þeim dómi. Hinn sídari dómr var um stefnumál Halldórs Einarssonar sýslumanns til Lárusar lögmanns, fyrir þat hann hefdi dæmt í móti dómi sýslumanns, en amtmadr var ei Lárusi lögmanni mjög velviljadr; hygg eg at dómar lögmanna hafi fyrst um þær mundir verit ákærdir fyrir amtmanna dómum án konúngs bodords, ok mínkadist vid þat álit lögmanna, er þat vard sídan at yfirrètti; sá dómr fèll svo, at lögmanns dómr skyldi ekki afl hafa móti dómi Halldórs sýslumanns í hèradi um mál Gísla Arnasonar. Stódu dómarnir nokkra daga, ok þíngit hálfan mánud, þvíat seint var til dóma gengit; var amtmadr þar framundir þínglausnir, ok stefndi bádum lögmönnum fyrir sig til næsta alþíngs, en Lárits lögmadr hönum í móti fyrir hæsta rètt; var hann búinn af þíngi til utanfarar, ok reid af því sudr til Saurbæar, þadan sudr til Keflavíkr, ok var þar um hríd; en fyrir því, at skipit var óbúit, fór hann til Bátsenda.

## LXI Kap. Frá því er sídan bar til.

Sumar var gott frá alþíngi vídast um land med þurkum ok hægvidrum, heyskapr í betra lagi, ok nýtíng gód, nema fyrir nordan Yxnadalsheidi, þar vard lítt heyat, ok nýttist ei betr. Kommissaríí Arni ok Páll ridu frá Þíngvelli á Olafsmessu, sudr til Bessastada, þar voru þeir hálfa adra viku, ridu sídan þadan austr Olafsskard á Eyrum; þar kom til þeirra Jón biskup Vídalín, ok reid med þeim austr yfir Þjórsá, til visítazíu í Rángárvallasýslu, en þeir ridu upp frá Keldum á Rángárvöllum, ok til Búlands í Skaptár-

túngum, þadan sudr til Flögu, þar vóru þeir vid tjöld sín, ok skrifudu upp jardir í Túngunni, ok svo í Medallandi; þadan fóru þeir austr til Þykkvabæar. Þá lagdi út Hólms-skipit hinn 7da dag ágústí mánadar, ok fór á því utan Muller amtmadr, en hinn sama dag Lárits Gottrûp lögmadr á Bátsenda-skipi med engum sveini, ok vissu menn ei gjörla hans eyrindi; gjördist Páll Beyer þá aptr umbodsmadr amtmanns, ok sat á Bessastödum; en kommissaríí ritudu konúngi um haustit málefni Hólmfasts Gudmundarsonar. Hvar sem þeir komu, safnadi Arni Magnússon skjölum ok fornum frædum á landi hèr. Þat haust var kyrrt ok þurrvidrasamt. Þá vóru hinn 14da sunnudag eptir Trínitatis haldin tvö brúdkaup at Skardi á Skardsströnd, fèkk Brynjólfr Þórdarson Þrúdar, dóttur Þorsteins Þórdarsonar á Skardi ok Arnfrídar Eggèrtsdóttur, Bjarnasonar; en Bjarni frá Stadarhóli Pètrsson, Bjarnasonar, Pètrssonar, Pálssonar, Sigrídar, annarar dóttur Þorsteins, var þar fjölmenni mikit, ok flestir virdíngamenn um vestrsveitir, einnin Björn biskup á Hólum ok Þrúdr kona hans Þorsteinsdóttir, Þorleifssonar, vid 15da mann; taldi Brynjúlfr sèr í fasteign 9 hundrud hundrada, en Bjarni í föstu ok lausu 13 hundrud hundrada; Brynjúlfr var samarfalaus, en Bjarni átti þá bræðr ok systr, voru þeir í þann tíma kalladir audugastir úngra manna hèr; fór Brynjúlfr med konu sína til Bæar á Raudasandi eptir brúdkaupit, ok sat þar um vetrinn, því Gudrún Eggèrtsdóttir, módursystir Þrúdar, hafdi gefit henni Bæ á giptíngardegi; en Bjarni fór med sinni konu heim til Stadarhóls. Þat hafdi verit ein tídska í brúdkaupum, at kvednar voru vítavísur fyrir bordum vid lyktir, var fundit til sitt hverjum, ok þó ósaknæmt. Var at þessu brúdkaupi sidamadr Hannes prestr Bjarnarson frá Saurbæ sunnan, vid Hvalfjörd, bródir Sigurdar lögmanns, ok hafdi opt verit þat; ok er þat var lidit, tók hann sótt at Skardi, lá viku ok andadist, þremr vetrum betr enn sjötugr, var hann grafinn þar at kyrkjunni, ok gjör gód útför hans; tók sídan Saurbæ Torfi prestr, son hans, er þar hafdi verit, ok tekit ádr vid tveim hlutum stadarins. Um þær mundir eda nokkru fyrri andadist Magnús Magnússon á Eyri vestr, ok svo á hinum sömu misserum Helga, kona Páls prófasts í Selárdal, Sigurdr prestr Gíslason í Fljótshlíd, ok Olafr prestr Einarsson á Múnkaþverá, Þorsteinn prestr at Völlum í Svarfadardal fjórum vetrum meir enn áttrædr. Jón prestr Hjaltason í Saurbæ í Eyafirdi var af

Teigsætt sunnan, son Hjalta Pálssonar, Magnússonar, Hjaltasonar ok Elínar Eyríksdóttur frá Búlandi, Sigvaldasonar, hann var gildligr madr, reid hann í töduslætti sudr til Fljótshlídar til jardar sinnar Teigs í Fljótshlíd, ok kenndi þar þegar sóttar, ok andadist í því rúmi, er hann var alinn í. Arni hinn gamli í Haga Bjarnarson, fadir Olafs ok Jóns í Keldunesi, hafdi lifad til þess, ok var hann vel tírædr, ok hafdi slegit hid fyrra sumarit, en nú dó hann. Tók þá Jón prestr Bjarnason, er fyrri var skólameistari, Stadarbakka, hann hafdi fyrr átta dóttur Hákonar Arnasonar í Midgördum í Stadarsveit, en sídan ekkju Bjarnar prests Skúlasonar á Miklabæ, Sigrídi, dóttur Þorgils á Brimilsvöllum. Misferli urdu nokkur, var um haustit dæmdr til dauda at Esjubergi Ingimundr Einarsson úr Biskupstúngum, ok hengdr í sjáfarkvíum; ok kona ein úr Einarstadasókn í Reykjadal nordr var dæmd frá lífi fyrir barnsmord; ok madr á Vestfjördum, er barnsmódir hans skiladi barni þeirra, gjördi gat á ís á vatni, ok hleypti því þar nidr, var þat nær tvævett. Þá skrifudu kommissaríí jardir upp í Veri, ok fóru þadan til Kyrkjubæar klaustrs, ok skrifudu upp um Sídu ok Landbrot, þadan fóru þeir í Skálholt, ok settist Arni þar at, en Páll reid nordr; gjördi þá vetrarfar gott.

## LXII Kap. Mordsmál sydra.

Sæmundr hèt madr Þórarinsson, hann bjó at hálfum Arbæ vid Ellidaár, ættadr úr Grímsnesi; Steinunn hèt kona hans, ok var Gudmundardóttir, ok hafdi átt tvo menn ádr. A hálfu landinu móti þeim bjó sá madr, er Sigurdr hèt Arason, úngr ok ókvæntr. Þat bar til hinn 22an dag októbris eda Máriziús-morgun, at Sigurdr kom á Bústadi ok Breidaholt, þeir bæir eru næstir fyrir sunnan Arbæ, ok kvad Sæmund hafa gengit heiman kvöldinu fyrir sudr yfir ár, en eigi komit aptr, bad menn fara at leita med sèr, þeir fóru med hönum 4 saman, ok fundu Sæmund örendan, undir fossi þeim í hinni sydri ánni, er Skötufoss heitir, lá hann á grúfu, ok er þeir tóku hann upp, var hann náfölr í andliti, sem þeir menn er á þurru deya, en eigi bólginn, sem druknadir menn, ekki rann heldr vatn úr munni hönum; var sídan lík hans flutt yfir í Gufunes, þar sem Arbær á kyrkjusókn til, ok búit þar til moldar, en eigi heima, ok gekkst Sigurdr fyrir því, kvad Steinunni þess hafa

bedit sig, var líkit svo grafit, ok ei hugat frekar at. Litlu sídar kom upp þat rykti, at Sigurdr mundi annathvert vita dauda Sæmundar edr valda; kom því svo, at Sigurdr var tekinn í Örfarey, þar hann var til sjáfar, ok fluttr til Seltjarnarness, þar var þá Hákon Hannesson fyrir sýslunni; lèt Sigurdr hardfengiliga, ok synjadi þess er hönum var borit, þar til er Páll Beyer kom yfir til Seltjarnarness, ok sagdi þat Sigurdi, at næsta morgun mundi hann fara til Gufuness, ok grafa Sæmund upp aptr, ok skyldi Sigurdr fara med, ok gánga at líkinu; vid þat brá Sigurdi svo, at hann medkenndi fyrir hönum ok ödrum er áheyrdu, þat hann væri valdr dauda Sæmundar, ok er hann var framar spurdr, kvadst hann hafa gengit at baki hönum, þá er hann stód á bakkanum vid fossinn, ok hrundit fram í hylinn med dútrè því, er hann hafdi í hendi; þeir hefdi farit þángad til veida sunnudagskveldit. Lèzt hann hafa gjört þat af lángri áeggjan Steinunnar, konu Sæmundar, kvad hana hafa bedit sig, at fyrirkoma hönum med einhverjum hætti, þá hann sæi færi á; var hann sídan vardveittr, ok vakat yfir hönum til skiptis af öllum bæum á nesinu. Mánadaginn næstan eptir allraheilagramessu þíngadi Niels Kjêr sýslumadr í fyrsta sinni at Varmá í Mosfellssveit um mordit, var þar Sigurdr, ok medkenndi allt hid sama sem fyrri, en Steinunn gekk tregliga vid því, þó medkenndi hûn um sídir fyrir umtölur Páls Beyers, er þar var á þínginu. Var málit sett fyrir lögmann, en þau flutt til Ness, ok sátu þar hálfan mánud í járnum. Þíngadi Sigurdr lögmadr at Kópavogi föstudaginn næstan eptir Marteinsmessu, ok dæmdi þeim dauda bádum; var Sigurdr höggvinn skamt frá túngardi, nordr frá þínghúsinu, en Steinunni drekkt í læknum fyrir austan; var fyrrum höggvid uppá hálsinum, en drekkt í Ellidaá sydri. Þar var staddr Páll Beyer vid aftöku þeirra, ok lèt setja höfud Sigurdar á stjaka vid gröf hans; skorti Sigurd 3 vetr á þrítugan, en Steinunni 3 á fimtugan, ok átti 3 börn eptir fyrri menn sína, en ekkèrt med Sæmundi. Bergr hèt hid yngsta, ok var 14 vetra, ok tók Páll Beyer hann. Þótti þetta mál í þann tíma einna ljótast ordit hafa.

## LXIII Kap. Frá ýmsu til þíngs.

Þessu næst gjördi vetr þúngan ok stórvidrasaman, ok mörg tídindi 1705
ill. Þá deydi Þorleifr prestr at Kvennabrekku, Jónsson prófasts frá

Melum, Jónssonar prests í Vestmannaeyum, þorsteinssonar, hann var gamall, ok kalladr klerkr gódr; einnin þórdr prestr at Villíngaholti í Flóa, ok Gudrídr at Sídumúla Sigurdardóttir prests at Stafholti, Oddssonar biskups, hana hafdi átta Olafr, son Hallgríms Halldórssonar. A föstudaginn fyrstan í þorra vard úti á Fródárheidi Jón Jónsson frá Hamraendum, sýslumadr í Hnappadalssýslu, hann bjó í Dölum, en fyrst var hann á Dönustödum, hafdi hann farit undan Jökli med fiskahesta heimleidis, ok madr med hönum, er fylgdi hönum uppá heidina, týndust tveir, enn hinn þridji komst af, fannst ok lík fylgdarmannsins skamt frá hestinum, en Jóns ekki, er þó mælt hann hafi hrapat fyrir Knararkletta; hann hafdi verit haldinn fjölkunnugr, ok var svo óvinsæll, at margir kölludu þar hefdi fjandinn sókt eign sína. 6 menn týndust sudr í Höfnum af skipi, ok hèt sá Gudmundr Jónsson, er þar var fyrir, en 5 menn á Akranesi, þar var formadr Jón Jónsson frá þíngnesi, gódr bóndi. Ymisliga týndust menn, ok þó gröndudu sèr nokkrir sjálfir. Rak þá inn hafísa fyrir nordan land í Midgói, ok lágu allt vorit; var þat vor hardt ok kaldt. þá var prentadr Katekismus á Hólum. Skip týndist á Breidafirdi, voru á þrír menn, tvær konur ok barn, þau fluttu farm í milli eya. Var þá 6 hundrud mestr afli vid Stapa, en miklir hlutir í Vestmannaeyum; fiskleysi var fyrir nordan ok sprátt illa. þá andadist Gudmundr skáld Bergþórsson, ok hafdi lengst verit undir Jökli, ok vanfær alla æfi, dvergr á vöxt, nema at höfdinu, hann hafdi kvedit mjög margar rímur ok fleiri kvedlínga. Jón Eyríksson var lögsagnari í Húnavazþíngi um vorit. Páll Vídalín setti þíng at Skridu í Hörgárdal föstudaginn næstan eptir páskahátíd, ok dæmdi þar til dauda Sigrídi Vigfúsdóttur úr Reykjadal nordan fyrir barnsmord, var henni drekkt hinn næsta dag í kílnum út ok nidr undan Mödruvöllum. Halldór Einarsson sýslumadr dæmdi Olafi Sveinssyni í Saurbæ útlegd af landi, er rádit hafdi Sigrídi Vigfúsdóttur, þá hûn var vinnukona hans, at fyrirkoma barni sínu. þá voru ok mál Magnúsar Benediktssonar í Vadlaþíngi, ok gjördist lítit at. Eptir hvítasunnu reid Arni Magnússon austr í Mýrdal, ok skrifadi þar upp jardir í hálfan mánud, sídan reid hann aptr í Skálholt, ok þadan sudr á Nes. Lítill var þá gródr ok kaldt sumar, snjóadi bædi í bygd ok á fjöllum um hásumarit. Amtmadr Muller kom út med fyrsta skipi í Hólmi, ok var Jûstizrád; hann hafdi lagt þat til, at betri væri kompaní-

eda samtaka höndlun vid Islendínga enn önnur, lèt þess von at þeir mundi hyllast meir Enska ok Hollendínga enn Dani, ef þeir hefdi sjálfir fiskiduggur úti, sem Lárits lögmadr hafdi mælzt til.

## LXIV Kap. Þíng ok tilburdir þá ok sídan.

Arni hèt madr Bjarnason, Grímssonar smids í Vidvík, hann bjó í Keldunesi nordr, hann var bródir Ingibjargar, konu Jóns prests Gíslasonar í Saurbæ, gat hann barn vid þeirri konu, er Kristín hèt Halldórsdóttir, ok var systir konu hans, en af því at líf lá vid, ok annar fèkkst til til at játa fadernit, þá gekk sá undir; fèkk Halldór sýslumadr Einarsson grun, ok gekk fast á Arna; hann neitti fyrst, þar til er sýslumadr hèt hönum frelsi, þá medgekk hann, ok reid sídan med hönum viljugr til þíngs; var þíng fjölmennt, ok mörg stórmæli. Þar var fyrst lesit konúngsbrèf um lögrèttumanna nefnd, ok annad, útgefit á Jegersborg, um leigulidarètt; þvínæst var dæmd ok tekin af Kolfinna Asbjarnardóttir úr Kjósarsýslu fyrir dulsmál, en Salomon Hallbjarnarson ok Oluf systurdóttir hans úr Snæfellsþíngi fyrir barngetnad sín á milli. Skotit var á frest útlegd Olafs Sveinssonar úr Þíngeyarsýslu. Sumarlidi Eyríksson ok Ranghildr, bródurdóttir hans, voru dæmd ok líflátin fyrir barngetnad sín á millum, þau voru úr Strandasýslu; en er kom til um Arna Bjarnarson, ok hann var spurdr í lögrèttu um faderni barnsins, er Kristín Halldórsdóttir hafdi alit, bad hann um svarafrest til morguns, ok fekk hann, ok gekk laus; kom hann at ákvedinni stundu, ok kvadst vera med sönnu fadir; þá budu sumir yfirmenn hönum, at mæla fyrir hann vid konúng, en hann neitti því, ok kvadst heldr vilja deya fyrir synd sína enn lifa, mælti hann þat med allri stillíngu ok óklökkvandi, ok furdadi menn hugprýdi hans. „Þriggja bæna mun eg beida, sagdi hann: er þat fyrst, at eg sè frjáls ok járnalaus, mun ek ei um hlaupast; þat annat, at snaudir menn fái klædi mín, en eigi bödullinn; ok hid þridja, at líkami minn fái leg at kyrkju"; var hönum því heitit; sídan gekk hann af lögrèttu at heyrdum dómi, ok lagdi sig á höggstokkinn, ok vard vid sem bezt, ok fannst mönnum mikit um. Kristín, barnsmódir hans, var ei þíngfær, ok var henni drekkt seinna í hèradi. Þjófr var dæmdr til hengíngar á þíngi úr Dölum Jón Þórarinsson, ok var hann strokinn. Vigfús Hannesson

sýslumadr hafdi dæmdan Magnús í Brædratúngu í fèsektir stórar vid Arna sekretèra, vildi hann eigi gjalda, ok voru þær nú tvöfaldadar, ok urdu 400 dalir. Þar var mál milli Magnúsar Bjarnarsonar á Espihóli ok Sigurdar Hrólfssonar, dótturmanns Bjarna prests Hallssonar á Grund, því Magnús hafdi tekit Bjarna prest til framfæris í elli hans, sem fyrr segir, ok bar þeim á milli um hlut af jördu. Margt kom þar annat fyrir. Þar var lesit konúngsbrèf um þat, at Arni Magnússon ok Páll Vídalín skyldu sitja rètt med amtmanni í máli milli Jóns prests Gíslasonar ok Jóns Snorrasonar; annat um tvídrægni Mullers amtmanns ok Páls Beyers vid Lárits Gottrûp; þridja um Jóns Thorlacíus Jónsson, Þorlákssonar, at hann styrkti födur sinn í Múlaþíngi, þeim hluta er hann hèldt; ok enn um lèni Sigrídar Hákonardóttur frá Brædratúngu, ekkju Sigurdar prests at Stadarstad. Medan þíngit stód, kom út Lárits lögmadr Gottrûp á Bátsendum, laugardaginn nærsta fyrir midt sumar, fór hann ei til þíngs, ok var í Keflavík til þess er því var lokit, en reid sídan nordr til Þíngeyra, hafdi Páll Vídalín gjört nokkur lögmannsverk fyrir hann, medan hann var utan, sem getit hefir verit. Hann var óaudugr, þó hann hefdi Dalasýslu eina saman, ok heldr tilleitinn vid Lárits lögmann, vard af því kommissíón; hafdi amtmadr tekit lögmannstolla Gottrûps ok haldit, ok svo þeir haldit í móti hönum saman, Arni Magnússon ok Páll ok Björn biskup frændi Páls, en Lárits lögmadr hratt þeim öllum med lögum. Voru kommissaríí í máli amtmanns ok Lárusar Sigurdr landþíngskrifari, son Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar, ok Eggèrt Jónsson á Ökrum í Skagafirdi, son Jóns Eggèrtssonar. Sídan leitadi Páll jafnan lags at hnekkja Gottrûp, ok vildi neyta þess er amtmadr var hönum óvinveittr. Getit er þá enn konúngsbrèfa um ströndud skip ok presta tillög. Sigurdr lögmadr Bjarnarson sagdi af sèr lögsögn, þótti hönum gjörast rostumikit, en Páll Vídalín tók vid til fulls í móts vid Lárits Gottrûp, hafdi Sigurdr lögmadr verit vinsæll, ok spakr í umgengni. Páll Vídalín var medalmadr á vöxt ekki mikill, ok mjóraddadr, hann var miklu lærdastr ok fródastr allra veraldligra manna, ok lögvitr vel. Einar Einarsson prests, Torfasonar, sýslumadr á Bardaströnd, var þá kominn í vandrædi, ok lèt hann af sýslunni; en Páli Torfasyni úr Isafirdi var stefnt til næsta þíngs um skipsmálit; Snæbjörn, son hans, var ok í því máli, ok tók þá mjög at standa í málasóknum. Vigfús á

Eyri, lögsagnari Magnúsar sýslumanns í Snæfellssýslu, son Arna á Heydalsá, Vigfússonar prests, Helgasonar, fèkk þá Hnappadalssýslu eptir Hamraenda-Jón; hann átti Helgu Sigurdardóttur, Bjarnarsonar, Þórdarsonar prests, Moldar-Brandssonar; þeirra synir voru þeir Arni ok Sigurdr, er sídan var skólameistari, ok sýslumadr í Dölum; voru þeir fedgar miklir menn ok sterkir. Var þá sumar kaldt frá alþíngi ok óþerrasamt, ok rak hafís at landi í ágústó.

## LXV Kap. Mannalát.

Þat haust andadist Þorsteinn Þorleifsson á Vídivöllum, sýslumadr Skagfirdínga, hann hafdi verit hagleiksmadr, ok haft marga þekkíngu edliligra hluta, ok má þat valda, at hann var haldinn margkunnugr; framamadr hafdi hann þótt at öllu, ok haldit sýsluna hálfan þridja tug vetra, ok var sjötugr at aldri er hann dó, ok jardadr at Hólum. Halldór Einarsson sýslumadr kvad eptir hann erfidrápu, ok er þetta upphaf at:

Hví er fár
inn frægi Þorleifs
burr ok um dagr dapr?

Jón skólameistari Einarsson prests, Skúlasonar, kvad ok eptir hann. Nikulás á Reynistad, son Einars biskups, tók þá sýsluna; hann átti Ragnheidi, dóttur Páls prests Jónssonar á Melstad, ok voru þeirra synir Einar á Söndum ok Erlendr. Halldór á Seilu, son Þorbergs Hrólfssonar, hafdi verit lögsagnari, en ei veit eg hvört hann var þat fyrir Nikulás, var hann nú gamall, hann var gildligr madr ok vel at sèr, en kvennkær heldr. Skapti Jósepsson hafdi verit lögsagnari Þorsteins, ok svo var hann Nikulásar, hann bjó at Þorleifstödum, ok var kalladr nokkud hardlyndr, eigi lítilhæfr ok virdr vel, hann átti Gudrúnu Steingrímsdóttur, Magnússonar, systur þeirra Þorsteins ok Jóns, ok voru þeirra börn Þorleifr prófastr ok Magnús á Vídimýri, fadir Sæmundar, Jósep ok Arni prestr, Ingibjörg ok Kristín. Halldór prestr Torfason í Gaulverjabæ andadist skjótliga, ok mörg urdu einstaka manntjón. Haustadi þá illa med vætum ok krapa, ok spilltust hey fyrir nordan land. Þá dó Einar prestr Gíslason at Helgafelli, hann hafdi átta Þorbjörgu Bjarnardóttur prófasts frá Stadarstad, Snæbjarnarsonar frá Kyrkjubóli; þeirra börn voru: Þórunn, kona Gudmundar prests

frá Bláskógum, Þóra, ok Björn prentari í Kaupmannahöfn, skurdhagr madr, mikill ok sterkr, ok Gísli. Olafr prestr, son Jóns prests Þorgrímssonar at Stad í Kinn, bjó at Landamóti, ok átti Ingibjörgu, dóttur Tómasar Bjarnasonar Hólarádsmanns, hann hafdi fengit brèf fyrir Háls, eptir Jón prest Tómasson, er þá var gamall, reid hann til Háls, ok sagdi Jóni presti veitínguna, en sídan til fundar vid Geir prest Markússon í Laufási, þadan reid hann vid annan mann upp med Fnjóská til kvelds, ok mælti til hans í einum stad: „hèr er vad á ánni", en þar bar madrinn í móti; Olafr prestr var knáligr madr, hann hleypti á sund, ok er hann kom í strenginn, kalladi hann á fylgdarmanninn ok mælti: „hèr er ófært, seg þú heilsan mína konu minni ok kunnmönnum", ok þar týndist hann hinn 13da dag septembris, ok var slædt upp líkit. Hans son var Tómas á Landamóti, en Þorgrímr prestr á Hálsi var bródir hans, fadir Jóns prests. Þá öndudust enn Oddr prestr Arnason at Kálfatjörn, ok Jón prestr Jónsson at Breidabólstad á Skógarströnd, en Þórdr prestr at Völlum Oddsson prófasts, Eyólfssonar, er verit hafdi í Holti, kom af för heim til sín at kveldi nokkut drukkinn, ok reid hardt í hladit, var stag fyrir hestinum, svo hann fèll af baki til jardar, ok stundi vid sárt, ok dó litlu sídar; kona hans ól barn jafnsnemma, ok deydi þann dag er hann var grafinn; hafdi Þórdr prestr verit hinn ásjáligasti madr, ok bædi þau; var dóttir þeirra Ragnheidr, er Eggèrt Bjarnason átti vestr á Skardi. Þat bar enn til, at Páll prófastr í Selárdal missti tvö skreidarskip ok 8 menn, þeir ofhlódu sig í gódu vedri, en bát um haustit med þremr mönnum. Fiskr var þá fyrir Nordrlandi, er áleid, en mikill sydra ok vestra. I þat mund gjördist Jón prestr í Garpsdal Jónsson prests, Loptssonar, prófastr í Bardastrandarsýslu, en Jón Jónsson, Mödruvallaprestr, í Eyafirdi. Jón Markússon fèkk brèf fyrir Laufási eptir Geir prest bródur sinn.

## LXVI Kap. Frá Magnúsi Benediktssyni.

Magnús, son Benedikts Pálssónar ok Sigrídar Magnúsdóttur, er köllut var hin stórráda, bjó at Hólum í Eyafirdi, sem fyrr segir, hann átti Ingibjörgu Þorkelsdóttur, Gudmundarsonar á Þingeyrum, systur Ara í Haga, hafdi Solveig Magnúsdóttir lögmanns, módir Ingibjargar, gefit henni at sök, at hún giptist Magnúsi med vèlum,

því hann var ósvífinn ok lítt vinsæll. Þat var borit Magnúsi, at hann hefdi sèd fyrir konu þeirri, er menn ætludu hann ætti þúnga med, ok mörg önnur ill atvik: en fyrir því, at hann var vel ættadr, ok ei svo ört gengit at slíkum mönnum sem þurfti, en Lárits Skevíng sýslumadr spaklátr, þá vard ekki svo skjótt um þetta; voru ok margir deigir árædis, þóttu ekki laga bod örugg, til at taka hann at svo búnu, en mikill madr ok hardr átti í hlut; hafdi þó sýslumadr tekit yfirheyrslu prófun í því máli, en Páll Vídalín dæmt sídan um vitnafærslu í því at Saurbæ. Amtmadr baud ok Halldóri sýslumanni Einarssyni at láta sök þá koma til sóknar, ok þat gjördi hann á þessu hausti; þótti Magnús falla á eidnum, því hann skorti bædi lýrittarvotta ok fángavótta, ok var skotit til lögmanns, en Halldór sýslumadr skaut til Lárusar Skevíngs at taka Magnús í vardhald, því Eggèrt Jónsson á Ökrum, hálfbródir hans ok svaramadr, afsagdi at annast hann. Lárits sýslumadr lèt þá taka til járna, en Magnús gekk í tjald sitt; sýslumadr gekk þareptir, ok sendi Jón Skúlason hreppstjóra í tjaldit undan sèr, hann kalladi á Magnús, en hann lèzt þegar mundi koma, en er menn gættu til, var hann horfinn; þeir sáu mann rída í fjallinu fyrir ofan Saurbæ, þar sem þíngit var, ok voru 5 sendir til eptirfarar, dimmdi þá af nóttu, ok höfdu þeir hans ekki. Daginn eptir var mjög fast leitat, ok nádist Magnús í Yxnadal, ok var færdr Lárusi Skevíng at Mödruvöllum, ok látinn í vardhald; vildi hann ekkèrt medkenna, ok vard ei atgjört. Jón Hálfdanarson, húskarl Magnúsar, var ok í haldi, ok verdr ei gjörr sagt frá hvörsu þeim reiddi at sinni.

## LXVII Kap. Frá ýmsu er vidbar.

Þessi misseri var borinn Finnr, son Jóns prófasts Halldórssonar í Hítardal ok Sigrídar Bjarnardóttur, er sídan vard hinn merkiligasti. Vetrinn þareptir var medalvetr í hardara lagi; en nóttina 1706
föstudagsins næst fyrir þrettánda var svo mikit utsunnan vedr, at spillti húsum, heyum ok skipum vída um land, brotnudu ok lestust frá Þorlákshöfn til Akraness 100 skipa, svo talit var, 25 kríngum Eyafjörd, ok 11 í Olafsfirdi, tók þá kyrkju at Múnkaþverá allt at bitum fram til prèdikunarstóls, ok midhlut úr Mödruvallakyrkju í Eyafirdi. Daginn eptir kyndilmessu druknudu 2 menn

í innri Njardvík af báti; en 9 menn förúst af fjórum bátum, ok var einn Jón, son Þórarins prests Olafssonar á ytri Bægisá, komst hann á land ok dó svo. A þeim vetri hafdi Niels Kjêr umbod Páls Beyers fógèta, en Jón Eyólfsson amtmanns. Þá andadist á sunnudags morguninn í Midgói Magnús prestr at Kvíabekk Sigurdarson, Bjarnarsonar at Laxamýri, þremr vetrum meir enn sextugr, var hann fadir Benedikts Bechs, en þann stad fèkk Erlendr prestr Gudbrandsson frá Frostastödum, kapellán födur síns til Flugumýrar ok Hofstada, en Gudbrandi presti var naudugt skipadr aptr Sigfús Asmundarson. 11 menn druknudu af tíæríngi Skálholts stadar á Járngerdarstadasundi í Grindavík snemma vertídar, ok var þessi vetr kalladr vindskada eda jardskjálftavetr, því þá hrundu af landskjálftum 24 lögbýli um Ölves, ok utarliga í Flóa, ok margar hjáleigur; molbrotnudu vidir allir ok veltust undirstödur veggja, svo þat vard efst, sem nedst var ádr, kofar stódu helzt, enn búshlutir spilltust, kýr ok kvikfènadr drapst vída, en ekki sakadi menn, nema eina konu. Voru því minni landskjálftarnir, sem vestar kom, ok fundust at eins undir Jökli. Þridjudaginn seinastan í vetri var mestr landskjálftinn, en midvikudaginn þann hinn næsta druknudu 10 menn af tíæríngi í Þorlákshöfn, allir hjáleigumenn frá Arnarbæli, ok átti skipit Hannes prestr Erlíngsson, en eptir voru þar 11 ekkjur. Var þetta hid mesta tjón, þar sem stadrinn var brunninn ádr ok hjáleigurnar allar, stód ekki eptir nema kyrkjan ein. Magnús Benediktsson var þá í haldinu hjá Lárusi sýslumanni Skevíng, ok Jón Hálfdanarson, ætludu menn hann mundi hafa beint at illvirki hans med hönum. Páll Vídalín dæmdi hann sídan útlægan af landi ok fridlausan innan þriggja nátta, slapp hann þá úr járni, ok nádist ei at því sinni. Þann vetr var hinn mesti fiskr fyrir, ok stórmiklir hlutir ok meira á Sudrnesjum; týndust 2 menn af báti á Strönd, adrir tveir á Hvítanesi, 7 í Grindavík. Vor var hardt ok kaldt, hrófladist af kvikfè, ok var hardt á milli manna fyrir nordan land; komu hafísar um sumarmál, ok voru landfastir lengi, batnadi med Jónsmessu vestra ok sydra, ok tók at spretta, en fyrir nordan var hid sama vedrlag ok grasvöxtr aumligr. Um sumarmál týndust tveir menn vid Grímseyu, en tveir komust af, þeir höfdu farit til sela ok ofhladit sig. Þá andadist Bjarni prestr at Vestrhópshólum Þorsteinsson, Asmundarsonar, Þorsteinssonar á Grund, son hans var Páll prestr, er seinast var at

Upsum, fadir þeirra Pálssona; en at Vestrhópshólum var vígdr Páll prestr Jónsson frá Einarsnesi, Sigurdarsonar. Kristján Muller amtmadr kom út í Hafnarfirdi, ok voru þá ödrum leigdar allar hafnir, enn fyrr hafdi verit, ok nýir kaupmenn vídast. Páll Vídalín kom á tal vid amtmann, ok tjádi hönum ójöfnud, er Lárits Gottrûp lögmadr hefdi gjört bónda einum, ok var út af gradúngi, stefndu þeir fyrir þat lögmanni til þíngs, en er hann kom, lézt hann eigi hafa vilja Pál í dómssæti, er hann væri rógberi, fór þó fram dómr, ok fékk Páll eina tvo lögrèttumenn allskostar á mál med sèr, ok dæmdu þér fèsekt á hendr lögmanni. Arni Magnússon hafdi farit utan um haustit fyrir, ok kom út á Eyrarbakka, hafdi hann mjög borit fyrir konúng þann vanhag, er lènamenn kauphöndlunar ok inntekta gjördu útvegum manna, þar sem þeir drógu hvörn mann á sín skip, en bændaskip fúnudu mannlaus í landi. Hann reid uppá þíng á ödrum degi eptir, ok bar þeim amtmanni Muller til, vard rædt til Jóns biskups Vídalíns, ok líkadi amtmanni ei vid hann; Arni kvad hann því ei vera vin biskups, at hann játti ei öllu því, er amtmadr vildi at væri, ok enn bar þeim fleira til; var þat eitt, at amtmadr var mjög í móti allri kauphöndlan innanlands, en Arni kvad hann leggja vilja ánaud á almúgann. Þá bar amtmadr sig upp um kommissaríos, kalladi þá efla þverúd bænda, svo at þeir vildu ei unna sèr frjáls farníngs. Arni kvad hann brúka eigi rètt farníngsfrelsit, ok vera helzt til frekan vid bændr, ok þat lèt hann at lyktum kvedit upp, at bædi væri hann einfaldr ok heldr ókunnr lögum hèr ok allri lenzku. Jón Eyólfsson sýslumadr átti mál vid Sigurd Sigurdarson landskrifara ok beid skakka, en Halldór sýslumadr Einarsson sat á medan í landskrifara sæti. Var alþíng á þridju viku ok nýmælalítit. Þar var lesinn daudadómr Olafs Kolbeinssonar úr Múlaþíngi. Amtmadr baud Lárusi Gottrûp at gjöra um mál Magnúsar Benediktssonar, ok taldist hann undan, ok því dæmdi Páll málit, þvíat þat vard seinna; en því dæmdi Páll lögmadr Magnús útlaga, at hönum þótti eigi mord sannat, en þó líkligt um nokkur banarád vid Gudrúnu Jónsdóttur barnsmódur hans. Olafr Kolbeinsson var tekinn af á þíngi. Þar voru dylgjur miklar med höfdíngjum; en Magnús Benediktsson komst utan um haustit í Höfda.

## LXVIII Kap. Mannalát ok annat.

Þau misseri var prentud Gísla-postilla ok Dominicale ok tvö kver önnur. Þá andadist Margrèt, módir meistara Jóns biskups Vídalíns, Þorsteinsdóttir prests frá Holti, Jónssonar prests í Vestmannaeyum, Þorsteinssonar, sjötug at áldri. Sumar var svo þurrt ok vazlaust, at gánga mátti ok rída hverja ófæru, ok varla vard vættr hestshófr í Breidumýri í Flóa, en í Þíngeyarþíngi var votsamt ok um Austfjördu, ok hid versta var sumarit nordanlands, þvíat þar rignir mest af nordri, en sydra af sudri. Magnús Sigurdarson frá Brædratúngu fór þá utan í Húsavík í málum sínum, amtmadr fór ok utan ok Páll Beyer, en umbodsmenn þeirra voru eptir. Þessir menn öndudust: Illhugi prestr Jónsson í Grímsey, módurfadir Bjarna sýslumanns Halldórssonar ok Jóns prests Þórarinssonar í Vogum, hann var gamall; ok Páll prestr Jónsson í Vestrhópshólum, yfir hönum saung Björn biskup á visítazíu sinni, þat var á slidnum slætti. Þórdr Markússon, lestamadr á Hólum, reid ótemju fram af kvíslarbakkanum hjá Eyhildarholti, ok sökk þar hvorutveggi. Páll prófastr Bjarnarson at Selárdal deydi ok þá fjórum vetrum meir enn attrædr, ok var hann nafnkendr, ok annar Eyríkr prestr Eyólfsson at Lundi, gódr madr ok gudrækinn, sem foreldrar hans, bródir Einars Eyólfssonar sýslumanns, födur Halldórs, Ketill prestr Halldórsson á Asum, Þorbergr prestr Illhugason í Hrútafirdi, Helgi prestr Olafsson at Stad vid Hrútafjörd, son Olafs prests, Hálfdanarsonar prests, Rafnssonar, en bródir Gudmundar antikvaríi, ok enn ekkja Þorsteins prests í Vestrhópshólum. Urdu ok nokkur misferli á einstökum mönnum. Þá var stirdt haustit fyrir nordan ok óþerrasamt, ok skemmdust heyin, þau lítil sem fengust; var ok ei enn lètt af hardindum á Ströndum, þar dóu bædi menn ok fè, ok lögdust 8 eda 9 bæir í eydi í Trèkyllisvík. Landskuldir fyrir sunnan, er áfallnar voru í hardindunum, voru goldnar sem faung voru á. Þat sumar allt hèldu kommissaríi áfram at skrifa upp jardir, med öllum atvikum, er vid þær mátti telja. Attu þá kaupmenn at gjalda 20 þúsundir eitt hundrad 90 ok 7 ríkisdali í hafnartolla. Þat haust hinn 9da dag októbris var brúdkaup Sigurdar Einarssonar biskups ok Kristínar Markusdóttur; urdu þá fannalög ok snjóar, ok hèldust nyrdra, en annarstadar vidradi betr. Gekk þúng ok mikil kvefsótt um Eyafjörd ok vestr

eptir, ok andadist Valgerdr, dóttir Asgríms skálds at Höfda, vetri meir enn sjötug, hún hafdi farit um vorit fyrir med Gísla syni sínum frá Kvíabekk at Stórahamri í Eyafirdi. Var sóttin komin fyrir jól í Hjaltadal, ok dó þar margt; fór hún skjótliga vestr um, ok andadist almúgafólk margt roskit, ok nokkrir af prestum þeim, er ádr eru taldir, ok prestr nokkur eda kapellán at Kvennabrekku Magnús Sigurdarson.

## LXIX Kap. Vetrarfar ok mannalát.

Nú gjördi vetr gódan, en lítit var um sjógæftir, var fiskr fyrir, 1707
þegar róit var. Bar þat þá til eptir jólin, at skólasveinn, er Björn hèt, ok kalladr Brutum, ok menn hafa sagt son Halldórs prests, er þá hèlt Selárdal, Pálssonar prófasts, Bjarnarsonar, þó hann finnist eigi í ættabókum, var stúnginn í fótinn af einum skólabródur sínum vestan ad, ok skorit útúr, svo at sinarnar hèngu út; hann lá lengi, ok dó öndverdliga á þorra. Jón Olafsson, Magnússonar prests frá Mælifelli, bródurson Skúla prests í Goddölum fèkk Stad í Hrútafirdi eptir Helga prest Olafsson; þá andadist frú Gudrídr þórdardóttir at Leirá snöggliga, ok Magnús prestr Einarsson at Stad í Steingrímsfirdi, hann var gamall, ok hafdi lengi legit í kör. Hann ok brædr hans Asgeir prestr í Tröllatúngu, Arni prestr, ok Teitr prestr at Prestsbakka, voru synir Einars prófasts at Stad Sigurdarsonar, Einarssonar frá Heydölum; hafdi Magnús verit prófastr, frómr madr ok spaklyndr, ok átt Gudrúnu Halldórsdóttur, Andrèssonar saungmanns frá Melgrasseyri, þau áttu börn mörg, ok er frá þeim mikit fólk vestra: var einn sonr þeirra Halldór prestr í Arnesi, fadir Magnúsar prests ok systkina hans, ok einn þorvardr prestr í Sandlauksdal. Midvikudaginn annan í Gói dó Jón í Túngu í Fljótum, son Sveins prests á Bardi Jónssonar, hann hafdi verit kránkr ok karlægr lengi; hafdi átt þá konu, er Helga hèt Guttormsdóttir, voru börn þeirra Jón, er sídan var sýslumadr, ok bjó í Grenivík, ok Halldóra, er Sölvi átti Tómasson, módir Sveins lögmanns; var Jón þá hálfsextugr er hann dó. En á öndverdum einmánadi deydi Gudmundr prestr Bjarnason at Arnesi í Trèkyllisvík, at því er segir Eyólfr prestr hinn lærdi, ok svo Bjarni prestr sonr hans; ok hinn 9da dag febrúaríí Magnús prestr á Breidabólstad í Fljótshlíd, hinn gamli, Jónsson prests, Sigurdarsonar

prests, Einarssonar frá Heydölum, hann var vetri meir enn tírædr, ok hafdi verit prestr þar á stadnum hálfan sjöunda tug vetra, en nokkra vetr blindr, hann hafdi átta Ragnhildi, dóttur Halldórs prófasts Dadasonar í Hruna, ok er mjög margt frá þeim komit. Skip týndist vid Flatey á Breidafirdi laugardaginn fyrstan í þorra, druknudu þar 8 menn saman, var formadr Páll, son Sæmundar prests frá Upsum, Hrólfssonar sýslumanns, Sigurdarsonar, en módir hans var Ingibjörg, dóttir Jóns Torfasonar í Flatey. Magnús Sigurdarson dó í Kaupmannahöfn í málum sínum, ok þótti mönnum hann hardt leikinn af Arna Magnússyni. Voru þeir hans synir: Jón á Núpi, er mjög margt manna er frákomit, ok Sæmundr, er seinna var prófastr í Skagafirdi, fadir Magnúsar prests at Þíngvelli. Fleiri dóu íslenzkir menn í Kaupmannahöfn. Þá gjördist gródr í hladbrekkum sydra á einmánadi, ok vard næsta gott vorit; en skömmu eptir sumarmál andadist ekkja Þórdar biskups, frú Gudrídr Gísladóttir, Magnússonar, segir þó Jón prófastr Halldórsson at hún dæi 8da dag aprílis, ok var hún vetri meir enn hálfsextug, var lík hennar flutt í Skálholt, ok grafit þar hjá manni hennar virdugliga.

## LXX Kap. Skip komu út.

Þessi misseri var prentud á Hólum Jónsbók, ok rím Jóns skólameistara Arnasonar. Druknadi þá í Núpsvötnum Isleifr Jónsson lögrèttumadr eystra. Þann tíma voru ákærur ýmsar móti Lárusi sýslumanni Skevíng, ok var ein af hendi Sigurdar Bjarnasonar, þar um þíngadi Halldór Einarsson sýslumadr at Hvammi á Galmarsströnd, ok vard komit á sáttum. Skip komu at venju, ok þó tvö ok þrjú í hverja höfn sydra. Kristján Muller amtmadr kom út í Hólmi, en Páll Beyer í Hafnarfirdi, ok var skipadr landfógèti yfir landit, hafdi Jón Eyólfsson haft þá sýslan, medan þeir voru utan eda lengr, því amtmadr hafdi útvegad hönum konúngsbrèf fyrir því; en sídan hafa verit landfógètar, ok haft reiknínga konúngs ok Gullbríngusýslu. Konúngsbrèf komu út um nokkra hneigslanliga ósidamenn, er hljópu um, ok forsmádu guds ord ok rèttan hjúskap, hafdi meistari Jón Vídalín klagat um þat. Annat var stadfestíng þess, er ádr var gefit út um presta tillögin. Sum voru um embætti Odds Sigurdarsonar ok Jóns Eyólfssonar, er sídar mun getit. Arni Magnússon ok Páll Vídalín skrifudu upp jardir

í Reykjadal hinum sydra, ok í Melasveit, gekk þeim nokkud seint, því margt fèll fyrir; hafdi Páll fyrir nokkrar ákærur til Lárusar lögmanns um ágengni vid bændr. Þat skip kom fyrst, er í Vestmannaeyar kom, en þar næst á Eyrarbakka, fèkk Jón Eyólfsson brèf fyrir at vera Víselögmadr Páls sunnan ok austan, var hann þó þá sextugr, ok miklu eldri enn Páll, en Páll fèkk leyfi at sitja í Vídidalstúngu medan á kommissióninni stædi. Enn fleiri komu konúngsbrèf, ok snertu þau eigi almenníng.

## LXXI Kap. Bólan mikla kemr.

Bjarni, son Gísla Bjarnasonar frá Stokkseyri ok Oddnýar Grímsdóttur prests, Bergsveinssonar, Einarssonar, bjó at Asi í Holtum, hann átti Gudrúnu, dóttur Markúsar sýslumanns í Vestmannaeyum, Snæbjarnarsonar, Steffánssonar, Gíslasonar biskups, systur Gróu, er Páll Torfason sýslumadr átti, höfdu þau búit fyrrum í Vetleifsholti, medan Markús lifdi ok var í Asi, börn þeirra voru: Gísli, Gudmundr ok Kristín. Gísli hafdi farit utan á Eyrarbakka hid fyrra sumar, ok dáit um vetrinn í bólusótt med fleirum ödrum, var kista Gísla, ok þat annat, er hann hafdi skilit eptir, flutt út híngad á Eyrarbakka-skipi, því er sídar kom; þat tók höfn á uppstigníngardag, en kistan var nokkru seinna flutt heim til Ass, ok lokit upp; þar var í medal annara hluta skyrta Gísla ok önnur línklædi; Kristín tók þau, ok fèkk sídan bóluna, lá hûn viku, ok vard heil, en bólan stadnæmdist á bænum, hafdi þá eigi bólnasótt gengit hèr um 6 ár hins fjórda tugar; barst hûn skjótt út yfir ána, á Bakkann ok í Flóa, ok gjördist þegar allmannskæd, svo at sumir dóu á sextugs eda sjötugs aldri, er mikla bólu höfdu fengit ádr, valdi hûn þó helzt úr ýngisfólk roskit, allt þat sem röskvast var ok mannvænligast, ok meir karla enn konur, ok svo á öllum öldrum, en sízt úngbörn; henni fylgdi brádasótt ok margir sjúkleikar; fengu þeir höfudóra, sem dóu, ok lágu þeir fæstir lengr enn hálfa adra viku edr hálfan mánud, en hinir lengr er á fætr komust; hûn fór mjög ákafliga yfir sveitirnar, ok sló sèr austr ok sudr ok upp til fjallgardsins, ok svo um Sudrnes, ok jafnframt því undir jökli, ok dóu margir menn, hvar sem hûn kom; fóru þá opt 2 eda 3 med líki til graftar, ok stundum konur, ok vard ei mjólkadr peníngr sumstadar, misstu þá margir öll börn sín ok öll syst-

kin, ok voru hryggvir eptir; þessir dóu prestar: Arni Jónsson at Eyvindarhólum, nýkominn þar eptir Högna prest Amundason, Þorkell Arnason á Breidabólstad í Fljótshlíd kapellán, Jón Jónsson kapellán á Fellsmúla, Steffán Bjarnarson í Villíngaholti, Jón Erlíngsson at Olafsvöllum, Jón Gíslason at Torfastödum, Hannes Erlíngsson at Arnarbæli, Arni Gíslason í Skálholti, Sæmundr Jónsson í Middal, Sigurdr Eyólfsson at Stad í Grindavík, Gudmundr Jónsson at Steinsholti, Vigfús Gudbrandsson at Helgafelli, Jónssonar prófasts, Arasonar; voru þeir flestir úngir menn ok vel at sèr gjörfir.

## LXXII Kap. Utkoma Odds, ok frá Lárusi lögmanni.

Nú kom út Oddr, son Sigurdar prófasts at Stadarstad Sigurdarsonar prófasts í Stafholti, Oddssonar biskups, ok Sigrídar Hákonardóttur frá Brædratúngu, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar; hann hafdi verit utan hid fyrra sumarit, ok fengit konúngsbrèf fyrir Víselögmannsdæmi nordan ok vestan, ok lögsögn eptir Lárits Gottrûp, hann kom út í Grundarfirdi fyrir alþíng, hann var mikill sem hann átti kyn til, ok vænligr ásýndum; reid hann frá skipi til þíngs, ok hafdi þíngit stadit fáa daga, er hann kom þar; var þat medallagi fjölmennt ok stórmælalaust, ok stód 3 vikur. Kæra var milli Lárusar lögmanns Gottrûps ok 6 bænda í Húnavazþíngi um gjöld, ok settist á þessu þíngi. Mál voru þar þá ýmislig, ok var eitt úr Nes-hrepp, ok vard lítit úr, höfdu stelpur tvær átt leikfáng skrípisligt vid dreng, ok gjört hönum meint, en unnu sèttareid at verit hefdi móti vilja sínum. Jens Spendrûp hafdi þar mál fyrir. Vard heldr rostumikit í landi, þó þíng væri fátídt, því Oddr Sigurdarson hafdi fengit umbodsbrèf af stiptamtmanni Gyldenløve, at sækja sakir á landi hèr, þær er hverr höfdíngja ákærdi á annan, bædi um mál Asbjarnar Jóakimssonar, er var forn ákæra vidkomandi lènamönnum, ok enn fleira. Jón, son Torfa sýslumanns á Bardaströnd, Jónssonar í Flatey, Torfasonar, kom ok út um þíngit, ok hafdi fengit sakarverjanda embætti af konúngi, sem enn mun sagt verda. Þóttist nú Lárits lögmadr sjá, at þar sem Oddr var skipadr Víselögmadr fyrir utan hans vilja ok leyfi, ok ætladr til at taka lögsögn eptir sig, mundi hann nú settr af amtmanni til at sækja sakir í móti sèr, því amtmadr hafdi verit

umbodsmadr stiptamtmanns, þartil er Oddr kom til; vissi hann ok at Oddr var úngr, framgjarn ok kappsfullr, ok mundi þá ekki af-spara, ok leiddust ertíngar amtmanns vid sik ok annara óvildarmanna sinna, mælti hann þá vid Muller amtmann, at hann skyldi sópa fyrir dyrum sínum sjálfs, ok stefndi hönum til áheyrslu ok vidrvistar, medan hann tók þíngsvitni í lögrèttu um þat, er hann hefdi látit taka af Þórodd Þortseinsson um stuld, eptir þat er lögmadr hafdi þó lýst því yfir, at hann skaut máli sínu til hæsta rèttar, ok vottudu nokkrir menn, at amtmadr hefdi heyrt þat appell; þó er mælt, at sú stefna færi fram hid fyrra sumarit, en ákæra er þó talin seinna um rángan dóm yfir hönum. Annad þíngsvitni hafdi hann einnig taka látit um þat, er Albert Asgeirsson hafi húdstrýktr verit á Bessastödum, þá amtmadr sat þar ok Heidemann landfógèti, fyrir þat er hann vildi ekki róa á konúngsbátum um vertíd, ok er þess getit ádr; sýndist þá amtmanni bezt rádit at slá undan, ok sættust þeir sídan heilum sáttum. Eptir þat fór Muller amtmadr á brottu hèdan, ok fèkk at vera sumar ok vetr í Kaupmannahöfn, því hann tók mjög at eldast, en lèt Pál Beyer vera umbodsmann sinn. Oddr var umbodsmadr stiptamtmanns, ok hafdi saksóknir, sem fyrr segir, ok var þar konúngsbod fyrir, ok skyldi stefna sökum nokkrum, ok Oddr sækja þær fyrir kommissaríos Arna Magnússon ok Pál, ok voru þær helzt á móti lögmönnum, Sigurdi Bjarnarsyni, er fyrrum var, ok Lárusi Gottrûp; má þat ætla lítit hafi verit tilhafit um sumt, er þeir voru kærdir fyrir, eda flest; en af slíkri íhlutan ok blendíngi rèttargángs nýttu sèr ágengir menn til metnadar, ok jókust vid þat óeyrdir. Kommissaríí höfdu ákvedit þat fyrir þíng, at Vogatúngu í Leirársveit, hvad gjalda skyldi af jördum, kúgildum ok fjám í ferdar kostnad Lárusar lögmanns, ok var þat enn at konúngsbodi, er þeir gjördu þat, ok lètu þeir þat nú gánga um land.

## LXXIII Kap. Enn frá málum.

Um alþíng kom út Akreyrarskip fyrir nordan, ok þará Magnús Benediktsson, er utan hafdi farit at Höfda hid fyrra sumarit eptir dómi, hafdi hönum ordit illt til adstodarmanna, til þess er hann fann Jón Torfason af Bardaströnd; hann hafdi komit sèr vel fram, ok fengit talsmensku embætti af konúngi í hinum smærrum mál-

um; hann tók Magnús at sèr, ok kom hönum í tal vid herra Ulfrek Kristján Gyldenløve stiptamtmann, en stiptamtmadr umgekkst þat vid konúnginn, at Jón var sendr til Islands á hinu sama skipi sem Magnús, med stefnur til hinna helztu manna, er vid voru ridnir mál hans, skyldu þeir fara utan, ok svara til saka fyrir hæsta rètti, fyrst Lárits Skevíng ok Halldór Einarsson sýslumenn, ok svo þvínæst lögrèttumenn sumir í Eyafirdi, Jón Hálfdanarson, húskarl Magnúsar, var ok nefndr til, hann var þá heimamadr á Mödruvöllum; ok sá madr, er Arni hèt ok var Bjarnarson, hann hafdi farit frá Mödruvöllum um vorit út at Stórubrekku á bú Jóns prófasts Jónssonar, er þar var; hafdi hann slegit Magnús um vetrinn fyrir, þá hann var í járnum á Mödruvöllum. Jón Torfason reid frá skipi, ok Magnús med hönum, þeir ridu til Mödruvalla, ok las Jón þar stefnu fyrir bæardyrum, var ei Lárits Skevíng sýslumadr kominn af þíngi; svo las hann ok fyrir ödrum, heima at hvers þeirra; adra stefnu hafdi Jón af konúngs hendi til Arna Magnússonar, Jóns biskups Vídalíns, Páls lögmanns ok Sigurdar, Lárusar sýslumanns, Vigfúsar sýslumanns Hannessonar, ok Benedikts, sonar Einars biskups, hann var í Skálholti; voru þeir allir ridnir vid mál Magnúsar Sigurdarsonar frá Brædratúngu, er dáit hafdi í Kaupmannahöfn um vetrinn; ætludu menn, at Oddr Sigurdarson hefdi komit þessu fyrir stórmenni, ok þat hafdi stiptamtmadr mælt, at sök Magnúsar væri dáin sem sjálfr hann. Med þeirri stefnu var ok köllud fyrir hæsta rètt þórdís Jónsdóttir, kona Magnúsar, var hún þá enn í Skálholti. Enn eigi vard af utanferdum, því ærin forföll bönnudu, bólusóttin ok annat, deydi Benedikt Einarsson ok þórdís. Lárits sýslumadr ætladi utan á Akreyri, ok med hönum Anna, módir hans, ok Jón Hálfdanarson, en hann settist aptr, þvíat bólan kom í hús hans, svo at kona hans lagdist ok börn. Halldór Einarsson ætladi ok utan, ok hafdi ridit vestr til Hóla, ok er hann kom þar, var þar bólan, reid hann nordr, ok tók á Akreyri í tjaldi sínu, ok reid heim sídan. En Jón Torfason reid sudr um land med þá stefnuna, er þar skyldi birta, sídan vestr til Breidafjardar, at hitta födur sinn, þadan nordr aptr, ok fór utan med Hofsós skipi hinu fyrra, en Magnús Benediktsson med hinu sídara. Kvæntist Jón utanlands, ok var hinn mesti óskipunarmadr, ok eyddi öllu fè sínu, ok er hann frá þessari frásögn.

## LXXIV Kap. Frá ýmsu.

Olafr Arnason hèt lögrèttumadr úr Isafjardarsýslu, er kærdi nokkut á þorlák sýslumann Gudbrandsson, ok vann ekki á. Ok upplesit var enn á þíngi brèf Sigrídar Hákonardóttur á Randamel, módur Odds, er hún bandst at leysa handskrift þá, er Magnús Sigurdarson í Brædratúngu hafdi gefit ödrum fyrir jördinni, ok skaut því til samþykkis amtmanns, ok fèkk þat; en Arni Magnússon gjördi þar forbod í móti, kvad ei amtmann eiga rád á slíkri stadfestíngu, en baud sik til lagavarnar, ok lèzt þá mundi verja med valdi, ef med ofríki væri eptirsókt. Þá lèt Ari Þorkelsson af sýslu á Bardaströnd, en tók vid Teitr son hans; er Thorkelínsnafn af Þorkeli Gudmundarsyni á Þíngeyrum, födur Ara. Sumar var þá allt næsta gott eptir þíng, ok jafnt at vedrátt, heyskap ok nýtíngu, fèkkst ok fiskr vídast, ok var ár mikit.

## LXXV Kap. Mannalát.

Þat er at segja frá bólusóttinni, at hún gekk því fastara, sem hún færdist meira út, öndudust 25 í Skálholti, ok er hinna helztu getit ádr; lagdi sóttin menn þar svo undir, at biskup vard at leggja sjálfr á hest sinn, ok rída einnsaman til at þjónusta menn, þá er í nágrenni voru; deydi þá Magnús Bjarnarson, sýslumadr í Stapasýslu, ok Þórunn, kona hans, Einarsdóttir prests, Torfasonar, ok 15 hundrud menn þar í sveit; Vigfús frá Stadarhóli, bródir Bjarna Pèturssonar ok Gudrún systir hans. At lidnu þíngi vígdist í Skálholti Jón skólameistari frá Hólum Arnason, ok fór til Stadar í Steingrímsfirdi um haustit; hann hafdi búit í Geldíngaholti, medan hann var í Skagafirdi, ok átti Gudrúnu, dóttur Einars biskups, var hún eptir nyrdra hinn næsta vetr. Grímr prestr á Stadarbakka reid sudr, ok undir Fjöll austr, ok er hann kom heim, tók hann bóluna ok dó; med þeim hætti barst hún nordr um land, ok í Húnavazþíng, ok þar yfir, en þó dóu þar ei margir at sinni, nema Brynjúlfr, son Páls prests á Mel Jónssonar ok Gudrúnar Erlendsdóttur, hann hèt eptir Brynjúlfi biskupi. Jafnframt því kom hún í Skagafjörd, ok lagdi undir einstöku bæi, dó þar úr henni Sigfús prestr á Frostastödum Asmundarson, Einarssonar, ok kona hans Gudný Gísladóttir prests, Bjarnasonar, ok 5 menn adrir á sama

bæ, ok Magnús Gíslason lögrèttumadr á Sólheimum; jókst hûn þar því meir sem lengr var, ok barst til Hóla, ok svo utá Höfdaströnd til Grafar. Stúlka ein, dóttir Arngríms Hrólfssonar sýslumanns ok Hólmfrídar Bjarnardóttur frá Espihóli, Pálssonar, hafdi verit sydra um vetrinn fyrir, ok farit af alþíngi sunnan med Halldóri sýslumanni Einarssyni; hûn nam stadar í Yxnadal á þeim bæ, er Audnir heita, þar var fyrir Ragnhildr, systir hennar, ok er hûn var þar komin, lagdist hûn í bólunni, ok vard heil aptr, fór sídan nordr til módur sinnar, en bólan settist eptir á Audnum, ok dó bóndinn Gunnlaugr Egilsson, bródurson Jóns prests Gunnlaugssonar á Hólum, ok kona hans, börn þeirra, ok hjú tvö, dreifdist hûn svo þadan um dalinn. Þá var haust svo gott med hitum ok hlývidrum, at menn mundu ei slíkt, gekk þá bólan á öllum sudrnesjum ok í Borgarfirdi; dóu úr henni á Nesjunum dætr Jóns Eyólfssonar Víselögmanns, Þorgerdr ok Steinunn, Þorkell Jónsson í innri Njardvík (fadir Jóns rektors) ok Gísli í sydri Njardvík Olafsson, mágr hans (fadir Olafs biskups), ok svo margt karlfólk, at varla mátti telja, voru 34 jardadir at Kálfatjörn á einum degi; eyddust náliga bæir af verkfærum mönnum, ok urdu konur at setja skip, ok grafa dauda menn. I Borgarfirdi deydi Gunnar prestr í Stafholti, son Páls prófasts á Gilsbakka, hann hafdi haldit þann stad 9 vetr, ok lítt afhaldinn, frá hönum voru komnir Fagreyíngar á Breidafirdi, einnig Helgi prestr Eyríksson at Lundi, nýkominn þar eptir födur sinn, Audun prestr at Borg, son Benedikts prests á Hesti, en fadir Þorvardar prests í Saurbæ, Pètr Jónsson kapellán at Miklaholti, ok margt fólk annat; einnin Margrèt, dóttir Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar á Kjalarnesi. Jafnframmi því færdist bólan um Yxnadal ok Hörgárdal, ok allt á Galmarströnd; tók ok þá at geysa í Húnavazþíngi, þar dó Jón prestr Olafsson at Stad í Hrútafirdi, Gudmundr prestr Skúlason at Vestrhópshólum, Þorvardr prestr Pètrsson at Þíngeyrum, Olafr prestr Pètrsson ok Olafr Arason djákn; þvínæst Illhugi prestr Þorláksson at Audkúlu ok Björg kona hans. Börn þeirra voru: Einar, er sídan gjördist sveinn Odds Sigurdarsonar, ok var hid mesta illmenni, ok fór eptir þat utan, ok Herdís, kona Þórodds heyrara Þórdarsonar. Þá dó þvínæst Bjarni, son Einars biskups at Bólstadahlíd, hann hafdi fengit brèf fyrir Mel eptir Pál prest Jónsson, ok enn fjöldi annara manna. I Hegranesþíngi lagdi bólan fyrst undir Hólastad, þar dó Sigurdr ráds-

madr, son Skúla prests at Grenjadarstad, Þorlákssonar biskups, Benedikt ýngri bródir hans ok Sigrídr systir þeirra, ok 12 menn adrir. I Gröf dóu 10 heimamenn, var þarmed Sigrídr, dóttir Einars biskups, ok Pètr, son Markúsar prests Geirssonar, er rádsmadr var at Hólum, hann var lögsagnari Halldórs Einarssonar þá, ok hafdi farit sudr á þíng, ok dvalit sydra um hríd, komit svo nordr til Grafar. At Reynistad deydi Nikulás sýslumadr, son Einars biskups, ok er ádr sagt hvad frá hönum er komit. Tók þá Eggèrt Jónsson á Ökrum vid forrædi klaustursins, en sumir telja Halldór Þorbergsson hafa tekit lögsögn, ok var hann þó ærit gamall, enn lögfródr var hann, ok hefir ritat annál; Ragnheidr andadist einnin, kona Nikulásar, Pálsdóttir prests frá Mel, ok Gudmundr Einarsson, bródir hans. 6 hundrud ok 19 deydu í Hegranessþíngi, ok var einn Ari prófastr Gudmundarson at Mælifelli, hann hafdi verit prestr hálfan 5ta tug vetra. Hinn sami manndaudi gekk yfir fyrir nordan heidi, dóu 3 börn Lárusar Skevíngs sýslumanns á Mödruvöllum, Jón sonr hans ok Þórunnar Þorleifsdóttur, fyrri konu hans, 11 vetra, ok 2 börn þeirra Soffíu Dadadóttur, er hann átti þá, ok 9 menn adrir þar. Meistari Björn biskup reid nordr Svarfadardal til Mödruvalla fám dögum fyrir Maríumessu sídari, var med hönum Jón skólameistari, er þá tók algjörliga vid því embætti, Einarsson prests frá Gardi, Skúlasonar prests hins gamla frá Goddölum, Magnússonar, lifdi Skúli prestr þá enn; sá Jón hafdi ort Krossskólasálma, en er hann kom til Mödruvalla, lagdist hann í bólunni, ok dó fyrstr þar á bæ; sídan vóx þar sóttin ok manndaudinn heima ok í nánd. Reid biskup frá Mödruvöllum allt nordr at Einarstödum, en kom aptr viku sídar, ok var þar vid greftran Jóns skólameistara, gjördi líkprèdikun, ok reid svo vestr til Hóla, hafdi þadan sendt verit eptir hönum nordr, ok voru þá öndud systkinin Skúla börn, sem fyrr segir, ok voru grafin næsta mánadag. Jón prófastr frá Mödruvöllum reid til Hóla med biskupi, þar tók bólan hann, lá hann viku, ok dó vetri meir enn hálfþrítugr. Nokkru ádr hafdi andazt Halldór prestr Þorláksson at Bægisá nær hálf-fimtugr. Þá bjó at Hèdinshöfda Jón Gudmundarson, er fyrr var prestr í Fjördum, ok hafdi misst prestskap fyrir barngetnad; hann reid til Hóla í von þeirri, at biskup mundi stoda hann til at fá Bægisá, ok er hann reid nordr aptr, tók bólan hann á Moldhaugum, þar lá hann viku ok deydi. Þessu jafnframt færd-

ist bólan vestr til Breidafjardar, þar dóu öll börn Gudmundar á Eyri, Þorleifssonar lögmanns, ok Helga Gudbrandsdóttir frá Vazfirdi, kona Jóns Hákonarsonar á Vazhorni, ok börn Bjarnar Jónssonar at Stadarfelli. Halldór Einarsson sýslumadr hafdi ridit heim af Akreyri til Einarstada nordr, þar hann bjó, bólusjúkr, sem fyrr segir, er þat mælt, at Margrèt, dóttir Skúla prófasts, kona hans, hafi ei viljad láta varda sèr bólu, kallat at öll mundi deya Skúla börn nema Jóka ein; en er tilrædt var, hve marga menn bólan felldi, hafi Halldór sagt, at ei skyldi hûn sig fella, klædst jafnan ok verit á fótum, ok var þat svo í viku, til þess er hann dó, ok var þat nokkrum dögum fyrri, þó seinna sè frásagt, en Pètr andadist lögsagnari hans; en þegar eptir Halldór deydi Margrèt kona hans, ok Katrín Einarsdóttir systir hans, var þat um Michaelsmessu skeid; einnin Þorlákr prestr Skúlason at Grenjadarstad, ok stód yfir greftri þeirra allra fjögra Lárita Skevíng sýslumadr. Litlu ádr hafdi andazt Benedikt Skúlason at Grund í Eyafirdi, bródir Þorláks prests, ok var þá Jórunn ein eptir af þeim 7 systkinum, hûn var ýngst, ok þá at Hólum, ok fèkk bóluna, en komst á fætr aptr, ok erfdi systkin sín öll, ok mikit fè fast ok laust. At Hofi á Höfdaströnd deydi þá Vigfús bóndi Gíslason, Vigfússonar frá Brædratúngu, Gíslasonar lögmanns, vetri meir enn hálf-fertugr, hann var fadir Gudrúnar, er átti Hans á Mödruvöllum Láritsson Skevíng, ok Jóns á Reynistad; ok svo Magnús, son Olafs prests at Brúarlandi Egilssonar, hann hafdi fengit brèf fyrir Stadarbakka, ok vildi biskup vígja hann skjótt, en hann beiddi um frest, þartil er bólan væri lidin af, ok reid heim aptr óvígdr, tók hann þá bóluna, ok andadist heima at foreldra sinna.

## LXXVI Kap. Enn frá sama.

Olafr, son Gudmundar á Siglunesi Jónssonar, Gudmundarsonar, bródurson Sveins prests á Bardi, hafdi verit utan, ok fengit Grund ok Mödruvelli, en sídan Hrafnagil, hann gjördist nú prófastr í Eyafirdi; var þat um sömu mundir, sem Ari Þorkelsson sagdi af sèr hálfa Bardastrandarsýslu. Dóu þá prestar vestra í bólunni: Vigfús Eyríksson at Saudafelli, Vigfússonar, Eyríkssonar, Steindórssonar, Bjarni Jóhansson í Otrardal, Jón Tómasson á Söndum, Páll Þórdarson á Skutulsfjardareyri, Olafr Jónsson at Stad í Grunna-

vík; voru þeir allir úngir menn, 107 dóu í Önundarfirdi, 124 í Dýrafirdi, 6 eda 8 eda 10 tugir í hverri sókn þar vestr um. Var sá vetr gódr öndverdr, er þá fór í hönd, ok gekk þá bólan ákaft í Fljótum ok Svarfadardal, ok magnadist, í Eyafirdi, á Svalbardströnd ok í Höfdahverfi; gekk hûn þá ok enn í Hörgárdal, þá dó þórdr prestr Sigfússon at Myrká, hann var þá gamall, ok bródir þorláks prests í Glæsibæ, en fadir þorfinns prests at Felli, ok Jóns prests at Myrká; Sigfús hèt hinn þridji þeirra brædra, ok voru þeir allir hinir gyldustu; átti Jón prestr Hólmfrídi Benediktsdóttur, systur Magnúsar, hûn var kvenna frídust, ok hafdi Magnús eitt sinn lagzt í fyrirsátr fyrir hann, en orkad eigi á. I Eyafirdi deydi Tómas prestr Jónsson at Múnkaþverá, ok Hjalti prestr, Jónsson prests at Saurbæ, Hjaltasonar, ok brædr hans allir, Jón á Æsustödum, er átti Elínu, dóttur Bjarnar Pálssonar, ok hafdi þá fengit brèf fyrir Bardi í Fljótum, Páll, er brèf hafdi fengit fyrir Höskuldstödum, ok Gunnlaugr, framadir utanlands allir. Tómas prestr hafdi fengit brèf fyrir hinu bezta kalli, er losnadi um sumarit, ok er hann spurdi, at þá var Grenjadarstadr laus, sendi hann mann sudr, ok bad um þann stad. Med þeim manni sendi ok Gísli, son Magnúsar prests Sigurdarsonar, hygg eg væri bródir Benedikts Bechs, ok bad um þíngeyarsýslu, enn Benedikt um Hegraness-sýslu. Madrinn kom aptr, ok færdi þeim bádum vild sína, Tómasi presti ok Gísla, en prestr var andadr ádr, en Gísli lá þá mállaus ok deydi. Jón prestr Gunnlaugsson á Hólum tók Mælifell eptir Ara prófast, en þángad var vígdr aptr til kyrkjuprests þorleifr, son Skápta Jósepssonar. Jón Sæmundarson biskups sveinn var ok vígdr til at þjóna Grenjadarstad, til þess er þar kæmi sá er veitíngu hafdi, ok litlu sídar Jón Markússon til klaustrprests at Mödruvöllum. Enginn vard skólameistari at Hólum, ok enginn skóli haldinn fyrir sóttinni, eigi heldr í Skálholti öndverdan vetr til jóla. Dóu í umdæmi Skálholts biskups prestar eystra: Gudmundr Arnason at Hallormstad, Eyríkr Arnason í Mjófafirdi, Gudmundr Ormsson at Stafafelli, þórdr at Sandfelli í Öræfum Gudmundarson lögrèttumanns, þórdarsonar, fadir Jóns prófasts á Reynivöllum, Jón Vigfússon í Medallandi, Arni Jónsson at Holti undir Eyafjöllum; en Halldór prestr Eyríksson í Heydölum hafdi dáit úr sótt. Ok enn Jón sýslumadr Thorlacius Jónsson, þorlákssonar, í þridjúngi Múlasýslu, ok þór-

arinn at Grenivík, son Vigfúsar Fridrikssonar, er fyrri hèlt Mödruvalla-klaustr, fyrir nordan, hans nafn bar þórarinn sýslumadr, son Jóns í Grenivík Jónssonar í Túngu, Sveinssonar, því hann var dótturson hans. Vestra deydi þorlákr skáld, sýslumadr í nyrdri hlut Isafjardarsýslu, son Gudbrands Arngrímssonar, hann var fadir Hannesar prests á Prestsbakka, ok Einar Einarsson, er sýslumadr hafdi verit á Bardaströnd; 4 deydu synir Arna prests Amundasonar ok þorbjargar Bjarnardóttur prófasts, Snæbjarnarsonar, ókvæntir allir, var einn Amundi, er hèlt Eyrar hospítal. Loptr Jósepsson, bródir Skapta, hafdi verit kyrkjuprestr í Skálholti á dögum Brynjúlfs biskups, en hafdi misst þess, er hann fèll í málit, ok hafzt sídan vid utanlands ok þjónat ýmsum prestum lánga æfi, var hann nú kominn út ok gamall, ok nýtti Jón biskup Vídalín hann fyrir kyrkjuprest, höfdu 11 verit í milli, frá því er hann var fyrri, ok voru þat 30 ok 7 vetr; en flestir, er til annara prestastada komu, í stad þeirra er fèllu frá, vígdust ekki á þeim misserum, ok ei heldr tóku vid þeim stödum. Deydu í þessari sótt í Dalasýslu 707, í Húnavazsýslu 500, enn ádr lauk, er sagt, at 12 þúsundir muni hafa dáit í Skálholts biskupsdæmi öllu, en 6 þúsundir í Nordrlandi, ok eigi muni hafa eptir ordit fullar 4 þúsundir hins fjórda tugar í landinu; hefir þessi landplága hin þridja mest verit af brádasóttum hèr á landi, ok næst gengit plágunum tveimur, ok drepit nidr margar göfugar ættir, ok helzt karlleggina, því at hún felldi þat allt, er gjörfugligast var úngra manna, nema fátt eitt; en þat eitt gjördi bóla sú hagligt, at hún tók á brott alla þá menn, er líkþrársýki var í, en þeir voru mjög margir í 17du öld, ok til þess. Flestar dóu þá þúngadar konur, ok gamlir menn margir urdu sóttdaudir, at auki þess er bólan tók. Var þá eigi eptir af hardæri annarstadar enn í Trèkyllisvík, Adalvík ok Grunnavík, þar lögdust jardir vída í eydi.

## LXXVII Kap. Enn frá mannalátum ok ödru.

1708 Sá vetr hinn næsti var gódr mjög fyrir sunnan ok vestan, en hardr nyrdra ok eystra; voru hlutir gódir, en skip gengu fá, sakir mannfædar. Dó þá á þorra Pètr prestr Jónsson á Grýtubakka, hann skorti vetr á níræđan. Bólan gekk um Olafsfjörd, ok fyrir nordan Reykjaheidi í þíngeyarþíngi, ok í Austfjördum; rak þá

hafísa at landi, ok hrakti til ok frå um vetrinn. Var svo mikil naud af verkmannaleysi, at margar jardir lögdust í eydi, en vorit hardt ok kaldt. Skólar voru haldnir frå jólum, ok 20 skólasveina á hverjum biskupsstóli, var Þorleifr prestr Skaptason fyrir kenslu at Hólum, hann fèkk prófastsdæmi í Skagafirdi. Meistari Jón Vídalín hafdi áhyggju mikla ok umsvif fyrir stiptinu, at fá presta til hinna prestslausu kallanna, er erfidust voru, eda fjærlægust frá ödrum prestum, er at máttu duga; fyrir því vígdist Magnús Markússon skólameistari nordr til Grenjadarstadar, ok engir urdu þá attestati eda siglíngamenn hèr óvígdir. Arni Alfsson fèkk Heydali, Gudmundr prestr Magnússon frá Þvottá Stafafell, Olafr prestr Olafsson Eyvindarhóla, Jón Torfason prófasts frá Gaulverjabæ Breidabólstad í Fljótshlíd, Jón Gíslason Villíngaholt, Gísli Erlíngsson Olafsvelli, Haflídi, son Bergsveins Sölmundarsonar, Torfastadi, hann hefir ordit kynsæll madr; Olafr Middal, son Jóns Steffánssonar prests, Hallkelssonar, Steffánssonar frá Laugardælum, hann var allmikill svaki; Arni Þorleifsson Arnarbæli; Helgi Jónsson stad í Grindavík, hann var son Jóns í Galtarholti Þórdarsonar, Olafssonar illa frá Svarfhóli, Jónssonar, Olafssonar; Þórdr, son Þórdar Finnssonar, Sigurdarsonar prests frá Ökrum, Finnssonar, Borgarþíng; Jón prestr Jónsson, Loptssonar frá Sælíngsdal, Arnasonar, er fyrr var í Garpsdal, Miklaholt, hann var brædrúngr vid Jón Arnason skólameistara, er þá var prestr til Stadar í Steingrímsfirdi, ok ekki lítilmenni, hann átti Kristínu, dóttur Olafs Vigfússonar frá Asi, Eyríkssonar, Steindórssonar, gyldligs manns ok allvel at sèr, ok var hún vitkona mikil, en hann hèlt Stadarstad seinna. Arni Jónsson, bródir hans, fèkk Saurbæarþíng, ok var risjóttr. Gudmundr Middali, son Eyríks prests á Fagranesi, Gudmundarsonar, Kolbeinssonar, hann var fadir Eyríks prests at Stad vid Hrútafjörd, Gudmundr Vernhardsson prests, þess er verit hafdi í Adalvík, Erlendssonar, Gufudal, hann var fadir Þorláks, födur Páls prests ok Jóns prests þjódskálds; Sigurdr Flatey, son Sigurdar á Bríamslæk, Sigurdarsonar frá Svalbardi, Jónssonar, Jónssonar lögmanns, Sigurdarsonar, þvíat Nikulás prestr Gudmundarson, er þar var, andadist þá; Sigurdr prestr var fadir Gudmundar á Ingjaldshóli ok Þorgríms í Hjardarholti sýslumanna. Dadi Steindórsson frá Gufudal fèkk Otrardal, hann var fadir Orms sýslumanns; Jón Þórdarson Sanda, Jens Þorsteinsson Mjóafjörd,

hann dó aptr í bólunni. Jón biskup Vídalín fèkk Jón prófast Halldórsson í Hítardal, med samþykki landshöfdíngja, til at vera skólameistara í Skálholti, þartil er lærdir menn fengist frá Kaupmannahöfn; lögdust þá af stadarbúin at Hömrum, Skiphólum ok Utverkum fyrir vinnumanna fæd, ok ekki fengust jardir bygdar, nema stórum væri slegit af leigu þeirra; var ok skilad heim af flestum stólsjördum landnautum eda landkálfum í rádsmanns umbodi til stólsins, ok jókst vid þat inventaríum hans heima; hefir svo sagt verit, at þeir landkálfar hafi fylgt jördunum, sem leigulaus innstæda, sídan á dögum Gísla biskups Jónssonar, med þeim skilmála, at bændr á þeim jördum skyldu gjalda í landskuld sína geldnaut úng eda gömul, þegar stóllinn þyrfti nauta vid, uppí tölu hins naudsynjarlausa geldnauta fjölda, er Skálholti átti at fylgja; voru optast afhendar fyrir landnautit 20 álnir í frídu, eda úngkálfr þess virdi, ef landsetaskipti urdu.

## LXXVIII Kap. Frá Oddi ok Páli Beyer.

Oddr Sigurdarson gjördist á þessu vori umbodsmadr herra Gyldenløves stiptamtmanns, en Páll Beyer landfógèti var ádr ordinn umbodsmadr Kristjáns Mullers amtmanns; þeir voru bádir kalladir hinir fullmegtugu, ok skiptu med sèr sýslunum sínum, svo at Oddr Víselögmadr skyldi hafa hverutveggja sýslan stiptamtmanns ok amtmanns fyrir nordan land ok vestan, var hann þá kominn til veru at Narfeyri til Gudmundar Þorleifssonar, en Beyer skyldi gjöra slíkt hid sama fyrir sunnan ok austan, skyldi þat svo fullt er annar gjördi sem gjört væri af bádum, ok var þeirra uppgángr í þann tíma ei all-lítill; rèdi þó Oddr flestu fyrir þá báda, ok þetta sumar sat hann fyrst synódum á Þíngvelli med meistara Jóni Vídalín, vildi biskup ei láta Beyer sitja med sèr, nema Víselögmadr væri vid, ok ei þó hann bydi sig til, ef hinn var hindradr, því hann þóttist ei vita hann samþykktan til þess af stiptamtmanni; ok fór álitliga med þeim Oddi um hríd.

## LXXIX Kap. Þíng ok mál.

Hálfum mánudi fyrir alþíng ridu kommissaríí á Þíngvöll, Arni Magnússon ok Páll Vídalín; Arni hafdi þá fengit áminníngu af

konúngi at flýta jardaskodun, en nú áttu þeir at þínga um ýmislig mál, settu þó úrskurd þeirra til alþíngstídar rèttrar, en þat var þá svo fámennt sakir bólunnar, er gengit hafdi, at enginn vissi dæmi til; var þar enginn madr úr Skaptafèllsþíngi, en einn úr Múlaþíngi, hann kom med þá konu, er Hallfrídr hèt, hûn hafdi getit barn vid Olafi, er af var tekinn fyrir tveimr árum, ok var henni drekkt þar. Þessir gjördust þar nýir lögrèttumenn: Þorvardr í Mýraþíngi Sigurdarson, Þorgilssonar, hann var bródir Þorsteins sýslumanns eystra, ok bjó í Krossholti; Jón í Þórnessþíngi, son Arnórs Asgeirssonar, Arnórssonar, hann bjó í Ljáskógum; Jón Jónsson ok Olafr Þorláksson úr Skagafirdi; Erlendr Jónsson úr Vadlaþíngi; Sigurdr Jónsson úr Skaptafellsþíngi; Gunnar Filippusson, Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ úr Rángárþíngi; Páll Bjarnarson úr Arnessþíngi; Eyólfr Arnason, Jón Jónsson, Brandr Bjarnhèdinsson, ok Pètr, son Dada sýslumanns í Kjós, Jónssonar úr Kjalarnessþíngi; Pètr bjó at Vallá. Sýslumönnum mörgum var fundit þat til saka, at þeir kæmi ekki, ok Hákoni Hannessyni at einn lögrèttumadr úr hans sýslu væri ónefndr, ok svo Sigurdi Jónssyni; en Jón Magnússon skyldi svara fyrir lögrèttumanns-nefnd sína á Jóni at Vatnshorni í Haukadal Hákonarsyni, Arnasonar, ok svo Jón þat er hann kom ekki. Páll Torfason á sama hátt nefnd á Snæbirni syni sínum, ok svo Snæbjörn þat hann kom ekki; Jón Eyríksson lögsagnari í Húnavazþíngi slíkt hid sama, nefnd Þorsteins Hákonarsonar, ok Þorsteinn þat er hann kom ei; ok enn á sama hátt Þorgrímr Jónsson í Reykjahlíd, lögsagnari úr Þíngeyarþíngi ok tveir lögrèttumenn þadan, ok voru lagdar vid fèsektir. Sakir voru þar ýmsar, ok fáar stórar, ok voru lesin brèf Odds ok Páls Beyers. Oddr kærdi ýmsar sakir á Sigurd Bjarnarson í Saurbæ, er fyrr var lögmadr, fyrst adgjördir hans fyrrum í máli Jóns Hreggvidssonar, er kallat var at drepit hefdi bödulinn; þar dæmdu kommissaríí Arni ok Páll Sigurd lögmann af embætti, ok 15 ríkisdali í málskostnad til Odds, en Jón útvegi sèr stefnu á ný í mordsmálinu, ok gjaldi Oddi einn ríkisdal. Hafdi Jón fyrri borit sig upp fyrir kommissaríis, ok látit mjög aumliga, en allir ætludu hann þó sekan. I annan stad í brennumáli Ara Pálssonar, er Sigurdr lögmadr hafdi dæmt fyrir mjög laungu, dæmdu þeir Arni ok Páll allt fè Sigurdar lögmanns undir konúng, en valds-

manni í Kjósarsýslu Nielsi Kjær var bodit, at láta skrifa þat upp; ok Oddi 15 ríkisdali í málskostnad. I þridja lagi fyrir húdlátsdóm yfir Magnúsi Benediktssyni, dæmdu þeir Sigurd lögmann sekan til konúngs um 30 ríkisdali, ok 15 til Odds. Hid fjórda var Geirnýar mál; í því voru þeir dæmdir sekir bádir Sigurdr lögmadr ok Lárits lögmadr til konúngs um 60 ríkisdali hverr. Hid fimta var Grundar-kaleiks mál; í því var Lárusi lögmanni dæmt á hönd, at afhenda Grundarkyrkju aptr kaleikinn, er hann hafdi tekit í ved eda pant, ok svo annad, ok gjalda konúngi 30 ríkisdali, en Oddi 14 fyrir málssókn. Oddr lèt ok dæma embætti af Páli Torfasyni sýslumanni fyrir duggumálit, ok sèr 14 ríkisdali; svo tók hann ok af Páli 200 dali, en 50 af Snæbirni syni hans ok adra 50 af Eggèrti Sæmundssyni á Sæbóli, ok alla fyrir þat mál. Ok í þat mund sagdi Páll af sèr sýsluna. Þá var vígdr Teitr, son Páls, til Eyrar í Skutulsfjörd eptir Pál prest Þórdarson, er þar hafdi verit, ok dáinn var, ok gjördist Torfi prestr Halldórsson prófastr í Kjalarnessþíngi.

## LXXX Kap. Tilburdir ýmsir.

Þessi misseri sáu menn fyrir austan kynd mikla med fuglsvængjum koma upp úr sjónum á land, at því er annálamenn segja, ok furdur fleiri þóttust þeir sjá þar; lögdust þar vída rostúngar á sker, ok er svo sagt, at þar væri 28 sem flestir voru; þat var austr í Borgarfirdi, ok var þó enginn þeirra unninn. Þá voru miklar ok margar giptíngar, ok reistu búnad fèlausir förumenn, stafkarlar ok kerlíngar, ok höfdu brátt gnægd fjár. Skip týndist í Flatey med 4um mönnum, ok urdu misferli nokkur. Olafr prestr til Hofs á Höfdaströnd Egilsson druknadi í Grafará. Eggèrt á Ökrum, son Jóns Eggèrtssonar, hèlt þá Reynistadar klaustr, en Benedikt Bech, son Magnúsar prests at Kvíabekk, Sigurdarsonar, Bjarnarsonar á Laxamýri, var á Hólum med konu sína, ok rádsmadr stadarins, hann fèkk klaustrit ok Hegraness-sýslu sídan. Ekki komu þau konúngsbrèf, er mjög snertu almenníng. Þá dó prestr at Mödruvöllum, er Gísli Oddsson hèt, þat var eptir alþíng, höfdu Grímseyíngar komit med prestinn í land, ok tók hann bóluna, ok dó svo, ok var grafinn at Mödruvöllum, en madr, sá er Markús hèt, Þor-

Ísáksson prests frá Glæsibæ Sigfússonar, bródir þeirra Sigfúsar prests í Glæsibæ ok Sigfúsar á Grund, ok bródursonr Þórdar prests at Myrká, hafdi farit bólusjúkr úr Fjördum út til Grímseyar, ok andazt þar, ok báru Grímseyíngar þessir þau tídendi í land, ok þat med at bólan hefdi farit med hönum í gröfina, ok mundi eigi hitta fleiri menn þar í eyunni, enn hann einan sem dó. Þótti þat kynligt, ok lögdu þó sumir menn trúnad á, ok ætludu vísindi þeirra eda kunnáttu meiga valda því, ok slíku mundu þeir treysta. Þau misseri var Jóni Gíslasyni heyrara á Hólum veittr Saurbær í Eyafirdi, en Ormi, syni Bjarna prests at Grænavatni eda Reykjahlíd vid Mývatn Ormssonar, Bjarnasonar, klaustrsprests embætti at Þíngeyrum. Þá var borinn Jakob, son Eyríks Steindórssonar vid Búdir ok Soffíu Jakobsdóttur, Benediktssonar.

## LXXXI Kap. Frá Höfdíngjum.

Um sumarit kom út Hallgrímr, son Jóns Þorlákssonar sýslumanns, hafdi hann farit utan til Kaupmannahafnar hid fyrra haustit, ok fengit konúngsbréf fyrir skólameistaradæmi at Hólum, ok tók vid því med vetrinum; en Jón prestr Arnason at Stad, er fyrrum var skólâmeistari, gjördist nú prófastr í Strandasýslu, hann var hardgjör madr ok fastheldinn. Bessi Gudmundarson sýslumadr festi þá fjóra þíngstadi af Múlasýslu, er Jón, son Jóns Þorlákssonar, hafdi haft, af þeim Oddi ok Páli Beyer, hafdi hann þá 11 þíngstadi, en Jón Þorláksson þrjá. Oddr tók undir sig Snæfellssýslu ok umbodit, er Stapa umbod heitir, en ei hafdi hann bréf fyrir því, ok treysti uppgángi sínum, er þá var allmikill. Jón Magnússon hafdi haft lögsögn í Dalasýslu fyrir Pál, sem fyrr segir; hann átti Kristínu, systr Páls, en Snorri var óskilgetinn son hans; var Jón kalladr kvennamadr mikill, en hve vel hann var at sèr í vísindum, er sagt fyrri, hann var ok læknir. Jón hafdi dæmt af med öllu Jörvagledi, þar dansar voru haldnir ok vikivakar, ok hverr kvad vísur til annars karlar ok konur, ok hafdi þángad jafnan sókt vinnufólk margt, ok ei viljat vera í vistum ella, ok þótti verda af ósidr mikill, er mælt at 19 börn hafi komit undir seinast er gledin var haldin. Jón hafdi nú lagt af lögsögn í Dölum, ok tók Jón Eyríksson hana fyrir Pál Vídalín. Benedikt,

son Þorsteins Benediktssonar í Bólstadarhlíd ok Halldóru Erlendsdóttur, hafdi verit utan, ok stundad gudvísi ok sagnafrædi, ok var þó sídan kalladr einhverr hinn lögvísasti, hann var settr fyrir Þíngeyarsýslu þessi misseri. Þá fór Arni Magnússon utan á Eyrarbakka, ok ætladi Sigurdr landskrifari, son Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar þar med, en er hann reid til skips, fèll hann af baki, svo at hönum vard meint af, ok sneri vid þat aptr. Páll lögmadr Vídalín hafdi stefnt á þíngi Oddi Víselögmanni ok Jóni Eyólfssyni um mál nokkurt, en hvergi þeirra fór, ok ætla ek helzt at sú stefna hafi farit fram hid fyrra sumarit. Oddr hafdi tekit vid búi at Narfeyri, ok Gudmundr Þorleifsson arfleidt hann til allra sinna peninga, ok svo þess höfudbóls, hafdi hann fengit Oddi þat bú allt, er þar var, því Gudmundr var heilsulítill jafnan, ok ætlad at gipta hönum dóttur sína, en börn hans dóu öll í bólunni, ok var því lokit, ok ætladi hann þó Oddi fèd, en var þó á Eyri med sitt allt. Segja sumir at Páll Vídalín hafi spillt med þeim, en hvad sem sannast er, braut mjög Oddr af sèr velsemd Gudmundar, ok reiddi illa, sem enn mun sagt. Haust var þá allgott ok kyrrt, ok fiskifengr nokkur fyrir nordan land; þar fór utan á Akreyri Lárits Skevíng sýslumadr, eptir bodi því, er hann fèkk hid fyrra árit, ok med hönum módir hans ok Jón djákn, ok Jón Hálfdanarson, hönum hafdi Páll lögmadr stefnt utan. Magnús Benediktsson hafdi verit í Kaupmannahöfn um vetrinn fyrir, ok komit út í Hofsós um sumarit, ok ridit til þíngs, en nú vard hann eptir í landi hèr. Grímseyíngar fóru úr landi til eyar sinnar, ok tók þá bólan Jón bónda Jónsson frá Básum, er beztr var bóndi í eyunni, ok svo hvörn at ödrum í 5 vikr samt, svo at 33 deydu. Tók sig þá enn upp bólan í Austfjördum, ok hafdi legit nidr um sumarit; gekk hún hid nyrdra um Vopnafjörd, ok um Strandir, med slíku mannfalli sem annarstadar, allt til jólaföstu.

## LXXXII Kap. Árferdi ok annat.

1709 Vetrinn eptir var gódr um allar sveitir, urdu því vel peninga höldin, en hlutir miklir. Þá deydi snöggliga á ferd Þorgrímr Jónsson lögrèttumadr at Reykjahlíd í Þíngeyarþíngi. Þorgrímr var son Jóns Þorvaldssonar, bródurs Þorláks biskups Skúlasonar,

en lèt ei börn eptir med konu sinni, þó átti hann einn son, er Hildibrandr er nefndr, fór sudr ok vard lögrèttumadr, en beinſingamadr seinast. Bólan gekk þá í Fljótsdalshèradi ok í Fjördum austr, ok segir Eyólfr prestr á Völlum, at þá hafi af henni dáit Gudmundr prestr at Hallormsstad, er þó er fyrri talinn, ok Magnús prestr at Desjarmýri; en Páll prófastr Amundason at Kolfreyustad deydi úr sótt annari, vetri midr enn sjötugr, ok vard prófastr eptir hann Olafr prestr at Vallanesi, son Steffáns prófasts. Prentud var þá Jónsbók at Hólum eptir hinum elztu skinnbókum, ok vikubænir Olearíí. Vor var enn gott frá sumarmálum, grasvöxtr skjótr ok mikill. Engin var þá umferd, þvíat þat var allt tekit til vista, sem staflaust gat gengit, eda sett á býli. Misferli urdu nokkur, ok skip týndist á Akranesi á Skreidarför í Hólm, þar var á Magnús Sigurdarson í Vogatúngu, ok Halldór Sigurdarson skólagenginn ok 3 menn adrir. Skip komu seint, en þó á hverja höfn. A vestanskipum, er fyrst kómu, var konúngsbod til Odds Sigurdarsonar Víselögmanns, at taka skyldi Magnús Benediktsson, ok járna, hafdi hann setit heima at búi sínu at Hólum í Eyafirdi um vetrinn, en málit hafdi snúizt á hann vid utanför Lárusar sýslumanns; skyldi hann fara á Brimarahólm, ok fè hans vera upptækt konúngi; en er hann fèkk njósn af þessu, fór hann heiman, ok lèzt mundi rída sudr, úr þeirri ferd setti hann undan, ok nádist ekki, ok dvaldi um hríd med Eggèrti Jónssyni, bródur sínum á Ökrum, en þó vard hann tekinn seinna. Annad konúngsbrèf leyfdi at stefna dómi kommissaríórum Arna ok Páls yfir Sigurdi lögmanni, fyrir yfirrètt, ok bannadi at hönum gjördist óvirdíng af, til þess er lokit væri málinu. Eitt var um Erlend Gíslason, er lögmenn höfdu dæmt banamann Gísla Jónssonar, at þat mál skyldi koma til hæsta rèttar.

## LXXXIII Kap. Frá málum ok yfirmönnum.

Nær alþíngi kom út Arni Magnússon á Eyrarbakka ok reid til þíngs; en er 4 dagar voru af þíngi kom út á Akreyrar skipi Lárits sýslumadr Skevíng, ok med hönum Jón djákn, en módir hans hafdi ordit eptir í Kaupmannahöfn med dóttur sinni, hafdi hönum vel farnazt í máli sínu vid Magnús, ok skyldi hafa 400 dali af fè

hans; ekki skyldi Jón Hálfdanarson eiga útkvæmt, en vera þó hættulaus í Danmörku, ok kom hann ei út. Ekki reid Lárits sýslumadr til þíngs, en sendi Jón djákn af sinni hendi. Þar gjördist á þínginu Sigurdr Högnason, Halldórssonar af Alptanesi, Marteinssonar, lögrèttumadr í Mýrasýslu, í stad Gísla Þórarinssonar í Munadarnesi, Jón Gíslason í Þórnessþíngi, Snæbjörn, son Páls Torfasonar í Isafirdi, Steffan Halldórsson í Vadlaþíngi, Vigfús Pètrsson í Múlaþíngi, bródir Bjarna at Bustarfelli. Bjarni Nikulásson í Skaptafellsþíngi, Kort Jónsson í Kjalarnessþíngi, Arni Sigurdarson, Arnasonar lögmanns í Borgarfirdi, hann bjó at Grund í Skorradal. Sýslumenn báru fram afsakanir, at eigi höfdu komit á þíng hid fyrra sumarit. Jón Magnússon, sýslumadr á Ströndum, var dæmdr þar frá embætti fyrir tvö hordómsbrot, ok svo til strýkíngar, en hana gaf konúngr eptir, ok baud hönum at rýma Skálholts biskupsdæmi. Gjördist þa Jón, son Sigurdar Gíslasonar Dalaskálds, lögsagnari af Odds hendi í Snæfellssýslu, hann var skáld, ok vel ásigkominn, sem fadir hans, vænligr ásýndum, en æskumikill; Brandr Bjarnhèdinsson tók lögsögn í Kjósarsýslu, fyrir Niels Kjêr. Bjarni Pètrsson hafdi þá tekit vid hálfri Bardastrandarsýslu, hann bjó at Skardi eptir Þorstein mág sinn, ok var audugr, en Pètr fadir hans bjó í Tjaldanesi. Sigurdr lögmadr heimti vitnisburdi sína á þíngi, sem tídt hafdi verit, ok fengust þeir ágætir, ok settu þar nöfn sín undir 55 hinir beztu menn, en Páll Vídalín las upp sedil, ok bad menn fara varliga med slíka vitnisburdi, ok í því at gefa þá; var því svo svarad, at enginn lèzt mundi taka aptr sínar tillögur. Þar var á þínginu drekkt Helgu Magnúsdóttur úr Skaptafellsþíngi fyrir barnsmord, en lögmenn lögdu fè til höfuds Magnúsi Benediktssyni, er menn kölludu, eda þó heldr til þess, at hann væri tekinn, eigi minna enn 40 dali.

## LXXXIV Kap. Annat er vidbar þat sumar.

Sumarit var gott ok mikill heyskapr ok gédr, ok allt árferdi, fór Arni Magnússon þá hvergi at konúngs eyrindum sem ádr, ok bjóst at fara alfarinn af landi, hafdi hann kvongazt um vetrinn fyrir í Kaupmannahöfn, ok fengit ekkju audugrar ok roskinnar, hann hafdi dregit at sèr mikinn fjölda fornfræda bóka, bædi þær

er [illegible]tt hafdi Brynjúlfr biskup, ok svo af Vestfjördum, ok hvadan æfa[illegible] safnadi hann því öllu í eina bókhlödu; ei ætla eg þó hann fær[illegible] utan þat sumar, en á Eyrarbakka fór hann næst. Oddr Sigurdarson ætladi utan, en sýktist þá, ok settist aptr; hann var svo stórr á þeim árum, at haft er at minnum, ok dæmi eru tilsögd. Var þat eitt, at Þormódr skáldi Eyríksson, er þá bjó í Gvöndareyum, kvad til hans gamanvísu, ok þó lítilátliga, ok kalladi hann Odd háfa, ok er sagt hann hafi lostit hann. Var Oddi þó drengiliga varit, ok var hann kalladr lögvitr ok vel at sèr um margt, en metnadr hans var mikill, ok vard þá óhallkvæmt þat tvennt, at hann var ölgjarn, ok hitt at rádahagr hans stadfestist ekki, en sveinar völdust hönum illir, er mjög spilltu um, fyrst Einar Illhugason, ok þá Jón, son Einars Gunnlaugssonar á Rekstödum, er kalladr var Hrekstada-Jón, eda Jón hrekkr, ok bjó sídan í Ædey, er ok var illmenni mikit, Bárdr brotinnefr Þórdarson, Finnssonar frá Ökrum, er seinna bjó á Stakkhamri, ok enn adrir. Páll Vídalín skrifadi upp þetta haust jardir í Skagafirdi; ok þá gjördist skólameistari í Skálholti Jóhann Gottrûp, son Lárusar lögmanns, ok var skamma stund vid þat; en Þorleifr prófastr Skaptason gekk at eiga Ingibjörgu Jónsdóttur frá Nautabúi, Þorsteinssonar, bródurdóttur Einars biskups. Hèlzt vedrátt vid gód laungum.

## LXXXV Kap. Frá Birni biskupi.

Meistari Björn biskup á Hólum var enkasonr Þorleifs prófasts í Odda ok Sigrídar Bjarnardóttur, systur Páls prófasts í Selárdal, en húsfrú hans Þrúdr enkadóttir Þorsteins Þorleifssonar á Vídivöllum, var þar af því kominn saman mikill audr, sem von var til. Hann hafdi könúngsbrèf fyrir 12 jördum Hóladómkyrkju henni til handa, eptir húsfrú Ragnheidi; hann hafdi ok stadfestíngar-brèf um Testamentisgjörd í milli sín ok hennar; hann var mjög hneigdr fyrir stórveizlur ok drykkjur, sveinahald ok skraut, ok alla stórmensku, en sást lítt fyrir; eyddist vid þat stórum fè hans, medan árit var hardt; var eigi dreginn fiskr at í tíma, en gjörvar út lestir eptir sölvum vestr í Saurbæ ok á Mýrar, var þar ei vöndud medferd á í votvidrum. Hann reid í visítazíur um sumarmál ok vorkrossmessu vid 10 menn eda 12, kom þat mönnum illa í hardindum,

þegar bædi skorti hey ok mat, ok vard mjög ímælt, lögdu sumir öfugliga út, sem gjört væri fyrir þarfar sakir; þóttu ok margir hlutir stíladir til fordildar einnar, þeir er horfdu til kostnadar ok óhagnadar. Var þeim rádum lítt sinnt, er heilrádir menn lögdu, ok heldr því, er til nýúnga horfdi, steig þá nidr bygging á stóls eignum ok afgjald af þeim, en kritr var med kotúngum ok undirmönnum. Embættamenn þóttust sitja vid skorinn skamt ok svo skólinn, ok vard þat opt, at skóli var ei haldinn lengr enn hálfan vetrinn, þó safnadist ekki fè, ok þótti ólíkt atferli hinna fyrri biskupanna; svo var ok mjög affært fyrir hönum, þat er hann breytti í Hallgríms sálmum, þar sem hann lèt ordleysur standa í hugvekjusálmum Sigurdar prests í Presthólum, ok þótti gjört fyrir fordildar sakir, því biskup lèzt vera skáld, ok ætludu menn at hönum mundi þykja meiri frami at bæta um verk Hallgríms prests, er bezt þótti, var flimtat um þat, ok var þetta eitt:

Hallgrímr haudri byrgdr
lagfærdr liggr æruvirdr.

Þat barst at þenna vetr, er í hönd fór, fyrir jólin, at brann biskups badstofan, er biskup hafdi skömmu ádr látit smída, væn ok velgjör; þat var kvöld hins 28da nóvembris, ok á stuttri stundu, med öllu því er þar var inni, sængrfötum ok bókum, silfri smídudu ok nokkrum prentverkfærum ok mörgu fèmætu; hafdi eldrinn komit upp í sæng biskups, ok ætludu margir þat sídan verit hafa furdu hans; þar höfdu verit þurrir hefilspænir undir sængrklædum, ok hugdu menn skar af ljósi mundi hafa fallit í þá sæng in var reidd. Konur í loptinu höfdu lagt sig til kveld-svefns, vöknudu seint, ok komust út naudugliga, en eitt meybarn 5 vetra brann þar inni. Biskup var í ödru húsi á samtali vid Elínu Þorláksdóttur, mágkonu sína, ok vissi ekki af fyrri, enn eldrinn hafdi læst sig um húsit allt; var þat mikill skadi, en margir gódir menn lèttu þó undir hann, svo at minni vard fyrir þá sök, því at mörgum mönnum var biskup vinsæll, er hann var gódlátr ok gladsinna ok gestrisinn. Hann var ok vel mælskr madr, ok stíladi sæmiliga, því ótöldu at helzt til mikit þótti vidhaft. Börn átti hann engin.

## LXXXVI. Kap. Mál, ok lát Bjarnar biskups.

Þá var vetr hinn bezti; á hönum andadist Solveig Magnúsdóttir 1710 lögmanns, Bjarnarsonar, at sonar síns Ara Þorkelssonar í Haga á Bardaströnd, vetri minnr enn áttræd, ok Jón prestr Gissurarson á Berufirdi. Þá bjó í Tjaldanesi Pètr Bjarnason, Pètrssonar, Pálssonar á Stadarhóli, fadir Bjarna á Skardi; hann lèt grafa upp úr Stadarhóls kyrkjugardi kerlíngu þá, er heitit hafdi Ingvildur, ok verit barnfóstra hans, ok daud fyrir 7 vetrum, ok taka jaxla hennar ok önnur höfudbein, ok sagdi svo at vera skyldi til lækníngar konu sinni; var þíng sett um þat at Stadarhóli, ok fór fram yfirheyrsla, þar var Pètri ok tveimr mönnum ödrum, er stadit höfdu med hönum at þessu, dæmd 13 marka sekt, ok prófasti bodit at gjöra um málit, at því leiti, er hönum mætti koma vid. Menn tveir á Vestfjördum kvádust hafa sèd á loptinu kross raudan, ok engilsmynd med sverdi, ok vard ei af meira. Þann vetr segir Þorlákr Markússon komit hafi hret fyrir nordan, ok drepit fè margt; ok eigi mun eg telja hvörn smátilburd; en þess má vidgeta, at barnlagnadr var þá mikill, ok urdu mörg getin í hórdómum ok hjónabandslaust. Vorit var allgott fyrir fardaga, en kaldt ok nædíngasamt þadan af til Jónsmessu, tók þat fyrir grasvöxtinn, svo hann vard med minna móti. Fjögr skip komu út, ok sögdu ófrid med Dönum ok Svíum, var Karl 12ti þá konúngr í Svíþjód. Konúngsbrèf komu ei, nema vægd fyrir misgjördamenn suma, ok leyfi at stefna sumum dómum kommissaríórum Arna ok Páls til yfirrèttar, ok þvílíkt. Frjádaginn, hinn 13da dag júníí, andadist Björn biskup at Hólum af tæríngu, lá hann ei lengi; hann skorti 2 vetr á fimtugan, ok var 13 ár biskup at Hólum, en 5 ár Vísebiskup ádr; var lík hans grafit nordan fram í kórnum yfir frá leidi Einars biskups, hinn 28da dag mánadarins, ok stódu 17 prestar yfir jardarför hans, Lárits Skevíng sýslumadr frá Mödruvöllum, ok Brynjúlfr Þórdarson frá Hlídarenda, en líkprèdikun gjördi Þorleifr prófastr Skaptason. Páll Vídalín lögmadr gjördist umsjónarmadr med Þrúdi húsfrú hans; hûn flutti sig sídan at eign sinni Vídivöllum í Skagafirdi, ok bjó þar um hríd.

# Vidraukar eda rèttíngar árbóka.

## Til 3dju deildar.

99. kap. bls. 136, lín. 7.

Ögmundr biskup var mikill madr vexti, hár ok þykkr, gedmenni mikit, gulr á hár, fagreygr, snareygr oh kríngluleitr; sagt er, at hann byndi ekki leggböndin, lèt þat svo trassast.

## til 6tu deildar.

bls. 90, l. 1. 5ta þáttar, 90. kap.

Hann hafdi eigi átt börn eptir med Gudrúnu konu sinni, systur Magnúsar lögmanns, ok erfdi Magnús lögmadr hana.

135. kap. bls. 149, l. 15.

Gísli reid til Þíngeyra, ok bad Helgu, dóttur Gudmundar Hákonarsonar, er sídan var gipt Birni Magnússyni; hann vard nótt, ok fèkk ei eyrindit, þótti þeim hann óaudugr, vildi hann ekkèrt þiggja um morguninn, ok steig á hest, þá var hönum færdr bikar, er kalladr var hestabikar; hann tók vid, ok kvad:

samt skal ek gladr í gedi,
þó gód mèr þykist fljódin,
rádi sú rík er af audi,
rètt er at idrist ettir (ɔ: eptir):
gud hefir nægd af gódu,
gled ek mig æ þarmedr,
oss mun audit at bída
annars jafngóds svanna.

ok fleygdi hann þá nidr hestabikarnum, ok reid.

## Til 7du deildar.

6ta hluta, 2 kap. bls. 8, l. 8.

Teitr var haldinn kostamadr, nokkud var hann stórritadr þegar hann skipti gedi sínu.

2. kap. bls. 11, l. 2.

Þess er getit, at Brynjúlfr biskup hlífdi skólasveinum þeim vid ákæru fyrir veraldligum rètti, er ratad höfdu í fjölkýngis hindrvitni, ok flestir meir af heimsku, enn einumsaman illvilja, ok var bóksett innihald galdrablada þeirra, er þeir fóru med í 80 greinum, sèst af því jafnframmi, hvad slíkir menn trúdu á, ok óvizka

þess mikil, ok þó afgudadýrkun blandin hinni mestu illgirni ok rángsýni, svo at eigi sýnist rètt at kalla þá menn saklansa, er slíkt æfdu, ok má heldr kalla þá óda af illvilja ok heidni, ok fjærlæga kristindómi, ok eru þessar greinirnar:

1. Ad aptandam fidem amicorum, med hálfu selshjarta ok raudmaga skildi.
2. At útvega gras til at ljúka upp öllum lásum.
3. At kona fái ei barn.
4. At kona hafi aldrei fóstr.
5. At gjöra konur lauslátar.
6. At forda stórfiskum at gjöra grand á útsjó.
7. At fráhverfa myrkfælni.
8. At útvega óskarstein.
9. At vita hverr frá sèr stelr.
10. At vita hvert kvennsnipt er mey.
11. At smída kvikasilfr.
12. At glíma vel, med versi ok þremr stöfum.
13. At stilla reidi med þremr stöfum.
14. At glíma med ödru móti med ristíngum ok blódvökvunum, þartil þrír stafir, ígultanni, ginfaxi, hagall ok satrix.
15. At vita hvert fiskr er í sjó med 2r fígúrum.
16. At fiska vel, med einni fígúru.
17. At forda stórfiskum, med einni fígúru.
18. At spekja hest sinn, med einni fígúru.
19. At hafa sigr í öllum málum.
20. Ægishjálmr.
21. Salómons insigli.
22. Herrans innsigli, stór fígúra.
23. Sigrhjálmr.
24. Melrakkastefna, þar særdr Þór ok Odinn, med 23 fígúrum.
25. Stefnt djöfli, Þór ok Odni, ok öllum vættum, til heilla sèr.
26. Músastefna med mannsrifjum, særdr djöfull í fullum krapti Þórs ok Odins, med versi: sator arepo o. s. fr.
27. At stínga manni svefnþorn, med blódvökvun ok 2r fígúrum.
28. At gjöra mann í hundslíki, þartil brúkat Jóns gudspjall, ok sic deus dilexit o. s. fr. ok ein fígúra.
29. At gjöra manni svefnleysi, med formælíngar-vísu ok einni fígúru, þartil ákalladr djöfull ok 12 höfuddjöflar fyrir krapt Lúsifers.
30. At drepa mann med dauds manns ístru, ok hrædiligri heilags sakramentis misbrúkun.
31. At fá stúlku med blódvökvun ok tveimr fígúrum.
32. At láta ekki stela frá sèr, med blódvökvun, ok forljótri fígúru; kalladri Angaldós.
33. At láta ekki forynjur sækja at sèr, med hænueggi, selsblódi, hvalambri o. fl. ok únga þeim þarúr verdr, sem Satan á at gefast; einnig köggull af litla fíngri til þènustu framvegis.

34. At stilla reidi, med tveimr fígúrum.
35. At láta eigi framlidna sækja at sèr, med mannsbeinum, signingum ok krossmarki.
36. At vita hverr stelr, med blódvökvun, ok einni fígúru.
37. At gjöra manni flugusótt.
38. At ná jafnadar kaupum.
39. At vita hverr frá sèr stelr, med 2 fígúrum, hagall hinn minni.
40. Hjálpar-hríngr í naudsynjum, vid sverdsbiti ok álfavillu, med fjórum afskræmis fígúrum.
41. At fá ekki stormvidri á sjó, med einni fígúru.
42. At fá stúlku, med einni fígúru.
43. At vita hverr hesti sínum rídr, med einni fígúru.
44. At láta mann ekki komast af hestbaki, med 2 fígúrum.
45. At hvalfiskr gjöri ekki skada, med tveimr fígúrum.
46. At fiska vel, med einni fígúru.
47. At madr fái ekki skömm fyrir ávirdíng sína, med einni fíg.
48. At kona fái ekki barn.
49. Ef madr vill láta fólk hafa værd í húsi sem hann er.
50. At stela svo aldrei verdi uppvíst, med blódtöku ok 1 fígúru.
51. At madr hafi ólukku á landi ok sjó, med einni fígúru.
52. Enn 30 stafir án ferskriftar, sem hafast skulu í hendi.
53. Ovinagægr hinn minni, med tveimr fígúrum.,
54. At fá hlut hvern sem madr vill í fiskiskiptum, med einni fígúru, sem kallast hrafnaklær.
55. Heillahnöttr,
56. At egg haldist í ljá, med sator arepo o. s. fr. ok tveimr fígúrum.
57. At finna fund fyrir annan, med tveimr fígurum.
58. At stúlka segi ekki eptir, med einni fígúru.
59. At fá stúlkur til leiks, med tveimr stöfum.

þetta þótti allt, ásamt forskriftunum, myndat med einni hendi, en þat med annari, er nú skal telja.

60. At ei sè stolit frá manni, med 11 stöfum.
61. At þjófar afsaki sig ekki, med 8 stöfum.
62. Ef madr er stygdr ómakliga, at láta einhvern grip hins deya, med tveimr fígúrum.
63. At madr verdi uppvís at stuldi, med nokkrum ordum.
64. At madr idrist orda sinna, med 20 stöfum.
65. Vid nautadauda, fjórir stafir.
66. Vid ýmsum meinum, sator arepo.
67. At madr sofi í 6 nætr, med 7 fígúrum.
68. Vid innan-töku tveir stafir, ristir á ost.
69. Ef hestr sýkist, med fjórum stöfum.
70. At vita þjóf, ristist þrír stafir á mannslegg.
71. At halda ödrum manni, einn stafr á mannsbein.
72. At ekki sè spillt stúlku fyrir manni, med 5 stöfum.

73. Vid svefnleysi, 6 stafir.
74. At tröll æri mann ekki, eda útburdir, fjórir stafir.
75. At gjöra flugsótt, fimm stafir á mannsbein.
76. At gjöra mann óvinsælan, med 7 stöfum.
77. At rista manni svefnþorn.
78. Ef kona vill synjast manni, med 7 stöfum.
79. Eitthvad um saudi, med þremr figúrum.
80. Vid stuldi, særdr hrýmþurs ok grímþurs ok allra trölla fadir, med 29 stöfum.

Af slíkum hindrvitnum höfdu ofmargir menn ótta í þann tíma, ok ofmargir menn traust á þeim til hjálpar, ok hefir eymt af því helzt til lengi; en mörgum þótti reynt, at slíkir vidburdir hefdi komit eigi allfáum manni at meini, ok var þá almennilig ætlan, at brenna þyrfti galdramenn, ok vída gekk þat yfir í löndum; en þeir sem skynsamastir voru sögdu svo, at áhrífur galdra væri af vantrú; svo sagdi Brynjúlfr biskup, er ei var hinn strídasti í þeim efnum, í brèfi til Jóns prests Pálssonar í Vogósum: „djöfull hefir „hèr í landi mesta magt, af því menn óttast hann ofmjög, en svo „mikit sem gengr í hans ótta af mannsins hjarta ok þeli, svo mikit „dregst frá guds ótta í rèttri trú, ok þarfyrir lídr drottinn ok leyfir „at ovinrinn hefir svo mikit ædi í kristiligri kyrkju, at hjörtun „mannanna eru volg, ok halda ekki einlægt vid gud almáttugan, „heldr falla fram hjá gudi, hverjum einum óttinn ber, svovel sem „elskan ok trúin, ok óttast jafnframt gudi andskotann."

3. kap. bls. 11, l. 31.

Gísli prófastr andadist í þann tíma; hann hafdi verit vel at sèr, ok eigi sízt í stjörnulist, samdi hann rím, er kallad var Gíslarím, eitt hid skírasta ok vissasta í gamla stíl; hann var födurfödur fadir Olafs biskups.

bls. 12, l. 19.

Þat er sagt um Sigurd prófastr Oddsson, at hann átti 200 hesta ok hrossa þá flest var, mest ótemjur; vildi hann láta hesta verda sjálfdauda, en hross gaf hann mörgum fátækum; var hann madr gudrækinn.

bls. 14, l. 4.

Jón prestr kvadst á vid Þorvald á Saudanesi um kapp, þat var efnit, at hann hèlt med Skagfirdíngum, en Þorvaldr med Upsaströnd, dökkr var hann á hár ok skegg, lítill búmadr, ok ei álitsmikill.

9. kap. bls. 23, l. 17.

Páll, son Halls Bjarnasonar í Mödrufelli hafdi …
hann var lærdr madr, ok hafdi í Danmörku …
bókhlödu Seefjelds ríkisráds; Svíar tóku ha… …af bjúg
ok gáfu Korfits Ulfelt mestalla. Páll f… …edan reidd
Svía-konúngs, ok sagdist vera sviptr …
sèr prestakall konúngsins Harastad, k…
Konúngr gjördi þat, ok lèt hirdp… …r hann var med
adi biskup yfir Sjáland, vígja … …igfússon vígdist
lèt þat haldast sídan; fèkk … …arfjardarsýslu, ok
börn. Gudmundr, son G… …ann fá annat betra
verit 15 vetra haustit f… …iar, ok hafdi gjörzt
skóla, en var hertek… …din hafa drottníngar
þat skip hertóku, … …i; gokk hann at eiga
kominn af sulti … …um hríd í allgódum veg;
ok gjördist … …lögur nýjar; kom þat fyrir
hann var … …málit, en var þó kærdr um
ritari g… …d hann undir í málinu, ok
um h… …nnad hafa gjört, enn skipun
… …nit, var drottníng öndud, ok
… þat eitthvad í efnum, … …a hafdi sig til Þèttmerskis, var
… hönd hans hefdi kennzt á nokkrum brèfum hennar. Hann
… nærri Lukkustad, ok átti húsit bródir konu hans, ármadr
konúngs vista þar, hann studdi þau Gudmund, því at hann var þá
fátækr ok hneigdr til drykkju. Gudmundr var ritari gódr ok skáld, þýzkr vel, ok fór vel vid stúdenta íslenzka, medan hann var í uppgángi sínum í Kaupmannahöfn; ekki vildi hann heyra hallmælt Jóni lærda födurfödur sínum; hann kvadst vera at snúa á þýzka sálma, pínslarsálmum Hallgríms prests Pètrssonar, ok stunda at fylgja ordum ok efni, ok væri þeir í afhaldi. Vita menn ei lengr af hönum at segja, enn þrjá vetr umfram þat sem nú er komit frásögnum. Þorleifr prestr, bródir hans, hèlt Hallormstad í Múlaþíngi, hann er sagt at hafi misst hálft skègg sitt tilfinníngarlaust eina nótt, ok vóx þat aptr. En Gudmundr prestr, fadir þeirra, má ætla at dáinn hafi verit fyrir tveimr árum eda þremr, þá tíd er komid er nú áratali.

Vidraukar.

129

# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

**Jóni Espólín,**

Sýslumanni í Skagafjardar Sýslu.

## IX. Deild.

Kaupmannahöfn, 1830.

Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafèlags*

hjá Bókþrykkjara *S. L. Møller.*

bls. 83. l. 24.

Eggèrt var hógvær madr, adsjáll.

54. kap. bls. 83, l. 35.

Hann gat þá þess í brèfi, at hann væri mjög heilsulítill, af bjúg ok brjósterfidi ok ödru, svo at varla leyfi sèr at þola, medan reidd sè sæng hans.

75. kap. bls. 115, l. 36.

Þat hafdi fyrr ordit um Gudmund Gudmundarson, er hann var med Soffíu Amalíu drottníngu, at þá er meistari Jón Vigfússon vígdist til Vísebiskups, tók hann brèf fyrir allri Borgarfjardarsýslu, ok ætladi út; þat mislíkadi drottníngu, ok kvad hann fá annat betra hjá sèr; ok þordi hann ei at neita bodi hennar, ok hafdi gjörzt fógèti hennar á Láglandi, þvíat þau smálöndin hafa drottníngar í Danmörku til uppheldis sèr í ekkjudómi; gekk hann at eiga þernu eina þýzka, þó ættada vel, ok var um hríd í allgódum veg; þartil er bændr nokkrir kærdu hann um álögur nýar; kom þat fyrir rètt í Kaupmannahöfn, ok vann hann málit, en var þó kærdr um hid sama skömmu sídar aptr; þá vard hann undir í málinu, ok missti embættis, en þóttist þó ei annad hafa gjört, enn skipun síns herra. Ok nú er hèr var komit, var drottníng öndud, ok var þat eitthvad í efnum, at hann hafdi sig til Þèttmerskis, var sagt hönd hans hefdi kennzt á nokkrum brèfum hennar. Hann bjó ár nærri Lukkustad, ok átti húsit bródir konu hans, ármadr konúngs vista þar, hann studdi þau Gudmund, þvíat hann var þá fátækr ok hneigdr til drykkju. Gudmundr var ritari gódr ok skáld, þýzkr vel, ok fór vel vid stúdenta íslenzka, medan hann var í uppgángi sínum í Kaupmannahöfn; ekki vildi hann heyra hallmælt Jóni lærda födurfödur sínum; hann kvadst vera at snúa á þýzka sálma, pínslarsálmum Hallgríms prests Pètrssonar, ok stunda at fylgja ordum ok efni, ok væri þeir í afhaldi. Vita menn ei lengr af hönum at segja, enn þrjá vetr umfram þat sem nú er komit frásögnum. Þorleifr prestr, bródir hans, hèlt Hallormstad í Múlaþíngi, hann er sagt at hafi misst hálft skègg sitt tilfinníngarlaust eina nótt, ok vóx þat aptr. En Gudmundr prestr, fadir þeirra, má ætla at dáinn hafi verit fyrir tveimr árum eda þremr, þá tíd er komid er nú áratali.

---

# Íslands Árbækur

## í sögu-formi.

Af

Jóni Espólín,

Sýslumanni í Skagafjardar Sýslu.

## IX. Deild.

Kaupmannahöfn, 1830.

Prentud á kostnad ens *íslenzka Bókmentafèlags*

hjá Bókþrykkjara *S. L. Møller.*

# Formáli.

Þessi bók tekr, sem sýnt er, yfir meiri hluta hinnar 18du aldar öndverdrar, ok er sú tíd medi öllum ödrum anmarka, enn þær er næst gengu á undan, þarf þó eigi hèr at útmála, því tilburdirnir lýsa því bezt sjálfir. Vera má at hverki sè eg svo fródr eda viss um allt þat, er uppgötva má á hinum næstu tídunum, at eigi mætti med mörgu auka, enn þó þarf eg varla at bidja skynsama menn velvirdíngar á því, fyrst þat er sameiginligt brestr allra þeirra, er sagnir hafa skrád, at þó þeir viti gjörr um eitt eda annad næst sèr, vita þeir sjaldan allt, er fá má um þann tíma, ok kemr af því, at margar sögur eru skammordar ok óljósar þegar lídr á þær; en þat kemr af því, at fáir hafa med höndum allt, sem upp er teiknad næst fyrir þeirra daga, ok á þeim; eru sögurnar nýttar, þó eitthvad megi meira finna eda jafnvel vissara, enn í þeim er, ok verdr hægra þegar stundir lída at hefja nýar frasagnir á einhverju ákvednu tímabili fyrir þá, sem til þess eru færir, ok auka þarmed hinar eldri, helzt ef rudd er nokkut gatan ádr, sem eg vænti þó at þessar hinar sídustu Árbækr mínar hafi gjört.

Frostastödum þ. 28 Janúarií 1829.

Jón Espólín.

# Fortale.

Denne Afdeling indbefatter, som man ser, det allermeste af første Halvdel af det 18de Hundredaar, hvilken Tidsalder havde ganske andre Fejl end næstforegaaende. Det behøves ellers ikke her at beskrive disse, da Tildragelserne selv bedst udpege dem. Det kan vel være at jeg hverken er saa vel underrettet eller saa vis paa alt det, der kan opdages om de nærmestliggende Tider, at man jo vil kunne forøge min Beretning mangfoldig; men jeg behøver neppe at bede skönsomme Læsere om Overbærelse for det, da det er en fælles Mangel hos alle Historieskrivere, at skönt de vide nöjere Beskjed om et eller andet dem nærmest liggende, vide de dog sjælden alt om samme Tid, hvisaarsag mange Historier ere korte og dunkle, naar det kommer mod Slutningen. Dette har sin Grund deri, at faa have ved Haanden alt hvad der er optegnet om deres egen Tid og den næstforegaaende. Men Beretningerne kunne benyttes alligevel, uagtet et eller andet kan findes mere eller endog vissere, end det de indeholde. Det er lettere siden, for dem som føle Kald dertil, at forfatte ny Beretninger over et vist Tidsrum, og derved fuldstændiggöre de ældre, især om Vejen er noget banet for dem, som jeg dog haaber den er ved disse mine sidste Aarbøger.

Købenbavn d. 28de Jan. 1830.

oversat
af
R. Rask.

# VIII$^{di}$ Hluti.

Hèr segir frá Kommissaríis ok þíngi, vígslu Steins biskups ok ýmsum tilburdum. Mannalát nokkur ok upphöf. Frá biskupum. Deilur miklar verda med höfdíngjum. Júbilhátíd. Enn deilur, ok útkoma Fúhrmanns Amtmanns. Ýmislig fráföll manna, ok höfdíngjaskipti. Andlát Jóns biskups Vídalíns, ok aptrkoma Jóns Arnasonar. Fráfall Lárusar lögmanns; Schwarzkopfsmál ok annat. Mál önnur mörg, ok fall Odds, ok mannalát. Dó Páll Vídalín; ok frá ýmsu ödru, enkum Jóni biskupi Árnasyni, Jóhanni Gottrûp ok Bjarna Halldórssyni. Höfdíngjaskipti, ok heldri manna tal. Konúngaskipti, umskipti önnur, ok nýir embættamenn. Ýmisligir tilburdir ok mannalát; fráfall Steins biskups. Nýar kosníngar, útkoma Harbóes, ok frá Skúla ok ödru; enn mál ok mannalát; kaupaskipti ok annat; ok at lyktum frá Jóni biskupi Árnasyni, ok hans afgángi.

## I Kap. Frá kommissaríis ok þíngi.

1710 Vetr þann er meistari Björn biskup at Hólum andadist, hafdi Árni Sekretèri Magnússon verit í Skálholti, fóru þeir Páll lögmadr vestr til Hvamms í Hvammssveit fyrir hvítasunnu, hafdi Páll samit vid Jón Magnússon ádr um skipti á Dalasýslu ok Stranda, ok tók nú Strandasýslu at sèr, en samdi um Dalasýslu vid Odd Sigurdarson, en þar urdu þeir vansáttir úm seinna. Páll hafdi sett þórd Bjarnarson lögsagnara sinn á Strandir, ok vildi fá Dalasýslu aptr, en Oddr ok Páll Beyer vildu þat ekki. Árni var at konúngs eyrindum í Hvammssveit um sumarit, ok kom ei á þíng, hann var þá gjör Assessor í Konsistóríal-Kollegíó, svo at hann var ei vid, en þángat til var hann Sekretèri ok Prófessor, sem fyrr segir. Páll fór til alþíngs, ok var þar mjög róstusamt, þar voru þá lögrèttumenn þessir: þórdr, son Finns Sigurdarsonar, fadir þórdar prests, ok Sigurdr Högnason af Mýrum, Jón son Arnórs Ásgeirssonar ok Brynjúlfr, son Ásmundar prófasts Eyólfssonar úr þórnessþíngi, ok Jón Gíslason; Snæbjörn Pálsson ok þeir at vestan voru ei komnir; Jón Eyriksson ok Sveinn Gudnason úr Húnavazþíngi; Skapti Jósepsson, þorsteinn Steingrímsson, Olafr þorláksson ok Jón Gudbrandsson úr Skagafirdi; Jón Einarsson úr Vödluþíngi; Jón Sigurdarson ok Hallgrímr Sigurdarson voru teknir úr þíngeyarsýslu; Vigfús Pètrsson úr Múlaþíngi; Sigurdr Jónsson, Bjarni Nikólásson úr Skaptafellsþíngi; Gunnar Filippusson ok Sigurdar tveir Jónsson ok Magnússon úr Rángársýslu; ok Steffán Jónsson, Gudmundr Finnbogason, Páll Bjarnarson, Erlendr Jónsson, Jón Jónsson, Andrès Finnbógason, Jón Hjörtsson, Ófeigr Magnússon, Axel Fridrik Jónsson, Sigurdarsonar frá Einarsnesi, Brynjúlfr Jónsson ok annar Hannesson, þorsteinn Eyólfsson, þeir voru allir úr Árnessþíngi. Runólfr Sveinsson, Gissur Gudmundarson, Brandr Bjarnhèdinsson, þorgeir Jónsson, Eyólfr Árnason, Jón Jónsson, Kort Jónsson, Henrik Brandsson; Pètr Dadason sýslumanns, úr Kjalarnessþíngi; Bjarni Sigurdarson, Árnasonar lögmanns, úr Borgarfirdi. Oddr Viselögmadr var þar, ok Jón Eyólfsson annar; ok sýslumenn þessir: Hákon Hannesson af Rángárvöllum; Vigfús Hannesson úr Árnessþíngi; Nils Jensson Kjèr úr Kjósarsýslu; Sigurdr Jónsson, Sigurdarsonar lögmanns, úr Borgar-

firdi; Vigfús Arnason úr Hnappadal; Bjarni Pètrsson frá Skardi á Bardaströnd; Benedikt Magnússon Bech úr Skagafirdi; Lárits Skeving frá Mödruvöllum; Benedikt þorsteinsson úr þíngeyarþíngi; ekki komu sýslumenn at austan ok lengst vestan; en lögsagnarar voru þar, Brandr Bjarnhèdinsson úr Gullbríngusýslu; Jón Eyríksson úr Dölum, ok Björn þorleifsson prests Ólafssonar frá Sölvatúngu ok þórunnar Kortsdóttur, systur þórleifs lögmanns, hann hafdi ádr farit úr skóla fyrir galdrarykti, ok þorleifr bródir hans, ok var nú lögsagnari Lárusar lögmanns í Húnavazþíngi, en hvorki var hann þat lengi nè vel. Sigurdr lögmadr gamli settist at dómum at skipan Odds, því þeir kölludu Pál hundradan vid Kommissíónar rèttinn; kom þá Páll framm, ok las stefnu til Sigurdar, ok mjög í óleyfi, ok stefndi hönum fyrir amtmann ok 24 annat ár, undir vitni sýslumanna Hákonar Hannessonar ok Bjarna Pètrssonar. Madr var dæmdr til lífláts fyrir þrjú hórdómsbrot, Sigurdr þorvaldsson, ok skotit þó til konúngs nádar; annar madr hèt Hjálmar Árnason, er sekr var í 6 barngetnadar brotum, ok var hönum leyft at leita konúngs. þeir Sigurdr lögmadr ok Sigurdr landskrifari, son hans, ákærdu dóm Páls ok Árna, þar sem þeir höfdu dæmt af Sigurdi lögmanni embætti ok aleigu; var nú Sigurdi lögmanni dæmdr eidr, at ekki hefdi hann samtök gjört vid Jón Hreggvidsson, sú var hin helzta sök, er hönum var gefin; þar var Jón Eyólfsson skipadr yfirdómari ok Páll Beyer ok 24 menn adrir, fyrir þeim vann Sigurdr lögmadr eidinn. Voru þá skærur med þeim Páli lögmanni ok þeim Oddi öllum saman. Var bodin upp Dalasýsla, ok baud Oddr mest, ok vildi bola Pál frá; urdu um þat deilur, ok ritudu þeir utan bádir, Oddr ok Páll; var þat rádit af at Páll skyldi halda Dalasýslu, til þess er svar kæmi út híngat. Á þíngi þessu kóm fyrir fundr einn med töfra merkjum, ok var eignad þórdísi Markúsdóttur á Stokkseyri. þar voru borin framm á prestafundi at þíngvelli vandkvædi um messuvíns skort, ok ákvedit at þat væri geymt sjúkum mönnum er til var, ok þeim er þjónustu þurftu, en ödrum væri frá haldit um sinn. Mál Pètrs Bjarnasonar kom seint fyrir, ok gekk í því enginn dómr, ok stód þat sem gjört hafdi verit í hèradi. þá fèkk Benedikt þorsteinsson festibrèf fyrir þíngeyarþíngi, en Páll Torfason lagdi til fulls af sèr Ísafjardarsýslu. En Kommissaríí fengu

vitur miklar frá Kammeri, fyrir þat þeim gengi svo lítt verk, þat er þeim var umbodit.

## II Kap. Frá vígslu Steins biskups ok ödru mörgu.

Þá var gott ok þurt sumar, heyskaparlítit, en gód nýting, fiskr gekk til hlítar. Bar þat til á Bessastödum eptir þíng, at þar var hýddr Hemíngr Gudmundarson úr Rángárþíngi fyrir guds orda vanrækt, hann var sjötugr. Skiparar sögdu óhreinan sjó af víkíngum, sakir ófridarins, þó fóru þeir sem þeir þurftu, en eigi vildi þórdr prófastr Jónsson á Stadarstad fara utan í þeim ófridi, en bón sína sendi hann konúngi med fyrstu skipum nordanlands um biskupsdæmi á Hólum, átti hann ok adstodarmenn góda í Kaupmannahöfn at flytja mál hans; en Steinn prestr Jónsson at Setbergi hætti til, ok fór utan med Ólafsvíkr skipi, fyrst til Noregs, ok settist þar at um hríd. Skip komu vídast, þau er eptir voru, um Maríumessu hina seinni. Var þá um þat haust hinn 21ta dag ágústi mánadar brúdkaup Magnúsar prests Markússonar frá Grenjadarstad, ok Gudrúnar, dóttur Odds Jónssonar digra, er þá var at Gröf med systur sinni húsfrú Ragnheidi, haldit þar at hennar, ok gaf húsfrú Ragnheidr henni 60 hundrud í jördu ok lausafè, ok eptir sig helmíng allan móti Hólmfrídi Aradóttur; áttu þau Magnús prestr börn saman, er seinna urdu mikilsháttar: Gísla, Odd, Gudlaugu. Annad brúdkaup var á Hofi á Höfdaströnd hinn 20ta sunnudag eptir þrenníngardag, gekk Jens Spendrûp hinn danski at eiga Helgu Jónsdóttur, voru þau veik bædi frá þeim degi, ok hûn meira, ok átti at vera af óhreinum anda. Á Krossmessu um haustit gjördi mikit fjúk ok fjárskada stóra fyrir nordan ok í Skagafirdi, svo at frá 30 til 110 fórust á bæ; gekk þá þúng kvefsótt, ok öndudust margir menn. Stykkishólms skip braut vid Hjaltland, ok týndist af hvert mannsbarn, nema einn drengr, var þat eignat kvedskap eda forbænum þormódar Eyríkssonar skálda í Gvöndareyum, því þat var trú í þann tíma ok ádr, at sumir menn væri ákvædnir, ok megnudu miklu med því, en kaupmadr hafdi styggt þormód mjög, ok sá drengr haldit ímóti hönum, sem afkomst, ok þormódr kvedit þrjár vísur um heimför kaupmanns. Skip kom í Hafnarfjörd midvikudaginn seinastan í

sumri; þat hafdi verit fast í ísum 18 vikur, voru ok á því menn af ödru skipi, þeir voru allir 70 saman, ok komnir at bana af húngri; byrgdi fógètinn þá at smjöri ok fiski, nautum ok saudum; undu þeir skipit á land ok bættu, ok lögdu út sídan, þá vika var af vetri. Í þann tíma deydi Gísli prestr Jónsson at Útskálum, ok Jón prestr Loptsson, er verit hafdi prófastr í Dölum, ok hèlt Saurbæarþíng, en þar var þá prófastr, er hèr var komit, ok hafdi verit lengi, Magnús prestr í Hvammi, bródir Árna Magnússonar ok Jóns. Mjög vard misfarit um kaupskapinn, ok vard skipum illt vída framm at komast fyrir ofvidrum, ok af því lögdu þau flestöll til Noregs. Þat haust gjördist skólameistari í Skálholti Þorleifr, son Ara Þorkelssonar í Haga, voru þau hans systkin: Þorkell, Magnús, Teitr ok Halldórur tvær, börn Ara, ok mönnudust sum í fremra lagi. Steinn prestr Jónsson frá Setbergi hafdi farit utan, sem fyrri segir, ok var þat gjört med rádi Odds Sigurdarsonar; lá skipit vid Noreg, en Steinn prestr fór um vetrinn til Kaupmannahafnar, studdu þeir mál hans, Kristján Worm biskup, ok Doktor Pètr, hirdprestr konúngs, ok mest fyrir þá sök, at þeir vorkynntu hönum háskaför svo mikla ok vos, ok komu því svo, at konúngr gaf hönum brèf fyrir biskupsdæminu hinn 1711
25ta dag mají mánadar, en sídan var hann látinn halda tölu á avditórió á latínu, ádr hann var vígdr, fór vígslan fram hinn sídasta dag mánadarins, ok dvaldist þó ferd hans nokkut út híngad þadan af.

## III Kap. Frá ýmsu.

Nóttina eptir nýársdag deydi Erlendr prestr Gudbrandsson at Kvíabekk; var þá í þann tíma ársamt ok hlutasamt; en skip týndist í Steingrímsfirdi med 6 mönnum, ok 4 druknudu á Eyrarbakka, voru þrír danskir, 4 menn á Öndverdunesi. Prestr vard í Snjóflódi á Austfjördum, Runólfr Ketilsson. Þá deydi Salvör Vigfússdóttir, húsfrú at Stadarstad, en Magnús prestr Bjarnason at Eyadalsá druknadi í Skjálfandafljóti. Skip misfórust heldr, ok var illfært milli landa sökum styrjaldar. Sigurdr, son Bjarna prests at Grænavatni, var þá heyrari at Hólum, Bjarni prestr var Ormsson, Bjarnasonar prests at Helgastödum, Jónssonar á Einarsstödum, Ormssonar á Draflastödum, Jóns-

sonar Kolls Oddssonar, hann hafdi fyrrum verit sveinn Sigurdar Magnússonar á Skútustödum, ok átti Íngibjörgu, dóttur Hallgríms prests Gudmundarsonar, er úti vard; þeirra synir voru: Hallgrímr ok Pètr, Ormr ok Sigurdr þessi; Hallgrímr var skólagenginn, ok hafdi verit sveinn Lárusar Gottrúps, ok farit utan med hönum, ok fengit bana af falli úr stiga; þeir Pètr brædr voru miklir menn ok sterkir; var Pètr lögrèttumadr, ok fadir Bjarna prests at Melstad. Ormr Bjarnason var prestr sídan á Mel, mikill madr ok sköruligr, en Sigurdr vígdist nú til Kvíabekkjar; gjördist aptr heyrari at Hólum í stad hans Snorri, launsonr Jóns Magnússonar, bródur Árna, er sýslumadr hafdi verit. Sigfús lögrèttumadr Þorláksson á Grund var þá borinn galdri af Eyríki Jónssyni á Dvergstödum, þíngadi Lárits sýslumadr Skevíng um þat í majó, ok skaut til lögmanna. Þessir urdu lögrèttumenn svarnir á þíngi: Þorsteinn Hákonarson úr Húnavazþíngi, Árni Egilsson úr Eyafirdi, Oddr Ólafsson úr Þíngeyarþíngi, Hildibrandr Þorgrímsson úr Múlaþíngi, Erlendr Jónsson úr Skaptafellsþíngi, Steffán Kjartansson í Borgarfirdi, úr Dölum, var hann kynjadr af Moldar-Brands ætt. Galdra-áburdir nokkrir komu þar fyrir, ok vard ei atgjört, var einn sá er ádr er getit á Sigfús Þorláksson, var hönum vísat til prófs í hèrad, ok mjög fátítt þíngit. Dæmdist þeim Þórdísi á Stokkseyri ok Gudmundi Vest, bónda hennar, at synja med eidi fyrir galdrakverit, er fannst, ok var gjört um skammarorda-mál Jóns Sveinssonar vid Þórd prófast Jónsson á Stadarstad ok konu hans, ok komust á sættir. Þeir Oddr Sigurdarson ok Páll Beyer afsettu Hákon Hannesson sýslumann í Rángárþíngi fyrir litlar sakir, ok veittu sýsluna Brynjúlfi Thorlacíusi, en Steffán Jónsson var lögsagnari í hálfri, stód svo á þeim misserum; þeir gáfu ok Markúsi, syni Bergs Benediktssonar, festibrèf fyrir allri Ísafjardarsýslu. Hallgrímr Thorlacíus, son Jóns Þorlákssonar sýslumanns, yfirgaf þá Hólaskóla, fyrir þá sök, at hann gat barn, ok segja sumir unnusta hans hafi sagt hönum upp þessvegna, ok Hallgrímr kvædi til hennar vísu þessa:

Virdtu þat ekki mèr til meins,
menn erum vèr, þó hrösum,
þèr kann verda annat eins
ádr enn lykr nösum.

Er sagt spá sú hafi rætzt, en adrir eigna vísuna ödrum, ok ætla ek þat sidr. Vard þar skólameistari aptr meistari Þorleifr Halldórsson, sunnlenzkr madr ok lítilla manna, en allra manna skarpastr til náms. Benedikt Þorsteinsson frá Bólstadarhlíd tók Þíngeyarsýslu, en Jón prestr Markússon vard prófastr med Geiri presti bródur sínum at Laufási. Þá var heyskapr í medallagi ok nýttist fyrir nordan land, en mjög votvidrasamt annarstadar, ónýttust hey ok brunnu, ok svo eldividr, en gott var haustit. Meistari Þorleifr, sá er getit var, hafdi verit lengi utanlands, hann kom út med Steini biskupi med vestan-skipum hinum sídustu; reid biskup nordr til Hóla, setti skólann, ok innsetti skólameistarann, en vígdi Ólaf, son Jóns prests frá Knappstödum, til Helgastada; sídan reid hann vestr aptr med son sinn ok annann mann, ok vard á Setbergi um vetrinn. Þessi misseri var borinn Þorlákr, son Þórarins Þorlákssonar, Þórarinssonar prests at Bægisá, Ólafssonar, er seinna vard merkiligr í Vadlasýslu.

## IV Kap. Þat er tilbar um haustit.

Kommissaríí lètu þá skrifa upp í Múlasýslu, þat gjördi Þorsteinn, són Sigurdar Þorgilssonar á Jörfa, sveinn Páls lögmanns, ætladi Árni Magnússon at rída þángat, en tálmadist, ok vard kyrr sydra. Voru þeir þá stefndir utan, Sigurdr lögmadr Bjarnarson ok Sigurdr landþíngskrifari son hans, Páll Beyer landfógèti ok Jón Eyólfsson Víselögmadr. Á því hausti var brúdkaup Brynjúlfs Þórdarsonar, hann kvæntist ödru sinni, ok gekk at eiga Jórunni, dóttur Skúla prests Þorlákssonar at Grenjadarstad, er þá lifdi ein eptir þeirra systkina, þau voru brædrabörn, ok fór þat fram at Hólum sunnudaginn næstan fyrir Michaelsmessu, hinn 27da dag septembris mánadar, vard þat fámennara enn ætlat var, þvíat illvidr hindradi bodsmenn, fóru þau sídan sudr at Hlídarenda, er því var lokit.

## V Kap. Mannalát ok upphöf.

Nokkru ádr enn brúdkaup þat var, hafdi andazt at Hólum Halldór Þorbergsson sýslumanns, Hrólfsonar, er fyrrum hafdi búit at Seilu, hann skorti 2 vetr á nírædan, ok hafdi ritat annála frá því er datum

var 1640, ok í næstu 18 ár, hafdi hann verit gildligr ok vel at sèr um marga hluti, en kalladr var hann kvennamadr, ok hafdi getit börn í elli sinni, er lifat hafa framm undir vora daga, var Jón einn sonur hans, er sídan var prestr at Völlum í Svarfadardal. 9 vetr hafdi Halldór verit at Hólum, ok tekinn þángat til frammfærslu fyrir tillögur mikilsháttar manna. Litlu þar eptir andadist Skúli prestr at Goddölum, Magnússon prests frá Mælifelli, Jónssonar, hann var 90 vetra at því er sumir segja, en adrir kalla hann skort hafa 2 á tírædan; var þá í þann tíma Einar sonur hans prestr i Gardi, en hans synir höfdu heitit Sigurdr, Jón ok Magnús; hafdi Sigurdr verit mannvænligr madr, ok dáit í Skóla, þá Hamraenda-Jón var rádsmadr at Hólum, ok verit á illr kvittr, enn Jón verit skólameistari, ok dáit í stórubólu, en Magnús var nú prestr í Húsavík, velgáfadr madr, sem brædr hans ok búsýslusamr, ok gildligr; hann átti Oddný, dóttur Jóns Árnasonar í Keldunesi, er úti vard á Reykjaheidi, hún var skörúngr ok mikilhæf, ok höfdu átt einn son er Jón hèt, ok vard vel at sèr, ok sterkastr sinna jafnaldra ok atgervimadr mikill, en lifdi skamma stund, ok nú gátu þau annann son, sá var nefndr Skúli, eptir födurfödurfödur sínum, en sídan áttu þau Jón ok Einar. Undir jólin andadist Oddr Jónsson digri at húsfrúr Ragnheidar systur sinnar at Gröf á Höfdaströnd; voru þau hans systkin Magnús í Vígr, fadir þorbjargar, er Páll lögmadr átti í Vídidalstúngu, Gudbrandr prestr, fadir Vigfúsar prests at Helgafelli ok hans systkina, Sigurdr prófastr at Holti í Önundarfirdi, hann lèt þetta ár af prófastsdæmi í Nordrhluta Ísafjardarsýslu, ok tók vid Hjalti prestr þorsteinsson frá Vazfirdi, son þorsteins prests, Gunnlaugssonar prests frá Saurbæ nordr, Sigurdarsonar prófasts Einarssonar. Sigurdr prófastr Jónsson átti Helgu, dóttur Páls prófasts í Selárdal, þeirra börn voru Sigurdr prestr ok Ragnheidr, er átti Teitr prestr á Eyri Pálsson sýslumanns, Torfasonar, ok mörg önnur. Ari á Sökku var einn bródir Odds, er dó í lendíngu, er hann var kominn af skipi, er ok allmàrgt frá hönum ok ei mjög kynsælt: Hólmfrídr dóttir hans ein var gipt þorláki Markússyni, en ádr átti hún dóttur, Gudrúnu, konu þorvalds prests Gottskálkssonar; Steinvarar fèkk Jón prestr á Skinnastödum, Einarsson prests, Nikólássonar, þeirra frændlid fór med fjölkýngis hindrvitni, sem Einar prestr hafdi gjört, ok var hamíngjulítit;

Bjargar fèkk Eyólfr Einarsson, bródir Halldórs sýslumanns, hún var tiltektarsöm, ok fórst þeim illa. Helga Jónsdóttir, systir Odds, hafdi fyrri verit gipt Teiti Torfásyni, en sídan þorsteini presti Geirssyni í Laufási, födurbródur Magnúsar prests Markússonar. Ragnheidr Jónsdóttir átti Torfa Jónsson, sýlumann frá Flatey, ok var módir Jóns. Önnur Ragnheidr Jónsdóttir húsfrú var í Gröf, er opt er getit; Anna var enn Jónsdóttir hin digra, á Breidabólstad í Vestrhópi, er átt hafdi Ólafr prestr, þorvardsson prests, Ólafssonar prests, Erlendarsonar prests Pálssonar, Grímssonar á Mödruvöllum, ok voru þessi öll börn Jóns prófasts í Vazfirdi, Arasonar frá Ögri, Magnússonar, ok er þat mikill kynþáttr.

## VI Kap. Frá ýmsu.

Þessi vetr, er nú fór í hönd, var gódr fyrir sunnan land, en hardindi 1712
fyrir nordan á Gói ok heyaskortr vída; hlutir voru litlir nema fyrir Stafnesi ok umhverfis jökul; vor kaldt ok sídgróit; vard Saudfjárfellir á Austfjördum, ok dóu undir Eyafjöllum 100 hestar tólfrædt ok 800 fjár; andadist þá Jón þorláksson, sýslumadr í Múlaþingi. Manntapar urdu nokkrir. þann vetr lèt húsfrú þrúdr þorsteinsdóttir prenta húgvekju-sálma ok Díaríum. Sumarlidi Klemensson var lögsagnari Lárusar Gottrúps í Húnavazþíngi um vorit, ok var þar málasamt; sókti Sumarlidi Gudbrand Arngrímsson ok þorlák Ólafsson um ýmsar sakir, en Lárits Gottrúp lögmadr bygdi Gudbrandi út af Ási í Vazdal; þar hafdi þá Gudbrandr búit lengi embættislaus, ok kastadi lögmadr haldi á kvikfè hans, en bygdi jördina Sumarlida; vard Gudbrandi mjög mædusamt í málum í þann tíma, en Grímr Magnússon mótmælti brèfinu sídan á þíngi. Ófridr var þá mikill med Dönum ok Svíum, ok íllt um siglíngar, lèt þó konúngr herskip fylgja kaupförum þadan af hvert sumar, medan styrjöldin stód; gekk þá jafnframt því ógrlig brádasótt í Kaupmannahöfn, svo þar dóu 8 þúsundir eina viku, medan hún var mest, þá dóu allir íslenzkir menn, er þar voru, nema Magnús, son Ara þorkelssonar. Hèr út andadist göfug kona, Ragnheidr, dóttir Torfa prófasts í Gaulverjabæ en fóstrdóttir Brynjúlfs biskups, er átti Jón Sigurdarson í Einarsnesi, sextug at aldri. Um vorit tók Steinn bisk-

up vid Hóla stad af Páli lögmanni, því hann var fyrir hönd húsfrúr Þrúdar, ok komst hann ei nordr í fardögum, því meybarn hans tók sótt ok dó á ferdinni; en Þorlákr Bjarnarson rádsmadr hans tók á móti stólnum ok hans peníngum, var hann úngr ok lítt rádinn, ok ætludu menn biskup mjög vanhaldinn ordit hafa, hann tók ok vid prentsmidjunni í ofanálag á stadinn ok hans inventaríum, fyrir hid sama verd sem Björn biskup hafdi keypt hana. Sídan settist Steinn biskup at stóli, hann var spaklyndr, ok þótti meiri gódleiksmadr ok trúmadr enn skörúngr, var hann skáld, hár vexti ok heldr sterkr, ok lèt sèr vaxa skegg, hann átti Valgerdi, systur Gudmundar prests frá Helgafelli, Jónsdóttur prests, Gudmundarsonar prests á Þæfusteini, Jónssonar, Gudmundarsonar, Hallssonar, þess er Hallsætt er vidkend, Ólafssonar prests at Saurbæ vid Hvalfjörd, Kolbeinssonar, þau voru börn þeirra: Jón, Gudmundr, Sigfús, Jórunn, Helga, ok þá nokkud á legg komin.

## VII Kap. Frá málum.

Þá kom út konúngsbrèf um nádarár ekkna, ok annat at Hákon Hannesson skyldi setjast inní sýslu sína, til þess er hann væri rèttiliga dæmdr frá; var þá hid bezta sumar, en rostusamt mjög af málaferlum í landi hèr, ok sundrlyndi mikit med öllum hinum heldri mönnum. Ok er kom til alþíngs, gjördust þeir lögrèttumenn Gísli Þórdarson af Mýrum ok Pálmi, son Sigurdar Pálmasonar, hann var nefndr í stad Jóns Hákonarsonar at Vazhorni, er af lèt; Jón lifdi þó eptir þat lengi, hann hafdi átta Helgu Gudbrandsdóttur prófasts úr Vazfirdi, er dó í bólunni miklu, en Helga, dóttir hans, er nú var 10 vetra, var óskilgetin ok arfleidd med konúngsbrèfi. Gudmundr Gudmundarson úr Vödluþíngi ok Þórdr Bjarnarson úr Þórnessþíngi urdu ok lögrèttumenn. Þar kom fyrst fyrir á þínginu mál Sumarlida Klemenssonar ok Gudbrands, ok var ei mikit atgjört. Þvínæst kom Benedikt Bech ok dómsmenn hans, lögrèttumenn í Skagafirdi, Skapti Jósepsson ok Þorsteinn Steingrímsson; hafdi Gudmundur Bjarnarson á Ökrum stefnt þeim um dóm á sig um legord, er hann var borinn, en þeir sættust. Voru þá margar ákærur komnar yfir dómum Árna ok Páls kommissaríórum, ok leyfdi konúngr at stefna þeim fyrir ædri rètt; var deilt

um mál Jóns Hreggvidssonar. Á því þíngi var Jón, son Jóns í Túngu í Fljótum, Sveinssonar prests á Bardi, skipadr af konúngi landþíngskrifari, en ekki tók hann vid þeirri sýslan, hann bjó í Grenivík austan Eyafjörd, ok átti Gudrúnu, dóttur þórarins, er þar bjó ádr, Vigfússonar, Fridrikssonar, ok vard kynsæll seinna. þar kom illordabrèfsmál úr Vadlaþíngi, er Jón prestr Gíslason kærdi til þórdar Pálssonar, er sídan var kalladr brèfa-þórdr, ok var því vísat heim. Annat mál hafdi Lárits Skevíng fyrir, fjölkýngis-áburdinn á Sigfús á Grund, baud Sigfús eid, ok vard Eyríkr, er hafdi ákært hann, fyrir fèsektum, en þó var Sigfús kynntr at heitíngum vid menn, ok hafdi þat ei komizt lengra, enn þeir bördu á hönum. Tindala-mál var úr Gullbríngusýslu, var lýst Íma Arnórssyni af Rángárvöllum, er sídan var kalladr Tindala-Ími, fyrir stroku ok stuld, var svo sagt, at hann var lítill ok vesælligr, dökkr ok ósýniligr, hægr ok lágtaladr, sagdr lýginn ok sjálfhælinn, fjölhæfr ok íþróttamadr mikill, ok syndr sem selr. Ekki sókti Brynjúlfr Thorlacíus at sídr um sýslu, þó Hákoni Hannessyni væri bodit af konúngi, at vera vid um sinn; en fyrir Dalasýslu var þá skipadr Jón, son Sigurdar Gíslasonar skálds, ok hèlt hann hana um hríd, áttust þeir Páll Vídalín opt vid gamanvísur med eliara glettu nokkurri. Miklar fengu kommissaríí þá vítur fyrir þat, þeir gæfi sig meira vid deilum, ok at hafa hendr í hvers manns hári, en at gjöra þat verk, sem þeim var bodit um; bodadi kammerit Árna Magnússon utan, ok baud hönum at gjöra skil fyrir sýslunum þeirra. Hann fór utan, ok Sigurdr landskrifari, því hann ákærdi þá Árna ok Pál, ok dóma þeirra yfir Sigurdi lögmanni födur sínum, en ekki gjördi Árni skil þau, er heimt voru, ok átti þrætu lánga vid Kammerit sídan. Oddr Sigurdarson kom ekki á þíng, ok hèlt þá meistari Jón Vídalín biskup einn Synódal-rèttinn, ok dæmdi í öllum andligum málum, ok voru þó allmörg; ok ei fèkk Páll Beyer at sitja rèttinn med hönum, en baudst þó til; voru þá mjög höfuddómendr teknir at ráda dómunum, ok meddómendr minna enn fyrr hafdi verit; þar dæmdi Jón biskup Jón prest Sigmundarson á þykkvabæar-klaustri frá allri prests-þjónustu, fyrir óskikkanliga skrifliga frávísun konu einnar frá altaris sakramenti, sakir leyniligs burthvarfs kvid-þykktar hennar, sem prestr kvad at ordi; ok fleirum prestum dæmdi hann á hönd sektir eda fèbætr til fá-

tækra-prestaekkna; voru þat Skaptfellíngar, er Einar prófastr Bjarnason hafdi kært, fyrir þat þeir hefdi ei viljat dæma med hönum í máli Jóns prests Sigmundarsonar, en sumir ætludu þó at Einar prófastr mundi bera á prestana vanskörúngskap sinn sjálfs. Enn er Oddr Sigurdarson vissi þetta, bannadi hann prestunum at fara at þeim dómi, medan stiptamtmanns samþykki kæmi þar ekki til; spannst þar af óvild med þeim Jóni biskupi, svörudu sumir prestar bótunum, til at vinga sig vid biskup, ok til fridstillíngar med þeim Oddi, því biskup var óvæginn um sitt mál; en Jón prestr Sigmundarson sat nú í skjóli þeirra Odds ok Páls Beyers kyrr í kalli sínu, fór þat svo fram um hríd. Á því þíngi var þat gjört fyrir ástæda sakir Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar, ok svo þat, at Sigurdr landskrifari stód fyrir máli hans, en annarsvegar baud konúngr at hönum væri rèttr gjör med 24a manna dómi; at þá var Páli Vídalín vikit frá lögmanns embætti, ok skipadr Niels Kjêr Víselögmadr í sæti hans; var þá ok Páli lögmanni stefnt til hins næsta alþíngs med 9 stefnum.

## VIII Kap. Mannalát ok tilburdir.

Þessi misseri andadist Gudbrandr prestr Jónsson á Flugumýri, Bödvar prestr Sturluson at Valþjófsstad, vellærdr madr, Bjarni prestr Gissurarson í Þíngmúla, skáld gott, Runólfr prestr Ketilsson at Hjaltastad, ok má vera missagt sè hid fyrra árit, at hann hafi þá druknad, nema hann sè annar, er ek hygg ei vera; Magnús prestr Hávardsson at Desjarmýri; ok Þórdr prestr Konrádsson at Mosfelli. Eyríkr prestr Þorsteinsson gjördist prófastr á Bardaströnd, en vígdr var til Bergstada í Svartárdal Björn, son Magnúsar at Espihóli Bjarnarsonar, Pálssonar ok Sigrídar Jónsdóttur biskups, Vigfússonar, ok var hann kapellán fyrst. Jón prestr Gottskálksson vígdist ok til Hvanneyrar í Siglufird, ok Jón Bjarnason litli kom at sunnan, ok var vígdr til Vestrhópshóla á Hólum. Mörg komu þá konúngsbrèf, ok voru margt eptirgjafir á húdlátum fyrir barnamál. Þá var stúnginn til bana med knífi Gísli Einarsson í Múlaþíngi, af þeim manni er Þórdr hèt Andrèsson, ok var þat óvörum, en þó var Þórdr högginn fyrir þat seinna í hèradi. Á því hausti reid Benedikt Þorsteinsson sýslumadr austr til Bustarfells,

ok gekk at eiga þórunni, dóttur Bjarnar sýslumanns Pètrssonar. Hann tók þíngsvitni at Hvammi á Gálmarströnd um skada þann, er vard at Mödruvöllum í Hörgárdal at Lárusar sýslumanns, nóttina milli hins 6ta ok 7da septembris, þar brunnu hús öll nema kyrkjan ok tvær skemmur, en ekki sakadi menn, missti Lárits Skevíng þar ærins fjár, því ádr var hann hinn audugasti madr, en var þó audugr sídan; Benedikt bjó fyrst at Svalbardi á Eyafjardarströnd, en sídan á Einarstödum í Reykjadal, ok seinast í Rauduskridu, áttu þau þórunn börn saman: Jón ok þorstein ok Björn, ok enn voru Sigrídr, Elín, Elísabet, Gudrún, mörg líktust þau módurfrændum á vöxt; Benedikt var hóglátr ok fasttækr, lagamadr gódr, þótti nokkud hardr í tekjum, hár vexti ok álitligr, fölleitr ok bólugrafinn, dökkr á hár ok ekki frídr, stirdmæltr ok þó ordstilltr; hann var vinfastr, en ekki mjög vinsæll alþýdu, átti fasteign allmikla, en opt óhægan fjárhag, ok þótti þó ekki ör, enginn var hann orkumadr; hann hjálpadi jafnan sakamönnum, er hann mátti, svo sem gjört hafdi Björn at Bustarfelli, tengdafadir hans, ok fèkk hann af því vandrædi ok ámæli; hann var mjög elskr at hundum stórum, ok hafdi þá jafnan á fótum sèr á nóttum tvo eda þrjá, ok ól þá. þat haust, er brann á Mödruvöllum, urdu bæa-brennur vídar, þó ei sèu taldar. Var á þeim vetri dæmt í hæsta-rètti í máli milli Lárusar sýslumanns Skevings ok Kristjáns Davidssonar kaupmanns um vexelbrèf, 1713
ok vann sýslumadr þat mál. þá týndust 4 menn af skipi fyrir sunnan Jökul, en fleiri einstakir. Magnús Benediktsson hafdi þá farit huldu höfdi um 2 ár, en þá var hann tekinn, ok sendr á Brimarahólm. Var þá gótt í ári á sjó ok landi vetr ok sumar.

## IX Kap. Mannalát ok annat.

Þau misseri andadist Gísli prestr Bjarnason at Hólum í Blöndudal, ok Magnús prestr Benediktsson, Magnússonar prests frá Laufási, Ólafssonar, hann var at Nesi í Reykjadal, ok nær sjötugu. Komu þá skip vídast á hafnir. Sá madr gat barn vid bródurdóttur sinni Kristínu Halldórsdóttur, er Grímólfr hèt, Gunnarsson, bóndi í Skagafjardardölum, illþreysíngr mikill, sumir segja hann væri skólasveinn, ok verdr þat at vera ósannara, nema svo sè, at hann hafi einhverjusinni verit í

skólá, hann strauk, en hún var dæmd til dauda, ok sett þó til konúngsnádar. Á páskadaginn deydi Gissr prestr í Vestmannaeyum Pètrsson prests, Gissurarsonar prests, Gamlasonar prests, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar, hann var vel vid aldr, ok er margt fólk frá hönum, fór þángad Gísli prestr, son Bjarna lögrèttumanns, Árnasonar lögmanns, Oddssonar; bródir Bjarna var Árni lögrèttumadr at Grund í Skorradal; en bródir Gísla prests var Jón prestr at Holtastödum, þeir frændr voru sumir karlmannligir menn. Gísli prestr hafdi verit tvo vetr kyrkjuprestr í Skálholti, því Loptr Jósepsson var uppgefinn, ok lagdist í kör; en þángad vígdist nú þorsteinn, son Ketils prests á Svalbardi, Eyríkssonar prests í Vallanesi, Ketilssonar, Ólafssonar prests á Saudanesi, Gudmundarsonar, hann var námsmadr, ok gjördist vel at sèr, fèkk hann seinna Hrafnagil í Eyafirdi. þá andadist enn göfug kona, ekkja Ólafs prófasts Jónssonar í Hítardal, Hólmfrídr at Sídumúla Sigurdardóttir prófasts í Stafholti, Oddssonar biskups, var útför hennar gjör virduglig, ok erfdi þar Oddr Sigurdarson, frændi hennar; einninn Gudrídr, er átt hafdi meistari Gísli Vigfússon, bródir Jóns biskups, Gunnarsdóttir prests at Hofi, Bjarnarsonar, Magnússonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups; ok Steinunn at Saurbæ, góđ kona. Gudrídr var módir Vigfúsar á Hofi, födur Gudrúnar á Mödruvöllum, er Hans Lárusson átti. Meistari þorleifr Halldórsson, skólameistari at Hólum, tók vanþrif mikil, var ætlad snertr af lúsasýki, því tvisvar vard hann at skipta klædum fyrir lús á degi, á hinum sídustu mánudum, ok dó hann med þjáníngu mikilli, er hann hafdi legit 3 nætr. Hann hafdi verit hinn lærdasti madr, ok var þó enn úngr, ok hefir ritat lygilof á þann hátt, sem Erasmus heimskunnar, ok ýmisligar heims-speki greinir, ok var allt harla skarpligt, var þá kránkfelt, ok dóu ýmsir; fannst Jón Gíslason lögrèttumadr í Dölum daudr í vatni nær Skógaströnd, er hann reid af þíngi, hann var bródir Sigurdar Dalaskálds at faderni, ok ýngri miklu.

## X Kap. Smátilburdir.

Þá kom til Reynistadar klaustrs Eyólfr Einarsson, bródir Halldórs sýslumanns, hann átti Björgu Aradóttur, sem fyrr er getit; en Benedikt Bech Magnússon prests, Sigurdarsonar, Bjarnarsonar á Laxamýri, er

sýslu hafdi í Skagafirdi, ok þar hafdi verit um hríd, fór til Sjáfarborgar. Páll prestr at Brautarholti á Kjalarnesi Sveinsson prests frá Bardi í Fljótum átti andstædt sydra, ok fèkk Goddali eptir Skúla prest hinn gamla; en Sæmundr, son Magnúsar Sigurdarssonar í Brædratúngu ok þórdísar Jónsdóttur biskups, Vigfússonar, vígdist til Flugumýrarþínga. Madr fleygdi þá ljá eda broddstaf útum glugga fyrir austan, kom í kálfa á ödrum manni, ok fèkk sá af því bana.

## XI Kap. Frá málum, þíngi ok deilum.

Þá er kom á þíng, gjördist Jón Magnússon lögrèttumadr í þorskafjardarþíngi; þorsteinn Bjarnason í Húnavazþíngi; Árni Egilsson í Vödluþíngi, Bjarnasonar prests á Grund, Hallssonar; Björn á Laugum, son Arngríms sýslumanns Hrólfssonar í þíngeyarþíngi; Kort Magnússon, Kortssonar, bródurson þorleifs lögmanns, í Rángárþíngi: hófst þíngit á því, at þeir Oddr ok Páll Beyer vísudu Páli lögmanni frá lögmannsverkum fyrir vanvirdu vid rèttinn, ok var Jón Eyólfsson settr í sæti hans, en Nielsi Kjêr var skipad landþíngskrifara-embætti medan Sigurdr var ei kominn; þvínæst var upplesit konúngsbrèf um mál Sigurdar lögmanns, ok svo um Hákon Hannesson sýslumann, þat er vefengdi mjög dóma-kommissaríórum, Árna ok Páls. þórdr prófastr Jónsson at Stadarstad hafdi þar mál fyrir. þar vísadi þórdr, son þórdar Steindórssonar at Íngjaldshóli, rádsmadr Skálholtsstadar Lárusi lögmanni Gottrûp úr dómssæti, fyrir þat er Páll Vídalín hefdi lýst því yfir, at hann stædi í óbættum sökum, ok bodit sig til at gegna málum í hans stad; en lögmadr tók því all-litt, kvad hann ei sjálfan hafa borit af sèr, þat er Jón Bessason lýsti hann lygara á Ásþíngi á hausti, ok bad hann gjöra þat fyrst, ok bad þess at þórdr væri heptr fyrir slíka svívirdíngu sèr gjörva, ok þat budu þeir Oddr ok Páll Beyer Vigfúsi sýslumanni Hannessyni at gjöra, ef þórdr færi slíku framm. þórdr hèlt á svari sínu, ok var þá lýst yfir hönum haldi; þvínæst höfdu adrir menn fram mál sín. Jens Mattsson Spendrûp stefndi Oddi Sigurdarsyni, ok vard stefnan ónýt; ok þar var brèfa-þórdr dæmdr til at fría sig eda mæta sektum. Jens Spendrûp stefndi þar til þíngs Benedikt þorsteinssyni sýslumanni, ok svo Benedikt Bech fyrir van-

skörúngskap ok lagaleysi, ok urdu þær bádar stefnur ólögligar. Grímr Jónsson stefndi Sumarlida Klemenssyni lögsagnara úr Húnavazþíngi, fyrir þat hann hefdi borit sig aflaga, ok var því vísad til næsta alþíngs. Mörg voru þar önnur mál. Benedikt Bech stenfdi Sumarlida um dóm, ok var sá ónýttr. þar var lesinn upp hæstarèttar-dómr nær þínglokum, því Sigurdr landskrifari kom þá út med Hólms skipi, ok hafdi fengit sigr í málum födur síns, ok var sá med þeim hætti, at Sigurdr lögmadr skyldi halda allri virdíngu sinni ok fè, ok ónýtr skyldi dómr kommissaríórum Árna ok Páls, ok þeir gjalda hönum 300 dali, hafdi Árni lokit þá skuld skörugliga af sínum hluta í Kaupmannahöfn um vetrinn. Jón biskup Vídalín lagdi fram stefnur af hendi Gudbrands Arngrímssonar, födurbródur síns, til þeirra Lárusar Gottrúps ok Sumarlida Klemenssonar; ok þat ætlum vèr, at fleiri mál hafi ei komit fyrir á einu þíngi, enn þá voru. þeir Oddr ok Páll Beyer dæmdu þar med 24um mönnum um mál Brynjúlfs þórdarsonar, er þá hafdi fengit afsvar um Rángársýslu, hafdi Páll Vídalín dæmt ádr mál hans, ok rengdu þeir þann dóm med yfirrèttar-dómi sínum, ok ekki átti Páll andstædara á ödru þíngi enn þessu. þat er sagt til merkja um, hverju kappi fram var farit, ok er hèr at eins getit fyrir þá sök, at Páll hafdi kvedit um Odd á Beinakerlíngu, ok kallad hann geldíng, ok var þat tilefni, at Oddr hafdi einhverjusinni komizt í deilu vid kaupmenn útlenda á skipi, ok sögdu óvildarmenn hans, at þeir hefdi geldt hann, ok færdu til, af hann átti hverki konu nè börn; en á þessu þíngi fundu þeir Páli til margar sakir, svo at hann skyldi vera frá lögmanns embætti; er þá sagt, at Oddr hafi mælt vid hann: kved þú nú, Páll! en hann snúit sèr vid skjótt ok kvedit:

Login held eg sagan sè
sögd af geldíngunni,
liggr þetta last ok spè
ljóst í hvers manns munni.

þá voru í þann tíma þau skipti gjör med húsfrúm Ragnheidi Jónsdóttur í Gröf ok þrúdi þorsteinsdóttur at Vídivöllum, af lögmönnum ok fjórum prófösturn ok at konúngsbodi, at Ragnheidr skyldi hafa tvo þridjúnga af þeim 12 jördum, er þeim voru ánafnadar, en þrúdr einn, medan Ragnheidr lifdi, ok allt sídan; gjör var ok sátt á þíngvelli

um stofu Bjarnar biskups, vegna húsfrúr Þrúdar, milli Steins biskups ok Páls Vídalíns, á þann hátt at biskup skyldi gjalda 60 ríkisdali eda 15 hundrud í gyldum landaurum fyrir hana. Jón biskup Vídalín ok lögmadr sömdu þar ok fleiri greinir ásamt prófösstum, ok hnigu at því, at biskupsekkjur skyldu hafa 100 dali á ári hverju í uppheldis-peninga, en 20 betr, ef fátækar voru; en ef tvær voru jafnaudgar, skyldi hver hafa helmíng; en þridjúng sú er væri audgari. Svo skyldi vera um nádarár þeirra sem prestaekkna. Hver dómkyrkja skyldi láta ónaudsynligt inventaríum, ok svo mikit í jördum, at afgjald væri 48 dalir, skyldi gánga til fátækra presta, medalbraud hvert midla jördu, er gjaldist af 4 dalir, en hvert hinna beztu tvöföldu; ok vard þetta þó ekki framgengt.

## XII Kap. Frá biskupum.

Þat bar til um midt sumar, at sá madr, er Gudmundr hèt Þorsteinsson at Raudamel, skar sig á háls. Á því sumri fór Jón biskup Vídalín vestr at visítèra; hann kom til Narfeyrar, þar var þá Oddr Sigurdarson, drukku þeir þá saman, til þess er vöknudu fornar ertíngar; segja svo þeir, er vita þykjast til med sannindum, at Sigrídr á Raudamel, módir Odds, væri med hönum, ok hafi gengit til tjalds biskups, þar þeir voru, ok hafi biskup heilsad henni kunnugliga, ok sagt heillin gód, en Oddr tekit því ílla, er hann virdi hana ekki metordanafns; urdu sídan illdeilur med þeim ok hrakníngar í ordum, þvíat hvorutveggi var skapbrádr nokkut; þá flaug Oddr á biskup, ok var áþrifamikill, ok segja menn hafi barit hann nokkud, ok flúdi biskup undan á brottu, en Jón prestr Jónsson á Breidabólstad hèlt Oddi. Sídan ritadi biskup utan, ok bad konúng um dómara í málefnum þeirra Odds, sagdi Odd vera svo rádríkan, at enginn dómari fengist hèr á landi í þeim málum, er hönum væri í móti skapi. Þá var kúgildamálit í Vazdal milli Lárusar lögmanns Gottrúps ok landseta hans, ok var Gudbrandr Arngrímsson í þeim málum, en þeim þótti lögmadr ásvellr, var ok Oddr hönum jafnan mótfallinn. Steinn biskup kendi þá skólasveinum sjálfr öndverdan vetr, ok tók at brúka prentverkit; en Snorri son Jóns Magnússonar, heyrari á Hólum, reid jafnskjótt eptir

andlát meistara þorleifs vestr at Narfeyri, ok hitti Odd, ok fèkk at meiga vera skólameistari um vetrinn; hann var kvæntr nyrdra, ok voru þeir hans synir Jón, Gísli ok Gunnlaugr, er allir urdu embættamenn seinna, en Jón Magnússon, fadir hans, bjó lengi fyrir nordan, ok allmjög vid fátæki, ok verdr énn getit.

## XIII Kap. Brenna í Hörgárdal.

Á þridja dag jóla um kveldit báru til ill tídindi á þeim bæ, er á Fjalhöggstödum heitir, fremst í Hörgárdal, þar bjó sá madr, er Einar hèt Arnfinnsson, hann kom frá kyrkju ok heimafólk hans, ok lagdist til svefns eptir máltíd; ok er sofit var nokkut fram á kveldit, vaknadi Einar ok bad kveikja, en því var eigi gegnt greidliga, drógst þat undan til þess er hönum leiddist, fór hann þá ofan á badstofugólfit, ok kvadst vita víst at eldr væri kominn í bæinn, leitadi sídan dyra, ok er hann lauk upp hurdinni, gaus í fáng hönum reykr ok svæla, því kviknad var í frammi húsum; kalladi hann þá at hinum, er inni voru, því þar svaf enn allt heimafólk, ok bad menn leita út sem skjótast, var svo gjört, ok komust út allir; ok er þar var komit, saknadi hann barns eins, er þar átti heima, ok hafdi sofit eptir, þá er adrir fóru úr badstofunni; vildi hann fyrir hvern mun bjarga því, ok sneri inn aptr í bæinn, var hann fullr af reyk; gekk hann svo allt nærri badstofudyrum, ok fann þar barnit skamt frá dyrunum heilt at öllu, ok bar út þegar; en jafnskjótt er hann var útkominn, rèdist fóstrdóttir hans inn, ok í badstofu, at hjálpa kúm, er þar voru inni þrjár saman; ok er hann vard þess vís, at hún var komin inn, gekk hann inn ödru sinni, ok vildi koma henni aptr úr reyknum, þvíat hönum leizt þar ei óhætt; tókst þá svo illa til, at hvorugt þeirra komst út aptr, ok köfnudu bædi í reyknum, ok svo kýrnar, hrútr einn ok kálfr, fannst Einar á gólfinu, en hún undir einni kúnni, þá þeirra var leitat. Brunnu þó engin hús nema eldhúsit, er fyrst hafdi kviknad í, því húsmadr gamall, er þar var, ok Halldór hèt, hafdi opnad rjáfr á því, jafnskjótt er hann var kominn út, ok hleypt þar út eldinum. Á þeim misserum andadist þorleifr prófastr Árnason at Kálfafelli austr. þá gjördi
1714 vetr mjök mislægan, gæftalítinn til afla, en hinn bezta austr um land.

## XIV Kap. Frá Steini biskupi.

Nú hefir Steinn biskup tekit upp prentverkid á Hólum, ok látit prenta einn sálm, ok kver eitt Lasseníí; ekki er getit um meira at sinni, ok aldrei lagdi hann annat upp, enn andligar bækr; gamlar flestar. Hann átti Valgerdi Jónsdóttur, sem fyrri segir; módir hennar var Halldóra, dóttir Jóns á Knerri Steindórssonar, Gíslasonar lögmanns, þórdarsonar; systkin hennar voru Gudmundr prestr at Helgafelli, Helgi prestr at Stadarhrauni, Elín, kona Torfa prests at Saurbæ vid Hvalfjörd; en dætr Gudmundar prests at Helgafelli voru Ragnhildr, er átti Sigurdr prestr at Bardi í Fljótum Einarsson; Karítas, er Sigurdr átti, son Vigfúsar Árnasónar; Kristín, hana átti Sæmundr, son þórdar prófasts á Stadarstad; Halldóra, hennar fèkk þorsteinn prestr Jónsson í Saurbæ; börn þeirra Steins biskups ok húsfrúr Valgerdar, eru talin ádr; þeir brædr Steinssynir kölludu sig Bergmann eptir Setbergi þar þeir voru bornir. Á dögum Steins biskups voru 3 eda 4 stólsbú önnur enn heima, ok var þó allt miklu minna um, enn fyrr hafdi verit, helzt á dögum Gudbrands biskups, en ólíkt, sem von var, því er var á dögum biskupa í hinum fyrra sid; þar voru þó enn 60 hús, ok heimamenn margir ok gemsmiklir.

## XV Kap. Árferdi ok mannalát.

Þann vetr, er nú var sagt, týndist skip í Gardi med þremr mönnum; var óvedrasamt um austrsveitir, ok fèllu þar peníngar; en 10 hundrada hlutir urdu um vorit á inn-nesjum sumstadar. Kalt var vor ok sídgróit; ok seint um siglíngu sakir ófridar. Kom hafís vid Melrakkasléttu, ok veiddust þar á selar, ok allstadar kom hann vid Nordrland á sumarmálum, ok lá fram um fráfærur. Landfarsótt gekk austrliga í Múlaþíngi, dó margt fólk í Vopnafirdi ok Fljótsdalshèradi, ok ekki nafnkennt; en nokkut af henni kom til Fnjóskadals ok Höfdahverfis, ok lágu þeir sjaldan meir enn viku, sem dóu. Þá var heitt ok votsamt öndverdt sumar, ok spratt því skjótar, enn menn hugdu. At lidnum páskum druknadi Halldóra Jónsdóttir, ekkja Jóns prests Gudmundarsonar at Hèdinshöfda, hún vildi rída til kyrkju, þadan sem hún

andlát meistara þorleifs vestr at Narfeyri, ok hitti Odd, ok fèkk at meiga vera skólameistari um vetrinn; hann var kvæntr nyrdra, ok voru þeir hans synir Jón, Gísli ok Gunnlaugr, er allir urdu embættamenn seinna, en Jón Magnússon, fadir hans, bjó lengi fyrir nordan, ok allmjög vid fátæki, ok verdr enn getit.

## XIII Kap. Brenna í Hörgárdal.

Á þridja dag jóla um kveldit báru til ill tídindi á þeim bæ, er á Fjalhöggstödum heitir, fremst í Hörgárdal, þar bjó sá madr, er Einar hèt Arnfinnsson, hann kom frá kyrkju ok heimafólk hans, ok lagdist til svefns eptir máltíd; ok er sofit var nokkut fram á kveldit, vaknadi Einar ok bad kveikja, en því var eigi gegnt greidliga, drógst þat undan til þess er hönum leiddist, fór hann þá ofan á badstofugólfit, ok kvadst vita víst at eldr væri kominn í bæinn, leitadi sídan dyra, ok er hann lauk upp hurdinni, gaus í fáng hönum reykr ok svæla, því kviknad var í frammi húsum; kalladi hann þá at hinum, er inni voru, því þar svaf enn allt heimafólk, ok bad menn leita út sem skjótast, var svo gjört, ok komust út allir; ok er þar var komit, saknadi hann barns eins, er þar átti heima, ok hafdi sofit eptir, þá er adrir fóru úr badstofunni; vildi hann fyrir hvern mun bjarga því, ok sneri inn aptr í bæinn, var hann fullr af reyk; gekk hann svo allt nærri badstofudyrum, ok fann þar barnit skamt frá dyrunum heilt at öllu, ok bar út þegar; en jafnskjótt er hann var útkominn, rèdist fóstrdóttir hans inn, ok í badstofu, at hjálpa kúm, er þar voru inni þrjár saman; ok er hann vard þess vís, at hún var komin inn, gekk hann inn ödru sinni, ok vildi koma henni aptr úr reyknum, þvíat hönum leizt þar ei óhætt; tókst þá svo illa til, at hvorugt þeirra komst út aptr, ok köfnudu bædi í reyknum, ok svo kýrnar, hrútr einn ok kálfr, fannst Einar á gólfinu, en hún undir einni kúnni, þá þeirra var leitat. Brunnu þó engin hús nema eldhúsit, er fyrst hafdi kviknad í, því húsmadr gamall, er þar var, ok Halldór hèt, hafdi opnad rjáfr á því, jafnskjótt er hann var kominn út, ok hleypt þar út eldinum. Á þeim misserum andadist þorleifr prófastr Árnason at Kálfafelli austr. þá gjördi
1714 vetr mjök mislægan, gæftalítinn til afla, en hinn bezta austr um land.

## XIV Kap. Frá Steini biskupi.

Nú hefir Steinn biskup tekit upp prentverkid á Hólum, ok látit prenta einn sálm, ok kver eitt Lasseníí; ekki er getit um meira at sinni, ok aldrei lagdi hann annat upp, enn andligar bækr, gamlar flestar. Hann átti Valgerdi Jónsdóttur, sem fyrri segir; módir hennar var Halldóra, dóttir Jóns á Knerri Steindórssonar, Gíslasonar lögmanns, þórdarsonar; systkin hennar voru Gudmundr prestr at Helgafelli, Helgi prestr at Stadarhrauni, Elín, kona Torfa prests at Saurbæ vid Hvalfjörd; en dætr Gudmundar prests at Helgafelli voru Ragnhildr, er átti Sigurdr prestr at Bardi í Fljótum Einarsson; Karítas, er Sigurdr átti, son Vigfúsar Árnasónar; Kristín, hana átti Sæmundr, son þórdar prófasts á Stadarstad; Halldóra, hennar fèkk þorsteinn prestr Jónsson í Saurbæ; börn þeirra Steins biskups ok húsfrúr Valgerdar, eru talin ádr; þeir brædr Steinssynir kölludu sig Bergmann eptir Setbergi þar þeir voru bornir. Á dögum Steins biskups voru 3 eda 4 stólsbú önnur enn heima, ok var þó allt miklu minna um, enn fyrr hafdi verit, helzt á dögum Gudbrands biskups, en ólíkt, sem von var, því er var á dögum biskupa í hinum fyrra sid; þar voru þó enn 60 hús, ok heimamenn margir ok gemsmiklir.

## XV Kap. Árferdi ok mannalát.

Þann vetr, er nú var sagt, týndist skip í Gardi med þremr mönnum; var óvedrasamt um austrsveitir, ok fèllu þar peníngar; en 10 hundrada hlutir urdu um vorit á inn-nesjum sumstadar. Kalt var vor ok sídgróit, ok seint um siglíngu sakir ófridar. Kom hafís vid Melrakkasléttu, ok veiddust þar á selar, ok allstadar kom hann vid Nordrland á sumarmálum, ok lá fram um fráfærur. Landfarsótt gekk austrliga í Múlaþíngi, dó margt fólk í Vopnafirdi ok Fljótsdalshèradi, ok ekki nafnkennt; en nokkut af henni kom til Fnjóskadals ok Höfdahverfis, ok lágu þeir sjaldan meir enn viku, sem dóu. Þá var heitt ok votsamt öndverdt sumar, ok spratt því skjótar, enn menn hugdu. At lidnum páskum druknadi Halldóra Jónsdóttir, ekkja Jóns prests Gudmundarsonar at Hèdinshöfda, hún vildi rída til kyrkju, þadan sem hún

var, innad Húsavík, en lækr var í veginum, vaxinn af vedri ok vatnagángi. Þá dó ok Jón prestr Gissurarson eldri í Berufirdi, ok Gísli prestr Bárdarson at Skúmstödum, ok Jón prestr Gunnlaugsson at Mælifelli, þar kom aptr Magnús prestr, son Ara prófasts Gudmundarsonar. Á þeim misserum lauk kommissíónar haldi yfir jardirnar, sem jardabók Árna Magnússonar var gjör eptir.

## XVI Kap. Frá höfdíngjadeilum helzt Oddi.

Á alþíngi um sumarit gjördist lögrèttumadr vestan Hvítá Pètr Bjarnason; en í Þórnessþíngi í stad Jóns Gíslasonar, Eyríkr, son Steindórs frá Selhóli Jónssonar, hann var spaklátr madr ok gódlátr, ok í gyldligra lagi at mörgu; bjó hann vid Búdir, ok átti Soffíu Jakobsdóttur Benediktssonar ok Marínar Eyríksdóttur jótsku, er ok hafdi átt Bent Lárusson sænska, þann er bygdi Bentsbæ, Jakob var helztr barna þeirra, ok Jón. Annar gjördist þar lögrèttumadr í stad Brynjúlfs Ásmundarsonar, Jón Ólafsson, er á Grímstödum bjó; Sigfús Jónsson í Þorskafjardarþíngi, Gísli Ólafsson úr Hegranessþíngi; Högni, son Bjarnar prests at Snæfokstödum, Steffánssonar prests, Hallkelssonar, úr Árnessþíngi, hann bjó at Kidabergi. Hákon Hannesson sýslumadr hafdi fyrst mál fyrir á þínginu, fèkk hann þá konúngsbrèf um at setjast skyldi aptr í embætti sitt í Rángár-sýslu sem skjótast, ok skila skyldi hönum aptr öllum tekjum hans; hafdi Jón Eyólfsson Víselögmadr gengit mest fyrir, at beidast þess at hann væri afsettr, ok undu þeir nú allir illa vid, hann ok Oddr ok Brynjúlfr Þórdarson, ok rèdust þeir í Oddr ok Jón Eyólfsson at láta ei svo standa umtalslaust, ok dæmdu enn á ný undir konúngs úrskurd, hvert Hákon mætti halda embætti eda ekki; þótti mikit at láta svar sitt, enn þordu eigi berliga móti at mæla, ok fundu hönum til kyrrsetníngu á fèmunum nokkrum. Lárits lögmadr hafdi farit til þíngs, ok leiddist hönum at hafa kapp ok áleitni Odds yfir sèr, ok vildi bída hans ok semja vid hann, ok er Oddr var kominn, gjördu þeir þar samníng med sèr brèfligan, at Lárits lögmadr afhendi Oddi lögmanns-embætti, en kaus sèr á medan hann lifdi 60 dali á ári hverju, þá er ádr voru lögmannskaup hans ok lögmannstoll af Húnavazþíngi, ok skyldi reiknast til afdráttar afgjaldi

hans af þingeyraklaustri ok Húnavazsýslu, en Oddr hefdi alla lögmannstolla adra; hèt Oddr lögmadr þessu af sinni hendi med fullkomnu samþykki ok jáyrdi, ok leitudu þeir sídan bádir af konúngi stadfèstu uppá þann sama med súpplikazíu, var hann ok auglýstr í lögrèttunni, ok stód Lárits lögmadr upp úr sæti sínu, ok fèkk ádr ágæta vitnisburdi af öllum þíngheimi, en Oddr lögmadr settist í þat aptr, ok tók vid embætti, ok hafdi þá bedit eptir því í 7 sumur, en Lárits Gottrúp hafdi lögsögn haft í 19 sumur. En í lögmanns sæti sunnan ok austan, þar er Páll var frádæmdr, sat Jón Eyólfsson, sem hid fyrra sumarit. þar komu dómar tveir frá Bessa sýslumanni í Múlaþíngi Gudmundarsyni prests, um þórd Andrèsson, er unnit hafdi á Gísla Einarssyni, ok var svo virdt, at þórdr hefdi sært hann viljandi, en hafdi ei komizt á þíng fyrir hrumleik ok elli; var þó Bessa sýslumanni lagt fyrir, at láta taka hann af í hèradi. Vigfús Hannesson, sýslumadr í Árnessþíngi, hafdi þar ok mál fyrir um Jón Gunnarsson á Stokkseyri, er ofríki hafdi gjört undirkaupmanni á Eyrarbakka, ok Markús verit í fylgi med hönum, son Gudmundar Vest ok þórdísar, ok vard ei útkljád. Var þar þá í þann tíma Axel Fridrik, son Jóns eldra Sigurdarsonar frá Einarsnesi, þess er druknadi, lögsagnari Vigfúsar. Páll Vídalín kærdi á Sumarlida Klemensson sýslumann ok Jón Eyríksson lögsagnara, þvíat Oddr ok Páll Beyer höfdu sett Sumarlida fyrir Strandasýslu fyrri, en nú hafdi hann fengit hana med brèfi; vildi þó eigi Páll at þeir dómendr dæmdu yfir stefnu sinni, er þá voru, en þeir Sumarlidi ok Jón budu sig til varna. Bjarni Nikulásson lögrèttumadr var þá lögsagnari í Skaptafellssýslu, hann hafdi þar mál fyrir, ok svo Markús Bergsson, sýslumadr úr Ísafirdi. þorsteinn á Skardi, son Páls sýslumanns Torfasonar, sókti sýslumenn Bjarna Pètrsson ok Jón Sigurdarsón í Dölum, ok var því vísat til annars alþíngs. Sumarlidi Klemensson var þar dæmdr undir fèsekt fyrir ránga málsmedferd; ok mörg voru þar mál önnur. Lárits lögmadr lèt stefna Jóni biskupi Vídalín um ord á hinu fyrra þíngi, er hann hefdi haft, eptir vitnisburdum Bjarna Pètrssonar ok Jóns Sigurdarsonar sýslumanna, ok vard ei atgjört at því sinni. Björn Pètrsson á Bustarfelli hafdi þá tekit at lögsagnara þorstein, er kalladr var Viddælíngr, son Sigurdar á Jörva þorgilssonar, þann er uppskrifadi á Austfjördum fyrir kommissaríos,

voru lesnir upp á þíngi þessu vitnisburdir Bjarnar um góda ok röggsamliga hèradsstjórn ok annat. En Sigurdr á Bríamslæk, son Sigurdar á Svalbardi Jónssonar, Jónssonar lögmanns, Sigurdarsonar á Reynistad, er verit hafdi lögsagnari Bjarna Pètrssonar ríka á Skardi, lèt af því; sá Sigurdr átti Gudrúnu Nikulásdóttur prests frá Flatey, Gudmundarsonar, ok voru þeirra synir Sigurdr ok Gudmundr ok Þorgrímr. Sá madr var í barnsmáli í Bardastrandarsýslu, er Gudmundr hèt, hann kom á þíng, ok kærdi á Bjarna sýslumann ríka, at hann hefdi eigi sett sèr talsmann, en togat hár sitt í drykkjuskap, ok klipid í nef sèr, ok var því máli vísad í hèrad. Lárits lögmadr sókti enn á þessu þíngi Þórd Þórdarson, ok var fyrirkallit dæmt ógyldt. Ok þar kom Jón prófastr Árnason, ok fèkk þat vidtekit, at rím hans væri leidt inn til brúkunar, medan ei yrdi mótmælt. Konúngsbrèf var þá gefit út um Pètr Bjarnason, hafdi Bjarni sýslumadr, sonr hans, súpplísèrad fyrir hann, skyldi hann njóta einfeldni sinnar, um þat er hann hafdi látit grafa upp lík kerlíngarinnar, ok ei gjalda nema 80 spesíu-dali. Annad var um þat, at lögrèttumenn nefnist í landi hèr eptir Norskulögum; þridja um mál meistara Jóns biskup Vídalíns ok Odds Sigurdarsonar, at stefna skyldi fyrir yfirrètt; fjórda um Pál Vídalín, at hann fengi hálfar lögmannstekjur, medan mál hans stædi; fimta um Grímólf Gunnarsson, skyldi hann fá líf, en þrælka í járnum jafnan. Þeir Oddr ok Páll Beyer skipudu Hallgrím Thorlacíus Jónsson yfir Múlasýslu, en jafnan bar þeim Oddi ok Páli Vídalín margt til greina, ok hafdi eitt sinn Árni Magnússon skakkad med þeim, er Oddr vildi berja á Páli. Þeir Jón biskup Vídalín ok Oddr lögmadr stefndu hverr ödrum, til at heyra vitnisburdi heima í hèradi um vidskipti þeirra á Narfeyri, ok sleit svo því alþíngi, at nær allir menn voru ósáttir, þeir er í fremri röd voru. Skipum gekk torfeldt um sumarit. Hafdi þá Páll Vídalín fengit konúngsleyfi, at stefna þeim öllum utan fyrir Hæstarètt, er verit höfdu í dóminum, þá hann var dæmdr af embætti, stefndi hann þeim öllum, er heimili áttu sydra ok vestra, meiri háttar ok minni, ok reid á heimili hvers þeirra, Oddi ok öllum dómsmönnum hans, þar med stefndi hann á sama hátt Jóni Eyólfssyni Víselögmanni, Sigurdi lögmanni Bjarnarsyni ok Sigurdi landþíngskrifara, syni hans, ok þó meira þeim fyrir tilfundnar sakir enn sannar eda rèttar, var hann í þeim stefnu-

förum mestallt haustit. Í annan stad var prestastefna á Stadarstad um sumarit, voru þar teknir eidar af vitnum Jóns biskups Vídalíns, um atvik Odds lögmanns vid hann á Narfeyri; Oddr lögmadr var fjærlægr ok mátti ei koma; hann átti farmaskip mikit, er Svanr hèt, ok hafdi lagt á því út úr Rifi ok heimleidis; var uppgángsvedr mikit ok landsynníngr, ok hrakti þá undan búlandshöfda undir Látrabjarg á Vestfjördum, þar brotnadi skipit í landtöku, vard fè sumu borgit, en sá madr komst upp á bjargit, er Jón hèt, frá Brandsbúd á Stapa, fadir Gudmundar á Barkarstödum, ok sídan komust þeir allir af, ok í gegnum kleftaskoru eina, ok uppá bjargit, ok voru mjög þrekadir. Hugdu flestir eigi annat enn skip ok menn mundu týnzt hafa; en um vetrinn urdu menn þess vísir, at Oddr lögmadr lifdi, því hann stefndi þá biskupi til vitna áheyrslu á Drángaþíng á Skógarströnd, ok lèt þar taka eida af vottum sínum í því máli, en þó kom þar enginn af biskups hálfu, því Hákon Hannesson sýslumadr var umbodsmadr biskups, ok komst hann ei áfram fyrir snjóum ok ófærd; vann ok biskup aldrei á Odd. Jón biskup Vídalín hafdi ok mál fram vid Halldór prófast Pálsson í Selárdal, því hann var hávar ok ofsamadr mikill, ok baud biskupi ójöfnud bædi í ordum ok verkum, en Oddr studdi hann, svo at hann fèkk jafnan flækt mál sín, ok svo kom, at biskup vard at láta af sókn vid hann; en Halldór missti prófastsdæmit seinna, ok fèll í sektir fyrir adrar sakir. Fleiri sóknir átti Jón biskup, ok er sumra getit ádr, ok eru eigi teljandi, sem vid Lárus Gottrúp, Jón Eyólfsson, Vigfús Hannesson, Brynjúlf Thorlacíus, Sumarlida Klemensson, Bjarna Bjarnason, Grím Magnússon, ok enn adra.

## XVII Kap. Frá ýmsu.

Þess er getit ádr, at Bjarni Níkulásson var lögsagnari í Skaptafellssýslu, ok hafdi hann nú fengit um þat konúngsbrèf at vera Olafi sýslumanni Einarssyni til adstodar, ok von um sýsluna eptir hann, ok hálft Þykkvabæar-klaustr. Þau misseri var fyrst tekit eineidi af manni í legordsmáli. Jón, sonr Steins biskups, hafdi lítt verit af barnsaldri, ok viljad fá Gudrídar, dóttur Ara Jónssonar á Sökku, eda Gudrúnar, hún var fögur álitum, ok kunni vel fyrir sèr, ok bádu hennar margir,

er hûn var at Gröf med Ragnheidi húsfrú, födursystur sinni, en hûn synjadi; sídan hafdi hûn barn alit, ok gekkst Jón vid því, ok þóttu ólíkindi vegna tíma; sídan vard rèttr fadir at því barni Brynjúlfr, son Gísla Eyríkssonar lögrèttumanns í Múlaþíngi, bródir Gísla prests hins gamla á Desjarmýri; fór nú Jón Steinsson utan sudr á Eyrum, ok vildi fá uppreisn, en vann lítit annad, enn sóa fè sínu, en Gudrídar fèkk Vigfús Ólafsson, er kalladr var svarti Fúsi, ok lítt at manni, ok bjuggu þau í þíngeyarþíngi. Þorlákr Markússon fèkk nú Hólmfrídar, systur hennar, er sídan bjó í Gröf, en seinast á Sjáfarborg, ok hefir ritat annál. Þat bar til í Ólafsfirdi atfángakvöld jóla, at Jón bóndi Styrbjarnarson á Hóli vildi fylgja konu sinni yfir Ólafsfjardará til Kvíabekkjarkyrkju; var regn, ok ruddi áin sig skjótt, ok hljóp á þau, ok
1715 lètu þau líf sitt bædi. Sá vetr var skakvidrasamr, en hverki frostbardr nè med jardbönnum, voru ógæftir stórar. Þá bar þat til, at andadist Vigfús Hannesson, sýslumadr í Árness-sýslu, skyndiliga á heimili sínu; en midvikudaginn þridja í einmánadi, er var hinn 10di dagr aprílis, andadist frú Ragnheidr Jónsdóttir í Gröf, er hana skorti vetr á sjötugan, var lík hennar flutt til Hóla, ok grafit þar í kórnum, 4da eda 5ta í páskum, er var sumardagr hinn fyrsti, 15 dögum sídar. Um þær mundir kom hollenzk siglíng fyrir nordan land, er ei hafdi ordit í margt ár. Menn nokkrir druknudu fyrir sunnan, 3 í Dýrafirdi, 9 í Mýrdal austr af skipi, ok voru 7 kvæntir, 7 af skipi fyrir sunnan jökul, en einn komst af, ok þrír í Beruvík, voru þeir at seladrápi á skeri. Þá var vor kalt ok illt frá Sumarmálum, helzt fyrir nordan land, ok grasbrestr mikill; ónytíng mikil vard ok sídan á heyrum nordanlands, ok horfdi til hardinda. Þat hafdi ordit á Gói, at druknadi Gísli í Máfahlíd, son Jóns biskups Vigfússonar af reid ógætiligri, hann hafdi fyrri átta Margrètu, dóttur Magnúsar lögmanns Jónssonar, ok búit fyrst at Reykhólum, þeirra börn voru Magnús ok Gudrídr ok Ragnheidr, ok var hûn dáin, en sídan átti hann Katrínu, dóttur Bjarnar Jónssonar at Stadarfelli, ok bjó hûn eptir hann at Máfahlíd, ok vard gömul, en Magnús, son Gísla, ólst þá upp at Stadarstad med Þórdi prófasti, födurbródur sínum, sídan med frú Sigrídi, födursystur sinni, er gaf hönum stóra Núp eptir sig med búi öllu. Gudrídar, dóttur Gísla, fèkk seinna Doktor Finnr biskup, en Ragn-

heidar Jón prófastr í Stafholti. Á þessu vori, er nú var frásagt, urdu menn vída saudlausir um Ísafjörd.

## XVIII Kap. Mál ok annat.

Um sumarit komu skip öll, ok fylgdi þeim herskip eitt sakir ófridar. Sigfús þorláksson á Grund í Eyafirdi vard þá lögrèttumadr, ok Pètr Einarsson úr Skaptafellsþíngi, Magnús Gudmundarson á Skardi úr Rángárþíngi, Halldór þórdarson úr Árnessþíngi. Var alþíng fámennt fyrir hardinda sakir, ok fátítt. Oddr sat fyrir í lögrèttu, ok Jón Eyólfsson Víselögmadr, ok í yfirrètti sat Oddr fyrir at stiptamtmanns bodi, en í 24a rètti skipadi Oddr Jón Eyólfsson at sitja fyrir, ok dæma í milli sín ok Jóns biskups Vídalíns. þórdr prófastr Jónsson á Stadarstad stefndi hönum þá í máli Jóns Sveinssonar. þá var bodit at bidja fyrir kristindóms-verki, er Fridrikr konúngr lèt boda kristni í Austr-indíum ok á Finnmörk, því þá hófst þat kristnibod. Oddr lögmadr fór utan um sumarit med hinum fyrstu skipum í Ólafsvík, því hann var stefndr til þess at standa fyrir dómi sínum, er hann hafdi dæmt um Pál Vídalín. Páll Beyer var ok ordadr til utanfarar, en eigi fór hánn; hafdi Oddr fengit umbod sitt fyrir lögdæminu Jóni Eyólfssyni, en fyrir stiptamtmanns-verkum Lárusi Skevíng sýslumanni; þeim umbodsmönnum kom sjaldan saman, ok fyrir því fèkk þat eigi at haldast, er Lárits Skevíng gaf Sigurdi Sigurdarsyni landþíngskrifara-brèf fyrir Árness-sýslu. Hrekstada-Jón Einarsson var lögsagnari Odds í Snæfellsness-sýslu, ok enn lítt vinsæll. þessir fóru enn utan: Brynjúlfr þórdarson, þorsteinn Sigurdarson sýslumenn, ok Jens Jörgenson, er fyrr var fógèti. Páll Vídalín bjóst ok til utanfarar í Höfda, ok kvad hann þá þetta:

Látum lída ok bída börn!
befölum gudi tíma,
þegar eg kem yfir þessa tjörn,
þá er mèr rádin glíma.

Hann samdi ok kvedju þá er eg vil setja hèr fyrir þá sök, at þó hûn sè nokkut undarlig ok ei ordud at vorrar aldar sid, þá má vera hûn sè fásèd, ok upplýsir enn suma hluti, ok hljódar þann veg: „Í nafni

„vors herra Jesú Kristí. Þat læt eg nú vera fyrst í þessu mínu brèfi, „at eg af öllu hjarta befala frelsara mínum Jesú Kristó mína sál ok „æru, embætti mitt ok líf, ok jafnframt þessu befala eg hans guddóm-„ligri ást ok verndan egin-kvinnu mína ok börn; hann er vor gud; „hann bid eg ala önn fyrir oss. Svo befala eg ok í hans miskunar „skjól ok verndan hús mitt allt ok heimkynni, ok alla þess sálar ok „lífs naudsyn, í dag ok á morgun, ok at eilífu. Oss er þá borgit, at „hann er vor gud. Þess vil ek af þeim óska, sem eru vinir mínir, „at þeir sèu vinir konu minnar ok barna, medan eg er frá; sjálfir munu „þeir sýna sig, svo at af verkunum verdi þeirra trúskapr reyndr; veri „gud med þeim í rádi, hvert þeir eru einn eda fleiri. Þess bid eg í „annan stad ok heimti, at þeir sem látist hafa verit vinir mínir, medan „mèr gekk ekki stórliga á móti, en eru þat þó ei í rauninni innan „brjósts, þeir láti þó mína einstædíngs konu ok börn í ró, ónædis-„laus, þángat til þeir spyrja hvert eg er lífs eda lidinn. Gud veit „hvernin á morgun muni gánga, en þeir vita hvad nú hafa þeir í „hjartanu. Þridji póstrinn vid óvini mína at tala; af þeim vil eg „enkis gods bidja, en gud mun setja þeim skamt; ef þeir eru slík „mikilmenni, sem þeir láta í ordi, þá láti þeir nú þessa stundina, konu „mína ok börn, ok heimili mitt í kyrrd ok ró fyrir ofsóknum þeirra, „því þat væri annars at vega at höfudlausum her. Ef þessi mín um-„mæli megna enkis hjá fjandmönnum mínum, þá hefi eg svo rád fyrir „gjört vid konu mína ok börn, at hlykkr muni verda á ofsóknunum, „þángad til spurt er, hvert eg sè lífs eda lidinn. Þetta er svo med „skírum ordum sagt, at eg ætla þat skilji vinir mínir ok óvinir, ok „munu hverir þekkja sig í sínu rúmi, suma þekki eg, enn gud þekkir „alla. Hèrnæst kved eg kærliga med öllum gódum óskum þetta sókn-„arfólk allt, sveitúnga mína ok nábúa, ok bid drottinn vardveita þá, „ok láta þeim lída vel, hvert sem gud lætr mèr audnazt at sjá þá aptr „edr ei. Eg kved bædi menn ok kvinnur, únga ok gamla, en bid at „þèr allir, sem gud elskit, bidjit hans miskunar fyrir mèr. Vona eg „til heidrligs sóknarprestsins, at hann minnist mín, þegar hann bidr „fyrir þeim, sem allt sitt traust hafa á drottni, ok vona til hans misk-„unar, bædi fyrir sína egin velferd, ok allra þeirra sem þeim eru „ástfólgnir." Sídan fór Páll Vídalín utan, ok er þat sumra manna

ætlan, at hann hafi haft lítt farsælligt vid at skilja, er bædi vorn þá margir hinir mestu menn hèr á landi, sem mestir hans óvildarmenn, ok lítt ástúdligt heima, þvíat lítt fèll á med þeim hjónum, ok lítt lagdist á med hönum ok presti hans, ok svo fleiri mönnum, ok var mælt, hönum væri óleidr aginn sjálfum, medan hann lá ei mjög undir; grunudu sumir hann um áleikni ok forneskjubrögd, ok olli því flestu, at hann þótti tilleitinn; var þat mein mikit á hag hans, þvíat ei var hèr þá vitrari madr edr lærdari á landi, ok helzt af veraldligum.

## XIX Kap. Frá ýmsu.

Þorvardr Stígsson hafdi búit í Núpdalstúngu í Húnavazþíngi, hann átti Gudrúnu Aradóttur, Jónssonar raudbrota, Stígr á Þóroddstödum var son þeirra, sterkr madr ok óeyrinn vid öl, ok þó talinn med betri bændum, en Sigrídr ein dóttir, hún var gipt þeim manni, er Bárdr hèt Ögmundarson, vestr vid Hellna, þeirra son hèt Þorvardr, ok lærdi í skóla, hann var á skipi med Gudbrandi á Þíngvöllum í Helgafellssveit, syni Jóns Gudbrandssonar í Sellóni, Kristóforssonar, þá hann var lítt af barnsaldri, ok annar madr örvasi af elli, þá er Gudbrand hrakti í vedri miklu yfir þveran Breidafjörd til Bardastrandar, ok barg þat þeim, med því er þeim var lagit líf, at Gudbrandr var vel knár ok sjógarpr mikill, ok kvad Þormódr skáldi í Gvöndareyum mágr Gudbrands um þat Gudbrandsrímu. Þorvardr vígdist þessi misseri til Bergstada nordr, en var eptir þat á Kvíabekk, en seinast í Felli, ok þríkvæntr, ok verdr getit. Þá gjördist Jens Mattsson Spendrúp hinn danski, lögsagnari í Hegranessþíngi, ok bjó at Hofi, en Benedikt Bech var þar ènn sýslumadr, hann var frídr sýnum ok vel at sèr um marga hluti, ok bjó þá at Sjáfarborg, en átti stundum vid ramman at draga um sýsluskuldir ok annat; hann hefir orkt yfir Þórdar-bænir, ok í móti álfatrú þeirri, er margir menn höfdu þá, ok tekit tilefni af Kötludraumi, ok enn fleira. En heldr vingott er sagt hann hafi átt vid konu Sigurdar prests Bjarnasonar á Kvíabekk; haldinn var hann einn margvís. Þat sumar visítèradi Steinn biskup nordr í Húsavík; ok hinn 29da dag ágúti mánadar andadist Vilborg Sveinsdóttir, kona Jóns Eyólfssonar Víselögmanns at Nesi, vetri midr enn sjötug at aldri.

Magnús, son Skapta Jósepssonar, fèkk Ragnhildar Jónsdóttur um haustit at Þrúdar húsfrúr at Vídivöllum. Þat haust var líkt sumrinu gott ok þurt sydra ok vestra, en vott ok illt nordr ok austr, ok því meir sem áleid meira. Þá týndust 5 menn á Tjörn-nesi, ok ætludu menn illfiskr mundi grandat hafa, en vedrátta batnadi med jólum. Þau misseri dó Sigurdr prestr at Dvergasteini Vigfússon prests at Hofi. Var
1716 vetr gódr fyrir nordan land nema á Gói, enn allr sydra. Þá Gói druknadi Gudmundr prestr Jónsson at Helgafelli, bródir húsfrúr Valgerdar á Hólum, í ósi nokkrum, á vegi frá Bjarnarhafnar-kyrkju heimleidis. Þá voru prentadar á Hólum Þórdarbænir. Hlutir voru litlir nema undir jökli, ok spilltust vída, en hafísar lágu fram á sumar nyrdra, ok var fjardafyllir af á Ströndum. Vor var snemmgróit ok grasvöxtr gódr sydra, ok nýtíng á sídan eptir því; en jardeldr var uppi í Grímsvötnum. Hinn sami hèlzt ófridr í Danmörku, ok komu eigi öll skip út; gjördi mikit fjúk seint í júníó, ok slígadist gras á túnum, ok fennti fè til bana.

## XX Kap. Frá þíngi ok ödru.

Alþíng var tídindalaust ok heldr fámennt, því þeir voru ekki tilkomnir, er mest áttu saman, þó segja menn at þeir hefdi stefnur fram, Jón biskup Vídalín, Sumarlidi Klemensson, Bjarni Bjarnason, Þorleifr skólameistari Arason, Kolbeinn Kolbeinsson úr Skaptafellsþíngi, Ólafr Einarsson sýslumadr, ok enn adrir. Jón Jónsson vard lögrèttumadr úr Skaptafellsþíngi, Magnús Halldórsson úr Árnessþíngi. Skipadi Lárits Skevíng Sigurd Sigurdarson landskrifara, er fyrr hafdi verit skipadr. Sigurdr taldist undan lögmanns sýslun, lèzt engan dómara-eid unnit hafa; var þá skipadr þartil Benedikt Þorsteinsson, sýslumadr í Þíngeyarþíngi, taldist hann ok undan; þá skipadi Páll Beyer Sigurdi, en hann bar hid sama fyrir sem ádr; kom þá svo med atgaungu þeirra Beyers, at Benedikt settist, en Jón Eyólfsson sat í lögmanns sæti at sunnan, sem fyrri, var þetta svo þreytt fyrir þá skuld, at ei fengust adrir líkari, þóttist Lárits Gottrúp ei tilfær fyrir vanburda sakir, enn Oddr ekki í landi. Þar kom fyrir galdra áburdr, eda um galdrakver nokkut af Bardaströnd, úr sýslu Teits Arasonar, ok vard ei at-

gjört. Páll, son Hákonar Hannessonar, gjördist þá lögsagnari födur síns. Jens Spendrûp leitadi mjög eptir Skagafjardar-sýslu undan Benedikt Beoh, ok veittu þeir Lárits Skevíng ok Páll Beyer hönum brèf fyrir henni, en þat fèkk ei at haldast, er til Kammersins kom. Beyer gaf ok Grími Magnússyni ok Torfa, syni Hans Londemanns ok Gudrídar Markúsdóttur, brèf fyrir Árness-sýslu eptir Vigfús, ok hèlzt þat ei heldr; því Brynjúlfr Thorlacíus baud til sýslunnar 300 dali, ok fèkk konúngsbrèf fyrir, ok kom út med þat, því hverr herdti sig þá sem til var búinn; gaf þá ok konúngr út amtmannsbrèf Fúhrmanns, er sídar getr, ok brèf Jens Víums fyrir Múlasýslu; ok þá gjördist Jóhann Gottrûp, son Lárusar lögmanns, lögsagnari í Húnavaz-sýslu, er allt segir gjörr seinna; en Lárits Skevíng, er hann hafdi margt at annast, tók hann Hannes, son sinn, til lögsagnara. Mörgu skipadi hann á þínginu. Hannes var son þórunnar þorleifsdóttur lögmanns, Kortssonar, sem fyrr segir; hann var gódgjarn madr, medalmadr vexti, ok frídr sýnum; en þá átti Lárits sýslumadr Soffíu Dadadóttur, ok voru þeirra synir Björn prestr ok Hans; var Hans mikill at álitum ok þreki, óhlutdeilinn, ok kalladr nokkud einfaldr. Soffía drakk heldr, ok vard þeim hjónum þat at sundrþykkju mikilli, ok var á þessum misserum gjörr med þeim samníngr brèfligr til sátta, ok þar vidridinn Jón Markússon klaustrprestr.

## XXI Kap. Frá deilum.

Jafnframmi þessu báru þeir Páll ok Oddr ok adrir mál sín fram utanlands, ok gjördi Oddr mikit um sig, þó kom hann sèr fram vid stiptamtmanninn herra Gyldenløve, svo at hann hèlt umbodi hans; ei sídr bar stiptamtmadr sig upp um ofsa þann ok ofrkapp, er hèr gengi yfir: kalladi líkast at leida mundi af eydíngu landsins; sagdi at málasóknir ok deilur hlutudu þat í sundr; hèldi þeir taum nyrdra Steinn biskup ok Páll Vídalín ok þeirra fylgismenn, ok var þat þó ekki um Stein biskup, at hann gengi sjálfr í deilur vid nokkurn mann; en sydra væri hinir fullmegtugu, er kalladir voru, Oddr ok Páll Beyer, ok þeir sem þann taum drógu, svo at allt væri í uppnámi; fyrir því rèdi hann konúngi til at senda út híngad Niels Fúhrmann, er fengit hafdi kon-

## XXIII Kap. Mannalát ok annat.

Þessi misseri deydi Steinvör Sveinsdóttir at Þykkvabæar-klaustri; kona Ólafs Einarssonar sýslumanns, en dóttir Sveins prests á Bardi nordr, hafdi hann látit hana illa; ok Einar prestr Magnússon at Guttormshaga í Holtum, hann var gamall; einnin Jón prestr at Breidabólstad, son Torfa prófasts í Gaulverjabæ, ok hafdi verit laungum rekkjufastr af ókenniligum sjúkleik þángat til; ok enn Eyríkr prestr at Vogsósum Magnússon, Eyríkssonar, hann hafdi fædst upp med Jóni presti Dadasyni at Arnarbæli, er margir hèldu fjölfródan, en sýndi þó eingum manni áleitni, ok vitrir menn hafa borit af hjátrú alla, en um Eyrík voru alþýdusagnir margar, at hann hefdi verit fjölkunnugr mjög, en þó engum meinsamr. Þorleifr skólameistari Arason frá Haga, bródir Magnúsar ok Teits sýslumanns, hafdi þá tekit Breidabólstad í Fljótshlíd fyrir þremr vetrum. Þessir öndudust enn: Gudný Gunnarsdóttir, er lengi hafdi verit at Bæ í Borgarfirdi; Elín at Leirá Hákonardóttir, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar, er átt hafdi Gudbrandr prófastr í Vazfirdi, voru börn þeirra dáin í bólunni, Vigfús prestr at Helgafelli, Hákon, Helga, kona Jóns á Vazhorni, Jón ok Kristín, kona Vigfúsar á Leirá Jónssonar biskups, ok barnlaus öll, en hún var systir Sigrídar á Raudamel, módur Odds, ok fèkk hann enn arf allmikinn. Gudrún Oddsdóttir, kona Magnúsar prests Markússonar, dó af barnsför; ok þá andadist Gudmundr bóndi á Álptanesi, son Sigurdar lögmanns, Jónssonar, bródir Jóns í Einarsnesi, hann hafdi átta Gudrúnu, dóttur Eggèrts Bjarnarsonar á Skardi ok Valgerdar Gísladóttur lögmanns, Hákonarsonar, ok voru börn þeirra: Eggèrt á Álptanesi, Kristín, er átti Jón prestr, son Sigurdar á Hvítárvöllum, Jónssonar í Einarsnesi, Sigurdarsonar lögmanns, Margrèt, Þórunn, er átti herra Magnús Gíslason, ok Sigrídr, er Vigfús átti í Hjörtsey, Sigurdarson, Einarssonar, Þorsteinssonar frá Þykkvabæ, voru þeirra synir Gudmundr í Hjardarholti ok Erlendr prestr. Hinn þridja dag ágústi mánadar andadist Jón Eyólfsson Víselögmadr at Nesi vid Seltjörn, ok skorti vetr á hálf-áttrædan, var lík hans grafit þar í kyrkjunni 7 dögum seinna. Þá kvæntist Jón, son Jóns Sveinssonar, Víselandþíngskrifari hinn 29da dag septembris, ok fèkk Gudrúnar, dóttur Þórarins Vigfússonar í Grenivík,

ok voru þórarinn ok Málmfrídr börn þeirra, en þau bjuggu í Grenivík alla æfi. Skip öll skyldu koma saman í Hafnarfirdi, ádr legdi frá landi, svo at herskipit mætti því heldr gæta þeirra, ok svo hafdi verit hid fyrra sumarit. Fór nú utan á Hofsósskipi Grímólfr Gunnarsson Skagfirdíngr til Brimarahólms, ok voru þá gód vedr öndverdan vetr. Bar þat til á allraheilagramessu, at Lárits Skevíng á Mödruvöllum var í kyrkju, ok at lokinni prèdikun stód hann upp úr sæti sínu, ok gekk fram í kórdyrnar, þar fèll hann nidr, ok var borinn inn, ok fèkk sjúkleik mikinn med skurfum ok bólgu í holdi.

## XXIV Kap. Vetrarfar ok tilburdir.

Eptir jólin hardnadi vedrátt æ meir ok meir med snjóum, stórvidrum ok jardbönnum allt til sumarmála; voru þá miklir hlutir eystra ok í Vestmannaeyum, en náliga engir á Nesjum sudr, litlir vestra, ok var þar hardt medal manna; þann vetr kvæntist Sæmundr prestr Magnússon frá Brædratúngu, ok fèkk Gudrúnar, dóttur þorsteins Steingrímssonar, var bod at Flugumýri at þorsteins. Þá dó Ólafr sýslumadr Einarsson í Vestr-Skaptafellssýslu, ok skorti þrjá á áttrædan, tók Bjarni Nikulásson þar vid. Vor var hardt ok nædíngasamt, ok grasvöxtr sem minnstr; kom dugga hollenzk vid Hrísey, ok hvolfdist vid hana bátr landsmanna, er fóru fram, nádu Hollendíngar þremr ok stúlku hinni fjórdu, en tveir druknudu. Midvikudaginn fyrir fardaga druknudu fimm menn í stórvidri fyrir Höfdaströnd, brotnadi þá ok dugga, er sá madr eyfirzkr hafdi smídad fyrir nokkrum árum, er Eyvindr Jónsson hèt, ok farit med til Grímseyar, ok vestr á Skagafjörd, var hann sjálfr med, er hún brotnadi, ok komst naudugliga til lands, en Halldór, er verit hafdi bryti á Hólum, ok á var med hönum, vildi ei á land fara, þó hann væri tilkvaddr, ok lèt þar líf sitt; þótti mönnum þat nýnæmi, er Eyvindr hafdi gjört, ok var hann af því kalladr duggusmidr eda duggu-Eyvindr; hann hafdi sídarmeir klaustr eystra. Þá stódu yfir mál Sumarlida Klemenssonar, ok verdr enn getit. Þá bjó at Ásgeirsá í Vídidal Jón Magnússon gamli, bródir Árna, þar at hans hengdi sig pilltr einn um tvítugt; Oddr ok Páll Beyer veittu lèni ok prestaköll, ok gekk skrykkjótt, veitti Oddr Snorra

skólameistara, syni Jóns, Breidabólstad í Fljótshlíd, ok kom til enkis, en brèf fèkk Snorri fyrir Helgafelli, ok mátti þó ei njóta at sinni, því kona hans ól barn ofsnemma. Gunnar, son þorláks í Vidvík Grímssonar smids, hafdi verit lýstr fadir á jólaföstu at barni, er rádskona ól á þíngeyrum, en nú ól Magdalèna, dóttir Lárusar Gottrûps, annad, ok kenndi hönum, ok vard hann seinast útlægr. Skip komu at venju, ok var sumar vætusamt, ok gjördi snjóa, svo aftók nautjörd; spilltust hey manna, þau lítil sem fengust. þá andadist Björn prestr Steffánsson at Högna sonar síns, gamall at aldri, ok var þá Finnr dóttursonr hans í Hítardal 13 vetra, en annar hèt Vigfús; þótti hann verit hafa mikilmenni.

## XXV Kap. Frá þíngi ok málum.

Alþíng var þá fámennt ok tídindalaust, þó sótti þar Jón þorsteinsson klaustrhaldari Hákon Hannesson, en Bjarni Nikulásson Ólaf sýslumann Einarsson formann sinn, ok tapadi sókn sinni, hann átti ok deilu vid Jón Ísleifsson sýslumann, ok vard sáttum komit á; en Jóhan Gottrûp sókti Sumarlida Klemensson, var Sumarlidi dæmdr í sektir, ok Sigurdr Hannesson, lögrèttumadr í máli hans. Marteinn hèt madr Jónsson Marteinssonar, Halldórssonar, Marteinssonar biskups, hann hafdi mælt óvirdíngar-ord mikil til Odds, ok var um þat laung deila, ok hann kalladr mála-Marteinn, var hann nú sektadr stórum. þá kalla nokkrir fullgjörzt hafa samníng þeirra Odds ok Páls um Snæfellssýslu, ok vid Orm Dadason um Strandasýslu, en Dalasýslu veitti Oddr Bjarna Pètrssyni ríka, ok gat ekki stadit vid; veitti Páll Beyer Páli Strandasýslu ok Dalasýslu. Steindór hèt lögsagnari Odds í Snæfellsþíngi, son Helga Ögmundarsonar, Sigurdarsonar frá Bjarnarhöfn, Ögmundarsonar Hallssonar. En þær lyktir urdu á málum Sumarlida, at Páll Vídalín dæmdi á hann 4ra marka bætr til konúngs, ok 20 hundrud til Jóhans Gottrûps, ok gekk þat næst æru-missir; var þvílíkt þá ok eigi ótídt, þvíat deilusamt var í flestum hèrödum, ok menn drykkjugjarnir, ok tóku margir snid eptir formönnum; fyrir þessar sakir ok adrar lèt Sumarlidi Strandasýslu. Lögmenn sátu dóma, Oddr ok Páll; ok fengu þeir konúngsbrèf til at vera Vícelögmenn þeirra, Benedikt þorsteinsson Odds, en Njels

Kjêr Páls. Bjarni Pètrsson ríki ok Gudmundr nokkur Sigurdarson áttu mál saman, þeim Gudmundi hafdi Teitr Arason sýslumadr dæmt hirtíngu, ok taldi þar enginn á; en Bjarna dæmdist at svara hönum 8 hundrudum, hygg ek þat sè hinn sami, er kært hafdi Bjarna fyrir hártogit ok nefklípuna. Þórdr prófastr Jónsson á Stadarstad hafdi mál sín fram vid Jón Sveinsson. Mörg komu konúngsbrèf, ok voru birt á þíngi, fleíri enn veitíngar þeirra Benedikts ok Njelsar Kjêrs, var eitt um súpplíkazíur ok ýmsar reglur; eitt um júbilhátídar-hald hinna lúthersku trúarbragda, þvíat nú voru 200 ár, sídan sú kenníng hófst, en þá hún var 100 ára gömul, á dögum Gudbrands ok Odds biskupa ok Gísla lögmanns Hákonarsonar, vitu menn eigi at sú hátíd væri haldin hèr út. Eitt var til biskupa, at skíra skyldi Gyldenløve stiptamtmanni frá kristnihaldi á landi, ok annat, at eigi skyldi dæma hèr yfir Synódalsrètti; var ok gefin út instrúkzíón Wúlfs landfógèta, er sídan mun getit.

## XXVI Kap. Áföll ok annat; landfógètaskipti.

Þat sumar var verst í Þíngeyarþíngi, þvíat sandfall mikit kom af austri midvikudaginn 15da í sumri, svo at tók í midjan legg; vard þá svo myrkt, at kveikja vard í húsum, ok enginn sá annan úti, þó hèldist í hendr: kom ok allmikill sandrinn í Eyafjörd; gekk sandregn ödruhverju þadan af, þegar austanvætur gjördi, ok allt komst þat í Svarfadardal; þat sandfall, kom úr jökli þeim, er Jökulsá í Axarfirdi rennr úr. Þann tíma var Páll Beyer landfógèti veikstaddr mjög, hann var drykkjumadr mikill, sem fyrr segir, ok rugludust reikníngar hans, en var bædi ófègjarn ok medaumkunarsamr, ok af því ástsæll mörgum manni, ok hafdi hann nú ekki gjört skil um lánga tíma; var hann þá bodadr utan, ok fór hèdan med konu sinni ok börnum, fór hann sjálfr med varnarskipinu til Noregs, en þau med Hafnarfjardarskipi til Lukkustadar. Hann tók sótt í Stafanesi í Noregi, lá viku, ok andadist, ok kölludu sumir þat happ hans. Kom í hans stad til at vera landfógèti úngr madr, er út hafdi komit á Bessastödum, Kornelíus Wúlf, ok settist þar. Svíar tóku Hofsósskip, er þat fór utan um haustit. Þá gekk Hannes Skevíng Lárusson annan dag októbris

at eiga Jórunni, dóttur Steins biskups, var hún þá 18 vetra, urdu börn þeirra, er á fót komust: þórunn, hún var alin milli kaups ok festa, Lárits ok Jón, fóru þau Hannes sídan at búa á Bakka í Yxnadal. Litlu eptir brúdkaup þeirra edr nær vetrarkomu andadist Jón prestr Tómasson at Hálsi í Fnjóskadal, ok var þá vetri midr enn hálf-tírædr, ok borinn 4m vetrum fyrir andlát Gudbrands biskups.

## XXVII Kap. Júbilhátíd.

Svo segir Jón prófastr Halldórsson hinn fródi, er gjörst hefir sagt frá Júbilhátídar-haldi lútherskrar trúar, at eigi hafi hin fyrsta hèr haldin verit, ok hafi þó Kristján konúngr hinn 4di bodit þat; en nú skyldi halda adra at konúngs bodi, ok hófst hún í öllum söfnudum lúthersk-um hinn 31ta dag októbris, eda daginn fyrir allraheilagramessu, til þakklætis vid gud, fyrir þat er hann vakti Doktór Martein Lúther upp, til at kenna fyrst þann hinn sama dag í móti páfanum, þá fyrir tveim hundrudum vetra sídan. Var hátíd sú haldin í Kaupmanna-höfn med mikilli gledi ok skrauti í 8 daga samfelda, ok svo í öllum ríkjum ok skattlöndum Dana-konúngs. Skyldi sèrhver biskup í hverju stipti prèdika í sinni dómkyrkju á allraheilagramessu, ok ritadi Kristján Worm, Sjálands biskup, at bodi konúngs, ödrum biskupum öllum, med hverjum hætti fagnadarárs-hátíd sú skyldi haldast; en þat gekk til á þann hátt í Skálholts umdæmi, at fyrirsögn meistara Jóns biskups Vídalíns, at hinn 31ta dag októbris mánadar, er var þridji ok 20ti sunnudagr eptir Trínítatis, skyldu prestar taka sèr tilefni í rædu sinni af þeim gudspjallsordum: gefit þat keisaranum sem keisárans er, ok þat gudi sem guds er, ok skíra svo fyrir söfnudunum, hvörsu menn gáfu í páfadómi þat sem guds var framlidnum mönnum heilögum, ok páfanum, en nú væntir gud af oss, sídan hann gaf oss ord sitt hreint, at vèr gefum hönum rèttrúad hjarta, ok yfirvaldinu skylduga hlýdni. Á allraheilagramessu, eda mánadaginn eptir, var bodit at prèdika útaf þess dags gudspjalli, ok jafnframt þakka gudi fyrir hreinsun kristiligra trúarbragda ok gudsþjónustu, ok var fyrirlagt, at sá texti skyldi leggjast út af Amos-bók: á þeim dögum vil eg uppbyggja hid nidrfallna Davíds hreysi, ok ek skal girda þat aptr, sem brostit var, ok þeirra

hann skal eg vidrètta, ok byggja þat aptr, svo sem þat var ádr. En þar sem því yrdi komit vid, at aptansaungr væri haldinn, skyldi leggjast út annar kapítuli, 18da vers, til Tessaloníku-manna. Eptir prèdikun var sángit: ó! gud, vèr lofum þig. Enn hinn 7di dag nóvembris, sem var sunnudagrinn næstr eptir, var lagt út gudspjallit af konunni blódsjúku, ok skyldu prestar taka tilefni af því er Kristr mælti vid hana: þín trú gjördi þig hólpna, ok leggja út fyrir söfnudinum, at gud hafi í ordi sínu vísad mönnum til Krists eins, ok ekkèrt dygdi annat, enn sönn trú á hann. Fór med þessum hætti hátídar-haldit fram í Skálholts umdæmi, en ei höfum vèr gjörla heyrt, hversu skipad var nidr um þat fyrir nordan.

## XXVIII Kap. Mannalát ok annat.

Vetrinn eptir var med blotum, ok því hardari, sem meira leid á, 1718
gjördi þá peníngafellir, heyskort ok hardindi, svo at fólk sumt flosnadi upp á Inn-nesjum, at því er Jón biskup Vídalín hefir sagt í brèfi einu til Páls lögmanns; ógæftir voru miklar, ok afladist því lítt. Þá dó Jón sýslumadr Sigurdarson í Einarsnesi sjötugr at aldri, hafdi hann fyrir laungu látit Borgarfjardar-sýslu fyrir sunnan ána af hendi vid Sigurd á Hvítárvöllum, son sinn; en Mýrasýslu tók eptir þat Sigurdr systurson hans, son Sigurdar lögmanns Bjarnarsonar, ok bródir Sigurdar landþíngskrifara, var hann yngri þeirra brædra. Annar deydi Jón prestr á Lambastödum Steffánsson, Hallkelssonar, Steffánssonar frá Laugardælum, hálf-áttrædr, ok enn Helga Jónsdóttir, ekkja Þorsteins prests Geirssonar í Laufási, ok Oddr á Fitjum Eyríksson, Oddssonar biskups, sá er ritit hafdi annálinn fyrri, ok enn Þorleifr prestr at Útskálum, fadir Árna prófasts í Árnessþíngi, segja menn at hann hafi einnin annál ritit. Þann vetr var prentud á Hólum prèdikanabók eda postilla Jóns biskups Vídalíns, ok var hún þá bést kennilestra bók útkomin í landi hèr. Ís flökti fyrir Nordrlandi ofanverdan vetr, ok var mikil vödusela-tekja nordr á slèttu allt at hundradi á bæ. Enn urdu nokkur mannalát fleiri, dó Þurídr Grímsdóttir, ekkja eptir Jón prest Gunnlaugsson at Mælifelli, 2 vetrum meir enn níræd, ok druknadi Jón prestr Jónsson í Gördum á Akranesi, bródir Steins bisk-

ups í læk, ok madr med hönum. Deydi Pètr í Tjaldanesi, fadir Bjarna á Skardi, Gudrún á Hlídi, ok Gudrídr, dóttir Orms í Eyum, hún var afargömul, ok hafdi jafnan verit mjög vel hress; Gunnar prestr Einarsson í Kálfholti, Jón prestr Ólafsson í Landþíngum, ok Jón prestr Eyólfsson at Gilsbakka. Gunnar prestr var fadir Filippusar prests, en sonarson þorsteins í þykkvabæ, bródir Ólafs, Ísleifs ok Sigurdar, ok er margt fólk frá hönum ok svo hinum. Símon Oddsson druknadi sudr í Hólmi, ok Axel Fridrik Jónsson eldra frá Einarsnesi Sigurdarsonar, hann var fadir Páls. Var þá vor hardt nordanlands til 7du viku sumars, en gott fyrir sunnan, ok gjördi sídan grasvöxt mikinn. Ok er hèr er komit, lýkr annáli Benedikts prests á Hesti, þeim er eg hefi sèd, þvíat Benedikt prestr var nú gamall, ok er von at fari mínkandi þær stodir, er hafdar verda til at halda frásögunni fram.

## XXIX Kap. Alþíng ok veitíngar.

Alþíng var fámennt sökum hardinda, þó komu lögrèttumenn, ok sýslumenn allir nema sjö: Björn á Bustarfelli, Bessi Gudmundarson, Ísleifr Einarsson, austanad; ok Ólafr Árnason úr Vestmannaeyum, Markus Bergson at vestan; Benedikt Magnússon Bech úr Skagafirdi, ok Lárits Hansson Skevíng úr Eyafirdi; var fyrst lesit konúngsbrèf fyrir Víselögmannsdæmi Njelsar Kjèrs, er Páll Vídalín tók at eldast ok lýast; þvínæst baud Kornelíus Wulf landfógèti mönnum, at bjóda uppá sýslur ok umbod, því skuldir miklar voru ákomnar, var med ödrum Eyólfr Einarsson á Reynistad, er mjög var skuldugr, ok þorlákr Bjarnarson, er verit hafdi rádsmadr Steins biskups, en sídan bjó at Sólheimum í Sæmundarhlíd, ok hlut hafdi í klaustrinu med hönum, ok þótti landfógèta, sem þar hefdi gengit allt til þurdar kvikt ok daudt af þeirra þarveru, at auki skuldanna, ok baud seinna at taka allt fè þeirra undir lás, en Jens Spendrúp baud til klaustrsins 100 dali, ok fèkk þat, ok hafdi þá nokkut. þá var lesit konúngsbrèf um veitíngu Víselögmanns-dæmis Benedikt þorsteinssyni med Oddi. Páll Vídalín baud Oddi til lögrèttu, því Jón biskup Vídalín var fyrir rètt kominn med stefnur sínar; þorleifr Arason kom ok at svara stefnum Odds, ok mæltust þeir vid eigi vinsamliga, báru þann tíma allir yfirmenn

veraldligir kordá; ok brá Oddr kordanum, ok lagdi undir eyra hönum, ok skar til munnsins, fyrir þat lèt hann þó úti vid hann 100 dali, en 50 til konúngs ok fátækra, þar komu sýslumenn Jóhan Gottrúp ok Bjarni Pètrsson frá Skardi; bad þá Páll ad annadhvert settist Oddr eda Benedikt þorsteinsson í lögmannssæti nordan ok vestan, ok skaut því til Sigurdar landþíngskrifara ok lögrèttumanna, en þeir komu ekki skjótt. Var nú lesin stefna Jóns biskups Vídalíns til Sumarlida Klemenssonar í 13 greinum fyrir framferdir hans í málum þeirra Odds, ok önnur til Halldórs prests Hallssonar ok Katrínar Abrahamsdóttur um vættisburd þeirra; þridja var advörun til þeirra um andvitni; fjórda var stefna til Steindórs Helgasonar at heyra andvitni; 5ta til Eyríks Olafssonar, ok 6ta til annara manna um sama; 7da til Odds lögmanns sjálfs um málssókn hans á Drángaþíngi, ok kom þá Oddr; áttunda til ýmisligra manna um andvitni þeim á móti, í því er þeir vitnudu á Drángaþíngi fyrir dómi Sumarlida; níunda til Teits Arasonar sýslumanns um sama mál; hann fèkk þá alla Bardastrandar-sýslu, en hafdi þó eigi fullt brèf fyrir; 10da til Jóns Einarssonar um andvitni. 11ta til Ásmundar Eyólfssonar, fyrir þat hann dæmdi um kæru biskupsins fyrir konúnginum. Oddr lögmadr setti þá Benedikt þorsteinsson til at sitja rèttinn fyrir sig, sídan voru svardar stefnurnar at birtar væri, en Oddr ok Sumarlidi vildu eigi svara þar sökum, sögdu þær ofgamlar, ok þarmed hefdi Oddr stefnt biskupi fyrir 24ra rèttinn, vildi þá Benedikt eigi dæma, ok 12 lögrèttumenn med hönum, en Páll vildi dæma málit, ok sagdi þetta lögvillur, ok fjórir adrir, en þó vard ei af því. Jóhan Gottrúp sókti Sigurd Hannesson lögrèttumann til fèsekta, um þat hann hefdi eigi fullnægt lögrèttudómi. Auglýst var þar at eigi tók konúngr því, er Jens Spendrúp hafdi sókt um Skagafjardarsýslu, ok Hannes Skevíng Lárusson um Eyafjardarsýslu eptir födur sinn, ok lesin konúngsbrèf um súpplikazíur ok ýmislig leyfi, ok instrúkzíón Wúlfs landfógèta, ok stefnur þorleifs Arasonar til Sumarlida ok Odds ok annara manna, en Oddr mælti þá í móti öllum málssóknum. Mörg voru þar sakamál ok skuldamál. Páli ok Oddi bar í milli um Dalasýslu, ok var hún bodin upp, baud Páll Vídalín 26 ríkisdali ok 3 mörk í festu, ok var hún jád hönum fyrir þat; en þá baud Bjarni Pètrsson á Skardi seinna 200 dali, þar mælti Páll hardliga

í móti, at slíkt yrdi heyrt, þar sem þat kom ekki á rèttum tíma, kvad ok þat ei vera meiga, at fjærstædliga væri hækkud bodin, mundu þá bædi afgjöld vaxa, meir enn bært væri, ok þeir bjóda helzt ok frekast, er sízt væri til sýslumanna fallnir sumir hverir; ok þó hann setti þar nokkud í hlut sjálfr, þá þótti þat vitrligt ok vel rádit, svo at ei hafa verit hækkud afgjöld af sýslum sídan meir enn mannsaldr; hèlt Páll sýslunni, en ádr hafdi Jón Sigurdarson haldit hana af Oddi, ok var nú frá henni, hafdi Oddr lènt hönum þrjár sýslur til skipta, ok fyrir því hafa nokkrir menn lagt Jóni þat til lasta, at hann hafi sneidt at Oddi í kvædi því, er Tímaríma heitir, ok skyldi Oddr vera greifinn Rángiátr; var þat dregit saman, at Oddr hefdi tekit af hönum aptr sýslurádin, en sumir segja meinad hönum konu, en engan sann kunnum vèr á því at segja, hvert hann hefir at Oddi sneidt edr ekki, ok var hann vinsæll madr alþýdu, þó hann þætti sskumikill ok framlyndr, ok sýnum drengiligr. Mörg voru lèni bodin upp önnur á því þíngi.

## XXX Kap. Frá Þorleifi Skaptasyni.

Þorleifr, son Skapta Jósepssonar, hafdi verit utan til frama, hann var vel at sèr, ok gyldligr um allt, kom hann út í Hofsós, ok kunnum vèr ekki gjörr at segja hvenær var, en þó má ætla þat nokkud fyrri enn frásögn er komit. Íngibjörg, dóttur Jóns á Nautabúi, bródur Einars biskups, var heitmey hans, spurdi hann þat til, at annar madr ætladi at fá hennar á Hólum, ok reid hann frá skipi, ok kom í stofu þann morgun, er þau skyldu vígjast saman um daginn, sátu brúdir á bekk, þat var þá tízka, ok at sá er innkom skyldi heilsa hverri konu, ok mæla nokkud til hennar; hann gekk á röd ok heilsadi, ok er hann kom at Íngibjörgu, spurdi hann hana, hví hún væri þar, ok hvert hún myndi ei heitord vid sig; hún kvad sèr eigi sjálfrádt um, ok lèzt gjörla muna þau. Fór þá svo, at hún var vígd saman vid hann um daginn; en sá madr, er hafdi ætlad at fá hennar, leitadi atstodar af þeim skólasveini, er Loptr hèt, ok kalladr fjölkunnugr mjög, til þess at ýfast vid hann ok gjöra hönum mein. Gjördist Þorleifr dómkyrkjuprestr, ok bjó at Kálfstödum; hann ætladi eitt sinn til Hóla, ok reid

fram med Hjaltadalsá, ok gekk hvergi hestrinn, er hann kom at ánni; en sem hann kom til hins fremsta vads, lagdi hann á ána, ok komst í midja, þar gekk hann af hestinum, ok fór á eystra landit, ok gekk til Hóla til tídanna, ok bar hempu sína, þvíat þá ridu prestar í hempum. Þarum var þetta kvedit:

Furdar mig á fréttum þeim,
fótgángandi var hann,
þegar hann kom til Hóla heim,
hempuna sína bar hann.

Var þótti mönnum sem hann yrdi meingjörda af Lopti optar, enn sæi sèr borgit. Slík trú var þá enn tíd, ok víst höfdu nokkrir menn vidleitni á slíkum hindrvitnum til illinda.

## XXXI Kap. Frá Oddi.

Þess er ádr getit, at Oddr Sigurdarson hafdi fyrrum ætlad at fá Gudrúnar, dóttur Gudmundar á Narfeyri, Þorleifssonar lögmanns, en börn Gudmundar höfdu öll dáit, var þá Hannes Skevíng, dóttursonr Þorleifs lögmanns einn næstr til arfs, en menn sögdu Gudmundr hefdi ei unnt þess erfíngjum sínum, ok færdu þat til, at hann fèkk konúngsbrèf, at eptirláta fè sitt eptir sig hverjum sem hann vildi; ok med því at vinátta vár med þeim Oddi lögmanni, hafdi Gudmundr lagt af sèr búskap ok umsvif, er hann þraut heilsu, ok þó ekki yrdi af tengdunum, hafdi hann fengit Oddi Narfeyri ágætliga húsada ok setna, med skilmálum þeim, at hann reyndist hönum sem gódr sonr; hann fèkk hönum ásamt búit at Eyri med búshlutum öllum, meir enn hundrad hundrada, ok lánadi hönum þó at auki þúsund dali, ok ætludu menn hann mundi aldrei heimta, ef vel yrdi vinátta þeirra, því Gudmundr átti ærit lausafè annat, ok jardir at auki. Hann gaf Prestsbakka ok 20 hundrud í Bríámslæk fyrir æfinligt benefisíum, en snaudum mönnum í þeirri sveit, er flestar lágu jardir hans, 20 hundrud í lausafè, en eptir átti hann eignir stórar. Hafdi hann húsaveru á Eyri med fáan kvikfènad, konu sína, ok fátt manna. En þat allt, er Oddr átti í vænd af velsemd þeirra, þá braut hann af sèr med stórmensku, ok svo kom at Gudmundr veik á brottu, ok settist á jörd sína Brokey, veranadi

þadan af med þeim æ meira, þvíat Gudmundi þótti þess verra, at sinn hlutr skyldi undir liggja, sem hann þóttist betr makligr, ok fèkk þó ei atgjört, því náliga laut allt landit Oddi sökum valds hans, en því fór verst med þeim, at þeir voru nábúar, ok urdu at eiga margt saman. Hafdi nú svo stadit til þess, er hèr var komit, ok var þá ekki um annad tídræddara enn ríki Odds, er enginn ætladi þá mundi nidr gánga.

## XXXII Kap. Útkoma Fúhrmanns.

Um sumarit vard heyskapr bædi mikill ok gódr; þá kom út seint á túnaslætti herskip, þat er Gottenborg hèt, ok med því kaupförin til sèrhverrar hafnar, öll í flota saman; var á herskipinu Njels Fúhrmann amtmadr, er fyrr er getit, norrænn at ætt, ok höfdíngligr ásýndum, hann skyldi hafa hálf laun, medan Kristján Muller amtmadr lifdi, en öll þadan af. Baud konúngr svo at hann skyldi hafa umsjá á landinu í andligum málum ok veraldligum, ok svo rèttargángi, ok at fylgt væri rèttar-atferli norskulaga; aflagdist vid þat hid forna atferli, at 6 menn eda 12 dæmdu, en yfirdómarinn samþykkti, dæmdi hann einn þadan af, ok hafdi 8 þíngvotta, en meddómendr at eins í hinum stærstu málum. Ádr voru ok hyggjueidar med sjálfseidi í undanfærslum, lýrittar ok sjöttar-eidar ok tylftar-eidar, eptir því sem málin voru stór, en nú skyldi vera undanfærsla med eineidi í öllum málum. Þat hafdi verit sidr dómanda, þegar hann þóttist ei vidlátinn, at skipa annan til at dæma í sinn stad, en hèdan af setti amtmadr slíka dómendr. Sá sem ei var ánægdr med dóm sýslumanns eda lögmanns, stefndi þeim ok ádr sjálfr inn fyrir ædra rètt, en hèdan af skyldi hann taka rèttar stefnu hjá þeim, sem yfir átti at dæma, svo at yfirdómari stefndi sjálfr málinu fyrir sig. Þat vard ok vid útkoma Fúhrmanns amtmanns, at tókust af óvenjur margar, sem þá fóru fram á lögþínginu, ofdrykkja ok deilur höfdíngja, ok óþarfligr undandráttr á málum, þó þat yrdi þá ei allt þegar í stad. Hann hafdi ok umbod stiptamtmanns, ok var þat hid fyrsta atridi, sem mínkadi vald Odds, at hann missti þess umbods. Ekki var Fúhrmann amtmadr audugr, er hann kom út, en brátt audgadist hann, sem enn mun heyrast, var hann úngr madr ókvæntr.

## XXXIII Kap. Frá ýmsu.

Nú gjördist Jón í Ljáskógum Arnórsson, Ásgeirssonar, lögsagnari Páls Vídalíns í Dölum, en þorleifr Arason skólameistari fèkk nú konúngsbrèf fyrir Breidabólstad, ok hafdi til þessa haft umbodsmanns veitíngu eina, var hann þá ok kosinn til prófasts í Rángárþíngi, en hann taldi sig ýngstan presta ok ófæran til þess, ok vildi eigi gefa sig, þó Jón biskup Vídalín bydi hönum, en þó reyndist þat sídar ödruvís, enn at hönum væri leid virdíngin. Erlendr Magnússon tók vid Skálholts skóla, hann var eigi ættstór, en gáfumadr hinn mesti, ok hinn bezti lærari. Jón Bergmann, son Steins biskups, hafdi komit út á Akreyri, ok verit utan 3. vetr eda 4a, ok enga uppreisn fengit til andligs embættis, en skuldir hans voru 16 hundrud dalir; fór hann heim til födur síns; þá bar svo til einhverju sinni, at hann hitti Benedikt Bech, ok ræddu þeir um nokkud, á þann hátt, sem kallat er at dispútèra, en þat gekk þá sjaldan kapplaust af, ok er Jóni þótti Benedikt ordhvass, segja menn hann mælt hafa: ekki verdr þú jafnstæltr, Benedikt! þegar selrinn rífr þig; en Benedikt hafi svarad: ei mun eg þó drepa mig sjálfr. Jón var skáld gott, ok hafdi gáfur til hvervetna, læknir svo gódr, at þat var at minnum haft, var hann nú tvítugr at aldri, ok gat hann dóttur eina þau misseri; fadir hans var gæflyndr ok tillagahægr vid hann, en módir hans hardari. þá flýdi þórarinn prestr, son Jóns prests Gudmundarsonar í Stærra-Árskógi, úr Grímsey, því Eyarmenn ofbudu hönum, ok tók sèr jörd á landi, en sumir hèldu hann þó margvísan, ok víst var hann vel at sèr um marga hluti, þótti þá eigi dælt fyrir prest at fara í eyjuna, en þó var vígdr þángad Jón, son Halldórs á Sèilu, gyldligr madr ok öruggr, ok fóru eyarmenn halloka fyrir hönum, ef þeir ýfdust vid hann. Föstudag annan í vetri gjördi þá vedr mikit, sá var 28di dagr októbris mánadar, rauf hús vída ok hey, ok tók þak ok ýfirþil af kyrkju á Urdum í Svarfadardal, ok kastadi lángt frá bænum, en þak framanverdt af Vallnakyrkju, ok kór af Saurbæarkyrkju í Eyafirdi, kyrkju tók ok ofan á Sjáfarborg, ok áttæring tók úr nausti á Tjörn-nesi ok molbraut; rauf ok kyrkju á Hálsi í Fnjóskadal, ok fleygdi af henni ofan þorgrími presti, syni Jóns prests í Kinn, þorgrímssonar prests, Ólafssonar, er þar var þá, ok ofan

í kyrkjugardinn, svo fótur hans lamdist, ok lá hann nær ár; hann var fadir Jóns prests, er þar var sídan. Nær þeim tíma deydi at Óslandi Margrèt Halldórsdóttir, er átt hafdi Einar Eyólfsson sýslumadr, módir Halldórs sýslumanns ok Eyólfs á Reynistad, ok á hinum sömu misserum Brynjúlfr Gudnason á Hörghóli, er eg hygg bródur Sveins á þóreyarnúpi. En deginum eptir allraheilagramessu ridu 3 menn frá Villínganesi, ok ætludu á vadi yfir Jökulsá, ölvadir nokkut, Árni, son Magnúsar Benediktssonar, Jón Steingrímsson ok Kár Jónsson; Arni var knár, ok reid fyrstr, ok komst af naudugliga, en Jón hrakti, ok skreid á sama land, Kár týndist. Fám dögum seinna kom vedr mikit, þá er varnarskipit hafdi lagt út, þat er flutt hafdi híngad amtmanninn, ok braut þat vid Hafnarskeid í Árness-sýslu, týndust 7 menn, en 156 komust af ok vistudust, urdu fyrirmenn á Bessastödum, en prestr í Nesi, ok 6 adrir, ætludu menn, at Brynjúlfr þórdarson Thorlacíus hefdi eigi farit varhluta af rofinu. þá var gódr vetr til jóla, ok svo allr sídan. Í þann tíma er sagt, at Gudmundr, son Steins biskups, kæmi til Sjáfarborg til Benedikts Bechs, snemma dags er hann var ei klæddr, ok í rúmi med Margrètu, konu sinni, var Gudmundr drykkjugjarn, ok ör vid drykkinn, hann gekk inn, ok mælti, er hann sá þau: ofgód er þèr kona sú Benedikt! slíkr sörli, sem þú ert; Benedikt leit upp í glugg, ok mælti: satt er þat, gód er konan, en skamma stund
1719 munt þú njóta hennar. Litlu eptir þann vetr midjan andadist Sigfús Steingrímsson at Midgrund í Skagafirdi, bródir þeirra þorsteins ok Jóns, en módurbródir Steins biskups, tveim vetrum betr enn tírædr.

## XXXIV Kap. Daudi Jóns Steinssonar, Gudbrands ok Benedikts.

Jón Steinsson vildi nú eiga stúlku sína, er hann gat barnid med, en módur hans þótti þat órád, ok þeim bádum fyrir mannvirdíngar sakir, þó biskup legdi minna til, vard hönum þá mikit um, ok var sagt hann hefdi tekit veikleika skyndiligan sunnudags-kvöldit í 9 vikna föstu, er var hinn 4di dagr februarií mánadar, ok dáit, en þat er alsagt af þeim, sem tilvissu, at hann hafi tekit ólifjan, ok sèd sig sídan um hönd eptir, ok heldr seint, ok óskat at fá mjólk nýa, ok helzt úr þrílitri kú.

En þarvid bæta sumir því sem midr sómir, ok varla skyldi fullyrda, at módir hans hafi tafit fyrir því, ok sagt hún vildi heldr at hann dæi, enn fengi stúlkunnar, ok þat er alsagt, at þá er mjólkin kom, hafi svo verit tilstillt, at óvilja þess er sókti, at skipt var um kýrnar; ok er undarligast fyrir þá sök, at menn ætludu þá alla fortakslaust fara illa dauda, er sáu fyrir sèr sjálfir, en saman bar þat vid ættardramb sumra manna til þess tíma. Biskupi fèll þat þúngt, en Benedikt Bech kvað Huggunarsálm til þeirra foreldra hans eptir hann. Sigrídr hèt dóttir Jóns, er seinna fèkk Illhugi prestr Halldórsson frá Húsafelli, bródir Bjarna sýslumanns, hún var ógrandvör, ok er einn prestr frá henni kominn, en annad vard lítilsháttar ok fánýtt. Þá brann skemma at Breidabólstad í Vestrhópi med öllu því, er þar var, til 12 hundrada, ok smidja at Þíngeyrum, ok allt þat, er þar var inni. Vída urdu bæabrunar. Gudbrandr Arngrímsson bjó þá at hálfu Lækjamóti í Vídidal, en fyrr bjó hann at Ási í Vazdal, er hann átti í kúgildamálinu vid Lárus Gottrûp, ok opt átti hann í málum, bædi þá hann var sýslumadr, ok svo sídan, ok opt óhægan fjárhag, en svo sagdi Páll lögmadr Vídalín, systursonur hans, at sjaldan mundi hann verri hlut hafa af málum. Hann var gestrisinn ok gudrækinn. Voru nú lidin 12 ár sídan Þorlákr sonur hans dó. Gudbrandr átti Ragnheidi Jónsdóttur frá Skardi, Egilssonar, voru þau nú bædi gömul mjög. Þat bar þar til sunnudags kvöldit annars í Gói, er menn voru háttadir, at menn fundu reykjarþef, fór húskarl á fætr, ok lauk upp stofu, er fè var inni í, gaus þá logi móti hönum; hann lèt ei aptr hurdu, en hneppti út hest, ok kalladi á badstofuglugg, bad menn forda sèr, gjördu þat þeir sem máttu, en hjónin voru karlæg á pallinum, ok Hannes er talinn er sonur þeirra, þau breiddu á sig nautshúd blauta, ok er til var komit at bjarga, heyrdist þetta kvedit inni, ok eignad Gudbrandi:

Raudlitadr er ræfill minn
af rauna-badi hördu,
um litinn skiptir lausnarinn
á lifandi manna jördu.

Ok er komit var at þeim, fundust þau andvana, ok óbrunnin, en hönd barnsins stód útundan húdinni, ok var brunnin af. En ef þat er satt, at sveinninn hafi verit þeirra barn sjálfra, hefir eigi Ragnheidr

verit jafngömul, sem líkligt er. Um vorit fór Benedikt Bech sýslumadr á Sjáfarborg til hèradsþínga, sem hann var vanr, ok er hann kom í Hjaltadal, gisti hann at Hólum, ok ætladi þadan til Vidvíkr ok Hofs, ok svo heim at sinni; hann reid frá Hólum til Kálfstada, þar bjó þorleifr prófastr Skaptason, ok fylgdi hönum á leid til Vidvíkr, ok er þeir kvöddust, bad prófastr hann bera kvedju konu sinni; Benedikt mælti: hitta muntu hana fyrri enn eg; sídan reid hann út eptir, ok má vera hann hafi farit lengra enn til Hofs, en þar kom hann á þíngstad, ok þadan ætladi hann heim, var Jens Spendrûp þar þá, ok drukku þeir af einni skál; þá mælti Benedikt: sú skal vera daudaskál okkar beggja, ok mun eg nú fara þá götu, er þú munt eptir fara. Sídan reid hann í Hegranes, ok allt til Hellulands, sunnudaginn 4da frá páskum, hinn 7da dag mají mánadar, ok var ferjumadr vid kyrkju; Páll Ólafsson, sveinn hans, var med hönum, ok vildu þeir ei bída, segja sumir þeir hitti fyrir tvær byttur adra nýta enn adra ónýta, ok tæki hina verri, en gisna ferju tóku þeir, ok gádu ei þess at nordanvedr var, ok ei svo mikit flód, sem þurfti, tók byttan at leka, en austrtrog var ekki, ok jós sýslumadr med hatti sínum, þartil er hann fèll útbyrdis, hljóp þá Páll út, ok nádi hönum, ok rèttu þeir sig vid, en þá var grunn svo mikit, at byttan gekk eigi, ok vódu þeir þá til þess, er þeim var ei meira enn í knè, ok ætludu at halda þat vestr yfir, en þá var áll einn at vestan, er þeir vissu ei, ok týndust þeir í hönum; en þó sumir segi nokkud ödruvís frá atvikum, þá munar þat litlu, ok ei er satt, þat nokkrir herma, at þeir kæmi at vestan. Var skjótt tilkomit af þeim er næstir voru, þvíat líkast er, at nokkrir hafi verit komnir í augsýn vid þá, er frá tilburdi hafa sagt, ok fundust lík þeirra, ok var lík Benedikts rifit nokkut; voru þeir jardsettir at Sjáfarborg 19da dag hins sama mánadar.

## XXXV Kap. Frá ýmsu.

Þá voru litlir hlutir í útverum, ok vídast um Sudrnes nær engir. Þá fèkk Snorri Rektor, son Jóns Magnússonar, uppreisn, ok Helgafell, en Jón, fadir hans, ætladi at ná Reynistadar klaustri, ok fèkk ei sett borgun; bjó hann sídan á Sólheimum; fèkk Jens Spendrûp klaustrit

ok brèf fyrir því, ok svo sýsluna. Hann hafdi fyrri átt þóru, dóttur Jóns í Vík, Hallgrímssonar á Vídimýri, Halldórssonar lögmanns, ok lifdi ei afkvæmi þeirra, en sídan átti hann Helgu Jónsdóttur, sem sagt hefir verit; hana hafdi fyrr átta Vigfús á Hofi, ok bjó hann sídan at Vík í Sæmundarhlíd, þar Jón hafdi búit. Víkíngaskip kom um fardaga í Hofsós útbúit af Dönum, ok hitti þrjár duggur hollenzkar þar í höfn; þeir skutu fjóra Hollenzka í sjó af báti, er fara vildu til skips, ok tóku allar duggurnar, ok nokkra menn af þeim á skip sitt; en 14 komust á brott, ok gengu slippir út í Fljót, þar ritadi einn þeirra brèf, er verit hafdi formadr einnar duggu til bródur síns nordr á Eyafjörd, því hann vissi hans þar von, ok fèkk hann brèfit á Hólsvík vid Upsaströnd, brá vid skjótt, ok sókti landa sína vestr fyrir, ok fór á brott med þá sem hradast, en víkíngarnir dönsku heldu duggunum ok áhöfn allri, ok fóru med sem ríkmannligast. þeir lágu lengi þar á höfn, sem þeir voru, ok misstu einnar duggunnar í vedri, ádr þeir komust á brott, sídan hèldu þeir vestr med landi at leita at fleirum, ok gátu engum nád, sneru svo aptr til Siglufjardar, ok lágu þar um hríd, því sótt var komin í lid þeirra, dóu þrír, ok voru grafnir at Hvanneyri, ádr þeir fóru þadan. Slíkir víkíngar kallast kaparar, ok eru gjörvir út til at taka kaupför fyrir óvinum þeirrar þjódar, er þeir eru sendir frá, ok gjöra þeir stundum meira at verkum, enn þeim er bodit. þau misseri týndust af skipi 6 menn frá Haga á Bardaströnd, 5 í þorlákshöfn, 3 í Grindavík, 2 á Midnesi. 5 menn druknudu í Borgarfirdi, ok sagt er, at druknad hafi 18 menn alls í ám. Um vorit andadist Jón prestr at Stad í Súgandafirdi, son Torfa Jónssonar á Gerduhömrum, hann var fadir Ólafs prests at Stad í Grunnavík, födur Jóns Grunnvíkíngs ok Erlendar sýslumanns, en sídan gekk kvefsótt undir þíngit ok um þann tíma, ok deydi Ólafr prestr Pètrsson at Gördum á Álptanesi. Varnarskip kom enn út med kaupförum, þar hafdi Fidrikr konúngr aldrei látit Íslendínga gefa einn peníng til. Lèt Steinn biskup prenta Tárapressu Rachlows, ok hafdi sett á íslenzku sjálfr. þessi misseri andadist þormódr Torfason Íslendíngr, sagnameistari konúngs, ok hafdi verit þat um þriggja konúnga æfi, at bæ sínum Stangalandi, þar hafdi Fridrikr konúngr verit at hans um nótt, ok hefir sá einn Íslendíngr herbergjad Dana-konúng. Hann var 3 vetrum betr enn áttrædr.

## XXXVI Kap. Frå landshöfdíngjum.

Njels Fúhrmann amtmadr hafdi ordit at gefa þúsund dali fyrir von um amtmanns embætti eptir Muller, ok sídan hafdi hann ei nema hálf laun medan Kristján Muller lifdi, en hlaut þó at gjalda strídsskatt af fullum launum, var hann fyrir slíkar sakir óaudugr fyrst. Hann var þó hinn merkiligasti höfdíngi fyrir margra hluta sakir. En eitt var mein mikit á högum hans; hafdi hann brèfliga heitit eginordi meyu þeirri, er Apollonía Swartzkoff hèt, en þat drógst undan til þess, er hönum snerist hugr til annarar, sú hèt Katrín Hólm. Apollonía vildi eigi vita þat, at önnur nyti hans ásta, ok stefndi hönum fyrir Konsistóríalrètt; fèll þar dómr hönum í móti, en hann skaut sínu máli til hæsta rèttar, fór þar eigi betr, þvíat þar var dæmt þessi misseri, at hann ætti þess skyldr at vera at fá Apolloníu, ok lèt hún birta hönum þann dóm; hann ansadi engu, en fèkk óvilja til hennar at meiri, ok reiddi þat ílla um sídir. Vor þetta hafdi hann farit vestr til Snæfellsness-sýslu, ok kom í Brokey; þar bar Gudmundr Þorleifsson upp fyrir hönum, þat er brauzt í millum þeirra Odds Sigurdarsonar; var sídan þíngat seint um sumarit, at Draungum á Skógarströnd, af Njelsi Kjêr Víselögmanni, ok Oddi lögmanni stefnt þángat af Jóhanni Gottrúp Lárussyni sýslumanni Húnvetnínga, hann var svaramadr Gudmundar í misklidum þeirra, ok bar þeim Oddi þá fyrst saman, at teljandi sè, studdu ok at því óvildarmenn Odds fornir Páll lögmadr ok fleiri; þar var Fúhrmann amtmadr, ok flestir þeir sem höfdu at kæra sakir á Odd, vard hönum þá heldr þúngt uppdráttar, ok rèdi hann þat af, at bjóda Gudmundi sættir, heldr enn færi í dóm, skiladi aptr Narfeyri ok hálfu búinu, en annan helfíng gaf Gudmundr eptir fyrir tillögur amtmanns, hèt ok Oddr at gjalda Gudmundi þúsund dala þá er lánud var, ok setti jardir í ved, ok lauk svo þeirra vidskiptum; en þeir amtmadr ok Gudmundr töludu fleira enn menn vissu. Þar dæmdi Njels Kjêr í millum Odds ok Jóns Sigurdarsonar í Bæ. Alþíng var tídindalítit, þó voru þar mál í milli Bjarna Nikulássonar sýslumanns, ok Jóns klaustrhaldara, sonar Ísleifs sýslumanns Einarssonar, ok Jóns Þorsteinssonar, ok enn fleiri manna, hèt einn Skæríngr Jónsson undan Eyafjöllum, er átti mál vid Hákon Hannesson syslumann; voru ok skuldamál mikil

eptir lèni, ok svo fjölkýngisstafa medferd úr sýslu Teits Arasonar af Bardaströnd; lesin voru ok brèf Fúhrmanns. Konúngsbrèf var gefit út til biskups ok lögmanna, at koma skyldu til einíngar andligum ok veraldligum lögum í landi hèr, ok senda þat verk sitt utan, ok annat um vidrvist hlutadeigenda vid málverk landamerkja í áreidum, ok eitt seinna um hæsta rèttar sakir.

## XXXVII Kap. Fráfall stiptamtmanns ok annara.

Þá var sumar hid bezta, ok gekk kvefsóttin nordr um land, ok var allmannskæd. Týndist þá skip vid Bæarmöl, ok drúknudu 3 menn; en um haustit deydi Þórunn Pálsdóttir prests á Melstad í Húnavazþíngi, Eggèrt bóndi Sæmundarson at Sæbóli á Íngjaldssandi, ok Eggèrt bóndi á Ökrum í Skagafirdi Jónsson, Eggèrtssonar, hann skorti vetr á fimtugan, ok voru þeir hans synir: Jón á Steinstödum, ok Eyríkr, fadir Eggèrts prests í Glaumbæ; þat haust var votvidrasamt, en því þurrara ok betra, sem meira leid á; vetr var ok gódr öndverdr. Andadist fyrir jólin í Kaupmannahöfn herra Úlfrekr Kristján Gyldenløve, hann var greifi, ok stiptamtmadr til þess, ok hafdi margar adrar nafnbætr, ok var hinn ágætasti höfdíngi fyrir alls sakir, ok tiginbornastr allra þeirra, er settir hafa verit forrádamenn yfir Ísland, því hann var sonur Kristjáns konúngs hins 5ta, en ekki drottníngarinnar, ok hálfbródir Fridriks konúngs. Gudmundr, son Steins biskups, hafdi farit utan um sumarit; en Snorri Jónsson var enn skólameistari á Hólum um vetrinn, ok voru í þann tíma eda nokkru eptir eda ádr sumir skólasveinar þar, er ord lèk mikit á um fjölkýngis ástundan, hèt einn Loptr, er mikit ord hefir verit ágjört, ok getit at nokkru, ok týndist sídan voveifliga. Var þá Ólafr, son Jóns Þorsteinssonar í Eyhildarholti, frændi Steins biskups, bryti hans, ok því nefndr hèr, at margt fólk er frá hönum komit, hann var gyldligr, ok gjördi ei all-lítit um sig.

## XXXVIII Kap. Frá þíngi ok ýmsu ödru.

Sá vetr var allr gódr, nema fyrir nordan land, þar fèllu fè ok fær- 1720
leikar, helzt í Skagafirdi. Þá andadist um nóttina milli hins 7da ok

8da februárii, Gudmundr þorleifsson í Brokey, ok hafdi þá ádr gefit Fúhrmanni amtmanni mestan hlut af fè sínu föstu ok lausu, en þat líkadi erfíngjum illa, ok vard öfundsamt, sem stakan segir:

Sínum örfum sinnti ei par
sálugi Gvöndr ríki,
audr í Brokey eptir var,
þá öndin skrapp úr líki.

Má þó ætla hönum sè ei svo mjög at ámæla um þat; hafdi nú Oddr ekki af fènu meira enn Eyrarbúit hálft, ok tók heldr af þverra hans uppgángr, en hugr hans þvarr ei vid þat, ok vildi hann ekki gjalda amtmanni þá þúsund dali, er hann hafdi heitit Gudmundi, kalladi sèr þann samníng verit hafa of þúngbæran, ok stód í því med þeim um hríd. Helga Eggèrtsdóttir, kona Gudmundar, gaf ok amtmanni allt sitt fè eptir sig, ok skyldi hann svo erfa þau bædi. Þá var stopult vor, en allgott sumar, hlutir í medallagi. Biskupar hófu kyrkjulagaverk, ok Snorri skólameistari fór vestr til Helgafells, ok gjördist þar prófastr, en þorleifr prófastr Skaptason sleppti prófastsdæmi í Skagafirdi, ok fór nordr til Múla; Gudrún Steingrímsdóttir, módir hans, hafdi andazt ádr um vorit. Þorleifr prófastr var all-vel lærdr, gyldligr at álitum, ok ödru, ok trúdu margir at hann væri mjög framvís. Víkíngaskip danskt kom á Eyafjörd frjádaginn næstan fyrir hvítasunnu, er reidarar sendu at taka duggur hollenzkar, sem hit fyrra vorit; þeir tóku eina á Eyafirdi inn vid Svalbardsströnd, er þeir fengu kvíad, þvíat eigi gætti sín, en adrar skutust þeim ok nádust ekki. Misferli urdu nokkur einstakra manna, þau er eg nenni ei at telja, leid svo til þíngs, ok sátu þar í lögrèttu Páll Vídalín lögmadr, ok Benedikt þorsteinsson Víselögmadr, þvíat Oddr var ei kominn. Páll lögsagnari úr Rángárþíngi, son Hákonar Hannessonar, sokti þar arfamál í móti þórdísi Markúsdóttur á Stokkseyri. Var þar ok lesit upp, þat sem umbodit var um lagaskipunina, ok kónúngsbrèfin um Hæsta-rèttar mál, ok Kammers mál, afgjalda reiknínga ok borganir, er sídan hefir mjög fylgt verit; einnin brèf Admíráls Pètrs Rabens riddara, er þá var skipadr stiptamtmadr, um illa sidu hèr út, mótþróa ok hirduleysi hjúa, drykkjuskap ok ofsa höfdíngja á alþíngi, illa haldna prótókolla eda þíngbækr, ok vanhirdíngu lögmanna ok sýslumanna á skyldu sinni.

Annat var ok til Führmanns amtmanns, at hafa skyldi umbod hans, ok jók þetta mjög tilhlutan amtmanna um flest mál, þó meira yrdi af því sídar, ok var í mörgu þarfligt, helzt í öndverdu, medan stjórn var hèr svo ill, sem verit hafdi um hríd. Þar var Oddi dæmd fèsekt, fyrir þat hann hafdi stefnt Njelsi Kjèr Víselögmanni, en kom eigi sjálfr fyrir dóm. Jón, sonur Odds Hólarádsmanns, er kalladr var Hjaltalín, mætti þar af hendi Þórdísar á Stokkseyri í máli hennar móti Brynjúlfi Thorlacius, en Hákon Hannesson sýslumadr fyrir hönd Jasonar Gudmundarsonar Vest, ok var ónýttr dómr Brynjúlfs, fyrir þat hann var ei eptir Norskulögum, ok appellèrudu þeir bádir Brynjúlfr ok Hákon sýslumenn. Jóhann Gottrúp sókti ok í móti Oddi fyrir dóm hans í máli Gissurar prests Bjarnasonar, ok var sá dómr ónýttr fyrir hína sömu orsök. Jens Spendrûp bar þar fram fadernis lýsíngar-mál, er hann hafdi dæmt undir lögrèttuna, ok var því vísat heim, ok hann átalinn, ok á sama hátt Brynjúlfr Þórdarson, ok Bjarni Nikulásson, sýslumadr í Skaptafèlls-sýslu; ok á líkan hátt gèkk enn um einn dóm Bjarna Pèturssonar á Bustarfelli, en þetta allt var mönnum nýnæmi í þann tíma. Ýmisfig komu þá konúngsbrèf til einstakra manna, ok var eitt stadfesting á veitingu Markúsar Bergssonar fyrir Ísafjardarsýslu. Þá gaf ok Fridrikr konúngr sex hundrud dali ekkjum þeirra manna, er druknudu á landi hèr, ok fèlitlar voru.

## XXXIX Kap. Andlát Jóns biskups ok annara.

Þessi misseri urdu andlát margra mikilsháttar manna; Kristján Muller amtmadr deydi utanlands, ok var hann nær ellióra; en hèr á landi Páll Torfason frá Kyrkjubóli, er fyrr var sýslumadr í Ísafirdi, ok Ísleifr sýslumadr í Skaptafellssýslu Einarsson, Þorsteinssonar á Þykkvabæ, bródir Ólafs Einarssonar sýslumanns ok fadir Jóns; Sigurdr Einarsson var hinn þridji bródir, fadir Vigfúsar í Hjörtsey, ok enn Gunnar Einarsson, lögrèttumadr ok prestr sídan; hinn þridji andadist Einar prófastr Bjarnason at Kyrkjubæarklaustri, ok enn þessir: Vigfús prestr Gíslason at Krossi í Landeyum, Magnús prófastr Magnússon at Hvammi í Hvammssveit, bródir Jóns, ok Árna assessors, hann var fadir Jóns prests at Selbergi, ok Ástrídar, er Þórarinn prestr átti at Hjardarholti Jónsson, Þórarinssonar pró-

fasts frá Hrafnagili, Jónssonar; ok sá er einna göfugastr var þessara presta þórdr prófastr at Stadarstad Jónsson biskups Vigfússonar, hann deydi 1ta dag ágústí, ok skorti vetr á fimtugan, höfdu þeir lángfedgar engir ordit gamlir; hann hafdi átta Margrètu, dóttur Sæmundar prófasts í Hítardal Oddssonar; þeirra börn voru: Sæmundr ok Jón, Gísli, er fèkk Önnu-Margrètar, dóttur Lárusar Skevíngs; Katrín, er átti Vigfús prestr í Hítardal, son Jóns prófasts Halldórssonar, þeirra son var Eyríkr; Salvör, er átti Halldór prófastr á Hólum, son Jóns prests á Völlum nordr, er fyrst var í Grímsey, Halldórssonar, þorbergssonar, Hrólfssonar; þorbjörg, hana átti Ásmundr prestr at Breidabólstad, þeirra börn voru Jón ok þurídr. þórdr prófastr hafdi ritit um ýmsa hluti, ok var þetta helzt: ordabók á 5 túngum, ræda um ritníngarútleggíngar íslenzkar, Grasakver, Rímkver tvö, malsháttasafnadr íslenzkr, ok um latínsk ljódmæli Íslendínga sýnishorn, um þat er Svíar höfdu frá Íslendíngum, sjúkleika þá, er hèr voru kenndir, ok samanburdr Eddu-sagna vorra vid Grikkja ok Romverja, en ekki vitum vèr til, at þat hafi neitt verit prentat, ok med því hann var svo fjölvís, þá hèldu sumir hann margkunnugan, sem þá var enn helzt til tídt at ofætla um. Med þeim Jóni biskupi Vídalín ok þórdi prófasti hafdi jafnan verit vinátta med tengdum, ok heimbod. Pètr Raben admíráll hafdi komit út á Hafnarfirdi á þíng-maríumessu, ok var hann stiptamtmadr, sem fyrri segir, reid Jón biskup Vídalín til fundar vid hann, ok gjördist skjótt med þeim vinátta mikil, þvíat admírállinn virdi Jón biskup fyrir helztan mann ok mestan á landi hèr. þadan hafdi biskup ridit uppá alþíng, ok birt brèf stiptamtmannsins í synódo, því hann komst eigi sjálfr til þings fyrir fótaveiki, um þat at prestar ok prestaefni er opinberir yrdi at legordum, edr ödrum hneigslanligum stórsyndum, þyrfti ei at vænta uppreisnar af konúngi, ok hèlzt þat á medan Fridrikr konúngr fjórdi lifdi. Eptir alþíng reid biskup aptr á fund stiptamtmanns, til at rádfæra sig um ýmsa hluti, ok skildu þeir med miklum kærleikum; hafdi biskup lagt undir vid hann, at úvega konúngs uppreisn á máli sínu í móti Oddi lögmanni, því hann var þá heldr kominn í pressu, ok hafdi vald minna enn ádr, en þess var ekki audit. Jón biskup var hinn skörugligasti madr at sjá, ok ágætliga lærdr í grisku ok látínu ok fleirum túngum, ok mörgum frædum ödrum, látínuskáld hid

mesta hèr á landi, ok þó vídar væri leitat; hann hafdi hreint málfæri ok skírt, ok var hinn áheyriligasti kennandi, málsnjallr, ok hinn mesti gáfumadr, en vandadi þó kenníngar sínar mjög, ok var vandr at því vid adra. Medan hann lifdi, var lagt til hospitals ómaga í sveitum, en þá eina lèt hann taka á hospítölin sjálf, er næmastan höfdu sjúkleika, ok hættiligastan; hann var hinn annar eda þridji lærdastr biskup á landi hèr, med meistara Brynjúlfi ok Oddi, ok sýna þat bækr hans allar, er á prent hafa gengit, ok ei sídst Píslarprèdikanir hans 6, er þó er mælt hann hafi eigi verit búinn at laga, eda 7 ordabók hans; en útleggíngu hans yfir Nýa Testament úr griskri túngu, ok um skyldu manna, eda praxin pietatis, endaist hann ekki til at láta prenta. Hann hafdi audgast skjótt, var þó ríflundadr ok stórmannligr, ok spardi ekkèrt til at halda vid virdíngu sinni, gestrisinn ok veitíngasamr; hèlt hann háttum meistara Brynjúlfs ok meistara Þórdar formanna sinna, í virdíngu ok veitíngum vid meddómendr sína á alþíngi, eldi ok framfærslu ölmusumanna heima á Stadnum ok mörgu ödru, er sídan tók heldr fyrir, eptir hann, hafdi rèttan reikníng ok fullan í kaupum ok sölum, gjalt skjótt, en var ör at gefa. Systurdætrum sínum gaf hann fè mikit á giptíngardegi, Ólufu Árnadóttur Valbjarnarvelli í Borgarhrepp 24 hundrud, (hûn var módir Árna skálds) ok Túngufell í Lundarreykjadal 16 hundrud, ok þartil lausafè, því hönum þótti hûn giptast at hans rádi. Engan lèt hann naudstaddan fara frá sèr synjandi, er leitadi hans, ok ei þótt hefdi verit í óþokka vid hann; vid alla var hann kunnmenn sína lèttlátr ok gladsinnadr, ok ávarpsgódr allri alþýdu. Eigi mátti kalla at hann reiddist nokkrusinni án öls, þó þess væri leitat, svo örlyndr sem hann var þó, en stórhuga ok kappsamr var hann vid þá, er á hlut hans vildu gánga, ok stórbokkar voru; átti hann af því opt í þrætum á hinum fyrrum árum, medan allt lèk í lófum, en uppgángr fyrirmanna hèr var sem mestr, svo at þeir lètu ærit margt til sín taka, ok þótti þá snúast heldr í sid veraldarmanna, en þar vann hann lítit á; ok sem hann tók at setjast ok mædast, hneigdist hann æ því meir til hins andliga, er meir leid á æfi hans, ok vildi lifa í kyrdum. Lagdi hann sig þá nidr vid at þèna nytsemdum fóstrlands síns med bókagjördum sínum, ok vard því biskupsdæminu ok kennidóminum hinn mesti söknudr í at sjá á bak hönum, er

hann fylgdi fast fram því hugarfari. Bar þat til, skömmu eptir þat er hann skildi vid stiptamtmanninn, at hann spurdi andlát Þórdar prófasts Jónssonar mágs síns á Stad, ok þótt hann væri reidmæddr, fór hann at heiman frá Skálholti hinn 20ta ok 6ta dag ágústí mánadar, ok áleidis vestr til Stadar, til at gjöra útför hans, ok líkprédikun eptir hann, hafdi hverr þeirra heitit því ödrum, sem lengr lifdi. Þann inn sama dag kenndi hann verkjar í brjóstinu, helzt þá er hann kom vestr undir Sledaás, svo hann komst um aptaninn í sæluhús, ok þó med þjáníngu, hafdi hann þat opt mælt ádr, at hvergi þætti sèr fegri stadr. Um nóttina þróadist svo verkrinn, at hann treysti sèr ei at rída lengra, lèt hann þá Ólaf kyrkjuprest sinn, son Gísla í Njardvík, Ólafssonar prests, Gíslasonar, opna sèr æd á hinum hægra arminum, vid þat linadist verkrin, en þó mátti hann eigi snúa sèr sjálfr í sænginni, mögnadist ok sóttin, svo at hann fèkk á stundum missýníngar ok höfudóra. Hinn 29da dag ágústí jókust óhægindi fyrir brjósti hönum; spurdi hann þá prestinn, hversu hönum litist um sjúkleik sinn? hann svaradi: mèr lízt, herra! sem þèr munud eigi lengi hèreptir þurfa at berjast vid heiminn. Biskup mælti: því er gott at taka; eg á góda heimvon. Sídan innti prestrinn til vid hann, hvert hann vildi eigi medtaka kvöldmáltídar sakrament Krists? hann kvadst svo þúngliga haldinn af sóttinni, ok helzt í höfdinu, at hann treysti sèr ei til at gjöra þat verdugliga, en bad þó prestinn vera ókvídinn um velferd sína, því miskunarfadmr guds stædi nú ætíd útbreiddr á móti sèr, ok nádardyr hans opnar fyrir sálu sinni. At morgni hins 30ta ágústí, er var föstudagr, dró mjög af öllum líkams styrk hans, las þá prestrinn guds ord fyrir hönum, drottinliga bæn ok blessunar ordin, ok at því loknu, tók hann þrjú andvörp, ok sofnadi, nokkru fyrir dagmál. Hann skorti vetr á hálf-sextugan, en var biskup á annat ár hins þridja tugar, ok einum vetri skemr í hjónabandi; en hafdi vígt presta 106. Þau húsfrú Sigrídr Jónsdóttir höfdu átt tvö börn, var annat borit andvana, en annad dó úngt í bólunni, þat hèt Solveig; um hana kvad Páll lögmadr vísu þessa:

Solveigu sæl dægr ali
sidláta, vid mátann, ydna,
gud beztr, gód kostum skrýdi,

gaga unni magn hárum fagni,
lof, unnan, líf eignist hafi,
lyst, prýdi, fyrir blódi Kristi,
sèr heidr hýr gredi mærin,
hægd, dádir, nægd, rád med frægdum.

Hafdi allæmiliga verit í frændsemi med þeim biskupi ok Páli lögmanni; en med því, at þau frú Sigrídr voru sídan barnlaus, höfdu þau fengit konúngs stadfestíngu uppá testamentum þeirra, at hvert sem lengr lifdi skyldi erfa hitt. Húsfrú Sigrídr var ridin ádr vestr til Stadarstadar at finna þórd prófast bródur sinn, ok adra frændr, ok hugdi sèr til gledi, en þat snerist til hrygdar, þvíat þann aptan, er hún kom at Stad, hafdi þórdr prófastr tekit banasótt sína, ok var hún þar, til þess er hann dó, ok ætladi at bída greptrunar hans, er fram skyldi fara hinn 30ta dag ágústí mánadar; en er spurdist, at biskupinn var lagztr sjúkr í sæluhúsum, reid hún at kveldi hins 29da frá Stad til Snorrastada, ok þadan snemma dags, ok nádi at aptni í sæluhús, ok þá þreytt ok mædd, en þá spurdi hún jafnskjótt andlát biskupsins, ok fèll í svo mikinn harm, at vini hennar ok venslamenn ugdi þat hún mundi ei standast meiga, eda halda lífi. Þá kom hinn næsta dag, er var hinn 31ti ágústí Hannes prófastr Halldórsson vestan frá Reykjaholti, ok sagdi fyrir med adstod gódra manna, er vid voru, um búníng líkisins, ok flutníng þess; var þat flutt úr sæluhúsum á mánadaginn, er var annar dagr septembris, med fylgd vel mannadri, yfir Skjaldbreidarhraun, austr um Helluskard, ok heim í Skálholt um kveldit; en húsfrú Sigrídr reid med adstod Hannesar prófasts, ok annara fylgdarmanna yfir Hrafnabjargaháls ok Lyngdalsheidi, ok komst í Skálholt med litlum mætti hid sama kveld. Laugardaginn eptir, er var hinn 6ti septembris, var líkit jardsett vegliga í Skálholts kyrkju; var þar vidstaddr Njels Fúhrmann amtmadr, Njels Kjèr Víselögmadr, prófastar ok prestar 22, nokkrir sýslumenn, ok margt annad gódra manna, en líkrædu hèldt Jóhan prestr þórdarson, prófastr í Árnessþíngi. Hafdi biskup sjálfr ætlad þessi vers á líkstein sinn:

*Hic situs est Jónas, qui postquam désiit esse*
*ut bene sit cineri, désiit esse malus.*

En þau voru eigi höfd, ok sett önnur á þann hátt;

*Clama! quid clamam? carnis præstantia fænum*
*afflatu domini, flos perit, herba jacet,*
*flos cadit, herba jabet, sic transit gloria mundi,*
*stabunt æternum dogmata sacra dei.*

Ekki kom út med almenníngi af verkum hans, Nýa Testamentis útútleggíngin, prèdikanir yfir drottinliga bæn, Porsí Nomenklator, ok annat smáligt. Þar var einn staddr vid útför hans Þorleifr prestr á Breidabólstad Arason, Þorkellssonar, ok þóttist þá ei ofitilshättar til at verda prófastr, bar hann jafnskjótt upp vid amtmanninn, er þá hafdi einnig stiptamtmanns umbod, at hann vildi veita sèr medmæli til at hljóta biskups-embættit, ok fèkk hann þau; en prestar allir adrir, er þeir vissu fyrirætlan Þorleifs, lýstu því yfir vid amtmann, at þeir vildu engan annan til biskups kjósa, en Jón prófast Halldórsson í Hítardal; fyrir því ritadi amtmadr nedan á formælisbrèf Þorleifs prests, at Jón prófastr Halldórsson þætti öllum bezt fallinn til, ok sendi hönum þat brèf lukt med Þorleifi presti, hvert sem hann vildi þá þegar verda til at fara utan, eda senda supplikazíu sína til konúngsins um biskupsdæmit; afhendi Þorleifr prestr Jóni prófasti brèfit, ok leitadi mjög vandliga eptir at vita, hvert hönum væri hugleikit at fara utan edr eigi. Jón prófastr var nú vid aldr, ok var hönum nær skapi at afsaka sig, kom ok þetta óvart, ok hid sídasta skip var þá þegar búit til utanfarar í Stykkishólmi, ok tíminn naumr; svaradi hann þá svo at eigi mundi hann standa í vegi fyrir Þorleifi presti, nè sækja um biskupsdóm, ok mætti hann freista hamíngju sinnar; fór þá Þorleifr prestr utan í Stykkishólmi, ok med hönum Nikulás, son Magnúsar Benediktssonar, ok Sigurdr, son Vigfúsar Árnasonar, en amtmadr skipadi Jón prófast fyrir officialis, ok at hafa umsjá fyrir öllu því, sem biskupi heyrdi, til þess, er konúngr skipadi rèttan biskup.

## XL. Kap. Frá landshöfdíngjum, ok tilburdum.

Þat sumar var nýtíngaíllt, er þessi tídindi urdu, ok admírállinn hafdi verit hèr vid land; han var hèr 6 vikur, ok lá laungum í fótaverk, kom hann ei optar, enn einusinni á land vid Óskarbúd hjá Gardahrauni, sóktu hann þángad heim flestir allir fyrirmenn, nema Oddr lögmadr,

hann var túlkmadr; var admírállinn gódr vidrmælis, ok eigi stórlátr, tók fyrirmönnum med virdíngu, ok sat hjá þeim vid bordit í sænginni. Var Fúhrmann amtmadr umbodsmadr hans, ok flestar vandar úrlausnir spunnar af hans tôga. Admírállinn hafdi sendt brèf þat á alþíng, er fyrri getr, ok at hans tilsögn voru reglur settar á þíngi móti mörgum ósidum, lausamensku, afarkostum vinnuhjúa, lausíngjahætti, ok giptíngum fèlausra ómenskumanna, ok bar hann þær greinir fram fyrir konúnginn, en þó fèkk hann hverki þökk eda lof fyrir híngadför sína, er hann kom til Kaupmannahafnar aptr, þvíat ærin vóru hèdan mótmæli, en kaupmenn eda reidarar úr Hafnarfirdi ok Hólmi ákærdu hann um verzlan mikla í móti konúngsbodi. Hann var ok eigi haldinn skarpvitr, en vildi þó landinu vel, var spaklátr ok óáleitinn. Hann flutti utan flestar bækr Árna Magnússonar, ok bar þeim á milli um flutnínginn, þvíat stiptamtmadr ætladi Íslendínga eiga, en eigi Árna, þó vard þat samit. Deilur voru med Oddi lögmanni ok Njelsi Kjêr útaf Drángá-dómi. Þat bar þá til, at Jón Sigurdarson í Bæ í Dölum, er sýslu hafdi haft, reid yfir Haukadalsá nokkud kenndr, ok heldr nærri Vazhorni, hann kom af mannfundi, ok er hèstr hans stökk uppá bakka, þvíat hann var fjörmikill, hrökk hann af ok druknadi; hann hafdi ætlad at fá Helgu, dóttur Jóns Hákonarsonar at Vazhorni, hún var þá 18 vetra. Á því sumri voru hækkadar festur á sumum lènum. Systkin tvö gátu barn saman í Ísafjardarsýslu, þau voru úng bædi, ok var sett til konúngs um líf þeirra, en hann dæmdr á Brimarahólmi. Þá deydi Björn Hrólfsson í Dal, ok Þórdr Bjarnarson nefndarmenn í Húnavazþíngi. Var afli mikill fyrir nordan ofanverdt sumar. Hallr prestr Ólafsson frá Grímstúngum, Hallssonar, lèt þá af prófastsdæmi í Húnavazþíngi, hann var fadir Halldórs prests at Breidabólstad, en tók vid Ormr prestr Bjarnason prests frá Mývatni, Ormssonar, hann átti Íngiridi, dóttur Páls prests Jónssonar á Melstad. Sigurdr prestr Högnason frá Einholti prests, Gudmundarsonar prests, Ólafssonar prests ok skálds frá Saudanesi, gjördist prófastr í Skaptafells-sýslu, ok var frómr madr ok gudrækinn, ok allvel lærdr, hefir hann ordit kynsæll madr, en Björn Þorláksson, Grímssonar smids í Vidvík, vígdist fyrst kapellán at Hjaltabakkà. Þá brann hinn 14da dag septembris bær at Kaldbak á Tjörnnesi, med fjórum mönnum, en 6 kom-

ust af, ok þó mest fyrir fylgi adkommmanns eins; en nóttina eptir hinn 10da októbrís, hálfum mánudi fyrir vetr, fèll Grjótskrida ógrlig úr fjalli uppundan Bjarnastödum í Vazdal, ok tók af bæinn ok 6 menn, var þarmed bóndinn ok kona hans, hljóp hún sídan í ána, ok stífladi hana, svo ei mátti framkomast, nádi sú skrida sudr til Márstada, ok tók þar nokkud af velli, en spillti sumu, vard af henni, ok svo stíflum þeim, er áin gjördi, mikill skadi á jördum beggja vegna í Dalnum, allt fram at Hvammi ok Kornsá, svo leiga fèll af stórum. Jón prestr Þórarinsson í Hjardarholti gjördist þá prófastr í Dölum. Gudmundr Bergmann, son Steins biskups, hafdi komít út um sumarit, ok tók hann nú skólameistara-sýslu á Hólum, en í Skálholti var enn Erlendr Magnússon, ok fór Jón prófastr Halldórsson þángad, at setja skólann ok gjöra adra rádstöfun þá er þurfti, ok svo gjördi hann haust ok vor medan hann var vid þat. Í þann tíma bjó Jón Magnússon enn í Sólheimum, ok var gamall, en ei vitum vèr víst, hvert þat var nú eda fyrri eda seinna, er hann fèll í hórdómi þridja sinn, ok gaf þá kongr hönum líf. En eptir þau tídindi, er ádr næst var frásagt, gjördi vetr gódan.

## XLI Kap. Andlát Lárusar lögmanns, ok frá eldi.

1721 Nóttina milli hins sídasta dags febrúaríí mánadar ok hins 1ta marzíí andadist Lárits Gottrûp á þíngeyrum, er lögmadr hafdi verit, hann hafdi legit viku, ok var þremr vetrum betr enn sjötugr; var hann grafinn nordanverdt í kórnum þar at kyrkjunni, hinn 8da dag marzíí mánadar, er var laugardagr annar í laungaföstu, ok útför hans gjör virduglig í vidrvist margra gódra manna, en sídan kyrkjan var mínkud, er nú legsteinn hans mikill utan kyrkju; Katrín, kona hans, hafdi lífsbrèf fyrir klaustrinu, hafdi hann fengit henni um vor 200 dali til eptirgjalds, önnur 200 til eignar, þridju 200 til erfíngja. Þá var vorgott; en hinn 4da sunnudag frá páskum, þridja í sumri, er var 11ti dagr majíí mánadar, heyrdust í gódu vedri nordanlands dunur miklar í sudri, þat var um hádegisbil, var því líkast sem skothríd væri, gengu þær svo allt til hins næsta frjádags, ok sást þá eldr gjósa á lopt upp nær í hinni sömu átt, ok eigi lengi; en þeim eldi fylgdi myrkr mikit sunnan ok

sudaustan, ok jókst því meir, er á leid daginn, ok um midjan aptan var þat svo mikit, ok þadan af til náttmála, at traudt mátti sjá frá sèr, fylgdi því svo mikit sandfall um Nordrlandit, allt vestr til Svarfadardals, at sporrækt vard á túnum, en hverki mátti kalla at myrkrid eda sandrinn nædi lengra; þó er sagt, at sporrækt yrdi sumstadar í Skagafirdi; eymdi af því nokkra daga. Sá eldr kom úr Kötlugjá, ok spillti vída jördum á austrsveitum, ok gjördi ófærd mikla vestr þadan, er leid liggr til Mýrdals; hann eyddi bæ at Hjörleifshöfda, en menn komust undan. Hlutir voru þá allgódir. Þat spurdist med skipum, er þau komu út, at fridr var ákominn med Dönum ok Svíum. Kom þá út á Eyrarbakka Þorleifr prestr Arason, er utan hafdi farit eptir biskupsdæmi; hafdi hann ei fengit, þvíat þeim í Kaupmannahöfn þótti hann of úngr, ok adrir eldri ok betr tilfallnir vera í landi hèr, fè hafdi hann eydt ok eigi annad, en vard nú þó prófastr, ok gengu hönum lèttara veraldligar sýslanir enn prestsverk. Var þá Magnús kapteinn, bródir hans, skipadr híngad til mælínga, hann hafdi verit í herförum med Tórdenskjold. Var enn biskupslaust í Skálholti, ok hèldu prestar fast á, at Jón prófastr Halldórsson færi utan, ok þat vildi amtmadr. Leid nú svo fram til þíngs.

## XLII Kap. Þíng, sýsluskipti, konúngsbrèf ok annat.

Nú ridu menn til þíngs, ok setti Páll Vídalín ok Oddr þíngit, þar komu þessir fyrirmenn: Njels Kjèr ok Benedikt Þorsteinsson Víselögmenn; Jón Ísleifsson úr eystri Skaptafellssýslu, hann fèkk þá sýsluna eptir födur sinn; Bjarni Nikulásson sýslumadr úr vestri Skaptafellssýslu; Hákon Hannesson úr Rángárþíngi; Grímr Magnússon, hann var son Magnúsar bryta Gíslasonar, hann hafdi sókt um Árness-sýslu, ok fèkk hana; en Brynjúlfr Þórdarson hafdi fengit lausn, ok þótti mönnum þat nokkut skjótligt, svo mikit sem hann hafdi bodit til í fyrstu, ætludu sumir valda mundi þras nokkurt um medferd á herskipinu Gottenborg, er brotnad hafdi, ok fè þess, en þat var ásamt at hann vildi ei vera vid atferli hid nýa á málunum, ok Norskulaga reglur. Sigurdr Jónsson, Sigurdarsonar úr Borgarfirdi; Sigurdr Sigurdarson lögmanns, Bjarnarsonar, úr Mýrasýslu; Vigfús Árnason úr Hnappadal;

Ormr Dadason, Teitr Arason af Bardaströnd, Markús Bergsson úr Ísafirdi, Jóhann Gottrûp úr Húnavazþíngi, Jens Spendrûp úr Skagafirdi; Hannes Lárusson Skevíng úr Eyafirdi, hafdi þá fadir hans látit þar af sýslu, en amtmadr sett hann fyrir sýsluna. Bessi Gudmundarson úr Sudr-Múlaþíngi ok Hallgrímr Jónsson Thorlacíus komu ekki. Þar var dæmt um Dada Sigurdarson ok Gudrúnu systkinin úr Ísafirdi, fór Dadi á Brimarahólm, ok losnadi þadan aptr, ok kom frá hönum margt fólk; en Jón Vigfússon ok Helga Skúladóttir úr Skaptafellssýslu voru dæmd frá lífi fyrir dulsmál; var felld fèsekt á Bjarna Nikulásson sýslumann fyrir illa vöktun á Jóni. Þá hófst setskautamálit, ok sókn á því móti Oddi Sigurdarsyni, hafdi Oddr látit dæma þeim manni hýdíngu ok haft í járnum, er Einar hèt Hákonarsson, fyrir töku á brókarskinni, ok hann reyndist eigi valdr af, en Páll Vídalín átti þar hlut at, ok var Oddi gjör fèsekt. Var nú ok talat um med hverjum hætti Oddr væri kominn at Snæfellsness-sýslu ok Stapa-umbodi, hafdi amtmadr kært at hann hefdi tekit hverutveggja undir sig leyfislaust, ok vard nú Oddr at láta þat af hendi, ok hèlt ei eptir nema lögmannsdæmi; en Jóhann Gottrûp var settr fyrir sýsluna ok umbodit, ok tók at vaxa hans uppgángr, hafdi hann þá ádr fengit konúngsbrèf fyrir Húnavázþíngi, en Jens Spendrûp fyrir sýslu í Skagafirdi. Ýmsar voru þar skærur. Þeir Oddr ok Njels Kjèr dæmdu í Fagradalsmáli svokölludu, skyldi Þorsteinn í Búdardal, son Páls sýslumanns Torfasonar, svara Fagradal innra til lögerfíngja Rögnvalds Sigmundarsonar sýslumanns, en taka aptr Brunná af Jóni Magnússyni, er erfíngi þótti vera. Þar var lesit konúngsbrèf um pólítí-tilskipun, ok skilmálar Odds vid Gudmund í Brokey, kalladi Oddr þá helzt til harda sèr, ok lèzt hafa leitad konúngs um, at láta þá koma undir dóm, ádr enn hann fullnægdi þeim; ok ádr þíngi lauk, appellèradi Oddr frá Víselögmanna dómi um setskautamálit; tók nú mjög at gánga á hann. Jón prófastr Halldórsson hèldt Synódalsrètt med amtmanni, ok þá lèt Steinn biskup yfirskoda at Þíngvelli ok at Kalmanstúngu, med hinum helztu mönnum úr hverutveggja biskupsdæmi, þat sem gjört var vid kyrkjusidalög, en baud þeim sídan nordr at Hólum, til at ljúka því verki, ok vard þó ei af því at sinni. Eitt konúngsbrèf var gefit Margrètu Sæmundardóttur, ekkju Þórdar prófasts at Stadarstad, ok Sigrídi Hákon-

ardóttur, er átt hafdi Sigurdr prófastr, er þar var fyrrum, módur Odds lögmanns, at þær skyldu njóta 8da hlutar af inngjöldum á Stad, bjó Sigrídr í þann tíma at Raudamel, ok var hnigin mjög á efra aldr, var hún audug ok skörúngr mikill. Þá var enn konúngsbréf til admírálsins Pètrs Rabens stiptamtmanns, at hann skyldi halda Njelsi Fúhrmann amtmanni til at gjöra annadhvert, hlýdnast Hæsta-rèttar dómi í því at fá Apolloníu Swartzkopf, eda gjalda henni 200 dali hvert ár af launum sínum, því Apollonía hafdi kært þat fyrir konúngi, at hann hefdi hverki haldit dóminn, nè vildi halda; gjördist þó ekki meira at því um sinn. Jón Gíslason vard þá prófastr í Eyafirdi.

## XLIII Kap. Frá Birni Pètrssyni.

Björn Pètrsson hafdi lengi búit at Bustarfelli, ok haft Nordr-Múlasýslu, hann var mikill af sèr ok stórmannligr, audugr ok at öllu mikilhæfr; erft hafdi hann Bjarna hinn sterka bródur sinn, nema þat er Bjarni hafdi gefit Jóni láng sveitardreng fóstrsyni sínum. Svo er sagt, at ordit hafi skipbrot í sýslu Bjarnar, ok er margrædt um þat; ok svo at hann hafi tekit duggu hollenzka, ok látit byggja af Bustarfellsbæ af gódum kostum, ok skipbrotsmenn starfa at því, voru slíkar duggur ófridhelgar, en eigi allstadar gengit eptir hversu med var farit, er sagt at timbrmadrinn hafi einusinni mælt, ok svarit vid, at sá bær mundi brenna at kolum. Björn var ör af fè, ok bjargvættur þeim, er leitudu hans, ok eigi sídst sekum mönnum, hann átti Gudrúnu, dóttur Marteins Rögnvaldssonar sýslumanns, þeirra börn voru Marteinn á Bustarfelli, Gróa, kona Högna Eyríkssonar stóra frá Búlandi, Pètr, Þórunn, er átti Benedikt lögmadr Þorsteinsson, Ragnheidr, kona Bjarnar í Bödvarsdal, Ólafssonar prests, Ásmundarsonar, Jón á Eyrarlandi, Elízabet, Gudrúnar tvær, vard önnur úti á Reykjaheidi, en önnur átti Einar prest á Skinnastödum Jónsson prests, Einarssonar prests, Nikulássonar. Flest voru börn Bjarnar mikil vexti, en lítt var þeim fèsæld lagin, sem hönum. Björn lèt þessi misseri af sýslu, ok tók vid lögsagnari hans, Þorsteinn Sigurdarson frá Jörva í Haukadal, Þorgilssonar, Sveinssonar, er ádr hefir verit getit, Herdís hèt módir hans, Þorvardsdóttir frá Brennistödum, Runólfssonar frá Einarsnesi, Sigurdarsonar,

fèkk hann konúngsbrèf fyrir sýslunni; þorsteinn var vitr madr, búsýslusamr ok læknir, gamansamr ok hagordr, óbreytinn ok hófsamr, hann var fadir þeirra Pètrs sýslumanns ok Sigurdar gullsmida-öldúngs.

## XLIV Kap. Biskups-kosníng.

Þess er getit, at þá er þorleifr prófastr Arason var í Kaupmannamannahöfn, hafi Árni Magnússon heldr lagt í móti eyrindi hans, en mælt heldr fram med frænda sínum Jóni prófasti í Strandasýslu Árnasyni prests, Loptssonar, þeim er fyrri var skólameistari á Hólum, ok kallad hann betr til biskups fallinn enn þorleif; en herra Ditleifr Wíbe geheimerád ok yfirsekretèri fylgdi því þá, ok ritadi brèf Jóni prófasti Árnasyni hid sama sumar med Stykkishólmsskipi, sagdi svo at konúngr mundi vilja hann yrdi biskup yfir Skálholts biskupsdæmi eptir meistara Jón Vídalín, ok mætti hann fyrir því búa sig til utanfarar ok vígslu. Jón prófastr Halldórsson lèt í annan stad leidast af umtölum klerka, at búa sig til utanfarar, ok leita konúngs úrskurdar, ef engin skipun af konúngs hendi yrdi fyrri komin á, eda neinn sinna landsmanna vildi verda til, er sèr þætti hæfiligri; ok lèt fyrir þessa sök taka sèr far med Eyrarbakka-skipi, reid vestr frá þíngi til at búa sig, enn lèt þó sem grunr sinn væri, at tálman nokkur mundi á koma, er eigi var vænt; ok er skamt var lidit frá þíngi, fèkk hann pata af brèfi til Jóns prófasts Árnasonar, því sem vèr gátum, ok sendi þá mann ok brèf til hans, ok bad hann segja sèr skýlaust hvad í efni væri, eda hvad hann ætladist fyrir; lèzt mundi slá af utanför sinni, ef hönum væri skipat biskups-embætti, ok ei bekkjast til vid hann. Kom þat bod til Jóns prófasts Árnasonar hinn 12ta dag ágústí, ok hafdi hann þá fengit brèfit, þat er fyrst var nefnt, fyrir þremr dögum. Ritadi hann aptr þat sem satt var, ok kvadst ætla í herrans nafni at taka slíku nádarbodi konúngs, ok fara utan med hinu sama skipi; ok er Jón prófastr Halldórsson fèkk þat brèf, æskti hann hönum hamíngju til, ok lèt af utanför sinni, ok þó mörgum naudugt, ok med ámæli af sumum; en lèt hvern mæla þat er vildi, ok þóttist sleppa vanda med virdíngu, en lèt sèr lynda þann veg, er hann hafdi af hinum beztu mönnum, kalladi ok vel fallit, at annar gengist undir, þar sem gud vildi svo vera láta.

## XLV Kap. Mál, mannalát ok annat.

Þat sumar var misjafnt, vott ok ógæftasamt, heyadist þó betr enn líkligt þótti; haust var þvílíkt ok eigi lakara. Þá stefndi Njels Fúhrmann amtmadr Oddi lögmanni Sigurdarsyni til Íngjaldshólsþíngs, fyrir Njels Kjêr Víselögmann, fyrir þat er hann vildi eigi gjalda hönum þat, sem hann hafdi heitit Gudmundi í Brokey, ok ætla ek at Páll Vídalín hafi verit sóknari þar amtmanns vegna. Þar samdist svo med þeim umsídir, at Oddr skyldi gjalda amtmanni jardir þessar, fyrir 10 hundrud 37 dali, Midfell 60 hundrud med 19 kúgildum, Galtafell 30 hundrud med 6 kúgildum, Háeyri 12 hundrud med 16 dala landskuld, hálfan Kollabæ í Fljótshlíd 30 hundrud med 6 kúgildum, Seljaland 25 hundrud med 4m kúgildum, ok Tjarnir 10 hundrud med 4 kúgildum, liggja þær jardir í Árness- ok Rángárvalla-sýslum, ok eru til samans taldar 1 hundrad hundrada, 62 hundrud, en kúgildi 45, ok skortir nokkud á töluna. Litlu sídar, edr hinn 4da dag septembrís, deydi Páll prestr Jónsson á Melstad, en þareptir Ólafr prestr Þorvardsson á Breidabólstad, en seinast Páll prestr Jónsson á Höskuldstödum, er prófastr hafdi verit, bródir Steins biskups. Ólafr prestr Þorvardsson hafdi átta Önnu digru, dóttur Jóns prófasts í Vazfirdi Arasonar, ok födursystur Þorbjargar, er Páll Vídalín átti; þeirra börn voru: Gísli, Þorvardr ok Kristín, ok kom ei ætt frá þeim; en frá Páli presti á Mel er margt komit; hann var bródir Magnúsar lögmanns, var hans dóttir Ragnheidr, modir Einars á Söndum, ok önnur Rannveig, kona Brynjúlfs í Fagradal, þridja Íngirídr, er átti Ormr prófastr Bjarnason, fjórda Halldóra, er átti Páll Markússon í Kyrkjuhvammi, þeirra son var Markús prestr á Kúlu. Þessir deydu þá enn: Þorsteinn prestr í Grímstúngum, Dadi prestr gamli á Núpi Halldórsson frá Hruna, Ormr prestr at Hálsi í Hamarsfirdi Jónsson, Höskuldssonar, Einarssonar frá Heydölum, hann var ok gamall, Gísli prestr Sigurdarson í Otrardal, ok Einar prestr Ólafsson at Stad í Adalvík, hann var fadir Jóns prests, födur Hildar, er Snorri prestr átti Bjarnarson, Þorsteinssonar frá Höfn, Þorgeirssonar. Þórdr prestr fékk þá Hvamm í Hvammssveit, son Þórdar Finnssonar, hann var fadir Þorsteins prests ok Einars prests, er þar voru sídan. Jóhann Gottrúp reid undir Jökul vestr um haustit í búdamáli

móti Oddi, þar voru þeir Njels Kjèr Víselögmadr ok Sigurdr Sigurdarson landþíngskrifari settir dómendr, ok dæmdu þeir af Oddi þrjár þúsundir dala fyrir Búdafè ok adtekt þess, ok skyldi hann aptrláta alla gripi ok gersemar í gulli, ok svo málskostnad. En hinn 14da ok 15da dág októbris lèt Jóhann Gottrúp dóm gánga at Íngjaldshóli um mál milli Odds ok Jóns prests í Stafholti Jónssonar frá Einarsnesi, hafdi Oddr lögmadr selt Gudrúnu Eggèrtsdóttur Hamar í Borgarhrepp, ok brygdat aptr, ok dæmdi Jóhann af hönum 16 dali til Jóns prests, en Oddr appellèradi dóminn til lögþíngis hid næsta ár, þótt hönum kæmi þat fyrir ekki.

## XLVI Kap. Útkoma Apolloníu, ok Jóns biskups.

Vetr var þvínæst allgódr, voru þá prentadar at Hólum Píslarprèdikanir Jóns biskups Vídalíns, ok jók Steinn biskup einni vid, ok svo Hallgríms-Sálmar, en í Kaupmannahöfn spurníngar, er Jón prófastr Árnason biskupsefni hafdi tekit saman. Þá týndust þridjudaginn fyrst-
1722 an í föstu, er var hinn 17di febrúarii 6 bátar á Sudrnesjum, tveggjamanna-för, ok 12 menn á; eitt skip týndist vid Búdir med 6 mönnum, ok var einn Magnús, son Einars frá Hraunum nordan; þar bjó þá Eyríkr lögrèttumadr Steindórsson. Þat vor dæmdi Hannes Skevíng, sýslumadr í Eyafirdi, um kæru Sölva Tómassonar til Sigfúsar Þorlákssonar á Grund um húsrof; Sölvi hafdi alizt upp med Jóni Vigfússyni í Lögmannshlíd, ok var fadir Sveins lögmanns. Þá var vor íllt ok hart med snjóum ok hvössum vedrum til sólstada, ok verst í Borgarfirdi, svo þar gjördi peníngafellir, ok svo vídar vestr undan, en þadan batnadi, ok greri allvel, ok urdu hlutir gódir í Vestmannaeyum, en annarstadar í medallagi. Skip komu at vanda, ok kom út á Hólms-skipi stúlka ein norræn, þat var Apollonía Swartzkopf, ok vildi afstýra því at Fúhrmann amtmadr þyrfti at svara bótum, fyrir þat er hann hafdi brugdit vid hana eginordi, en telja hann á trúnad vid sig, ef hún mætti, fór hún til Bessastada, ok tók amtmadr henni at eins, ok veitti henni þar kost ok veru, en ekki vard af ástum þeirra, því Katrín Hólm kom út, ok módir hennar, er eins hèt, en sumir kalla dótturina Karenu, ok er hid sama; var eljuþústr med þeim Apol-

loníu, ok helzt med henni ok hinni eldri; komust þær mædgur brátt í meiri kærleika vid amtmann, enn Apollonía, ok sátu þar svo allar saman. Þá fèkk Jón prestr frá Miklaholti Stadarstad, fyrstr ósigldra manna þá um lánga hríd, son Jóns prests Loptssonar, Árnasonar, hann átti Kristínu Ólafsdóttur, þess er fyrrum hafdi verit sveinn Gísla lögmanns Hákonarsonar úngr, ok ádr er getit, Vigfússonar, Eyríkssonar, Steindórssonar á Ökrum. Á Eyrarbakka kom út Jón Árnason, ok hafdi verit vígdr til biskups í Skálholt um vetrinn seint í febrúarío, af Doktor Kristjáni Worm, Sjálands biskupi, svo at konúngr var vidstaddr, ok hinir ædstu höfdíngjar, hafdi hann fengit meistara nafnbót, sem þá var tídt, ok skorti þá vetr á sextugan, reid hann uppá þíng jafnskjótt, er hann var útkominn, ok hèlt synódum, sídan reid hann í Skálholt, afhendi þar húsfrú Sigrídr hönum stadinn seint í júlíí mánudi, ok brast mikit uppá hid frída inventaríum helzt geldneyti ok saudi, ok svo kúgildi ok landnaut, sem heim hafdi verit skilat bólu-árit, ok ei var sett aptr sídan á jardirnar; voru ok affeldir frídir peníngar á Stadarbúum; Skálholts kyrkja var ok laslig sunnan til, ok galt húsfrú Sigrídr í jördum ok peníngum nær tvær þúsundir dala, voru þaraf 7 hundrud dalir kyrkju-álag; en þó slík afhendíng væri gjör, þá vard ei talat út um þat at því sinni. Settist hún sídan at eignarjördu sinni Stóra-Núpi í Eystrahrepp, er hún hafdi látit húsa ágætliga, því hún var hin mesta merkiskona fyrir flestra hluta sakir; hafdi hún 6 eda 8 stólsjardir nálægar sèr til uppheldis.

## XLVII Kap. Frá ýmsu.

Alþíng var fátídt; sátu lögmenn Páll ok Oddr at dómum; þar gjördist lögrèttumadr úr Eyafirdi Pètr, son Bjarna prests Ormssonar at Grænavatni, bródir Orms prófasts á Melstad, ok bjó um hríd at Grund, en seinna at Kálfaströnd vid Mývatn, ok var haldinn í þann tíma med afburdamönnum at afli. Hann var fadir Bjarna prests, er seinna var at Melstad. Oddr lögmadr átti þar mál sín vid Jóhann Gottrúp, Jón prest Jónsson í Stafholti ok Gudmund Sigurdarson, ok var stadfestr dómr Gottrúps. Oddr lèt þá úti til konúngs fyrir ránga adtekt fèsektar fyrir skipsrekit af Páli Torfasyni 450 spesíudali. Ónýt vard

stefna Páls Vídalíns til Odds fyrir hýdíngu Bjarna vinnumanns hans um hrossskinns-lengju, ok fór Oddr sídan utan í málum sínum. Þorsteinn Jónsson hèt madr frá Höfdadal í Tálknafirdi, er barn hafdi getit vid bródurdóttur konu sinnar, þat var sagt andvana ok ófullburda, ok hafdi hann dulit þat í ýmsum stödum, en vildi eigi gánga vid mordi; hönum var dæmt líflát á þínginu, ok bjó hann sig ádr illa vid dauda sínum; en stúlkunni, er Gudrún hèt, fèkkst bót nokkur, ok var mál hennar borit fyrir konúng. Jón í Grenivík Jónsson, Sveinssonar, fèkk þá hálft Múnkaþverár-klaustr, ok Jóhann Gottrúp fèkk konúngsbrèf fyrir Stapa-umbodi ok sýslu, er hann var settr fyrir, med því sem hann hafdi ádr; Jóhann sat at Þíngeyrum, hann var skarpvitr ok framgjarn, lítill vexti ok óhöfdínglígr, en þó hinn hvatligasti, óhófsmadr mikill ok ofsafenginn, ok reid jafnan vid marga sveina, eptir þat hann komst í svo mikil völd. Hannes Skevíng fèkk brèf fyrir Vadlasýslu, hann var vinsæll madr. Ormr prestr Bjarnason fyrir Melstad, hann var mikill, sem frændr hans, öldúngsligr ok alvarligr, ok rædumadr gódr. Magnús kapteinn, son Ara Þorkelssonar, bródir Þorleifs prófasts ok Teits, er skipadr hafdi verit af konúngi ok Pètri Raben stiptamtmanni hid fyrra árit, at mæla hèr land, kom út, hann var hardhuga ok hvatfær til alls, ok bækladr allmjög. Enn kom út Magnús Benediktsson, ok hafdi konúngr gefit hann lausan af Brimarahólmi, hann var allr hnýttr, ok segir ekki meira frá hönum. Sumar var allgott frá alþíngi, ok makt, vard heyskapr gódr, ok nýttist vel; fiskifaung voru ok gód fyrir nordan land. Þá voru enn gefin út konúngsbrèf um sakamannadóma í hèradi, ok neitunareida. Deydi Bessi sýslumadr Gudmundarson í sydra Múlaþíngi, ok Ólafr Árnason í Vestmannaeyum, er kalladr var klaki, bródir Jóns í Keldunesi, var þar settr lögsagnari Sigurdr Steffánsson; en hinn 5ta dag ágústí andadist Lárits Skevíng at Mödruvöllum, hann hafdi verit forsjámadr mikill, ok audugr, ok virdr vel af hinum heldri mönnum, skorti hann tvo á sextugan. Þá dó ok Jón prestr Þorgrímsson, Ólafssonar, er lengi hafdi verit at Stad í Kinn, fadir Þorgríms prests, er þá var at Hálsi, ok var hann madr gamall.

## XLVIII Kap. Þræsur ok annat.

Haustit var gott, ok dó þá Skapti Jósepsson á Þorleifsstödum, ok hafdi verit jafnan virdr vel, ok var grafinn at Miklabæ, ok annar Jón Illhugason at Spákonufelli, er lögsagnari hafdi verit í Húnavazþíngi, vel at sèr í mörgu, ok virdr vel. Var þá haldit á Hólum á Michaelsmessu brúdkaup Sigurdar prests Einarssonar á Bardi ok Ragnhildar Gudmundardóttur, bródurdóttur húsfrúr Valgerdar, ok vard af þeim afkvæmi í Skagafirdi. Um þær mundir dö ok Anna digra á Breidabólstad, er Ólafr prestr Þorvardsson hafdi átta. Hinn 14da dag septembris dæmdi Hannes Skevíng sýslumadr í máli nokkru allillu, ok sámdi þó jafnframt, hafdi Sæmundr prestr í Stærra-Árskógi Hrólfsson, Sigurdarsonar, ok Eggèrt prestr, sonur hans, átt vid bónda þann, er Finnbogi hèt, ok var Jörundarson, ok bjó í Hrísey, sunnudaginn 8da eptir Trínitatis, ok veitt hönum æruleysis ord, ok barit hann til skemda, álýktadi sýslumadr, at Sæmundr prestr skyldi gjalda Finnboga 12 dali í krónugjaldi, ok Mödrufells hospítali fjóra, en Eggèrt prestr Finnboga 22 dali ok fjóra hospítalinu, ok setja bádir ved fyrir, ok ætludu flestir at prestum mundi þó verr reida, enn vard; gekk Eyvindr duggusmidr Jónsson, mágr Eggèrts prests, í vedit, ok lauk mest af bótunum, enda keypti hann Kúgil í Þorvaldsdal af Eggèrti presti fyrir 30 dali, en þat var 12 hundrud at dýrleika. Eggèrt hafdi verit sveinn Páls Vídalíns, ádr hann var prestr. Hinn 6ta dag nóvembris þareptir brotnadi Húsavíkr kaupfar, ádr þat kæmist útan, keyptu þat Benedikt Víselögmadr Þorsteinsson, er þar hafdi sýsluna, ok Magnús prestr Einarsson í Húsavík fyrir 30 dali. Gjördi þessu næst kaldan vetr ok illvidrasaman, ok voru þá skærur miklar ok vidsjár med Páll Vídalín ok Halldóri presti Hallssyni á Breidabólstad, hann var prestr hans, ok hefir verit margrædt um brögd þau, er lögmadr hafi freistad vid hann, en Halldór prestr var þó enginn ertíngamadr, hann var hinn frídasti madr, rèttvaxinn ok grannligr nokkud, hár ok sæmiliga stýrkr, bláeygr ok rjódr, hánefjadr nokkud, ok hafdi hár mikit ok raudgult, er fèll á herdar, fullkominn í máli, ok raddmadr gódr, ok kunni vel saung, skapstór, en mjúkr, ef hans var leitad vel, rádhollr ok allmargfródr ok skáld gott. Þat var einn dag, at prestr hafdi spurt at í fjölmenni, hver 1723

mestr syndari hefdi verit, ok var því ei brátt svarad, til þess er einn madr mælti, at þat hefdi verit Kristr; prestr kvad hann vel svara, ok bad menn ei hneigslast á, kalladi þat eiga svo at skilja, sem Kristi hefdi verit mestar syndir tilreiknadar, en ei at hann hefdi verit syndugr sjálfr. Þessu hinu sama hreifdi hann í Vídidalstúngu, vid Jón, son Páls lögmanns, ok fleiri menn, en þeir mæltu nokkut svo í móti hönum; hann var fastheldinn, ok var þat þá heldr tídt med mönnum, ok kom þá lögmadr at; Jón spurdi hann, hvert prestr taladi sátt, en lögmadr svaradi: eigi má svo mæla, því ritníngin kallar Krist fráskilinn syndurum, ok því er þat, þó meiníng prests sè eigi saknæm, þá mælir hann eigi rètt. Prestr hèlt á svari sínu, ok tók Páll vitni uppá, ok sendi biskupi, þetta var í janúaríó, ok veit eg ei gjörr hvad afleiddi. Margt fèll fleira í milli þeirra. En einhverju sinni fèllu brèfagjördir prests í hendr lögmanni, ok voru berordar, vard þá Halldór prestr mjög at brjóta af ok vægja, ok heita lögmanni gódu, ok var gjör sætt í medal þeirra. Med Halldóri presti var fóstradr Pètr Bjarnarson, er seinna vard prestr at Tjörn á Vaznesi.

## XLIX Kap. Manntapar.

Sá vetr var allr í hardara lagi til einmánadar, þá vard úti á Lágheidi nær Ólafsfirdi fimtudaginn seinastan í þorra Sigurdr prestr á Kvíabekk Bjarnason, Ormssonar, hann vanmegnadist, ok lagdist fyrir, en fylgdarmadr hans, er Sveinn hèt Ásgrímsson, beid um hrídina, ok komst heill af heidinni. Var Sigurdr prestr þessi fadir Símonar á Bakka í Yxnadal, er kalladr var Bech, en sjálfr grunadi hann Benedikt Bech um faderni hans. Dó enn Sigurdr lögrèttumadr í Húsey Illhugason. Skip týndist á öndverdri föstu í Gardi sudr med 7 mönnum, þat átti Halldór prestr á Útskálum, son Brynjúlfs, Ásmundarsonar prófasts á Breidabólstad, Eyólfssonar. Halldór prestr var dótturson Árna prests, er fyrr var at Útskálum Klássonar, Eyólfssonar, ok því hèt bródir hans einn Þorleifr Klás, er sídar bjó at yztu Grund í Skagafirdi nordr. Vor var þá gott, en hlutir litlir, nema í Vestmannaeyum ok Hafnarfirdi, þar voru 6 hundrada hlutir ok meiri, ok kom þá afli fyrir nordan land, fyrr enn vant var. Þat bar til hinn 22an dag aprílis, er var

sumardagr hinn fyrsti, at áttæríngrinn frá Mödruvallaklaustri, lagdi út frá Böggverestadasandi, þat var all-mikit skip at því áratali, ok skyldi fara til Grímseyar eptir fiski, sem venja var til, ok voru á 15 menn; þeir sigldu nordr í Fjördu þann dag, ok voru þar vid messu á bæna frjádaginn. Á laugardaginn lögdu þeir út á Grímseyarsund, en þar týndust þeir allir ok öll áhöfn þeirra, var þar med Davíd, son Lárusar sýslumanns, hann var um tvítugs aldr, ok því ei nefndr ádr, at ekki er frá hönum komit; ætludu margir at raudkembíngr hefdi klofit skipit, kom flak eitt af því upp á Upsaströnd, ok eigi annat. Þrettán dögum seinna enn þau tídindi urdu, skipti Hannes sýslumadr Stóradal í Eyafirdi til landskuldar, en þess er því getit, at 8 voru sameigendr ok fyrirmenn flestir: Brynjúlfr Þórdarson Thorlacíus, Gudmundr prestr Pálsson, Bjarni á Heylæk Sigurdarson, Árnasonar lögmanns, Jón Einarsson, er átti Ragnheidi Magnúsdóttur, Þorvaldr prestr Steffánsson, er átti Gudrúnu Eggèrtsdóttur, ok Einar Einarsson. Gudmundr skólameistari, son Steins biskups, hafdi fengit Margrètar Einarsdóttur, er Benedikt Bech hafdi átta, ok bjó þá at Sjáfarborg; hann fór 2m dögum eptir skipti þessi, hinn 9da í majó, en þridja sunnudag í sumri, 6ta frá páskum, á báti frá Íngvildarstödum, ok inn til Borgar, var hann þá hálf-þrítugr, med hönum var Sigfús, bródir hans, skólasveinn 14 vetra, ok Þorkell Þorsteinsson prestr þeirra, einnig úngr madr, ok enn Sveinn Eyólfsson, sveinn hans ok þá í skólá, ok Ólafr Jónsson, húskarl hans; þat var mælt, at prestrinn hefdi verit mjög ákafr til farar. Þeir druknudu skamt frá Íngvildarstödum, ok fannst lík Sigfúsar laungu seinna, undir slátt um sumarit, á Fagraness-sandi, ok skólameistarans þó viku seinna í Málmey, voru þau flutt til Hóla, ok grafin þar í kyrkjunni; lík Sveins rak upp vestr á Vaznesi, ok var þar jardat, en Ólafs á Borgarsand óskaddat; lík prestsins rak á Lánganesi ok kenndist eigi, var af höfudit. Var mjög á ordi gjört, hvert mótlæti Steinn biskup hafdi í misförum sona sinna. Hann lèt prenta Lasseníí hugvekjur þau misseri. Þá týndist skip á Hjallasandi med 9 mönnum. Ok enn vard þat til tídinda, um Grím Magnússon, er nýliga var sýslumadr ordinn í Árnessþíngi, ok þá bjó at Lángholti í Flóa, at hann bjóst til alþíngisfarar, ok er hann var í þeim búníngi, ok gestir med hönum, er þar voru komnir, settist hann at bordi um middegi, en um

máltídina stód hann upp frá bordinu, ok gekk út, ok kom ei inn aptr; en er mönnum lengdi, var farit at leita hans, ok fannst hann örendr í brunni þeim, er þar er vid bæinn; hafdi hann verit gedveikr, enn þó var upptækt gjört allt fè hans fyrir þessa sök, ok var Njels Kjêr Vise-lögmadr settr fyrir sýsluna. Nær hinum sama tíma druknadi Erlendr frá Stórólfshvoli, son Jóns eldra Vigfússonar, Gíslasonar, á heimreid undan Eyafjöllum, í Markarfljóti, en medreidarmann hans rak upp skamt þadan, kominn at bana, ok raknadi hann þó vid. Erlendr var fadir Vigfúsar prófasts at Setbergi. Þat vor, er áleid, gekk sótt mikil á Sudrlandi, ok var þó ei mjög mannskæd. Á þeim misserum gjördist Högni Sigurdarson prófastr í Skaptafells-sýslu, ok Sigurdr Jónsson, Steingrímssonar, prestr til Flugumýrar, en Sæmundr prestr Magnússon tók Fagranes.

## L Kap. Frá þíngi ok málum.

Oddr lögmadr Sigurdarson hafdi farit utan haustit fyrir, ok kom nú út fyrir þíng, ok hafdi ekki nýtt med at fara, vissi enginn hvad hann hafdi afrekat; komu þá ok önnur skip at venju; ok svo konúngsbrèf; var eitt um Biblíu, at Steinn biskup mætti prenta láta; annad um fángahalds kostnad; þridja stadfestíng veitíngar Spendrûps fyrir Reynistadarklaustri. Ridu menn nú til þíngs, ok settust lögmenn í sæti, Oddr ok Páll Vídalín, ok nefndu lögrèttumenn. Jens Wíum hinn danski hafdi þá tekit vid midhluta Múlasýslu, ok gefit til fyrir 7 árum sídan 300 dali, ok var hann einn af þeim, er eigi voru þá komnir á þíng. Þar var fyrst sóktr Bjarni sýslumadr Nikulásson úr Skaptafells-sýslu, ok Bjarni prestr Þorleifsson; en í annan stad sókti Snæbjörn frá Sæbóli, son Páls sýslumanns Torfasonar, er getit hefir verit, Orm Dadason sýslumann í Strandasýslu, sem dómanda, ok Markús Bergsson í Ísafirdi, sem mótstödumann sinn. Mál var ok í móti Jens Wíum um dóm í fadernismáli. Snæbjörn átti marga mótmælendr, ok hafdi ádr verit þíngat um hans mál í hèradi, hafdi hann margar þúngar ásakanir móti Ormi sýslumanni, ok þeir hverr í móti ödrum. Jón Hjaltalín mælti þar í móti Snæbirni um ord, er hann hafdi talat til Pèturs Arfvidssonar kaupmanns, ok baud hönum at kalla þau aptr, ok gjalda

málskostnad, en setja ella ved fyrir mál, en at þridja kosti óskadi hann at Snæbjörn væri settr í hald. Snæbjörn var málagarpr mikill, ok hafdi seint unnizt á hann; var þá dæmt at hann svaradi sektum, ok hann áminntr at haga sèr lögliga í málasóknum sínum; undan þeim dómi skaut hann sèr til ædri rèttar, ok eigi vildi hann ved setja, ok var hönum sídan dæmt hald, en þó járnalaust. Hannes Skevíng sýslumadr ok Hans, brodir hans, mæltu þar í móti kröfu Odds Sigurdarsonar til födur þeirra; en Jóhann Gottrúp lagdi fram reikníng yfir konúngsfè, er Oddr skyldi svara, en sumt var tekit í vardhald, ok kvadst ei vilja ábyrgjast, þó Oddr tæki þat aptr med ofríki, sem hann hefdi gjört hid fyrra sumar edr hans menn, brotit upp innsigladan hjall ok rænt þadan, ok gripit innsiglad góz; móti þeim reikníngi mælti Oddr, ok kvad hann bygdan á ójöfnudi Jóhanns einum saman. Þá var eitt brèf útgefit um þat sídan, at þau fengu líf systkin, Dadi ok Gudrún, ok skyldi Dadi fara á Brimarahólm, ok er ádr sagt af því. Hún skyldi at eins rýma Vestrland. Páll Vídalín þóttist bedit hafa skakka af vidskipti vid Brynjúlf Þórdarson, en taldi ásamt í hug sèr, at Nordrland hefdi átt prentverkit, ok þat væri rèttast, ok væri þat ófyrirsynju keypt af Brynjúlfi til Hóla aptr, hann kom at máli vid Stein biskup, ok taldi þat at Gudbrandr biskup hefdi gefit prentverkit Hólum, en nidjar Þórdar biskups ætti ekki í eda Brynjúlfr, ok kalla hönum hafa at sækja Brynjúlf um þat mál, ok gaf hönum skjöl nokkur, er þat studdu; bar þá biskup málit fyrir konúng, ok bad um kommissaríos, fèkk hann þá, ok baud sídan Brynjúlfi til varna, ok at nefna kommissaríos af sinni hendi, en Brynjúlfr kvadst koma mundi fyrir kommissaríos biskups á hinu næsta lögþíngi, eda hvenær sem hann vildi. Þat sumar dæmdi Jón biskup Árnason ok klerkar hans tvo presta af embætti, hèt annar Árni Jónsson at Hvítadal, son Jóns prests Loptssonar, ok brædrúngr vid biskup, hann hafdi bölvad sóknarfólki á Stadarhóli, er komit var til tída á jólanótt, af drykkjuædi, ok rekit þat úr kyrkjunni; enn annar hèt Gissur Bjarnason, sá var vid Hellna vestr, hafdi jafnan verit óþekkr ok vanþakkagjarn, en galt þó meir prettvísi annara med sjálfs síns vangá, en íllvilja, í því er hann var dæmdr um, en þat var at hann hafdi deilt út pappír í braudkrínglu stad vid sakramentis medferd.

## LI Kap. Mannalát ok annat.

Sumarit var gott fyrir nordan, en votsamt sydra ok vestra, fór þá sóttin yfir landit, ok kom nordr er'áleid, dóu eigi allfáir, ok helzt þeir, er voru vid aldr, eru nefndir Egill prestr Sigfússon í Glaumbæ, er fyrr var skólameistari, Gísli prestr Einarsson at Múlá, Ólufa Jónsdóttir, ekkja Gríms prests í Fljótum, vetri meir enn tíræd, Markús Pálsson, lögrèttumadr í Húnavazþíngi, fadir þorláks í Gröf, Jón prestr þórdarson at Tjörn, Jón prestr Grímsson at Hjaltabakka, födurbródir Grímólfs prests í Glaumbæ Illhugasonar. Fyrir sunnan dó Bjarni prestr Hallgrímsson í Odda, ok sumir segja Bessi Gudmundarson dæi fyrst á því ári, Árni prestr Sigurdarson á Skorrastad, ok Guttormr prestr í Hólmum, en Doktor Hannes biskup segir, at þeir hafi dáit hid fyrra árit; Gísli prestr Jónsson í Reykjadal, ok Dadi prestr Steindórsson í Otrardal, fadir Orms sýslumanns, einnin Árni Hákonarsson í Nordtúngu. Hinn þridja dag septembris mánadar andadist Sigurdr Bjarnarson, er fyrr var lögmadr, at Saurbæ á Kjalarnesi, var hann þá gamall mjög; en þá hafdi Páll Vídalín fyrir tveimr dögum samit klögun þúnga til konúngs, yfir Oddi Sigurdarsyni. Oddr lèt stefna Jóhanni Gottrúp á Ingjaldshóli fyrir hald á þíngskrifum, ok stód med korda sinn hálfbrugdinn, skammyrdti hann, ok lá vid mundi vega at hönum. Erlendr Magnússon, skólameistari í Skálholti, fèkk þá Hólaskóla, en Bjarni, son Halldórs prests at Húsafelli Árnasonar, var þá kominn út, ok tók vid skólakenslu í Skálholti. Var þá haust nokkud stopult; gjördi sjáfargáng mikinn fyrir nordan land um vetrnætr, fórst fè margt, ok brotnudu skip vída. þá andadist Ingiridr, dóttir Páls prests á Melstad, er Ormr prófastr Bjarnarson átti, ok margir adrir heldri háttar.
1724 Var sá vetr allr hardr med vedrum ok snjóum, helzt hid nyrdra, en fyrir austan gjördi fjárfellir, var ok lítit um hlutatekju; en vor á eptir gjördi allgott, ok grasvöxt, ok gekk fiskr snemmindis nordr fyrir land.

## LII Kap. Frá ýmsu.

Þau misseri brann Krabla, ok þornadi Mývatn at mestu; gaf þá konúngr tveimr mönnum útlendum leyfi til brennisteins-náms út hèr, hètu Holtzmann ok Sechmann. Steinn biskup hafdi fengit leyfit til ritníngar-

prentunar, þat er fyrr var útgefit. Í þann tíma andadist Loptr prestr Jósepsson í Skálholti nírædr, en Skapti, bródir hans, var dáinn ádr, sem fyrr segir, ok svo Benedikt prestr at Hesti, er annálinn samdi; Audun hèt sonur hans eptir Audunni presti á Hesti Jónssyni, Salomonssonar, því hann hafdi fóstrat Benedikt prest; sá Audunn vard prestr, ok var fadir þorvardar prests í Saurbæ vid Hvalfjörd. Erlendr Magnússon skólameistari fèkk Oddastad, ok andadist þar á hinu sama ári; þá fèkk þorvardr Bárdarson vonarbrèf um Kvíabekk, en amtmadr hafdi veitt þann stad Grímólfi presti Illhugasyni, ok gjördist þadan af kalt med þeim, ok er sagt þeir hafi lengi beizt brögdum, en Stígr þorvardsson á þóroddsstödum módurbródir þorvards prests dó. Sigurdr Sigurdarson landþíngskrifari fèkk Árness-sýslu, ok hèlt þó sýslan sinni, en Nikulás, son Magnúsar Benediktssonar, èr opt hefir verit getit, gjördist lögsagnari Hákonar Hannessonar sýslumanns; Jón prestr þorvaldsson at Miklabæ gjördist prófastr í Hegranesþíngi, en þorleifr prófastr Skaptason, er fyrri var, tók vid Múlastad um vorit. þá kærdi Jens Spendrúp sýslumadr á Jón Magnússon gamla í Sólheimum, vildi at hann gyldi skatt ok gjaftoll, ok hèlt Hannes Skevíng þíng um þat á Seilu at amtmanns bodi, samdist svo at Jens Spendrúp lèt af tilkallinu.

## LIII Kap. Frá málum.

Páll Vídalín nefndi lögrèttumenn í dóm at sunnan ok austan á alþíngi, þvíat Oddr var eigi kominn í tæka tíd, eda Benedikt; var þá upplesit konúngsbrèf, at lögþíngisdómum, er áfríadir voru, skyldi stefna til yfirrèttar hid næsta ár; sídan bad Páll amtmann setja Njels Kjêr í Nordr-lögrèttuna, svo málum manna yrdi eigi tafkad fyrir vanhirdíngu Odds, ok þat gjördi hann; fóru sídan mál fram, ok sókti Páll í dóm um hross-skinns-lengju eina, er Oddr lèt hýda fyrir vinnumann hans Bjarna Andrèsson saklausan, hafdi hann fengit konúngs uppreisn á því máli. Kom Oddr seint, ok freistadi hann at vefja málit, ok vannst ekki, ok var dæmdr í fèsektir stórar. þarum kvad Páll þetta:

Hross-skinns lengjan er nú elt,
allt fór þat med snilli,

hún hefir lengi legit melt,
lögmannanna á milli.

Skuldum var þá lýst á Odd miklum, ok heimtat ved fyrir lènum af hönum. Þar var dæmt mál Gudmundar Ólafssonar at sunnan, hafdi hann flogizt á drukkinn á skipi milli Hólms kaupstadar ok Seltjarnarness, ok druknudu af því 5 menn; var hann sídan dæmdr í hèradi á Brimarahólm alla æfi, en lögmenn linudu, svo vera skyldi at eins um 3 ár. Oddr sókti þar Jóhann Gottrúp um þat, er þeim fór í milli. var því máli vísat frá um sinn, ok Oddi dæmd fèsekt fyrir ólögliga sókn. Mörg mál voru þar önnur. Kom fram lýsíng med nafni Markúsar Bergssonar sýslumanns, at hann lýsti Snæbirni Pálssyni strokn-um úr Ísafjardarsýslu, en hönum var svo lýst: karlmannligr ok hrad-gengr í framgaungu, hávaxinn ok flatvaxinn, herdabreidr ok mittis-mjór, fótagrannr, þykkhendr, ok þó ei hardhendr, dekkri á hár ok brún ok brá enn jarpr, hefir mikit hár sem hrökkr nedan, rakar skègg-stædi, grannleitr ok kinnbeina-hár í andliti, med þunnt nef ok hátt framan, háleitr ok lánghálsadr, lesandi vel ok skrifandi, heldr sèr til gyldis, sem meiri menn til klæda, hátaladr, hradmæltr, hrokafullr, bítr á vörina ok sígr nefit, þá illu er at skipta, tekr ákafliga neftóbak, ok er af því nefmæltr, ok hid mesta drykkjusvín. Snæbjörn var þar staddr, ok þótti óvinveitt lýsíngin, ok bad um afskrift hennar, ok fèkk hana, ok fylgdi sídan at lögmanns bodum Sigurdi sýslumanni Jónssyni til Hvítárvalla. Jóhann Gottrûp kvadst hafa stefnt Oddi uppá æru hans, embætti ok fè, ok heimti at hann væri settr í hald, ef hann setti ei ved fyrir, at bída dóms á landi hèr. Lýsti þá sýslumadr í Árnessþíngi Sigurdr Sigurdarson landþíngskrifari haldi yfir Oddi, var ok Ormr Dadason vid þau mál, hafdi Oddr valit Jóhanni ærukrenk-íngarord í dóms-sæti, ok af því reis málit, ok setti amtmadr þá báda frá sýslum sínum Odd ok Jóhann til þess, er því væri lokit. Þar um hygg eg sè vísa þessi Páls í tídínda nafni af þíngi:

Nú er ekki neitt um sinn
naudsynligt at bóka,
Oddr, Jóhann, Ormr minn,
eiga at tæta flóka.

Konúngsbrèf voru enn fleiri gefin út, enn hèr getr, ok snertu lítt

almenníng. Steinn biskup var á þíngi, ok hittu þeir Páll Brynjúlf þórdarson, ok mæltu vid hann mál sín á þíngvelli; gat lögmadr svo umtalit, at Brynjúlfr kvadst ei mundi þreyta lög vid Stein biskup um prentverkit, ok játti þat eign Hólakyrkju, ok galt hönum svo marga peninga, sem þat var vedsett fyrir, ok at auki nokkut í kostnadarskyni, ok orkti Páll lögmadr um þat fagnadarvers, vegna Hóla ok Nordrlands. Var hann þá í veg allmiklum, ok þúngar urdu Oddi ákærur hans; en adrar ákærur, er Oddr sendi konúngi yfir sýslumönnum, komu fyrir ekki. Oddr sat þá í Rifs búdum, ok hafdi þar hús eitt, ok vildi gjarnan komast utan, en gat eigi.

## LIV Kap. Daudi Apolloníu.

Í þann tíma tók Apollonía Swartzkopf á Bessastödum sjúkleik heldr skyndiligan; hún kalladi til sín kaupmannssvein einn, er Páll Kinch hèt, ok sagdi hönum, at sèr mundi ólifjan gefit hafa verit í mat, ok þat mundi valda dauda sínum, ok bad hann bera kvedju frændum sínum erlendis, ok segja þeim svo; sídan andadist hún. Er sagt, at rök hafi fundizt til, at völskudrepi hvítu hafi verit komit í fædu hennar, þó þat ásannadist hèr lítt, fór Páll Kinch utan þat sumar, ok gjördi sem hún mælti fyrir, ok var tekinn undir próf, ok í eid sídan, en margt bar til, ádr þat kæmi lengra; mæltist málit mjög illa fyrir þeim mædgum á Bessastödum.

## LV Kap. Mál Jóns biskups Árnasonar.

Meistari Jón biskup Vídalín hafdi á hinum seinni árum sínum fengit at láni frá erfíngjum Torfa prófasts Jónssonar í Gaulverjabæ, reikníngsbók þá, er meistari Brynjúlfr biskup hafdi látit samsetja, um eign Skálholts stadar, ok afhendíngu sína á hönum til meistara þórdar ok þeirra vidskipti; var þeirri bók eigi skilad aptr, þá hann fèll frá, ok kom hún af því ófyrirsynju fyrir augu Jóni biskupi Árnasyni, hugdi hann þá at stólinn vantadi eptir henni stóra peninga á innstædu sína, ok þarmed brèf ok bækr; en þess er ádr getit, at Brynjúlfr biskup hafdi afhendt meistara þórdi undarliga mikit fè med stólnum; fyrir

þessa sök bad meistari Jón Árnason konúnginn um kommissarios, ok fèkk þá þetta sumar, en þat voru Kornelíus Wúlf landfógèti ok þorleifr prófastr Arason á Breidabólstad, vard þó ei af neinum atgjördum at því sinni, þvíat húsfrú Sigrídr sókti um adra kommissarios fyrir sig, en þat dugdi ekki, þótt hún teldi Jóni biskupi, at slík innstæda var hverki rètt köllud, nè til nytsemdar, hann stód se á sínu svari. Höfust ok fleiri tilburdir í þann tíma, er urdu hönum at umtals-efni sídan. þórdr hèt madr einn, skólagenginn, ok var Jónsson, lesinn nokkut, ok sèrvitr, hann hafdi farit í Middalssóknir, þar er Ólafr var prestr, Jónsson, Stéffánssonar, Hallkelssonar, ok bjó þar med módur sinni; Ólafr prestr var svaki mikill; hann kvad þórd koma sjaldan til kyrkju, ok taldi at því; þórdr segir, at hann flutti eigi öllu optar embætti sjálfr, ok kenndi þá þat eina, er ekki var verdt at gjöra sèr lángar leidir til at heyra; stód med þeim deila, þótt eigi yrdi meira af til þess, er hèr var komit, þá veitti amtmadr þórdi Reykjadal, en hann vard at fá vitnisburd af presti, ádr hann yrdi vígdr, bar þá prestr hönum, at hann hefdi spillt æskumönnum med nokkurum hætti, en þat gat hann ekki sannat, ok dæmdist hönum fèsekt í synódó; þó stód þórdi þat fyrir, ok fèkk hann eigi kallit, fór hann þá utàn, ok framadi sig vid háskólann, þó hönum skildist fátt rètt, ok lærdi hebreska túngu, því hann var allra manna næmastr ok minnugastr, en önnur not urdu sem verkast vildi, ok segir nú ei af hönum fyrst. Gísli hèt einn bóndi ok var Ólafsson, hann hafdi hverki heyrt guds ord eda tekit sakrament frá því 7 vetrum fyrir bóluna miklu, ok voru þat nú 24 ár, ok eigi hafdi hann tekit áminníngum neinum, var hann kalladr Fræda-Gísli; en 13 árum ádr hèr var komit, höfdu prestar borit hans mál fyrir valdamenn, hafdi því lítt sinnt verit, ok Gísli haldit fram þrái sínu, ok svo höfdu lidit 9 vetr til þess, er hönum var heitit bannfæríngu, ok búizt vid at fremja hana; var þat eigi óleyft, ok þarmed kalladi Jón biskup hana aldrei annat, enn útsetníngu af söfnudi, ok opinbera auglýsíngu þeirrar forherdíngar, er ádr var; þá er þat var borit fyrir hann tveimr vetrum seinna, enn þat var í þennan tíma, ok bannfærdi hann Gísla, þó sumir segi þat hafi eigi sked algjörliga; þóttust menn þó eigi hafa vitad dæmi til þess sídan í páfadómi, en ekki skipadist Gísli vid at heldr.

## LVI Kap. Frá ýmsu.

Þá var gott sumar, nokkut votsamt öndvert, en gjördi heyskap gódan, ok fiskafla nordanlands. Þat bar þá til í ágústí mánudi, at Arngrímr Bjarnason í Krýsivík Skálholts rádsmadr gekk í sölvafjöru med konu sinni, húskarli ok hjáleigumanni, klofnadi þá Krýsivíkr bjarg nidr í gegn, ok fèll tvítugt eda þrítugt grjót á mennina, ok var ein hella 13 fadmar á lengd, en 11 á breidd, hún tók manninn einn at mestu sundr, en klofnadi höfud Arngríms, ok mördust fætr konunnar, svo loddu vid líkamann, bein ok hold hins 4da kramdist allt, en einn hljóp í sjó útundan bjarghömrum, Hannes, systurson rádsmannsins, er seinna var prestr, son Þorláks sýslumanns Gudbrandssonar. Þat bar ok til á slætti álídnum, at madr leiddi kú til nauts at Gröf í Kaupángssveit, bóndinn átti nautit, er þar bjó, úngr madr ok ókvæntr, hann hèt Einar, sonur þess bónda, er Árni hèt Bjarnarson, ok var mjög í röskvara lagi at afli ok árædi; nautit vildi elta kúna af stad, þat var hyrnt ok íllt vidreignar, en Einar vildi aptra, snèri gridúngrinn at hönum, ok ætludu menn hönum mundi ei ofrefli, en þó lagdi hann Einar undir ok stángadi, ok fèkk hann af því bana viku sídar. Þá var haust hagstædt; en sunnudaginn 17da eptir Trínitatis, er var hinn 8di dagr októbris, framdi Jón prófastr Gíslason í Saurbæ embætti at Hólum í Eyafirdi, ok vildi heimleidis at því loknu, en er hann hafdi kvadt ok gekk úr badstofu, komst hann eigi lengra enn í bæardyr, ok var borinn þadan í skálann, ok andadist þar. Gísli prestr í Reykjadal hafdi andazt ádr, þegar veita átti Þórdi braudit, hann var son Jóns prests Erlendssonar í Villíngaholti, er mest ritadi fyrir Brynjúlf biskup; en sumir segja þat væri einnig á þessum misserum, er Egill prestr í Glaumbæ dó, sá er vèr gátum fyrri. Þá andadist enn Gudrún eldri Eggèrtsdóttir í Saurbæ á Raudasandi, er fyrir mjög laungu hafdi átta Björn Gíslason frá Hlídarenda, Magnússonar lögmanns, hana skorti tvo vetr á níræðan. Sigurdr, son Vigfúsar Árnasonar í Hnappadal, hafdi verit utan 4 vetr, ok komit út um sumarit, hafdi hann all-lítt numit, þvíat hann var eigi skarpr ok nokkud einfaldr, en fengit ord fyrir adra atgjörvi; hann hafdi hitt Stein biskup í Þíngreid, ok fengit med hönum skólameistara-embætti ok farit nordr, tók hann vid kensl-

unni, ok numu ekki skólasveinar mikit af hönum. Sigurdr var hár madr vexti, herdamikill, en midmjór mjög, stórbeinóttr í andliti, lidamikill í örmum, fótum ok höndum, ok þó ritari gódr, ekki var þá annar madr haldinn sterkari á landi hèr, ok fáir komust nær hönum um þat. Ólafr kyrkjuprestr í Skálholti, er verit hafdi med Jóni biskupi Vídalín, son Gísla í Njardvík, Ólafssonar prests á Stafnesi, Gíslasonar prests í Grindavík, Bjarnasonar, Gíslasonar frá Midfelli, Sveinssonar, var spaklátr madr, ok kom vel fyrir, ok þótti kunnugr sýslunum biskupa, sídan hann var í Skálholti, en lítt er oss kunnugt, hvad hönum var annad fundit til afbrygdis, þó hafdi hann verit vid háskóla, gjördist hann prófastr í Árnessþíngi. Njels Kjêr þíngadi hinn 3dia dag nóvembris um illyrdi Odds vid Jóhann Gottrûp hid fyrra haust, ónýtti ordin, ok dæmdi Oddi bætr stórar, en ei æruleysi, því hann
1725 hefdi viljad taka þar aptr. Var þá sá hinn næsti vetr allgódr, ok nokkut rosasamr, ok hlutir ei mjög miklir, en vorit eptir hart ok kalt, ok gródrlítit, til þess er 10 vikur voru af sumri.

## LVII Kap. Frá málum, sökum ok útförum Odds.

Um sumarit komu út konúngsbrèf, ok var veitt líf Kristínu, er barn gat vid Grímólfi, födurbródur sínum úr Skagafjardardölum, en eitt var til stiptamtmanns Raben, at hann hèldi sýslumönnum til, at leggja lögmönnum lid í lagaverkinu, ok sum fyrir lènum; Páll Vídalín ok kona hans skyldu halda Húnavaz-jördum; Sigurdr Steffánsson fèkk Vestmannaeyasýslu. Páll var á þíngi, ok Benedikt Þorsteinsson, ok gegndu málum; þar komu mál Jóns Ísleifssonar sýslumanns, ok Orms Dadasonar ok Snæbjarnar; var þar dæmdr ok höggvinn Jón Eyólfsson frá Þórarinsstödum í Seydisfirdi austr, ok brenndr kroppinn, hann hafdi naudgad dóttur sinni, ok drepit sídan barnit, en máli Halldóru, dóttur hans, var skotit til konúngsnádar. Þar var ok hengdr þjófr mikill úr Arnarfirdi úr sýslu Teits Arasonar, er Jakob Jónsson hèt, hann stal ekki minna enn 50 hundrada virdi; kom ok fyrir tindalámál Íma Arnórssonar úr Kjalarnessþíngi, þat sókti Jón Hjaltalín, en Jón Þorsteinsson vardi, ok vísudu lögmenn því frá at sinni, en Jón Hjaltalín taldi á þann dóm. Sídan kom Jóhann Gottrûp fyrir rètti, ok var nú

svo umskipt, at Páll átti at dæma Odd, var Oddr kalladr, en kom ekki. Dæmdu þeir Páll ok Benedikt lögmenn málit hinn 21ta dag júlíí mánadar, ok dæmdu af Oddi æru, embætti ok fè. Þar um kvad Páll Vídalín sídan í tídinda nafni:

Nú er sagan nógu laung,
nú eru dómar krepptir;
Broddi er kominn í glæfra gaung,
Gottrúp hrekr á eptir.

Konúngsbrèf eitt gaf líf Helgu Skúladóttur úr Skaptafellsþíngi, er sek var um dulsmál; í því máli kom fram þíngsvitni frá Bjarna sýslumanni Nikulásson, er hann gekk í móti ok adrir, en Jón Ísleifsson hafdi afhendt Jóni Hjaltalín, vann Jón eid fyrir þat, at hann væri þess valdr, en kvadst hafa tekit vid því af Jóni Ísleifssyni. Snæbjörn Pálsson spurdi Markús sýslumann Bergsson, hvert hann kenndist vid lýsíngu þá, er um sig hefdi verit gjör í fyrra, en hann neitti, ok vann eid fyrir. Sídan var lýst óskilamönnum, ok annat atgjört, sem þurfti, en eigi meira at stórmálum; hafdi þá Páll Vídalín dómssæti í yfirrètti at amtmanns skipun. Dæmt var allt fè Snæbjarnar Pálssonar undir konúng. Í synódó bar þorleifr prófastr Arason fram mál Fræda-Gísla, var hann stefndr þángat, ok kom ekki, ok vard ei meira atgjört at því sinni. Mörg tídindi urdu þá önnur, hafdi þat verit um vetrinn, at vedr mikit rauf vída hús ok hey, en um vorit hinn 9da dag maji, midvikudaginn næstan fyrir uppstígníngardag, at snjóflód tók bæ at Vazenda í Hèdinsfirdi, bóndann, er Tómas Pètrsson hèt, konu bans ok barn þeirra eitt hid ýngsta, en vinnukonu vard nád út um badstofu glugg þrekadri mjög, var hún flutt ofan at Vík, fèkk þjónustu, ok andadist sídan, enn hin eldri börnin voru í heytópt vid bæinn, ok fengu grafit sig út sjálf. Þorsteinn prestr Ketilsson gjördist þá prófastr í Eyafirdi, hann var frædimadr, ok hefir snúit á íslenzku sögu Lúthers, ok af Gústav ok Berthold, ok ritit annál; en Jón Pálsson vard prófastr í Strandasýslu. Heyskapr var gódr, ok nýtíng betri, ok afli fyrir nordan land. Kom út Kornelíus Wúlf, landfógèti í Hafnarfirdi; var þeim þá bodit þorleifi prófasti Arasyni ok Hákoni Hannessyni sýslumanni, at vera kommissaríis, ok prófa vandliga ok dæma sídan, hvert Apolloníu Swartzkopf hefdi verit fyrirkomit med ólifjani,

en Sigurdr sýslumadr í Arnessþíngi Sigurdarson skyldi vera sækjandi sakar. Er nú fyrst at segja frá Jóhanni Gottrûp, at hann vill víst taka undir sig fè Odds Sigurdarsonar eptir dómi lögmanna, fer hann at hönum í Rifi í húsi hans vid marga menn, ok var med hönum einn hermanna-fyrirmadr eda Löjtenant útlendr, er vel kunni at beita korda; Oddr sá at þeir mundi ei spara hann, ok brá hann kordanum, en hinn útlendi madr sló hann af hönum, ok var hönum sídan hamlad, tók Jóhann upp allt fèd smátt ok stórt, bædi þat er þar var, ok hvar sem hann stód þat, en Oddr átti vída fè, því hann var úmsýslu-mikill; tók ok þrenn 40 lód silfrs af Einari Illhugasyni, sveini Odds, fyrir þat er hann brauzt at kyrrsettu fè ádr, hann var son Illhuga prests á Kúlu, ok hid mesta illmenni. Jóhann gjördi Odd sem hrakligastan, ok færdi hann úr klædum, ok lèt hönum eptir hempu vonda, en hann var lagt fyrir þá ok ádr, at hann væri fluttr utan; var hönum fylgt sudr til Búda til Eyríks Steindórssonar, hann lèdi hönum hesta til Raudamels; en er Oddr fann Sigrídi módur sína, tók hûn hönum forkunnar vel, ok kvadst eigi mundi óvirda hann at heldr, þó hann væri þá ei betr búinn; gaf hûn hönum alklædnad gódan, ok fylgdi hönum sjálf til Stadar til Jóns prests Jónssonar, ok bad hann koma hönum í skip. Prestr var hardgjör ok skörúngr mikill, hann reid med Odd í Stykkishólm, ok fèkk talit svo um fyrir skiparanum, at hann flutti hann utan, ok segir nú eigi þarfrá meira at sinni. En Jóhann hèlt sig ríkmannliga af fengi sínum, ok var mikill uppgángr hans, reid hann vid sveina marga hvert sem hann fór, ok jafnan med hönum rádakona hans á þíngeyrum seinna Sigrídr, dóttir Salómons á Eyri, er týndi sèr í Rifi fyrrum, þau bjuggust mjög í skraut, ok drukku saman á ferdum, ok voru þá sem mestar veizlur Jóhanns ok ofsi hans, ok þareptir um hríd.

## LVIII Kap. Frá ýmsu.

Seint í ágûstó var þíng sett í Kópavogi í Swartzkopfsmáli, ok stód 6 vikur, var þeim mædgum stefnt þángat til at heyra vættisbûrdi, Katrínu Hólm ok dóttur hennar, en heimamönnum á Bessastödum til at vitna, ok mörgu fólki ödru um Álptanes ok Seltjarnarnes; Páli Kinch var stefnt þartil frá Eyrarbakka, ok kom hann ekki. Rak lítit, þvíat

kommissarîis kom í engu saman, vildi þorleifr prófastr fara í öllu, sem amtmanni var skapfeldast, en hann hafdi stefnt Páli Kinch um róg á heimafólk sitt, ok dæmdi þorleifr prófastr, sem hann vildi, Kinch í fèsektir stórar ok æruleysi, en hann skaut til hæsta rèttar, ok gjördist ei at adalmálinu. þat sumar fór Finnr utan, son Jóns prófasts Halldórssonar í Hítardal, ok var hann vel tvítugr. þá visíteradi Jón biskup Árnason Vestrland, ok þóttu mörgum þúngir kyrkjureikníngar hans. Var á því sumri kvillasamt, ok deydi Eldjárn prestr Jónsson nyrdra, hyggjum vèr hann væri son Jóns þórarinssonar prófasts at Hrafnagili, Jónssonar í Hafrafellstúngu, en fadir var hann Hallgríms prófasts ok Egils prests at Útskálum; einnin Jón prestr Sveinsson at Bardi, Gudmundr prestr Magnússon at Stafafelli austr, Jón prestr Sigmundarson gamli, er Jón biskup Vídalín átti málit vid fyrrum, nær níræðr; Gísli prestr Álfsson í Kaldadarnesi, fadir Álfs prests, er þar var sídan; Sveinn Torfason á Múnkaþverá, hans börn voru: Páll djákn í Vídey, ok þóra, kona Hannesar prests á Kvennabrekku Bjarnarsonar; Sigrídr, dóttir Jóns biskups Vigfússonar, er Magnús Bjarnarson átti, hún dó snöggliga, en Magnús fèll af hesti nokkru sídar, ok meiddist, ok vard ei læknad; þau höfdu búit at Eyrarlandi, Espihóli ok Stokkahlödum, ok hafdi Magnús þótt rausnarsamr ok göfugmenni, ok þau bædi; höfdu þau átt margt barna, Björn prestr var sonur þeirra, ok annar þorsteinn, er til menníngar komust, en dætr: Ragnheidr, er Steffán prestr fèkk þessi misseri, son Ólafs prófasts Gudmundarsonar á Hrafnagili, ok Helga, er átti Jón, son Bjarnar Pètrssonar á Bustarfelli. Einn madr spádi því Ragnheidi, at eigi mundi hún verda mjög gömul, en þann son mundi hún eignast, er mestháttar yrdi á landi á sínum dögum, ok þat höfum vèr spurt eptir Helgu, systur hennar, en hún var skrumlaus. 15 þíng lèt Jóhann Gottrúp halda um fè Odds, er eptir var, ok hrökk þat eigi fyrir því, er hann átti at svara. þá brunnu, nær höfuddegi, hús at Bæum á Snæfjallaströnd at Runólfs Ólafssonar, ok meir enn til 100 hundrada í lausafè. Á því hausti deydi enn Margrèt Sæmundardóttir at Stad, ekkja þórdar prófasts Jónssonar, en á öndverdum vetri Hildr Arngrímsdóttir hins lærda, módir Páls Vídalíns, vestr í Glerárskógum at dóttur signar; þeirrar er átt hafdi Magnús prófastr Magnússon at Hvammi,

var hún gömul mjög, þvíat þá skorti 2 vetr á 80, frá því er fadir hennar andadist. Þann tíma deydi einnin Pètr Dadason á Vallá í Kjós. Eptir þat gjördi vetr gódan.

## LIX Kap. Mannalát.

1726 Hinn 13da dag marzíí mánadar keypti Hannes Skevíng sýslumadr Espíhól med Vídirgerdi 100 hundrada, fyrir Bakka í Yxnadal ok Audnir, Hraunshöfna ok Bessahladni ok 5 hundrud í peníngum, þat eru 100 hundrud, ok jók vid Skjaldarstödum kyrkjujörd 20 hundrudum, ok ætladi at flytja þángad sjálfr, en Magnús bóndi Bjarnarson seldi. Er þat mælt um Hannes, at hann hafi þat sagt fyrir, at Jórunn kona sín Steinsdóttir mundi giptast eptir sig Steffáni Einarssyni, sveini sínum, var Steffán manna ófrídastr sýnum, en skarpr var hann ok lærdr vel. Hannes var á Múnkaþverá, ok hafdi búit þar 2 ár, ok haldit klaustrit, vard hönum eigi audit at fara þadan, ok andadist hann hinn 4ta dag mají mánadar, er var midvikudagrinn fyrstr í sumri; bjó Jórunn þat ár á Múnkaþverá, ok fór Steffán til ráds med henni; voru börn þeirra Hannesar ok Jórunnar Þórunn, Jón, Þorleifr ok Lárits. Halldór prestr Jónsson á Stad í Grunnavík hafdi andazt litlu ádr. Þat vor, segir Eyólfr prestr, hafi verit hlýtt ok þurrt, en hlutir medallagi sydra ok vestra, ok sanna þat fleiri, en adrir segja kalt ok íllt hafi verit vorit, ok trúum vèr Eyólfi presti betr, því hann var rèttordr; hann hèlt þá Vallnastad, ok var lærdómsmadr mikill, enginn var hann búsýslumadr, lítill vexti ok fóthvatr, kynligr nokkud, en svo glöggr í ritum, at þat hefir verit haldit svo rètt sem fást mátti, er hans hönd var á, hún var í settletri, bundin mjög, ok lítt læsilig óvönum. Konúngsbrèf kom út, at biskupar skyldu kynna lát presta hvert ár, þat var ei skjótt gjört, ok var optar ámálgat sídan. Fleiri voru útgefin, ok mest um einstaka menn. Undir Jónsmessu druknadi Vigfús á Leirá, son Jóns biskups Vigfússonar í Hvítá á Sámstadavadi, er hann kom frá Stadarstad vestan, hafdi viljad hjálpa sveini þeim, er med hönum var, ok farit hafdi undir bakka djúpan, þar áin var mikil, fèkk hann hólpit sveininum, en bar lengra sjálfan, ok nádi ei til þar, er hann hafdi stadit ádr, ok flaut sídan á eyu eina, þar nádi hann nidri, ok nam stadar;

enginn mátti duga hönum, ok lèt hann svo líf sitt, en lík hans nádist. Í hid sama mund andadist Elín þorláksdóttir biskups at Vídivöllum, at þrúdar dóttur sinnar, skorti hana 2 vetr á nírædan, ok voru 70 ár sídan fadir hennar dó, en 21 sídan bóndi hennar deydi, þorsteinn þorleifsson; þá dó ok Eyríkr prestr Bjarnason at Hallormstad, en Gissur Hellnaprestr, er frá var dæmdr, hafdi farit utan í málum sínum, ok med engu rádi, betlandi ok kærandi, ok vard ei annat fyrir, var hann þá ordinn flestum leidr, ok druknadi í Kaupmannahafnar gröfum seinast. Jón prestr Bjarnarson á Setbergi dó einnin, ok Arnfrídr Eggèrtsdóttir á Skardi, er átt hafdi þorsteinn þórdarson. Páll Vídalín lögmadr átti tvo sonu, er Jónar hètu bádir, ok frömudust hèr ok svo utanlands, dó Jón yngri erlendis þessi misseri; Magnús hèt hinn þridji son Páls, er sídan bjó at Núpi í Midfirdi. Allmargt fólk deydi þá annat, ok urdu einstaka misfarir.

## LX Kap. Frá málum ok ödru.

Jón eldri, son Páls Vídalíns, hafdi fengit um vetrinn Helgu, dóttur Steins biskups, ok var Lókator vid skólann, ok beiddist Páll at hann væri settr fyrir sýslu í Eyafirdi, er Hannes Skéving var fráfallinn, ok fèkkst þat. Setti þá ok amtmadr Jón Ísleifsson frá sýslu fyrir þíngsvitnis-málit, en skipadi í Skaptafellsþíng Jón þorsteínsson klaustrhaldara. Hákon Hannesson sókti um Rángárvallasýslu til handa Nikulási Magnússyni lögsagnara sínum. Steinn biskup lèt þá prenta Upprisusálma, er hann hafdi orkta sjálfr, þar um kvad einn madr þetta:

Saungva strengi eg sá eins
at öllu vel forgyllta,
Hallgríms prests ok herra Steins
í hörpu guds samstillta.

En þat þótti mikit oflof. Oddr Sigurdarson kom út fyrir alþíng í Stykkishólmi, ok hafdi þat eitt áunnit, at hann mátti stefna þeim fyrir hæsta rètt, er hann átti sakir vid, fór hann á þíng, ok auglýsti þar stefnu til Fúhrmanns amtmanns, Benedikts Víselögmanns þorsteinssonar ok Jóhanns Gottrúps. Hann vildi sitja í dómsæti, ok fèkk ei, ok þrasadi þó mikit til vid amtmann ok adra; Einar Illhugason vildi

ok hafa fram mál sín, ok var ei ansat. Þar kom Snæbjörn Pálsson, ok stefndi mótstödumönnum sínum, en því var eydt þá at sinni. Ími Arnórsson var þar dæmdr laus vid tindalamálit, því ekkèrt vard sannat á hann; hefir hann mjög ordlagdr verit um sundfarir, en þat kunnu fáir þá. At ödru var alþíng fátídt, nema því, at sýslumadr í Árnessþíngi lèt flytja Fræda-Gísla til Þíngvalla fyrir Synódum, þar audmýkti hann sig fyrir biskupi, ok tók lausn, ok fór heim sídan, ok var hann þá allr hinn sami. Steinn biskup sendi nú utan útkast til kyrkju-rítúals, ok Kyrkjulaga nýrra eptir Nórskulögum, kalladi samit af öllum kommissaríis, allt til hins 19da kapítula, en fjóra hina sídustu af sèr einum, fyrir því at kommissaríí vildu ei fara nordr. Þá voru 16 skildínga-peníngar feldir um einn, en 12 skildínga-peníngar um tvo, sem sídan hefir verit; ok var reist Bessastadakyrkja af tillögum annara kyrkna. Þau misseri dó Jón Steingrímsson lögrèttumadr í Skagafirdi, hann vard kynsæll madr; gjördist Árni prestr Þorleifsson prófastr í Rángárþíngi, en Björn, son Magnúsar á Espihóli Bjarnarsonar, Pálssonar, fèkk Bergstadi; Steffán prestr Ólafsson hafdi gengid at eiga Ragnheidi systur hans. Einar, son Magnúsar sýslumanns í Snæfellssýslu Bjarnarsonar, gjördist lögsagnari í Strandasýslu, hann átti Elínu, dóttur Hamraenda-Jóns. Nú kom bod alvarligt frá konúngi, at prófa skyldi Swartzkopfsmál af nýu, ok var Jón biskup Árnason skipadr hinn þridji kommissaríus; var þíngat á Kópavogi um sumarit, ok urdu þau atkvædi, at eigi mætti sanna þat Apolloníu hefdi byrlat verit ólifjan, voru þó sumra vitni þúng til Katrínar Hólm, en engin grunsemd vottadist um amtmann edr hans medvitund, nema hvad mönnum þótti hann verja heldr fast þær mædgur; hann fór utan um haustit med Búdaskipi eptir stefnu Odds, Jóhann Gottrúp í Stykkishólmi, ok þeir Oddr bádir, en Benedikt Þorsteinsson á Akreyri. Þat var gott sumar, ok fiskr fyrir nordan land, sem fyrri; haust var ok gott öndvert. Hafdi nú húsfrú Sigrídr Jónsdóttir fengit þá skipada kommissaríos af sinni hendi í innstædu-máli vid meistara Jón biskup Árnason, Jón prófast Halldórsson í Hítardal, ok Sigurd Sigurdarson eldra sýslumann í Árnessýslu, skyldu hverutveggi kommissaríí sætta biskupinn ok ekkjuna, edr skilja þau med dómi; stefna skyldi ok Brynjúlfi Thorlacíusi, ef at hönum kynni reka, eda nokkut koma til hans í þeirri

misklid; var kommissíon haldin í Skálholti frá 4da degi októbris til hins 23dja, lagdi þá fyrst meistari Jón biskup fram fyrir rèttinn reikníngsbók þá, er getit hefir verit, ok sídan Brynjúlfr Thorlacíus adra henni samhljóda ok fyllri í sumu, er meistari þórdr biskup fadir hans hafdi medkennt at væri afhendíngarbók Skálholts stadar; virdu því kommissaríí, sem hún væri hin fyllsta ok rètta afhendíngarbók, er átt hefdi at fylgja stadnum, ok fylgja eigi sídan; en, um þat, hvert þórdr biskup hefdi nokkru goldit fyrir þat, er Brynjúlfr biskup afhendi hönum med Skálholts stad meira, enn meistari Brynjúlfr hafdi tekit vid, sem bókin lýsir, eda hann hefdi fengit þess at gjöf Brynjúlfs biskups, komu engin lögliг gögn, er hrinda mætti ástædum Jóns biskups Árnasonar, en þær voru slíkar, at meistari Brynjúlfr hefdi af örleik sínum ok kristiligri gódvild gefit þat ok lagt til Skálholts stadar, sem taldist at upphæd 86 hundrud ok 30 álnir, ok þótt ekki kæmi fram, at meistari Jón Vídalín hefdi tekit vid þessu af Brynjúlfi, erfíngja meistara þórdar, þá fyrir því at hann hafdi svo frekliga kvedit at ordi í kvittanzíu þeirri, sem innfærd var í kaupbrèfit fyrir Teiga, at hann gaf Brynjúlf þórdarson kvittan, ok erfíngja hans um allt Skálholts stadar inventaríum, sem meistari þórdr fadir hans tók vid, en meistari Brynjúlfr Sveinsson afhendi, þá var húsfrú Sigrídr erfíngi hans ályktud skyld at gjalda þá skuld Skálholts stad, eigi seinna enn í næstu fardögum, ok biskupinum 60 dali edr 15 hundrud í málskostnad; en fyrir innihaldi bókarinnar virdist hún frí, því at hún reyndist eign erfíngja meistara Brynjúlfs, ok skyldi hún hafa virdíngu af, at skilja svo vid málit. Skyldi Brynjúlfr Thorlacíus fyrir þat innihald, ok nokkut fleira, sem ei hafdi verit goldit stadnum, gjalda henni 90 dali til lèttis henni, ok færa heim til stólsins þat, sem eigi var afhendt af hönum. Stód svo þau misseri.

## LXI Kap. Fráfall Jóns Pálssonar ok Bjarnar Pètrssonar.

Njels Führmann amtmadr hafdi skipat Jón Pálsson Vídalín fyrir Vadlasýslu um sumarit; hann reid um haustit med Steini biskupi nordr til Múnkaþverár, ok auglýsti brèf sitt at Grund í Eyafirdi; sídan reid hann til Mödruvalla, ok ætladi þadan vestr til Hóla; var med hönum

Jón, son þorláks prests í Miklagardi, Grímssonar, Sigurdarsonar sýslumanns, Hrólfssonar, úngr madr, vel tvítugr, ok mannvænligr, ok annar sveinn einn, er í skóla gekk úngr, þorlákr Londemann, son Torfa sýslumanns Hanssonar Londemanns. þeir ridu hinn 12ta dag októbris mánadar frá Mödruvöllum til Myrkár; þar kvad Jón vísu þessa, er þó er eignud Páli lögmanni födur hans:

Ó! hvad tíminn er at sjá
undarliga skaptr!
hvad mun dagrinn heita sá,
er híngad kem eg aptr?

þeir ridu um aptaninn sama á Hjaltadalsheidi, var vedr dymmt ok ískyggiligt, ok gjördi mikit frost ok fjúk um nóttina; var þeirra leitat eptir hrídina, ok fundust hestar þeirra med beizlunum á mánadaginn, en líkamir þeirra fundust ei, þó leitat væri optar, fyrr enn vorit eptir vid vördu þá, er vestan til er á heidinni, ok þóttust menn sjá merki til, at Jón þorláksson hefdi lagt yfirhöfn Jóns Vídalíns ofan á hann ok sveininn, ok brotit hana vel at þeim allt um kríng, en lagzt sídan skamt þadan sjálfr undir sídhempu sína. þann hinn sama dag, sem Jón vard úti, hèlt Ólafr prestr at Eyadalsá, son þorláks smids Grímssonar smids í Vidvík, brúdkaup til Sigrídar dóttur Kristjáns prests at Saudanesi Bessasonar, systur Jóhanns prests, ok druknudu tveir menn, er þeir fóru frá bodi. Helga, kona Jóns Vídalíns, var ekki einsaman þegar hann andadist, ok ól svein, ok hèt sá Jón eptir födur sínum; hún var sídan gipt Einari, syni Jóns prests þorvaldssonar, Hólarádsmanni, er lengi bjó í Vidvík. Páll lögmadr spurdi andlát Jóns sonar síns, hann tók þá at gjörast fóthrumr ok lítt fær, sendi hann handritara sinn Arnór, son Jóns Arnórssonar í Ljáskógum, at reka sýsluna. Tók vel upp snjó þann, er kom síd um haustit, ok gjördi vetr gódan. Um þat mund eda nokkuru seinna andadist Björn sýslumadr Pètrsson at Bustarfelli, var farit at stórmensku hans medan hann lifdi, ok útför gjör á þann hátt, at silfrdalr var látinn fylgja máltíd vid erfit til handa hverjum bodsmanni. Ok er margt manna frá hönum komit.

## LXII Kap. Upphaf Ólafssona.

Þá bjó í Svefneyum á Breidafirdi Ólafr, son Gunnlaugs, er þar var ádr, ok hefir einn ættfródr madr svo sagt, at Gunnlaugr hafi verit Ólafsson frá Dalkoti, Arnbjarnarsonar frá Frakkanesi, ok lángfedgum frá Ólafi á Hafgrímsstödum, en í æfi Eggèrts lögmanns, er hann kalladr Einarsson, ok vitum vèr ei hvad sannast er. Ólafr Gunnlaugsson var gódr bóndi, vel viti borinn, settr í rádi, skörugligr álitum, ok gyldr at öllu, hann átti Ragnheidi, dóttur Sigurdar lögsagnara frá Brjámslæk Sigurdarsonar frá Svalbardi, ok Gudrúnar Nikulásdóttur prests í Flatey ok undir Múla, Gudmundarsonar, Ólafssonar prests at Kvennabrekku, Moldar-Brandssonar, þeirra börn voru: Eggèrt, Magnús, Jónar tveir, Rannveig ok Gudrún, var Eggèrt borinn á þessum misserum, er nú var frásagt.

## LXIII Kap. Tilburdir um mannadruknan.

Hinn 12ta dag febrúaríí mánadar, er var midvikudagrinn þridji í 1727
þorra, ætladi þorleifr prófastr Arason á Breidabólstad at rída austr undir Eyafjöll, druknadi hann þá í Markarfljóti, en sá komst af, er med hönum var, rak lík hans upp á fjörunum litlu sídar. Gott var þá vor ok spakt, ok nokkut kalt, er áleid, vard af því gravöxtr midr enn ella mundi. Hlutir voru allgódir; en föstudaginn fyrir hvítasunnu, er var hinn 30ti dagr mají mánadar, týndust tvö skip, var annat áttæríngr med 12 mönnum, Grímseyarfar frá Mödruvalla-klaustri, er átti Hans Skevíng Lárusson, rak þat upp á Breidafirdi, ok ætludu menn þeir mundu hafa villzt í dymmvidri vestr í haf, en farizt sídan eptir lánga útivist ok harda; en annat var sexæríngr, er Jón Jónsson Grímseyarprestr hafdi fengit at láni, at sækja á til lands konu sína ok annann varnad; þau týndust þará bædi, barn þeirra ok stúlka ok 9 menn adrir, ok ætludu flestir verit hafa ofhlesst, þat rak upp í Fjördum til þess er átti. Skip týndist ok á Midnesi med 8 mönnum, annat undir Eyafjöllum, ok druknudu 9 búendr, en eptir voru 47 úngbörn ok ómagar. þá spjó Skeidarárjökull ok Öræfajökull um hvítudaga. Margt fólk dó þá í Skagafirdi, tók þar Glaumbæ Grímólfr prestr Illhugason, en Magnús, son Skapta Jósepssonar, fluttist til Vídimýrar, er hann hafdi

keypt af Benedikt lögmanni þorsteinssyni fyrir þorleifsstadi. þau misseri andadist Pètr Raben stiptamtmadr.

## LXIV Kap. Frá málum, ok fráfalli Páls Vídalíns.

Oddr Sigurdarson ok mótstödumenn hans voru þá utan; ok áttu þar mál saman, hafdi Fúhrmann amtmadr sigr í málunum, en Oddr fèll á öllum, ok missti nú æru ok embættis at fullu, ok skyldi gjalda amtmanni 100 dali í málskostnad; kom amtmadr út um vorit, ok Benedikt lögmadr, fyrir sunnan, en Jóhann ok Oddr samskipa fyrir vestan, skyldi Oddr gjalda Jóhanni ok Benedikt lögmanni hverjum 400 dali; gjördi Jóhann Odd sem hrakligastan hann mátti í ordum ok atvikum, ok er mælt, hann hafi sparkat í hann fæti þar hann lá, er þeir skyldu á land, ok illyrdt hann ásamt, vid þat fór Oddr til Sigrídar, módur sinnar á Raudamel, ok tók hún hönum nú þúngliga, en þó dvaldist hann þar um hríd. Benedikt lögmadr reid frá Eyrarbakka, þar hann hafdi komit út, ok til alþíngs, var þá Páll Vídalín kominn at nordan, ok mjög heilsulítill, hann kvad þetta, er hann reid á þíngit:

Leidast tekr himin ok haudr,
hagr bágr alla daga,
andvana frá aud burtvendi,
undarligt er stríd lífs stunda.

Hann setti þíngit, ok vard á því margt til umrædu med mönnum, sem þó var stundum venja í þann tíma; en brátt þareptir tók hann sótt, ok var Njels Kjèr Víselögmadr fyrir dómum at hans hluta. þar voru mörg mál, hafdi Teitr Arason af Bardaströnd tvö med at fara, um blódskömm ok hórdóm. þar var Bjarni Nikulásson sýslumadr stefndr um dóm, af þrúdi Magnúsdóttur, hún var fósturmódir Sigurdar Steffánssonar sýslumanns í Vestmannaeyum, ok var hann af hennar hálfu, þat mál var um jörd, ok þótti Bjarni sýslumadr hafa verit vottr sjálfr, ok vard fyrir fèsekt. Sídan kom Snæbjörn Pálsson med konúngs uppreisn á málum sínum, en þorsteinn bródir hans í Búdardal gekk í ved fyrir hann, ok gjördi þat er hann þurfti at gjöra, því hann var stilltr madr ok virdr vel, en Ormr sýslumadr Dadason vildi eigi gánga til þíngdeildar í móti Snæbirni; var sókt mál í móti Sigurdi Sigurdarsyni,

er lögfellt hafdi Snæbjörn med dómi, ok svo Ormi, var Jón Hjaltalín af hendi Sigurdar; hafdi Snæbirni verit hnekkt um álygar vid Orm, ok at hann hefdi rádit á hann í dóms-sæti, ok tekit korda hans af hönum, ok slitit hengit; var málit margflókit ok sókn, ok vörn mikil, en um sídir dæmdi Benedikt lögmadr þorsteinsson búslód af Snæbirni, ok hundrad dali tólfrædt til Orms sýslumanns, ok enn 70 dali í málskostnad ok annat; var hverutveggja at Ormr var lögkænn, enda átti ei Snæbjörn stofn gódan. Þar var lesit landfógèta-brèf Kristjáns Luxdorphs ok instrúkzíon hans, ok svo birtr Hæstarèttar dómr yfir Oddi Sigurdarsyni, ok sektir hans þúngar 580 dalir auk ærutjóns ok búslódar; einnin at Benedikt þorsteinssyni skyldi leggjast til hálf lögmannslaun ok tollar, sídan Oddr fèll í málin, en öll þadan af, en þann helmíng launa, er Benedikt fèkk ekki, eda fyrir þann tíma, lèt konúngr falla í sinn gard. Fúhrmann amtmadr hafdi mál á hendr Páli Vídalín, fyrir þat hann vildi eigi ljá klukku til yfirrèttar-hríngíngar, ok sendi tvo lögrèttumenn til tjalds hans, Steffán Jónsson ok Gottskálk þorvaldsson, at boda hann til andsvara, en hann lèzt eigi mundi um þat bæta, kvadst hafa lofad Jóni presti Halldórssyni á þíngvöllum klukkunni, ok er lögmenn kröfdu hann enn framar, lèzt hann eigi mótmælt hafa hríngíngunum sídan prestr leyfdi, en ekkèrt kom þat er vottadi nokkurn skilmála vid prest; gekk þá Ormr sýslumadr fram, ok lagdi fram skilmálann. Gottskálk bar þau ord frá lögmanni, at hann vildi engan láta svara fyrir sig, væri þat tímaspillir einn; en amtmadr heimti at hann væri sakfelldr, fyrir þat at hann hefdi viljad gjöra sèr óvirdíngu í slíku, bar ok fram leyfi Jóns prests Halldórssonar um klukkuna, á sama hátt ok fyrr hafdi verit; var þá lögmanni dæmd fèsekt. Einar, son Magnúsar sýslumanns Bjarnarsonar, en dótturson Einars prests Torfasonar, var þar, ok settr fyrir Strandasýslu, hönum var skipat landþíngskrifara verk þar á þínginu, þvíat Sigurdr var hindradr; kom þar fyrir þíngsvitnismálit í dulsmáli Helgu Skúladóttur, var stefnt Jóni sýslumanni Ísleifssyni, ok Jóni Hjaltalín, ok Jóni sýslumanni þorsteinssyni til andsvara vid Bjarna Nikulásson, vildi Bjarni synja fyrir med eidi, en sá madr, er Steíngrímr hèt, sór sig skrifat hafa, ok kvad Bjarna hafa þess bedit sig; vóru þar margir menn vidridnir, ok var málinu skotit til næsta alþíngis. Sídan var annat gjört,

er þurfti, ok fleiri voru þar mál. Páll Vídalín lá um þíngit, ok var Hólmfrídr, dóttir hans, er þá var í Skálholti, sókt þángat til at mæla vid hann; hún var þá kunnug Bjarna Halldórssyni, er þar var skólameistari í þann tíma, ok var þúngud, en er hún hafdi heilsat födur sínum, er svo sagt, hann hafi litit á hana ok mælt: gud hjálpi mèr, hvernin ertu? ok þau ord hafi hann mælt seinast svo menn heyrdu, en þetta hefir sagt oss vitr madr ok rèttordr, enda trúlofudust þau Bjarni litlu sídar. Páll lögmadr andadist 10 dögum eptir þat er þíng var sett, hinn 18da júlíí, sextugr at aldri. Hann hafdi verit hinn lærdasti madr ok hinn lögvitrasti, en þótt mjög undarligr í athöfn, ok átt í strídi vid ærit marga, hefir verit í munnmælum, at þat hafi sumt verit þeir menn, er bornir voru vid forneskju, ok allar lúta þeirra manna sagnir til, er sveinar hans voru, ok margir urdu prestar eda adrir fyrirmenn, ok haldnir voru rèttordir, at líkligan hafi hann sýnt sig til þesshátttar útistadna, ok til hins sama benda vísur hans sumar, ok er stór-undarligt um svo vitran mann. Hann hefir látit eptir sig ritgjördir margar merkiligar, sem voru Jardabókin, Fornyrdi lögbókar, ok um vidrèttíngu Íslands, er hann eignadi gudi, konúnginum ok födurlandinu, lagabók íslenzka, Sálma nokkra, þarmed voru Jesú minníng ok Á gud alleina, útlagdir bádir, vísur margar, ok skáldatal ok annara ritgjördarmanna. Var lík hans flutt at sunnan, ok fylgdu því meir enn 100 menn af alþíngi, ok flestir höfdíngjar; sídan var þat flutt nordr til Vídidalstúngu, ok jardat þar. Gjördist Njels Kjër lögmadr eptir hann sunnan ok austan, sem til hafdi stadit.

## LXV Kap. Frá ýmsu.

Konúngsbrèf hafdi komit út til biskupa ok lögmanna, at gjöra skyldu betri enda á kyrkjulaga-útkasti, en ordit var þá; þóttist Steinn biskup eigi fær til sudrfárar, ok baud þeim nordr til sín, er nefndir voru, en þar vard ei af, ok fórst þat svo fyrir. En á alþíngi því, er frá var sagt, hafdi kljádst út mál Jóns biskups Árnasonar ok húsfrúr Sigrídar; tók Brynjúlfr Thorlacíus aptr vid 50 hundrudum í Teigi, því eigi prófadist at vera vafalaus bónda eign, en lèt Medalfell í Kjós 60 hundrud ok þarmed 10 hundrud í jördu, fyrir stóls-inventaríum, er hálfr Teigr hafdi

verit ætladr fyrir; lifdi húsfrú Sigrídr sídan í spekt; ok gjördi gott frændum sínum, heimamönnum ok fóstrbörnum: gaf hûn, sem fyrri segir, Magnúsi Gíslasyni, bródursyni sínum, Núp eptir sig 30 hundrud med hýsíngu allri, búi ok búshlutum, ok svo brædradætrum sínum, þeim sem hûn nádi til, bædi jardir ok lausafè. En þat er hid sídasta, sem Jón prófastr Halldórsson hefir frá sagt í biskupa-sögum sínum, ok þrýtr nú þær stodir sem adrar í frásögn þess er sídan fór fram. Sumar þetta um sláttinn, hljóp jökull fram eystra, segja sumir væri undir Eyafjöllum, en ek ætla helzt væri Öræfajökuli, þvíat úr hönum kom vatn ógrligt, sumir kalla Sídujökul, eyddust bæir nokkrir, ok týndust 3 menn, 600 fjár ok 160 hestar. Þá andadist Þórdr, prestr Gíslason í Medallandi, ok Sveinn prestr Þorsteinsson í Stóradal, Jón, prestr Eyólfsson, at Hvammi í Nordrárdal, hinn ýngri, merkiligr, ok Bjarni prestr í Dýrafirdi, son Brynjólfs í Hjardardal Bjarnasonar, Þorleifssonar, Bjarnasonar, Narfasonar ábóta; hann var gamall, en þó ókvæntr ok barnlaus, ok hafdi verit gyldr, ok atgervimadr mikill, ok átt opt í erjum vid Pál Torfason sýslumann, ok haldit hlut sínum; einnin deydi Vigfús Árnason sýslumadr í Hnappadal, ok Ragnheidr, er átt hafdi Sigurdr lögmadr Bjarnarson. Grímr gjördist lögsagnari í Húnavazþíngi, son Gríms í Brokey Jónssonar lögsagnara, Össurarsonar lögsagnara, er sagt sá Össur kæmi af Lánganesi nordan, ok byggi sídan á Framnesi í Skagafirdi, en væri þareptir lögsagnari á Bardaströnd. Steindór Helgason, Ögmundarsonar, Sigurdarsonar frá Bjarnarhöfn, var settr fyrir Hnappadalssýslu. Hvalrekar voru þá miklir á Sandarekum, en sumar var votsamt sudr ok vestr, því meir sem á leid, ok nýttust ei vel hey. Fiskr var fyrir nordan land. Þá kom enn út Páll Kinch, ok var ordinn undirkaupmadr á Vestfjördum, hann hafdi Hæstarèttar stefnu til Þorleifs prófasts Arasonar, er fyrr hafdi dæmt hann frá æru, ok svo til Fúhrmanns amtmanns; var Þorleifr prófastr druknadr, sem fyrr segir, en stefnan þó lesin yfir gröf hans, en amtmadr fór utan á Eyrarbakkaskipi, ok fèkk ósigr í máli sínu, skyldi gjalda Páli 300 dali, en Kornelíusi Wúlf landfógèta 50, því hann var í málinu, ok 50 til Kristjánshafnar kyrkju, ok galt hann þess mest, at Þorleifr prófastr var fallinn frá, en vansèd hvert Kinch fengi bætrnar af erfíngjum hans. Kornelíus Wúlf hafdi sagt af sèr landfógèta sýslan hèr, ok því fór hann

M 2

utan, þótti hann hafa verit þollítill um skuldaheimtur, því menn voru þá óvanir svo hördu atkalli um þat, en var þó tregadr af mörgum sakir mannkosta ok trúfesti; var í hans stad kominn til landfógetdæmis úngr madr Kristján Luxdorf, ok hafdi látit lesa brèf sín á þíng. Þat sumar fèkk Nikulás lögsagnari, son Magnúsar Benediktssonar, brèf fyrir Rángárþíngi, en Jón Víselandskrifari Jónsson frá Túngu, Sveinssonar fyrir Vadlaþíngi, fèkk þó leyfi af konúngi til at búa í Grenivík, hann var vitr madr ok stilltr, gódgjarn ok gudfródr, vel í vexti ok álitligr; voru börn þeirra Gudrúnar þórarinsdóttur þórarinn ok Málmfrídr. Ormr Dadason var settr fyrir Dalasýslu eptir Pál Vídalín fráfallinn, hann var kyrrlátr madr, vel viti borinn, ok drjúglyndr; lèt hann af Strandasýslu, ok var hún bodin upp, ok hlaut hana Einar Magnússon, er þángat hafdi verit settr. Einar var lítill madr vexti, sem födurfrændr hans, en þótti nokkud grályndr, sem verit hafdi Einar prestr Torfason, módurfadir hans. Þá kom út frá Hóla prentsmidju Hugleidíng um tímann, Mánada-saungr Ólearíí, ok Mysteríum Mollerí. Brèf kom út med Höfda-skipi, ok sagt at væri frá konúngi, þat var til Odds Sigurdarsonar, er þá var sem verst kominn, ok leyfdi hönum utanför, ok at stefna máli sínu ok mótstödumönnum fram fyrir Hæstarètt, þó fèkk hann eigi fararleyfi fyrri, enn Sigrídr Hákonardóttir, módir hans, gekk í ved fyrir hann vid Jóhann Gottrûp, um allt þat, en hann skyldi lúka at Hæstarèttar dómi; gekk hann at því lagi, ok stefndi Benedikt lögmanni, ok Jóhanni Gottrûp, ok fór utan í Stykkishólmi, var sú hin 7da för hans, en Benedikt lögmadr ok Jóhann Gottrûp fóru hvergi. Þá vard Gudmundr prestr Vernhardsson prófastr í Bardastrandarsýslu, en Ólafr prófastr Gíslason í Rángárþíngi, ok hafdi þá fengit ádr Oddastad. Haust var all-íllt ok vott, fèllu skridur vída ok spilltu löndum, ok týndist Höfdaskip fyrir Ströndum, ok hvert mannsbarn af, nema einn, er komst at landi, ok dó þó litlu

1728 sídar. Vetr fór hardnandi, svo falla tóku hross í Skagafirdi, hann var hardastr fyrir nordan land, en hvergi gódr, ok vard vída fellir á fjám. Hlutir voru miklir, 6 eda 7 hundrud, ok at lestar hlutum, ok nýttust vel. Þat bar til um midjan vetr, at Magnús kapteinn Arason, bródir þorleifs prófasts ok Teits sýslumanns, var staddr í Hrappsey á Breidafirdi, þar bjó þá Benedikt bóndi Jónsson, Pètrssonar, var hann

þá vid aldr, ok átti Íngvildi Bjarnadóttur frá Arnarbæli, Bjarnasonar, Jónssonar Dans, Magnússonar, hann ætladi at flytja Magnús þadan sem hann lendti, ok vard ekki af, þvíat Benedikt var mjög drukkinn, ætladi þá Magnús at bjarga farángri sínum sjálfr, ok datt hann útaf báti ok druknadi. En á þorra sókti Magnús prestr í Húsavík Einarsson Skúlasonar, rekavid á báti, hann stjakadi med ár, ok brotnadi árin, en hann hraut útbyrdis ok druknadi, en adra sakadi ekki, var hann þó gyldligr madr at öllu, ok sökk þarmed aldrei í vatni, vard hann harmdaudi frændum sínum. Þau Oddný, kona hans, Jónsdóttir Árnasonar, höfdu átt 4a sonu, sem getit er ádr, þótti henni mest verdt um Jón eldra, því hann var afbragd úngra manna, en lifdi eigi lengi sídan; Skúli var 16 vetra eda 17, en Jón ýngri nokkrum vetrum minnr, vildi Oddný eigi giptast aptr, en rèdi þat þó af sakir sona sinna, ok med því at Þorleifr prófastr Skaptason í Múla hafdi þá misst Ingibjargar konu sinnar, er var bródurdóttir Einars biskups, þá giptist hún hönum, ok vann hann þat til at læra sonu hennar til lykta, þvíat þau höfdu ónóg efni, til at koma þeim í Hólaskóla, ok þótti eigi spyrjast þadan gott heldr enn fyrri, þá Sigurdr födurbródir sveinanna dó þar voveifliga, á dögum Jóns biskups Vigfússonar ok Hamraenda-Jóns. Skrifadi Þorleifr prófastr Skúla út sídan. Á þessu vori eptir dauda Magnúsar prests komu hafísar med sumarmálum, ok lágu til fardaga, ok var svo hart vor, at þeir sem lángt mundu fram, kölludu næst mundi gánga harda vorinu forna 1674 þá fyrir 54um vetrum. Vard þó afli gódr fyrir nordan eptir þat, er ísinn rak frá, ok hèlzt lengi. Þá gjördist Páll prestr, son Pèturs prests á Stöd Rafnssonar á Ketilsstödum, prófastr í Vestrahlut Ísafjardarsýslu, hann hèlt Álptamýri, ok var betrfedrúngr mikill. Brann þá hraunit hjá Heklu.

## LXVI Kap. Tilburdir fleiri.

Í þann tíma öndudust þessir menn: Teitr Eyríksson, ok Björn á Gudlaugsstödum Þorleifsson prests, Ólafssonar, Ketill Jónsson, ok Þorsteinn á Bjargi nefndarmenn í Húnavazþíngi, en Torfi prestr Hannesson í Saurbæ vid Hvalfjörd, druknadi í Leirá, sprakk bakki undir hönum ok hesti hans, ok týndist hvorutveggi. Þá dó ok Sigfús prestr Þorláksson í Glæsibæ, bródursonr Þórdar prests at Myrká, ok bródir

Sigfúsar á Grund, ok svo þórdís Markúsdóttir á Stokkseyri, hún fór skyndiliga af heimi um nótt, ok hafdi verit harla óvinsæl alla æfi, ok haldin fjölkunnug, var svo komit hrekkvísi hennar ok gudleysi, at lá vid hún yrdi bannfærd. þá andadist enn Einar prestr, er verit hafdi at Rip, af kvidar blódláti, ok var þá nyrdra, hann var Jónsson frá Fjöllum í Axarfirdi, Einarssonar, þorvaldssonar í Keldunesi Hólaumbodsmanns, hann var fadir Magnúsar á Jörva í Haukadal, ok enn þorsteinn prestr at Tjörn á Vaznesi Bjarnarson prests, þorsteinssonar, Finnssonar, hans brædr voru þeir þórdr Bjarnarson ok Jón laungetinn, gyldr madr ok sterkr, módurfadir Bjarnar prests í Bólstadahlíd; ok enn dóu tveir prestar sydra. þau misseri tók stiptamtmannsdæmi Kristján Gyldenkróne. Hvali tvo rak á Mödruvalla-klausturs reka, ok gjördi Hans Skevíng Lárusson mikit gott af vanefna mönnum, 2 rak vid Spákonufellshöfda, ok 100 smáhvalir nádust nær Blönduósi. Jóhann, son Kristjáns prests Bessasonar, vígdist kapellán til Svalbards, Ólafr Brynjólfsson til þíngeyra, en þórarinn Jónsson frá Hólmum austan kapellán til Bjarnar prests Bjarnarsonar at Brúarlandi, ok druknadi Ólafr lögrèttumadr í Hèradsdal þorláksson. Skip komu at vanda, kom amtmadr út sydra, en Oddr Sigurdarson sát í Kaupmannahöfn, ok gjördist ei at um hans mál. Konúngr lèt eptir Steini biskupi, at taka ríkisdal af hverri kyrkju til Biblíu-prentunar; hann gaf ok Magnúsi Gíslasyni frá Máfahlíd, Jónssonar biskups, brèf fyrir landþíngskrifàra-embætti, Fúhrmanni amtmanni stiptamtmanns umbod, ok Ormi Dadasyni brèf fyrir Dalasýslu, en líf þeim manni, er Sigurdr Tómasson hèt, ok sekr var um þrjú hórdómsbrot, skyldi hann vera 3 ár í þrælahúsi. Hann baud ok hardliga biskupum bádum, meistara Jóni Árnasyni ok Steini, ok lögmönnum Benedikt þorsteinssyni ok Njelsi Kjêr, at koma saman í Kalmanstúngu, ok ljúka kyrkjulagaverki, því er þeim var bodit, fyrir alþíng, ok senda til Kaupmannahafnar, ok er mælt þeir hafi gjört þat. þá er sagt at færi fram, at Jón biskup Árnason bannfærdi Fræda-Gísla hinni meiri bannfæríngu eptir rítúali, ok fengi hann af því margs manns ámæli, en Gísli gaf sig eigi vid þat. þann tíma hafdi þórdr Jónsson, er biskup hafdi vísad frá Reykjadal, tekit examen, sem kallat er, vid háskóla í Kaupmannahöfn, ok bar sig upp sídan fyrir konúngi, ok baud hann Jóni biskupi at vígja hann

Mál nokkur voru á alþíngi, dulsmál úr Kjós, ok annat hórdómsmál úr Ísafirdi, voru bædi madrinn ok konan sek um hórdóm þridja sinn, ok var þat borit fyrir konúng. Madr ok kona voru dæmd til dauda úr Ísafirdi fyrir barngetnad, hún var systir konu hans, ok voru þau tekin af. Þar kom ok þíngsvitnis-málit, ok var mjög óhreint, dæmdi Benedikt lögmadr þá báda, Bjarna Nikulásson ok Jón Ísleifsson, frá sýslu. At ödru var alþíng fátídt; en þeir Ormr Dadason ok Einar Magnússon tóku hverr vid sýslu sinni. Jóhann Gottrúp tók nú mjög at komast í skuldir af hófleysu sinni, mínkadi um sig, ok lèt af Húnavazsýslu, en Bjarni Halldórsson skólameistari festi hana, ok hafdi þó enn ei konúngsbrèf fyrir, tók aptr vid skólanum í Skálholti Jón frá Njardvík Þorkelsson ok Ljótunnar Sigurdardóttur, Árnasonar lögmanns. Steindór Helgason fèkk brèf fyrir Hnappadalssýslu. Svo bar til, at Teitr prestr á Eyri Pálsson, Torfasonar, bródir þeirra Snæbjarnar ok Þorsteins, fór í Almenínga á Ströndum eptir vidi, ok voru 9 menn saman á skipi, hann var starfsamr ok stórhuga ok mikill af sèr, sem hann átti ætterni til, gjördi þá austanvedr mikit, ok týndust þeir allir; hans synir voru þeir Magnús prófastr, fadir Markúsar prófasts í Gördum, ok Jón, er seinna er af at segja. Þá dó Brandr Bjarnhèdinsson, er lengi var hèradsdómari í Gullbríngusýslu, ok tók þarvid Jón Hjaltalín Oddsson. Var sumar allgott, en misjafnt at nýtíngum. Um haustit voru tvö mál í Eyafirdi, er Jón sýslumadr dæmdi, annat milli Hans Skevíngs á Mödruvöllum ok Sigfúsar Þorlákssonar á Grund, en annat milli Jóns prests Halldórssonar, er fyrr er getit, var í Grímsey, ok bónda þess, er Jón Þorleifsson hèt á Þverá, hann hafdi illyrdt prestinn, ok var hönum dæmd hin mesta hýdíng auk fèbóta. Þá hófst brennan mikla í Kaupmannahöfn, sem mestr skadi vard af, brann þar med ödrum merkiligum hlutum mikit af bókasafnadi Árná Magnússonar, en hann gaf fè sitt til fornfrædastundar íslenzkum mönnum, ok hafa margir haft not af því sídan í Kaupmannahöfn, ok vard þó hid mesta tjón af bókabrunanum, því hann hafdi dregit fornfrædi saman úr öllum stödum á landi hèr; en allmargt vard eptir. Var vidstaddr, er þær brunnu, med ödrum Íslendíngum, Finnr, son Jóns prófasts Halldórssonar í Hítardal, því hann var þá vid háskólann.

## LXVII Kap. Tídindi annat ár.

Á jóladaginn deydi Margrèt, kona þorgeirs rádsmanns á Hólum, bródur Steins biskups; gjördi þá hinn næsta vetr allgódan, þá kom
1729 hafíss-hrodi med þorra. Á þeim vetri lýkr annál þorláks Markússonar í Gröf, er oss er kunnugt um. þann vetr var amtmadr í landi hèr; var vor misjafnt fram um fardaga; þá dæmdi Jón sýslumadr í Grenivík um upprekstr á Bleiksmýrardal, ok var þar metin hagbeit fyrir 11 hundrud lamba, frá Aungulsstödum, ok umhverfis at Hrafnagili; en annar dómr var um stuld úr Akreyrarbúdum, er Skúli þorkelsson var hafdr fyrir, hann var strokinn, en fè hans tekit undir geymslu. Sæmundr prestr Magnússon frá Brædratúngu, Sigurdarsonar, gjördist nú prófastr í Skagafirdi, því Jón prestr þorvaldsson á Miklabæ lagdi af. Voru þá hlutir í meira lagi sydra ok í útverum. þann tíd öndudust margir menn: Helgur tvær, dætr Eggèrts á Skardi, önnur sú er átt hafdi Gudmundr þorleifsson í Brokey, hún gaf mörgum eptir sig gjafir stórar, en Fúhrmann amtmadr hafdi þo mèginfèd; einnin Marteinn prestr Jónsson á Skeggjastad, ok Bjarni prestr Einarsson í Ásum, Sigurdr at Breidabólstad í Sokkólfsdal lögrèttumadr skynugr, son Pálma Henrikssonar, Gíslasonar lögmanns, þórdarsonar, hann hafdi legit í kör hálfvisinn um 20 ár, voru hans synir Pálmi, fadir þorleifs á Breidabólstad, ok þorgils, fadir Jóns prests vid Hellna. Skip komu sem vant var, ok var nú ordin leiga á höfnum, ok skyldi haldast um 6 ár, höfdu reidarar gefit konúngi til 15 þúsund ríkisdali. Bjarni Halldórsson fèkk nú konúngsbrèf fyrir Húnavazsýslu, hafdi Grímr Grímsson verit þar lögsagnari; annat kom brèf um nádarár, er þorbjörg ekkja Páls lögmanns skyldi njóta, ok allar lögmanna-ekkjur sídan; eitt var lífgjöf fyrir þrjú hórdómsbrot, ok önnur voru enn ómerkiligri fyrir alþýdu. þvínær deydi Holtzmann, er hafdi hèr brennisteinsverk, ok fèll nidr sú ydn. Oddr kom ekki út, ok ekki hafdi gjörzt at um uppreisn hans, lèt hann sem brunnit hefdi skjöl sín í eldinum mikla. Magnús Gíslason kom út med þeirri sýslan, er fyrr segir, ok Finnr, son Jóns prófasts Halldórssonar. Eldr sá er uppkom fyrir þrem vetrum vid Mývötn, hafdi jafnan verit upp sídan, ok færzt ádr um vetrinn nær til bygda, tók hann nú at eyda þar bæi, ok

eyddi hann Reykjahlíd ödrum kyrkjustadnum, en Jón prestr, er þar var, flutti þadan til Skútustada; hann eyddi ok Gröf, Grímstadi ok Fagranes, ok flýdu menn þadan til næstu sveitar; hvarf þar Bjarni, son Jóns prests, er sendr hafdi verit at leita kúa, ok fannst ei aptr. Er ok sagt, at þá brynni í Kötlu, ok nokkur urdu þá barnahvörf. Á alþíngi sátu lögmenn dóma, Benedikt þorsteinsson ok Njels Kjër, kom þar Jens Wíum sýslumadr úr Múlaþíngi med þann mann, er Jón hèt Ingimundarson, hann hafdi myrdtan þann er Sigfús Eyríksson hèt, ok var hann dæmdr ok drepinn, hann var úr Fljótsdals hèradi. Jóhann Gottrûp sókti þar Bjarna Halldórsson sýslumann fyrir rèttarneitun ok adrar fár-sakir, ok mælti til ferliga, en því var vísat frá at sinni; en þau voru dæmd frá lífi, sem í dulsmálit fèllu, ok skotit þó til konúngs. Annat kom ekki fyrir sèrligt á því þíngi. Um sláttinn lèt Amtmadr halda þíng í öllum sýslum sunnanlands at konúngs bodi, ok svo í Mýra, ok Hnappadals ok Snæfells-sýslum, ok lesa brèf sitt um þat, at sýslumenn í þeim hèrudum auglýsi alþýdu bod konúngs, ok fylgi því fram, at kvæntir menn ok ókvæntir í þeim sýslum búi sig til Grænlandsfarar at ödru sumri; var því fólki heitit þar vistum, timbri til húsa ok ödrum naudsynjum um tvö ár, ok svo til fiskibáta ok annars búnadar; urdu þeir fáir fúsir til, sem nokkurs áttu kosti, enn þó lètu sumir skrá sig til farar, ok var vid því einu búizt. Var þá gott vedrlag um sumarit ok nýtíng, ok haustit gott, ok fiskifar nyrdra. þat haust var prestastefna at Flugumýri í Skagafirdi í hjónskapar- máli Sumarlida Klemenssonar, var þar Benedikt lögmadr af amtmanns hendi, ok Sumarlidi skilinn vid Margrètu Markúsdottur, konu sína, fyrir hórdóm hennar.

## LXVIII Kap. Frá þórdi presti.

Á þeim misserum má enn med tídindum telja mál þórdar prests í Reykjadal; var ei lengi, sídan hann fèkk þar prests sýslan, ádr hann komst í óvild vid sóknarmenn af sèrlyndi sínu; en á jólum bar svo til at kyrkju í Reykjadal, at hann deildi ordum vid bónda þann, er Gudmundr þorsteinsson hèt, ok mælti: ekki verdr þú sáluhólpinn nema eg vilji; þat mælti hann þrem sinnum; ok á nýársdag mælti hann

hin sömu ord, ok jók vid: heyri þat allr söfnudrinn; þar skal eg til svara bædi fyrir gudi ok mönnum, fyrir því var hönum stefnt fyrir prestastefnu, ok lèzt hann þá hafa bætt því vid: nema þú gjörir idran; þat þóttist enginn heyrt hafa, ok leizt hèradsprestum hann eiga at setjast af embætti ok taka skriptir; var þetta upphaf hans mála, ok stód í því um hríd; enn fyrir synódó á þíngvelli bad þórdr vægdar á framhleypni sinni, ok sór þat hann hefdi því vidaukit, nema þú gjörir idran. Dæmdi þá amtmadr ok 5 prestar at hann hèldi embætti, en tæki áminníngu af biskupi ok svaradi fèsektum til fátækra prestaekkna; enn Jón biskup ok 3 prestar dæmdu af hönum embættit, ok at hann tæki aflausn í Reykjadals-kyrkju, þar gaf þórdr sig undir, til at mýkia hug biskups, ennþótt þat snèrist á annan veg sidan.

## LXIX Kap. Mannalát ok annat.

1730 Vetr eptir var allr í hardara lagi at því er Eyólfr prestr segir, en Jón prófastr Halldórsson segir hann gódan verit hafa, ok svo vorit, af því hygg eg hann gódan verit hafa sydra. þá andadist Árni Magnússon Assessor hinn 7da dag janúarií, ok skorti 2 vetr á sjötugan, af hönum hafdi Rentukammerit hvert ár krafizt jardabókarinnar, en fengit aldrei, fyrr enn nú er hann var dáinn, ok var hún ekki fullgjör; hann hafdi gefit allar fornfrædabækr sínar, er eptir voru, til styrktar námsmönnum fèlitlum vid háskólann, er fornfrædi vildu stunda, sem fyrr segir, ok þarmed 10 þúsundir dala, því hann átti eigi börn, en þeir skyldu þat stydja, at bækrnar kæmist á prent. Mjög margir adrir merkiligir menn dóu þá, sem enn mun verda sagt. Hinn 20ta janúarií gjördi mikit sjáfarflód vestra, helzt um Bardaströnd ok eyar, ok brotnudu meir enn 40 skip ok bátar, spillti túnum, engjum ok lendíngum, ok misstu margir eyamenn matfaung ok annat úr hjöllum sínum. Var vor kaldt, ok gjördist lítill grasvöxtr ok heyskapr. Hlutir voru gódir sydra ok vestra ok í útverum, ok komu skip eptir hætti. Landfarsótt gekk þá bædi fyrir sunnan ok nordan, ok dóu mest midaldra menn; 10 tygi dóu í Hegraness-sýslu, ok í mörgum sýslum nær því, en þessir öndudust heldri menn: Sigurdr prófastr í Hollti í Önundarfirdi, son Jóns prófasts Arasonar, hann skorti 2 vetr á ní-

rædan, ok var fadir Ragnheidar, er Teitr prestr Pálsson hafdi átta, en börn þeirra Magnús prófastr ok Jón, sem fyrri segir, ok Halldóra, er átti Ólafr Árnason. Jón prófastr Þórarinsson í Hjardarholti deydi annar, vetri meir enn hálfsjötugr, hann átti Rannveigu Jónsdóttur prests, Einarssonar, er bródir var Þorláks biskups; þeirra son var Þórarinn prestr í Hjardarhollti, er átti Ástrídi Magnúsdóttur prófasts frá Hvammi, Magnússonar, bródurdóttur Árna assessors ok Jóns. Ólafr prestr Sigfússon á Retstad austr var hinn þridji, hann var 4um vetrum meir enn tírædr, og hafdi lifat sídan á dögum Odds biskups Einarssonar, ok enn Pètr prestr Þorvardsson á Klifstad áttrædr vel, Þórdr prestr Gíslason á Skorrastad, Brynjúlfr prestr Ólafsson at Hálsi í Hamarsfirdi, Snorri prestr Jónsson í Gördum á Akranesi vetri meir enn sjötugr, Þorfinnr prestr Þórdarson at Felli í Slèttuhlíd nordr, bródir Jóns prests at Myrká. Hákon Hannesson sýslumadr í Rángárþíngi, er opt hefir verit getit at mörgu, hann skorti tvö á sjötugan; Sigurdr ýngri Sigurdarson lögmanns, Bjarnarsonar sýslumadr í Mýrasýlu, tveimr vetrum minnr enn fertugr. Ari Þorkelsson í Haga á Bardaströnd áttrædr at aldri, lifdi Teitr sýslumadr einn eptir sona hans; Erlendr í Hjörtsey Gunnarsson prests, Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ, hann hafdi haldit Þykkvabæar-klaustr, ok komizt í mál þeirra Bjarna Nikulássonar, var hann í Hjörtsey fyrir Vigfús frænda sinn, son Sigurdar Einarssonar födur þeirra Gudmundar í Hjardarholti ok Erlendar prests, ok hyggjum vèr Erlendr prestr bæri nafn hans. Húsfrú Sigrídr, ekkja Jóns biskups Vídalíns, andadist fyrir midtsumar, fór Jens Spendrûp at nordan í erfi eptir hana. Þessir dóu lögrèttumenn: Högni at Laugarvatni, son Bjarnar prests at Snæfokstödum Steffánssonar, hans son var Jón, fadir Jóns sýslumanns í Strandasýslu, ok Húnavazþíngi sídan. Þórdr at Innraholmi Pètrsson, Henrikssonar, Gíslasonar lögmanns, Þórdarsonar; Pálmi frændi hans at Saudafelli, son Sigurdar Pálmasonar, fadir Þorleifs. Þá gjördist Steffán, er búit hafdi um hríd at Espihóli med Jórunni Steinsdóttur, Einarsson, prestr til Múnkaþverár, ok flutti húsfrú Þrúdr fra Vídivöllum í Skagafirdi sudr til Hlídarenda, med fólki sínu, í stórregnum miklum ok vætu; hún gjördist vanheil, en reid þó þá leid á viku, ok þótti mikit.

## LXX Kap. Frá höfdíngjum ok ödru.

Þess var getit, at húsfrú Sigrídr andadist, ok var þat hinn 16da dag júníí mánadar, er hún var 53 ára at aldri, var hún jardsett hinn 28da med virdíngu mikilli í Skálholti hjá meistara Jóni Vídalín manni sínum, voru þar staddir vid meistari Jón biskup Árnason, Njels Fúhrmann amtmadr, ok prófastar ok prestar 22, ok margir gódir menn adrir; hafdi hún gefit Hrafnstóptir, degi ádr enn hún andadist, til þess at kennt yrdi munadarleysíngjum námgjörnum lestr ok ritvísi, sú jörd liggr í eystra hrepp í Árness-sýslu, ok má marka at slíkt var þá lítt kennt alþýdu. Þat sumar kom út Tómas Knopf Kapteinn norrænn, til at fullgjöra landsmálun þá, er Magnús Arason var fráfallinn, lèt hann smída sèr hús at Nesi vid Seltjörn. Konúngsbrèf kom ok út at forlagi Jóns biskup Árnasonar um at heimta bætr til hospítala; annat kom um skrifara-peníngar. Ekki kom Oddr Sigurdarson út, hafdi konúngr veitt hönum uppreisn á ærunni, ok þarmed hafdi hann fengit nokkurn framgáng í málum sínum móti Johanni Gottrúp, skyldi Jóhann skila hönum því öllu aptr, er hann hafdi gjört upptækt fyrir hönum. Konúngsbrèf kom til Gyldenkróne stiptamtmanns, um þat at 12 heimkynni af hinum íslenzku mönnum, er skrádir voru til Grænlandsfarar, skyldu vera komin at næsta vori med kvikfènadi, klædum ok vistum, ok hinum helztu búshlutum at einhverri höfn ákvedinni sunnanlands, ok konúngsskip frá Danmörku taka þar vid þeim, ok flytja til Grænlands, en amtmanni ok landfógeta, ok Sigurdi sýslumanni Sigurdarsyni í Árnessþíngi var bodit at búa slíkt allt undir, ok senda utan grein sína eda skírslu um þat, med skipunum at hausti. En af því, at konúngr vildi eigi láta þraungva nokkrum til þeirrar farar, sem ei var at ætla hönum, ok þat var auglýst mönnum á þíngum, er haldin voru um þat í hverri sýslu er til var tekin, sem hid fyrra sumarit, þá urdu sumir til at telja vankvædi sín ok tálmanir ýmisligar, er ádr voru fullrádnir farar, ok svo hverir at ödrum, ok stód í því. Þá týndist 5 manna-far á Hjallasandi í logni, þat var nær alþíngi, ok voru á þrír hinir helztu formenn þar, sást ekkert meira af því skipi; þat var slæmt, ok ætludu menn straum hafa dregit í haf út, hètu formennirnir Jón Starrason, Gudmundr Bjarnarson ok Bjarni

Ólafsson. Nær þeim tíma druknadi ok Magnús bóndi á ytri Gördum í Stadarsveit í lendíngu, einn á báti; enn Björn Jónsson at Hrafnabjörgum fèll af baki í Midá í Dölum, ok dó af kulda á bakkanum, urdu ok fleiri slisfarir einstakra manna.

## LXXI Kap. Þíng ok mál.

Lögmenn sátu þíng, ok komu þar sýslumenn, Þorsteinn Sigurdarson úr Múlaþíngi, Jón Þorsteinsson úr Skaptafellsþíngi, Nikulás Magnússon úr Rángárþíngi, Sigurdr Jónsson úr Borgarfirdi, Sigurdr Sigurdarson yngri af Mýrum því þat var ádr hann dó, Ormr Dadason úr Dölum, Teitr Arason af Bardaströnd, Markús Bergsson úr Ísafirdi, Einar Magnússon af Ströndum, Bjarni Halldórsson úr Húnavazþíngi, Jens Spendrûp úr Skagafirdi, Jón Jónsson úr Eyafirdi. Jens Wíum kom ei nè Hallgrímr Thorlacíus austan at, Sigurdr Sigurdarson úr Árness-sýslu, Steindór Helgason, nè Jóhann Gottrûp. Þar var mál med Nikulási Magnússyni ok Brynjúlfi Thorlacíus, en Jóhann Gottrûp var sóktr um skip franskt, er braut á Grundarfirdi, hafdi hann dæmt þat Kyrkjufells-eigendum, ok sókti Jón Hjaltalín málit, var Jóhanni dæmd fjögra dala fèsekt til hospítals, en málit sjálft skyldi bída annars alþíngs, ok mætti þá gögn öll ok skjöl verda skodud. Þar var lesit Testamentisbrèf Árna Magnússonar ok frúar hans, var þarí, at eigi skyldu erfíngjar þeirra vera út hèr, nema Ástrídr Magnúsdóttir bróddurdóttir hans, hún mâtti halda því er hann átti hèr á landi föstu eda lausu, ok skuldafè hans. Benedikt í Hrappsey lèt birta kaupbrèf fyrir 12 jördum, ok sýnir þat auds-hamíngju hans mikla. Var þíng ótídt at ödru. Stefnt var þá Fræda-Gísla fyrir synódum, ok kom hann ekki.

## LXXII Kap. Frá Þórdarmálum.

Þat var tídt um Þórd prest í Reykjadal, at hönum var fundit þat til, at hann hefdi svo mælt, at líf Krists hèr í heimi væri ekkert annat enn eymd ok sorg; fátækt ok daudi; þat annat, at hann væri jafn födurnum í manndómligu edli: þetta mælti hann í prèdikun; enn í vidtali vid

kunnmann sinn, er rædt vard um deilu hans ok Gudmundar þorsteinssonar, mælti hann svo: þat vildi eg at þessi djöfuls lidr, sem hèr er, væri komin mèr frá augum; því svaradi einhverr: vel býr þú þig, prestr minn! undir heilaga kvöldmáltíd, ef þú gengr til hennar á fimtudaginn. Prestr svarar: enn þú? sá mælti: eg hefi enn nú ekki kastad mèr fyrir knè þín. Prestr mælti: þinni knèkropníngu fyrir mèr tek ek sem hundr fladri. þat var enn, þá hann heyrdi konu nokkra sýngja vers þeirrar meiníngar, at hjónahandit væri heilagt stand, mælti hann: nú villist þú mikit; ok er hann var spurdr, hví þá? svaradi hann: af því, at frá Adams falli ok komu syndarinnar í heiminn hafa öll hjón lifat sem villudýr eda gridúngar. Veit eg ógjörla hvert rètt er mælt eptir hönum, en þessi var meiníng ordanna. Fyrir þessar sakir var hann stefndr til prestastefnu í hèradi, ok dæmdr til at missa prestskapar fyrir villu-kenníngu, en þó var þat meir heimska eda sèrvizka, er hann mælti, ok fundit flest til af sóknarmönnum, því hann var þeim leidr. En fyrir synódó á þíngi lagdi hann svo út: fyrst kvadst hann mælt um hina dýpstu nidrlægíngu Krists; en í því máli, er hann mælti um tign hans manndóms, kvad hann vitnismenn ekki sagt hafa þau ord, er hann hafdi eptir ok ádr, lèzt ei hafa gleymt því at ödrum var sú tign edlilig en ödrum gefin; þat er hann kalladi djöfulslid dróg hann af því, at hverr sem synd gjörir er af djöflinum; en þat er hann mælti vid konuna, meinti hann helzt til girndar ok atferlis í samrædi, kvad Jóhann Arndt ok adra hafa líka ordsháttu. Nú med því at slíkt allt var illa skilit ok deilt, þá kvádu þeir amtmadr ok flestir prestar þetta óvirdugliga ok heimskliga mælt, enn þórd prest þó ekki sannan villumann, ok at engum glæp kenndan, fyrir því skyldi hann at eins gjalda til fátækra presta-ekkna eptir efnum sèr til betri læríngar, ok haldi embætti. En meistari Jón biskup Árnason ok 3 prestar vildu dæma þat af hönum, ok kvádu hann óverdan þartil. Stód nú þetta svo um hríd, ok voru þá enn fleiri sakir bornar á þórd prest; var sú ein, at hann hefdi falsat stefnu nokkra, ok ritit nöfn undir ókennilig, ok at hann væri óverdr til prestskapar sakir þrætni sinnar ok deilugirni, ætti fyrir því biskup ok prófastr at setja hann af embætti. Hid fyrra vard ei sannat, enn hid sídara vildi amtmadr ok margir prestar láta umbera vid hann, kvádu hann ei hafa

hafit deilur at fyrra bragdi, ok vera óáleitinn. Þá kom sídast sú grein í móti hönum, er óvinum hans vard mest gaman af, ok þeir ætludu mundi hrífa, en þat var at þeir sögdu hann hafa gjörzt gydíng ok umskorit sig. Medkenndi hann þá fyrir Synódó, at hann hèldi vid Ágsborgar-játníngu af öllum hug, en fylgdi engri villu, ok sídst Gydíngatrú, ok fyrir þá sök gaf hann sig undir skodun lögrèttumanna nokkurra ok eins prests, þar á þínginu; þeir sögdu svo frá, at ekki væri hann umskorinn á þann hátt sem Gydíngar, heldr væri meiri hlutr stýfdr af getnadarlim hans, ok kalladi hann sjálfr átumein valdit hafa; lauk svo því máli um sinn.

## LXXIII Kap. Höfdíngjaskipti ok annat.

Þat sumar var vott ok óhaldkvæmt, ok nýttust illa hey; þá bar þat til hin 11ta septembris mánadar, enn sumir segja hinn 19da eda 25ta, at sexæríng rak fyrir nordanvedri frá Grímsey, skipadan mönnum, ok allan daginn vestr í haf ok nóttina eptir, en at morgni komust þeir vestr á Skaga máttfarnir mjög, ok hittu fyrir boda, er eigi máttu þeir komast yfir háskalaust, urdu þó at leggja á hann fyrir vedrs sakir, hvolfdi þá undir þeim, ok týndust 5 saman, en bóndi sá er Jón hèt, helztr í eynni, ok var formadr, ok knár ok lidgódr, komst á kjöl, ok af hönum á land, var hann limlestr ok þrekadr mjög, ok lá þar nær þrjú dægr votr undir marbakka, enn vedr var kalt; er þá sagt, at ein kona, er Jardþrúdr hèt, kæmi þar til hans, ok skæri silfrhnappa úr skyrtu hans; hún var sídan köllud gudlausa þrúda; sídan komu bændr tveir af hinum næstu bæum þar á skaganum, heita efra ok nedra nes, ok fundu hann, var annar bóndi þrúdu, var Jón þá enn med máli ok rænu, ok fluttu þeir hann til þess bæarins, er nær var, ok þar var hönum gefinn kaldr drykkr einn, sídan flutti bóndi hann þadan í hrakvidri til næsta bæar, ok var þat laung leid, hneig hann þá daudr af hestinum, er hann var tekinn af baki. Þann bónda er flutti, dæmdi Jens Spendrûp sýslumadr til at láta 10 hundrud fyrir næstu fardaga, en ella sæta refsíngu. Sonur Jóns þessa var Björn prestr, fadir Snorra prests at Hjalltastödum í Blönduhlíd. Þá dóu margar göfugar konur, Helga Jónsdóttir, kona Hannesar prófasts Hall-

dórssonar í Reykjaholti, Arndís, er átt hafdi Jón prestr Eyólfsson á Gilsbakka, Margrèt Nikulásdóttir á Stadarfelli vestr, er Björn Jónsson hafdi átta, ok þórunn Jónsdóttir, hún var ekkja eptir þorleif prest at Kvennabrekku. Gekk sóttin á álidnu sumri um Sudrnes, ok færdist upp til sveita; fór haustit batnandi til vetrar, en sóttin fluttist í Borgarfjörd, ok var all-mannskæd, ok stakk sèr nidr nordr ok vestr, dóu þeir þá sumir, er ádr eru nefndir, ok var einn Njels Kjér lögmadr, hann andadist at Brautarholti hinn 11ta dag októbris, ok var mjög í skuldum; var þá Jón Hjaltalín settr fyrir Kjósarsýslu, er fyrst hafdi verit lögrèttumadr, en sídan hèradsdómari í Gullbríngusýslu, hann var son Odds Hólarádsmanns Jónssonar, Magnússonar, Eyríkssonar, Bjarnarsonar, Jónssonar biskups, Arasonar, hefir hans opt verit getit vid málasóknir, ok hèlt sèr nokkud fram vid slíkt. En adra nótt edr hins 12ta októbris var þat í Danmörku, at andadist Fridrekr konúngr 4di, ok lagdi ádr mörg heilrædi Kristjáni syni sínum, er sídan var konúngr, ok hinn 6ti med því nafni. En jafnskjótt lagdi Gyldenkróne stiptamtmadr af sèr þá sýslu yfir Íslandi, ok tók sídan hid sama umdæmi yfir Vebjargastipti á Jótlandi, en Henrik Ochsen etazrád gjördist aptr stiptamtmadr Íslendínga. þessi misseri fèkk þorleifr prófastr Skaptason Oddnýar, er fyrri víkr á, en Ketill prestr Jónsson í Húsavík Gudrúnar dóttur hennar ok Magnúsar prests. Grímr Grímsson at Giliá kvæntist, ok fèkk Málmfrídar Jónsdóttur. þá dó Magnús Benediktsson, er opt er getit, en Ólafr prestr at Hvammi í Laxárdal á jóladaginn. Ok þann tíma lýkr frásögnum Eyólfs prests.

## LXXIV Kap. Taldir heldri menn, helzt klerkar.

1731 Vetrinn eptir andlat Fridriks konúngs hins 4da var svo snjóalítill ok frostalaus, at Mýrar voru sjaldan hestheldar, en votvidri voru þá mikil, ok vedr stór, ok sjáfar-ógæftir. þá voru fyrirmenn uppi í landi hèr, er nú skal telja til fródleiks þeim, er heyra vilja, ok ljósari skodunar um þat hverir jafnframmi voru þá á dögum, en þeir hlaupa yfir fram, er þat þykir betra, Njels Fúhrmann var amtmadr, ok hafdi umbod stiptamtmanna, hvers eptir annan, hann var höfdíngligr sýnum, skarpvitr ok málsnjallr, lærdr í flestum vísindum ok túngum mörgum,

framyfir flesta veraldliga yfirmenn, fridsamr ok þó stjórnsamr, lítillátr, gladlyndr ok gestrisinn, trúlyndr ok vinveittr, ok vildi engum manni mein, en aftaka óvenjur. Meistari Jón Árnason biskup í Skálholti var gjörhugull ok vandlátr, leitadi at bæta reglu á kristnihaldi ok fleiri, hann hèlt svo ríkt umsjón med kyrkjum, at náliga var sem fyrir hinum papisku biskupum; safna vildi hann meira hospítöl, enn halda sjúka menn á þeim, ok voru aldrei á hans dögum fleiri enn 7 á öllum í landinu, kenndu því þá sumir menn, at sjúkleikinn jykist aptr; hann setti saman Spurníngar í kristindómi ok Grammatíkam, ok þó fleira, ok leiddi inn Núcleum latínitatis fyrir skólabók, gekk fast eptir reglu allri, ok var strídr vid klerka um hvad eina, ok óbeygjanligr nær vid of, urdu margar þrætur af fastheldni hans, er var helzt til mikil. Ok med því at vandlæti er kostr sá, er sídst eykr vinsældir fjölmennis, þá var svo um hann, ok er þat þó yfrit gott ok naudsynligt þar sem til sidferdis tekr; vildi hann vel, ok var stjórnsamr. Hann var medalmadr vexti, styrkvaxinn ok hardgjör, hófsmadr um svefn, nautn ok drykkju; ydjumadr hinn mesti, eigi mjög skarpr, en þó lærdr í gudfrædi, mælíngarkunst ok stjörnufrædi; ekki var hann nærgætr um þá lærdóma, er hann hafdi ei lagt stund á; yfirlæti ok ydjuleysi var hönum leidast allra hluta, ok ekki kunna hann at hræsni. Optast var hann fastr á fè, en þó þá ör, er hann vildi; hússtjórnarmadr mikill ok rádríkr um allt; mikill var hann trygdamadr vinum sínum, en enginn þurfti at ætla til at beygja ged hans; hann var óáseilinn; sjaldan gjördi hönum kránkt. Þau Gudrún, kona hans, dóttir Einars biskups, voru jöfngömul, ok nú hálfsjötug bædi, ok höfdu verit saman 7 ár ok 20; son þeirra hèt Árni, hann var nokkud lausrádr, en Jón biskup var hönum hárdr eda ólempinn vid of, ok kunni ekki at venja hann, sló hann sèr þá lausum, er hann kom til Kaupmannahafnar, ok miklu meira, enn fadir hans vildi, en hann sendi eptir hönum, ok hèlt hann þá hárdara enn ádr, ok missti Árni af því rænunnar. Meistari Steinn biskup á Hólum var spakr madr ok óreidinn, ok nýttu sèr þat sumir menn, veittu nokkrir hönum ámæli um ritníngar útleggíngu hans, ok eigi mikinn lærdóm, ok meira enn verdt var; gódr var hann veslum mönnum, enn enginn búsýslumadr, vard opt ekki endtr út skólinn fyrir lítilli forsjá; hann var trúmadr mikill

ok hneigdr mjög til andligra hluta, ok þolgódr í mannraunum, ok lagirm mjök nidr vid þat, en til engra straumbrota, dökkur var hann nokkut á skinnslit, sterkr, ok bar seinastr skegg yfirmanna. þessir voru adrir uppi klerkastèttar, er helzt var mark at: Jón prófastr Halldórsson í Hítardal var mesthâttar, frædimadr hinn mesti, ok lærdr at mörgu, rádsvinnr, ok hafdi á sèr höfdíngjabragd; metnadarmadr var hann, ok þó med hófi gódu, ok þótti mest um hann verdt af öllum klerkdóminum á hans dögum. Brynjúlfr prestr Halldórsson hèlt Kyrkjubæ í Túngu, Páll Högnason Valþjófstad, Ólafr Steffánsson, Ólafssonar, Vallanes, ok var prófastr, Gísli Gíslason lögrèttumanns, Eyríkssonar, Desjarmýri, Sigfús Gíslason hálfbródir hans Skorrastad, Gudmundr Pálsson, Ámundasonar, Kolfreyustad; Árni Álfsson Heydali; Högni prófastr Sigurdarson Stafafell í Lóni, son Sigurdar prófasts í Einholti, en fadir Högnasona presta, hann var merkiligr madr; Bjarni prestr Kálfafell á Sídu, son þorleifs prófasts Árnasonar; Einar prestr Kyrkjubæarþíng, son Hálfdanar á Reykjum, Ásmundarsonar á Litluvöllum, Brynjúlfssonar á Skardi, Eyríkssonar, Torfasonar í Klofa, hann var málagarpr mikill, ok átti lengi deilu vid Eyvind Jónsson duggusmid, er hann var klaustrhaldari eystra, var hann fadir þeirra meistara Hálfdans, Sigurdar ok Álfheidar; Magnús, son Sveins á Svínafelli Jónssonar, hèlt Medallandsþíng, bródir hans var Sigurdr prestr, er sídan var í Heydölum, fadir Gísla prests, födur Brynjólfs prófasts. Jón Jónsson var at þykkvabæar-klaustri, Benedikt at Sólheimum í Mýrdal, þá Vigfús Ísleifsson dó, hann var son Jóns prests í Medallandi, merkiligs manns, Vigfússonar prests í Sólheimum, er þá dó, Ísleifssonar á Höfdabrekku, Magnússonar, Eyríkssonar á Kyrkjulæk, Eyólfssonar í Dal, Einarssonar; var hann seinna lengi í Vestmannaeyum. þorsteinn Oddsson prófasts, Eyólfssonar, hèlt Holt undir Eyafjöllum; Benedikt, son Jakobs Benediktssonar, Fljótshlídarþíng, bródir Soffíu vid Búdir, Halldór Pálsson Breidabólstad í Fljótshlíd, Ólafr prófastr Gíslason Odda, Filippus Kálfholt Gunnarsson, Einarssonar, þorsteinssonar í þykkvabæ, Oddr Eyólfsson yngri Kyrkjubæ í Vestmannaeyum, þorkell Oddsson Gaulverjabæ, Jóhann prófastr þórdarson Hraungerdi í Flóa, Gísli Erlíngsson Ólafsvelli, Steffán þorsteinsson Núp, Frans Ibsson danski Hruna, þórdr Jónsson Reykjadal, Haflidi, son Bergsveins

Sölmundarsonar, Torfastadi; Ólafr Middal Jónsson, Steffánssonar, Hallkelssonar; Jón Halldórsson þíngvelli; Árni prófastr þorleifsson Arnarbæli; Halldór Brynjólfsson, Ásmundarsonar prófasts, Eyólfssonar, Útskálar (Útskála); Jón Ólafsson Kálfatjörn; Björn Thorlacius Garda á Álptanesi, son Jóns sýslumanns, þorlákssonar biskups, hann var alvörumikill ok fasttækr; Gísli Sigurdarson Seltjarnarness-þíng; Torfi prófastr Halldórsson Reynivelli, bródir Jóns prófasts í Hítardal; þorvardr Saurbæ á Hvalfjardarströnd Audunnarson, Benediktssonar prests at Hesti, hann var þá enn úngr, ok gjördist rádsvinnr madr ok fèsæll; Björn Mela þórdarson, Vigfússonar, Ormssonar í Eyum; Hálfdán Nikulásson Hvanneyrar-þíng, lítill klerkr; Einar eldri Lund Oddsson frá Fitjum, Eyríkssonar; Hannes prófastr Halldórsson Reykjaholt, bródir Jóns prófasts í Hítardal; Halldór Árnason Húsafell, fadir Bjarna sýslumanns, Illhuga prests ok Sigvalda prests ok þeirra systkina; Jón Jónsson Gilsbakka; Markús Hvamm í Nordrárdal Eyríksson prests frá Fagranesi nordan, Gudmundarsonar; Jón Stafholt Jónsson frá Einarsnesi, Sigurdarsonar lögmanns, Jónssonar, hann var göfugr madr ok ríklundadr, ok fadir Jóns sýslumanns a Móeydarhvoli. Jón Jónsson Akra-þíng, sá er fyrrum komst í Stokksmálit, ok var nú gamall; Pètr Miklaholt Einarsson, Halldórssonar í Ólafsvík, Gudmundarsonar, Gudmundarsonar, Hallssonar Ólafssonar prests, Kolbeinssonar fjáraflamadr mikill; Jón prestr Stadarstad, Jónsson prests, Loptssonar, Árnasonar, Loptssonar prests í Vídidalstúngu, frændi Jóns biskups, skörugligr at mörgu, hann var fadir Ólafs prests á Snæfjöllum, Gudrúnar vid Búdir, Ólafs ok Sigþrúdar, módur Bjarna prests at Mælifelli; Jón Magnússon Setberg, bródurson Árna Assessórs; Snorri prófastr Jónsson, Magnússonar, Helgafell, hann átti Kristínu, dóttur þorláks prests Ólafssonar nordan frá Miklabæ, ok var fadir þeirra Jóns sýslumanns, ok Gísla prófasts ok Gunnlaugs prests; Jón Jónsson hèlt Breidabólstad á Skógarströnd; Gudmundr Middalaþíng, son Eyríks prests frá Fagranesi nordan Gudmundarsonar, hann var fadir Eyríks prests at Stad vid Hrútafjörd; Gísli Kvennabrekku Sigurdarson, Pálssonar, Gíslasonar lögmanns, þórdarsonar; þórarinn prestr Jónsson hèlt Hjardarholt; þórdr prófastr Hvamm í Hvammssveit, þórdarson, Finnssonar, Sigurdarsonar prests í Miklaholti, Finnssonar; Lýdr Skardsþíng, son Magnúsar Kortssonar,

hann var fadir Gudmundar, födur Lýds sýslumanns ok Magnúsar ok Lopts; Ólafr Eyríksson Saurbæarþíng, er kalladr var Mehe; Gudmundr Ísleifsson Stad á Reykjanesi; Gudmundr prófastr Vernhardsson, Gudmundarsonar, Gufudal; Sigurdr Flatey Sigurdarson frá Brjámslæk, Sigurdarsonar frá Svalbardi; Sigurdr Bardastrandar-þíng, son þórdar á Laxamýri Jónssonar, Gudmundarsonar, Nikulássonar á Múnkaþverá, þorsteinssonar, hann var fadir Gunnlaugs prests ok Gudbrands prests at Brjámslæk; þorvardr Magnússon Raudasandsþíng; Halldór prófastr Pálsson Selárdal, hann var lítt vinsæll, ok hafdi misst prófastsdæmi fyrir laungu, ok nú gamall; Hallgrímr Rafnseyri Jónsson prófasts þórarinssonar; Páll prófastr Pètrssón Álptamýri; Jón þórdarson Sanda; Jón Sigurdarson Eyri vid Skutulsfjörd; Sigurdr Sigurdarson tók Holt í Önundarfirdi; Ásgeir Bjarnason hèlt Ögr; Hjalti þorsteinsson, Gunnlaugssonar prests frá Saurbæ nordan, er prófastr hafdi verit, Vazfjörd; þorleifr þorláksson, þorleifssonar, Jónssonar, þorleifssonar frá Múla af þykkvaskógs ætt, Kyrkjuból í Lángadal; Halldór Einarsson Stad í Hrútafirdi, ok var sidferdisgódr ok vel at sèr; Björn prestr þorsteinsson Stadarbakka, ef hann lifdi; Björn Hjaltabakka þorláksson silfrsmids Grímssonar smids frá Vidvík; Ormr prófastr Biarnason Melstad; Halldór Hallsson Breidabólstad í Vestrhópi, er opt getr; Gudmundr Vestrhópshóla, launsonr Jóns Arnórssonar í Ljáskógum; Björn Skúlason Tjörn á Vaznesi; Ólafr Gissursson þíngeyraþíng; Arnbjörn Jónsson Undirfell; Hallr prófastr Ólafsson, fadir Halldórs prests, Grímstúngur; Björn, son Magnúsar Bjarnarsonar, Pálssonar, Bergstadi; Einar Sigurdarson Hof á Skagaströnd; Ólafr Ólafsson Hvamm í Laxárdal; ei erum vèr sannfródir hvert þeir lifdu allir. Steffán prestr, son Ólafs prófasts á Hrafnagili Gudmundarsonar, hèlt Höskuldstadi, hafdi Ólafr prófastr tekit framhjá konu sinni í elli, ok misst prestskapar, ok farit til hans; Steffán prestr átti Ragnheidi, dóttur Magnúsar Bjarnarsonar frá Espihóli, ok börn mörg, sem enn getr, var Ólafr borinn, ádr enn födurfadir hans dó, ok er sagt, hann hafi mælt hugdarliga fyrir hönum. Jón Bjarnason, Sigurdarsonar, Árnasonar lögmanns, var prestr í Lángadal ok bjó at Holtastödum, hann var lítill ok hardgjör. Grímólfr Illhugason hèlt Glaumbæ; Magnús Arason prófasts, Gudmundarsonar, Mælifell; Sveinn Pálsson prests, Sveinssonar, Goddali; Sæmundr Magn-

ússon Miklabæ í Blönduhlíd, hann var vel at sèr; Gissur Eyríksson Flugumýrarþíng; Jón Sigfússon Ríp; þorsteinn Jónsson var kyrkjuprestr at Hólum; Björn Bjarnarson Hofsþíng, ok bjó at Brúarlandi; Jón Sigurdarson, Jónssonar úr Skagafjardardölum, Fell í Slèttuhlíd; Sigurdr Einarsson Bard; Halldór Knappstadi Pálsson af Mèlaætt nordan; þorvardr Bardarson Kvíabekk, er getit hefir verit, hann var kalladr svakamadr mikill vid öl, ok ei meir enn medallagi vinsæll; Jón Helgason hèlt Hvanneyri; Jón Halldórsson, þorbergssonar, Hrólfssonar, sá er fyrr var í Grímsey, Tjörn í Svarfadardal; Skúli Illhugason, Jónssonar, Illhugasonar Hólarádsmanns, Mödruvalla-klausturs þíng; Páll Upsa Bjarnason prests frá Vestrhópshólum, þorsteinssonar, Ásmundarsonar, þorsteinssonar á Grund, hann var lágr vexti, en knár vel, ok þó rèttast at hann var nýdáinn, er hèr var komit, ok um fleiri nordanlands vitum vèr ei víst hvenær dóu; Páll prestr hafdi átta Sigrídi Ásmundsdóttur Halldórssonar, Ásmundarsonar, en födurmódir hennar var Sigrídr, dóttir Gríms smids í Vidvík, hún var hin skírasta kona, ok áttu þau börn mörg ok merkilig. Eyólfr prestr Jónsson Víselögmanns, Eyólfssonar, hèlt Velli, var hann kalladr hinn lærdi, ok kvæntist aldrei. þorsteinn prestr Ketilsson hèlt Hrafnagil; Steffán prestr Einarsson Múnkaþverár-kall; þorleifr Skaptason Múla nordr; Jón Markússon Laufás; Jón Gudmundarson Stad í Kinn; Jón Einarsson Skinnastadi; Eggèrt Jónsson Saudanes. þá var skólameistari í Skálholti Jón þorkelsson frá Njardvík, en at Hólum Sigurdr, son Vigfúsar Árnasonar, Vigfússonar prests, Helgasonar, Vigfússonar, Jónssonar, Grímssonar í Sídumúla.

## LXXV Kap. Nokkrir heldri menn veraldligir.

Þessir voru þá veraldligir fyrirmenn, ok svo í heldri manna tölu, er vèr vitum. Sunnan ok austan var enginn lögmadr, en Benedikt þorsteinsson nordan ok vestan. Benedikt átti þórunni, dóttur Bjarnar Pètrssonar á Bustarfelli, voru þeirra börn: Jón, þorsteinn ok Björn, Sigrídr ok Elízabet, öll voru þau hávaxin ok lík módurfrændum. Oddr Sigurdarson hafdi ekkèrt vald í þann tíma; Kristján Luxdorf var landfógèti; Magnús Gíslason, Jónssonar biskups, Vigfússonar, var landþíngskrifari, hann var fljótskarpr ok vel viti borinn, ok drjúg-

lyndr, lítill madr vexti, ok snotr í öllu, ok gjördist hamíngjumadr mikill. Þorsteinn Sigurdarson hafdi Nordr-Múlasýslu, ok virdr vel; Jens Vium hinn danski hafdi midhlutann, hann var óvilsamr ok hardgjör; Hallgrímr Thorlacíus, son Jóns Þorlákssonar, hafdi sudrhlutann. Jón Ísleifsson hafdi verit settr frá sýslu í Skaptafellsþíngi af amtmanni fyrir 4m vetrum, sakir grunsemdar um þíngsvitnit, ok var þar fyrirskipadr Jón Þorsteinsson klaustrhaldari; en vestr-sýsluna hafdi Bjarni Nikulásson, ok var hann í hinu sama máli, ok því var Jón hèradsdómari, son Sigurdar Einarssonar, Þorsteinssonar í Þykkvabæ, bródir Vigfúsar í Hjörtsey. Sigurdr Steffánsson hafdi Vestmannaeyar; Nikulás, son Magnúsar Benediktssonar, Rángárþíng. Brynjúlfr Þórdarson bjó at Hlídarenda embættislaus, ok var audugr, hann hafdi fyrr átta Þrúdi Þorsteinsdóttur, er dó í bólunni miklu, ok var óástúdlig sambúd þeirra, þó audr kæmi saman, en sídan Jórunni Skúladóttur Þorlákssonar biskups brædrúngu sína, hún var röggsemdar-kona mikil ok trygglynd. Sigurdr Sigurdarson lögþíngskrifari, er fyrr var, hafdi Árnessþíng, ok var med hinum fremstu sýslumönnum. Jón Oddsson Hjaltalín var settr fyrir Kjósarsýslu. Sigurdr Jónsson frá Einarsnesi hafdi Borgarfjardarsýslu hina sydri, ok bjó at Hvítárvöllum, hann fèkk þá jörd eptir Ólaf ok Sigurd Henrikssonu, er dóu þar í vinnumensku med hönum, ok var ætlat at systur þeirra væri eptirsjá í. Þar lèk mjög ord á, at hönum hefdi verit sendr draugr at vestan í konu líki, er um gengi á Hvítárvöllum, ok spillti öllu, því margt var þá enn af slíkum hindrvitnum. Bjarni, son Sigurdar Árnasonar lögmanns, var þar einn af lögrèttumönnum. Sigurdr lögrèttumadr var settr fyrir Mýrasýslu, son Högna Halldórssonar prests, Marteinssonar, Halldórssonar á Álptanesi, Marteinssonar biskups, hann var haldinn einfaldr mjög, sem þeir frændr fleiri; Steindór Helgason hafdi Hnappadalssýslu; þar var Jón Ólafsson á Jörva í Flysjuhverfi nafnkendastr lögrèttumanna. Jóhann Gottrúp hèlt Snæfells-sýslu ok Stapa-umbod, en hafdi lagt af sèr Húnavazsýslu fyrir tveimr árum eda þremr; Þíngeyraklaustr sjálft hèlt enn módir hans; Jón Ólafsson á Knerri ok Eyríkr Steindórsson voru þar lögrèttumenn. Ormr Dadason hèlt Dalasýslu, þar voru helztir menn adrir Þorsteinn í Búdardal, son Páls Torfasonar, hann var lögrèttumadr eptir Pálma Sigurdarson, ok kalladr vel viti

borinn, ok annar Jón Hákonarson at Vazhorni í Haukadal, hann var þá gamall, en Helgu, dóttur hans, átti Magnús Einarsson, ok bjuggu þau at Jörva, ok áttu vel fè. Teitr Árason, þorkelssonar, hèlt Bardastrandarsýslu, hann þótti nokkud svaksamr, helzt er hann var af bæ, ok eigi lingjörr, þar voru þeir Ólafr Jónsson ok Finnr Nikulásson fyrstir taldir lögrèttumanna. Markús Bergsson hèlt Ísafjardarsýslu. Í því umdæmi var Snæbjörn Pálsson á Kyrkjubóli helzt kenndr, ok kalladr Mála-Snæbjörn, hafdi hann svó komit sínum málum, at hann vard aldrei feldr til fulls. Einar Magnússon, Bjarnarsonar, hèlt Strandasýslu Bjarni Halldórsson Húnavazsýslu; Jens Spendrûp Hegranessþíng, ok þá virdr vel, var hann audmadr mikill, ok sæmiliga stjórnsamr í hèradi, lágr vexti, en digr af holdum, dökkr á háralit. Af bændum voru þar einna fremstir, þegar Steingrímssyni leid, Markús þorláksson í Gröf, Ólafr Jónsson bryti, frændi Steins biskup, hann bjó at Framnesi, en Bakka seinast, Magnús Skaptason at Vídimýri. Jón Jónsson í Grenivík hèlt Vadlaþíng, þar voru lögrèttumenn, sem ættir eru frákomnar, Pètr Bjarnason, Ormssonar, er fyrst bjó at Eyrarlandi, en sídan at Grund, ádr hann fór nordr til Kálfastrandar, ok Gottskálk þorvaldsson, Gunnlaugssonar frá Gullbrekku af Geitaskardsætt, fadir þorvalds, er sídan var prestr at Miklabæ, en Eyvindr duggusmidr Jónsson var þá kominn austr, ok hèlt klaustr at þykkvabæ. Mödruvalla-klaustr hèlt Hans Skevíng Lárusson, hann átti Gudrúnu, dóttur Vigfúsar á Hofi Gíslasonar, Vigfússonar á Hvoli, Gíslasonar lögmanns, Hákonarsonar, hún var kostakona mikil, áttu þau börn mörg, er enn má geta. Sölvi Tómasson hèlt Múnkaþverár-klaustr, hann átti Halldóru Jónsdóttur, systur Jóns sýslumanns í Grenivík. Benedikt lögmadr hèlt þíngeyarþíng, þar var lögrèttumadr Björn at Laugum, son Arngríms Hrólfssonar, frá hönum er ætt mikil. Margir voru enn fremri-háttar menn á landi, ok kann eg ei at nefna nema suma. Eyríkr hèt madr, er miklir menn eru frákomnir, er bjó austr á Hólmi, son Jóns á Skálafelli Jónssonar, Sigurdarsonar, Sigmundarsonar á Knappavöllum, er eg hygg son Jóns á Hofi í Öræfum, Sigmundarsonar, Ormssonar; Eyríkr átti Steinunni Jónsdóttur, systur Vigfúsar prests at Stöd, ok börn mörg, var eitt Jón, er mjög vard mikilsháttar. Sveinn á Svínafelli, fadir Magnúsar prests ok Sigurdar prests í Heydölum, er fyrr er getit, var son Jóns Einars-

sonar at Svínafelli, Jónssonar at Hofi í Öræfum; Jón yngri á Knappavöllum í Öræfum Einarsson, hyggjum vèr ok vera af Hofsætt, födur Einars rektors ok systkina hans, voru þeir frændr margir merkiligir menn. Med yfirmönnum má telja: Bjarna hinn ríka á Skardi ok sonu hans Brynjúlf ok Eggèrt; Eggèrt, son Gudmundar á Álptanesi, Sumarlida Klemensson ok Grím Grímsson á Giljá; en med ríkismönnum at auki er mikilsháttar voru: Benedikt Jónsson í Hrappsey, ok annan þó sídri væri at kostum, Eyrík á Ásmundarstödum á Slèttu, son Eyríks í Skógum Einarssonar prests hins fjölkunna at Skinnastödum, Nikulássonar, var Eyríkr þessi uppgángsmadr ok mikilhæfr, en grunadr mjög um gæzku, hann var fadir Pètrs prests Arnsteds á Hofi. Björn, son Ólafs prests Ásmundarsonar at Kyrkjubæ, dótturmadr Bjarnar at Bustarfelli, bjó í Bödvarsdal; Marteinn, son Bjarnar at Bustarfelli, bjó þar eptir födur sinn, en Jón bródir hans at Eyrarlandi í Eyafirdi, ok átti Helgu, dóttur Magnúsar Bjarnarsonar frá Espihóli, ok börn mörg; þeir brædr líktust foreldri sínu at vexti meir enn afli. Árni hinn ríki bjó at Arneydarstödum þórdarson, Árnasonar frá Móbergi, þorleifssonar, Jónssonar lögmanns á Reynistad, Sigurdarsonar. Jón Jónsson, er kalladr var höfudsmadr, bjó at Oddstödum á Slèttu, hann var mikill vexti, ok gyldligr, ok árædisfullr, er þat í almæli at hann hafi unnit einn 19 birni eda 20, en merkir menn bera þat þó aptr; þó gekk hann opt á ísa ok leitadi dyra; hann var í frændsemistölu vid Skinnustada menn, ok svo vid Pètr Bjarnason at móderni, ok reyndu þeir med sèr stundum.

## LXXVI Kap. Mannalát.

Þessi misseri, er nú eru talin, gekk landfarsótt mannskæd austr ok nordr, hafdi andazt eptir midjan vetr Jón prestr þorváldsson at Miklabæ í Skagafirdi, er prófastr hafdi verit, en Sæmundr prófastr fèkk sídan amtmannsbrèf fyrir stadnum, ok annat Eyríkr prestr Jónsson fyrir Hvammi í Laxárdal, því Ólafr Ólafsson var dáinn, hid þridja fèkk þorvaldr Jónsson fyrir Fagranesi; þá dó ok Arnbjörn prestr Jónsson at Undirfelli, sem kallad er, heitir undir Felli í Vazdal, hann hafdi átta Kristínu Jónsdóttur, þorleifssonar lögmanns, Kortssonar,

voru þeirra börn Jón prestr ok Jón at Giljá ok Valgerdr, módir Árna prests Tómassonar at Bægisá. Annar deydi Eyríkr prestr Sölvason at þíngmúla, ok enn Eyríkr prestr Jónsson at Hallormstad, Sigurdr prestr Ketilsson at Skeggjastödum, Jón prestr Guttormsson at Hólmum í Reidarfirdi, hann hafdi átta eina dóttur þórarins prófasts at Hrafnagili Jónssonar, ok voru þeirra börn þórarinn prestr at Skorrastad ok Halldóra, er átti Pètr prestr Arnsted á Hofi, son Eyríks ríka á Ásmundarstödum; Runólfr prestr Henriksson á Skorrastad dó enn, Snjólfr prestr Bjarnason at Stöd í Fáskrúdarfirdi, ok Vigfús prestr Ísleifsson at Mýrdal, er fyrri getr, var hann áttrædr; ok enn Hannes prófastr Halldórsson at Reykjaholti, ok Hólmfrídr módir hans, ok Jóns prófasts í Hítardal ok þeirra brædra, er af því er köllud prófasta-módir, hún var nírœd. Enn andadist Páll prófastr Pètrsson á Álptamýri, Katrín á þíngeyrum, er átt hafdi Lárits lögmadr Gottrúp, módir Jóhanns; Ólafr prófastr, er fyrri var, Gudmundarson, at Steffáns prests sonar síns at Höskuldstödum. þórdr prestr þórdarson í Hvammi gjördist þá prófastr í Dölum; týndust tvö skip á Breidafirdi, ok eitt á Brimilsvöllum. Brá þá til kulda ok þurrvidra med sumrinu, ok vard nýtíngasamt.

## LXXVII Kap. Börn Páls prests.

Nú skal geta barna Páls prests at Upsum, er dáinn var, ok Sigrídar: Bjarni dó úngr, Jón ok Halldór, ok Kristín nádi ekki giptíngu; Filippía var sídan gipt Hjalmari Erlendssyni, Ásgerdr Magnúsi presti Pètrssyni; Valgerdr þorvardi presti Audunnarssyni í Saurbæ; Gunnar var elztr sona þeirra er lifdu, ok vard sídan merkiligr; Björg var gipt Einari presti þórdarsyni í Hvammi; þórunn Páli Halldórssyni; Solveig hennar fèkk alþýdumadr, er Hallgrímr þórisson hèt, af ætt þorláks prests í Glæsibæ; Benedikt ok Ásmundr, er prestar urdu, ok getit verdr; Steinunn, er átti Bjarni prestr Pètrsson, Bjarnasonar, Bjarni, er ok vard merkiligr madr; ok verdr mikit af þeim brædrum at segja. Allir voru þeir heldr litlir vexti, en eigi óknáir, ok var Benedikt líkastr födur sínum um þat. Skarpleikemenn urdu þeir at gáfum, helzt Gunnar ok Bjarni, ok líktust um þat módur sinni; hún fèkk af því

fremd mikla, hversu hún gat studt þá til menníngar; allir voru þeir nokkud sèrligir í skapi ok látbragdi. Margrèt hafdi heitit ein systir Páls prests, hana hafdi átta Magnús Hallsson á Árbakka, bóndi einn ok gyldligr madr, þeirra son einn var Gudmundr, fadir Þorkels Bergmanns ok Ólafs, er átti Gudrúnu, dóttur Gudmundar í Höfnum.

## LXXVIII Kap. Þíng, mál ok eidatekt ok annat.

Þetta sumar kom út Árni, son Jóns biskups, í Keflavík, ok er sagt ádr hversu reiddi, ok undir alþíng kom út fregn frá Danmörku med skipum, ok brèf Kristjáns konúngs 6ta, í því var bodit at Njels Fúhrmann amtmadr, ok biskupar bádir skyldu taka trúnadareida konúngi til handa, af prófóstum ok prestum á hagligum stad ok tíma, en amtmadr einn af veraldligum embættamönnum, lènamönnum, ok jardaeigendum; vard eigi tími til at gjöra þat á alþíngi. Fræda-Gísli var hafdr á þíng fyrir synódum, ok audmýktist hann þá, ok hèt at gánga til skripta ok hlýdnis, en eigi vard af því, er hann rèdi sèr sjálfr. Þar var tekinn af eptir dómi Sigurdr Árnason undan Jökli, hann var 18 vetra, ok hafdi myrdta fridlu sína frá Sveinstödum; en þat vard uppvíst med þeim hætti, at Jóhann Gottrúp sýslumadr hafdi ördugliga gengit eptir; hafdi Sigurdr medkennt, eptir þat hann hafdi tekit á líkinu ok blæddi; hann hafdi ok látit grafa upp kerlíngu eina vid Búdir sakir ills ords um medferd á henni, ok þótti slíkr skörúngskapr hans þar þá tídindi. Konúngsbrèf var lesit upp, þat lèt sýslumenn hafa skyldu þridjúng af vogrekum ok sakeyri. Jens Spendrúp sat í lögmannssæti fyrir sunnan, ok var dæmdr til dauda Jón Jónsson úr Rángárþíngi fyrir hórdóm í þridja sinn, skotit þó til konúngs nádar, en vísat í hèrad ödru meina-máli; hafdi Árni Rafnsson úr hinni sömu sýslu getit barn vid födursystur sinni, ok var Nikulás Magnússon sýslumadr sektadr um 10 dali til Klaustrhóla hospítals fyrir drátt á þeim málum. Þar kom mál úr Ísafirdi um illyrdi ok ryskíngar med fedgum tveimr, Jóni ok Bjarna, syni hans, hafdi Markús Bergsson sýslumadr dæmt Bjarna til Brimarahólms æfinliga, en lögmenn dæmdu hönum þat um 3 ár, ok Jóni útlát nokkur til snaudra manna. Jón Ísleifsson sókti þar mál sín, ok tapadi sókn; en Bjarni Nikulásson

var settr frá sýslu fyrir þíngsvitnit, en þat mál vann hann sídan fyrir Hæsta-rètti. Konúngsbrèf var gefit út um almenniligan bænadag; annat um kommissaríos hvenær fást skuli; þridja um protókolla eda þíngbókahald. Oddr Sigurdarson var kominn út fyrir skömmu, kom hann ekki á þíng, því hann var at stefna Jóhanni Gottrûp at Laugarbrekku ok Íngjaldshóli um skuldalúkníngar eptir Hæsta-rèttar dómi, fyrir rángar adtektir, en lítit vannst hönum at því sinni fyrir vangá sína sjálfs, dugdi ok eigi, þó leitat væri at sætta þá, fór Oddr utan á Stykkishólmsskipi, ok var sú hans hin 8da för. Þat sumar var faraldr á saudum, nautum ok hestum, ok svo hundum ok refum, um Snæfellsnes, Dali ok Húnavazþíng; er sagt fýrst yrdi vart vid þat í Kaupstad vid Búdir, ok kenndu óvitrir menn fjölkýngi. Komu kaupför, sem vant var. Hinn 13da dag septembris var samkoma á Þíngvelli til eidatöku, ok höfdu eigi jafnmargir menn komit saman hèr á landi um 200 ár; voru þá sóknir tæmdar af prestum, svo at eigi var gegnt naudsynjum sjúkra manna, nema þar sem uppgjafa prestar voru; ridu menn úr öllum sveitum, ok svo einvirkjar ok gamalmenni til fundarins í midjum heyönnum, ef þeir áttu lítinn hlut í jördu, ok var kvartan mikil ok kvídi, ef óvedr fèlli á; áttu allir at afleggja munnliga eidinn, ok tafdist af því dagr, medan ritud voru eida-formin. Kom allr fjöldinn saman vid þíngvalla-kyrkju; settist Njels Fúhrmann amtmadr á stóli vid bord eitt lítit útsudr frá kyrkjunni, ok Steinn biskup til hægri handar hönum, því hann var eldri, en Jón biskup Arnason til vinstri; svo komu klerkarnir í röd ok unnu eidana; en daginn eptir voru eidar teknir af veraldligum á eyrinni fyrir nedan lögrèttuna; voru prófastar 15, en prestar 7 ok 40 annars hundrads, sýslumenn 21, lögrèttumenn einum fátt í 40, en bændr ok jardeigendr 380, alls voru þar 600, 12 fátt í; þarmed var talinn amtmadr ok biskupar, fógètinn ok Benedikt lögmadr, ok einn hermannastjóri eda lautenant; gátu margir eigi skrifad undir eidana, er vera skyldi eptir hinn munnliga eidinn, fyrr enn á þridja degi; var regn, ok urdu menn margir votir ok af sèr komnir, at standa yfir því, en sumir höfdu sýkzt á leidinni. Nóttina eptir var túnglslýsi ok þurt, ok fóru þá flestir af stad, þvíat hestum vard eigi haldit þar fyrir hagleysu; var þá engin veizla nè minníng, ok eigi var auglýst konúngsbod fyrir þessu. Þar fannst Jón Þorkelsson skóla-

meistari í Skálholti á þíngstadnum, fallinn í Fjósagjá af sturlan, ok vard hönum borgit. Jón, son Vigfúsar á Hofi, Gíslasonar, fór þá utan, ok nokkrir menn skagfirzkir, er vildu læra handverk, ok fèkk Jón son Bjarnar at Bustarfelli Helgu Magnúsdóttur, sem fyrri er vikit á, var hûn fyrir þeim hjónum um allt; en Björn prófastr Magnússon, bródir Helgu, fèkk Margrètar Einarsdóttur, er átt hafdi Benedikt Bech ok Gudmundr Steinsson. Druknadi í hèradsvötnum Einar bóndi þorbjarnarson at Völlum. þá fór enn utan Gísli, son Magnúsar prests Markússonar fra Grenjadarstad, er sídan vard mikilsháttar, ok hafdi þorleifr prófastr Skaptason lært hann. þann tíma stal Grímr þorláksson, Grímssonar smids í Vidvík í Húnavazþíngi, ok tók Bjarni sýslumadr Halldórsson hann til járns, en hann brauzt úr því, ok komst í Holland. En á annan dag jóla skar sig á háls Runólfr, son þorvards Runólfssonar, er bjó at Höskuldstödum í Laxárdal, nádi hann þó prestsfundi ok sakramenti, ok svaradi já ok nei med krít til þess, er
1732 hann var spurdr, ok dó degi sídar. Gjördi þá vetr hinn bezta, ok svo vorit, ok sakadi ekki, þó ís kæmi fyrir nordan á *Gói*, en hlutir voru litlir allvída.

## LXXIX Kap. Frá ýmsu.

Þau misseri gekk kvikfjárfaraldrit nordr ok austr; urdu ok fjárskadar undir Eyafjöllum hinn 28da dag janúaríí, hrakti vedr á sjá 340 fjár. Ofanverdan vetr stefndi Sæmundr prófastr Magnússon skólasveinum á Hólum, fyrir sýslumann til Vidvíkr, um þat er þeir höfdu misþyrmt syni hans, ok hýdt hann, vitnadist ei hverir þat gjördu, ok vard at hverfa frá því, en 8 medgengu seinna, ok vard sámit málit. Sá madr hafdi farit hèr um land hid fyrra sumarit, er Mattías Jókumson hèt, hann skrásetti um málmtegundir hèr á landi, en nú er hann var utan ok Oddr Sigurdarson, sóktu þeir bádir um lögmanns-embætti, ok fengu ekki. Oddr átti þá í máli vid einn herbergjasvein sinn fornan, ok spillti enn peníngum, gjördist ok ei útkljád mál hans vid Jóhann Gottrûp, en Jóhann tók nú þíngeyra-klaustr sjálfr eptir módur sína, sagdi þó af sèr Stapasýslu fyrir skulda sakir. Oddi kom þat í hug, er hann fèkk ei lögmannsdæmit, at fara til Svíþjódar, ok leggja út af ís-

lenzku fornfrædi, en þó vard ei af því; bad hann þá kaupmenn flytja sig út híngat, ok fèkk ekki, fyrr enn hann sókti lid af stiptamtmanni til þess, kom hann út fyrir alþíng. Þá sat Einar Illhugason, er verit hafdi sveinn hans, í fángelsi í Noregi fyrir mörg illverk. Sumar þat var blídt, ok nýtíng gód á tödum; öndudust þá þessir menn: Oddr prestr Eyólfsson ýngri í Vestmannaeyum, bródir Jóns Víselögmanns, hann var meir enn áttrædr; Sigurdr prestr Högnason í Eínholti, er fyrr var prófastr, ok fadir Högna prófasts, merkiligr madr ok úngmenna-frædari gódr, ok þá áttrædr at aldri; Jón prestr at Breidabólstad á Skógarstönd, nær áttrædu, en Þurídr, kona hans, var dáin ádr, hún var dóttir Ásmundar prófasts Eyólfssonar, var þeirra son Ásmundr prestr, er þar var sídan; Randalín, módir Sigurdar Högnasonar; ok Gudrídr Oddsdóttir í Ási, kona Eyríks prófasts Vigfússonar. Steffán prestr Egilsson á Hjaltastad druknadi í læk; druknadi ok Steffán Jónsson lögrèttumadr á Gufunesi. Þá tók snjóflód Brimnes í Austfjördum, ok þar inni bóndann ok 4a menn adra; fjós brann at Leirárgördum med 12 nautum. Þau misseri gjördist Jón prestr Sigurdarson prófastr í allri Ísafjardarsýslu, en Finnr, son Jóns prófasts Halldórssonar, vígdist til Reykholts, ok gjördist prófastr eptir födurbródur sinn. Brèf kom þá um þat, at sýslumenn skyldu fá embættis stadfestíngar sínar fyrir ekki, en ei biskupar ok amtmenn; annat brèf gaf konúngr Magnúsi Gíslasyni fyrir sudr- ok austr-lögdæminu; þridja Gudmundi Sigurdarsyni fyrir landþíngskrifara-embætti; fjórda var til Benedikts lögmanns ok Magnúsar Gíslasonar um lagaverkit, skyldu sýslumenn hinir helztu styrkja þá, Ormr Dadason í Dölum, Jón Jónsson í Eyafirdi, Þorsteinn Sigurdarson í Múlaþíngi, ok Sigurdr Sigurdarson í Árnessþíngi. Eitt var um Fræda-Gísla, hafdi Jón biskup Árnason borit hans málefni fyrir konúng, skyldi hann leysast, ef hann gengi til hlýdni, en fara útlægr ella; vid þat brá hönum svo at hann hlýdnadist, ok var leystr sídan í Þíngvalla-kyrkju, í náveru allra alþíngismanna. Ætladi annar madr, er Filippus Jónsson hèt, at gánga hinn sama feril, en konúngr baud at sá skyldi þá fara á Brimarahólm, ok gekk hönum vid þat hugr, ok lèt af fyrirætlan sinni.

## LXXX Kap. Þíng ok annat.

Benedikt lögmadr setti fyrst lögþíngit, ok var lesit upphafliga lögmannsbrèf Magnúsar, ok landskrifarabrèf Gudmundar Sigurdarsonar, hann var bródir Sigurdar prests í Flatey, ok Þorgríms í Hjardarholti, ok er getit fyrri ættar þeirra; sídan átti Bjarni Halldórsson sýslumadr þar mál, því hann var sóktr, ok töpudu sækendr. Þar var stórmæli, hafdi Kristín Bjarnardóttir úr Dölum vestan getit barn med Katli Bjarnasyni, stjúpfödur sínum, ok var hûn dæmd frá lífi, ok skotit þó til konúngs, en hann var strokinn. Þar kom ok mál Katrínar Íngjaldsdóttur, er Árni Rafnsson hafdi fallit med, var hann dáinn, en mál hennar var sett til konúngs nádar. Sídan var lesit upp lagaverksbrèfit, ok var ætlat svo til, at lagaverkinu væri snúit á danska túngu, en á medan þat væri eigi fullgjört, skyldi dæma at landslögum, en málasóknir fara at Norskulögum; hèlzt þetta sídan, því lítit vard af lagaverkinu, vildu sýslumenn ei at því stoda fyrir ekki, ok bar margt til; ýmislig voru þar mál önnur; kom dulsmál úr Kjós at konúngsbodi undir dóm 24ra, voru þau Þorkell Jónsson ok Gudlaug Ólafsdóttir, er þar áttu hlut at, dæmd frá lífi. Þar var lesit sýslubrèf frá konúngi til Sigurdar Högnasonar fyrir Mýrasýslu, en Jón Hjaltalín fèkk annat fyrir Kjósarsýslu. Eyríkr Steindórsson frá Búdum var seinast á því þíngi, ok er þat eigi rètt, er hann er sagdr dáinn fyrir tveim árum af mörgum, en skamt lifdi hann þadan; tók Jakob, sonur hans, upp bú vid Búdir at Bentsbæ, ok átti Gudrúnu, dóttur Jóns prests Jónssonar at Stadarstad ok Kristínar, hûn var sköruglig kona. Jákob var skólagenginn, forsjámadr mikill ok virdr vel ok læknir, spaklátr madr optast ok drjúglyndr, mikill vexti ok gyldligr um herdar ok arma, fáir menn voru þá sterkari. Jón, bródir hans, var alþýdumadr vid Búdir, ok gyldligr, hann var fadir Steindórs prests í Hvammi. Jakob hafdi átt son vid Ólufu, dótur Gissurar Hellnaprests, ádr hann kvæntist, hèt sá Páll. Þat sumar fèkk Magnús lögmadr Gíslason Þórunnar frá Álptanesi, Gudmundardóttur, Sigurdarsonar lögmanns, Jónssonar, skorti hann þá 3 vetr á þrítugan. Þá gat Helga, dóttir Steins biskups, barn vid Jóni Marteinssyni, skólagengnum manni. Madr nokkur var eystra, sá er sat í vegi fyrir presti, ok skar fót af hönum,

en hann missti knífsins, ok var sá madr dæmdr á Brimarahólm. Margir Skagfirdíngar fóru utan at nema handverk, ok kom sumum til lítils, en af námsmönnum fór utan Jón, son Benedikts lögmanns, ok Skúli, son Magnúsar prests í Húsavík ok Oddnýar, hann hafdi þá einn um tvítugt, ok Jón Marteinsson, er barnit átti vid Helgu. Dó Jón prestr þórdarson at Myrká, ok var þá gamall. Á því hausti tók Ormr prófastr Bjarnason á Melstad aflleysi, en Björn prestr Magnússon á Bergstödum tók þá vid prófasts-sýslan í Húnavazþíngi. þá vard hinn 7da dag septembris landskjálfti svo mikill á Rángárvöllum, at spilltust nær 40 bæir. þar um land ok í Eystrahrepp, en 11 eda 12 bæir hrundu nær í grunn, ok meiddust 3 eda 4 menn; lágu menn þá í tjöldum, því landskjálftinn hèlzt um tvær vikur. Brá þá til votvidra med höfuddegi, ok fyrir því nýttust útheyin midr enn tödurnar, þó nádust þau um sídir. Á þeim vetri öndverdum, er þá kom, undir jólin, andadist Jón Ísleifsson, er fyrr var sýslumadr í Skaptafellsþíngi, ok er lokit hans útistödum.

## LXXXI Kap. Umskipti, mannalát ok annat.

Sá var vetr hinn bezti, ok komu fáir dagar svo, at ei væri nautpeníngi beitandi sumstadar, en vída voru lömb ekki tekin á hey; þá týndist skip fyrir Gardi í Lambastadaröst sunnudaginn fyrstan í Gói fyrir dag, med 16 mönnum, var formadr jafnan vanr at fara fyrir þann dag frá Bessastödum á Stafnes, en þat var konúngsskip ok hid mesta er þar var; annat týndist med 4um mönnum sydra, þridja med 5 mönnum í Eyrarsveit, en bátr med 2r á Breidafirdi. Sigurdr þormódsson, yfirbryti í Skálholti, ok ferjumadrinn druknudu á Skálholtshamri. þá tók út 7 áttæringa vid Dýrhólma, svo var þar mikill sjáfargángr. Faraldr var þá á kvikfènadi umhverfis jökul, í Hvítársídu ok á Akranesi. Mál var í Skagafirdi um vetrinn, bjuggu þau Eyólfr Einarsson ok Björg Aradóttir, er haldit höfdu Reynistadar klaustr at Sydri-Brekkum, ok áttu lítit fè, sendi Björg börn sín á ýmsa bæi umhverfis til stulda, ok er leitat var, fundust bordar í faldi hennar, ok var hún færd sýslumanni, var þíngat á Ökrum hinn 9da dag febrúaríí, ok gáfu dómsmenn henni fè til ok börnum hennar, at leysa sig frá

hýdíngu, er þeim var dæmd. Gjördist nú Brynjúlfr prestr Halldórsson prófastr í Múlaþíngi nyrdra, en Brynjúlfr, son Sigurdar sýslumanns í Árnessþíngi, kom út, ok vard heyrari í Skálholti. Þá fèkk Finnr prófastr Jónsson konúngsbrèf fyrir Reykholti, er hann hafdi tekit ádr; en annad brèf skipadi kaupfèlagshöndlun um 10 ár, ok skyldu kaupmenn gjalda konúngi árliga 8 þúsund krónur, en taxti eda verdlag skyldi vera óbreytt, ok sýslumenn med 2r mönnum eidsvörnum skoda vörurnar. Á þeim misserum vard fiskreki mikill eystra, en 80 hundfiska rak í Ólafsvík. Vor var þá svo gott, at mjólkrkýr lágu úti í fjórdu viku sumars, ok voru nær fullgræddar í fardögum, ok tún þá vída slæg; var þá ok hid besta sumar fyrir sunnan ok vestan, en verra fyrir nordan sakir ísasudda. Þá urdu lát nokkurra nafnkunnugra manna. Njels Fúhrmann amtmadr hafdi verit veikligr sídan á páskum, ok andadist á Bessastödum kristiliga hinn 19da dag júníí á föstudag, skorti hann tvo vetr á fimtugan, ok var jardadr vegliga hjá Páli Stígssyni höfudsmanni, hann hafdi gefit ádr med testamenti Karenu Hólm lausafè sitt allt ok afgjald af jördum, en jardirnar sjálfar skyldu hverfa eptir hennar dag til rèttra erfíngja, er voru börn bródur hans Tyga Fúhrmanns. Vildu erfíngjar Gudmundar Þorleifssonar hèr á landi ná til þess fjár, ok svo erfíngjar Helgu Eggèrtsdóttur, en í Danmörku vildi ná til þess Frans Swarzkopf, bródir Apolloníu, þótti amtmadr dæmdr til at fá hennar, ok væri hann sídan rèttr erfíngi, en þess tilkalls missti hann fyrir dómi þeirra manna, er settir voru kommissaríí, ok sídan fyrir Hæsta-rètti. Var Fúhrmann hèr amtmadr um 15 ár, ok þótti mjög söknudr at hönum, ok lýkr þar amtmannatali Jóns prófasts Halldórssonar. Alþíng var þá fátídt, voru lögmenn þar ei bádir, þvíat Magnús hafdi umbod Benedikts, hann var lagztr af fótaveiki, ok lá ei fullt misseri, ok dó sídan; var hann hálf-fimtugr at aldri, en sumir segja, hann skorti þrjá á fimtugan, ok var þá Jón sonur hans utan; hann hafdi 7 sumur algjörliga lögmanns-sýslu, en 17 med Víselögmanns-embætti, en sýslu í Þíngeyarþíngi alla þá stund, alls í 24 ár; var Ólafr, son Árna prests í Hvítadal, settr fyrir sýsluna þau misseri. Þá deydi enn Halldór prestr Pálsson í Selárdal, er prófastr hafdi verit, áttrædr, ok Magnús prestr Markússon at Grenjadarstad, hann hafdi 60 vetr, ok voru þau hans börn: Gísli ok Oddr, ok

Gudlaug, er Erlendr prófastr Jónsson átti. þessir deydu enn: Eyríkr prestr Gudmundarson hinn gamli at Fagranesi, fadir þeirra Markúsar prests í Hvammi ok Gudmundar prests í Middölum, Álfr prestr Gíslason í Kaldadarnesi, Jón prestr Sæmundarson vid Mývatn; Sigrídr Hákonardóttir at Raudamel, módir Odds Sigurdarsonar, hún hafdi lifad 3 ok 40 vetr eptir bónda sinn, ok var hálfníræðr, ok hafdi þá legit í kör nokkra stund, en erft ádr Kristínu Gudbrandsdóttur, hafdi Kristín átt miklar eignir, ok gefit þó gjafir af Magnúsi lögmanni Gíslasyni, er þá bjó at Núpi, ok ödrum, en Oddr erfdi nú allt saman eptir módur sína. Enn deydi þórdís, dóttir Jóns Eyólfssonar Víselögmanns, er átt hafdi Njels Kjèr; Kristín Gudbrandsdóttir frá Vazfirdi, er átt hafdi Vigfús á Leirá, var dáin ádr enn Sigrídr, sem sagt var; ok Kristín Ólafsdóttir, kona Jóns prests at Stadarstad, hana skorti þrjá á áttrædan, ok var þat í þat mund, er Jakob Eyríksson fèkk Gudrúnar dóttur þeirra. Sátt var gjör med Oddi ok Jóhanni Gottrúp, ok önnur med Bjarna Halldórssyni sýslumanni ok Einari Jónssyni á þíngeyrum, galt Bjarni fè til snaudra manna, ok Jóhann ok Einar nokkud; Oddr kvad, er til vard rædt, Bjarna mundu hefna sín á Jóhanni. Sigling kom þá seint, ok þóttu kaupmenn dýrir ok fiskvandir, verdr allt slíkt at telja, þvíat í færra lagi var, þá tídindavænt ofanverdt ár. Haust var vedramikit ok rosasamt, ok gjördi bil hinn 7da dag nóvembris mánadar, ok urdu fjárskadar af, en sumir segja forráds-vedr væri í öndverdum októbri, ok fjártjón, ok hygg eg hid sama sè. Urdu þá 1734 litlir snjóar ok frost um vetrinn eptir, en regn mikil ok rosar, ok fèllu gemlíngar vída. Var þá ekki mikill afli, þó mestr í Hafnarfirdi ok á Álptanesi, en skipatjón urdu vída þann vetr; fórst 12æríngr í Vestmannaeyum med 18 mönnum, þat var konúngsskip, en annar áttæríngr med 16 mönnum, ok þridji sexæríngr med 10 mönnum, fjórdi í Grindavík med 10 mönnum, fimti í Gardi, þat var fjögra-mannafar; ok enn þrír bátar med tveimr ok einum manni, fimm-mannafar vid Höskuldsey, ok bátr á Eyafirdi. Enn urdu skipatjón á Ströndum, ok Skaga nordr ok vídar. Á góiþrælinn druknadi Halldór, son Sigurdar Högnasonar sýslumanns, af ísi í Álptá, voru taldir saman tveir menn hins áttunda tugar, er druknad hefdi, ok voru þó fleiri.

## LXXXII Kap. Nýir embættamenn.

Í þann tíma kom út Ritníngin prentud, er Steinn biskup hafdi lagt út, en fyrr eda sídar lèt hann prenta Grallara (saungbók) nokkrum sinnum, þórdar-bænir, Hallgríms-sálma, Hugvekju-sálma, frædi Lúthers ok vikubænir Lasseníí; nenntag ei at greina hvert sèr, þvíat afbrygdi urdu engin; kom þá engum manni til hugar at auka prentverk med nýrri frædi, þvíat mönnum þóttu þat nýúngar, en þær voru leidar. Var nú vor þetta kalt, ok eigi mikill grasvöxtr, ok dó vída fènadr nyrdra ok vestra. En þessir menn öndudust þá, sem vèr kunnum at nefna: Halldór prestr Magnússon í Árnesi áttrædr at aldri, Gísli prestr Sigurdarson at Kvennabrekku nær sjötugu, Gudmundr prestr Eyríksson í Middölum hálf-sextugr, Jóhann prófastr þórdarson í Hraungerdi ok þorkell prestr Oddsson at Gaulverjabæ, ok svo Ástrídr í Haga þorleifsdóttir, er átt hafdi Ari þorkelsson, hún var tveimr vetrum meir enn áttræd. Erlendis dó meistari Jónas Gam, rektor í Nestved á Sjálandi, son Dada sýslumanns í Kjós, Jónssonar prófasts á Melum, Jónssonar prests í Vestmannaeyum, þorsteinssonar, ok mágr Lárusar sýslumanns Skevíngs. Faraldr gekk á nautpeníngi sudr um nes ok í Árness-sýslu. Gjördi þá í Árness-sýslu svo mikinn landskjálfta, at hrundu 30 bæir, en 60 eda 70 býli spilltust, ok lètust vid þat 7 menn eda 8. Geir Markússon lèt af prófastsdæmi í þíngeyarþíngi, ok tók vid því þar aptr þorleifr Skaptason, sem hann hafdi fyrr haft í Skagafirdi. Nú hefir Jóhann Gottrúp ordit at svára ærnu fè til Odds Sigurdarsonar, en hafdi ádr haldit óspart á, var hann af því kominn í svo miklar skuldir at ókleyfar voru, ok hafdi þá fyrir tveimr vetrum sagt af sèr Snæfells-sýslu ok umbod, ok hafdi nú misst öll völd, nema hèlt þíngeyra-klaustri; var hann þá jafnan hræddr vid Odd, því hann krafdi hann fjár hvervetna, ok skalf náliga hvar sem hann sá hann. Var Gudmundi Sigurdarsyni landþíngskrifara veitt sýslan ok umbodit, en uppgjöf fèkk Jóhann sídan á þúsund dölum af skuldum til konúngs. Gudmundr bjó sídan at Íngjaldshóli, ok gjördist landþíngskrifari eptir hann Oddr, son Magnúsar prests Markússonar. þá kom út nýr amtmadr Jóakim Henrik Lafrenz, ok gjördist Ólafr Árnason, er settr hafdi verit fyrir þíngeyarþíng, ritari hans, en þar

var settr sýslumadr Jón, son Benedikts lögmanns þorsteinssonar. Alexander Smidt vard lögmadr eptir Benedikt, gekk þá all-lítt lagaverkit sídan. Skúli, son Magnúsar prests Einarssonar í Húsavík, fèkk Austr-Skaptafells-sýslu, ok hafdi þá þrjá um tvítugt, hann kom sídan Jóni bródur sínum til frama ok utanfarar; eigi fèll hönum þar eystra. Mörg urdu þá skipti á prestum. Kauptíd var allgód, þvíat Rentukammerit gekk fast eptir, at sýslumenn skodudu vöruna, ádr seld var; ritadi þat sjálft í þann tíma sýslumönnum öll brèf, er þurfti; þvíat sá var háttr a dögum Fridriks konúngs fjórda, ok lengi sídan, at margt kom til stjórnarinnar frá fyrstu hendi. Var nú settr nidr ofmikill ofsi ok sjálfrædi fyrirmanna, en illgjördir hófliga refstar, en flestir embættamenn höfdu til þarfar sèr, ok fór þá sæmiliga landstjórn fram innanlands, þó einstökum sinnum yrdi missmídi.

## LXXXIII Kap. Þíng ok adrir tilburdir.

Tvö konúngsbrèf komu til stiptamtmanns Ochsen, var annat um þat at landfógèti skyldi sitja yfirrèttinn, ef amtmadr var ei vidlátinn, en ef hann væri hindradr, þá lögmadr sá er ei væri í sökum, en ef hann mætti ei, þá hinn elzti sýslumadr. Annad var um þat at manndrápsmál ok stuldamál skyldi einsaman dæma eptir Norskulögum; eitt um konur, er lýsa barnsfödur, ok svarit er fyrir, ok veitíngarbrèf, þau er ádr er getit. Var med einu Brynjúlfi, syni Sigurdar sýslumanns Sigurdarsonar, veitt Árness-sýsla med födur sínum; voru þessi brèf lesin upp á þíngi, ok þar var dæmdr til lífláts Pètr Halldórsson úr Húnavazþíngi, fyrir barngetnad med systurdóttur sinni, voru þau sídan í haldi med Bjarna sýslumanni Halldórssyni. Sigurdr Högnason sýslumadr átti þar mál, ok þótti mjög lagalaust verit hafa atferli hans í hèradi, ok þó af vanvizku meir enn ránglæti. Oddr átti þar ok mál vid Jón Hjaltalín, ok vildi Jón ekki gánga í rètt vid hann, er hnekkt væri æru hans, lagdi Oddr þá fyrst fram ærubrèfit, var hönum gjör fèsekt fyrir ránga málsýfíngu, en Jón skyldi bidja hann fyrirgefníngar á brígslyrdum. Annat fór þar ekki fram þat er teljandi sè. um sumarit sigldi Tómas Knopf kapteinn hèdan alfarinn med lidi sínu; hafdi hann verit hèr um 5 vetr, ok fullgjört landsmálan sína merkiliga, en 13 ár hafdi stadit mælíng, ok skodun sú, frá því er Magnús

Arason kom fyrst út med því eyrindi. Haust var vott ok vedrasamt, ok hröktust tödur, gjördi skadavedr mikit hinn 7da dag októbris, en annad hinn 12ta hins sama mánadar, í því brotnudu 13 skip á Skaga, en kaupfar á Skagaströnd rak upp í Þíngeyrasand ok lestist, en hinn 10da dag desembris var hid þridja: bar svo til, at Grímr Grímsson lögsagnari, er bjó at Giljá, sendi bod Þíngeyra-presti, er Ólafr hèt, Gissurarson lögrèttumanns á Valdastödum í Kjós, Gudmundarsonar, ok bad hann skíra barn sitt, baud hann þar til veizlu Jóhanni Gottrúp ok ödrum heldri mönnum, en á medan setit var at [illegible], brast á nordanhríd mikil; lagdi Jóhann Gottrúp út, því skamt var til Þíngeyra, ok Sigrídr Salómonsdóttir, ok fylgdarmenn þeirra; prestrinn lagdi ok út; villtust þau öll, ok snèri Sigrídr skjótast aptr, ok nádi Giljá, en Jóhann lá úti um nóttina, ok þeir adrir, fannst prestrinn örendr, er upplètti hrídinni, ok 5 menn adrir er sagt þá hafi fengit bana í því vedri.

## LXXXIV Káp. Frá ýmsu.

1735 Vetrinn eptir var allgódr, ok þó rosamikill, grasmadkr fyrir austan; þá höfdu þau Hans Skevíng á Mödruvöllum Lárusson ok Gudrún Vigfúsdóttir átt börn saman, ok voru Lárits ok Þórunn, Hannes ok Davíd, en Vigfús var borinn þennan vetr, ok menntust þau öll sídan. Hlutir voru litlir sydra, en engir undir Jökli. Prestar nokkrir voru vígdir, ok var einn Þorlákr Gudmundarson prests frá Selárdal, Vernhardssonar, Erlendssonar, hann gjördist kapellán födur síns, en var sídan brugdinn vid fleira. Sótt gekk fyrir nordan ok vestan, andadist Teitr Arason sýslumadr á Bardaströnd, ok var Ólafr Jónsson á Eyri vid Seydisfjörd settr þar fyrir sýsluna. Teitr hafdi átta Margrètu, dóttur Eggèrts Snæbjarnarsonar, Torfasonar prests á Kyrkjubóli, Snæbjarnarsonar; þeirra börn voru: Eggèrt, Jón, Sigrídr ok Þóra. Jón var gardari seinna, ok dó í Kaupmannahöfn, hann var knáligr madr, hann var fadir Gríms Thorkelíns. Sigrídr átti Jón prest Ólafsson á Stad á Reykjanesi, þeirra synir voru Ari á Reykhólum ok Ólafr beykir. Gudmundr var launsonur Teits, hann var fadir Gudmundar, sem prestr var um hríd, födur Hjálmars prests. Ari var annar launsonur Teits, hann druknadi á Gilsfirdi. Jón prestr Jónsson á Stadarstad andadist

þá einnin; ok voru hans börn Ólafr prestr á Snæfjöllum, ok annar Ólafr blindi, Helga, Gudrún ok Sigþrúdr, ok flest vel viti borin. Sigþrúdr gat barn heima med þeim manni, er Jón hèt Gíslason, ok hèt Bjarni, duldist hún vid, ok skírdi Ólafr prestr bródir hennar þat med leynd, ok missti fyrir þat prestskap, sá Bjarni vard prestr sídan. Sigþrúdr vard blind. Helga giptist Sveini presti Gudlaugssyni, hann var fyrst kapellán Jóns prests, en sídan at Hellnum ok Hvammi í Nordrárdal, þeirra synir voru Gudlaugr prófastr í Vazfirdi, ok Jón prófastr. Helga vard blind, en deildi þó liti, ok nærgætin voru þau Ólafr mjög; Gudrún átti Jakob Eyríksson vid Búdir, þeirra börn voru Halldór, Jón ok Kristín. Hinn þridji deydi Eyríkr prestr Oddsson í Hreppkólum; fjórdi Runólfr Gíslason, kyrkjuprestr úngr í Skálholti; fimti Torfi prestr Ísleifsson at Stad í Súgandafirdi; einnin Runólfr Sveinsson á Stafnesi, lögrèttumadr merkiligr, verdr getit afkvæmis hans. Jón hèt madr Sveinsson, Gunnlaugssonar, Eyríkssonar ins sterka, Grímssonar, hann reid frá Holtastada-kyrkju í móti allra manna rádi, ok út í ófært, ok týndist, ok fleiri urdu slík tjón. Þá voradi vel, ok á því vori dæmdi Jón sýslumadr í Grenivík tveimr letíngjum órádvöndum húdlát; er þess því getit, at dómar voru þá enn gjörvir at fornri lenzku ok líkindum, ei sídr enn eptir lögum Dana, var þat ok leyft af konúngi sjálfum, ok hefir meir aftekizt med aldarsid enn lögmáli. Þórdr kapellán at Vazfirdi fèkk þá konúngsbrèf fyrir Grenjadarstad, ok fór þángad, en Haflidi prestr Bergsveinsson fèkk Hóla. Blinda var á saudpeníngi um sumarit, ok vard mönnum notalaust vída. Kaupför komu at venju, ok hröktu Danir ullina. Þá var gefit út konúngsbrèf um mál Þórdar prests í Reykjadal, ok var þat samþykkt, er Fúhrmanni amtmanni hafdi sýnzt, ok þeim prestum, er hönum höfdu fylgt, en meistari Jón Árnason þótti ofhart metit hafa; annat var tilskipun barnakonfirmazíónar, er köllud var, eda stadfestíngar í kristindómi; eitt um lögmenn, at hver skyldi dæma málefni úr sínu lögdæmi, sem í Noregi; eitt um yfirrèttinn, at hann hefdi 12 dómendr; eitt var forbod at bera gulldregin klædi; eitt um þá sem falla í legord, ok giptast sídan 22r vikum ádr barn er alit, at þau skuli eigi standa kyrkjuskript, en gjalda þó sekt eptir stóradómi; eitt um þrætugjarna menn, ok fèsekt þeirra; eitt um arf ok skuldir; eitt um tillag til uppgefinna

presta í Skálholts biskupsdæmi; eitt um rèttargángs-efni; eitt um skipun jústiz-kassa, er menn kalla, eda sakmála-fèhirzlu; eitt var brèf Jóns Benediktssonar fyrir þíngeyarþíngi; þó voru þau mörg gefin svo seint út, at ei komu híngat á því sumri.

## LXXXV Kap. Mál.

Á alþíngi átti Jón sýslumadr Hjaltalín í málum, ok var hönum dæmd fèsekt fyrir rángan dóm á Pètri Erndt, lèzt hann mundi skjóta því lengra. Þar kom ok mál Jóns Halldórssonar á Leirárgördum, hann hafdi blakat Sigurd sýslumann á Hvítárvöllum í Saudarèttum, ok dæmdist fèsekt. Jón Benediktsson ok Bjarni Halldórsson sýslumenn áttu þar ok mál saman, þeir gjördust hèradsríkir bádir, ok svo Skúli Magnússon ok Jón Þorsteinsson, sýslumenn í Skaptafells-sýslu, þar var Bjarni Nikulásson vidridinn, ok hèlt hann þá klaustr. Sigurdr Steffánsson í Vestmanna-eyum sókti þá ok Jón Þorsteinsson at Amtmannsbodi um máls-medferd nokkra, ok voru þetta smámál ein, hjá þeim, sem ádr höfdu verit. Þá braut Eyrarbakka-skip austr í Mýrdal, ok keypti Nikulás Magnússon sýslumadr bol allan, rá ok reida fyrir 100 dali.

## LXXXVI Kap. Tídindi önnur.

Þat má med tídindum telja, er bar til um Siglufjardarskard, milli Austr-Fljóta ok Siglufjardar; þar var stigr einn á veginum, er mönnum vard at ófarnan mikil; hafdi þat verit um 100 vetr, at menn höfdu sèd þar sýn nokkra líka ský-strokki, ok hafdi stundum steypzt á ferdamenn, ok jafnt á degi sem nóttu, þó ei meir enn á einn í senn, þó fleiri væri saman, ok var þat þess manns bani, er fyrir vard; en er hèr var komit, voru 5 vetr sídan at þat hafdi ordit tídara enn adr; baud þá Steinn biskup Þorleifi prófasti Skaptasyni í Múla, er þá var einn haldinn mestr klerkr ok audríkastr, at flytja þar gudsþjónustu ok bænir opinberliga; var þar þá reist grjótaltari á stignum um sumarit, ok framin tídagjörd ok bænahald med fjölmenni, ok er sagt, at sídan hafi ei ordit mein at því. Þat sumar fór Alexander Smidt lögmadr

utan, ok Kristján Luxdorf landfógèti med reikníngа sína. Þá týndist skip í Eyrarsveit hinn 13da dag ágústí mánadar, ok var formadr Bjarni Bjarnason í Nedri-Lá, en á voru med hönum synir hans tveir fullordnir, sveinar tveir úngir ok stúlka, ok höfdu þau róit til fiskjar.

## LXXXVII Kap. Daudi Jens Spendrûps.

Jens Spendrûp, sýslumadr í Skagafirdi reid um haustit í Fljóta umbod, Siglufardar ok Slèttuhlídar, ok er hann kom at utan úr Hofsós, var hinn 5ti dagr októbris; þat var síd dags, er hann var á Lónshálsi; mætti hönum þar sendimadr Gudrúnar Vigfúsdóttur, konu Hans Skevíngs á Mödruvöllum, var hûn komin vestr, at finna Helgu, módur sína, ok bar sendimadrinn þau bod, at hûn vildi sjá hann, heilsa hönum ok kvedja, ok hefdi lengi bedit hans, vildi því gjarnan, at hann hradadi förinni; hann gjördi svo, ok reid yfir þvert Hegranes at Kárastödum, var þá eigi ferjumadrinn heima; hann reid þó til ferjunnar ok menn hans, ok var þá nær dagsetri; lèt hann flytja fyrst skipfarma tvo, ok var kyrrt vedr á medan, svo at ljósbert var úti; fóru menn hans yfirum med förmunum, til at taka í móti hestum ok leggja á til flýtis, nema hann sjálfr ok Jón Gudmundarson sveinn hans, en sá kom aptr, er med ferjuna fór, Einar Kársson, bródir Þorleifs, er sídan var at Hraunum, þeir frændr voru komnir frá Sæmundi prófasti í Glaumbæ Kárssyni; fann hann sýslumann ok Jón, ok var enn borit á ferjuna þat er eptir var, nema einir 5 baggar, ok voru í einum þeirra 7 hundrud dalir, 6 er hann átti jafnan at geyma af kaupmanna fè, en eitt er hann átti sjálfr; í ödrum var tóbak ok brennivín ok annat ýmisligt; stigu þeir sýslumadr ok Jón á ferjuna, en Einar rèri, ok var þá nidmyrkt ordit; en er kom á midvötnin, kom á vedr mikit, ok vard ei rádit vid, mættu þeir þá hrakníngi ok sandbleytu, en þar er ærin, ok hrukku þeir út, ok druknadi Jón Gudmundarson, sýslumadr tók hann daudan, ok lagdi hann í byttuna, ok stódu þeir Einar í vatni til dags, því þar voru grynníngar, þá mælti sýslumadr: nû má Gud gjöra vid mig hvad hann vill, ei get eg nú lengr; fóru þeir þá bádir í byttuna, ok ætludu at láta reka, var sýslumadr kominn at bana; hvolfdi þá aptr, ok druknadi hann, en þó lifdi Einar, ok slæddist

med ferjunni undir bakka, ok fannst um morguninn í sandeyri, segja sumir væri í midjum vötnum; hafdi Jens Spendrûp verit 17 ár sýslumadr, ok jafnan hógvær, sundrgerdalaus ok óskrautsamr; eigi fundust peníngarnir, ok eigi lík Jóns Gudmundarsonar, en flest fannst annat. Var lík sýslumanns jardsett at Kórbaki vid Reynistadar-kyrkju hjá þóru Jónsdóttur, fyrri konu hans, ok haft mikit vid útför; voru þar vid Steinn biskup ok frú Valgerdr, kona hans, Björn prófastr Magnússon vestan frá Bergstödum, ok margt annat göfugmenni, fór hún framm hinn 18da í mánadinum, og voru bodsmenn leystir út med gjöfum. Setti Jóakim Lafrenz amtmadr Odd Magnússon landþíngskrifara at halda lögsögn til vors, ok þó vegna Helgu, ekkju Spendrûps, ok baud hönum at sjá um búit ok arf þann, er þar var fallinn, var þat virdt í þrjár vikur, ok vard 6 þúsundir dala verdit; en þá var spesíudalr ríkisdalr kalladr, ok fjórir lagdir í hundrad hvert. Jens Spendrûp hafdi verit ólærdr madr, en þó jafnan virdr vel, ok orkti þorlákr prestr þórarinsson erfiljód eptir hann, ok lèt um hann mikit; gekk arfr eptir hann hèdan af landi til brôdur hans. Oddr Magnússon var vinsæll madr, þá stund er hann var vid sýsluna, hann var álitligr ásýndum, ok vel at sèr um marga hluti, ok gekk sídan at eiga Sigrídi Sigurdardóttur frá Geitaskardi, Einarssonar biskups, þorsteinssonar. Sumarlidi Klemenson gaf Jóhanni Gottrûp fè sitt eptir sig, ok naut hann þó lítt, því Bjarni Halldórsson vard vidridinn.

## LXXXVIII Kap. Ýmisligt.

1736 Önnur misseri var enn hinn bezti vetr, enn sídan blídt vorit, ok hin mesta árgæzka; týndist skip á þorraþrælinn í Rifi med 5 mönnum. Vorhlutir voru í medallagi vestra, en litlir sydra. þá bjó Sigurdr Vigfússon skólameistari í Gröf á Höfdaströnd, en þorlákr Markússon var at Sjáfarborg, er þar bjó fyrri, þóroddr þórdarson var heyrari, ok leitadi heldr á Sigurd, því hann var ör ok framgjarn; vard at standa í milli þeirra. þá kom út Jón, son Vigfúsar Gíslasonar at Hofi, ok hafdi ordit soldáti, èn Jens Spendrûp sýslumadr hafdi leyst hann út med þremr hundrudum dala, hann var frídr madr sýnum, ok vel um sig, en heldr til drykkjugjarn. Um þær mundir bar þat til, er vard

Katrínarmál, grunadi Hólmfrídr Pálsdóttir Vídalíns konú þá um mælgi, ok annat marglæti vid Bjarna sýslumann Halldórsson bónda sinn, ok eitt sinn, er hún var stödd at henni, leiddi hún haná í fjárhús vid tvó menn ok þernu sína, ok lèt flengja þar allóþyrmiliga ok med eigi gódum atvikum, ok vard af mál illt enn Bjarni kafdi þat, er Hólmfrídr dó. Þá gjördi afla fyrir nordan um sumarit, ok þó meiri á Ströndum, ok vard hinn mesti grasvöxtr. Ut kom þá konúngsbod at prestar skyldu hafa tölu á þeim, er fæddust ok dóu í sóknum þeirra, ok senda prófasti, prófastr biskupi, en biskup utan hvert ár; ok svo þau önnur er ádr voru gefin út; eitt forbod at bera gull ok silfr á klædum; eitt kom um þat at sýslumenn tæki sjálfir sakafall ok vogrek, ok gyldi vist af, en stædi eigi reikníng á; eitt um rángar ákærur; eitt um bænda brúdkaup, leiki ok spil. Voru þá Jóhanni Gottrúp gefnar upp skuldirnar, er fyrri víkr á, ok svo Jóni Hjaltalín, en Gudmundr Sigurdarson fèkk mínkud afgjöld Stapa-umbods um 80 vættir á ári. Þess er getit um Þórarinn prest Jónsson, Gudmundarsonar, er fyrri var í Grímsey, at hann hafdi haldit Nes í Reykjadal, þat er lítit kall; yfirgaf hann þat vitundarlaust vid biskup ok prófast, ok fór til Finnbogastada á Ströndum med hyski sitt, en Eyríkr, son Þórdar prests frá Hvammi í Hvamms-sveit, Þórdarsonar, Finnssonar, vígdist þángat.

## LXXXIX Kap. Mannalát.

Landfarsótt stakk sèr þá nidr híngat ok þángat, ok var þúng, lögdust flestir á þeim bæum, er sóttin tók, ok hèlt hún vid nær misseri, þar sem hún kom; andadist þá Jón prófastr Halldórsson, ok hafdi haldit Hítardal í 4 vetr ok 40, ok er þat flest eptir hönum, er híngat til er sagt um biskupa ok amtmenn, ok þó sumt fleira; vard prófastr eptir hann Jón prestr í Stafholti Jónsson frá Einarsnesi, en Sveinn prestr Gudlaugsson fèkk þá Hellnaþíng. Annar andadist Halldór prestr Árnason at Húsafelli, fadir Bjarna sýslumanns; þridji Gottskálk prestr Þórdarson á keldum; fjórdi Páll prestr í Goddölum Sveinsson, fadir Sveins prests, hann hafdi átta Þorbjörgu, dóttur Odds Eyríkssonar á Fitjum, ok voru þeirra börn Sveinn prestr, fadir Jóns prests í Goddölum, Páls á Steinstödum, ok þeirra systkina; Björg, kona Þorsteins

Sigurdarsonar sýslumanns í Múlaþíngi; Elízabet, ok Sesselja, er átti Jón Ólafsson, Einarssonar, þorsteinssonar í þykkvabæ. þessir dóu enn: Árni bóndi at Grund í Skorradal, lögrèttumadr, son Sigurdar Árnasonar lögmanns, Oddssonar, ok þorbjörg systir hans, ok Gudrídr í Vindási, seinni kona Torfa prófasts Halldórssonar, ok enn Hallgrímr Jónsson Thorlacíus sýslumadr í Sudr-Múlasýslu, hans börn voru þau Jón í Berunesi, ok Elín módir Hallgríms prests Einarssonar Thorlacíuss, ok Sesselja, módir Einars prests Bjarnasonar Thórlacíuss á Grenjadarstad; Björn prestr Thorlacíus í Gördum var bródir Jóns, hann var hardhugadr, ok alvörumikill. Hólmfrídr Pálsdóttir í Vídidalstúngu, kona Bjarna sýslumanns, dó af barnsför, hèt barnid þorbjörg, ok er sagt, at lítt hafi fallit á med þeim hjónum, voru þessi börn þeirra, er til menníngar komust: Páll, hann var námsmadr mikill, sem módurfrændr hans, Halldór, Ástrídr ok þorbjörg, þau menntust öll. Halldór prestr frá Útskálum Brynjúlfsson, Ásmundssonar hafdi fengit þar þóru, dóttur Bjarnar prests Thorlacíuss í Gördum, fèkk hann nú Stadarstad, ok var kalladr þar rædumadr mikill.

## XC Kap. þíng, ok annat.

Bjarni Nikulásson hafdi unnit mál sitt fyrir Hæsta-rètti, ok var þá enn sýslumadr í vestri Skaptafells-sýslu, var hönum falinn á hendr sá madr til gæzlu, er Björn hèt Jónsson, ok í málum átti þar eystra um barngetnadar efni, en vard ei útgjört at því sinni. Voru sóknir miklar á alþíngi med Jóni þorsteinssyni, er sýslumadr hafdi verit í Skaptafellsþíngi, ok ödrum mönnum þar, í þeim málum voru Eyvindr Jónsson duggusmidr klaustrhaldari ok þórdr þorleifsson, Jón Sigurdarson ok Sigurdr Kálfsson, ok var þar heldr agasamt ok stórbokkar miklir, ok eigi þótti Skúla Magnússyni sèr þar óhætt í sýslu sinni, ok var hann þá úngr ok enginn audkvisi. Ormr Dadason sókti á þínginu Markús Bergsson sýslumann at Amtmanns bodi, um medferd á meinamáli Gudrúnar Jónsdóttur úr sýslu hans, er getit hafdi barn med módurbródur sínum; vann Markús mál sitt, en Gudrún var dæmd líflaus, ok skotit þó til konúngs nádar. þorsteinn sýslumadr Sigurdarson baud 16 hundrud dali til þykkvabæar-klaustrs, ok vitum vèr ei

gjörla hví þat var. Alexander Smidt sagdi þá af sèr lögsögn med öllu, ok af því baud Lafrents amtmádr Magnúsi lögmanni Gíslasyni at þjóna einnin nordr- ok vestr-lögdæmi; spurdist amtmadr fyrir, hvert ei mundi meiga reisa hèr sakamannahús fyrir þá menn, er dæmdir voru á Brimarahólm, en Magnús lögmadr ok sýslumenn, er vid voru, kvádu þat verda mundi of þúngt landsmönnum. Þat haust fór Skúli Magnússon sýslumadr utan, ok ætludu sumir hann mundi ætla at sækja um lögsögnina eptir Smidt, en sumir hugdu um Hegraness-sýslu. Hinn 16da dag septembris andadist Þorlákr Markússon at Sjáfarborg, hans son var Sveinn, er þar bjó sídan; en hinn 21ta sunnudag eptir Trínitatis, fóru fram brúdkaupin at Geitaskardi vestr, er Sigurdr Einarsson biskups gipti dætr sínar; fèkk Oddr Magnússon sýslumadr Sigrídar, en Gísli bródir hans Íngibjargar systur hennar, ok höfdu til konúngsleyfi, því þær voru dætr födursystur þeirra. En Björn Skevíng Lárusson frá Mödruvöllum fèkk í þat mund Sigrídar, dóttur Jóns prófasts Gíslasonar, var bod inni at Mödruvöllum at Hans Skevíngs, bródur hans. Þá bar þat til hinn 23ja dag októbris mánadar, at týndust bátar tveir vid Steingrímsfjörd í vedri miklu, med 5 mönnum á, en hinn þridji fannst degi sídar nordr á Skagaströnd, áralaus, ok þó heill, ok í hönum fjórir menn, örendir allir.

## XCI Kap. Frá ýmsu.

Þá var haust rosasamt ok öndverdr vetr til sólstada, en þadan af gjördi, hrídir stórar med snjóþúnga ok hagbönnum, var jardlaust í 1737 mörgum sveitum, ok hèlzt frammúr til krossmessu, en fyrir nordan gjördi stórhríd med 9viknaföstu, ok fórust 3 stórhundrud fjár í Skagafirdi, en miklu meira um Eyafjörd, ok þó allra mest í Þíngeyarþíngi, ok urdu 6 menn úti, hèlzt þar vetr til fardaga, fèllu margir hestar ok nokkur peníngr annar; var mikil hríd um sumarmál helzt vestra, ok fórust 5 hundrud fjár í Hvammssveit, ok 33 hestar, ok líkt því var á Skardsströnd, ok á Fellsströnd út um Klofníng, gjördi sú hríd mest at hardindum; hrakti fè vída í sjó; voru þá ok litlir hlutir sydra, en nokkut meiri fyrir Jökli. Skip týndist undir Jökli frá Bug, þar var med Gudmundr bóndi Vigfússon ok synir hans þrír; annat fórst med

5 mönnum á Látraröst, en tveir bátar á Álptanesi; urdu þá ok misferli ýmislig. Oddr Magnússon hafdi sökt um Hegranessýslu, ok svo gjördi Skúli sýslumadr; var þá deila mikil í Húnavazþíngi, sóktust þeir um flengíngarmál Katrínar, Bjarni Halldórsson sýslumadr, Jóhann Gottrúp ok Grímr Grímsson á Giljá, en ekki kom þat þá til alþíngs. Kom út á Akreyri Hans Becher danskr madr, er verit hafdi fyrrum fjögr ár í för med Árna Magnússyni ok Páli Vídalín, þá þeir voru kommissaríí, ok skrád bækling um vidreisn Íslands, ok hafdi nú fengit lögsögn eptir Alexander Smidt; reid hann þegar sudr til Bessastada, ok fór utan aptr eptir konu sinni ok börnum. Kristján Luxdorf landfógèti kom ok út aptr, ok konúngsbrèf nokkur. Var eitt um búdir, tjöld ok hesta alþíngismanna, at vera mætti at ósekju nordanverdt vid Öxará, svo at þíngvalla presti væri ekki fyrir goldit; hafdi slíkt komit í umrædu, þvíat hagar þeir voru þrotnir, sem fyrrum höfdu verit, ok vard þó miklu meira seinna. Eitt um þat at lögmadr enginn væri sýslumadr ásamt, ok at 40 dalir bættist vid laun Magnúsar lögmanns Gíslasonar. Eitt um prestakalla veitíngar. Eitt um hjálp til klædabúrs, er hefja skyldi í Kaupmannahöfn, átti hverr at leggja til X dali, sem hafdi 50 dala inntekt, þat kom þá eigi út. Eitt var um aftöku ok greftran óbótamanna; annat um skilníng lagagreinar einnar. Eitt um kyrkju-tilsjár-kollegíum, er hefja skyldi. Eitt um fiskal konúngs. þar med voru veitíngarbrèf: eitt til Bechers fyrir lögmannsdæmi; annat til Skúla Magnússonar sýslumanns fyrir Hegraness-þíngi; þridja til Ólafs Árnasonar prests í Hvítadal, fyrir Bardastrandarsýslu. Ólafr var madr eigi mikill, snotr í ásýndum ok atferli, en þótti heldr óvæginn þar vestra. Eitt var um prófastamót, ok annat var komit ádr um þat, at prófastar mætti halda rètt med tveimr prestum í hèradi. þá gjördist Gudmundr prestr Vernhardsson prófastr í Bardastrandarsýslu, en Jens Víum tók vid sudrhluta Múlasýslu eptir Hallgrím Thorlacius med því sem hann hafdi ádr. Arnór, son Jóns Arnórssonar í Ljáskógum, gjördist lögrèttumadr á þíngi. þar var Jón Hjaltalín sóktr fyrir ránga málsmedferd, ok dæmd fèsekt, vard þó ei útgjört allt mál hans; voru ok lagasóknir úr Skaptafells-sýslu med Skúla Magnússyni, Högna prófasti Sigurdarsyni ok enn fleirum; Eyvindr Jónsson hafdi mál í móti Skúla, ok Einari presti Hálfdánarsyni, þat var eitt. þar kom

ok blódskammarmál úr Ísafjardarsýslu; hafdi sá madr, er Sigmundr hèt Gudmundarson, getit barn vid Halldóru dóttur sinni, ok urdu þau ei færd á þíng fyrir hardindum, ok eigi kom Markús Bergsson sýslumadr, var því þá skotit til hins næsta alþíngs. Jóhann Gottrúp var kominn í ærnar skuldir fyrir þíngeyra-klaustr, ok lèt amtmadr Odd Magnússon taka þat út, ok var gjört álag mikit. Var Oddr þá sýslulaus, ok gjördist rádsmadr at Hólum, því þorgeir bródir Steins biskups lèt af, en þíngeyra-klaustr var bodit upp, kom hönum óvart mjög, ok hlaut þat Bjarni sýslumadr Halldórsson, ok gjördist eptir þat audugr, ok flutti til þíngeyra. Jón Gudmundarson hèt madr í Húnavazþíngi, er barn gat vid stjúpdóttur sinni, þorbjörgu Helgadóttur, þau sálgudu því, ok dæmdi Bjarni þeim dauda, ok hafdi í haldi. Skúla Magnússyni sýslumanni voru kennd börn tvö, annat í Skaptafells-sýslu, ok vann hann eid fyrir, en annat kenndi hönum Steinunn, laundóttir Bjarnar prests Thorlacíuss í Gördum; er mælt at hann vildi ok synja þess, en Björn prófastr kvad hönum ei hlýda skyldi, at óssema dóttur sína, ok gekk svo fast at hönum, at hann rèdi þat af at fá hennar sídan. Fór skúli nordr, ok birti brèf sitt á þriggja hreppa þíngi í Skagafirdi, ok hafdi þegar mörg þjófamál fyrir, ok gjördist umsýslusamr. Skúli var hár medalmadr á vöxt ok eigi þrekinn, kvikr mjög, skarpeygr ok nokkut varaþykkr, mikill rómrinn, ok því líkast sem hann biti nokkut á vörina, er hann taladi, hann var óvilsamr, ok þótti nokkut hardlyndr, en vinfastr var hann, ok þrautgódr í mörgu.

## XCII Kap. Mannalát ok annat.

Þau misseri voru prentadar í Svíþjód margar íslenzkar sögur, ok urdu Svíar fyrri til enn Danir eda Íslendíngar sjálfir, at gjöra þat af alvöru, en þat var uppruni Noregs konúnga, Hrólfssaga kraka, Hálfssaga ok rekka hans, Hrómundarsaga Greipssonar, Hálfdanarsaga Brönufóstra, Ragnarssaga Lodbrókar, Norna-Gestsþáttr, Völsúngasaga, Fridþjófssaga frækna, Samsonar fagra, Hrólfs svarta, Hálfdanar Eysteinssonar, Sörla sterka, þorsteins bæarmagns, ok enn fleiri. Var þá þurt sumar med nordanvindi, ok heyadist allilla, en vott haustit, ok brunnu 400 hestar at Orms Dadasonar sýslumanns í Fagradal. Þá

andadist Jón prestr Markússon, ok Geir prestr bródir hans í Laufási, ok voru þeir brædr Magnúsar prests Markússonar; Jón prestr Sigfússon á Ríp, Árni prestr Álfsson í Heydölum, Högni prestr Gudmundarson at Stöd í Stödvarfirdi, ok Hákon bóndi Sigurdarson at Leirá, Árnasonar lögmanns; Elín er átt hafdi Torfi prestr Hannesson þrem vetrum betr enn sjötug, ok Steinunn Hallgrímsdóttir í Hjardarholti, skorti tvo á tírædan; þorbjörg Magnúsdóttir, er átt hafdi Páll Vídalín; Soffía Dadadóttir, er Lárits Skevíng sýslumadr hafdi átta; Íngibjörg Vigfúsdóttir, kona Halls prests í Höfda, Eyríkssonar prests, Hallssonar, ok Málmfrídr, dóttir þeirra; ok enn Jón prestr at Skinnastödum, son Einars prests Nikulássonar gamla, var hann betrfedríngr, en þó ei mjög vinsæll, ok kalladr greipaglennir, ok börn hans flest hnigu til hindrvitna-sida födurfödur síns, eda fengu vanhag af; var Einar prestr einn son hans hinn helzti, er á Skinnastödum var eptir hann. Hinn 22ann dag ágústí, sem var fimtudagr, rèri á sjá Brynjúlfr prófastr Halldórsson í Kyrkjubæ í Túngu, med syni sínum frumvaxta, ok tveimr mönnum ödrum til gamans sèr, þvíat vedr var blídt; en er þeir komu at landi, hljóp í brim hastarlígt, ok lendtist þeim illa, klofnadi bátrinn, en prófasti sló út, ok kom svo hardt nidr at rotadist, nádi Jón sonur hans hönum, ok bar til lands örendan, ok af komust þeir hinir. Úngir menn fóru þá utan, Háns, son Jens Víums sýslumanns, ok þórarinn, son Jóns í Grenivík. Seint um haustit í nóvembri, lèt Jón sýslumadr í Grenivík þjófsdóm gánga til hýdíngar ok mörkunar yfir Bjarna kaupamanni sunnlenzkum, hann hafdi stolit frá Halldóri á Bakka, en frá Magnúsi Bjarnarsyni Pálssonar, er þá bjó enn at Stokkahlödum, silfri til 20 dala. Tídindi þóttu at Hvítá hin eystri hljóp úr farvegi sínum fyrir jól, ok sudr um allan flóa, austr fyrir Gaulveriabæ, ok út at Laugardæluin, svo menn urdu at rída til lambhúsa á túnum sínum. þat haust gjördist Gísli, son Magnúsar prests Markússonar ok Gudrunar Oddsdóttur digra, bródir Odds Magnússonar, skólameistari í Skálholti, þvíat Jón þorkelsson hafdi yfirgefit. Gjördi þá aptr hardan vetr med allraheilagra messu, nær sem hinn fyrra, ok hèlzt
1738 fram yfir midjan, med jardbönnum ok ógæftum, því vedrátt var mjög óstödug; var fiskilaust kríngum Jökul allan, ok hart um bjargrædi, svo búdafólk var nær komit út á einmánadi; var vedrátt med áhlaupum,

ok urdu fjárskadar í Borgarfirdi, ok fyrir nordan land, týndist skip í Ólafsvík med 9 mönnum, hèt Jón Steindórsson formadr, druknadi þar ok annar sona hans; 4 menn týndust fyrir Vallnabjargi, 2 í Eyrarsveit, 2 af báti í Höskuldseyar vogi; tvö skip týndust í Vestmannaeyum, var annat tíæringr med 15 mönnum eda 16; var annat þat tjón eignad manna völdum, ok járnadr húskall Nikulásar Magnússonar sýslumanns. Skólasveinar urdu úti á Bröttubrekku hinn 14da dag aprílis. Jón, sonur Sigurdar á Hvítárvöllum, ok Jón Erlendsson frá Hvanneyri. Þat vor braut brim 4 skip vid Hellisvelli, ok 3 í Dritvík. Á því enu sama segja annálamenn, Jóhann prófastr Þórdarson í Laugardælum hafi andazt, en fyrri höfum vèr talit þat eptir Doktor Hannesi biskupi Finnssyni, er líkast er at gjörst hafi vitat.

## XCIII Kap. Mannalát ok margt annat.

Í þann tíma gekk landfarsótt nordr ok vestr, ok dó margt manna: þá dó Eyríkr prestr í Saurbæ í Eyafirdi, Þorsteinsson, Gunnlaugssonar prests, Sigurdarsonar, hann var fadir Dómhildar, èr Þorsteinn prófastr Ketilsson átti sídast, ok Gunnlaugs prests; einnin Páll prestr Högnason á Valþjófstad, er fyrr var prófastr; Jón prestr Jónsson í Hítarnesi, er fordum átti í Stokksmálinu, hann var afgamall; Þórdr prófastr í Hvammi í Hvammssveit Þórdarson, Finnssonar, Sigurdarsonar prests í Miklaholti, hann var fadir Þorsteins prests ok Eyríks prests í Nesi ok Einars prests í Hvammi, födur Þorsteins Rangels; Halldór prestr Einarsson at Stad í Steingrímsfirdi; Magnús prestr Arason at Mælifelli; Pètr prestr Eyríksson Arnsted at Hofi í Vopnafirdi; Þrúdr húsfrú Þorsteinsdóttir Þorleifssonar frá Vídivöllum, er Björn biskup hafdi átta, hún var þá at Hlídarenda, ok lángþjád. Oddr Magnússon, er settr hafdi verit fyrir Skagafjardarsýslu, dó á Hólum öndverdliga árs, ok hafdi 3 vetr ok 20, hafdi ok andazt barn þeirra Sigrídar úngt, er Einar hèt; Ragnheidr Magnúsdóttir á Höskuldstödum, kona Steffáns prests Ólafssonar, vel hálffertug, voru eptir 6 börn úng: Ólafr, Sigrídar tvær, Elín, Anna, Margrèt, þau voru þá lítils umkomin, en menntust öll vel; Gudrún, systir Skúla Magnússonar sýslumanns; margt andadist alþýdumanna, ok einna helztr Steingrímr á Þverá Jónsson, Steingríms-

sonar, hann hafdi átta Sigrídi Hjálmsdóttur, ok voru þeirra börn Jón, þorsteinn, Pálmi ok Helga. Jón þórdarson gjördist landskrifari í stad Odds Magnússonar, en Skaptafells-sýslu hlutann fèkk Sigurdr Steffánsson frá Vestmanneyum eptir Skúla, er mælt settr væri aptr í eyar Hans, son Jens Víums úr Múlaþíngi. Steffán prestr Einarsson fór þá til Laufáss. Um sumarit kom út Hans Becher lögmadr, ok settist at í Brokey. Komu þá ok konúngsbrèf: eitt um Jústiz-fèhirzluna, at vera skyldi undir Rentukammers umsjá; annat at gestarèttr hèldist á alþíngi, í þrætum þeim er þar fèlli til; en seinna var gefit út eitt um þær konur, er svarit er fyrir faedernis lýsíng þeirra, ok landþíngskrifara-brèf Jóns þórdarsonar. Sæmundr prófastr Magnússon hèlt Synódalrètt fyrir Stein biskup, því hann var ei þíngfær; ok þá fèkk Jón Vigfússon frá Hofi Reynistadar-klaustr. Lesit var á þíngi lífgjafarbrèf Kristínar Bjarnadóttur, er barn hafdi gètit vid Katli stjúpfödur sínum, ok skyldi hún vera á spunahúsi æfilángt; en annat um jardir, er lagdar voru til Valgerdi húsfrú, ef Steinn biskup fèlli frá, þær voru 12; þá voru önnur ómerkiligri, um testamentis-gjafir ok þvílíkt; sídan var lýst óskilamönnum, ok enn var fleira; lýstu þeir frændr Björn prestr Thorlacíus ok Brynjúlfr þórdarson ósátt á gjafabrèfi þrúdar húsfrúr; var ok sáttmáli milli Odds Sigurdarsonar ok Jóhanns Gottrúps í máli nokkru milli Jóhanns ok Sumarlida Klemenssonar; eitt var kauplýsíng Jakobs Eyríkssonar vid Búdir, er hann hafdi keypt hálfa Kolbeinsstadi af Ormi sýslumanni Dadasyni, umbodsmanni þeirra er áttu, ok margt annat. þar voru teknir af þrír menn, Sigmundr frá Mosdal úr Ísafirdi Gudmundarson, er barn gat vid Halldóru dóttur sinni, ok Jón úr Vídidal í Húnavazsýslu, sá hafdi getit barn vid stjúpdóttur sinni, ok sagt þau hafi deydt þat. Bótólfr Jörundarson hèt madr á Bardaströnd, er myrdti gamlan mann, ok hèt sá Jón Óttarsson. Annan myrdti þórdr Ásmundarson í Skagafirdi, úngan mann, er Gudmundr hèt. Kristján Luxdorf landfógèti fèkk lausn frá sýslan sinni, er hann fór utan um sumarit, med því skilyrdi at hann fengi annan í sinn stad; en af því hann vildi hafa þridjúng launa, sem sá er undan hönum var næst, þá vildu fáir til verda, nema þeir fengi laun full ei at sídr. Var enn gefit út konúngsbrèf hinn 22an dag ágústí mánadar, ok leiddi inn hvervetna í ríkjum Dana konúngs spurn-

ínga-lærdóm, þann er Eyríkr Pontoppídan biskup hafdi samit, þó vard ei af því hèr á landi svo skjótt, því hann var þá enn ei lagdr út. Grasbrestr var þá mikill, ok hardt í ári, ok urdu manntjón af slisum. Urdu þeir prófastar Jón prestr þorláksson í Múlaþíngi, Jón Jónsson í Stafholti í Mýrasýslu ok Halldór Brynjúlfsson at Stadarstad í Snæfellsness-sýslu. Steffán prestr at Höskuldstödum kvæntist aptr, ok fèkk Sigrídar Sigurdardóttur, er Oddr Magnússon hafdi átta, ok voru þeirra börn seinna Sigurdr ok Oddr. þessi misseri voru þeir allir bornir Jónas, son Benedikts prests Jakobssonar, Benediktssonar, þorkell, son Ólafs prófasts Gíslasonar í Odda, ok Jón, son Jakobs Eyríkssonar vid Búdir. En um haustit hinn 7da dag októbris andadist Jón Magnússon gamli hálf-áttrædr, ok var hann þá med Snorra prófasti syni sínum at Helgafelli.

## XCIV Kap. Tilburdir öndvert ár.

Næsti vetr gjördist hardr med nýári vestanlands ok nordan, ok svo 1739
í Borgarfirdi, var fiskifátt, ok gródalaust framyfir fardaga, fèllu peníngar allvída, ok drápust kýr í hor ok kulda sumstadar um vorit; eptir þat batnadi þó skjótt, en landfarsótt gekk yfir. Skip týndist vid Hellisvelli fjórda laugardag frá páskum, voru flest á nordanmenn, en sá hèt Gudmundr Ásgeirsson, er formadr var; vída brotnudu skip af brimi ok sjáfargángi, 13 í kríngum Jökul, ok 7 löskudust. þá deydi Björn prestr þórdarson at Melum í Borgarfirdi, ok var meir enn áttrædr, hann var fadir Hannesar prests at Kvennabrekku. Annar dó Andrès prestr Gíslason í Otrardal, þridji Torfi prestr Bjarnason í Nes-hrepp, fjórdi Frans Ibsson prestr í Hruna, 5ti Jón prestr Einarsson at Stad í Adalvík, ok konur nokkrar í heldra lagi. Á þíngi var lesit landskrifarabrèf Jóns þórdarsonar, var hann sonur þórdar prófasts á Stadarstad. Gudmundr sýslumadr Sigurdarson sókti þar sök í móti Ólafi sýslumanni Árnasyni, um dóm í máli Ólafs bónda Gunnlaugssonar í Svefneyum, ok vannst ei á. þar var lesit upp landfógetabrèf Kristjáns Drese, hafdi Kristján Luxdorf landfógeti komit, út ok ridit á þíng, ok kvaddi þar vini sína. þórarinn lögsagnari, son Jóns í Grenivík, stód þar fyrir málum; kom þar ok fram lífgjöf nokkurra

sakamanna. Eptir þíngit afhendi Kristján Luxdorf konúngsgardinn Bessastadi eptirkomanda sínum Drese, því hann var þá kominn út, en fór sídan utan med Hólms-skipi alfarinn; var hann madr ókvæntr, ok hafdi verit spakr ok hóglyndr, ok komit sèr vel vid hvern mann, snaudr hafdi hann útkomit, en grædt hèr fè, voru landfógèta-laun hækkud á hans dögum um 50 dali, er vera skyldu kostpeníngar hans á þíngi, ok hèlt hann þridjúngi launa, eptir þat er hann lèt af landfógèta-sýslun, til þess er hann fengi annat lèni, svo sem verit hafdi um Kornelíus Wúlf; var hann hèr landfógèti um 12 ár, ok grynnti heldr á vináttu med þeim Lafrenz amtmanni á hinum sídustu árum hans. Þau misseri gjördist Þórarinn prestr Jónsson prófastr í Dalasýslu, hann hèlt Hjardarholt eptir födur sinn, ok átti Ástrídi, dóttur Magnúsar prófasts í Hvammi Magnússonar, bródurdóttur þeirra Árna Assessors ok Jóns, en systur Jóns prests á Setbergi, þeirra son var Árni, er seinna gjördist mikilsháttar. Þat sumar var gódr heyáfli, ok hin bezta nýtíng.

## XCV Kap. Fráfall Steins biskups.

Steinn biskup á Hólum sagdi þat um sumarit, at þá mundi hann eiga skammt eptir ólifat, ok mundi deya af þeirri sótt, er hann tæki fyrsta þadan af. Var fátídt þat sumar, nema árgæzka mikil á sjó ok landi; hafdi Þórarinn Jónsson gjörzt lögsagnari födur síns þat ár, sem fyrr segir, ok tók Gudmundr prestr Ísleifsson prófastsdæmi á Bardaströnd. Helgi prestr í Grindavík Jónsson, Þórdarsonar, Ólafssonar á Svarfhóli, Jónssonar, kærdi fyrir konúngi at hann fengi ekki jardatíundir, því flestar jardir í sóknum hans væri eign Skálholts kyrkju, en landsetar guldu þar engar tíundir af, ok bad hann at þeim yrdi haldit til þess, fylgdi Jón biskup Árnason því, en vildi ekki at þeim þúnga væri skotit til dómkyrkjunnar, þvíat fyrir sunnan galt hverki dómkyrkjan nè landsetar tíundir þær. Henrik Ochsen stiptamtmadr vildi halda láta fornum vana, ok sá vard konúngs úrskurdr, at vera skyldi um tíundargjald til klerka ok kyrkna um allt Ísland, sem þángat til hafdi verit, ok fèll nidr sú ákæra um sinn. Þurfti eigi til at taka í Nordrlandi, þvíat Hólastóll galt þær tíundir allar sjálfr, ok hefir þat verit

umtalslaust sídan til þess á vorum dögum. Þat haust hinn 29da dag októbris tók Steinn biskup sótt, ok andadist annan í desembri; hafdi hann verit biskup 8 vetr ok 20, en í embætti einn hins sètta tugar, ok skorti vetr á áttrædan; 8 presta hafdi hann vígda hins 7da tugar; er ekki afkvæmi komit, þat er mikils sè verdt, frá ödrum börnum hans, enn Helgu ok Jórunni. Jórunn var fyrst gipt Hannesi Skevíng Lárussyni, þeirra börn voru Lárits Skevíng, fadir Steffáns prests í Presthólum ok Hannesar prófasts ok Jórunnar, er átti Þorsteinn prestr Hallgrímsson, ok Margrètar, er átti Einar prestr Árnason at Saudanesi, ok Þórunn ok Margrèt. Þórunni átti fyrri Jón á Reynistad Vigfússon frá Hofi, en seinna Jón prófastr í Skaptafellsþíngi, son Steingríms á Þverá; en Margrètu Þorgrímr, son Jóns prests Þorgrímssonar frá Hálsi. Son Jóns Pálssonar ok Helgu var Jón prestr ok prófastr, er seinast hèlt Laufás, fadir Geirs biskups Vídalíns. Steinn biskup hafdi verit vinsæll madr mörgum manni. Margt fólk er komit frá systkynum hans, ok flest alþýdumenn.

## XCVI Kap. Frá sýslumönnum.

Þá gjördi hinn bezta vetr at öllu, nema umhleypíngasamt var á Gói, 1740
en optast var lopt þurrt ok hreint; andadist þann vetr margt manna, gekk ok yfir gulusótt vída. Á því vori dæmdi Þórarinn, son Jóns í Grenivík, at amtmanns bodi, at Vídivöllum í Skagafirdi, ok ónýtti at lögum gjöf húsfrúr Þrúdar, í ólofi Brynjúlfs Thorlacíuss ok Bjarnar prófasts Jónssonar frænda hans, því at hún var óvottud, ok óþínglýst; var Skúli sýslumadr Magnússon fyrir hönd þeirra frænda, en annars vegar Jón sýslumadr Benediktsson í Raudnskridu. Skúli setti bú saman á því vori at Gröf á Höfdaströnd, ok átti Steinunni dóttur Bjarnar prófasts, voru þeirra börn Jón, hann var þá vetrgamall, Gudrún, Björn, Rannveig, Gudrún önnur, Oddný, Halldóra; gjördist Skúla brátt fengsamt, rak um sumarit duggu hollenzka á Skaga, ok höfdu týnzt af allir menn; tók hann hana at sèr, ok er eigi getit hverju skilat var af. Brátt gjördist hann hèradsríkr ok úrskurdar-mikill, bar þeim Bjarna Halldórssyni þegar á milli.

## XCVII Kap. Mannalát ok tjón.

Þessir öndudust hinna heldri manna; Jón prófastr í Stafholti Jónsson, bródir Sigurdar á Hvítárvöllum, ok fadir Jóns sýslumanns at Móeidarhvoli, en annar bródir hans var Magnús, er bjó at Brennistödum, hans son var Páll prestr, fadir Guttorms prests, ok voru þessir uppi af Einarsness lángfedgum, ok Eggèrt son Gudmundar á Álptanesi. Annar prófastr deydi Ólafr í Vallanesi Steffánsson prófasts Ólafssonar, hann hafdi haldit Vallanes í 2 vetr hins 6ta tugar; ok prestar Eyríkr Gudmundarson á Eidum, Arngrímr í Vestmannaeyum Pètrsson, Gissurarsonar, Gamlasonar, Hallgrímssonar, Sveinbjarnarsonar; Jón Ólafsson at Stadarhrauni, hann druknadi at silúngsveidi; Bjarni lögrèttumadr Sigurdarson, Árnasonar lögmanns, bródir Árna á Grund ok Hákonar á Leirá, hann var fadir Gísla prests at Melum, ok Jóns prests at Holtastödum nordr, ok var hálfníræðr; Íngibjörg á Hvítárvöllum Pálsdóttir prófasts í Selárdal, módir Ólufar, er Sigurdr sýslumadr átti, hún var nær níræðu. Þorvaldr skáld Magnússon prests, Illhugasonar, Bjarnarsonar at Laxamýri, dó at Þíngeyrum, hann var aldrei kendr vid konu, ok vid fátt brugdinn, ok kalladr audkvisi mikill í ætt, en ljód mælti hann af munni fram, sem madr talar hradt, ok jöfn þeim, er vöndud voru, hefir hann orkt sálma marga, ok annat. Lafrenz amtmadr var jústizrád at nafnbót, hann skipadi Þorleif prófast Skaptason fyrir stiptisprófast nyrdra. Vard þá atburdr um vorit í Múlaþíngi; Jens Víum sýslumadr bjó at Skriduklaustri, hann lèt flytja sig yfir fjörd nokkurn, med lögsagnara sínum Jóni Þorleifssyni, ok einni konu, 5 menn voru þar adrir á skipi. Þat skip fannst seinna, ok þeir 5 menn í því daudir, voru stíngir tveir á formanninum hjá vidbeininu, sem vera mundi eptir korda, ok var getit til at sýslumanni mundi hafi borit til vid þá, ok sveini hans, er þeir voru nokkut ölvadir, ok þeir mundu hafa unnit á þeim, ok hrundit þeim útbyrdis, ok sá ordrómr lagdist á, ok svo segir í kvedskap, þeim er sídan fór fram í Eljáraglettu vid Hans Víum, son Jens. Fannst hverki sýslumadr nè Jón Þorleifsson, nè konan þadan af, ok gátu menn til at þau mundu komizt hafa í duggur útlendar, er þá lágu vid Austrland. Hans Víum, son Jens, var settr fyrir sýsluna, hann var hvatr ok óvilsamr, allra manna ordfærastr,

med hönum voru systkin tvö, er hann tók vid syslu, Jón ok Sunnifa, ok höfdu getit barn saman, ok ritadi hann bænarbrèf utan fyrir þau um líf ok landvist, en þar vard mikill atrekandi at seinna.

## XCVIII Kap. Frá ýmsu er tilbar.

Konúngsbrèf voru þau gefin út: eitt um kyrkjuverdi, at reikníng gjöri fyrir kyrkjufèhirzlur eda porzíónir, var þat at undirlagi biskupa Steins ok Jóns Árnasonar ok amtmanns; annat um verd grárra fálka; þridja um legórdsmál Magnúsar Þorvaldssonar stúdíósí, hann hafdi getit barn vid Þrúdi, dóttur Bjarna ríka Pètrssonar á Skardi, ok hafdi fengit Bjarna mikils, sem tídt var, en þá tókst af meyarèttr fyrir rádspjöll sá er ádr hafdi verit. Þat vor týndist áttæríngr frá Múnkaþverárklaustri í lendíngu vid Grímsey, fórust tveir menn, en adrir nádu landi. Nikulás Magnússon syslumadr sat í sæti Bechers lögmanns á alþíngi, var þar fátídt, þó var þar tekinn af Asmundr úr Skagafirdi, er myrdan hafdi pilt einn. Ár var mikit á sjó ok landi. Gjördist mál í Skagafirdi; var Þóroddr heyrari Þórdarson framgjarn ok óvæginn í ordum jafnan; hann taladi um þat at Skúli syslumadr Magnússon mundi eigi skjalliga hafa medfarit dugguna, er rak, ok stúngit fènu undir stól, þarmed mundi hann valdr hafa verit af lífláti Gudrúnar systur sinnar, ok haft óleyfiliga umgengni med Þórunni Jónsdóttur í Gröf ok dætrum hennar, ok komst þadan af í umrædu, at sèd hefdi verit fyrir barni einu eda fleirum þar í móunum, ok vard því trúat, ok urdu skjótt margir til at taka undir þetta; en af því at Þóroddr gat hvergi stadit med slíkt rógmæli, þá vard hann at bidja syslumann brèfliga fyrirgefníngar. Þóroddr var fadir Þórdar stúdíósí ok Þóroddar beykis á Vatneyri. Sigurdr Jónsson á Hvítárvöllum lèt þá af syslu; en Bödvar Jónsson tók syslu í Vestmannaeyum, hann var son Jóns lögrèttumanns á Yxnakeldu Ólafssonar. Sumarlidi Klemensson hafdi gefit Jóhanni Gottrúp allt fè sitt skuldlaust med testamenti, þá fyrir 5 vetrum sídan, ok var þarmed Mardarnúpr, bar nú svo til at hann reid frá Þíngeyra-kyrkju drukkinn, fèll af baki ok hálsbrotnadi; naut þá ekki Jóhann fjárins, því mál mikit vard í milli Bjarna syslumanns Halldórssonar ok hans, er kallat var Titlíngastada-kýr-mál, ok lauk svo

at Bjarni hlaut Mardarnúp. Bjarni sættist vid Jóhann, at kallad var, um illyrdi, en gjördi atför í skuldafè hans, ok urdu med þeim deilur miklar ok lángar. Þá kom snjór mikill nordanlands í 12tu viku sumars, ok fèllu á því ári 60 hestar í Þistilfirdi, en heflat upp trè til átu þeim er lifdu, 60 fèllu í Hofssókn, 80 á Völlum austr, 100 í Fljótsdal, ok gengu margir frá þar eystra sakir penínga fellis, at því er sagt hefir Þorsteinn prófastr Ketilsson. Brunar urdu sumstadar á þeim misserum; brann bær í Gufudal vestr hinn annan ok 3dja septembris, at Jóhans prests Þórólfssonar, ok vard at mikit tjón, dó þar barn eitt inni. Stofa brann á Narfeyri med því er í var. Þá var stolit á Skutulsfjardareyri vestr, úr kaupmannahúsum til 9 hundrada ok 50 vætta, þat medgekk mestallt madr frá næsta bæ Hnífsdal, Þórdr, son Torfa prests at Snæfjöllum Bjarnasonar á Árngerdareyri, Gunnlaugssonar prests á Stad, Snorrasonar, ok sumt Bjarni, bródir hans, var Þórdr mannvænn, ok þeir atgjörvismenn bádir, ok var hann látinn fara utan, en strauk úr Noregi til Hollands, ok fèkk þar skips forrád. Hinn 5ta dag jóla týndust bátar tveir á Sudrnesjum, ok 7 menn á, urdu þá fjárskadar miklir fyrir nordan land, ok hrakti vída fè í sjó, brotnudu í Vadlaþíngi fjögr skip hins þridja tugar.

## XCIX Kap. Frá prófóstum.

Halldór prófastr Brynjúlfsson, Ásmundarsonar prófasts, Eyólfssonar, var þá at Stad á Ölduhrygg, er kalladr er Stadarstadr, hann átti Þórn, dóttur Bjarnar prófasts Thorlacíuss í Gördum, hálfsystur Steinunnar, er Skúli Magnússon átti; þeirra börn voru Jórunn ok Vilborg, Gróa ok Elín, Snæbjörn ok Brynjúlfr, Páll ok Björn, Margrèt ok Þrúdr, ok eigi öll komin í þann tíma, sem nú er frásagt. En at Bergstödum í Svartárdal var þá Björn prófastr Magnússon frá Espihóli, Bjarnarsonar, Pálssonar, ok dótturson Jóns biskups Vigfússonar, allskörugligr madr, bródir Þorsteins, er sýslu fèkk á Rángárvöllum, ok fyrstr tók embættis-examen sýslumanna, ok Ragnheidar, er átt hafdi Steffán prestr á Höskuldstödum; Björn prófastr átti Margrètu Ólafsdóttur prófasts Gudmundarsonar, systur Steffáns prests. Höfdu þeir prófastar bádir Halldór ok Björn farit utan um sumarit, ok leitudu eptir at fá biskups-

dóm á Hólum, var þeim þá lagt fyrir at leggja út bækr, ok lagdi Halldór prófastr út spurníngar Eyríks Pontoppídans á íslenzku, en Björn prófastr þá bók, er hann kalladi Kristinn húsfödur, voru þær prentadar bádar í Kaupmannahöfn, en er dæmt var um þær sídan, þótti útlegging Halldórs prófasts betri. Þó fyrir því at hvergi þeirra mælti fram med ödrum, en bádir lètu þeir sem mikilla mundi vera bótavant í lærdómi ok sidum í biskupsdæminu, þá rèdist þat at hvergi þeirra fèkk embættit at því sinni, ok var annat rád tekit. En medan þeir voru utan, var vetr hèr allgódr, fiskr mikill undir Jökli, en rosasamt þegar fram kom á Gói. Týndust þridjudaginn í seinustu viku þess mánadar 2 menn á Hjallasandi í landtöku, en adrir nádust; brotnadi fyrir vedri í Snæfellssýslu ok í Dölum, á landi ok um eyar hálfr fjórdi tugr skipa, ok urdu margir skadar á húsum. Vor var hardt fyrir nordan, ok hafísar miklir. 1741

## C Kap. Útkoma Harbóes, frá Skúla ok ödru.

Nú var þat rádit í Kaupmannahöfn, at prestr einn danskr Lodvík Harbóe var skipadr yfir Hóla biskupsdæmi, ok þarmed visitator generalis, ok kom hann út um sumarit, ok med hönum Jón Þorkelsson, er fyrri var skólameistari í Skálholti, ok skyldi vera nótaríus, son Þorkels í Skardvík ok Ljótunnar Sigurdardóttur, Árnasonar lögmanns. Gjördist þá mikill ordasveimr um bygdir, at þessir menn mundu eiga at umsteypa fornri trú, ok innleida píetista lærdóm, ok vissu þó allfáir hvad hann var; þó þóttist enginn verda var breytíngar af þeim, er þeir voru komnir, sem ei var von at, ok settist Harbóe at Hólum, ok vard brátt vinsæll fyrir gódleik sinn. Konúngsbrèf kom þá út um vitnaleidslur ok fallsmáls-sektir, ok annat til Orms Dadasonar sýslumanns um þat, at hann skyldi vera adstodarmadr Hans Bechers lögmanns í Brokey, þvíat hann þraut heilsu, sat Ormr í lögrèttu fyrir hann; eitt var enn gefit út um sakamál; eitt var brèf Arnórs Jónssonar frá Ljáskógum fyrir Borgarfjardarsýslu, hann var madr ólærdr, ok hafdi fyrst verit sveinn Páls Vídalíns, ok rekit eitt vor sýslu í Eyafirdi eptir Jón, son hans lidinn, en sídan lögrèttumadr, var hann skarpr ok hvatr at öllum gáfum, lítill madr vexti, hann fèkk Steinunnar, dóttur Jóns

prófasts í Hjardarholti þórarinssonar, þeirra börn voru Jónar tveir, Sveinbjörn, Steinunn, Sigrídr, Íngibjörg, Finnr var laungetinn. Brynjúlfr í Ljárskógum var bródir Arnórs, ok annar Ásgeir, þridji Hallgrímr; Gudmundr prestr í Vestrhópshólum var hálfbródir hans. Hans Víum, son Jens, fèkk nú Múlasýslu, en Sigurdr Högnason lèt af sýslu á Mýrum, ok tók vid henni þorgrímr, bródir Gudmundar sýslumanns at Íngjaldshóli ok Sigurdar prests í Flatey. þat sumar rak duggu hollenzka á Borgarsandi, ok lifdu mennirnir, brá Skúli sýslumadr skjótt vid, ok baud upp fèd allt, ok var kallat væri af yfirvarpi, því menn voru þá slíku óvanir; gjördi Skúli þann reikníng fyrir, er hönum sýndist, ok vitu menn ei hverr ordit hefir, en allt var þat kallat konúngsfè ok upptækt, er þeir menn höfdu medfarit, ok þeir ófrjálsir sjálfir; lèt Skúli Jón Eggèrtsson frá Ökrum sækja sök á hendr þeim um ófrjálsa kauphöndlun, ok var þar fátt til andsvara, sídan var þeim dæmd refsíng, en hann gaf hana upp um sídir, ok tók fèd. Er þess getit, at þeir voru í haldi med hönum á Ökrum, því hann bjó þar þá, ok lèt Skúli byggja bæinn mjög af þeim vidi, er hann fèkk af skipinu. Jón bródir hans bjargadi þeim, sem hann mátti, ok komust þeir flestir af landi. þann tíma gjördi Skúli rèttar-ályktun um hestagaungu med samþykki margra manna, þvíat lengi hefir þurft skipan á því at gjöra í Skagafirdi, er menn hafa fædt þar upp svo mikinn grúa hrossa, at lönd öll hafa bitizt frá ödrum peníngi, ok tekit þarmed ærin hagagaungu-hross, var ákvedit at mest skyldu meiga vera 12 hross úng ok gömul á hundrads leigulandi, ok lagt ríkt vid, ef ei var rekit, eda ofmikit sett í land; voru í samþykt þeirri Jón Vigfússon á Reynistad, Eggèrtssynir frá Ökrum Jón ok Eyríkr, Magnús Skaptason ok Marteinn prentari Arnoddsson ok adrir; en nú er bannad sýslumönnum at gjöra slíkar samþyktir, nema med hvers manns jákvædi, ok mun þat ei audfengit af þeim sem rángsýnastir erú, eda helzt vilja gánga á adra.

## CI Kap. Mál, mannalát ok annat.

Í þann tíma voru mál mikil med Jóhanni Gottrúp ok Bjarna Halldórssyni, bjó Bjarni at þíngeyrum, ok var ríklundadr ok fjáraflamadr mikill ok málafylgismadr, hann átti þá vid Skúla sýslumann Barna Elínar

mál þat var flutníngsdeila, ok virdist lítt fyrir Bjarna, en vid Jóhann átti hann Sæmníngsmálid ok kýrmálid; ok fór Jóhann laungum halloka. Var dæmt líflát á þíngi Gunnfridi úr Rángarþíngi Jónsdóttur um dulsmál, ok Ólufu Jónsdóttur um blódskammarmál. Hèlt Bjarni sig sælliga, ok var hinn mesti búhöldr ok audmadr; var Lafrenz amtmadr móti hönum í kýrmálinu ok fleiri; var hann dæmdr um sumarit hardt í yfirrètti, ok í fèsekt mikla, ok setti amtmadr hann frá sýslu, fór hann utan ok þeir Jóhann bádir. Hefir þat fyrri ordit, er vèr höfum heyrt af einum manni rèttordum, er svo var gamall, at hann mundi þessi tídindi, at Jóhann átti leid hjá Leirá, þar Oddr Sigurdarson bjó í þann tíma, ok var þá fèlítill, ok lítt klæddr, ok sendi Oddr hönum yfirklædi, en ekki kunnum vèr at segja önnur rök fyrir því, sumir segja 100 dali, sumir telja reidhest med. Oddr hafdi þá lengi búit at Leirá, ok verit málasóknalaus um hríd, en haft fè til hlítar, sakir arfa þeirra, er hann hafdi fengit, var hönum ok lènt æran af konúngi, en lítill var vegr hans eda virdíng, ok tók at eldast nokkut; var sveinn hans, er hèr var komit, sá madr er Bjarni hèt Eyríksson, ok vard sá atburdr, at Oddr fannst daudr í sæng sinni; segja menn hann muni hafa verit drukkinn, ok lagdist grunr á Bjarna þennan, at þrengt mundi hafa at hálsi hönum, en engin sá þat, var sá Bjarni hýddr seinna vestr í Haga. Hann var fyrri-madr þorbjargar, er sídan átti Jón Helgason frá Gullsmidsreykjum. Annar madr dó Árnfinnr Magnússon, er verit hafdi prestr til Ögrsþínga, hinn þridji Hallr prestr í Grímstúngum, er fyrri var prófastr, Ólafsson, Hallssonar, fadir Halldórs prests at Breidabólstad, hann hafdi verit skörugligr madr, ok prestr yfir 50 ár, ok svo var fadir hans ok födurfadir, bródir hans ok synir hans tveir, ok mun þat fátídt; fèkk Björn prófastr Magnússon á Bergstödum Grenjadarstad sídan, en þorsteinn prestr, son Pèturs á Húki Gudmundarsonar, þorsteinssonar, Gudmundarsonar, þess er bródir var Jóns prests þorsteinssonar í Vestmannaeyum, vard víseprófastr med Ormi. Magnús prestr á Söndum, son Mála-Snæbjarnar Pálssonar, gjördist prófastr í Ísafirdi, voru þeir allir prestar brædr Snæbjarnarsynir, Markús í Flatey, ok Hákon at Álptamýri. þá var grasleysu-ár mikit med hafísum, svo ei hafdi komit skúr frá krossmessu til Jónsmessu, ok brann af hardvellis túnum, en fyrir austan voru hardindi á sjó ok landi, svo at þar

sem ádr fódrudust 8 naut eda 9 í medallagi, voru eigi nema 3 eda 4. Hans Becher lögmadr fór utan um haustit med konu sína í Ólafsvík; ok þá brotnudu þrjár hollenzkar duggur fyrir Austfjördum, ok týndust menn af einni. Sunnifa gat barn í vardhaldinu hjá Hans Vium, ok fór ei sem skyldi, kenndi hûn sýslumanni, ok stód í því um hríd. Tveir menn týndust af skipi í Keflavík í vikunni fyrir jólaföstu. En
1742 vetr þareptír gjördi hardan vída ok helzt nordanlands, fèllu peníngar, fè ok hross, mest á Austfjördum ok í Eyafirdi; var svo mikit frost, at gánga mátti yfir Breidasund, ok milli eya allra á Breidafirdi; vard eigi róit á Hjallasandi fyrir lagnadarísum, ok hvergi sá út fyrir þá fyrir framan dýpstu mid. Mundu menn ekki frost jafnmikit í næstu 40 vetr, en batnadi med midgói, ok áradi vel þadan af. Gekk þann vetr bólnasótt, ok ei mjög mikil, hafdi hûn komit um haustit fyrir í Nordfjörd med Hollenzkum eystra. Aflabrögd voru þá í medallagi fyrir vestan land ok sunnan, ok dó einn prestr í Rángárþíngi Jón Gissurarson á Skûmstödum, annar fyrir vestan Halldór Bjarnason í Garpsdal, ok svo þórdr þorkelsson Vídalín, er fyrri var rektor, bródir meistara Jóns biskups, hann var áttrædr at aldri, ok hafdi verit hinn skarpvitrasti madr, ok læknir gódr; ok enn Einar prestr í Gardi Skúlason prests, Magnússonar, födurfadir Skúla sýslumanns, hann var á 10da tugi. þann vetr sáu menn halastjörnu, ok ætludu þá enn flestir at nokkut mundi boda.

## CII Kap. Kaupaskipti, frá Harbóe ok Hólamönnum.

Konúngsbrèf komu út um sumarit; fengu þá hörkramarar í Kaupmannahöfn at halda höndlunar fèlag hèr á landi, fyrir 16 þúsundir ok 100 krónur í afgjald á ári; þat fèlag hafdi goldit 8 þúsundir dala, er var hin næstu 10 ár fyrir. Eitt brèf var um þat at veita eigi prestaköll fyrri enn 6 vikum eptir andlát hins fyrra presteins; eitt at sýslumenn gefi útskriftir af dómum sínum; eitt var um Lodvík Harbóe, er hèr var í biskups stad, at hann hefdi frjálsan flutníng fyrir sig. Harbóe var ljúfr vid menn ok vinsæll. Bólan fór þá yfir, ok deydi varla 30ti eda 40ti hverr er hana fèkk. Harbóe vildi bæta skólahald þat er var; en biskupum þartil hafdi ýmist þótt hagr eda vanhagr at halda bú

fyrir skólann; hafdi verit hagad ýmisliga um sundrdeilíngar á stólsgjöldum milli biskupa ok rádsmanna stólsins, en stundum höfdu biskupar rádamenskuna sjálfir, ok vard af misklíd ok óhagnadr fyrir lærdóminn. Allir kærdu þraung sína ok inntektarleysi, enda voru all-illir kostir skólalærenda; urdu skólarnir eigi haldnir vetrinn á enda, ok þó stundum eigi vel medan var. Harbóe hafdi ok vérit bodit at yfirheyra Sigurd Vigfússon skólameistara, ok er þat var gjört þótti hann sljór í lærdómi, en ei var hönum vikit frá fyrir þá sök, því Harbóe hèlt í hönd med hönum, sem hann var gjarn til vid flesta menn, fann at hann var einfaldr ok hrekklaus, en þá bar svo til, at hönum var kennt barn, sem Einar Sæmundarson, Hrólfssonar, bródir Eggèrts prests kvad:

Meistari skóla fór í flá,
faldasól hann blekkti;
valt er at stóla aflid á,
ormaból ok slekti.

Sú vísa var affærd, ok urdu af kvedlíngar, en ekki setti Harbóe Sigurd af at heldr berliga, gaf hann sig frá sjálfr, ok var skipadr skólameistari Gunnar, son Páls prests at Upsum, hann var hinn lærdasti madr, ok skipti þá mjög um kensluna, en Harbóe þótti mæti á Sigurdi sakir afls hans, ok studdi at því, at hann fèkk seinna sýslu fyrir vestan. Þat var eitt borit fyrir hann, at Þorvardr prestr Bárdarson, er verit hafdi at Kvíabekk, ok nú var at Felli, ok hafdi skipt vid Jón prest Sigurdarson, ok var kalladr madr heldr svakafenginn, ok óeyrinn vid öl, mundi ok fara med forneskju; höfdu menn sèd hjá hönum rúnablöd, ok margt var talat um vidskipti þeirra Grímólfs prests Illhugasonar, ok enn fleira um Þorvard, átti þá at setja hann frá presteskap, en sídan fundust þeir Harbóe heima at Þorvardar, ok líkadi hönum allvel vid prest, kvad þá ei alla mundu betri menn, er betri væri kalladir; ok er hann prófadi fleiri presta, þótti hönum Halldór prestr á Knappstödum svo fáfródr, at hann vildi hafa hann afsettan, en sóknarmenn bádu fyrir hann, því hann var vinsæll, ok hèlt hann svo embætti. Sá Halldór prestr var son Páls smids Jónssonar á Melum í Svarfadardal, Jónssonar, Oddssonar sterka, Bjarnasonar, Sturlusonar, hans dóttir var Gudrídr, er sídan vard mikilsháttar. Opt reyndist þat at Harbóe var ómeinsamr, er þess getit at hann lèt leggja Árna presti Davídssyni

á Höfdaströnd, er fáfródr var kalladr, þá raun fyrir, at leysa úr Pontoppídans spurníngum, ok er hann fèkk þat gjört, hèlt hann prestkapnum.

## CIII Kap. Tilburdir adrir.

Skúli syslumadr Magnússon vard í þann tíma at vera vestra, at halda þíng í málum Bjarna Halldórssonar, ok var Grímr Grímsson at Giljá settr í Skagafjörd á medan. Þat sumar kom út Sveinn, son Sölva Tómássonar, er hèlt Múnkaþverár-klaustr, ok skydi vera víselögmadr Hans Bechers nordan ok vestan land. Bjarni Halldórsson kom ok út, hann reid til alþíngs, ok stefndi þar Lafrenz amtmanni med þremr stefnum fyrir Hæsta-rètt, en Ormr Dadason var enn í lögmannssæti fyrir Hans Becher. Skúli mótfèll Bjarna í kýrmálinu, ok laungum voru þeir öndverdir, vafdi Bjarni mál öll, er hann átti þá í. Á því alþíngi var Nikulás syslumadr Magnússon, hann sendi bod til Magnúsar lögmanns Gíslasonar, med skjölum ok peníngum, ok bad hann sjá um Þorleif son sinn, kvad líf sitt mundi verda á enda um 3 daga, ætla menn hann hafi óttazt mál vid landskrifarann, er reid á ærú, ok fannst hann þremr dögum seinna at morgni dags í vazgjá nærri Þíngvelli ok örendr, ok var slæddr þar upp. Jón Þórdarson frá Stadarstad var þá landþíngskrifari, ok hafdi verit um 4 ár, ok setti amtmadr hann fyrir sysluna. Þá lèt Markús Bergsson af Ísafjardarsyslu; hans börn voru Björn, er lögmadr vard seinna, Bjarni prestr at Álptamýri, Eggèrt, Hjalti prestr Kapellán at Holti, Sigurdr, Bergr, Íngibjörg, er Magnús prófastr átti Teitsson, ok Elín; var þar settr fyrir syslu Ólafr Jónsson á Eyri vid Seydisfjörd, er fyrr hafdi verit skipadr á Bardaströnd, hann var fadir Jóns víselögmanns; en á hinum sömu misserum fèkk Ísafjardarsyslu Erlendr, son Ólafs prests at Stad í Grunnavík, Jónssonar prests, Torfasonar frá Gerduhömrum, hann var bródir Jóns fornfrædamanns, ok hèlt þá syslu nokkra hríd sídan. Eptir þetta vard hinn
1743 næsti vetr hardr mjög fyrir sunnan land, ok vard vída peníngafellir, en betri fyrir nordan ok austan; urdu á hönum margir tilburdir, ok skal nú sagt frá þeim, er fyratir urdu, ok mark var at, ok eigi fleiri at sinni.

## CIV Kap. Frá meistara Jóni biskupi Árnasyni ok fráfalli hans.

Þess er ádr getit um Jón biskup Árnason, at hann þótti óhlífinn vid presta ok adra menn, er kunnir urdu at ósidum. Hafdi þat ordit um Ólaf prest Jónsson í Middal, er fyrri getr, at átti vid Reykjadals þórd, at hann var madr reidinn, ok nær óviti, er þat kom at hönum, ok átti hann deilu vid bónda einn nábúa sinn um slægjur, er þeir þóttust eiga bádir, en prestr hafdi lengi haldit; vard bóndi einhverju sinni fyrri til at slá enn prestr, en hafdi eigi hirdt heyit, er prestr fèkk þat at vita; fór þá prestr med sína menn at sækja heyit, en er bóndi vissi þat, fór hann at hönum med sínu lidi, ok hafdi öxi mikla í hendi, hann hèt Ásmundr ok bjó í Laugardalshólum, hljóp hann at presti, ok felldi hann til jardar, en prestr hlífdist þá hverki vid ord nè verk, ok fèkk bóndi skeinu á kinnina í vidskiptum þeirra, sagdi hann prestr hefdi stúngit sig med knífi, en prestr sagdi exi hans valda, er þeir hefdi togazt um hana; samdist þetta med þeim; en biskup vildi tala presti til, ok er Ásmundr vissi þat, rauf hann samnínginn, ok stefndi presti; vard lítit atgjört á fyrsta þíngi, en opt var þetta upphafit á ný í hèradi hvad eptir annat, því þá bar margt í milli, ok dæmdist embætti af presti; en er mál kom fyrir Synódum, bar talsmadr prests þat fram, at lögmönnum sýndust vitnin ógyld; dæmdi þá amtmadr ok prestar flestir, at þar sem Ólafr prestr ok bóndi voru sáttir ádr, ok dæmt málit, væri vitni sídan leidd ólögliga í móti presti, ok væri hann saklaus ok sök daud; en biskup dæmdi embætti af hönum, því hönum þótti þat makligast. Skaut Ólafr sèr þá undir konúngsdóm, ok var Jón biskup andadr ádr þat yrdi útgjört. Jón biskup átti ok mál vid Eyvind duggusmid klausrhaldara á Kyrkjubæ, hann átti deilu vid Einar prest Hálfdanarson, er var mágr biskups, vildi Eyvindr ekki lesa frædi fyrir presti, því hann var gamall, en prestr tók sèr þat til vanvirdu, ok þó hitt meir, at hann gèkk til altaris hjá ödrum prestum; dæmdi biskup Eyvindi skriptir, ok at gjalda 80 dali, en Hæsti-rèttr dæmdi hönum sídan at gjalda at eins 9 ríkisdali til næsta hospítals, en vera skriptalaus, ok gánga til altaris þar sem hann vildi sjálfr. Jón biskup tók ok embætti af Árna presti Jónssyni í Hvítadal, sem fyrr segir, ok Jóni þórdarsyni á Söndum, þótti ok mörgum hinn þridji, Arnfinnr Magnús-

son í Ögrsþíngum hafa sakir, ok þó minni enn þeir, ok svo Sigurdr á Krossi, en um Gissur, er fyrrum var Hellnaprestr, var tvímælt. Jafnan átti Jón biskup stríd vid amtmenn um þat, at hönum þótti þeir bera sig rádum í andligum efnum, ok ýmsa hluti vann hann af konúnginum klerkdóminum til hagnadar, sumt svo at amtmönnum var ljúft, en sumt naudugt. Jón biskup hafdi alla stund, eda lengst um haft heilsu góda, en veikladist nokkut minni ok fjör þá fyrir fáum árum, er hèr var komit. Hafdi hann verit hinn stundunarsamasti madr til ydnar, las jafnan eda ritadi þegar hann sýsladi ekki í embætti sínu; hann var kalladr adsjáll af mörgum ok fègjarn, en þat bar til þess, at hann var strídr ok krafdi grant, enda galt hann ok skilvísliga þat er gjalda skyldi; hann var audugr at fè, ok gaf meir enn tveggja þúsunda dala virdi prestum til uppheldis í jördum, þat voru Garpsdalr, Strönd í Selvogi ok Berufjördr med hjáleigum þeirra; Arnarbæli í Grímsnesi, Geitagil, Veigastadir ok Hafsós; lèt hann vel sjá um at þat allt yrdi haldit eptir sinn dag; mælt er ok, at hann gæfi stúdentum íslenzkum til siglíngakostnadar eda utanfara, þat sem nam 600 dölum. Hann tók sótt harda á þessum vetri þridja dag februarií mánadar, ok lá til þess um myrgininn hins 8da, þá andadist hann, skorti hann tvo vetr á áttrædan, en var biskup 1 vetr ok 20, ok í embættum 50 vetr, hafdi hann vígt þrjá presta ins 10da tugar; en skipat prófasta 16, ok skólameistara þrjá, var hann grafinn í midri dómkyrkjunni hinn 18da dag februarií mánadar. Þat sem kom út prentat af ritgjördum hans voru rímin bædi, ok spurníngar hans, æfi Einars biskups Þorsteinssonar, Núcleus latínítatis med útleggíngu íslenzkri, Dónátr, Grammatika, ok ordabók á latínu ok íslenzku; en þat sem hann lèt prenta eptir adra var kristindómr Arndts, Rostochs postilla, Sálmabók, Upprisusálmar Steins biskups, Lasseníí bænir. Þat sem hann hafdi tekit saman sjálfr, ok ei var prentat, var ordabók íslenzk ok latínsk, dispútazíur hans, at því sem kallat er, vid Jón biskup Vídalín um úttal orda, ok adrar vid Pál Vídalín um tíundir, ordin *þíng*, *eykt* ok önnur, ok þótti hann í þeim sumum ekki jafn skarpvitr þeim, ok heldr fastheldinn vid fornar meiníngar, ein var vid Árna Magnússon um Kristinrètt, ein um þá stund, er drottinn leid pínu, ein um fullgjörvan hjúskap, ein um útreikníng á stakksvelli, ok enn fleiri. Bú hans var virdt fast ok laust, auk

þess er hann gaf; fyrir 6 þúsundir dala, ok var þat hálft í silfrpeníngum. Þótti þeim öllum at hönum mestr skadi, er nádu mannkostum hans, þótt eigi hefdi hann ást af hverjum manni, ok at hans dæmum gjördu þat adrir fleiri sídan, at þeir gáfu nokkud til andligra hluta, sem heldr hafdi tekit fyrir, sídan er þat var vid of í páfadóminum; Ormr Dadason gaf Saudlauksdals-kyrkju minni ok ytri Gard, ok hálfan innri ok stærri Gard med 4um kúgildum, lagdi ok kot Garpsdals presti, ok annat Skardstrandar presti. Ólafr Ólafsson gaf Ánanaust ok Hlídarhús til Helgafells, en laungu seinna Bogi í Hrappsey ok Elín Benedikts börn, er kyrkju lètu reisa í Dagverdarnesi, presti 5 hundrud í jördinni til uppheldis ok Nýp med þremr kúgildum.

## CV Kap. Aldarháttr.

Mjög var þá ordit margt á annan hátt í landi hèr, en tídast var í 17 öld; hjátrú mjög þverrud, afteknar brennur, ok linat í meinamálum öllum ok ödrum daudasökum; en annarsvegar hafdi vid lagabreitíngu hafizt ágreiníngr mikill med yfirmönnum ok þrætugirni ok kapp, ok fóru sumir med mjög óforsjáliga. Lagamenn voru fleiri betri enn fyrri, helzt fjölhæfari ok margvísari, ok tóku dómendr at gjörast lærdir, ok at gánga undir examen eda yfirheyrslu-próf, komit ok dómsvald frá bændum til sýslumanna, höfdu þeir af því med óskerdri inntekt ok meiri læríngu enn ádr, ok meiri óhultleik um embætti sitt, sídan konúngr veitti þat sjálfr, heldr meira enn minna ríki í hèrödum enn fyrri, en náliga óvandstadit í öllu, ok lítit at starfa hjá því sem seinna vard, sýndu þeir sig þá sem þeir voru, sumir gagnsama í hèrudunum, en sumir helzt til freka ok rádríka, svo þat er undarligt hve stórir sumir yfirmenn í þann tíd voru í broti, ok stærdu sig af eigi meira ríki enn þeir höfdu; var þat helzt efni til þess, at trúrækni sú er margir höfdu stundat ádr í einfeldni, var mjög þverrud, en reynsla lítil komin á hinu nýa atferli, þóttust sumir vísari enn fyrri, en voru þat eigi til hlítar, ok óvanir öllum hófligum forrádum eda vel sömdum, ok þraungdu svo stjórninni til, med ofrkappi sínu ok deilum, at bæta úr óskipan, ok taka nær af alla lenzku, er hèr var ádr, ok eigi örvænt at sum væri þörf, er ella hefdi aldrei ordit. Þó var þat lengi at hlífzt

var vid, at breyta íslenzkum lögum, þeim er standast máttu. Alþýdu var háttat líkt sem fyrri, ok hafdi múgi manna vidbjód á breytíngum öllum, ok sumir voru heldr fastir vid hindrvitni, en flestir vid fornar venjur, ok tóku sèr lítt fram í mannblendni eda vidburdum; en stýrilátari var flest alþýda í sveitunum af ríki því er yfirmenn þeirra höfdu, ok munadarminni, en sídan, er meiri þekkíng jókst, ok vanafesti gjördi þat gott, at þó nokkrir ribbaldar væri ásamt, er treystu fèstyrk sínum eda frændafla eda karlmensku, þá tók alþýda sjaldan læti þeirra eptir þeim. Eigi hafdi lærdómr aukizt med klerkdóminum svo at talit verdi sídan í seinni hlut 17du aldar, ok eigi vaxit mjög velmegun í landi, þó árin væri opt góđ sídan bóluna miklu, ok vöru-verdlag kaupmanna, er Fridrikr konúngr fjórdi setti, til mikils góds, væri lèttbært; hafdi eigi meir enn unnizt upp halli sá er ordinn var í hardindum hinum miklu, er verit höfdu fyrir hana, ok mannfólkit eigi enn fjölgat til jafnadar vid þat er þá var, en þó vard þat sídan, ok var þá skammt at bída annars áfellis.

# REGISTR

yfir

öll manna-nöfn, sem finnast í Árbókum Íslands,

ásamt ödru

yfir hina markverdustu tilburdi og hluti
í sömu bókum.

---

Samid af

*Jóni Espólín*,
Sýslumanni í Skagafjardar-sýslu.

---

KAUPMANNAHÖFN.
Prentad á kostnad hins Íslendska Bókmentafélags
hjá Bókþrykkjara *S. L. Möller*.

1833.

# Formáli.

Registrid, sem hèr fylgir, all-lángt og torfeldt í sjálfu sèr at gjöra, hefir ég þó lengt, svo at sumum máskè þyki vid of, med því at fedra födur hvörrar þarî fyrirkomandi persónu, edr þó flesta; gèkk mèr þar tvennt til: þat annat, at ómak jókst þar hvörgi nærri svo mikit vid, sem greiniligleiki, þar ella mátti þykja sem of mörg samnefni hefdi komit fyrir í svo lángri þulu; en hitt, at mèr þótti þat því fljótara til at upplýsa historíuna, ok þat þess heldr, sem í sumum stödum Arbókanna kann finnast mistekid til um samhengi í ættum, sem at sönnu vídast mun lagad í prentvillunum, en verdr þó ei sídr fljótast at finna, ef borit er saman vid registrid, og þær athugasemdir, sem hèr og þar eru settar nedan undir þat; at auk þessa gjörir tèd lenging þeim, sem vilja, audveldt at finna fljótliga lángfedga ættir sínar og annara, vída hvar, at svo miklu leiti sem audit er. I handritinu, sem eg vildi koma nú frá mèr, fèkk eg ekki tíma til at rada nöfnunum sumstadar svo vel sem eg vildi, því þat torfeldadist mikit vid ádrgreinda lengíngu, þó sèr sá, sem gègnumles, vid hvör tillagsnöfn eg hefi viljad skorda rödina, þar sem vandi verdr á slíku; vænti eg at vída megi standa heilir kaflar í nidrskipun, eptir tèdu handriti, en tek til þakka, ef sumum köflum er betr skipad, þar sem þurfa þykir. Möguligt er at misrit finnist í tölunum, en þar mun ei hægt vid at gjöra, nema med staklegri yfirlegu, edr margir til flýtis hjálpudust at samanburdinum, sem eg ei kann áskilja, og rídr þessmeira á at eigi raskist frá þessu. Hefi eg nú þannin framlagt þat, sem væntanligt er at gèti látit útkoma, því at í lengra framhaldi er víst at verdi meiri og meiri sagnaskortr og misbrestir, sakir áhaldaleysis og tíma-styttis sjálfs míns.

Frostastödum þann 27da Januarii 1831.

Jón Espólín.

# *Fortale.*

*Dette Register, som allerede i og for sig selv betragtet er baade temmelig vidtlöftigt og vanskeligt, er dog blevet maaskee altfor vidtlöftigt derved, at jeg har bestræbt mig for at anföre enhver deri forekommende Persons, eller dog de flestes, ikke alene Fader, men ogsaa Bedstefader. Herved havde jeg især to Ting för Öie. Först dette: at skjöndt dette vel har foraarsaget mig nogen Uleilighed, saa kan den dog ikke komme i Betragtning imod den Tydelighed, som herved opnaaes, hvor saa mange Personer forekomme under samme Benævnelse. Dernæst troede jeg, at dette vilde kaste et Lys paa Historien og paa Slægternes Forhold og Forbindelse med hverandre, saameget mere, som Feiltagelser i saa Henseende muligen kunde være indlöbne paa enkelte Steder i Aarbögerne, skjöndt disse for det meste ere berigtigede i Trykfeilene, saa ville dog disse lettere opdages, naar Texten sammenholdes med Registret og de Bemærkninger som hist og her underneden samme ere tilföiede. Hertil kommer at ved denne Forlængelse af Registret kunde de, der önske det, desto lettere komme til Kundskab om deres egne eller andres Forfædre, forsaavidt samme ellers lader sig gjöre. Tiden tillod mig ikke at ordne Navnene i mit Manuskript saa nöiagtigen, som jeg önskede det, thi det blev meget vanskeligt ved den för bemeldte Forlængelse, men alligevel vil enhver opmærksom Læser mærke ved hvilke Tillægs-Navne jeg har villet fastsætte Ordenen; jeg troer at mange Rækker i mit Manuskript kunde staae uforandrede, men seer gjerne, hvis nogle, hvor det synes nödvendigt, blive nöiagtigere ordnede og omflyttede. Det er muligt og tildeels uundgaaeligt, at enkelte Tal ere feilagtigen anförte, men det er ikke saa let at rette dem uden ved en magelös Flid, med mindre mange ville hjelpe til at sammenholde dem, som jeg ikke kan forlange, og derfor er det af stor Vigtighed at sörge for at ikke flere Feil skulle indlöbe. Saaledes har jeg da fremlagt for Publikum det af disse Aarböger, som ventendes er at jeg kunde lade komme for Lyset; thi ved at fortsætte disse længere ned i Tiden, er det udenfor al Tvivl at Arbeidet vilde blive mindre fuldstændigt, baade formedelst Mangel paa Hjelpemidler og formedelst mit Livs Korthed.*

*Kjöbenhavn i Marts* 1833.

*Oversat af*

Th. Gudmundsen.

# REGISTR

## yfir mannanöfn í Árbókunum.

---

*Rómverska talan merkir deildir, cifrutalan bladsídur í deild.*

---

## A.



A

[1]) At Asmundr fadir Odds í Skördum hafi verið son Gudlaugar Finnbogad. telst víst, en at hann hafi verið son Sturlu, og bródir Orms lögmanns, sem sagt er, þat er ei líkara, nema midr sè, enn at Oddr lögmadr Asmundars. hafi verid fadir hans, og Gudlaug hans kona kann vera dóttir Finnboga hins gamla, og slengt saman.

## B.

## D.



## E.

## G.

---

[1]) I ættartölu bar fyrir nýliga, at Björn hefdi heitit fadir hans, son Svarthöfda Dugfússonar.

[1]) I stadinn fyrir þenna Gudmund, födur Ara á Reykhólum, hafa fáfródir menn sett Kár álf, en þeir sem hygnari vóru, Már Atlas. á Reykhólum, sem þó engannveginn kemst heim; þeir heztu setja Gudmund, og segja hann son Ara Márss., en þar Ari Márss. lifdi fyrir 1000, og þessi Gudmundr í 14du öld, er hleypt út allri Sturlúngatíd og ödru millibili, sem þarf í ad fylla ei færri enn 11 lidi, edr þvínær; af hvörri tíd sagnamenn í 16du öld var einsog ekkert vissi — samt hygg eg þennann Gudmund kominn frá Reykhólamönnum fornu, og þad hafi gefid efni til sagnarinnar, og sè þannig:

Ari Márss. lifdi á 10du öld, hans son
Þorgils Aras. á Reykhólum, lifdi fyrst á hinni 11tu, sem sögur votta, hans son
Ari Þorgilss. á Reykhólum, hans son
Einar Aras. a Reykhólum; beggja getr öndverdliga í Sturlúnga sögu; börn Einars
Ingimundr prestr á Reykhólum, lifdi snemma á 12tu öld, og
Hallbera Einarsd. kona Þorgeirs Hallssonar at Hvassafelli; þeirra barn, Ari Þorgeirss. fadir Gudmundar biskups, heitinn eptir lángafa sinum, og
Ingibjörg Þorgeirsd. sem Sturla Þórdars. í Hvammi átti; þeirra barn
Steinun Sturlud. gipt Jóni Brandss. á Vestfjördum, sem einhvörntíma bjó á Reykhólum, og voru þeirra synir kalladir Jónssynir í Sturlúngu, einn var
Ingimundr Jónss., hans son
Ari Ingimundars. getr opt seint í Sturlúngu, og hefir lifad meiri hluta seinni parts 13du aldar; hann mun víst heitinn eptir Ara Þorgeirss. og mun því hafa látid sinn son heita eptir Gudmundi biskupi, sá
Gudmundr Aras., ef til er, sem ei er ólíkligt, ætti ad hafa lifad til öndverdliga í 14du öld, og vera födurfadir þessa Gudmundar.

